# Íslands Árbækur

## í sögu-formi.

Af

**Jóni Espólin,**

fyrrum Sýslumanni í Skagafjardar Sýslu.

## X. Deild.

**Kaupmannahöfn, 1843.**

Prentud á kostnad ens *íslenzka Bókmentafélags*
hjá Bokþrykkjara *S. L. Möller.*

## I Kap. Ýmisligt er vidbar þá þessi frásögn hefst.

Á þeim vetri er meistari Jón Árnason Skálholts biskup, andadist 1743.
týndust fjögr skip á Nesjum sydra, ok á 17 menn, hinn fyrsta dag Martií; þann dag hinn sama rak 18 hundrud af brimrotudum fiski á Eyrarbakka. Þá kom út um sumarit konúngsbrèf um yfirheyrslu skólagenginna manna, ok Latínu skólana, en annad um þat, at embættismenn skyldu gefa til kynna þat, sem þeir vissu um stiptanir, gjafir ok þar at hnígandi skjöl fyrir kyrkjur, hospitöl, klaustur ok skóla; hid þridja var útgefit, en kom ei þá út, um innköllun bóta ok svo embættabrèf þeirra manna, er enn mun sagt verda. Þat hafdi ordit tídt um Þórd prest hinn vestfirzka á Grenjadarstad, at hann hafdi fundizt daudr, trodinn upp undir rúm sitt sem þrengst mátti verda, svo med ólíkindum, þó hann væri lítill vexti, ok var þat eignat fjölkýngi, ok hafdir þeir menn fyrir, er í ómun þóttu vid hann, en ei fór þat upp; hafdi þá fengit stadinn fyrir einum vetri Björn prófastr Magnússon frá Bergstödum, Bjarnarsonar, Pálssonar, Gudbrandssonar biskups. Bar þat nú ok til, at druknadi í lendíngu undir Eyafjöllum Jón Þórdarson landþíngsskrifari, er settr hafdi verit fyrir Rángárvallasýslu ok skipverjar hans med hönum, þeir höfdu komit úr Vestmannaeyum; fèkk þá sýsluna med konúngsbrèfi Þorsteinn Magnússon, bródir Bjarnar prófasts, ok vard sídan med hinum fremstu sýslumönnum; hafdi hann fyrstr Íslendínga attestazíu í lögfrædi. Stephán, son Þorleifs prófasts Skaptasonar, vígdist kapellán

til Presthóla; þá hèlt Jón prestr, son Teits prests Pálssonar á Eyri, Otrardal fyrir þremr vetrum, ok tók hann nú prófastsdæmi á Bardaströnd; enginn gjördist biskup, ok olli þat því, at Harboe hafdi biskupssýslu ok umsjá yfir allt land: en hann kaus Stephán prest Einarsson í Laufási til Hóla; Stephán prestr afsakadi sig, kvadst ei heilsu til hafa; en Finnr prófastr Jónsson var officíalis í Skálholts umdæmi. Ormr Dadason sýslumadr var á alþíngi, ok gjördi verk Bechers lögmanns um sumarit; kom Sveinn Sölvason Vícelögmadr til þíngs, ok vildi Ormr eigi víkja sæti. Jóhann Gottrúp sókti adfararmál á Bjarna Halldórsson sýslumann, ok sjálfdæmismál med þeim er kallad var; dæmdi Grímr Grímsson á Gilja í hèradi, ok stórsektir á Bjarna í þeim málum ok ödrum; kom kýrmál Bjarna fyrir á þíngi; átti ok Skúli mál vid hann, en er Bjarni kom, vafdi hann allt; Ormi þótti hann færa í tregdur, en Bjarni vildi ei hann dæmdi mál sín; þó med því, at amtmadr leyfdi hönum lögmanns sæti, dæmdi hann mál öll. Jóhann kærdi fast á Bjarna, ok vard hann fyrir sektum nokkrum ok svo Jóhann, en Jóhanni vird framgirni sum til vorkunar; stadfestist ok dómr Skúla um kýr-adtektina, en ónyttist dómr Gríms í móti Bjarna; settist þá Sveinn í lögmanns sæti medan Bjarni sóktist vid Orm um annad mál. Var Bjarna enn vikit frá embætti ok fór hann utan, en Grímr var fyrir Húnavatns sýslu. Sunnivu-mál kom ok fyrir á þíngi: hún hafdi alit barn ok kennt Jóni bródur sínum í hèradi í Múlaþíngi, en nú neitti hann því, ok kvadst Sunniva hafa lýst hann af hrædslu vid Hans Wíum sýslumann, ok lýsti sýslumann nú; en fyrr hafdi hún getit barn vid Jóni ok verit í haldi hjá Wíum, ok voru þau systkin nú dæmd til dauda, en skotit þó til konúngs nádar, því þau voru úng, ok skyldu enn vera í haldi med Wíum. Fátídt var eptir þíngit, nema Bjarni fèkk sekt dæmda á hönd Jóhanni Gottrúp í hèradi um illyrdi,
1744. ádr hann fór utan. Gjördi sídan vetr gódan, nokkud íhlaupasaman er áleid; var ok afli sæmiligr sydra ok vestra, ok sást halastjarna.

## II Kap. Upphaf Jóns Eyríkssonar.

Jón Eyríksson hèt úngr madr frá Skálafelli í Hornafirdi; hann hafdi verit at Hólmi med foreldrum sínum sídan; var Steinun módir hans

haldin vel ad sèr, ok dó hún þar, en Eyríkr hafdi farit ad Einholti til Sveins prests Halldórssonar, ok lifdi eigi lengi sídan. Jón hafdi verid nokkra stund med Vigfúsi presti Jónssyni, módurbródur sínum; hann fór til Stödvar til Högna prests, sonar Gudmundar prests Högnasonar at Hofi, ok adstodadi hann, ok mentadist Jón med hönum, er hann hafdi fengit Stödvar prestakall, en var á sumrum med foreldrum sínum. Er því hèr sagt mikit af æfi hans, at hann vard mjök merkiligr madr seinna; hann fèkk eigi inngaungu til ölmusu í Skálholti á dögum Jóns biskups Árnasonar, því biskup vildi láta gefa med skólasveinum fyrsta ár ok prófa þá, svo ei veittist ölmusa óverdugum, ok var þat af einrædi hans; en frændr Jóns hugdu hann verda mundu framamann; var biskupi sent brèf, en bedit eigi svarsins, ok Jón sendr í skólann seint á hausti, er hann var 14 vetra, ok ætlat ei mundi rækr gjörr svo seint á ári, en afsagnarbrèf biskups mætti hönum á leid, kvad ölmusur brottgefnar. Hafdi Jón þann vetr verit heima, en Jón prestr Þórdarson fèkk þá Einholt, ok vard lengstum í foreldrahúsum Jóns, ok studdi lærlngu hans. Var þá hèr komit nær at Jón biskup var andadr, ok Jón tekinn í skólann; en þar var þá illr atbúnadr. Gjördi konúngr skólaskipun er Harboe kom út, ok bætti mikit um kost ok atbúd skólasveina; vard Jón á vegi fyrir Harboe, ok fannst hönum til hans, ok komst eptir háttum hans.

## III Kap. Amtmanna skipti, ok frá málum.

Þann vetr í Janúarío andadist Joachim Henrich Lafrents, amtmadr ok Jústizrád; hann hafdi lengi verit gamall ok lasinn, ok aldrei hafdi þeim Jóni biskupi Árnasyni komit saman, helzt um köllun presta eda veitíngar brauda, er biskupi þótti oflítt til sinna umráda koma. Þá öndudust ok prestar nokkrir sídan: Benedikt Jónsson í Bjarnanesi, Benedikt Jakobsson í Fljótshlíd, son Jakobs Benediktssonar danska, er fyrr var á Stapa; hann fèll af baki er hann var á ferd og drógst í stígreipi, ok lèt líf sitt med harmkvælum; hann var fadir Jónasar prófasts á Höskuldsstödum; Árni prófastr Þorleifsson í Arnarbæli; hann fèll ok af baki, ok fannst daudr í keldu-farvegi; Helgi prestr Jónsson á Stad í Grindavík; Ísleifr prestr Pálsson í Nes-hrepp; hann var kalladr

madr andríkr; Skúli Mödruvalla prestr at Reistará, Illhugason, Jónssonar, Illhugasonar Hóla rádsmanns; hann var fadir Tómasar prests, er sídast var á Grenjadarstad. Konúngsbrèf kom út med skipum, um helgun hvíldardags ok katechisazión; annat, er aftók Jólanætr hald til tídagjörda, ok svo misseraskipta-helgar; þat þótti mönnum óþarfligt nýnæmi, ok fluttu margir prestar lengi eptir þat embætti á Jólanótt. Eitt var um konfirmazión barna; eitt brèf gjördi skírdag ok föstudaginn lánga at helgum dögum, ok samþyktist þarí ödru, er út var komit 14 árum ádr; leyfdi þó á þeim ok fleirum helgum dögum at róa til fiskjar í hallærum. Sveini Sölvasyni var þá bodit at standa fyrir lögmannsembætti Bechers, ok fèkk þorsteinn Pètrsson Víceprófastr Stadarbakka. Lasseníí Biblíu-kjarni kom út á prent þau misseri; hafdi hann lagt út Jón þorkelsson Rektor. Lodvík Harboe fór þá til Skálholts biskupsdæmis ok visiteradi Austfirdíngafjórdúng; var hönum bodit at nefna 2 biskupsefni til Hóla. þau misseri var Hannes prestr at Stadarbakka, son þorláks Gudbrandssonar, dæmdr frá prestskap fyrir ýmsa varmennsku, ok sókti málit Magnús Vídalín, son Páls lögmanns; skyldi Hannes gjalda 60 dali í málskostnad; komst hann þadan af í vesöld, ok tók Ormr prófastr Bjarnason hann til veru, en Hannes þakkadi ekki vel góda vist; bændr voru synir Hannesar. Sigurdr Sigurdarson hafdi verit kosinn landþíngsskrifari ok farit utan ok fengit þat embætti sem fyrr segir, ok þjónadi því fyrst á þessu sumri. Bjarni sýslumadr Halldórsson kom út um vorit; en er hann kom heim, kom madr til þíngeyra ok sagdi lát Orms Dadasonar; þat hafdi þá atborizt, hafdi Bjarna þótt hann sèr erfidr; hann mælti: þar fór gódr lagamadr, karl minn! þat var ordtak hans, en sá madr gisti um nótt; ok at morgni, er hann kvaddi Bjarna, gaf hann hönum krónu, ok þótti eigi venja hans vid hvern mann. Bjarni fór til grafar Lafrents amtmanns, ok stefndi hönum daudum; hann stefndi til þíngs málum sínum, ok fyrst atfararmálinu, er Ormr Dadason hafdi dæmt fyri tveimr árum; var stefnt Grími um fèsektir, er hann hafdi gjörvar Bjarna á Sveinsstadaþíngi. Jóhann Gottrúp bad um talsmann, en Bjarni heimti þá Grím sektáda fyrir atferli, ok svo Jóhann um fjölmælis sakargiptir, ok hvorir sóktu adra; ónýtti Sveinn lögmadr dóm Gríms, ok rengdi málssókn Jóhanns í atfararmálinu, er hann hefdi ei framfylgt dómi, um nýa vird-

íngu á útlagi. Bjarni hafdi ok stefnt Grími í sjálfdæmismáli, er kallat var, um sakfelli á sik, 120 dali krónuverds fyrir gjördina, ok 50 í málskostnad; hafdi Bjarni skilit hèradsútlegd á Jóhann, ok var þat ónýtt gjört, ok fèsekt fyrir, en at ödru var gjördin álitin sem samníngr Jóhanns vid Bjarna, ok skyldi haldast, en ónýttr dómr Gríms, ok hönum dæmd fèsekt. Þá kærdi Bjarni dóm Gríms í sáttarofsmáli vid Jóhann, ok ónýttist hann einnin, med sömum afleidíngum, en svívirdíngar-ordum Jóhanns vid Bjarna var vísat til prófs í hèradi. Enn hafdi Bjarni mál þat fram í móti Jóhanni, er reikníngsmál var kallat, ok Grímr hafdi dæmt á Bjarna, ok ónýttist enn dómr Gríms, en málit skyldi opit. Jóhann hafdi mál fyrir vid Gudmund sýslumann Sigurdarson á Íngjaldshóli; hann hafdi vísat Jóhanni frá rètti, er hann vildi tala máli fyrir kaupmann nokkurn í Stykkishólmi hit fyrra haust, kallat hann lausgángara borgunarlausan; Bjarni gekk í þat móti Jóhanni, ok vannst þar ei at. Þá sókti Bjarni Grím um dóm í skuldaheimtumáli til hans, er margir voru vafdir í, ok vard enn dómr Gríms ógyldr. Bjarni vann enn þat, at Jóhann dæmdist at hafa tapat máli vid hann, er hann kom ei vid upphrópun, ok sekr 5 aurum. Sídan stefndi Bjarni Jóhanni til Sveinsstada fyrir Grím um skammarorda-málit: kvad hann hafa borit sèr lýgi, fals ok fjölmæli; dæmdi Grímr málit hinn 5ta dag Septembris, ok gjördi lítit úr: skyldi Jóhann gjalda Bjarna 8 dali, 3 konúngi ok 30 álnir í málskostnad; þeim dómi stefndi Bjarni til næsta alþíngis. Þat haust, hinn 23dja dag Októbris, gaf konúngr þeim manni brèf fyrir amtmannsdæmi hèr er Kristján Pingel hèt; hann hafdi verit Lieutenant ádr.

## IV Kap. Árferdi ok brèf.

Vetr gjördi mikin med midjum þorra, ok svo strídan, at menn 1745.
þóttust ei vita dæmi til um jafnmikil frost; var fullt fyrir öllu Nordrlandi med hafísa, ok náliga lágu þeir kríngum land allt; var farinn Eyafjördr allr med klyfjada hesta, allt at Látrum út ok á Ólafsfjörd; komu birnir nokkrir, ok voru unnir. Afli var í medallagi, en vellir voru varla litkadir á Jónsmessu, ok vard grasbrestr mikill, ok traudt fór klaki úr jördu um sumarit. Þá týndust tvö skip undir Jökli, ok tvö

um sumarit í þíngeyarþíngi. þess var getit med tídindum, at um vorit um fardaga voru borin at Kerhóli í Eyafirdi meybörn tvö, samföst á brjóstunum, ok sem einn væri búkrinn allt ofan at nafla; hlutu þau skírn, ok köllut Gudrún bædi, ok lifdu fram til mids sumars. þá dóu prestar nokkrir: Jón Oddsson í Skrauthólum, ok þó fleiri. Píngel amtmadr kom út um vorit, ok Frú hans Margrèt; hún var 18 vetra; en konúngsbrèf voru útgefin; eitt um djákna á klaustrum, annat um únga, menn er í legords sakir falla ádr þeir eru konfirmeradir; eitt um lærimeistara, sem barna þær meyar, er þeim eru til kennslu fengnar; eitt um sakamála kostnad; eitt um auka-lögþíng, er lögmenn skulu halda í sakamálum.

## V Kap. þíng ok mál.

Bjarni Halldórsson fèkk nú aptr sýslu sína, er hönum var frávikit um hríd, ok hafdi hann haft ærin sigr í málum sínum; þó var enn ókljád vitnisburdar-skjals-málit, er reis af kýrmálinu, ok skammarorda-mál Jóhanns Gottrúps vid hann; stefndi hann þeim málum til alþíngis um sumarit. Jóhann lèzt kránkr á öndverdu þíngi, ok beiddi amtmann talsmanns, en Bjarni gekk at med kappi; komu þeir fyrir dóm í vitnisburdar-málinu Grímr ok Jóhann; hafdi Grímr dæmt mál á Bjarna, en þorsteinn sýslumadr Magnússon var settr fyrir Jóhann, er hann mátti ei vid vera; dæmdi Sveinn Vícelögmadr at ei hefdi Jóhann fylgt fram lögþíngis-stefnu, ok skyldi hafa tapad sókn, ok ónýtr vard dómr Gríms. þareptir hóf Bjarni at kæra skammarorda-málit ok dóm Gríms í því; en Jóhann kvadst rángstefndr, ok ordin tölud af ángri sínu; þó var Jóhann þar dæmdr lygari ok fjölmælismadr, ok gjalda konúngi 4 merkr, en 8 Bjarna. Ýmislig voru þar mál önnur: var í einu fèsektadr Erlendr Ólafsson, sýslumadr í Ísafjardar sýslu, fyrir þjófsdóm, ok Einar Magnússon á Ströndum vard fyrir allmikilli fèsekt. Á því þíngi baud amtmadr sýslumönnum at láta hreppstjóra fèsekta þá menn, er lèti hunda fara til kyrkju, ok birt voru þar konúngsbrèfin þau, er ádr getr. Kammerbrèf kom eitt, er skipadi Pètr, son þorsteins Sigurdarsonar, sýslumanns í Múlaþíngi, til medhjálparmanns födur síns; en sídan vard Pètr med hinum fremstu sýslumönnum. Annarr son þorsteins var Sigurdr gullsmida-öldúngr í Kaupmannahöfn.

## VI Kap. Utanfarir ok önnur tídindi.

Lodvík Harboe fór utan um sumarit vid ágætan ordstýr; fór med hönum Jón þorkelsson frá Njardvík; hann skrásetti ýmisligt um lærda menn Íslendínga, ok um fóstrjörd sína Gullbríngusýslu, ok enn ordbók, ok nokkut andligt. Jón Eyríksson, er fyrr getr, var allra manna skarpastr, svo at þat er mál manna, at hann hafi úngr numit allan Soranum at glósum til; hann var þá í Skálholts skóla; tók Harboe hann med sèr skólasvein úr Skálholti óbedinn ok í hús sitt, ok baudst at annast frama hans; lèt hann taka vitnisburd um nám sitt hjá Gísla Magnússyni skólameistara, er seinna vard biskup; fór hann utan med hönum á Hólms skipi frá Reykjavík, ok komu til Kaupmannahafnar öndverdt haust; fylgdi Jón biskupi sudr til Brúarakrs í Slesvík, er hann fór at hitta foreldra sína, ok naut góds af því. Harboe gjördist sídan biskup í þrándheimi; hann kom ok Sigurdi Vigfússyni skólameistara á framfæri, ok var hann látinn njóta afls síns sídan, er hann hafdi sýnt í Kaupmannahöfn, til þess er hann fèkk Dalasýslu eptir Orm. Harboe skrádi ok trúarbragdaskipta-sögu í landi hèr merkiliga, ok var seinast biskup í Sjálandi; en amtmadr skipadi þorleif prófast Skaptason til at standa fyrir Hóla biskupsdæmi. Ólafr prófastr Gíslason ætladi utan, at sækja biskupsvígslu til Skálholts; hafdi Harboe mælt med hönum, sakir kunnleiks ok þess, at hann var madr ljúflátr, en Halldór prófastr Brynjólfsson frá Stadarstad fór at vígjast til Hóla; brotnadi Eyrarbakka skip, svo Ólafr prófastr komst ekki, en Finnr, prófastr at Reykjaholti, Jónsson prófasts, Halldórssonar, stód fyrir biskupssýslu sydra. Vigfús prestr í Skálholti, Erlendsson frá Hvoli, góds manns, Jónssonar eldra, Vigfússonar, Gíslasonar, gjördist þá prófastr í Árnessþíngi; hann var sídan á Setbergi vestr, en þorlákr þórarinsson, þorlákssonar, þórarinssonar prests, Ólafsssonar, fèkk Mödruvallaklaustrs braud. Stuldir voru: hèt Árni madr einn, Grímsson undan Jökli; hann hafdi stolit stórum í Grundarfirdi, ok var dæmdr til kagstrýkíngar ok Brimarahólms, en ei nádist hann. Var ok í þennan tíma stolit úr Grundarfjardar kaupstadahúsum atfaranótt jóla. Sumir segja at á þeim misserum dæi Sigurdr sýslumadr Sigurdarson í Árnessþíngi, en adrir segja ári seinna, ok veit eg því ei hvort var síd á þessu edr

öndverdu hinu; er þess getit ádr at Brynjúlfr, son hans, var lögsagnari hans, ok er mælt Sigurdi hafi þótt hann ásvellr. Sigurdr var kránkr á hinum sídustu árum sínum, ok var um sjötugt er hann dó, ok um sömu mundir dó Helga, dóttir hans, á Hvanneyri af líkþrártegund; hana hafdi átta Hannes, son Vigfúsar Hannessonar, ok var þeirra son Erlendr prestr, er sídan var vestra, at Kvennabrekku ok í Gufudal. Þá segja ok enn sumir, at Eyólfr prestr hinn lærdi á Völlum dæi, en Doktor Finnr telr þat einnin sked hafa á hinu sídara ári; hann hefir snúit Sekkendorfs sögu um Lutherska trú á Íslenzka túngu, ok Nýa Testamentinu af Grisku, einnin Theatro Historiæ Christiani Matthæi, ok hefir þat þó eigi komit medal almenníngs; einnin hafdi hann ritit nafnabók, ok ýmisligt annat smátt, ok fornfrædi mörg var med hendi hans.

## VII Kap. Höfdíngjaskipti ok annat.

1746. Vetr hinn næsti var gódr fyrir nordan land, en hardr sydra, svo at margt fèll af hrossum ok kvikfjám; lítill var afli, en gæftir illar; týndist þá skip á Breidafirdi med 9 mönnum, annat á Hjallasandi med 7, þridja í Öræfum austr med 12, ok á því Eyríkr prestr Oddsson at Sandfelli. Einar Jónsson vard prófastr í nyrdra hlut Múlasýslu. Allmargir prestar dóu þá: Ketill Bjarnason á Eydum; Björn prófastr Jónsson Thorlacíus í Gördum á Álptanesi, er opt hefir verit getit; Lýdr prestr í Skardsþíngum, Magnússon frá Ábæ, Kortssonar, Þormódssonar, Lýdssonar danska; hann var fadir Gudmundar, födur Lýds sýslumanns ok systkina hans, ok var þá gamall; Þórhalli Magnússon á Borg; Jón Jónsson í Saurbæarþíngum. Einnin deydi Hans Becher lögmadr, í Brokey; var hann þar vid húsmennsku, en Sveinn Sölvason gjördist þá fullkomliga lögmadr nordanlands; hann bjó sídan at Múnkaþverá, ok átti Málmfrídi, dóttur Jóns í Grenivík sýslumanns; þeirra börn voru Jónar tveir, Íngigerdr, Íngibjörg, Gudrún, Karítas. Benedikt bóndi Jónsson í Hrappsey andadist þá, ok skorti tvo á nírædan. Konúngsbrèf komu mörg: eitt var um skriptastól ok altarisgaungu; annat um húsvitjanir; eitt um hospítöl ok reglu á þeim; en því voru svo mörg konúngsbrèf um andlig efni á dögum Kristjáns sjötta, at hann var trúmadr mikill; tóku þeir þat þá eptir er vildarmenn hans vildu vera, sumir af heilu,

en sumir af yfirvarpi. Eitt brèf var um húsagann á Íslandi, all-ágætt ok þarft, en eptir því hafa náliga engir lifat, enda hafa stórir meinbugir á verit. þar med hefir fjöldi laga ok konúngabrèfa, er tídkazt hafa í Danmörku þá ok sídan, ordit til nokkurs vandhæfis fyrir tilbreytínga sakir, þvíat því er hægast at fylgja fram vid lýdinn, sem vani kemst á. Eitt var um hjónaband, ok svo um lauslæti, ok um ofdrykkju andligra manna; um nýtt biblíu-upplag, ok kaup þess til kyrkna; eitt var reglugjörd fyrir skólann; eitt um stiptprófasta; eitt um okrsölu tóbaks ok brennivíns; eitt um aukaþíng í sakamannamálum; eitt um vogrek; eitt lèt eptir Hólabiskupi at prenta allar bækr er landinu væri gagn í; eitt var veitíng Jóhanns Gottrúps á æru hans, ok leyft var hönum at fá uppreisn á málum sínum, en hann þakkadi audmjúkliga, ok afbad þó ásamt; gjördist hann sídan allvesæll, ok eydt var þá þíngeyra-audi, en seinast fór hann vid vonarvöl. Eitt brèf var veitíng Brynjúlfs Sigurdarsonar fyrir Árness sýslu; hann bjó í Hjálmholti ok átti Íngibjörgu Einarsdóttur, Ísleifssonar, þórdarsonar, Erlendssonar á Sudr-Reykjum, ok gjördist audmadr; voru þeirra börn: Gudni, Einarar tveir, Íngibjörg, Helga, Gudrún, þórunn. Sigurdr, bródir hans, fèkk Helgu, dóttur Brynjúlfs Thorlacíus á Hlídarenda, þórdarsonar, ok átti þar margt afkvæmi. Brynjúlfr var settr rádamadr fyrir biskupsstólana, ok annar Skúli Magnússon á Ökrum, sýslumadr í Skagafirdi; var gjört álag eptir Stein biskup á Hólastól ok hans inventaríum 517 hundrud ok 70 álnir, bædi í jördum ok ödru; en ekki þótti biskupi, er sídan kom til, vel gjaldast út af Skúla er afhendt var. Mikin hafdi Skúli uppgáng í þann tíma. Halldór Brynjúlfsson hafdi verit utan um vetrinn, ok vígdr til Hóla-biskups á Maríumessu, undir eins ok Lodvík Harboe til þrándheims; kom hann út um sumarit, en fólk hans hafdi verit hèr ok bedit tilkomu hans nyrdra; þóttist hann fá minna í stólsálagit, enn hann ætladi, en þóra húsfrú hans ól barn á jólum eptir, ok var fátt tillagt, nema at eigi væri fullaldra; kendu þá sumir rádsmanni, ok vard um ordasveimr mikill, ok svo um vidreign þeirra Skúla allrasaman. þeir sýslumenn, Bjarni Halldórsson ok Gudni Sigurdarson, er út höfdu tekit stólinn, voru hönum fylgisamir bádir, því Gudni var vinr biskups, en Bjarni lítill vin Skúla, er afhendti, ok hafdi þó Skúli gjört þá íhaldna fyrir sína hönd;

en svo líkadi biskupi illa, at þeir hefdi hlíft Skúla, at þeir urdu at skila hönum aptr því er hann galdt þeim. Jón Eyríksson fór med Harboe til Þrándheims, ok var settr þar í skóla hjá þeim Rektor er Dass hèt, ok var hinn lærdasti. Gísli Magnússon prests, Markússonar, er verit hafdi skólameistari í Skálholti, fèkk aptr Stadarstad ok prófastsdæmi vestra, ok þótti þar allmerkiligr höfdíngi; byggdi þar ágætliga stad ok kyrkju; en Einar Jónsson heyrari tók aptr vid hans sýslu í Skálholti. Sigurdr Vigfússon fór til Dalasýslu er hann hafdi fengit hana, ok bjó í Stóraskógi; hann átti Karítas Gudmundardóttur, bródurdóttur húsfrúr Valgerdar, en börn þeirra mönnudust lítt. Þau misseri gaf svenskr madr út Snorra Eddu á Íslenzku ok Latínu. Á þíngi sókti Eyvindr Jónsson klaustrhaldari Bjarna Nikolásson, sýslumann í Skaptafellssýslu, um dóm einn, ok var Skúli Magnússon í málinu vegna Eyvindar; vard Bjarni sektadr um ólögliga frávísun vitna, en ödrum sakargiptum tapadi Eyvindr, ok vard fyrir útlátum. Skúli sókti þar Pètr Ovesen, kaupmann í Hofsós; höfdu bændr kært hann um mjöltunnu moldarblandna, ok vard þat upphaf deilu Skúla vid hörkramarafèlagit; vard ekki atgjört at því sinni. Skúli hafdi tekid skólasveina tvo fyrir stuld: Skapta Árnason prests, Skaptasonar, Jósephssonar, ok Illhuga Sigurdarson; vard Þorleifr prófastr Skaptason þess vís af nærgætni sinni, en hann var fóstri Skúla ok stjúpfadir; reid hann ákafliga nordan, ok gekk svo fast at Skúla, at hann sleppti þeim ádr dómr yrdi framkvæmdr, en sumir segja Magnús á Vídimýri, bródir Þorleifs prófasts, hafi beint at. Grasvöxtr var gódr um sumarit ok nýtíng; þá fór utan til háskóla Eggert, son Ólafs Gunnlaugssonar í Svefneyum. Á því sumri, hinn 6ta dag Ágústí mánadar, andadist Kristján konúngr, ok tók ríki Fridrikr sonr hans, hinn 5ti med því nafni; hann gjördi enda á Lagaverks-Kommissióninni um sinn utanlands, med því þar vannst ekki at. Fór þat, sem hèr í landi skyldi semjast, allmjög eptir hinu sem þar fór fram, því at launalitlir menn, ok margir saman, komu þar um engu áleidis, ok vard þá ei meira af þeim vidburdum.

## VIII Kap. Mannalát.

1747. Annar vetr var hardr ok frostamikill fyrir sunnan ok vestan land, ok svo nyrdra; dóu 4 eda 5 úr vesöld á Akranesi, en þó batnadi med

sumarmálum. þá var prentud ein ritníngar útgáfa á Munadarleysíngjahúsi í Kaupmannahöfn. þann tíma deydi þórunn Bjarnardóttir frá Bustarfelli, ekkja Benedikts lögmanns; Runólfr prestr Runólfsson á Setbergi, er þar hafdi verit eitt ár, ok átt eina dóttur Sigurdar á Hvítárvöllum, vard um hann mjök skyndiliga; Torfi prófastr Halldórsson á Reynivöllum, födurbródir Finns prófasts í Reykholti, tók Einar prestr sonr hans þar vid stad eptir hann; Eyólfr prestr Bjarnarson á Snæfoksstödum, ok Gudmundr prestr at Kolfreyustad, Pálsson prófasts, Ámundasonar; þá kom til prófastsdóms í Nordr-Múlasýslu Hjörleifr prestr þórdarson á Valþjófsstad, en Sigurdr prestr Jónsson, Steingrímssonar, í Rángárþíngi. Jón Magnússon prests, Einarssonar ok Oddnýar, bródir Skúla, gjördist kyrkjuprestr á Hólum; hann var hóglyndr ok trúlyndr, ok mikilmenni af sjálfum sèr nokkut svo, á þann hátt, sem verit höfdu módurfrændr hans. Skúli hafdi fyrst komit hönum í Skálholt í læríngu, ok sídan hafdi hann farit utan, ok mjök á hans kost ok attesterad, sem kallat er, ok kyrkjuprestr vard hann af hans medalgaungu, ok fèkk þórunnar Hansdóttur Skevíngs frá Mödruvöllum. Skúli kom ok Einari, bródur sínum, til Midfjardarjarda lènis, ok hèldt þessi misseri brúdkaup Sigrídar systur sinnar á Ökrum, er hún gekk at eiga Jón prest Vídalín. Skúli lèt smída vefstóla ok rokka á Ökrum, ok fylgdi því fram fast. Gudmundr prestr Pálsson, er fyrr var getid, hafdi verit audigr at fè. þat bar til, at þorleifr prófastr Skaptason hafdi ridit nokkut, ok af sèr fylgdarmanninn; hann reid gódum hesti, ok var stundum vanr at setja hann á lítt fært; sagdi hann svo, er hann hafdi ridit veikan ís, ok er at því var talit, at vötn eda ár mundu ekki verda sèr at bana, en heldr veita nokkr lítil; hann fannst í bleytukýl einum, ok var þar örendr, en hestrinn stód á bakkanum; hann hafdi verit einna mest virdr af prestum nordanlands, en til þess hafdi hann talsgáfu, ok saung ok adrar gáfur, álit ok stórmennsku, ok opt hafdi hann þjónat at prestavígslum, auk þess er hann var stiptisprófastr. Jón prestr, sonr hans, fèkk Múla eptir hann, ok var stillíngarmadr mikill, en Stephán var prestr í Presthólum, ok prófastr í þíngeyarþíngi; hann var einna líkastr födur sínum at lærdómi, en þótti svakasamr; Ari var seinast prestr at Tjörn í Svarfadardal; Magnús hèt einn ok var bóndi. Magnús bródir þorleifs prófasts

bjó þá at Vídimýri ok lengi sídan; hann var búmadr mikill en lítill vitmadr; hans son var Sæmundr, er þar bjó sídan, ok var svakamadr hinn mesti, ok eyddi fè sínu.

## IX Kap. Mál, biskupskoma ok annat.

Þá var aflaleysi mikit kríngum land, ok voru engir hlutir hærri enn hundrad; gekk sótt mannskæd fyrir sunnan, ok er mælt at dáit hafi 200 í Rángárþíngi, ok þar á medal 40 búendr; skip týndist med 6 mönnum í Ólafsfirdi. Þjófar þrír höfdu lagzt út, var einn Árni Grímsson úr Snæfells sýslu er fyrr getr, annar hèt Ívar; þeir voru teknir í hellir einum af bændum í Bárdardal, ok var Árni sídan í Skagafirdi í vardhaldi med Skúla sýslumanni; hann var knáligr madr ok vel at sèr um margt, þjódhagi ok skraddari; hann komst úr vardhaldinu, ok lèk mjök ord á at sýslumadr mundi ei hafa lagt alúd á at gæta hans; ætludu menn hann mundi hafa stadnæmzt fyrir austan í Múlaþíngi, ok nefnt sik Einar, ok sýndi hann aldrei af sèr vandrædi. Jón Erlendsson hafdi einn heitid, at sunnan; hann var í haldi med Kristjani Drese landfógeta; en fyrir því at hann var drykkjumadr mikill ok hirdulítill, ok lèt hann gánga lausan, þá strauk Jón frá hönum, ok var landfógetanum dæmt fyrir þá sök at bæta 60 lódum silfrs, en Jón stal, ok nádist sídan í Dalasýslu, ok var hengdr. Ívar var dæmdr ok sendr sídan á Brimarahólm med Eyafjardarskipi. Sveinn lögmadr dæmdi systkinum líflát fyrir barngetnad á þíngi; höfdu lögmenn látit sýslumenn gefa út rèttarstefnur af sinni hendi, hina helztu: Magnús lögmadr Þorstein, sýslumann í Rángárþíngi, en Sveinn Bjarna Halldórsson. Þann tíd var mál med Skúla sýslumanni ok Pètri kaupmanni Ovesen; þótti kaupmanni hann hafa gjört sèr hardleikit ok bar fyrir kauphöndlunar-fèlagit, ákærdi þat þá Skúla; fyrir því kom út konúngsbrèf á þessu sumri um, hve fara skyldi med höndlunarmál sídan; annat kom um kyrkna inventaríum ónaudsynligt, þridja um kyrkjubækr; en þó var eitt fyrst, er hljódadi um hollustu-eida til hins nýa konúngs. Ólafr Gíslason kom út, vígdr til biskups í Skálholti, ok hafdi þat framdregit hann fyrst til Oddastadar, at hann var framadr utanlands, en adrir óprófadir, enda var hann kalladr gódlátr ok ged

lempinn, en hafdi fylgi Harboes, ok því vard hann biskup, en hvorki var hann kalladr mikilmenni í atkvædum nè áliti; kom þó vel fyrir; hann átti Margretu Jakobsdóttur, prests frá Kálfafelli, Bjarnasonar; hún þótti skörúngr, ok voru þau foreldrar þorkels prófasts á Hólum ok Gísla prests á Breidabólstad vestr. Gudlaugr þorgeirsson gjördist þá prestr at Gördum á Álptanesi, ok prófastr í Kjalarnessþíngi. Eptirlátid var Ólafi sýslumanni Árnasyni á Bardaströnd at leita konúngsnádar fyrir systkinin, sem dæmd voru úr sýslu hans ok fyrr eru nefnd. Sókti Ólafr á þíngi þorstein Pálsson í Búdardal um skuldamál til Íslands höndlunarfèlags. þar áttu þeir enn mál saman Erlendr sýslumadr Ólafsson úr Ísafirdi ok Ólafr Jónsson á Eyri. þá var grasár í betra lagi, ok haust gódvidrasamt, en rigníngar spilltu þó heyum fyrir sunnan. Var nú hinn 13da dag Septembris, at konúngsbodi til stiptamtmanns Ochsen, land svarit Fridriki konúngi at Öxará, bædi af andligum ok veraldligum, sem sidr var til. Gjördi sídan med Jólaföstu hardvidri ok varadi til nýárs, ok týndist skip med 8 mönnum á Skaga. 1748.
þadanaf þidnadi, ok voru gódvidri stödug til einmánadar, svo menn þóttust ei muna slík svo laung; var hinn bezti vetr til sumarmála, en kólnadi sídan fram allt til fardaga; var lógat fè ok nautpeníngi sydra. Fiskafli var sydra ok vestra, en lítill fyrir nordan á því ári; týndist þá skip á Nesjum sudr, ok á því Árni prestr á Hvalsnesi med fleirum mönnum, hinn 5ta sunnudag í föstu, ödru grandadi fiskr á Flateyardal, ok fórst einn madr; tveir týndust vid Málmey. þá urdu ok úti 5 menn á Reykjaheidi nordr, á ferd, í hríd, ok var þar med Gudrún, dóttir Bjarnar á Bustarfelli; ok enn bar þat til, at druknadi Stephán prestr Ólafsson á Höskuldsstödum, á heimleid, í Laxá, ok voru þá börn hans enn allúng mörg.

## X Kap. Tilburdir ýmsir, ok frá prestum.

Þorsteinn prestr Jónsson at Saurbæ í Eyafirdi hafdi tekit meinsemd nokkra fátída, fèkk bólu á öxlina, er mjök var sár ok verkjarfull, en Jón sýslumadr í Grenivík rèdi hönum at láta ei skera hana at heldr, þó kom svo, at hann leyfdi óvitrum manni at skera; kom hún sídan fram í munninum miklu verri enn ádr, ok leiddi hann med laungum

harmkvælum til bana; þá dó ok Ólafr prestr Eyríksson at Túngu í Steingrímsfirdi, ok Jón Hákonarson á Vatnshorni í Haukadal; hann var á tíunda tugi, edr 93gja ára. Í þann tíma bjó at Húki í Midfirdi Pètr bóndi Gudmundarson, þorsteinssonar, Gudmundarsonar, þorsteinssonar, Sighvatssonar, svo at hinn fyrri Gudmundr var bródir Jóns prests í Vestmannaeyum, er Tyrkir drápu; hans son var þorsteinn prestr at Stadarbakka, er þá var skipadr prófastr í Húnavatnsþíngi; því samþykktist eigi Halldór prestr Hallsson á Breidabólstad, en hann var stórlyndr ok gjarn á forna venju, kvadst engan flengíngamanns son hafa vilja at prófasti yfir sik; var þat efni þar til, at stúlka ein hafdi látizt hafa vitranir ok mæla vid engil, því henni var vikit, ok var einhverju sinni at engillinn baud henni, at láta flengja sik 300 vandarslög, en Pètr bóndi hafdi ordit til í einfeldni sinni ok gódri meiníngu, at veita henni þá þjónustu; þorsteinn prófastr fylgdi mjök at konúngsbodum um innleidslu Pontoppidans-spurnínga ok annara skipana Kristjáns konúngs 6ta, en Halldór prestr var hönum heldr enn ei mótfallinn sakir vanafesti, ok var þó merkismadr allmikill; gjördist þorsteinn prófastr gagnsmadr. Stephán prestr Einarsson tók prófastsdóm í þíngeyarþíngi, en Hallgrímr Eldjárnsson prests, Jónssonar, vígdist kapellán til Hrafnagils. Sæmundr prestr, son Magnúsar í Brædratúngu, Sigurdarsonar, hèldt Miklabæ ok prófastsdóm í Skagafirdi, ok med því hann hafdi verit sóknarprestr Skúla Magnússonar sýslumanns á Ökrum, hafdi þeim þótt sitt hvorjum, ok Skúli verit lítt gádr einhverju sinni, ok blakat hann í skriptastóli; vard mál af reist, en þó fyrir því at prófastr var fèþurfi, en Skúli þá ríkr ok audigr, ok rausnmadr mikill um allt er hann þarfnadist, vard þar lítid af. Sæmundr prófastr var fadir Magnúsar prests á þíngvelli, ok Odds, en Magnús prestr var fadir Gudmundar prests at Kálfatjörn, ok ætla ek at Sæmundr prófastr dæi nær þessum tíma. Skúli hafdi mjök eflt Jón bródur sinn til frama, sem fyrr segir, ok útvegat hönum kyrkjuprests embætti at Hólum, ok hafdi hann þó attesterad ádr; at því hafdi hann ok fylgt, at Jón prestr fèkk þórunnar, dóttur Hans Skevíngs á Mödruvöllum, Lárussonar, ok gjördist nú Jón prestr prófastr í Skagafirdi eptir Sæmund; hann hafdi ádr komit hinum hollenzku mönnum úr haldi frá Skúla ok í duggur, ok fèkk fyrir þat af þeim lof mikit, ok

optar tók hann í móti því er Skúli vildi fram hafa, því ef til handa kom var skjótt aflsmunr mikill. Þau misseri vígdist Jón Vidalín, son Jóns, Pálssonar lögmanns, til Ríps. Þá var Þórarni, syni Jóns í Grenivík, veitt Vadla sýsla, en hafdi verit lögsagnari födur síns í 10 ár, ok lèt hann nú af sýslu vid hann, ok hit sama sumar gipti hann Málmfrídi, dóttur sína, Sveini lögmanni; hafdi Jón sýslumadr þótt lagamadr gódr, vitr í gudfrædi, stilltr vel ok merkr í mörgu, en ei þóttu þeir fedgar allskaplíkir; var Þórarinn skarpr madr ok hvatlyndr. Kom þá út Ritníngin híngat, sú er prentud var á kostnad Munadarleysíngjahússins, einnig stadfestíng allra veraldligra embættamanna í embættum þeirra, ok enn konúngsbrèf um þat, at sýslumenn skyldu sektast um 60 lód silfrs fyrir ónýtt fángahald, ef þat reyndist, ok annat um ónaudsynlig hús á prestagördum ok svo kúgildi. Þau misseri var þat, er Lodvík Harboe gjördist biskup í Sjálandi, ok fór Jón Eyríksson til Kaupmannahafnar med hönum, ok gekk háskólaveg ok kunni þá lítt Íslenzku; en er landsmenn hans brugdu hönum því, fèkk hann sèr adgaungu til fornfrædasafns Árna Magnússonar, ok lagdi hug á íslenzka túngu, ok fèkk sídan nám mikit í hverskonar vísindum.

## XI Kap. Mál Skúla ok annat.

Á þíngi sókti Páll prestr Högnason Bjarna Nikolásson sýslumann, ok fèll mál á Bjarna; en Bjarni sýslumadr Halldórsson sókti mál Pètrs Ovesonar kaupmanns á hendr Skúla, fyrst um dóm Skúla í tunnumálinu hinnar moldarblendnu, er kaupmadr skyldi selt hafa; hafdi kaupmadr fengit uppreisn til at sækja þat, en Skúli heimti borgun, ok var því sök þeirri vísat frá, en kaupmadr skyldi gjalda Skúla fyrir þíngferd. Annari stefnu hafdi Bjarni stefnt Skúla um dóm hans yfir járni því, er Pètr Ovesen hefdi selt, ok Skúli sett nidr ok metid ógyldt. Hinni þridju um atför hans at höndlunarfèlags-fènu í Hofsós; var stadfestr járndómr Skúla, en atfararmálinu vísat frá at sinni, því löglig skilríki þóttu ei fram borin. Hinni fjórdu stefnu hafdi Bjarni stefnt Jóni Benediktssyni, sýslumanni í Rauduskridu, um dómaragjördir hans milli Skúla ok Pètrs Ovasonar í geldfjármáli, er kallat var; þar frelsadist kaupmadr frá málskostnadi, er Jón Benediktsson hafdi dæmdan; voru þessar sakir upphaf deilu

þeirrar hinnar miklu, er Skúli átti vid höndlunarfèlagit, en hann hafdi svo mikit fjármagn ok ríki, at lítt þurfti kaupmanna vid, sem margir embættamenn seinna. Önnur mál á þíngi voru ómerkiligri. Enn nú tók Pètr þorsteinsson lögsögn med födur sínum í Múlaþíngi, ok var vel at sèr, ok látinn sækja Sunnivumál á hendr Hans Wíum; vard sókn mikil, því Pètr var pennafær vel, en Hans hverjum manni tölugri.

## XII Kap. Frá afkvæmi Stepháns prests; tjón.

Stephán prestr á Höskuldsstödum á Skagaströnd, er druknadi, son Ólafs prófasts Gudmundarsonar at Hrafnagili ok Önnu Stephánsdóttur, prófasts í Vallanesi, hafdi verit raddmadr gódr ok reidmadr, kennimadr at hætti, ok sæmiliga þokkadr, reglubundinn um suma hluti vid stundir; hann var hár medalmadr á vöxt, nokkut grannligr; hann hafdi fyrr átta Ragnheidi, dóttur Magnúsar at Espihóli, Bjarnarsonar, Pálssonar, ok Sigrídar Jónsdóttur biskups, Vigfússonar, ok var hún all-sköruglig, ok eigi lánglíf; þeirra börn voru sem til menníngar komust, ok nær frumvaxta sum í þennan tíma: Sigrídr ok Ólafr, Anna, Elín ok Sigrídr önnr; þau fæddust upp í ýmsum stödum, ok mönnudust öll vel, sem enn mun sagt verda; en sídan hafdi hann fengit Sigrídar Sigurdardóttur frá Geitaskardi, Einarssonar biskups, ok þótti þat eigi jafnt gjaford hinu fyrra; þeirra synir voru Sigurdr ok Oddr; lifdi Sigrídr lengi eptir Stephán prest. En vetr hinn næsti eptir andlát Stepháns prests ok þau tídindi önnr, er næst voru talin, settist at nordanlands med Michaelsmessu, hlánadi med Jólaföstu ok eigi lengi,
1749. ok gjördi sídan hinn mesta hardinda vetr, svo at hestar fèllu af húngri ok megurd vída um land, ok saudfènadi var lógat 20 eda 30 á bæ; var þat þó mest fyrir sunnan ok austan; þó getr eigi Doktor Hannes biskup þess vetrar sèrílagi, en þorsteinn prófastr Ketilsson víkr á, at þau ár hafi allhardt verit austr ok nordr; lètti nokkut ok hlánadi í fyrstu viku gói. Vída urdu menn þá úti í hrídum, ok skip fórust: eitt í Stadarsveit, annat vid Hellna, þridja undir Eyafjöllum, fjórda vid Drángey med 6 mönnum, fimta á Eyafirdi med jafnmörgum, ok tekr nú nokkut at skipta um tídina, frá því sem hafdi verit um hríd.

## XIII Kap. Upphöf nokkurra manna.

Þennan vetr, er nú er frá sagt, var borinn Kristján, son Fridreks konúngs 5ta, er ríki hafdi sídan í Danmörku. Þá var vorvedrátta allgód á landi hèr, ok fiskafli vestra ok sydra, vard þó bædi grasbrestr ok nýttist illa sídan. Andadist þá Halldór prestr Pálsson á Breidabólstad í Fljótshlíd, en Eyvindr klaustrhaldari á Kyrkjubæ var dáinn ádr, ok druknadi í Eyafjardará; Gudmundr Bessason frá Múnkaþverá, skólagenginn madr, náfrændi húsfrúr Málmfrídar. Gunnari Pálssyni skólameistara var heitid af amtmanni Saurbæ í Eyafirdi, en þat vard þó ekki, þvíat Jóni presti Sigfússyni var veittr sá stadr utanlands. Gunnar var vellærdr madr, skáld ok fornfródr; þau voru mörg systkin, börn Páls prests Bjarnasonar, er sídast var at Upsum, ok Sigrídar Ásmundsdóttur, ok voru þeir brædr hugkvæmir ok skarpleiksmiklir, sem þeir áttu móderni til, en heldr litlir vexti, ok þó knáir, eptir faderni. Bjarni hèt bródir Gunnars, Benedikt ok Ásmundr, er frá verdr sagt; Kristín hèt ein systir þeirra, önnur Philippía, hún var gipt Hjálmari Erlendssyni, kynjudum úr Fljótum ok vel at sèr; þeirra börn voru: Erlendr ok Halldór, Páll, Kristín ok Hólmfrídr; Valgerdr hèt hin þridja, hún giptist seinna Þorvardi presti í Saurbæ, Audunarsyni, Benediktssonar prests at Hesti; Björg, Solveig, Þórunn, Kristín, Ásgerdr, hennar fèkk Magnús prestr at Höskuldsstödum, Pètrsson; Steinunn, hana átti sídar Bjarni prestr, son Pètrs á Kálfaströnd, Bjarnasonar prests, Ormssonar. Þá bjó í Svefneyum á Breidafirdi Ólafr bóndi Gunnlaugsson; hann átti Ragnhildi Sigurdardóttur, systur Gudmundar á Íngjaldshóli, en módir Ragnhildar var Gudrún Nikolásdóttir, prests í Flatey, Gudmundarsonar, Ólafssonar prests, Moldar-Brandssonar; módir Gudrúnar var Íngibjörg Þórólfsdóttir undan Múla, Einarssonar, Þorleifssonar, Jónssonar prests í Gufudal, Þorleifssonar í Þykkvaskógi, er nú er kalladr Stóriskógr. Ólafr var gódr bóndi ok gegn, gyldligr ok vel á sik kominn ok viti borinn; börn þeirra Ragnhildar voru: Eggert, Jónar tveir, Magnús, Rannveig; hennar fèkk sídar Björn prestr Halldórsson í Saudlauksdal; frömudust þeir brædr utanlands. Eggert var vel gáfadr madr, nokkud í hærra medallagi á vöxt, grannleitr ok grannligr at ödru enn herda vexti ok armlida, rèttvaxinn ok

fljótstígr dagliga, dökkhærdr nokkut, en hvítr á skegg, ennismikill ok hafdi ljósgulan díla yfir vinstra gagnauga, fagreygdr ok nokkut fasteygdr, lidr á nefi, hvöss kjálkabörd en stutt hakan, ok þó vel vid sik, hyggiligr í tilliti, brattgengr ok skídfær mjök vel, ok lèttvígr. Bjarni Pálsson, er fyrr var getid, gjördist snemma kunnugr. Eggert, eigi var hann jafnskarpr sem Gunnar bródir hans, ok hafdi verit 11 vetr í skóla at Hólum, ok þóttu þeir Benedikt brædr nokkut smá-ódælir, en því voru þeir svo lengi, at lítt fór skólasveinum fram medan Sigurdr Vigfússon kenndi, blekktu þeir hann med ýmsum brögdum, svo hann vissi ei hvat þeim leid, en Gunnar skrifadi Bjarna út, bródur sinn. Sídan var Bjarni litla hríd at Höfda, samtídis Hjálmari Erlendssyni, mági sínum, er læknir var ok fjölhæfr, ok komst þar at lækníngabók Þorláks Markússonar í Gröf, ok lagdi sik eptir slíku, fór utan med Stepháni Bjarnarsyni, ok fèkk frömun góda; Bjarni var minni enn medalmadr á vöxt, grannleitr ok eigi frídr. Eggert skrásetti á þessum misserum um edlisháttu Íslands ok ástand í fyrri tíd, en Bjarni um söl. Sendr var þá út híngat madr sá, er hèt Niels Horrebow; hann skyldi afplána yfirsjón sína nokkura med veru sinni hèr; hafdi verit Assessor í hæsta rètti; hann sat laungum at Bessastödum, ok var vitr madr ok ritadi um land hèr ok þess háttu, lofadi hann mjök landsfólkit, svo at sumum hefir þótt vid of, en hratt því er Anderson, borgmeistari í Hamborg, hafdi ádr samsett ósannliga, eptir sögnum heimskra manna ok ókunnugra. Kom þá ok út yfirsetukvenna-frædi Buchvalds á íslenzka túngu, ok var sem margir hlutir vildu verda samfara til at hefja landit, en sýnt at þekkíng jókst ok menn tóku framar at kenna þat enn ádr, ok innlendir at leggja sik eptir fleiru enn fyrri.

## XIV Kap. Frá ýmsu er vid bar.

Í þann tíma voru dæmdir frá prestskap: Þorlákr prestr Gudmundarson í Selárdal ok Loptr prestr Rafnkelsson at Krossi í Landeyum, en deydi Jón prestr Gudmundarson at Stad í Kinn; þá týndist skip í Landeyum med 16 mönnum, þeir höfdu komit úr Vestmannaeyum; annat á Gilsfirdi, þar var á Ari, son Teits Arasonar sýslumanns. Þrjár

konur urdu úti í Fellum í Ás-sókn, er þær fóru heim frá kyrkju, en fjórdu aldrada kól til skada; madr vard úti á Ströndum nordr, annar í Borgarfirdi, einn í Breiddal, tveir drukknudu eystra, ok einn hrapadi. Árni hèt madr, bjó á Brú á Jökulsdal, hálfgiptr; hann beitti fè sínu á Hrafnkelsdal, en menn ætludu þar á liggja meinvættir; var hann haldinn madr sterkr; en eittsinn fór hann í saudaleit á dalinn, ok kvadst mundi koma at kveldi aptr; kom hann ei, ok var farit at leita hans; þótti mönnum líkindi sjást til at hann hefdi elltr verit, ok fannst hann þó vid ána um daginn eptir, liggjandi á grúfu, ok votr upp yfir knè, en fötin rifin upp úr brókum hans, svo hann lá á berum kvidi, ok örendr; rifin voru klædi hans á barminum, ok svartbláir flekkir um öklalidu, en armleggir bádir úr axlarlidunum; sýndist nokkru ofar vid ána, í krapa, skammt þadan sem hann hittist, sem glímt mundi hafa verit, ok leyst upp grjót, en spor voru rakin þadan nokkut á leid til fjalls, ok þótti blód í, ok sem skridit hefdi verit á fjórum fótum, var mark eptir hina fremri fætr sem álptakló, en sem hrosshófar eptir hina eptri ok kló frammúr, ok er þetta sagt eptir þíngsvitni er tekid var; ætludu menn tröll, ok haft slíkan búnad, ok skridit eptir vidskiptin ok týnzt, þvíat sídan var bygdr dalrinn, er fyrr lá í eydi, ok vard engum meint. Þá kom út konúngsbod um lögþíngis stefnur, annat um refsíngu frekra mordíngja, hit þridja var stadfestíng máldaga Gísla biskups Jónssonar; eitt var enn um Jubilhátíd til þakklætis vid Gud, því þá hafdi Aldinborgarkyn rádit ríkjum á Nordrlöndum med gódri hamíngju um 300 vetra, sídan Kristján 1sti tók konúngdóm. Ekki þótti Kristján Drese landfógeti þá fær um at standa fyrir reikníngum fyrir drykkjuskapar sakir, skorti á fèhýrzlur þær, er hönum var til trúad, þrjár þúsundir ok 400 dala, en 15 hundrud voru í hirzlunum; var hann nú settr af embætti af amtmanni Pingel, en Gudni Sigurdarson, er verit hafdi sýslumadr í Kjósarsýslu þá um 6 vetr, var skipadr fyrir embættid; Þorsteinn, son Hákonar í Kyrkjuvogi, var settr fyrir Kjósar sýslu aptr; hann var födurbródir Hákonar Vilhjálmssonar; hèt Jón fadir Hákonar, son Árna Pálssonar prests, Jónssonar prests í Hrepphólum, Egilssonar, en módir hans var Margrèt, dóttir Dada prests Halldórssonar. Stephán Þorleifsson fèkk þá Presthóla.

## XV Kap. Þíng ok annat; Skúli vard landfógeti.

Á alþíngi voru mál uppi, ok áttust þeir vid Bjarni Nikolásson ok Sigurdr Stephánsson, sýslumenn í Skaptafellsþíngi; þar voru ok dæmd til dauda Bjarni Jónsson ok Gudrídr Vigfúsdóttir úr Snæfellssýslu, fyrir barngetnad sín í medal; hún var kona bródur hans, en þau voru ásamt í stuldarmálinu, er stolid hafdi verit úr Grundarfjardarbúdum; þar var ok í med þeim Ormr Vigfússon, ok dæmdist hann á Brimarahólm. Bjarni Halldórsson sýslumadr var á þíngi, hann var ríkmenni mikit, ok hafdi átt um hríd í sókn vid Skúla Magnússon um kaupmannamál, ok fór heldr í skattyrdi; hann sókti nú Skúla um moldarblandstunnumálit, ok lagdi fram borgun þá er hann hafdi heimt, útgefna af Pilemark, er þá var kaupmadr í Hofsós; eigi vildi Skúli þó taka í móti henni, ok vard hún dæmd ógyld, ok höndlunarfèlagit skyldi gjalda kost ok tæríng. Annarri stefnu hafdi Bjarni stefnt hönum um atfararmálit, þar heimti Skúli borgun af hönum, ok at hann sýndi fullt umbod at sækja þat mál, ok enn fleira færdi hann í trega; ok ei átti Bjarni þá vid Jóhann, ok var því vísat frá. Skúli mæltist til, at sèr væri fengin landfógeta-sýsla, eda veik at því, at fást mundi íslenzkr madr, en enginn hafdi verit sá landfógeti ádr; þat er ok alsagt, at hann muni sókt hafa. Enn var Jón Jónsson úr Gullbríngusýslu dæmdr til Brimarahólms á þíngi; en um haustid til samrar refsíngar, af Þórarni sýslumanni í Eyafirdi, sá madr er Steinn hèt, Ólafsson, fyrir óknytti, leti ok ónytjúngsskap; hann gjördi sjónhverfíngar ok annann óþarfa, greip ok hlut af altarisbrík, en seinna kvæntist hann utanlands. Drese sat kyrr í landi, en ádr lauk árinu veitti konúngr Skúla Magnússyni sýslumanni landfógeta-sýslu; má marka hvern byr Skúli hafdi í þann tíma, er hann átti deilur vid samlenda menn konúnginum, ok þó agasamt stundum heima, ok fèkk jafnframt þat embætti, er enginn hafdi fyrr haft íslenzkra manna, ok hèldt því álengdar, ok hafdi í því svo mikin framgáng, sem enginn annarr hefir haft hèr, af eigi ædra standi, ok enginn annarr innlendr meiri, sem enn mun heyrast. Björn, sonr Markúsar Bergssonar, sýslumanns í Ísafirdi, fèkk aptr Hegraness sýslu. Um haustid var haldin fagnadar-hátídin um öll ríki Dana-konúngs hinn 28da dag Októbris mánadar, í þrjá daga, í minníngu þess, er ádr er getid um far-

sælu Aldinborgar-ættar, af Gudi gefna, munu ok fáar konúnga-ættir lánggædari samfellt; orkti þá Eggert Ólafsson drápu fornkvedna, í nafni Íslendínga, ok kalladi hit uppvaknada Ísland; ætla ek eigi kvedit hafa verit kvædi med þeim hætti fyrri í marga mannsaldra, ok eigi sá ek slíkt því fyrnra af næstu aldar kvædum; lèt hann prenta þat, ok hjá latínska útleggíngu, ok æskti þar í heilla Fridriki konúngi ok öllu húsi hans, en sídar kvad Eggert mörg kvædi merkilig, ok med betra hætti enn verit hafdi um hríd; en sídan hafa margir gengit í ljódaferil hans, ok fárr komit sèr svo vid, þó verit hafi kalladir skáld gód; hefir suma brostid gáfu til, en suma kunnáttu.

## XVI Kap. Um eitt æfintýr.

Vetrinn eptir var gódr til gói, en hardnadi þadan af til sumarmála. 1750. Þá vard athlægiligr atburdr í Austfjördum, er ek vil fyrir þá sök í frásögn færa, at margir skilvísir menn hafa þar nokkut sagt af ok ritad látid eptir sik, þó enginn geti greint hverskyns prettr vid hafi verit hafdr, ok verd ek at herma sem ek hefi sèd skrásett af fleirum enn einum, med því nefndr var atburdrinn, hversu heimskligr sem þykir. Prestr sá bjó at Hjaltastad í Utmannasveit, er Jón hèt Oddsson; þar heyrdist rödd ein ámátlig um lángaföstu alla, ok mælti manns mál; hún var optast nálæg kerlíngu þeirri, er Ópía hèt, ok dóttur prestsins, ok mælti vid þær um ýmsa hluti, ok stundum glettíngar med keski; ekki sagdi hún fyrir óvordna hluti nema gestakomu, hvorki sást eda fannst þar heldr nokkut sem hún heyrdist, en þó var stundum kastad grjóti á menn, fèkk þó enginn mein af, en þytrinn heyrdist sem vindr á pappír, ok kom ekki vid til skemmda. Úngmenni sögdu sèr fyndist nokkut þar fyrir sem röddin var, sem köld ullarhrúga. Grímúlfr hèt prestr, ok kalladi sik jafnan Grím, ok svo er hann kalladr; hann var Bessason, hagordr vel, en keskinn ok klámkvædinn. Þeir Hans Wíum sýslumadr. ok Grímr prestr fóru þángat fyrir forvitnis sakir er þeir spurdu tídindi af röddu þessari, ok þángat til er hún var, ok vildu fá tal af þeirri vætt, ok er þeir komu í hladit sáu þeir ekkert, en heyrdu röddina sem adrir, ok þótti hún all-nærri sèr; var þeim blótad ok talat til mörgum illum ordum. Grímr prestr baud þeim er

taladi at lesa fadirvor í módurmáli, ok þat gjördi hann tvisvar, en lèt jafnan nokkut eptir; þá mælti prestr: lestu rètt bölvadr! hann las þá rètt, ok mælti: ekki þarftu at bölva mèr, ek verd vid þat sem ek var í upphafi. Hvat varstu í upphafi? sagdi prestr; röddin mælti: ek var kalladr höggormr fyrst; hvad heitir þú nú? mælti prestr; hann svarar: djöfull ok andskoti. Hans Wíum sýslumadr mælti: viltu ekki glíma? ekki, segir hann, nema þú farir af fötunum; þá glími ek ei vid þik, sagdi Wíum. Þá hafdi röddin klámrædur ok brígsli vid Wíum ok adra, ok fleygdi hurdinni af badstofunni, ok þótti þeim sem hann færi med henni, ok hvirfladi henni í lopt upp af midjum vegi; þeir spurdu hann at hvort Gud væri gódr? hann játti því; þeir spurdu hvort hann væri sannordr? hann kvad ei þurfa at efa eitt hans ord. En þeir menn er frá þessu hafa sagt ok mörgu fleiru, er ek tel eigi, voru svo merkir, at ei má rengja frásögnina, þó menn skilji ei orsökina, en þat voru Þorsteinn sýslumadr Sigurdarson ok Pètr sýslumadr sonr hans; má ok ætla, at Hans Wíum hafi eigi allt logit, er hann hefir þarum ritid, en ek hefi sèd brèf hans til Halldórs biskups um þat. Nær páskum hvarf röddin, ok tel ek ekki þat er ek hefi heyrt af slíku fleiru í munnmælum, nema þat eitt, sem á vorum dögum er almælt ordit á Austrlandi, at drengr nokkurr hvimleidr hafi horfit litlu ádr enn röddin heyrdist af nálægum bæ, en sídan, er hana þraut, hafi hann aptr komit, ok ordit þá sjúkr, ok beidzt prestsfundar, ok sagt sik anda þennan verit hafa, ok þá krappast komin er þeir sýslumadr ok Grímr prestr lètu eittsinn sópa greipar eptir hönum í gaungunum, en komist þó þá á bita; sídan er sagt hann hafi dáit, en þess er ekki getid at hann hafi spurdr verit med hverjum hætti hann fèkk gjört sik ósýniligan, ok varla er þat skiljanligra enn at andi mætti mæla. Þó er einna líkust gáta þeirra, er ætla verit hafa búktalanda einhvern, einkum fyrir því, at þó þat væri möguligt at andi fengi mælt þannig, þá er látbragd ok ord sum, er þessum er eignat, helzt til heimskligt til þess; en þó at þetta sè líkast til, þá vitu menn þó engin dæmi til þess á Íslandi. Þeir Grímr prestr ok Hans Wíum áttust margt vid í eljaraglettíngum í ordum; kvad Wíum um födur hans:

Á Hrafnkelsstödum bóndi bjó, Bessi fyrr á dögum,
eldi bædi ok eitri spjó, eptir norsku lögum.

En Grímr sneri uppá Jens, födur sýslumanns, ok kvad:

Á Skridu klaustri valdsmann var Wíum fyrr á dögum,
med korda sínum kauda skar, contra norsku lögum.

Þann vetr þóttust Austfirdíngar sjá orminn í Lagarfljóti koma upp í þremr hlykkjum, ok hvern hlykk sem skip sexært at lengd, en Eggert ok Bjarni hafa þess getid í ferdabók sinni, at slíkar ormasjónir í vötnum, er menn hafa vída þókzt sjá á landi hèr, ok svo sannordir ok margir saman, at ei má neita nokkut verit hafi, muni vera dampi nokkur, ok vitum vèr ekki hvad sannast er í því.

## XVII Kap. Vidburdir þau misseri, ok umskipti.

Þennan tíma voru taldar 50 þúsundir manna ok 7 hundrud í landi hèr, ok fullfjölgad sídan stórubólu, en nú gjördi hin mestu hardindi manna á milli um vetrinn, ok lógudu margir peníngi til bjargar sèr. Gjördi vatnshríd mikla hinn 12ta dag Martíí mánadar, ok fylgdu snjóflód ok skridur, svo at margar jardir fengu tjón af, en sumstadar tók hús med fjám inni; fyllti þá med ís fyrir öllu Nordrlandi ok Vestrlandi. Þá druknadi Eyríkr prestr Þórdarson at Nesi í Reykjadal af byttu í Laxá, ætludu menn hann á sundi týnzt hafa, því hann kunni þat, ok allir voru þeir brædr hans syndir; hann var son Þórdar prests í Hvammi í Hvamms-sveit, Þórdarsonar, Finnssonar, Sigurdarsonar prests á Ökrum, Finnssonar; fèkk Vigfús prestr Sigurdarson, kapellán Bjarnar prests Magnússonar at Grenjadarstad, kallit, en druknadi um sumarit á hinni sömu byttu, ok í ánni sömu. Fleiri menn druknudu þá í vötnum; fór saudamadr frá Múnkaþverá ofan um ís í Eyafjardará med 50 sauda, ok annarr seinna týndist med sama hætti; tveir druknudu í Fnjóská, einn í Öxará í Ljósavatnsskardi, ok tveir í Skagafirdi. Illhugi Jónsson gjördist þá prófastr í Árnessþíngi. Komu nú út konúngsbref: eitt um aptans fyrirkall í sakamanna-málum, annat um uppheldis-penínga ekkna, eitt um þá er semja rángar ákærur, ok eitt um hjúskapar skilnad fyrir fjærvistir. Þorvaldr prestr Stephánsson ýngri at Hofi andadist, son Stepháns prófasts Ólafssonar í Vallanesi, ok var þá gamall mjök; einnig Ólafr prestr Jónsson í Stóradal austr, Björn prestr Gottskálksson at Stad í Grindavík, Jón prestr Ólafsson at Kálfatjörn,

ok Gísli prestr Hannesson. þá kom út Skúli Magnússon med landfógetadæmi, ok hafdi fengit Videy til ábylis, ok settist þar um vorit; en Björn Markússon kom út til Skagafjardarsýslu, ok hafdi fengit danskrar ekkju þeirrar, er Anna Glahn hèt; hún óttadist jafnan um, at hann lèti hana ekki einhlýta, ok var vanstilt í skapi, ok helzt um þá sök, en nokkut þótti tilhafit, ok fèll eigi vel á med þeim; Björn var gæflyndr madr ok lèttlyndr, medalmadr vexti, raudleitr í andliti; hann settist at Ökrum, þar Skúli bjó ádr. Kristján Drese fór þá utan, en Jón Hjaltalín lèt af Kjósar sýslu, ok tók vid Gudni Sigurdarson. Jón Hjaltalín átti Mettu Maríu Hansdóttur, býfógeta frá Jótlandi, ok margt afkvæmi; voru synir hans: Oddr, fadir Hans kaupmanns Hjaltalíns ok Jóns prests, ok þeirra systkina, Hans ok Páll, ok Niels lögrèttumadr. Urdu nú Stiptamtmannaskipti: Henrik Ochsen deydi, er Íslendíngar höfdu lítt af at segja, en tók vid Otto Manderúp, greifi af Rantzau, ágætr höfdíngi, ok þóttu þau skipti til góds. þau misseri gjördist Jón Eyríksson Baccalaureus í heimspeki, en vildi ei meistara nafnbót; hann ætladi sèr at gjörast gudfrædismadr, en Bolle Willum Luxdorph, er þá var Jústizrád, sídan hinn mesti stórhöfdíngi, bad Lodvík Harboe biskup at fá sèr íslenzkan stúdent, er mætti læra sik á norræna túngu, ok vísadi hann hönum á Jón; hafdi hann sídan bord med hönum dagliga, medan hann var í Kaupmannahöfn. Meinamál voru á þíngi úr Snæfells sýslu: höfdu systur tvær lýstan födur at börnum sínum þann mann, er Einar Sveinsson hèt; hann þótti ei nóg prófadr, en var strokinn, ok dæmdist rètt-tækr, en þær urdu fríar vid meinasökina. Annarr madr hèt Sigurdr Einarsson; hann hafdi getid barn vid systurdóttur sinni þórdísi; þau voru dæmd frá lífi, en sök þó skotid til konúngs. Gudmundr Pantaleonsson hèt madr úr Ísafjardarsýslu, ok Íngvildr Jónsdóttir, er til dauda voru dæmd fyrir slíka sök, ok skotid þó til konúngsnádar. Tveir þjófar af Bardaströnd voru dæmdir á Brimarahólm eda þrælkunarhús í Kaupmannahöfn. þá var grasár í medallagi sydra ok vestra, en illt nordr um; var vætusamt ok snjóadi þar í hundadögum, ok nýttust illa hey, en batnadi vedrátt sídan. Kristján Píngel amtmadr fór utan þat sumar, ok hugdi at fá laun meiri, en Magnús Gíslason lögmadr var skipadr til at þjóna at amtmanns verkum; gjördist þá Björn Markússon Vícelögmadr. þess er ádr getid, at Jón prófastr

Magnússon fèkk þórunnar, dóttur Hans Skeríngs á Mödruvöllum, Laurussonar ok Gudrúnar Vigfúsdóttur, ok var þat á þessu hausti, en þeir voru brædr þórunnar: Laurits, er deydi frumvaxta, David, Hannes ok Vigfús. Var þá gódr öndverdr vetr. þeir höfdu komit út á Vestmannaeya-skipi Eggert Ólafsson ok Bjarni Pálsson, ok höfdu fengit styrk til farar af gjafar-stiptun Árna Magnússonar, med fylgi Mölmanns, er þá var bókavördr konúngs, ok sídan sagnaritari hans, ok annad fleira; tóku þeir at kanna edlisháttu Íslands, gröe ok steina, dýr ok jardartegundir; þeir skyldu ok safna fornum bókum, ok sjá sik fyrir um hverskonar frædi.

## XVIII Kap. Ætt Benedikts lögmanns ok hans barna.

Í þann tíma var margt afkvæmi Bjarnar at Bustarfelli fyrir nordan land; Marteinn, son hans, bjó at Bustarfelli, hann átti Margrètu Egilsdóttur, prests at Kálfafelli ok Rannveigar Stephánsdóttur, prófasts í Vallanesi; þeirra börn voru: Egill ok Jón, ok Rannveig, er sídar átti Hannes Skevíng, Hansson frá Mödruvöllum. Gróa Bjarnardóttir átti Högna Eyríksson, lögrèttumanns hins stóra frá Búlandi, Bjarnasonar, Eyríkssonar; þeirra dóttir var Vilborg, er Benedikt prestr átti, son Árna í Krókum. Ragnheidi Bjarnardóttur átti Björn í Bödvarsdal, Ólafsson prests, Ásmundarsonar; þeirra börn voru: Ingibjörg, er þórdr átti Árnason, ok Björn. Jón, son Bjarnar, bjó at Eyrarlandi, hann átti Helgu, dóttur Magnúsar á Espihóli, Bjarnarsonar, Pálssonar; hún var sköruglig, ok margt barna; Björn ok Vigfús ok Magnús voru synir þeirra er til meiníngar komust. Gudrúnu, dóttur Bjarnar, adra enn þá er úti vard á Reykjaheidi, átti Einar prestr á Skinnastödum Jónsson, Einarssonar prests, Nikolássonar, er lítt er at gódu getid, né hans kynsmanna, ok tímgadist þat ekki. þat var göfugast af ætt Bjarnar, er frá Benedikt lögmanni ok þórunni, dóttur Bjarnar, var komit, en þessi voru börn þeirra: Jón, Gudrún, Sigrídr, þorsteinn, Björn, Elín, Elízabeth, þó gekk þat flest nidr. Jón var fremstr barna Benedikts lögmanns, hann var þá sýslumadr í þíngeyarþíngi, ok bjó á Raudaskridu, ok átti Sigrídi Jónsdóttur prests, Sæmundarsonar, en börn engin; hann var mikill vexti ok þúngfær af holdum, svo at hestar

barn hann eigi lengi; störleitr, hardeygdr, nefstór ok varaþykkr, þótti framar myndugr enn mannúdligr, ok nokkut hardr í hèradsstjórn, dugdi eigi at mæla í móti hönum, ok at öllu var hann hinn alvarligasti madr, ör ok stór í skapi, ok vinfastr vel, en ekki var hann mjök vinsæll alþýdu, skorti ok heldr búsæld. Sigrídr, systir hans, gat barn vid Jóni, syni þorgríms á Skjöldólfsstödum, Jónssonar, Gunnlaugssonar prests í Mödrudal, Sölvasonar prests, Gottskálkssonar frá Reykjum, Magnússonar frá Reykjum í Túnguseit, Bjarnarsonar; hún vildi at hann fengi sín, en Jón Benediktsson leyfdi þat ekki; hèt barnit Hallgrímr ok kalladr seinna Bachmann. þorsteinn Benediktsson bjó at Laxamýri, hann átti Hólmfrídi, dóttur Jóns prests Ketilssonar, ok börn mörg, voru þar med Jón, er prestr vard, ok Gudrún, er laungu sídar átti Sigurdr Snorrason. Björn Benediktsson var fadir Gudrúnar, er Jón átti, son Gríms á Giljá lögsagnara í Húnavatns-þíngi, Grímssonar. Elíni Benediktsdóttur átti Björn prestr Magnússon at Grenjadarstad, er opt er getid; þeirra börn voru: Vigfús, Magnús ok Einar, prestar. Elízabethu Benediktsdóttur átti Jón, son Árna í Bólstadahlíd, er bródir var Benedikts lögmanns, þorsteinssonar sýslumanns, Benediktssonar í Bólstadarhlíd, Bjarnarsonar frá Hofi, Magnússonar, Bjarnarsonar, Jónssonar biskups, Arasonar; en ekki var Björn prestr í Bólstadarhlíd sonur Elízabethar. Öll voru börn Benedikts lögmanns mikil vexti sem módurfrændr þeirra.

## XIX Kap. Frá ýmsum ill-tídindum.

1751. Þann vetr, er ádr er getid, næstan því er þeir Eggert ok Bjarni fóru at kanna Ísland, eptir hann midjan, hardnadi vedrátt nordanlands; var þá daudt ádr meir enn 40 manna í hardrètti, á Lánganess-ströndum, í Fljótsdals hèradi utarliga, ok um Vopnafjörd, ok 40 bæir í audn, en nú gjördi kolfelli kríngum Lánganes, ok margir flosnudu upp; höfust hardindi mikil í landi; eyddist heil kyrkjusókn í Vopnafirdi, ok fènadr fèll fyrir nordan land. þat bar vid nóttu fyrir þorra, at brann bær at Elvikárvöllum í Borgarfirdi, at Sigurdar Jónssonar, er þar var fyrrum sýslumadr, ok er mælt at yrdi af tóbakspípu eldi; voru þau gömul bædi Sigurdr sýslumadr ok Ólufr kona hans, en Páll, sonur þeirra, skólagenginn ok mannvænligr, bar þau út, fór hann sídan inn

aptr eptir fleiru, ok lètst þar ok 6 menn adrir. Þat eignadi hjátrú sumra manna óhreinum Gudrídar Henriksdóttur, systur þeirra brædra Ólafs ok Sigurdar, er dáit höfdu hjá Sigurdi sýslumanni; en sumir, er enn voru óvitrari, ef á mætti gæda, eignudu þat draugi nokkrum í kona mynd, er sendr hefdi verit Sigurdi, ok var ei slík trú öll þrotin, en álfatrú var mjök þrotin, því fáir þóttust í þennan tíma gánga til þeirra í hóla eda steina. Sigurdr sýslumadr fór eptir brennuna vestr at Setbergi til frænda sinna; hafdi brunnit inni allmikit fè, en 7 menn komust af alls. Sigurdr sýslumadr átti son annan, Jón, er sídan var prestr at Hvammi í Nordrárdal; en dóttur hans eina átti Gudlaugr prestr, son Sveins prests vid Hellna, Gudlaugssonar ok Helgu Jónsdóttur, prests frá Stadarstad; tók Sveinn prestr Hvamm í Nordrárdal þessi misseri, ok lifdi þar árit, ok var næstr fyrir Jón prest Sigurdarson. Aflalítid var þá fyrir sunnan ok nordan, en allgott undir Jökli. Á þeim vetri myrdtu þrír menn í Eyafirdi: Bjarni Árnason, bródursonr Einars í Gröf, er nautid vard at bana, ok Jón ok Helgi Sigurdarsynir, dreng einn, bródur þeirra Jóns ok Helga; þeir medgengu ok voru dæmdir, ok höggnir sídan eptir dómi, ok dysjadir vid Klofasteina nedan hagan, ytst í Mödrufellshrauni; bjó þá Þórarinn sýslumadr Jónsson at Grund, þar strauk frá hönum þjófr, Sigurdr Gudmundarson, ok stal aptr á Svalbardsströnd, ok nádist þar; hann var dæmdr at Grítubakka, ok hengdr nidr vid sjóinn á Ströndinni.

## XX Kap. Hèr hefr vidburdi Fridreks konúngs 5ta.

Fridrekr konúngr hinn fimti tók sèr þat fyrir at rètta vid Ísland, ok lagdi þar á mikla stund; en óhægdir ok hardindi þau, er þá fóru í hönd, ollu því, at midr vard ágengt enn hann vildi, ok enn óvilji landsmanna vid allar nýar tilskipanir, ok þar med óhöpp, er fældu menn frá, en allramest samheldisleysi, ok eigingirni sumra þeirra manna er konúngr trúdi fyrir miklum peníngum. Þeim Eggert Ólafssyni ok Bjarna Pálssyni hafdi konúngr at eins umbodit at fara út híngat, ok safna því öllu er ádr er ord á gjört, ok var fyrir því Eggert ei í þeim umdæmum at hann mætti miklu orka, en heilhugi var hann vid landit. Komu þeir Bjarni eigi út þetta sumar. Konúngsbrèf komu út um

lögdag, ok þíngdæmdi á lögþíngi, um kyrkjujardir, er seldar eru; um tóbaks verkstad; rekstr sakamanna mála, ok at hýddir menn ok markadir dæmist í þrælkun. Þórarinn sýslumadr á Grund fèkk eitt brèf fyrir sýslunni, ok annat Pètr Þorsteinsson fyrir Múlaþíngi, því Þorsteinn fadir hans lèt þar af sýslu. Var ok Þórarni umbodit at gjöra skodun á Hólastól, sídan er Skúli Magnússon hafdi vid skilit, en Bjarni Halldórsson ok Gudni Sigurdarson sýslumenn höfdu þá tekit út. Píngel amtmadr kom út ok frú hans, ok hafdi hann eigi fengit þat er hann hafdi eptir leitad. Kammerit ritadi þat enn út híngad, at Hans Wíum sýslumanni skyldi verda vikit frá embætti, til þess er rekit yrdi barngetnadar-mál Sunnivu; skyldu þeir vera kommissaríí yfir hönum: Björn Markússon Vícelögmadr ok Þórarinn sýslumadr. Þýzkr madr kom út af konúngs hendi, er gjöra skyldi ýmisligan klædavarnad, þar hafdi konúngr lagt til 400 dali; hann kom med verksmidju sína, ok settist at á Leirá med Magnúsi lögmanni Gíslasyni; bodit var hverjum at leggja til klædasmidjunnar sem vildi. Annar norrænn akryrkjumadr kom út, er konúngr hafdi gefit 100 dali til at koma hèr á akryrkju; hann settist at í Skagafirdi med Birni Vícelögmanni, ok reyndi lítt til, vard hönum ok ei ágengt. Slík var hin fyrsta byrjun, en Fridrekr konúngr hèldt því sídan fast fram, svo at ætlandi er at enginn konúngr muni jafnmikin hug lagt hafa á velfarnan lands þessa, ok hafa þó margir mikin álagt.

## XXI Kap. Annat er til bar.

Undir Messudagana lagdi út skip eitt úr Helgafellssveit, er á voru vinnumenn þrír frá Helgafelli, ok svo formadrinn; hann hèt Rafn, ok var vanr at segja, at aldrei lèti Gud þann vind koma, at stórskipum væri ei fært, en nú fór hann á hinu stærsta skipi í svo hægum vindi, at öllum bátum var fært; fór einn madrinn naudugr, því hann vildi aldrei samþykkjast ofhledslu hans, sá hèt Hákon, frændi ok fóstrsonr Snorra prófasts; þeim barst mjök á, ok mest fyrir ofhledslu, svo ausa vard, ok er Hákon var uppgefinn at ausa, ok svo formadrinn, því hann dugdi eigi betr, settist Hákon undir stjórn, en sídan sökk ok hvolfdi, týndist formadrinn, en hásetar nádu tveir í skipit, ok sleit

frá aptr, ok drukknudu. Hákon komst á kjölinn eptir stýrislykkjunum, ok rak á hönum um hríd; kom þá skip siglandi úr sömu sveit, hladit af fiski, ok gat ei atdugat hónum, en hann rak vestr í Flóa, sídan nordr ok sudr, ok þá nordr aptr, eptir því sem vindr ok straumar báru hann; var þat á fimtudegi sem hrakníngr sá hófst, en á sunnudag undir hádegi fannst hann af kyrkjufólki úr Ellidaey, med lítilli rænu, yfirkominn mjök af vosbúd ok kulda; buxur ok sokkar var núit í sundr, en hold ok skinn marit inní bein, því bylgjurnar höfdu slegit hönum til ok frá um kjölinn; hann vard sídan alheill, en á skipi þessu týndust 17 hundrud fiskar med höfdum. Jón Brynjólfsson Thorlacíus, son Brynjúlfs þórdarsonar, hèldt þá Kyrkjubæar klaustr eptir Eyvind Jónsson, ok sókti á þíngi Bjarna Nikolásson sýslumann um álags dóm, ok vannst ei at; gjördist í þann tíma þorsteinn, son Bjarna, lögsagnari hans. Á því þíngi kom fyrir dulsmál úr Hnappadals sýslu; hafdi Jón Bjarnarson ok Sigrídr Thómasdóttir ordit sek um þat, en Jón þó sekr at auki í þremr hórdómum; voru þau dæmd frá lífi, en hennar málefni þó skotid til konúngs, ok þó þeirra beggja. Ólafr Jónsson lögsagnari, á Eyri vestr ok Erlendr sýslumadr Ólafsson áttu þar mál saman, ok þar var lesin upp Instrúkzión Skúla. Egill hèt madr, Gudmundarson, ok kalladr Snotrufóstri; hann var hálfær, ok hafdi mælt illyrdi mikil vid Pètr þorsteinsson sýslumann, hafdi Hans Wíum dæmt málit, ok dæmt hann sýknan, en fyrir þat dæmdist á hann málskostnadr nokkur til þessa þíngs, en Egli fèsekt, ok þó hlíft sakir fásinnu hans. Sumum mönnum þótti þat ills bodi um sumarit, at mikit var af fidrildum nordanlands bleikgulum, kölludu sumir náflugur eda ræníngjaflugur, ok er sagt at þau sèu alltíd utanlands. Gott var þá grasár fyrir nordan, en verra sudr ok vestr um land, ok þó vedrátt gód, þar var ok nýtíng allill. Fór þá utan Niels Horrebow Assessor, med gódum lofstýr landsmanna, ok Skúli Magnússon landfógeti, ok hafdi hann margt fyrir stafni, en Horrebow gaf konúngr 100 dali ferdarpenínga. Heimtr var þá skattr einn at konúngsbodi í heimanfylgju prinsessu nokkurrar, 10di hluti af inntektum þeirra manna er höfdu meir enn 100 dala laun; þó galtst hann ekki þá. þau misseri andadist húsfrú Valgerdr, er átt hafdi Steinn biskup; ok tók vid prófastsdæmi í Eyafirdi af þorsteini prófasti Ketilssyni, þorlákr prestr þórarinsson, þorlákssonar, er nefndr

hefir verit; hann var skáld ok læknir, ok prestr til Mödruvalla í Hörgárdal, ok bjó at Ósi. Hallgrímr prestr Eldjárnsson fèkk Bægisá. þetta sumar kom krónugjald fyrst híngat í landit, en um haustid týndist í vedri skip á Flateyardal; ok á því ári hefr Gudlaugr prestr Sveinsson annál sinn.

## XXII Kap. Frá hardindum.

1752. Þann vetr eptir var vedrátt góđ til þorraloka, en þadan af hardnadi allt fram um páskir; var líkt fyrir sunnan ok nordan, en vestra ok í Nordr-Múlasýslu var hardara, ok drápust hross mörg, enda var þá kominn helzt til mikill grúi hrossa hjá mönnum, svo at annan peníng bar ofrmagni; var allvída hallærit ok mörg misferli. Í þeim hardindum var þat, eda nokkuru seinna enn hèr var komit, at þorsteinn prófastr Pètrsson á Stadarbakka tók 6 börn af sveit, skyld sèr, ok ól upp öll. þennan vetr var svo mikit frost, at frostsprúngurnar fundust í grasdölum sudr eptir um sumarit, 40 fadma lángar eda meira. Fiskiafli var allr lítill, en 13 skiptapar eda 14 urdu á Nesjum sudr, ok fjárskadar svo miklir í Borgarfirdi, at tvær þúsundir fjár týndust í einni saman Mýrasýslu; landskjálftar voru ok þann vetr sudr í Ölvesi, ok hrundu 11 bæir.

## XXIII Kap. Annat er tilbar um sumarit.

Um sumarit komu út konúngsbod, ok var ámálgat um prinsessu-skattinn; gaf þá Fridrekr konúngr fríheita-brèf þeim fèlagsmönnum, er standa skyldu fyrir ullar-verkstad, fiskiafla umhverfis landit, ok ödru, ok til at leggja þar grundvöll til gaf hann 15 þúsundir dala; hann gaf ok landinu tvær fiskiduggur, med öllu er til hlýddi, ok komu þær í fardögum, ok verkfæri öll til verksmidjunnar, ok Danneberg verksmidarmeistari med fólki sínu til Reykjavíkr; var konúngi þakkat med ljódum í nafni Íslendínga fyrir duggurnar, en þat gjördi Gunnar Pálsson, ok var verdt at fleiri hefdi gjört. Bændr danskir ok norrænir voru ok híngad sendir med hjón sín, ok skipt um landit í ýmsa stadi; vard þó ekki jafnmikill hagr af duggunum sem ætlat var, en af jardyrkju

nýttist ekki um sinn. Skúli landfógeti hafdi keypt fiskinet á Sunnmæri ok flutt inn til Hafnarfjardar; hann hafdi hönd í öllu því er fyrir var haft, ok svo hafdi verit alla stund, frá því hann kom til embætta, um þat er til hans mátti ná; var hann stórhuga ok umfángs-mikill, ok kom sèr furduliga fram vid konúnginn; dró hann fram málefni landsins ok svo sjálfs sins, ok hafdi náliga allt þat er hann beiddist; hann kom ok út ok settist at heima. Horrebow gaf þá út ritlíng sinn um Ísland, er fyrri gátum vèr, á danskri, þýzkri ok franskri túngu, ok hratt af því ámæli; var því svo at sjá sem allt vildi at veitast at rètta vid landit, annat enn ár þat er var; en annat rit, er Horrebow hefir skrád um búnadarháttu ok vidrèttíngu landsins, hefir ei prentad verit. Píngel amtmadr fèkk þá lausn frá embætti sínu, ok var Magnús lögmadr Gíslason settr fyrir þat aptr. Ólafr Árnason lèt af Bardastrandar sýslu; þángat var skipadr Davíd Skevíng, Hansson frá Mödruvöllum; en í stad Hans Wíums, er frá var vikit fyrir Sunnivu-mál, var settr á medan í sydra Múlaþíng Jón Sigurdarson; hann hafdi fyrri verit settr fyrir Skaptafells sýslu, ok var máladeilu-madr mikill, átti hann ok í slíku vid Hans Wíum; hann var bródir Vigfúsar í Hjörtsey, en sonr Sigurdar Einarssonar, þorsteinssonar í þykkvabæ, ok átti Kristínu, dóttur Eyvindar duggusmids, klausturhaldara í Kyrkjubæ, ok þórunnar Sæmundardóttur, Hrólfssonar. Var nú at konúngs bodi Klausturhóla hospítal flutt at Kaldádarnesi. Komu þeir út um sumarit Eggert Ólafsson ok Bjarni Pálsson at skoda land ok allt ástand þess, undir umsjá Vísindafèlagsins; fóru þeir um land um sumarit, ok voru sídan at því verki um nokkur misseri. Einar Magnússon, sýslumadr í Stranda sýslu, kom á þíng med Jón Jónsson, er drepit hafdi barn sitt á Holtavördúheidi fyrir tveim vetrum; var hann dæmdr ok af tekin nú þíngi, klipinn fyrst, ok höggvin af höndin. Sigurdr Vigfússon úr Dölum flutti ok þángat þorleif þjóf, þórdarson; hann var dæmdr til kastala-þrældóms í Kaupmannahöfn. þar sókti Jón Brynjúlfsson Thorlácius álagsmál sitt, ok var dómarinn, þorsteinn lögsagnari Bjarnason, sektadr til fjár; Bödvar Jónsson, sýslumadr í Vestmannaeyum, vard ok fyrir bótum fyrir ólögligan dóm einn, ok enn fleiri sýslumenn. Björn Gudmundarson hèt þjófr úr Rángárþíngi, er dæmdr hafdi verit til kastala-þrælkunar af þorsteini sýslumanni Magnússyni, ok var þat

stadfest; en annálamenn segja, at tveir þjófar úr Rángárþíngi hafi hengdir verit, ok hyggjum vèr lítil rök fyrir.

## XXIV Kap. Mannalát ok annat.

Sumarit var kránkfeldt ok svo haustid, ok öndudust gamlir menn ok úngmenni; þá deydi húsfrú Gudrún Einarsdóttir, er Jón biskup Árnason hafdi átta; hana skorti 3 vetr á nírædan; ok Jón, er hèldt Reynistadarklaustr, Vigfússon frá Hofi, Gíslasonar, Vigfússonar, Gíslasonar lögmanns; vard ærit fljótt um hann; son hans var Jón, er kalladr var Skevíng; efniligr ok gáfadr vel, en komst í her af svalli; annar hèt Vigfús, ok bjó seinast at Hofi á Kjalarnesi. Einnin dó Einar prófastr at Kyrkjubæ, hafdi verit málasókna-gjarn, son Hálfdanar Jónssonar á Reykjum, Ásmundarsonar á Lituvöllum, Brynjúlfssonar á Skardi, Eyríkssonar, Torfasonar í Klofa; hans börn voru þau meistari Hálfdan, Sigurdr ok Álfheidr; ok enn Högni prestr Bjarnason á Ásum; þorsteinn prestr í Holti, Oddsson, Eyólfssonar, fadir Jóns klaustrhaldara, er opt er getid vid mál í Skaptafells sýslu; Gestr prestr at Brautarholti, Árnason, födurfadir Gests prests þorlákssonar; Sveinn prestr Gudlaugsson í Hvammi í Nordrárdal; þorvardr prestr Magnússon at Saudlauksdal; þar kom Björn prestr Halldórsson aptr, frægr madr; Hjalti prófastr þorsteinsson í Vatnsfirdi, er þar hafdi verit um 60 ár, ok þó ádr í Skálholti; þórarinn prófastr Jónsson at Hjardarholti. Halldór biskup fór utan; hann hafdi fengit meinsemd í munn eda túngu, ok vildi leita sèr lækníngar, ok um þær mundir hyggja sumir Stephán prófast Einarsson vígt hafa þá 3 presta, er hönnum er eignat, en má þó hafa skedt milli þeirra Steins biskups; afsakadi Stephán prófastr sik frá stiptprófastsdæmi fyrir heilsubrests sakir, en þó var hann þá forseti í Synodalrètti, ok tók vid því Jón prófastr Magnússon á Hólum, bródir Skúla; en Halldór biskup deydi á utanför sinni, ok var jardadr at Frúrkyrkju í Kaupmannahöfn. Halldór biskup hafdi verit kennimadr mikill, ok kalladr trúmadr, rádsettr ok vel at sèr um marga hluti, frídr sýnum, en undarliga þótti hann raupsamr; hann hafdi átta þóru, dóttur Bjarnar prófasts í Gördum, ok er fyrri getid, voru börn þeirra: Brynjúlfr smidr ok Snæbjörn prestr, Björn kaupmadr ok Páll, Jórunn, er átti Jón,

Brynjúlfsson Thorlacius, Vilborg, er átti Beinteinn Íngimundarson, Margrèt, er átti Gísli prófastr Snorrason, er sídan var í Odda, ok enn fleiri; Elín hèt ein, hún gat barn vid Eyríki Laxdal. Grasvöxtr var þá í medallagi ok minni ok nýtíng ill; höfdu þá fiskidúggurnar Íslenzku fengit 200 tunnur fiska í afla sinn um haustit, ok fór önnur utan, ok á henni Skúli Magnússon landfógeti, ok tók þar til sem hann hvarf frá ádr; var í þann tíma mjök margrædt um, hvar stadar mundi nema þat er fyrir stafni var haft.

## XXV Kap. Hèr teljast helztu menn í landi.

Nú viljum vèr, ádr lengra fer, nefna þá menn saman, er þá voru samtídis uppi, ok ei adra enn þá, sem helzt voru merkiligir af embættamönnum. Ólafr Gíslason var biskup í Skálholti, er ádr er getid, Magnús lögmadr á Leirá hafdi amtmanns sýslun á hendi; hann var mjök vitr madr, ok rádfljótr um allt ok drjúglyndr, lítill vexti; hann hafdi mannvirdíngu mikla ok kom sèr vel vid, ok var allvinsæll; hann átti þórunni Gudmundardóttur frá Álptanesi, Sigurdarsonar lögmanns, Jónssonar, systur Eggerts á Álptanesi; þeirra dóttir var Sigrídr, ok þótti þá ekki annar kvennkostr betri. Sveinn Sölvason á Múnkaþverá var lögmadr fyrir nordan, stilltr madr, vel viti borinn ok lærdr, skáld merkiligt; ekki var hann frídr sýnum nè stórmannligr at sjá, en sómdi sèr, lá drjúgt rómrinn, ok þykknadi af holdum; hann var gamansamr í vidrædu ok ordhittinn, ok kalladr nokkut kýminn ok sèdr. Björn Markússon var Vicelögmadr, ok er getid ádr. Skúli Magnússon var landfógeti, ok er ok getid ok ei gjör, þvíat mikit má af hönum segja; hann var hinn fjörgasti madr, stórbrotinn ok hugadr vel til hvers sem at kom, þótti nokkut svadafenginn á hinum fyrri árum, ok frekr vid öl, ok nokkut harddrægr; voru þarum sagnir margar, ok sumar sannar; þótti hönum gaman at því hverr sem einbeittr var í gódu eda illu; hann var vel munadarleysíngjum, ok kalladr raungódr, ok var trúlyndr, heldr hár medalmadr, rèttvaxinn ok hörundsbjartr, toginleitr ok bólugrafinn mjök, varaþykkr, dökkeygdr ok hvasseygdr, hraustr til heilsu; ekki var hann mjök lærdr madr, en skyngódr vel ok djarfr, ok þurfti lít fylgis annara. Pètr þorsteinsson var sýslumadr í Nordr-

Múlasýslu, vitr madr ok vel at sèr, skörugligr at sjá, drjúgum ritfær, audgefinn, en ekki ör af fè; en í ödrum hluta var Hans Wíum; hann var hardgjör ok óvílsamr. Sigurdr Stephánsson í Eystri-Skaptafells sýslu; Bjarni Nikolásson í hinni vestri, medallagi vinsæll; þorsteinn Magnússon á Rángárvöllum, hann var merkiligr madr, lögvitr ok virdr vel; Brynjúlfr Sigurdarson í Árnessþíngi, hann bjó í Hjálmholti ok var audmadr mikill ok fjárafla madr; átti hann margt barna, hètu Einarar tveir, Gudni, Helga ok Íngibjörg. Sigurdr landskrifari var bródir hans, er átti Helgu, dóttur Brynjúlfs þórdarsonar Thorlacíuss á Hlídarenda ok Jórunnar Skúladóttur, ok margt barna; lifdi þá Brynjúlfr þórdarson, ok var gamall ok þau Jórun bædi. þorsteinn Hákonarson var hèradsdómari í Gullbríngu sýslu; Gudni Sigurdarson sýslumadr í Kjós, hann var sonarson Runólfs Sveinssonar, lögrèttumanns merkiligs, á Stafnesi; Árnór Jónsson frá Ljárskógum, Árnórssonar, í Borgarfirdi, hann bjó at Belgsholti, ok var ólærdr ok lítill vexti, en bædi hvatr ok vitskarpr; þorgrímr Sigurdarson á Mýrum. Steindór Helgason í Hnappadal, ok þótti einna minnstháttar sýslumanna þá; Gudmundr Sigurdarson at Íngjaldshóli, bródir þorgríms. þeir brædr þóttu hardir nokkut; Gudmundr var lærdr vel, audugr ok umsjónarsamr, ríklundadr var hann, ok eigi mjök vinsæll alþýdu, en virdr af hinum fremri mönnum. Sigurdr Vigfússon hinn sterki í Stóraskógi hafdi Dalasýslu, ok ætla menn hann hafi dáit þessi misseri er nú eru talin, heldr enn hin næstu eptir. Bjarni Pètrsson bjó at Skardi, er fyrr var sýslumadr á Bardaströnd; hann var hinn audugasti madr ok ríkilátr, ok heldr vid aldr. Erlendr Ólafsson hafdi Ísafjardarsýslu, ok gekk hönum mjök þlykkjótt; Einar Magnússon Strandasýslu, ok lítt vinsæll. Bjarni Halldórsson á þíngeyrum hèlt Húnavatns sýslu ok klaustrid; hann var audugr ok ríkilátr, ok stórtækr í athöfnum, vel at sèr í lagaviti, ok hèradsríkr mjök, umsýslumadr mikill, drjúglyndr, hár medalmadr á vöxt, stinnvaxinn, en er hann fitnadi vard hann ákafliga digr; smáeygr var hann, snar ok fagreygr, nefit stórt ok lidr á, bjúgt ok mjótt framan, dökkr á hár ok heldr svipmikill, lágrómadr nokkut ok digrrómadr, hófsmadr vid drykk, en kræsinn mjök í matnadi, ok kalladr nokkut fègjarn. Jón Benediktsson hafdi þíngeyarþíng, mikill madr ok hardgjör, trúlyndr ok ríklundadr. þorarinn Jónsson á Grund er

nefndr fyrri, hann var fridr madr sýnum. Jón Magnússon var stiptprófastr í Nordrlandi; bródir Skúla, ok er sagt um hann nokkut ádr. Stephán prestr Pálsson var í Vallanesi; Jón prófastr þorláksson á Hólmum, Bergr prófastr Gudmundarson í Bjarnanesi, þorleifr Bjarnason, þorleifssonar, Árnasonar, at Kálfafelli á Sídu; Jón Jónsson til þykkvabæar í Álptaveri; Hálfdan Gíslason í Eyvindarhólum; Sigurdr prófastr Jónsson at Holti undir Eyafjöllum, klerkr gódr; Högni Sigurdarson at Breidabólstad í Fljótshlíd, merkiligr at mörgu, hann var fadir þeirra Högnasona, er allir voru prestar; Gísli Snorrason frá Helgafelli, Jónsson, Magnússonar, í Odda; Philíppus í Kálfholti, Gunnarsson, Einarssonar, þorsteinssonar í þykkvabæ; Gudmundr Högnason at Kyrkjubæ í Vestmannaeyum, vel at sèr; Magnús þórhallason í Villíngaholti, Íngimundr Gunnarsson í Gaulverjabæ, Halldór Brynjúlfsson í Hraungerdi, Haflidi Bergsveinsson í Hólum, eru frá hönum margir menn; Illhugi prófastr Jónsson í Hruna; þórdr Jónsson í Reykjadal, sá er í málunum átti, ok lítt hæfr til prestskapar. Magnús á þíngvelli Sæmundarson prófasts á Miklabæ í Skagafirdi, Magnússonar í Brædratúngu, Sigurdarsonar; Jón Andresson í Arnarbæli; Jón þórdarson í Skálholti; þorgeir Markússon á Útskálum, hann var skáld; Sigurdr Jónsson á Kálfatjörn; Gudlaugr prófastr þorgeirsson í Gördum á Álptanesi, merkiligr madr; Gísli Sigurdarson til Seltjarnarness; Egill Eldjárnsson at Mosfelli, hann var nordlenzkr, bródir Hallgríms prófasts, ok var seinna á Útskálum. Einar at Reynivöllum Torfason, Halldórssonar frá Reykholti, Jónssonar, Bödvarssonar; þorvardr í Saurbæ vid Hvalfjörd, Audunnarson, Benediktssonar prests á Hesti, Pètrssonar, sidlátr madr ok vel fjáreigandi; Ólafr Brynjúlfsson í Gördum á Akranesi, bródir Halldórs biskups; Gísli prófastr á Melum, Bjarnason, Sigurdarsonar, Árnasonar lögmanns, Oddssonar, hardgjör madr af sèr ok eljunarsamr; Finnr prófastr í Reykholti, Jónsson, Halldórssonar, hann var lærdr vel ok mjök framadr, ok þótti mikilsháttar sem fadir hans, drjúgr í flestu, ekki kalladr ör af fè, mikill madr vexti; Sigvaldi Halldórsson at Húsafelli, bródir Bjarna sýsumanns; Jón Jónsson at Gilsbakka; Jón Sigurdarson frá Hvítárvöllum at Hvammi í Nordrárdal, allstórmannligr madr; Sigurdr Jónsson í Stafholti; Illhugi Halldórsson í Borg, bródir Bjarna sýslumanns, hardgjör ok allsterkr, óeyrinn ok lítt klerkligr í

háttum; Vigfús Jónsson, Halldórssonar, var prófastr í Hítardal, ok vitdr vel, sem þeir frændr, hann var fadir Eyríks prófasts í Reykholti. Pètr í Miklaholti, Einarsson, Halldórssonar, frá Ólafsvík, Gudmundarsonar, kalladr fjárhyggjumadr mikill, hann var fadir Pètrs í Gördum. Gísli prófastr Magnússon at Stadarstad, ok þótti skörugligr höfdíngi; Gudmundr Ísleifsson í Neshrepp; Vigfús Erlendsson at Setbergi; Snorri prófastr at Helgafelli, Jónsson, Magnússonar; Ásmundr Jónsson at Breidabólstad; Hannes á Kvennabrekku, Bjarnarson frá Melum, þórdarsonar, Ormssonar í Eyum; þorsteinn í Hvammi í Hvammssveit, þórdarson, þórdarsonar, Einnssonar; Gísli Jónsson í Saurbæ vestr, ok átti systur Jóhanns Gottrups, þeirra son var Ólafr, er í málunum átti sídan; Sigurdr Sigurdarson í Flatey, bródir Gudmundar á Íngjaldshóli; Sigurdr þórdarson á Briamslæk, hann átti Sigrídi, systur Ólafs í Svefneyum Gunnlaugssonar, ok voru þeirra synir Gunnlaugr prestr ok Gudbrandr prestr. Björn Halldórsson í Saudlauksdal í Patreksfirdi, lærdr madr ok merkiligr at mörgu; Hallgrímr á Rafnseyri, Jónsson prests, þórarinssonar prófasts frá Hrafnagili, Jónssonar. Hákon á Álptamýri, son mála-Snæbjarnar, Pálssonar, Torfasonar; Magnús prófastr, bródir hans, á Söndum; Sigurdr Sigurdarson at Holti í Önundarfirdi; þorbergr Einarsson á Eyri vid Skutulsfjörd; Magnús prófastr í Vatnsfirdi, Teitsson, Pálssonar, Torfasonar, hann var fadir Markúsar stiptisprófasts í Gördum sudr. Snorri at Stad í Adalvík, son Bjarnar frá Hvanneyri, þorsteinssonar í Höfn, þorgeirssonar, hann var gáfadr vel ok syndr, hardgjör af sèr ok allsterkr, fjörgr ok hugadr; smidr var hann enn. Jón prófastr Pálsson at Stad í Steingrímsfirdi; þorsteinn prófastr Pètursson at Stadarbakka í Midfirdi, er getid hefir verit at gódu; Ormr prófastr Bjarnason at Melstad, hann var þá gamall, klerkr mikill, gildligr ok öldrmannligr; Halldór prestr Hallsson at Breidabólstad, er opt er getid, ok nú gamall. Jón Vidalín at þíngeyrum, Jónsson, Pálssonar lögmanns, ok hafdi nýfengit þar veitíngu; þorsteinn prófastr Ketilsson at Hrafnagili, merkiligr madr; þorlákr prófastr þórarinsson til Mödruvalla, er bjó at Ósi. Benedikt Pálsson at Miklagardi, bródir Gunnars ok Bjarna, ok verdr enn getid; Stephán prófastr Einarsson at Laufási, lærdr madr ok merkiligr; Jón at Múla, þorleifsson prófasts, Skaptasonar, spaklátr madr; Björn Magnússon at

Grenjadarstad, er fyrr var prófastr, mikilsháttar; Stephán prófastr at Presthólum, Þorleifsson, Skaptasonar, lærdr ok allskörugligr, en lítt stilltr vid öl. Einar Jónsson var þá skólameistari í Skálholti, en Gunnar Pálsson at Hólum; eru ok enn margir prestar ok adrir merkismenn ótaldir. En á þeim misserum, er sídast var getid, hafdi þat enn ordit til tídinda, at skip týndist frá Grímsey med 10 mönnum, er eyarmenn höfdu sendt í land til at lètta af sèr.

## XXVI Kap. Frá ýmsum umskiptum ok tilraunum.

Vetrinn annan eptir útkomu þeirra Eggerts ok Bjarna, er var hinn 1753.
þridji í hardinduuum at því er almennt er talit, var vetrarfar allgott, en aflaskortr mikill. Þá andadist hinn 9da dag Jóla Ólafr biskup Gíslason af taksótt, ok gjördist Finnr prófastr Jónsson Officialis þridja sinn; en þar á eptir dó Sigurdr prestr í Flatey, Einar prestr Oddsson eldri á Lundi, ok Helgi Bjarnason at Mosfelli í Grímsnesi, einnin Illhugi prófastr Jónsson í Árnessþíngi, er hèldt Hruna; þar tók vid prófastsdæmi Jón prestr Þórdarson. Í Eyafirdi lèt Þorlákr prestr Þórarinsson af prófastsdæmi, en Hallgrímr prestr at Bægisá, Eldjárnsson prests, Jónssonar, Þórarinssonar frá Hrafnagili, tók vid, bródir Egils prests sydra. Gudni Sigurdarson lèt ok af Kjósarsýslu, en Gudmundr Runólfsson fèkk brèf fyrir henni, ok var hann ólærdr, sem sýslumenn margir fyrrum. Jón, sonr Eggerts á Álptanesi, Gudmundarsonar, Sigurdarsonar lögmanns frá Einarsnesi, var settr fyrir sýslu í Dölum, en Davíd Skevíng, Hansson frá Mödruvöllum, fèkk konúngsbrèf fyrir Bardastrandar sýslu; hafdi hann verit settr fyrir hana ádr um vetrinn eptir Ólaf Árnason, en fyrst var hann bókhaldari í Reykjavík vid sýslanir þær er þar voru upphafdar. Davíd var frídr madr sýnum ok látadr vel; hafdi tekit vid bókhaldara sýslu eptir hann Ólafr, son Stepháns prests frá Höskuldsstödum, ok hèldt lengi, en Skúli gekk mest fyrir yfirsýn allri ok umsýslu er þar var. Gunnari Pálssyni, skólameistara á Hólum, var veitt Hjardarholt í Dölum, en Stephán, son Bjarnar prests á Hjaltastödum, Skúlasonar á Seilu, Ólafssonar, skyldi standa þar fyrir skóla læríngu; skipti mjök um, þvíat hann var styrdlyndr ok óþydr. Þá kom híngad Courantsgjald í landit, ok þótti þat mikill hègómi þeim mönnum er

peninga rœktu, ok lètust ei reikna mega. Þat vard þá rídt um Þorgeir prest Markússon á Útskálum, at hann falsadi nokkut kaupmannssedla tvo í Keblavík, ok var bodin sætt med 30 dala medallagi, en vildi eigi gánga at því, ok dæmdi sídan Þorsteinn Hákonarson lögsagnari frá hönum æru ok embætti; eptir þat orkti hann ydrunarsálma. Jón Þórdarson, er prófastr gjördist í Árness sýslu, fèkk þá Hruna; en Reynistadar klaustr var veitt Þóru, ekkju Halldórs biskups, ok þótti þat nýúng; hún hafdi þar sídan allskörugligt bú, ok nær 40 nauta. Var hèr þá biskupslaust í landi. Þeir Eggert ok Bjarni höfdu átt frjálsan flutníng um land hèr til, en nú voru þeim í þess stad lagdir til á ári 60 dalir. Þá komu þeir ok út Þorkell Jónsson ok Sveinn Jónsson Reetz, med brèf frá konúngi at mega grafa eptir málmum ok ödrum jardartegundum med lidsinni sýslumanna, en þar vard þó ekki af; ei vard heldr af akurirkju hinna útlendu manna þat sumar. Skúli landfógeti kom út; hann hafdi haft kostnad mikin, ok ordit at fara landveg gegnum Noreg ok Svíþjód; hafdi Fridrekr konúngr gefit 16 þúsundir dala til framkvæmdar ok eflíngar þeim hlutum, er fyrir voru ætladir, ok til frama landinu, en þar hafdi Skúli umrád yfir, ok var forstjóri, ásamt Magnúsi Gíslasyni lögmanni, ok þeim sýslumönnum: Þorsteini Magnússyni úr Rángárþíngi, ok Brynjúlfi Sigurdarsyni í Árnessþíngi. Brennisteinsverk var ok hafit í Krýsivík, ok fyrir því danskr tilsjármadr, ok heyrdi þat enn til því, er landinu var lagt. Finni prófasti í Reykholti var ætlad Hóla biskupsdæmi, en er Ólafr biskup Gíslason var andadr kaus hann Skálholts stipti heldr, ok var hann nú kalladr til Skálholts; fór hann sídan utan eptir vígslu, en Gísli prófastr Snorrason í Odda var settr fyrir stiptid. Skúli landfógeti hafdi mjök í ferdum sínum kært á kauphöndlun hörkramara-fèlagsins; fyrir því voru nú, at bodi greifa Rantzovs stiptamtmanns ok Kammersins, ok Magnúsar lögmanns Gíslasonar, er í amtmanns stad var, tekin þíngsvitni af öllum sýslumönnum, þar sem kaupstadir voru nærri, um kauphöndlun þess fèlags; var hún all-ill at vísu, ok gengu kaupmönnum þíngsvitnin allþúngliga, en sumt var þó ofaukit er alþýda sagdi til, sem opt kann vera þar er menn skulu bera vitni í sjálfra sinna sök, ok vænta heldr fylgis. Magnús lögmadr ritadi þat ok embættamönnum, at örfa skyldu upp alþýdu til þakklætis vid konúnginn,

fyrir gjafir hans allar ok góðvilja vid landit, ok var þat vel verdt, þó lítil yrdi nótin. Var hvorutveggja, at Íslendíngar tóku ekki mjök vel nýbreytni, ok varla þó hún væri þörf eda í gódu skyni, enda seldist ekki betr út: urdu gjafirnar fáar at lidi, eda þóttu koma fram, olli því at sumu leiti fjærlægd landsins vid konúnginn, ok misjöfn millifærsla egingjarnra manna, er konúngar ok stórhöfdíngjar megu láungum trúa fyrir fè sínu ok framkvæmdum, en sumu olli óhægd atfærslu, kunnáttuleysi ok vanhirdíng þeirra er at duga skyldu, ok óvilji ok vanvizka innlendra í at nota sèr; var ok nokkut at kenna óhöppum er þar jukust á, ok svo ári þvílíku, er dróg dug úr mönnum; en útfall á öllu slíku gjördi landsmönnum tilbreytíngar at leidari, ok framkvæmdina daufari af þeirra hendi er hana skyldu sýna; hefir þat ok verit háttr Dana ok margra þjóda annara, at þá er nokkut mistekst einusinni, er mikit er tilkostad, verdr eigi framar reynt til hins sama; enda eru eigi allir konúngar jafnörvir eda jafn vel vidlátnir at hafa svo mikin kostnad, ok helzt ef þeir reyna ótrúleik af mörgum í medferdinni, ok marga torveldni.

## XXVII Kap. Ár ok adrir tilburdir.

Á því sumri gaf konúngr þorgeiri Markússyni uppreisn aptr. þá var grasvöxtr í minna lagi vídast um land, ok nýtíng ill fyrir regna sakir, þó var einna bezt í Eyafirdi, þar til um haustid, þá vesnadi árferdi, ok eigi minnst þar ok nordr undan. Tödur lágu úti í Húnavatnsþíngi, sakir votvidra ok snjóa, til þess í Októbri; var þá kallat hardindis-ár á landi ok sjó, ok gjördi snjóa ok jardbönn á öndverdum vetri. þat haust deydi yfir bordum at Stadarstad, at Gísla prófasts Magnússonar, Gudmundr sýslumadr Sigurdarson at Íngjaldshóli, ok heldr snöggliga, var þar margrædt um af alþýdu, ok kallat hann mundi hafa grandat sèr sjálfr, en merkiligir menn, er ek hefi vid mælt, hafa ei viljad annat sanna enn þat, sem sæmiligt er, ok má þó þykja grunsamt; því þat er sannsagt, at þíngsvitni hafdi nýliga gengit at Sydri-Gördum, er rengdi nokkurn hans framburd þann er ádr var sendr utan, ok þat eitt vitu menn, at hann mátti sèr til áhyggju taka; en þat segir fjölmenni, at vöruhúsa-gluggar í Ólafsvík hafi verit brotnir

til stuldar; ok vissi eingin hverr gjört hafdi, en sídan, er sýslumadr skyldi midla mönnum korni til bjargar, því hann hafdi þá lykla, brysi hann ei innsiglit nè lyki upp, en færi um glugga, ok þó svo at margir væri vid, ok tæki þar út kornit, ok þætti þat óhöfdínglight, ok hann yrdi sjálfr grunadr um at vita til, ok þat yrdi hönum at brigsli, en hann tæki sèr þat nær; en þat var þá mælt um umbod ok sýslu þar vestra, at fáir mundu vel frá sleppa, ok hann, þó jafnan verit uppgángsmadr. Þurfu menn varla at ætla, at fáist þat um fráfall hans eda tilefni þess, er visst er med öllu; skrádi Eggert Ólafsson sídan æfi hans ok ordstír, ok hljódadi mjök á annan hátt enn ord alþýdu lèk á þar í sýslu. Þá andadist ok Markús Bergsson, sýslumadr í Ísafirdi. Einar Jónsson, skólameistari í Skálholti, hafdi gefit upp at kenna sakir augnveiki; var hann þá settr fyrir Snæfells sýslu; hann var af Hofsætt úr Skaptafells þíngi, ok lágr á vöxt; er margt fólk frá hönum, ok fadir var hann Ísleifs Assessors ok Gísla prests í Selárdal, en utanlands sókti um sýsluna med umbodinu, ok fèkk hana, framadr madr ok Studíosus júris Jón, sonr Árna á Arneidarstödum í Múla sýslu, Þórdarsonar, Árnasonar á Móbergi, Þorleifssonar, Jónssonar lögmanns á Reynistad, Sigurdarsonar; var Árni Þórdarson audugr madr, ok audsælir voru þeir frændr; ok ei veit ek hvort Jón fèkk sýsluna þessi misseri, ætla ek þat hafi ei verit fyrr enn eptir um vetrinn. Gjördist þá Rektor í Skálholti meistari Bjarni Jónsson, merkiligr kennandi. Þá fèkk Þórarinn sýslumadr Jónsson at Grund Sigrídar yngri, dóttur Stepháns prests á Höskuldsstödum Ólafssonar, giptist hún frá Birni prófasti at Grenjadarstad, módurbródur sínum, en var fyrst alin upp á Eyrarlandi med Helgu; hún var væn kona ok gódr kostr, ok áttu þau 5 sonu sídan, er allir menntust vel. Sigrídar eldri fèkk Kristján prestr Jóhannsson, en Önnu Vigfús Skeving, Hansson frá Mödruvöllum, ok var þat seinna; hún var ok gódr kostr, sköruglig ok fríd sýnum. Þá var á þeim vetri öndverdum, er nú var sídast getid, í Decembri, kóngsbrèf útgefit um þat, at gjalda skyldi af hverjum 8 tíundarhundrum skildíng um allt land, til byggíngar 2ra jarda, er eydzt höfdu í Nordr-Múlasýslu; en þó þat væri svo tiltekit at um tvö ár skyldi gjalda, þá var þat helzt til lítid.

## XXVIII Kap. Hardindi.

Þessi vetr var hinn hardasti hvervetna í Nordrlandi; kölludu margir 1754.
Hreggvid; gengu hrídir á nordan ok vestan allt til Midgói; var 18 vikna skorpa á Skaga, en þá blotadi í Eyafirdi, ok nordr undan var betra; var þá hinn mesti fellir um allt land, ok helzt fyrir nordan, þar fellu 4 þúsundir hesta, ok 50 þúsundir fjár, at því er sagt hefir Jón Ólafsson á Grímsstödum, því hann reit annál; áttu þeir menn 30 fjár um vorit, sem 5 hundrud höfdu átt um haustid, ok má af því sjá hverr grúi hefir kominn verit fjár ok hesta, ok hve mjök menn hafi sett á útigánginn. Margir urdu þá saudlausir, en sumir mistu vitid med; kom vída ekki jörd upp fyrrenn eptir sumarmál; orkti Sveinn lögmadr Sölvason kvædi um þennan vetr, ok fleiri menn. Fiskiafli var ok mjök lítill; hæstir hundrads hlutir sydra ok vestra, en verra austr undan; lágu hafísar lengi, ok vard lítill grasvöxtr.

## XXIX Kap. Útkoma Skálholts biskups, ok annat.

Konúngsbrèf kom þá út, at hefja skyldi lögþíngit hinn 3dja dag Júlí, ok annat um hverr sitja skyldi í stiptamtmanns sæti í Synodalrèttinum; einnig um þat, at madr einn skyldi takast af, er barn hafdi getid vid barnsmódur sonar síns í Bardastrandar sýslu, ok var þat gjört. Bod kom ok um þat, at Gísli prófastr Magnússon á Stadarstad skyldi utan fara, ok vígjast til biskups at Hólum. Finnr Jónsson var vígdr til Skálholts af Hersleb, ok kom hann út; hafdi hann fengit 200 dala í nádargjöf af konúngi árliga til handa prestum í Skálholts biskupsdæmi. Annarr kom út Jón Árnason, sýslumadr undir Jökli; hann var frídr madr sýnum ok lèttr í vidmóti, lítill vexti, skrautmadr hinn mesti; en Einar Jónsson gjördist þá rádsmadr í Skálholti. Hinn þridji madr kom út Magnús, son Ketils prests í Húsavík, Jónssonar, Ketilssonar frá Eydum; hann var systurson Skúla landfógeta, ok hafdi fengit Dala sýslu, ok lærdómsmadr var hann, komst hann þar brátt yfir fjárhag mikin. Þá var Birni Markússyni Vícelögmanni bodit af Magnúsi lögmanni Gíslasyni at hafa á hendi Hólastól, ok gjöra reikníng fyrir. Skúli kom út, ok hafdi konúngr gefit hönum sjálfum 2 þúsundir ok

200 dali. Bergr Gudmundarson. var prófastr í Eystri Skaptafells-sýslu, en Jón Bergsson í hinni vestri; Gísli prestr Bjarnason á Melum í Borgarfirdi. Á þíngi var sá madr dæmdr í þrælkunarhús um 6 ár er Jón Hróbjartsson hèt, úr Árness-sýslu; hann hafdi yfirfallit ok sært 2 menn, er eptir þýfi leitudu hjá hönum. Jón Sigurdarson úr Múlaþíngi átti þar í málum, ok þorsteinn Bjarnason, lögsagnari í Skáptafells-sýslu, var sektadr um ránga dóma. Erlendr Ólafsson úr Ísafirdi var dæmdr frá sýslu fyrir ólögligar ok hraphalligar framfarir í þjófamálum, fór hann utan sídan, ok fèkk hæsta-rèttar stefnu. Sigurdr landþíngsskrifari Sigurdarson átti mál vid Bjarna Nikolásson sýslumann, hafdi látit virda fè hans útúr búi, eptir dómi, en Bjarni átaldi, ok var hann dæmdr til bóta fyrir ránga ok óþarfa ákæru. þórgeirr Markússon átaldi þar einnig þorstein Hákonarson um dóm yfir sèr, ígjalda ok tvígjalda bætr, sem þá voru í stuldarmálum, ok urdu þær ólögligar, er þorgeir skyldi dæmdr hafa verit um fals, nema konúngr hefdi nádat hann; appelleradi þorsteinn lögsagnari mál sín öll. þá var um haustid nýting verri enn heyskapr, ok tók enn at gjöra hrídir, ok hin mestu áhrun; týndust þá skip med 7 mönnum á kaupstadarför, er Bjarni sýslumadr Halldórsson á þíngeyrum átti, ok ætludu menn farizt hafa meir enn 200 dala verd af. Hans Wíum var nú dæmdr af Commissaríis at Einarsstödum í þíngeyarþíngi frá sýslu, fyrir rángt prótókollshald, ok stód þat svo um hríd; ok fèkk þorleifr prestr Bjarnason á Kálfafelli Reykholt, Jón Bergsson Kálfafell aptr, ok vard prófastr í vestri Skaptafells-sýslu, en fadir hans Bergr prestr Gudmundarson í Bjarnanesi í hinni eystri; Markús prestr frá Árnesi, son Mála-Snæbjarnar, fèkk Flatey, ok Árnes Illhugi Jónsson. Árni Sigurdarson attesteradr, son Sigurdar prests í Holti, fèkk aldrsleyfi, ok gjördist kyrkjuprestr í Skálholti. Fórust þá 7 menn á tveimr bátum vestra, ok drukknudu einstakir menn. Sótt gèkk um haustid, ok dó Ólafr Árnason, er sýslumadr hafdi verit á Bardaströnd, staddr á Vatneyri, af skyndiligum brjóstverk; hann hafdi verit all-snotr madr, en þótt jafnan hardr ok óvæginn; hafdi verit settr í Ísafjardar sýslu í stad Erlendar Ólafssonar, er þá átti í útistödum sínum, en nú var skipadr þángat þorlákr Gudmundarson frá Selárdal, er prestskapar hafdi mist, sem hann sagdi sjálfr um sik í stökunni:

Síra vard ok Seignieur, ok seinast tómr þorlákr.
Var Ólafr Árnason fadir þórunnar, er Benedikt prestr Hannesson frá Kvennabrekku átti, ok virdíngargjöf fèkk, sídan af drottníngunni fyrir handvirdir, ok Teits, en þorlákr var fadir Jóns prests þjódskálds. Fyrr hafdi andazt Bödvar Jónsson, sýslumadr í Vestmannaeyum, ok var þar settr Brynjúlfr Brynjúlfsson lögsagnari; ok enn deydi Stephán prófastr Einarsson í Laufási, er opt er getid; fèkk Jón prestr Vídalín stadinn, en Erlendr Jónsson vígdist til Capelláns at Hrafnagili; þar deydi þorsteinn prófastr Ketilsson. Enn öndudust Loptr prestr Rafnkelsson, er fyrrum var at Krossi ok dæmdr frá, ok þorsteinn prestr at Hvammi í Hvammssveit, þórdarson prests, þórdarsonar, Finnssonar frá Ökrum, Sigurdarsonar prests frá Miklaholti; þar tók Einar prestr bródir hans vid eptir hann, ok var allvel at sèr, ok laginn til lækninga; þorsteinn prestr var fadir þórdar prests, er seinna var á Mýrum, ok í Hvammi í Nordrárdal, en Einar prestr var fadir þorsteins Rangels. þessir öndudust enn: þorsteinn Pálsson í Búdardal, Torfi prestr Bjarnason at Stad á Snæfjallaströnd, ok Jón prestr Jónsson í Grunnavík druknadi. þá var borinn Stephán, hinn elzti son þórarins sýslumanns á Grund ok Sigrídar Stephánsdóttur, er sídan gjördist mikilsháttar. Jóhann Gottrúp var þá í Grunnasundsnesi med Sigrídi Salómonsdóttur, vinkonu sinni fornri, ok hafdr til at berja fisk, ok lifdi vid þat um hríd.

## XXX Kap. Hardindi, ok frá ýmsu ödru.

Sá er talinn hinn 5ti vetr í hardindunum er þá fór í hönd; hann var gódr til einmánadar ok jardasamr, en þá hardnadi vedrátt, ok gjördi 1755. hrídir sterkar, en hafþök af ísi; voru ok vorkuldar ok fiskleysi mikit; flosnudu þá margir upp, ok var umferd flökkumanna hin mesta, stuldir ok margt illt. Margir voru í þann tíma flökkumenn, er gjördu sèr dælt vid búendr, helzt konur, ok svo kotúnga, ok lètu allilla. þá voru skærur á Hólum: bar þeim til Jóni stiptprófasti Magnússyni ok Stepháni Bjarnarsyni útaf kennslu hans; var Stephán styrdlyndr, ok gjördi í móti vilja stiptprófasts ok því er rèttast var, en hann einlægr ok þá nokkut stór; dimitteradi Stephán skólasveina fjóra óyfirheyrda um vetrinn, ok suma óverduga, ok gaf þeim Testimonía fyrir utan

rád ok vitund stiptprófasts; var einn Christján Jóhannsson, er sídan var prestr ok prófastr at Stafholti; lèt hann þrjá af þeim prèdika í dómkyrkjunni í forbodi Jóns prófasts, ok er Officíalis vildi sídan í votta vidrvist yfirheyra einn af þeim: þórd, son þórodds heyrara, þórdarsonar, setti Stephán sik þar í móti, ok bannadi þórdi at hlýdnast, ok dróg hann frá því, svo at yfirheyrslan fèkk ei framgáng at því sinni; ok eitt sinn, er þeir ræddu um þetta í kvöldrökkri á Hólum, var rádizt á stiptprófast í myrkrinu, ok ætludu menn skólasveina þessa til hafda; bad hann kveikja ljós, en þraung var mikil, ok var ljósit slökkt jafnódt er þat kom upp, en prófastr nádi handfestu í ýmsum stödum, ok komu þeir hönum eigi undir. Fyrir þessar sakir lögsókti stiptprófastr Stephán fyrir prestarètti, ok var Stephán dæmdr til at gjalda 20 dali krónugjalds til Hólaskóla, ok 15 til stiptprófasts, en hlíft vid meiri sektum sakir fátæki, skyldi hann ok bidja Officíalis fyrirgefníngar. Bæturnar komu seint framm, ok vard Stephán frá skólanum; vard ok enginn skóli haldinn eptir Jól sídan, fyrir hardinda sakir. 11 menn drukknudu þá ofan um ísa í Borgarfirdi, en 6 urdu skipatjón alls; gekk sótt um vetrinn, ok var hæg; öndudust helzt gamlir menn. Bjarni Nikolásson hafdi þá sagt af sèr sýslu í vestri Skaptafells sýslu; hann átti mörg börn ok mikit afkvæmi, ok sumt göfugt; var ein hans dóttir Gudrídr, er átti þorsteinn, son Steingríms nordan frá þverá í Skagafirdi, Jónssonar, Steingrímssonar; Sigurdr var ok hans son, fadir Magnúsar á Leirum. þorsteinn lögsagnari, son hans, hafdi farit eigi vel med dómara verkum, sem fyrr er getid, ok var dæmdr óhæfr til þeirra, en eptir þat drógst hann upp í gulu ok vesöld; var Lýdr, son Gudmundar Lýdssonar, settr fyrir sýsluna, ok fèkk hann konúngsbrèf fyrir Vestmannaeyum á þessu vori, en annat konúngsbrèf var útgefit um búslódarmál þjófa. Gísli prófastr Magnússon var nú utanlands, ok skyldi vígjast til biskups; hann breytti eptir því sem gjört hafdi Finnr biskup, þá er hann fèkk til handa hinum fátækustu prestum í Skálholts umdæmi 200 krónudali hvert ár af konúngi, ok útvegadi 100 dali á ári prestum nyrdra; fèkk hann embættisbrèf sitt seint í Martío, en var vígdr til Hóla öndverdliga í Majo, ok kom sídan út til stólsins; hann var frídr madr sýnum, toginleitr nokkut ok slèttleitr í andliti, hávaxinn ok rèttvaxinn ok skörugligr at sjá. Jón prófastr Magnússon,

er stadit hafdi fyrir stipti, fèkk nú Stadarstad, ok tók vid af hönum, en Stephán Bjarnarson fór utan, ok lifdi lengi í Kaupmannahöfn vid fátæki, ok frægd af mælíngarfrædi; Illhugi Sigurdarson gjördist dómkyrkjuprestr at Hólum aptr, sá er fyrr kom í stuldarmálit, ok þótti sumum þá þegar ísjárverdt. Vigfús prestr Erlendsson at Setbergi gjördist prófastr í Snæfells sýslu, en Jón Vídalín Jónsson, Pálssonar, er þá hafdi fengit Laufás, í þíngeyarþíngi. Steindór Helgason sagdi af sèr sýslu í Hnappadal, hann var födurfadir Haflida í Grundarfirdi; var settr þar fyrir sýsluna Páll, son Axels Fridreks Jónssonar eldra frá Einarsnesi, Sigurdarsonar, ok var hann minnst virdr af sýslumönnum. Commissión var sett yfir biskupsstólana; voru í henni biskupar bádir, amtmadr, lögmenn, landfógeti ok stiptprófastar, ok enn fleiri; skyldi uppgötva ok teikna öll inngjöld stólanna, ok skilja frá biskupunum ok þeirra verkum allt þat, er dómkyrkjum ok skóla-uppheldi skyldi vidkoma; þó var eigi at því gjört at því sinni. þá sumradi ærit seint, ok var illr heyskapr ok nýtíng, þó allgott grasár fyrir nordan, ok svo fiskiafli, en illa nýttist hann sakir votvidranna. Voru þá svo miklir hafísar, at tvö kaupskip komust ei á hafnir fyrir nordan, ok fóru ei á brott fyrrenn í öndverdum Septembri. Brynjúlfr Brynjúlfsson var lögsagnari í Vestmannaeyum; hann hafdi dulsmál fyrir á þíngi, ok hèt sú Anna Árnadóttir er at því var völd; var hún dæmd frá lífi, en þó skotid til konúngs; önnur hèt Íngibjörg Loptsdóttir úr Rángárþíngi, er eins gekk um. þjófar nokkrir voru ok dæmdir til þrældómsvinnu, ok þar gjördist um mál þorsteins Bjarnasonar lögsagnara. Erlendr Ólafsson hafdi unnit mál sitt um sinn ok sýsluna fyrir hæsta rètti, þó med bótum miklum, ok þorlákr Gudmundarson stadit fyrir sýslunni sídan Ólafr Árnason dó, medan stód á útistödum Erlendar, en nú var enn Erlendr dæmdr at nýu frá sýslu. Hans Wíum hafdi farit utan hit fyrra árit, ok var nú kominn út, ok hafdi fengit hæsta-rèttar stefnu uppá mál sitt. Skúli landfógeti fór utan ok Danneberg verksmidjumeistari í Reykjavík; hann hafdi endat hèr tíd sína, ok haft 800 dala laun á ári, ok þóttist þó eiga hugnun nokkra at Skúla, er sèr hefdi heitin verit; áttu þeir útaf því mál saman, ok svo vard um fleiri, at hlutdeild þeirra vid Skúla lyktadi med málssóknum; er svo sagt, at Danneberg hafi unnit sitt mál. þann tíma gjördist Hálfdan Einarsson

prófasts, Hálfdanarsónar, Rektor á Hólum; hann var Attestatus ok lærdr vel.

## XXXI Kap. Eldsuppkoma, mannalát, hardæri.

Í September mánadi gjördust landskjálftar allmargir, ok var einn mestr, hrundu þá í grunn bæir á Tjörnesi, ok vídar urdu skadar vid sjóarsídu. þareptir gjördi dunur ok bresti í lopti fram undir vetrnætr, fylgdi því loptrik ok móda; en hinn 17da dag Októbris mánadar hljóp fram sá hluti af Mýrdalsjökli, er Kötlugjá nefnist, med landskjálftum, dunum ok eldgusum miklum, svo logadi í himin upp; þat stód í 14 daga, ok var opt dymmt á midjum dögum, ok mínkadi þadan af, en færdist yfir nálægar sveitir, Sídu, Skaptártúngur, Medalland, Álptaver ok Landbrot; var þar þá fallinn álnar þykkr sandr á slèttlendi, en hálf alin á hæstu hólum; misstist nær öll málnyta af peníngi, en tveir menn fengu bana; þá brádnudu steinar sem feiti. Lögdust 50 býli í eydi, þó þau byggdust aptr sídan, ok sýktust margir menn af vedráttu þeirri er af stód, en peníngar stráfèllu. Er svo sagt, at landskjálftinn hafi færzt yfir sem lognalda á sjó, ok þar sjórinn tekit vid sem landit þraut, ok þóttust þeir hætt komnir sem úti lágu at fiski. þeir Eggert ok Bjarni skrásettu þessi tídindi, en Jón Eyríksson, er ádr er getid, ok var í Kaupmannahöfn, sneri á Dönsku ok lèt prenta; hann gjördist sídan hinn mesti merkismadr. Íllt var þá haust ok hardt, ok komust skip í nordrhöfunum naudugliga út; rak Eyafjardarskip nokkrum sinnum tilbaka, allt fram í Nóvember; er þess getid, at kaupmadr nædi þá einum íslenzkum manni á skipit, ok fengi þat sídan hradbyri, eptir fornri hjátrú. þá andadist húsfrú Margrèt Jakobsdóttir í Brædratúngu, ekkja Ólafs biskups, ok prestar nokkrir: Bárdr prestr Jónsson í Holtum, Bergsveinn prestr Haflidason frá Stad í Súgandafirdi, Íngimundr Gunnarsson í Gaulverjabæ; þann stad fèkk aptr Jón prófastr at vestan, Teitsson prests, Pálssonar; Olafr Jónsson á Snæfjöllum; þórdr Eyríksson prests í Vogsósum í Selvogi; hann hafdi verit karlægr af líkþrár sýki; ok enn andadist Snorri Jónsson, er fyrr var prófastr á Helgafelli, en fyrst skólameistari á Hólum, son Jóns Magnússonar gamla, en fadir Gísla prófasts í Odda, ok Gunnlaugs prests ok Jóns; var hann komin

austr at Odda til Gísla prófasts, en Gunnlaugr prestr, sonr hans, hafdi tekit vid Helgafelli af hönum fyrir tveim vetrum sídan, ok hélt þat lengi; var hann kalladr skáld gott, ok hefir orkt fædíngar-sálma ok lofkvædis-sálma, ok enn fleira, ok Hebresku kunni hann; gjördist prófastr þar vestra Vigfús prestr Erlendsson, ok er getid fyrri. Snorra Edda var þau misseri gefin út á franska túngu, ok prentad var á Hólum: Hallgríms sálmar, idrunar-sálmar Þorgeirs, dægrastytting Steins biskups ok Gradnale. Lagdist nú vetr at snemma, þegar eptir Michaelsmessu, med snjóum ok frostum; gjördi vedr svo mikit í Decembri, at braut kyrkju á Söndum í Dýrafirdi, timbrkyrkju forna, ok vídar spillti þar húsum. Var sá vetr mjök hardr frá nýári, helzt fyrir nordan 1756.
ok austan land, ok er talinn hinn 6ti í hardindunum; rak inn hafísa á einmánadi fyrir öllu Nordrlandi, ok hlánadi aldrei til Krossmessu; magnadist þá óárit fyrir nordan ok sudr um Borgarfjörd, ok vard hinn mesti fellir fjár ok hrossa, en þó mannfellir meiri vestra; lögdust í eydi 20 jardir Hólastóls í Fljóta umbodi einu saman, ok ei galdst þar nema 20 dala verd fyrir 227; voru þá miklir stuldir um land allt, ok hross etin; lágu ísar fram um hundadaga, ok var kaldt mjök vorit, ok óstödugt; nádu sum skip eigi höfnum fyrir nordan; afli lítill, ok batnadi aldrei vedrátt á þeim misserum; en í Skaptafells sýslu var allt umturnad af jökul-hlaupi ok sandfalli, ok Kyrkjubæar ok Þykkvabæar klaustr nær í eydi.

## XXXII Kap. Mordverk Jóns Helgasonar, ok enn fleira.

Um vetrinn, hinn 26ta dag Janúaríí mánadar, gjördi snjóflód í Vatnshlíd á Vatnsskardi, ok kom á badstofuna í því er Björn bóndi Þorleifsson kom frá saudum ok gekk í hana, ok mælti er hann heyrdi dyninn: "hvada bölvud suda er þetta?" Oddný, systir húsfreyu, komst á bita, ok fékk brotizt út um glugg, ok gat nád bæum; ok er menn komu til, fannst húsfreya med lífi undir stafnvegg, ok lá fram á barns ruggu; hún dó sídan, en barnit sakadi ekki; en bóndi fannst daudr í gaungum; vinnukona fannst laungu seinna med lífi; hún var dóttir Hannesar prests Þorlákssonar. Þá sókti Björn prestr Þorláksson á Hjaltabakka laxveidardóm Gríms Grímssonar á Litlu-Giljá milli sín ok

þíngeyraklaustrs, á alþíngi, ok var Arnórr sýslumadr Jónsson af hans hendi, en Bjarni Halldórsson af sinni hendi ok Gríms; ónýtti Ólafr Stephánsson Vícelögmadr dóm Gríms, en opit skyldi málit; var ok Bjarni fèsektadr nokkut, ok skaut mál til ædri rèttar; mörg voru þar stuldamál. þar dæmdi Magnús Gíslason amtmadr ok 13 meddómendr í yfirrètti mál Erlendar Ólafssonar, ok hèlt hann enn embætti, en sektadist um fè; ok var lýst Arnesi útileguþjóf. 2 þjófar voru hengdir úr Rángárþíngi, ok einn úr þíngeyarþíngi. Fèkk Hans Wíum at halda Múla sýslu eptir hæsta-rèttar dómi, en Sveinn lögmadr Sölvason hèlt aukalögþíng at Ljósavatni, ok dæmdi Sunnivu synjunareid fyrir bródur sinn í seinna sinn, þótt hann hefdi játad þat faderni. þar mælti Hans Wíum á móti, en Sunniva dó ádr hún vann eidinn, ok var mjök misrædt um. þá var sá madr úr Húnavatnsþíngi vestra, fyrir sunnan Jökul, er Jón hèt, Helgason, hafdi verit ódæll úngr ok frændlid hans, en nú optast spakr, ok heldr fègjarn. Kona hans hafdi unnit kaupavinnu í Neshrepp á þeim bæ er í Holti heitir; þar var fátt manna; þótti Jóni henni nokkut vargoldit; hann gekk inn at Holti um kveld, ok var bóndinn í gardi vid hey, hann hèt Stephán; fór Jón þángat ok lagdi hann med knífi, ok myrdi hann, en hann æpti vid hátt; þat heyrdi kerlíng módir bónda, ok kom út í dyrnar, ok vildi vita hvat um var; Jón sneri þar at henni, ok skar hana á háls. Bjarni hèt bródir bónda, sá var at saudum, en drengr í fjósi; eigi var þar fleira manna. Jón hugdi sèr þá at drepa drenginn, ok bída svo Bjarna; fór hann í fjósit, en pilturinn óttadist, ok smaug undir kýrnar; Jón stakk hann mörgum stíngjum ádr hann komst út, ok elti hann sídan, til þess er hann hljóp á veikan ís, skildi þar med þeim; sagdi sveinninn mönnum til, ok söfnudust þeir brádt nokkrir, en Jón fór til bæarins ódeigr, ok inn, ok stal því er til var af peníngum; hann hafdi ljós í bænum, ok er mennirnir komu at höfdu þeir ekki rád fyrir sèr, ok þordu aldrei inn, ok hurfu brott um sídir vid lítin ordstýr, en Jón komst undan ok til Hollenzkra, ok segja margir hann hafi verit hengdr í Hollandi seinast; en þó hafa sumir sagt hann hafi lengi hafzt vid í helli á Vestfjördum, ok ordit þar blindr.

## XXXIII Kap. Frá ýmsu.

Þessar stundir deydi Jón prestr Gíslason í Villíngaholti, ok Sigvaldi prestr Halldórsson at Húsafelli, Þorlákr prestr Þórdarson í Grímsey, ok Sigrídr, dóttir Bjarnar prests Stephánssonar, ekkja Jóns prófasts Halldórssonar hins fróda í Hítardal, ok módir Finns biskups. Einar á Söndum í Midfirdi, Nikolásson, Einarssonar biskups, var kránkr af líkþrá, ok dó þá, en sídan gat Bjarni Halldórsson sýslumadr unnit af Gudrúnu, konu hans, ok Ragnheidi, dóttur þeirra, at Halldór, sonur sinn, er kalladr var Vídalín, fengi Ragnheidar, því hún var haldin skörúngr ok vel fjáreigandi, ok vannst ei medan Einar lifdi, því ei þótti allmikils verdt um Halldór, kenndi ok vinnukona hönum barn á brúdkaupsdegi, ok kalladi hann af brúdbekk til hjálpar sèr í sóttinni. Þá var borinn Vigfús, son Þórarins sýslumanns á Grund. Í þann tíma hafdi Magnús amtmadr Gíslason keypt allar jardir Fuhrmanns fyrir þrjár þúsundir specíudala, ok var afsals-brèf gefit út í Florentz prestsetri. Þá voru konúngsbrèf gefin út um presta þá, er brjóta af sèr kall sitt, at konúngr einn mætti þeim uppreisn veita; annat um legordsbætur, at þar gjaldist sem hin brotliga persóna heldr sik, þegar hún verdr ber at sök. Þat sumar lágu ísar vid land fram yfir hundadaga, ok sneru Hofsóss ok Höfdaskip til baka fyrir þeim; var þá álnardjúpr snjór á Slèttu í Júlío, ok mátti ei til sláttar taka fyrr enn í Ágústo seint; voru laungum vætur ok illvidri.

## XXXIV Kap. Gjafir, ok útkomur manna.

Konúngr hafdi þá enn gefit fèlaginu í Reykjavík til styrkíngar 10 þúsundir dala, ok tók Skúli vid þeim, ok keypti inn fyrir utanlands naudsynjar til verksmídarinnar; hafdi þessi verksmíd fyrst hafizt fyrir 7 árum sídan, á klædaverkinu, þá er Skúli settist í Videy, ok var sú þörf landi þessu; lögdu saman í þat flestir embættismenn at hefja hana upp, ok var hlutad tillögum í actiur, en hver actia var 50 dalir; lögdu þeir í tvær eda þrjár actiur sem audgastir voru, ok vard hálf þridja þúsund dala; hafdi gengizt fyrir þessu Magnús Gíslason lögmadr, ok var sendt utan til at fá þar um konúngs-stadfestíngu, ok fèkkst hún brádt. Hafdi þá Skúli landfógeti tekit þat at sèr, ok rádizt

í meira, en þat var at reisa upp fullkomna klædaverksmidju; þótti sumum ofmikit írádizt, ádr menn vissu hversu hinni litlu reiddi. Sá Magnús lögmadr, at eigi mundi hin litla verda drifin at gagni, er hin mikla var samtídis henni, ok lèt af því verki, ok lèt færa hina litlu til Reykjavíkr, ok drífa þar allt saman; en þá gaf konúngr þetta fè, sem nú er getid, ok mátti þat verda stofn gódr. En er þeir peníngar voru fengnir, vissu menn ei hve mikit mundi at gjört ödrum ok fleiri nýum tilsetníngum, enda lagdi Skúli mikit í kostnad fyrir sjálfan sik, ok lèt reisa múrstofu mikla í Videy; stód nú í þessu um hríd, ok þótti þess eigi vant at Skúli drifi verkit. Komu hrútar 10 enskir til Sudrlands, er bæta skyldu saudakyn; þvíat enskt saudfè er betra enn annat; Vilhjálmr Hastfer, sænskr Barón, kom út med þá, ok safnadi til þeirra 100 ám; fór hann svo utan, at hann lèt þènara sinn eptir til umsjár því verki. Ítrekadr var enn Princessu-skattrinn; en konúngr gaf landinu tvær duggur, hladnar med gott mjöl, helzt Nordrlandi; þó komu þær fyrir sunnan, ok voru á þeim þrjár þúsundir tunnur; er mælt, at almúgi á Nesjunum hafi eigi vel eyrt fyrri enn því var lokit, ok fengi nordlenzkir minna, enda snèri annat skipit frá Nordrlandi fyrir hafísum. Haldinn var biskupsstóla-Commissiónin, ok stód yfir viku rúma, var þridjúngr af hinum vissu ok óvissu inntektum lagdr til undirhalds biskupanna, en hitt til at halda med skólana ok stólsbúin; var Sigurdr Sigurdarson landskrifari þá settr fyrir rádamann í Skálholti, en þeir mágar, Sveinn lögmadr Sölvason ok Þórarinn Jónsson sýslumadr, yfir Hólastól. Barón Hastfer hafdi látid byggja sèr stofu mikla, ok fjárhús var byggt hjörd hans, meira enn flestar kyrkjur hèr á landi, ok alþiljat; hann var hèr nokkra hríd sídan, en kona hans skemr, því hún undi sèr ekki; hann var ákafliga mikill vexti, ok haldinn ærit sterkr, en hægr ok einfaldligr í framgaungu; reyndust hrútarnir hinir ensku sídan kládugir, sem enn mun sagt verda, en ærnu var til kostad. Ólafr Stephánsson fèkk þá brèf af konúngi til at vera Vícelögmadr Sveins lögmanns, ok fyrr enn málit kom fyrir hann, er ádr er getid, en Páll Axelsson konúngsbrèf fyrir Hnappadals sýslu. Sá madr kom út um sumarit, er Brandt hèt, herramadr edr Hofsjúngkæri; fór hann utan aptr med sunnanskipum, ok vissu menn ei hvat hann hafdist at, en var í gátum, at hann mundi vilja skodast um, ok vita hvort hönum

lititst ei at fá hèr amtmannsdæmi; virdtist mönnum at hönum mundi hentara at vera í audugra landi. Lauritz Stiestrup hèt madr í Kaupmannahöfn; hann gaf út híngat Bíblíur margar ok nýu Testament, er hann hafdi keypt, ok sá þess lengi stad. Þá gjördist Illhugi prestr Sigurdarson á Hólum prófastr í Skagafirdi, en Lýdr Gudmundarson fèkk konúngsbrèf fyrir Skaptafells sýslu. Arnór Jónsson, sýslumadr í Borgarfirdi, lèt þar af, en bjó þó lengi sídan í Belgsholti; var þar settr fyrir sýsluna Jón Eggertsson frá Álptanesi, Gudmundarsonar. Jón Benediktsson, sýslumadr nyrdra í Rauduskridu, tók Björn Thómásson at lögsagnara. Mál voru nokkur, ok var eitt er Bjarni Nikolásson sýslumadr fyrrum átti vid Jón Thorlacíus, Brynjúlfsson Thorlacíus, Þórdarsonar: ákærdi hann um ránga atför, ok dæmdi Sigurdr landþíngskrifari Sigurdarson, bródir Brynjúlfs í Hjálmholti, ok gekk á Jón. Björn prestr Halldórsson í Saudlauksdal gjördist prófastr á Bardaströnd, en Jón Jónsson, Sighvatssonar, prestr til Ríps ok Vidvíkr. Þá lèt Björn lögmadr Markússon prenta sögur at Hólum, af Gretti ok Bárdi, Bandamönnum ok Gesti, Hávardi halta, Jökli ok Aulkofra, Þórdi hrædu ok Víglundi; einnin af Kjalnesíngum ok Ref, Hördi, Gísla Súrssyni ok Víga-Glúmi; þar med Robinsona, eda sögur Gustavs Landkróns ok Bertholds; þær hafdi útlagt Þorsteinn prófastr Ketilsson. Kyrkjur Dana ok Nordmanna höfdu gefit til byggíngar Hólakyrkju, ok þarmed Íslendíngar, allir saman 3 eda 4 hundrud dali hvert ár um nokkur undanfarin, ok kom út fyrir nordan þýzkr múrmeistari til at smída hana; var tekit til at brjóta upp grjót raudt úr Hólabyrdu um haustid, ok sprengt med púdri, en ekit heim á vagni um vetrinn, var þat haft til þeirrar smídar, er þar var sídan ágætliga reist, med umsjá Gísla biskups. Konúngr hafdi bodit biskupum bádum at láta halda bænadag í landi hèr sem annarstadar í ríkjum hans, óvanaligan; var hann haldinn hinn 22ann dag Októbris mánadar, til þakklætis fyrir gudliga vernd á hans ríkjum, þar sem landskjálftar ógrligir, med vatnagángi ok sjáfar, höfdu týnt ok spillt mörgu í Nordrálfunni hit umlidna ár, ok kollvarpat Lissabon, höfudborg í Portúgal, en deydt menn mjök marga, þarmed Katla spúit á landi hèr, en í Danmarkar ríki var ei meira af ordit enn svo, at varla mátti telja skada þann, er hèr vard af í landi. Var þessi dagr föstudagrinn fyrstr í vetri, ok

haldit þakklætit bædi med hámessu ok aptansaung; en svo sem árferdi hafdi verit hit versta, ok hey mjök spillt, þá gjördi áttaskipti þann dag, ok brá til gódvidra á sunnan, ok var svo opt þann vetr; en þadan af batnadi árferdit smámsaman á sjó ok landi, ok græddist undarliga fljótt saudpeníngr fyrir nordan land; þó mátti ei þá þegar fyrir afleidínga-sakir kalla lokit hallæri.

## XXXV Kap. Mannadaudi.

1757. Vetr sá var í medallagi, ok kalladr hinn 7di í hardindunum; var heldr ógæftasamt til sjóar, ok fiskiafli lítill, en menn þá svo þrotnir af því, er undan var gengit, at manndauda gjördi mikin um allt Ísland af sulti ok megurd; ollu því ok húngrsóttir adrar; telja sumir dæi fjórar þúsundir ok tvö hundrud, en 2 þúsundir ok fimm hundrud þaraf í Skálholts biskupsdæmi; 134 dóu úr vesöld í Breiduvíkrhrepp vestra, en 93 í Neshrepp, eptir því sem Jón Ólafsson á Grímstödum sagdi í annál sínum; en um þau 7 ár, sem hardindi þessi höfdu þá stadit, hafdi fækkat nær um 4 hundrud hins 5ta tugar í Skálholts biskupsdæmi, en nær 18 hundrudum ok 30 í Nordrlandi; alls hafdi fólk fækkad í landi meir enn 6 þúsundir ok 2 hundrud, ok þó sumt af landfarsóttum eda skipatjónum; er sagt ordit hafi þessi misseri 11 skiptapar. Þann vetr átti Bjarni Halldórsson á Þíngeyrum hvalmál vid Einar Magnússon, er verit hafdi sýslumadr í Stranda sýslu, ok vann þat. Dóu á þeim misserum prestar nokkrir: Jón Gissursson at Hálsi í Hamarsfirdi, Árni Franzson, er fyrri hèldt Hruna, Ásmundr Jónsson at Breidabólstad á Skógarströnd, hann var fadir Þurídar í Gördum; hún var fyrst heitinn Jóni sýslumanni Árnasyni at Íngjaldshóli, en þat drógst úr hömlu, ok átti sídan Jón Eggertsson sýslumann. Jón prófastr Sigurdarson á Skutulsfjardareyri andadist enn, ok prestar: Bjarni Jónsson í Dýrafirdi, Gottskálk Jónsson at Hvanneyri nordr, Jón Eyríksson at Gudrúnarstödum, ok Sveinn at Goddölum, Pálsson, Sveinssonar; hann var fadir Jóns prests, er sídan var í Goddölum, ok Odda, ok Páls á Steinstödum, födur Sveins læknis. Mælt er þá, at Cancelliit hafi sendt 5 þúsundir dala til Hólakyrkju byggíngar, ok má ætla verit hafi af kyrkna-tillögunum erlendis.

## XXXVI Kap. Konúngsbrèf ok embætti.

Þá var sumum gefinn upp Princessu-skattrinn at hálfu eda öllu; ok gaf Vilhjálmr Hastfer út rit um ástand Íslands ok fjárafla; var hann lærdr madr, en ei þótti þat rit mjök merkiligt, nema gott lof lagði hann á landsfólkit. Magnús Gíslason fèkk nú fullkomit brèf fyrir amtmannsdæmi, en Björn Markússon vard lögmadr sunnan ok austan í hans stad, ok lèt af Skagafjardar sýslu; hana fèkk Jón, son Snorra prófasts at Helgafelli, bródir Gísla prófasts í Odda ok Gunnlaugs prests; hann var lærdr madr, en heldr hneigdr til öls, sem þá var þó mörgum tídt. Einar Magnússon lèt af Stranda sýslu; hafdi hann verit lítt þokkadr, ok nú kominn í vandrædi. Þau voru börn Jakobs Eyríkssonar vid Búdir skilgetin: Halldór ok Jón, ok Kristín, er Árni prestr Sigurdarson átti; þeir brædur voru vænligir at sjá, ok vel um sik í mörgu, en óskaplíkir mjök; var Halldór fljótskarpr, rostumikill ok nokkut hverflyndr; hann var þá utanlands, ok hafdi komizt í áverkamál vid háskólann á Páskadegi; þó fèkk hann brèf fyrir Vestmannaeya sýslu, en var hid sama sumar settr fyrir Stranda sýslu, er Einar var frá, ok fèll lítt á med þeim; lèt Halldór prenta skrásetníngu um eldgos fjalla á landi hèr. Jón Eggertsson fèkk konúngsbrèf fyrir Borgarfjardar sýslu sunnan Hvítá, en Björn Thómasson var þá lögsagnari Pètrs Þorsteinssonar í Múlaþíngi, því hann var ei vid. Kom eitt konúngsbrèf til Skúla landfógeta, at innkalla landskrifaralaun; önnr voru ómerkiligri; ok þá var útbýtt á prestastefnu at Flugumýri 700 dölum í krónum, er Gísli biskup hafdi utvegat, en Fridrekr konúngr gaf hinum fátækustu prestum ok prestagördum, er mist höfdu í hardærinu. Var Sigurdr Sigurdarson landþíngsskrifari gjör hinn fyrsti rádamadr Hólastóls, ok hèldst þat um 7 ár. Þá kom brèf til Magnúsar amtmanns, ok baud at halda aukarètt í meinamálunum úr Múlaþíngi; ridu þeir austr Björn lögmadr Markússon, ok Þórarinn Jónsson á Grund, ok dæmdu málin, ok vann Hans Wíum eid fyrir Sunnivu; en eptir þat fannst vísa þessi á beinakellíngu, er margir eignudu Sveini lögmanni, en sumir segja hana kvedna á glugg yfir Hans Wíum:

Töpud er æra, týnd er sál; — túnglid vedr í skýum, —
Sunnivu hèr súpi skál sýslumadrinn Wíum!

Á því hausti supplicerudu embættamenn til konúngs um kauphöndlunina, en margir vissu ógjörla hvers þeir beiddust, eda hvort betra mundi vidtaka, þá nokkud þætti at hörkramara-fèlags kaupskapnum, er þó vildu fella þat fèlag; fór Skúli utan, ok hafdi vid þat kærur miklar.

## XXXVII Kap. Frá Eggerti ok Bjarna.

Þetta sumar fóru þeir Eggert ok Bjarni seinast hèr um land; voru þeir bádir lærdir menn ok viljadir vel, ok gervimenn miklir um marga hluti; Eggert hinn edlisfródasti madr, ok hit bezta skáld, vel at sèr í heimspeki ok ödrum vísindum; ann hann landinu, ok vildi af því láta því nytjast allt þat er innlendt var, en þá er hann áfrídi nokkut í kvædum sínum at slíkt væri vanhirdt, eda þótti Íslendíngar daufir eda atburdalitlir, þá var þat ekki vel þegit af sumum, en sumir kölludu hann stórlátan ok sèrlundadan; vel var hann at sèr í gudfrædi ok fornfrædi, ok nokkut hefir hönum verit líst ádr at ödru; eigi voru þeir Bjarni mjök skaplíkir, en unntust þó jafnan; var Bjarni nokkut ölgjarn, en Eggert því fjærri, ok af því ætludu sumir at kvædi Eggerts, er Flöskukvedjur heita, væri stílat til Bjarna, en þat olli at fáir menn þekktu þá slíka altída greinarlausa atfinnslu med sidudum þjódum, ok var gjarnt at taka hvad eina fyrir sneidir. Þeir Eggert ok Bjarni gjördu registr yfir bækr vid háskólann, at beidni Mölmanns ok Doktors Hauberts, ok höfdu sídan verit kjörnir af þeim til at fara út híngat, sem fyrr segir, ok safna nattúrufrædi, ok fengit styrk af stiptan Arna Magnússonar; höfdu farit fyrst um Rángárvalla sýslu, skodat Geysir ok Heklu ok annat; sídan fór Eggert vestr, en Bjarni til Leirár, ok svo nordr ok um Nordrland; á því hausti hafdi hann farit utan, ok safnat bókum mörgum fornum ok ödru fágæti, læknat ok menn. Fengu þeir Eggert gott ord, ok höfdu sídan verit sendir af konúngi, sem fyrr er getid; þeir voru optast á vetrum, er þeir voru út hèr, í Videy med Skúla, ok þá kenndi Bjarni Rannveigu, dóttur hans, kristindóm, en sjúklíngum voru opt heimilar þar vistir á dögum Skúla, því hann var þrautgódr ok ósínkr. Þeir Eggert höfdu farit um land allt, ok uppá há fjöll; þeir könnudu hellirinn Surt ok Snæfellsjökul, ok marga adra stadi; en fyrir einu

ári, er hèr var komit, hafdi komit upp sýki vid verksmidjuna í Reykjavík, er þar var köllud sárasótt, ok gjördi Bjarni uppskátt at var Venussýki sú, er köllud er hin Franska edr Fransósar, ok af öndverdu köllud Púlverja-sýki; var því þá lítid sinnt at því sinni. En þetta sumar, er nú er talit, fóru þeir Eggert ok Bjarni bádir utan; settu þeir saman bók mikla um ferd sína, en Prófessórar, er sídan voru, Jón Eyríksson ok Schönníng, umbættu þat sídan. Á þeim misserum andadist Jóhann Gottrúp at Grunnasundsnesi, af gulusótt ok annarri vesöld; hafdi hann alla þessa stund verit þar vid lítin atbúnad.

## XXXVIII Kap. Reynistadar brenna, mál, þíng ok umskipti.

Nú lètti af óárinu, ok gjördi hinn bezta vetr yfir allt land, var medal- 1758.
lagi afli sydra, en minni vestr um; þó var enn umferd mikil; konúngr hafdi þá gefit alls fèlaginu í Reykjavík 61 þúsundir ok 300 dala, auk þess er hann gaf Skúla, ok var þat nú í blóma sæmiligum, ok gekk verkit. Þann vetr gekk sótt mannskæd í Eyafirdi ok Skagafirdi; dóu þó engir nafnkendir menn, en prestar dóu eystra: Jens Jónsson í Mjóafirdi, Jón Oddsson á Hjaltastad, Sigurdr Sveinsson á Heydölum, fèkk Gísli, son hans, kallit; Einar Torfason, Halldórssonar á Reynivöllum sydra; hann fèll af hesti á ferd, ok dó af því; Gudmundr Ísleifsson í Nesþíngum vestr. Þá bjó at Reynistad húsfrú Þóra Bjarnardóttir, ekkja Halldórs biskups; med henni var Gudrún, dóttir Þorkels prests at Fagranesi er druknat hafdi med Gudmundi Steinssyni Bergmanni, hinn bezti kvennkostr; hafdi kynnzt vid hana á Hólum Þorvaldr Sörensson at nordan, er þar hafdi verit smásveinn, ok trúlofudust þau, en hann vígdist Capellán til Halldórs prests Hallssonar á Breidabólstad, ok kom at vestan um vetrinn nær einmánadar komu, ok at Reynistad; skyldi þá fara fram brúdkaup þeirra Gudrúnar víku seinna á þridjudaginn; þar vóru þá 40 menn í heimili. Á mánadaginn var borinn eldr í smidju; hún stód sunnan kyrkjugard, ok blöstu þilin vid; var smjörvaskemma fyrir, full med tjörukagga ok annat eldfimt, ok drógu menn til sídan at fokit mundi hafa eldr í. Vöktu konur tvær at kjötsodníngu um nóttina, ok urdu varar vid reyk, fóru at vekja menn, ok tókst seint, en þá hljópu menn út í nærklædum, en

sumir tóku nokkut med sèr úr rúmum, er þolnari voru; sumir fóru at sækja vatn, en engum vard fyrir at brjóta; vard bærinn allr í loga, en skemman brann ok þat er í var. Þórdr djákn, son Þórodds Þórdarsonar, ok Páll, son Halldórs biskups, fleigdu því er þeir áttu utum glugg, ok björgudu sínu öllu, en engir adrir. En er allir voru út komnir, var eptir barn í rúmi Þóru húsfrúr, Ragnheidr Vigfúsdóttir, systir Sigurdar, er sídan var prestr á Skeggjastad, en ein heimakona, er Gudrún hèt, hljóp inn, ok sveifladi saman klædunum, ok bar allt saman sudr í kyrkjugard, ok kvadst ei vita hvat í var, rakti húsfrúin sundr ok fann barnit heilt, ok gladdist vid ok launadi henni vel; þar brunnu inni lömb nokkur ok kálfar tveir, en menn engir. Þorvaldr prestr gekk um gólf á hladi, ok kvadst skyldi gefa þeim 30 dali, er nædi kistu sinni í portslopti; þá hljóp upp Brynjólfr smidr, son Halldórs biskups, ok nádi í kistuna; en í því fèll loptid ok þilit fram, ok hljóp hann út úr loptinu ok kom standandi nidr, ok hèldt á kengnum. Þar fundust 12 silfrskeidir sídan, er Halldór prestr Jónsson, er sídan var á Hólum, hafdi lèd, en annat silfr ok tin rann flest saman. Brann allr stadrinn, þó menn kæmi at, nema ein skemma nær tóm, ok kyrkjan, ok ei komst eldr í heyin; var vedr mikit medan brann, en logn eptir ok ádr. Lá fólk sídan í kyrkjunni, ok fèkk allt af faungum til, en Þorvaldr prestr fèkk ei sídr konunnar útí Vík um daginn; lifdi eldr í moldinni fram á haust. Margir gáfu Þóru húsfrú, ok hèldt hún öllum hjúum sínum nema tveimr; Magnús amtmadr baud henni til sín vid 6ta mann, Gísli biskup vid 5ta, en Bjarni Halldórsson á Þíngeyrum vid 7da mann, en hún þág þat ei, því hjú vildu þá ei vera; reid hún sídan um sumarit austr til Hlídarenda til Brynjólfs Þórdarsonar; hann lá í kör af elli; en þadan til alþíngs, ok gafst henni mikit; Halldóra Aradóttir frá Haga hafdi ein gefit henni, þær voru í tengdum; dó Halldóra litlu sídar, ok svo Þorvaldr prestr Sörensson, ok giptist Gudrún aptr seinna Bjarna presti Jónssyni at Undirfelli, er seinast hèldt Mælifell. Týndust þann vetr 9 skip á Sudrnesjum ok 3 vestra, ok á meir enn 50 menn; var enn húngrdaudi í Vestmannaeyum. Sá madr var tekinn af í Húnavatnsþíngi um vorit, er myrdt hafdi barn sitt. Gjördi þá kulda eptir fardaga, ok hindradi grasvöxt. Átti Björn prestr á Hjaltabakka í laxveidar-máli á þíngi vid Bjarna

Halldórsson, en Einar Magnússon af Ströndum, í hvalmáli, ok höfdu bádir lægri hlut; hafdi Magnús Ketilsson, sýslumadr í Dölum, dæmt í hvalmálinu, ok var þat stádfest. þar var dæmdr til dauda Jón Magnússon, þjófr úr Árness sýslu, ok tveir menn adrir, hètu Magnúsar bádir, þórdarsynir, ok voru brædr, um leti ok óknytti, til þrælkunar um hríd, ok Sigrídr Jónsdóttir í þrældóm fyrir stuld, ok svo einn úr Múlasýslu, er Jón hèt Jónsson, ok einn þjófr, er Ingimundr hèt, úr sýslu Davíds Skevíngs á Bardaströnd, ok enn fleiri. Sumar var gott ok heyadist allvel; voru gefin út konúngsbrèf: eitt um skírslu, er innsenda skyldi yfir daudadóma; annad um mjölpráng; þridja um fiskiveidar á Íslandi í 17 greinum. Jón, son Ólafs Jónssonar á Eyri vid Seydisfjörd, gjördist þá Vícelögmadr sunnan ok austan; hann þótti sumum nokkut grályndr, ok var eigi mjök vinsæll; átti Ólafr, fadir hans, í þann tíma mál vid Erlend Ólafsson sýslumann, ok hafdi af litla virdíngu; Halldór Jakobsson fèkk konúngsbrèf fyrir Stranda sýslu, en Sigurdr, son Sigurdar prests í Flatey, Sigurdarsonar á Brjámslæk, fèkk aptr Vestmannaeyar, er Halldór hafdi brèf fyrir ádr; hann var bródurson Gudmundar á Íngjaldshóli ok þorgríms í Hjardarholti. Magnús amtmadr færdi í ord, at hèr væri þörf á landlæknisembætti, ok lèt Buchwald Bjarna Pálsson rita utanlands um, hversu því yrdi hagligast vidkomit, ok um skyldu ok laun landlæknis. Var þá í yfirrètti um sumarit Jón Jónsson úr Múlaþíngi, bródir Sunnivu, dæmdr til dauda, medgekk hann brot sitt, ok sókti Hans Wíum, en Jón Snorrason vardi. Sigurdr Stephánsson lèt af Austr-Skaptafells sýslu, ok var settr Sigurdr Ólafsson fyrir hana, er sídan hèldt Kyrkjubæar klaustr, ok eigi lengi, þvíat Jón, son Helga, bónda eins úr Eyafirdi, ok bóndi þar sjálfr, fèkk sýsluna ok hèldt hana sídan mjök lengi, ok átti þó allopt þar vid ramman at draga, bædi í vidskiptum ok svo at verja framferdir sínar. Á þeim misserum kaus Koefod Ancher Jón Eyríksson Íslendíng fyrir medhjálparmann vid fyrirlestra, því hann jók vísindi sín ok kunnleik vid stórhöfdíngja, ok lagdi fyrir sik lögvísi at rádum Luxdorfs; tók hann þá lagaexamen, ok ritadist á vid höfdíngja, ok hina lærdustu menn; budust hönum sýslanir, ok vildi hann eigi at snúa.

## XXXIX Kap. Hólakyrkju smíd, ok mál Hólaprests.

Þess er ádr getid, at reisa skyldi Hóla-dómkyrkju; hafdi biskup ok amtmadr af öndverdu kært naud Nordrlands af hardindunum, ok at biskupsstóllinn ok fè hans væri mjök fallit, en Fridrekr konúngr þá af medaumkun sinni bodit at skjóta skyldi fè saman; þat höfdu fyrst hafit Kaupmannahafnarbúar, en konúngr ok konúngs-ættmenn gefit 10 hundrud dali til; fylgdu því dæmi margir ágætir menn, ok vildi konúngr at Nordrland ok allt Ísland hefdi not af; en styriöld gjördi þá í þýzkalandi mikla, ok vard konúngr at kosta miklu til varnar löndum sínum; vid þat stansadi gjafirnar. Var skipt út þúsund dölum til biskupsins á Hólum ok stólsins, en þat er meira hafdi gefizt var ákvedit til kyrkjubyggíngar; vissu menn ei hve lángt þat mundi hrökkva, ok því var álitid sanngjarnligt at Hóla biskupsdæmis innbyggendr kostudu nokkru til kyrkjusmídarinnar; fyrir því var konúngsbrèf þat gefit út, er baud almenníngi skylduvinnu at kyrkjugjördinni, en þat þótti Nordlendíngum mikil óvenja, ok hèldu þat brèf uppdiktad af landshöfdíngjum hèr, ok bádu þeim ógagns; þótti sem ei mætti landit standast undir slíku, ok var kurr mikill, urdu sumir til at flymta um. En med eptirgángsmunum miklum vard mönnum komit til þess umsídir; var lagdr til madr úr hverjum hrepp, ok gjördu margir hann út, en sumstadar úr tveimr; sumir lögdu til hest. Skagfirdíngar einir fluttu kalk til kyrkjunnar, þat var mjölkalk í tunnum, ok hafdi komit út á Hofsós skipi, ok heldr lèttara enn þýngra enn mjöl; adrir færdu at steininn til veggjanna, ok möl í kalkit; var þetta eigi svo mikit álag sem menn höfdu ætlad í fyrstu, ok gjördust þá margir audsveipari, er þat var eittsinn reynt, ok stódu allir jafnrèttir. Var á þessu hausti rifinn kórinn, ok tekit til at leggja grundvöll hins nýa, en embætti var þá flutt í fram-kyrkjunni; en er hún var tekin ofan sídan, var flutt embættid í timbrstofunni fornu; var hún svo vel uppbúin, at hafa mátti fyrir góda kyrkju, en ekki vígdi Gísli biskup þar presta; þeir voru vígdir í Vidvík medan á smídinni stód. Ríkkadi þetta mjök upp hýsíngu á Hólum, en mikla voru þar þá færri hús enn á öndverdum dögum Steins biskups; þá voru þau 60. Þann tíma deydi Gudmundr prófastr Ísleifsson á Bardaströnd; ok fèkk Jón prófastr Teitsson í Gaulverjabæ

Margrètar, dóttur Finns biskups. Mál var þá á Hólum: var Illhugi prófastr dæmdr frá kalli fyrir illyrdi vid Svein lögmann, en sídan gjördi hönum hætt vid meinu, þvíat menn vildu vita hvort hann hafdi fengit uppreisn á dómi þeim, er Skúli Magnússon hafdi dæmt þá hann var sýslumadr, um þá Skapta Árnason, bródurson Þorleifs prófasts Skaptasonar ok Magnúsar á Vídimýri, þvíat hann hafdi eigi getad hegnt þeim fyrir ófríki þeirra Skaptasona; var Illhugi prófastr þá tæpiliga staddr; en prófastsdæmi tók eptir hann Halldór prestr, son Jóns prests at Völlum Halldórssonar, Þorbergssonar, Hrólfssonar, var hann ok dómkyrkjuprestr sídan. Um Illhuga kvádu þeir, er þeir ætludu til Hóla í máli hans, Sveinn lögmadr ok Hallgrímr prófastr Eldjárnsson, ok med þeim Eggert djákn, son Eyríks Eggertssonar frá Ökrum, ok sá madr er Benedikt hèt, ólærdr ok fadir Helga prests, er sídan var í Stærra-Árskógi ok þadan fór nordr; þeir höfdu vind ok hregg á móti; Sveinn lögmadr kvad:

Illhuga ýrur skella einatt framan í Sveini.

Hallgrímr prófastr kvad:

Hallgrími hlutr fellr hvergi rýr af þeim ýrum.

Eggert kvad:

Eggert má einatt hryggja eitrud skeggbrodda-þeytíng.

Benedikt kvad:

Benedikt varla vonar vingustar fremr hinum;

ok lètu þeir þetta vera gaman. Jón Gunnlaugsson gjördist þá klaustrprestr at Stad. Dæmd var þá til lífláts Íngibjörg Sölvadóttir úr Eyafirdi, er fargat hafdi barni sínu. Þá var gott haust ok öndverdr vetr, 1759.
en í medallagi þegar áleid, ok allt árferdi þadan af allgott; vor var nokkut kalt, ok andadist Illhugi prestr, er strax var getid, á þeim misserum, á hinu fyrsta ári um fertugt; þótti mörgum hugsýki valda mundi.

## XL. Kap. Höndlunarskipti, ok margt annat.

Þann vetr ok svo um sumarit var all-fátídt í landi; var þá lokit manndauda, ok er sagt dáit hafi í öllu landi um 7 ár, med þeim er druknudu ok dóu í sóttum, hátt á 10du þúsund; tók snjóflód Þrúgsá í Eyafirdi. Hlutir voru þá litlir. Tekin var af kona í Mýrasýslu, er

barn hafdi alit í dulsmáli ok fargat því, en annarstadar segir at verit hafi í Skagafirdi, ok hyggjum vèr eigi satt. Konúngsbrèf höfdu verit gefin út seint á hinum fyrrum misserum, um aldr barna, er þau væri konfirmerut, ok skilmálar fyrir nýrri kauphöndlun; en nú var eitt gefit út um tugthús eda agahús í landi hèr; lagdi konúngr þar til sakafalls afgjöld sýslumanna, ok skipadi toll á jardir ok kúgildi, tvo skildínga af ríkisdalsléigu hverri. Annat var um sakamálaskírslu til Cancellísisins; þridja um innköllun lögmannstolla; fjórda var frelsis- ok ærubrèf Jóns Jónssonar frá Kóngsbakka í Snæfells sýslu, er dæmdr var til þrælkunar fyrir stuld. Kammerbrèf komu tvö til Magnúsar amtmanns, um at sýslumenn skyldu eid vinna, at kornvara sú er konúngr hafdi þá sendt fyrir nokkrum árum til útbýtíngar landinu, væri úthlutad eptir reikníngum til amtmannsins; aflögdu þann eid á alþíngi þessir sýslumenn: Þorsteinn Magnússon í Rángárþíngi, Gudmundr Rúnólfsson sydra, Jón Eggertsson í Borgarfirdi, Þorgrímr Sigurdarson í Mýrasýslu, Halldór Jakobsson á Ströndum, Lýdr Gudmundarson í Skaptafells þíngi, ok Páll Axelsson í Hnappadal. Þá gaf Jón Þorkelsson í Kaupmannahöfn, er fyrr var skólameistari, jardir nokkrar ok adrar eignir sínar, er töldust 4ra þúsunda dala virdi, til barnaskólahalds í Gullbríngu sýslu, med því hann var þadan kynjadr; var hann lærdr madr, en þótti styrdlyndr ok óvidfeldinn, ok hefir þetta hönum til frægdar ordit; var skolinn ætladr til gódrar mentunar fátækum börnum. Kom nú at því sem lengi hafdi verit eptirsetid: hafdi hörkramara kauphöndlunar-fèlagit þótt allilla standa fyrir kaupskap medan þat var, ok lítt hafa sorgat fyrir landinu í hördum árum, enda kafit handidnir, ok verit í vegi þeim tilskipunum, er konúngr vildi láta framgánga; hafdi þetta verit mjök framborit af Skúla landfógeta ok ödrum; ok kom nú svo at þat fèlag var afskipat, en konúngr vard þó at eptirgefa því hálft afgjald um hin sídustu þrjú árin, til þess at þat sleppti kauphöndlun 5 árum fyrri, enn upp hafdi verit lagt í öndverdu; reiddi nú konúngr sjálfr landit. En svo segir einn merkiligr madr ok vitr, at eigi hafi fèlagit verit sök í því, þó þjónar þess færi stundum illa med sínu rádi, eda þó sumt væri selt dýrra enn eptir taxtanum, eda saudir ok ullarvörur felldar eda reknar, eda rekinn gjaldgengr fiskr, eda vegit illa, ok hafi allt slíkt ei fyrirbyggt ordit, þó þat væri frá

skipat. Mátti nú sídr enn fyrri ákæra þat er áfátt var fyrir kaupmönnum, þvíat nú var svarat jafnskjótt er í milli bar, at konúngr vildi svo vera láta, þótti ok sumum vörur lakari eptir enn ádr; en þat hafdi verit mjök tídt, at rígr hafdi verit í Íslendíngum vid kaupmenn Dana; höfdu þeir stundum nokkrar sakir til, en stundum litlar, ok urdu opt slög edr ryskíngar, þegar mikilhæfir menn komu saman innlendir. Nú var sagt at konúngr reiddi, en Agent Ryberg var fyrir framan um útreidínguna; þótti mönnum siglíng lítil, því 3 kaupskip komu sunnanlands, tvö á Vestrlandi, eitt fyrir nordan, ok eitt fyrir austan; voru lögmenn látnir virda af nýu kaupstadahús ok inventaría, ok gengu þau nidr frá þeirri virdíngu, er hit fyrra árit var á gjör, um 6 eda 7 þúsundir dala. Þá voru skadar af skridum, ok brunnu hey; ok var lagdr grundvöllrinn til hegníngarhússins fyrir sunnan at Arnarhóli vid Reykjavík, á kostnad konúngsins ok svo landsins, þat var múrhús mikit. Konúngr baud at senda tvo skólasveina til skóla í Sjálandi. Einar Oddsson hèt hreppstjóri einn, er hafdi bitid Magnús Philippusson ok verit kærdr; var þat mál nú dæmt, ok vard Magnús fyrir öllum sektum; hann hafdi skammyrdt Jón Ísleifsson lögrèttumann ok Einar. Gudbrands mál var í Húnavatns þíngi; hann var ordadr af konu sonar síns, ok vildi Bjarni Halldórsson láta hana víkja. Á því sumri voru taldar landskuldir af landi hèr öllu, ok voru 24 þúsundir 200 ok 73 dalir, en þat var nær þridjúngi minna enn fyrir rúmum 60 árum sídan. Þá andadist Bjarni prestr Þorleifsson, Árnasonar, er prófastr hafdi verit ok haldit Kálfafell eptir födur sinn; hann deydi at Reykjaholti í Borgarfirdi at Þorleifs prests, sonar síns, er þar var, ok seinna gjördist prófastr sunnan Hvítá; einnin Halldór prestr Sigurdarson at Stadarhrauni, ok Björn prestr Skúlason at Hjaltastödum nordr, fadir Jóns prests á Audkúlu, ok Stephåns mælíngar-frædimanns, er fyrr er getid, ok þeirra systkina; þarmed Sölvi Thómasson, klausturhaldari at Múnkaþverá, fadir Sveins lögmanns; fèkk Sveinn lögmadr hálft klaustrid eptir hann; en Þorlákr Gudmundarson, er fyrst var prestr, ok sídan settr fyrir sýslu vestra, fèkk Þykkvabæar klaustur. Vígdust þeir Gudbrandr ok Gunnlaugr Sigurdarsynir frá Brjamslæk, ok Sveinn lögmadr ok Þórarinn sýslumadr sögdu af sèr stóls-rádsmennsku. Jón Eyríksson gjördist prófessor í lögspeki vid Sóreyar háskóla, at

forlagi Juels Geheimeráds ok med áeggjan Harboes, ok fluttist þángat, ok bætti þar mikit lærdóm ok góda skipan med adstod Guldbergs; voru þeir vinir sídan. Eigi vildi hann Doctors nafnbót í lögvísi, er hönum var bodin þareptir. Var þá ekki sumar nýtíngasamt at heyum, en betra at fiski; haustadi ok vetradi vel, ok höfdu hèr þá fyrst tveir höndlunarmenn vetrarlegu í landi: Pens á Eyafirdi ok Pahl á Eyrarbakka; vard þegar lítt látid af þeim.

## XLI Kap. Frá börnum Bjarna Halldórssonar.

Bjarni Halldórsson, sýslumadr at þíngeyrum, sat þá laungum heima, var hann mjök þúngfær af holdum, ok svo fyrir aldurs sakir, en kræsti sik sem ádr. Illhugi prestr, bródir hans, misti þá aptr kall ok kjól fyrir hórdóm í ödru sinni. Páll, sonr Bjarna, er kalladr var Vídalín, var í Leipsig, ok lærdómsmadr mikill ok vel at ödrum kostum; var hann svo frægr, at hann hafdi verit kosinn til at halda rædu á burdardegi Fridreks konúngs, ok var vel æfdr í þeim túngum, er þá tídkudust. þorbjörg giptist Jóni Ólafssyni Vícelögmanni, ok bjuggu þau í Vídidalstúngu; hún var væn at áliti, ok sköruglig at mörgu; Halldór fèkk Ragnheidar Einarsdóttur, sem fyrr segir, en Ástrídr var enn ógefin; hún var fastræk en undarlig í skapi, stórlynd ok þó kaldlynd, fègefin ok eigi veglát, sem systir hennar; lagdi hún hug á þann mann, ok þó attesteradan í lögum, er Erlendr hèt Sigurdarson, ok lengi bjó á Brekkum í Skagafirdi, en hann var fátækr ok þar med óvinsæll, ok fèkk hún ei at eiga hann, ok aldrei mannadist hann, en þat ríkti jafnan
1760. í skapi hennar. Var nú þessi vetr hinn bezti yfir allt land, er frá er sagt, ok afli gódr; fiskr nógr fyrir sunnan Jökul, en nær 50 manna druknudu þá af skipatjónum fyrir sunnan land, ok 5 vid Hrísey á Eyafirdi; en á þessum misserum tók Páll Bjarnason Vídalín vanstyrk mikin í skapsmunum eda skynsemd, ok er sagt hann hafi hengt sik í hálsklút sínum.

## XLII Kap. Frá ýmsu.

Þann tíma var tekin af Íngibjörg Sölvadóttir í Eyafirdi, er fargat hafdi barni sínu ok dæmd var ádr. Var þá gefit út konúngsbrèf eitt

um innstefníngu sakamála; annat at íslenzkum stúdentum voru eptirlátnir vid háskólann 20 dalir í "föríng", er köllud var, í stadinn fyrir 8, er ádr voru. þridja var um Jón Ólafsson Vícelögmann; var hönum falit á hendr at semja nýa lögbók fyrir Íslendínga, eda yfirskodan laganna, ok skyldu allir dómar afhendast hönum á alþíngi medan á því stædi, en þat var 4 ár; skyldi hann hafa 200 dali fyrir hvert, ok Bjarni Halldórsson sýslumadr vera hönum til adstodar; settist þá Jón at þíngeyrum med Bjarna. Hit fjórda var Instructión hans; hit fimta var um Bjarna Pálsson, at hann skyldi vera hinn fyrsti landlæknir á Íslandi, ok setjast á leigulausa jörd, er hann vildi kjósa sèr, ok hafa 300 dali til launa, en 200 til at kaupa medöl fyrir, ok hálft annat hundrad til at kaupa fyrir læknis verkfæri ok annat þesskyns; bjó þá Bjarni sik út híngat, ok keypti medöl; beiddist hann at apóthekari væri látinn vera annarr, ok fèkk hann þat ekki; kom hann út med Stykkishólms skipi, reid á þíng ok birti þar brèf sitt; sídan fór hann til Videyar, ok var at brúdkaupi Gudrúnar eldri Skúladóttur, er Skúli gipti hana Jóni Snorrasyni, sýslumanni í Skagafirdi; kaus hann sèr bústad at Nesi vid Seltjörn, en var fyrst á Bessastödum, ok þar tók hann til læríngar Magnús, son Gudmundar Lýdssonar, bródur Lýds sýslumanns; lækna skyldi hann snauda menn ókeypis. Var þá apóthek eda læknismedala búdin skipud í Nesi; en af höndlaninni skyldu leggjast til þessa 200 dalir. Konrádr Schyndel kom á Dýrafjörd med herskip, at leita Hollendínga, ok med hönum sótt á Vestfjördu; dóu þar margir. Tók nú Skúli Magnússon landfógeti at semja jardabók, eptir því ástandi sem jardir voru þá í, ok þá komst í algjörva reglu skipun sú, er Árni Magnússon hafdi gjört til fornfræda-stundunar Íslendínga í Kaupmannahöfn; komu þó eigi bækr út frá þeirri stiptan at sinni. Hannes, son Finns biskups í Skálholti, var þá utanlands; hann var hinn snotrasti madr, ok mentadr harla vel, ok var flokksforíngi fyrir sumum stúdentum íslenzkum, en Eggert Ólafsson fyrir sumum, en ekki fóru þykkjur þeirra saman; lèt Hannes þennan tíma prenta Kristinrètt Víkverja, en sídar athugasemdir vid hann, ok annála forna med latínskri útleggíngu. Kom þá upp lærdómsfèlag, er nefndi sik hit ósýniliga; var þat fyrst í landi hèr, ok hafa vitrir menn ætlad at Hálfdan Einarsson, skólameistari á Hólum, hafi verit höfundr at því; var einn í því Bjarni

sýslumadr Halldórsson. þá ritadi Thómas Balle kaupmadr búnadarþánka um Ísland, ok deydi Jón prestr Magnússon at Mælifelli; þar kom Jóhann prestr Christjánsson; annarr dó Björn prestr Skevíng Laurusson at Eyadalsá, ok enn Katrín Bjarnardóttir at Stadarfelli, stjúpmódir Magnúsar amtmanns, Sigurdr prestr Sigurdarson at Holti í Önundarfirdi, ok Halldór prestr Högnason at Hólmaseli af falli af hesti. þorsteinn prestr Pètrsson lèt af prófastsdæmi í Húnavatnsþíngi, ok fèkk Sigfús Jónsson Höfda í Höfdahverfi. Sigurdr Sigurdarson úr Vestmannaeyum var þá settr í Ísafjardar sýslu, í útistödum Erlendar sýslumanns Ólafssonar, ok var mikil deila med þeim, en þorlákr Gudmundarson var skipadr í Vestmannaeyar. Kom út Barón Hastfer, er ádr flutti hrútana ensku, ok hafdi nú spanska; þeir höfdu sýkzt fyrir hönum á leid, ok vard af því mikil ófögnudr sídan. þá kom ok út Eggert Ólafsson, ok settist at Saudlauksdal, at Bjarnar prófasts Halldórssonar; ok gekk Vigfús Skevíng Hansson frá Mödruvöllum at eiga Önnu Stephánsdóttur, prests frá Höskuldsstödum, Ólafssonar. Skip komu á allar hafnir, ok var ár gott, ok fátídt med almenníngi, en hretasamt þegar haustadi, ok voru vedr mikil ok lángsöm; týndist á framsiglíngu Húsavíkrskip, ok spurdist aldrei til nema ómark eitt. Fór þá Björn lögmadr Markússon utan, ok Ólafr Stephánsson Vícelögmadr, Skúli landfógeti ok Barón Hastfer; urdu vída skipatjón á Nordrlöndum á því hausti. þá var haldin at konúngsbodi fagnadar-hátíd, hinn 16da dag Októbris, í minníngu þess, at erfda-einvaldsstjórn Dana-konúnga hafdi stadit hamíngjusamliga um 100 vetr, sídan Fridrekr konúngr hinn þridji kom henni á fyrst. Mál mörg höfdu verit á þíngi, ok eitt þat er Erlendi Ólafssyni höfdu verit dæmdar stórar sektir, ok appelleradi hann.

## XLIII Kap. Benedikts mál.

Benedikt prestr Pálsson, bródir Gunnars ok Bjarna, hèldt þá Miklagard í Eyafirdi; hann var nokkut svo affluttr vid Hallgrím prófast Eldjárnsson at Bægisá; vard þras mikit af því fólki er bjó á þeim bæ er Árgerdi heitir, altarisgaungu þess, húsvitjan, ok prests sedli, er prestr gaf því þá er þat fór úr sókninni; því þótti hann sèrlundadr, en

hann fann því til vammir; kom ok til um medferd á umgángsbrèfi prófasts, ok annat fleira. Var Benedikt prestr glettinn, en prófastr vidkvæmr, var ok eigi vel farit at presti; voru haldnar prestastefnur í Saurbæ, ok gjördist ekki at, því prestr ónýtti sumar stefnurnar, en stundum urdu dómsmenn ekki samþykkir prófasti. Um sídir vard þat fundit presti til, at hann vildi eigi leida í kyrkju konur þær er hann kalladi of snemmbærar, ok stód vid sama þó prófastr skipadi hönum; kalladi nóg at þær slippi hjá opinberri aflausn, er þá var tíd fyrir barngetnadi óleyfda, þó þeim veittist eigi kyrkju innleidslu heidr. Fèkk þá Hallgrímr prófastr nábúa sinn Stephán prest, son Halldórs á Bakka, er þá var at Myrká, skipadan dómara í þrasi þessu, ok sídan Jón prófast Vídalín í Laufási. Var haldit prestastefnu-þíng um þetta í Saurbæ hinn 26ta dag Nóvembris á þessu hausti ok til hins 29da, ok Benedikt presti dæmd þar á hönd útlát nokkur; en hann appelleradi frá dómnum, ok fór þá þegar á Jólaföstu sudr at Leirá, ok tók út Consistóríalrèttar-stefnu yfir hönum; kom þadan af málid fyrir Synodum generalem.

## XLIV Kap. Frá ýmsu.

Sá vetr var hardr ok stórvidrasamr vída, en kaldt vorit, ok gródrlítid 1761.
fram at midju sumri; var afli mikill í kríngum Jökul, en í minna lagi annarstadar; gjördi mikin snjó á uppstígníngardag, ok týndist saudfè í Austfjördum. Þá voru gói-páskar. Kom bóla á Lánganes med Hollenzkum. Var þá tekit upp brennisteinsverk í Húsavík, en fjársýkin tók at dreifast um land út. Gísli biskup Magnússon kom því á, at konúngsbrèf var gefit út um presta er ekki áttu bújörd í sókn sinni, eda embættis-atsetr, at hana skyldi kjósa fyrir þá. Med ödru brèfi gaf konúngr skatt nýbýlíngum um 3 ár. Kammer baud at taka þíngsvitni um forbrotnar búslódir ok annat, er sídan var lengi gjört, ok at flytja híngat uxahúdir ok trèskó til sölu. Jón Eyríksson kvæntist þá í Sórey, ok átti sídan 10 börn; komust 7 á legg. Kom út yfirsetukona dönsk, er Margrèt Katrín hèt, at forlagi Bjarna; hún var hèr sídan meir enn 40 vetr, ok hafdi ord gott; var tekit til at reisa múrhúsit í Nesi, þar læknisbúdin skyldi vera, en yfirsetukonunni gaf

konúngr 60 dali á ari. Mál voru ýmislig, ok ónýtti yfirrèttr ákæru Ólafs á Eyri til Erlendar sýslumanns Ólafssonar, en Bjarna Halldórssyni gjördust útlát á hönd til þorsteins Gudbrandssonar fyrir þat hann vildi víkja Margrètu, konu hans, frá hönum, sakir ords af Gudbrandi; appelleradi Bjarni þann dóm, ok vann ei á. þá andadist Sigurdr Jónsson, er fyrr var á Hvítárvöllum, ok sýslumadr, enn um Jónsmessuleiti Jórunn at Hlídarenda Skúladóttir, þorlákssonar biskups, kona Brynjólfs þórdarsonar Thorlacíuss; hann var í kör af elli, en þóttist nú þó þurfa umsjá, ok reis upp ok sýsladi um sem hann mátti; enn andadist Hjalti Markússon, Bergssonar, Capellán at Holti, bródir Bjarnar lögmanns, ok Ólafr Jónsson á Eyri, fadir Jóns Vícelögmanns; ok á því sumri týndist fjöldi kaupfara, ok annara skipa útlendra.

## XLV Kap. Enn frá Benediktsmálum.

Nú komu mál Benedikts prests Pálssonar fyrir Synodum ok stódu 2 daga; var Jón Ólafsson Vícelögmadr í forsæti med biskupi, ok þótti nokkut fylgja máli prests; fyrir því urdu þeir ekki vel samþykkir, ok vard enginn dómr, en sáttum var á komit med tillögum gódra manna; þó baud biskup alvarliga, at prestr skyldi leida konu þá í kyrkju, er þrætan reis af; en þá er þat skyldi verda, lètst prestr hafa sókt til konúngs um at fríast frá því verki, ok vard ei af því at sinni. Gísli biskup var ekki mjök íhlutunarsamr um mál þetta, þó hann fylgdi nokkut prófasti; visiteradi hann í Eyafirdi eptir þat er málin voru á lopt komin, ok líkadi vel vid Benedikt prest, því hann hafdi stundad vel at fræda æskumenn; fèkk hann hönum þá texta at leggja út af: hlýdni er betri enn offr; ok fèllst þá enn vel á kenníngu hans þarum, til þess er prestr fór at ræda um talhlýdni, ok tók til dæma Assverus konúng, er Haman vildi fyrirkoma Mardochæusi; þá er sagt at biskup hafi brosat ok lastad ekki, en bedit hann sídan um prèdikunina ritada. En at lyktum, er prestr vannst ekki med skikkunum eda rèttargángi, gjördist biskup hönum þýngstr í skauti, sem sídan gafst raun á. Benedikt prestr var lærdr madr, drjúglyndr, uppdráttarmadr mikill ok máladi menn svo at þeir þekktust; ok eittsinn, er hann sendi únglíng einn sudr, ókunnugan vegi, máladi hann upp sveitirnar á blad, svo at

hönum var nógr leidarvísir; hann var raddmadr gódr, ok kunni vel saung; í minna lagi á vöxt, en þó all-knár.

## XLVI Kap. Kvonfáng Ólafs Stephánssonar, ok frá verksmíd.

Þá var allgott ár, þó lítt heyadist, því nýtíng var góð; kom sótt í Vopnafjörd um haustid, ok átti at flytjast í vöru; urdu 18 hjónaskilnadir, ok lá enginn lengr, sem hún tók, enn 3 daga eda 4ra, sídan dó hún nidr, en bólnasóttin færdist yfir. Þá fèkk Ólafr Stephánsson Vícelögmadr Sigrídar, dóttur Magnúsar Amtmanns á Leirá; var þar veizla mikil ok bodsmenn hálft annat hundrad, ok stód í fjóra daga; töldust Sigrídi heiman 4 hundrud hundrada í föstu ok 2 hundrud hundrada í lausu, ok hófst þá uppgángr Ólafs ok fèsæld, en alla stund hèldt hann bókhaldarasýslu í Reykjavík, er hönum kom fyrst í mannvirdíngu, ok átti þá gott eitt vid Skúla, en hina mestu eflíngu hafdi hann af því, er hann nádi tengdum vid Magnús amtmann, þvíat hann var hygginn ok ráddrjúgr; áttu þau Ólafr ok Sigrídr börn saman, er sídar mun getid. Ólafr var lèttfær madr ok lítilátr í umgengni, mikilleitr nokkut í andliti ok sómdi sèr vel, medalmadr vexti ok skjótligr í bragdi, hófsmadr gódr ok fyrirhyggjumadr til allrar umsýslu; ekki var hann mjök lærdr madr, en skyngódr ok rádsèdr, ok hinn minnugasti. Þau misseri dó Vigfús prestr Jónsson á Stöd. Í þann tíma tók mjök at veiklast von manna um ábata landsins vid verksmídarnar, þvíat akrirkjumennirnir, eda þeir sem kornirkju ok trjáplöntun skyldu hafa framad, höfdu eigi gjört annat enn legit hèr á mönnum til þýngsla, ok farit á brott sídan. Fiskiduggurnar höfdu þótt ofstórar, ok fengit eigi launat útgjörd sína; vid brennisteinshreinsun vissu menn ei hvat gjört var, ok eigi kom gagn af því, ok var sem hverr vidburdrinn æti upp annann; þóttu þeir at vísu vel haldnir þar sydra, keyptu jardir ok önnur dýrindi, en flestir adrir, er hlut áttu í ásamt, höfdu lítt af slíku at segja. Eigi var heldr haldin almennilig samkoma eda reikníngr gjör, nema eittsinn í Videy, ok vissu menn eigi til hvers kom; var ætíd kveinat yfir peníngafæd, en konúngrinn rètti þó opt hjálparhönd sína, ok vissu menn ógjörla hve mikit hann gaf; en Jón

Eyríkssou sagdi svo, at þat hefdi alls verit 60 ok ein þúsund ok 300 dalir, fyrir utan útvaldar jardir af konúngseignum sunnanlands, er medlimir höfdu leigulaust, ok mikil þokkabót til Skúla, er gefin var í því skyni, at ekki skyldi hann örmagnast vid kostnadinn eda verda verksmídunum at þúnga. Var mikil ull flutt til verksmidjunnar af ýmsum stödum í landinu, svo at margir af alþýdu þóttust óbirgir eptir; mundi mikit af klædum þar ofit verit hafa, er sídan voru seld á höfnum um land hèr; en ef þá var adfundit, at klædin væri mjó, oflítt stömpud, eda litud illa, svörudu kaupmenn: þetta er verknadr ydar lands, ef ydr nægir eigi þat, þá fáit þèr eigi annat. Fèkk alþýdan af öllu slíku illan gedþokka til verksmídanna, ok nú helzt, sídan fjársýkin kom, er kennd var hinum útlenzku hrútum; því þó sagt væri at konúngr hefdi viljat betra med því ullina í landinu, hugdi alþýda manna, at eigi hefdi konúngr slíkt upptekit, ok væri heldr af annara medalgaungu til at gjöra íslenzka ullarvinnu ógylda ok lítilsvirda, en eigi mundi verda litid á, hvort kostnadarmeira væri, at farmfæra slíkt veikligt saudfè, ok svo lingjört at uppklekja þyrfti vid varma í kakalofns-húsum, eda innlenzkt þat er kuldann þoldi; urdu þá sumir til at flimta um slíkt, er ei voru vel snidnir, þá er þeir litu á hina verri sidu, ok ámæltu gódu jafnt med ödru lakara, sem sá er kvad stöku þessa, ok eigi vel orkta:

Íslands gódr ábate af innrèttíngum hygg ek sè:
kominn er Fransós, kládi á fè, Courantmynt fyrir Specíe;

ok þó sá gleymdi hagnadi þeim er af sumu leiddi, ok teldi þat eitt er verst var, þá voru þó nokkrir vitrir menn, sem efudust um hvort svo kynni til lengdar framhaldast, ok þat sannar kvædi þat, er eitt hit bezta skáld á Íslandi ok vitrasta orkti, ok kalladi "landsins lukku", ok setti þar í fyrir sjónir framferdir allar. En lèti nokkurr annarr heyra sik med slíkt, var þat álitid ok hrópat sem sök á móti konúnginum ok velferd fóstrlands síns; er enginn mætti um dæma edr í móti mæla; en eigi var konúnginum ámælt at heldr, edr hans gódgirni, þó skáldit kvædi svo at í vísum sínum:

Sjóli kann um sídir slíkt at finna.

Var nú ok svo komit, at konúngsfè var eigi lengr til reidu til þessa

kostnadar, ok sáu þeir sem fyrir sýslunum höfdu stadit, at lítid mundi áorkast þadan af.

## XLVII Kap. Ættir ok tilburdir.

Annarr vetr var gódr; var þá fiskigengd med Gói; drápust þá fyrst 1672. af fjársýkinni 80 fjár at Hjálmholti í Árnessþíngi at Brynjúlfs sýslumanns Sigurdarsonar, ok gekk hún fyrir sunnan land; mistu margir alls saudfjár síns, ok voru at engu nýtir kropparnir. Bólusótt dreifdist ok um land nordr ok sudr, ok var ei mjök mannskæd; fylgdi henni landfarsótt, ok dóu börn ok midaldra menn; var vorit kaldt í fardögum ok fram á sumar. Undir fardaga andadist Jón Jónsson í Grenivík, er fyrr var sýslumadr í Eyafirdi, fadir þórarins á Grund; þótti at hönum mikill söknudr, ok var hann nær áttrædu; hann hafdi verit fullkominn madr á vöxt, ok álitligr sýnum. þá deydi einnig Brynjúlfr Thorlacíus á Hlídarenda, meir enn áttrædr, hinn audugasti madr. Helga var dóttir Brynjúlfs, er átti Sigurdr landþíngsskrifari; þau bjuggu sídan at Hlídarenda; þeirra börn voru mörg: Jórunn var einn, er átti Einar Brynjúlfsson, en sídan Gísli prófastr þórarinsson, Brynjúlfr prestr ok Árni Sekreteri, ok Sigurdr prestr á Sjálandi, Ragnheidr, er Markús prófastr átti í Gördum, Málmfrídr, kona þorleifs Nikolássonar, Íngibjörg, Halldóra, Gudrídr, kona Jóns landlæknis, þrúdr. þórdr í Teigi var son Brynjólfs, fadir Skúla Jústitsráds ok Rektors í Kaupmannahöfn, ok Gísla. Jón var annarr, sá er getid er í málum í Skaptafellsþíngi ádr; hann átti Jórunni, dóttur Halldórs biskups; eyddi hann eignum sínum ok lifdi þó lengi. þá baud konúngr Bjarna Pálssyni landlækni at menta fjóra menn íslenzka, efniliga til læknislæríngar, er vera skyldu sídan læknar í hverjum fjórdúngi, ok gaf þeim 10 dali til bóka ok klædnadar hvert ár, en landlækni sjálfum fyrir hald þeirra ölmusu eins skólasveins af hverjum biskupsstóli, ok djáknapenínga af Skriduklaustri ok Skálholts stóli; hafdi Bjarni tekid ádr Magnús Gudmundarson, en nú tók hann Ólaf Ólafsson, er sídan var Sekreteri, bródur Jóns Vícelögmanns, ok Símon; hann var seinna prestr í Selvogi, þvíat hvorgi þeirra var líkligr; ok enn hinu þridja: Jón Stephánsson, hann vard einnig prestr seinna. Bjarni gekk sídar at eiga

Rannveigu, dóttur Skúla Magnússonar landfógeta, en Jón Snorrason hafdi ádr fengit Gudrúnar, sem sagt var, ok gipti Skúli á þessum árum börn sín, en sum seinna. Jón, sonur Skúla, fèkk Ragnheidar, laundóttur þórarins sýslumanns á Grund; hún var mjök vel at sèr. Björn, sonr Skúla, vard skipabyggíngarmeistari í Kaupmannahöfn; Gudrún önnur Skúladóttir giptist seinna Jóni Arnórssyni frá Belgsholti, ok enn sídar Halldóra Hallgrími Bachmann, ok Oddný Hallgrími presti Jónssyni. Var Skúli allfrændmargr í þann tíma: Magnús, systurson hans, var sýslumadr í Dölum; hans brædr voru þeir: Jón prestr ok Jón annarr ok Gudmundr Ketilssynir, en ei voru þeir Jón prestr ok Gudmundr systursynir Skúla. Börn Jóns prófasts Vídalíns í Laufási voru ok systurbörn Skúla, en börn Jóns prófasts Magnússonar bródurbörn hans. þann tíma gipti Bjarni sýslumadr Halldórsson Ástrídi dóttur sína; hún hafdi getid barn vid Erlendi ádr, ok hafdi Bjarni ordit henni beyskr mjök ok hardtækr, en nú fèkk hennar Halldór Jakobsson sýslumadr, ok vard hún hönum ill.

## XLVIII Kap. Tilburdir ok mál.

þessi misseri vard Magnús Teitsson, Pálssonar, bródir Jóns prófasts í Gaulverjabæ, prófastr í hálfri Ísafjardarsýslu, þvíat Finnr biskup skipti henni í tvö prófastsdæmi; hann var fadir Markúsar stiptisprófasts í Gördum sudr. Deydu þá prestar nokkrir: Einar Einarsson í Holtum, Vigfús Jóhannsson í Kaldadarnesi, Bergsveinn Haflidason at Stad í Grunnavík, þorvaldr Gottskálksson á Miklabæ, son Gottskálks þorvaldssonar, lögrèttumanns; hann var födurfadir Bertels Thorvaldsens, hins frægasta bílætasmids eins í heimi; Jón Ólafsson at Dvergasteini; Katrín þórdardóttir í Hítardal, er Vigfús prófastr átti, Jónsson, Halldórssonar; var hún dóttir þórdar prófasts á Stadarstad, Jónssonar biskups, Vigfússonar; Sigurdr Högnason, er fyrr var sýslumadr í Mýrasýslu, ok átti þar margt afkvæmi; Gudrún Jónsdóttir, seinni kona Grímólfs prests í Glaumbæ, systir Erlendar prófasts at Hrafnagili; Lauritz Skevíng, Hannesson sýslumanns fèkk hálft Múnkaþverár-klaustr, Jakob Jónsson þykkvabæar klaustr. Ekki komu kaupför fyrir alþíng, því andvidri voru ok byrleysur. Á því þíngi kom fyrir mál Erlendar

Ólafssonar, sýslumanns úr Ísafirdi; hann var þá grunadr um at hafa ordit at bana smalamanni sínum, ok var hann enn dæmdr af sýslunni, ok at bæta 60 lódum silfrs, en fyrir sýslunni var Sigurdr Sigurdarson; hann hafdist þar vel vid, en þó var hann lítt virdr af sumum ok kalladr Skuggi; Erlendr skaut máli sínu til yfirrèttar at næsta sumri, ok stód í miklu þrasi med þeim Sigurdi, vardi Erlendr mál sín af kappi, svo mörgum þótti óvænliga áhorfast um sumt. Fleiri voru málaferli á þíngi: var eitt at Hans Klíngenberg, danskr madr, er bjó at Krossi á Akranesi, ok átti Steinunni Ásmundardóttur, Sigurdarsonar frá Ásgardi, Ásmundarsonar, hafdi illyrdt Magnús amtmann, ok voru dæmdar á hann stórsektir, en hann appelleradi þó. Stadfesti ok yfirrèttr dóm Sveins lögmanns í Laxveidarmáli Bjarnar prests á Hjaltabakka, ok veidína undir þíngeyrar, ok vard sá rèttr dómr Gríms Grímssonar, þó prestr bædi hann aldrei sjá betr, er hann kvad sèr sýnast þat rètt, ok þótti á hrína, þá er Grímr gjördist blindr. Talid var mannfólk í landi hèr þat sumar, ok var hálfr fimti tugr þúsunda. Þá var lítill grasvöxtr, ok sumstadar bág heynýtíng, en þó gott vedrlag þadan af, ok eigi giptist Þorbjörg, dóttir Bjarna Halldórssonar, Jóni Ólafssyni fyrri enn þá. Þat haust kvæntist Jón prestr Ásmundarson at Breidabólstad á Skógarströnd, gekk at eiga Sigrídi, dóttur Jóns prófasts í Stafholti, Jónssonar frá Einarsnesi ok Ragnheidar Gísladóttur, systur Magnúsar amtmanns; ok sendi Gísli biskup Magnússon utan ákæru sína yfir Benedikt presti Pálssyni.

## XLIX Kap. Frá ýmsu, fjársýki ok ödru.

Um vetrinn í Febrúarío kom vedr svo mikit, at löskudust kyrkjur 1763.
nordanlands, reif hey en spillti skipum; í þat mund fórust tvö skip í lendíngu undir Eyafjöllum, komust menn af nema tveir: Jákob Jónsson, gullsmidr ok klaustrhaldari at Þykkvabæ, ok annarr madr; fórst ok skip frá Breidabólstad í Fljótshlíd med 12 mönnum, er sendt var til Vestmannaeya. Sá vetr var gódr ok öll þau misseri, bædi á sjó ok landi; var afli mikill, en vætusamt, ok nýttist illa fiskr. Bólnasóttin gekk vestr ok um land allt, ok þá all-mannskæd, ok meir enn sú er næst var fyrir, þó bólubörn væri nú færri; varadi hún náliga lengr

enn hver bóla önnur, þvíat alls sleit hana ekki nær því á fjórum árum. Fjársýkin gekk ok yfir mjök sunnanlands, sló út um saudkindr á herdakambi, kvidi eda nárum, ok var ei ætt þat er drapst, fyri því skáru margir fè sitt heilbrigdt fyrir ótta sakir; var hún í því verri enn önnur sóttarkyn, at þó ein saudkind sýndist heil ordin, var hún jafnskjótt yfirfallin aptr, tvisvar eda þrisvar á sama vetri eda vori, en á sumrum var heldr hlè á; kom hún þó aptr jafnskjótt sem haustadi eda vetradi, ok gekk svo hvert ár at ödru; vard eitt ár á milli á sumum bæum, svo at peníngr sýktist ei skadliga, en annat ár var hún þess þýngri; hafdi hún ýmisligt atferli á saudfè, kom út á sumum med þurrum kláda, vosum ok skurfum, þurfti þá at klippa af ullina; en á ödru kom bleitusuddi um herdakambinn, ok svo hrygg ok sídur, í gegnum ullina, til þess er ullarkápan losnadi af hörundinu í einu, ok var eptir kvikan vot, var sú miklu verri ok hættuligri enn hin; á sumum kom mest í fætrna med bjúg ok bólgu, svo klaufir leysti af, var þat verst vidreignar, ok varla ómaksverdt at draga þær kindr vid líf, er med þeim hætti sýktust, þó etid gæti. Þá voru enn nokkrar sem bólgu fengu í höfudit ok gróf úr augum, ok fèllu af horn, bólgnudu varir ok túnga, ok þurfti þeim ei líf at ætla; má af slíku sjá hver bágindi ok skort á ull ok ödru bjargrædi menn áttu þá vid at vera. Þá dó Björn prestr at Stærra-Árskógi, son Jóns Grímseyarformanns, er týndist á Skaga, en fadir Snorra prests at Hjaltastödum, ok svo Jón prestr Ásmundarson at Breidabólstad á Skógarströnd, kom þar eptir hann Árni, son Sigurdar prests at Holti undir Eyafjöllum, Jónssonar, Steingrímssonar frá Hofi í Skagafirdi; hann fèkk Kristínar, dóttur Jakobs Eyríkssonar vid Búdir, ok áttu þau börn mörg. Konúngsbrèf kom út frá hinu fyrra árinu, þat baud biskupum, med tveimr hinum vitrustu próföstum í hverju biskupsdæmi ok svo veraldligum embættamönnum, at yfirfara á alþíngi adra bók lagaverksins, þá er lokit væri hinu fyrsta útkasti hennar; annat var gefit út um skyldu foreldra vid frillubörn; eitt var regla fyrir höndlunarfèlagit í 50 greinum, þvíat konúngr lèt af at reida landit um sinn, vildu þá verksmídafèlags medlimir koma umsjá verksmídanna í Reykjavík uppá konúngsins reikníng, ok fengu þeir eigi áheyrslu þarum; vard því at leita annars í. Eitt brèf orsakadist af Benedikt presti Pálssyni, ok átti hann

þá at láta úti 12 dali. Eitt var um Jón Skúlason, hann skyldi vera adstodarmadr Skúla landfógeta, födur síns, ok taka vid eptir hann. Fór þá fram brúdkaup Bjarna Pálssonar, ok fèkk ei at dragast svo lengi sem Skúli vildi, því Rannveig var þúngud, ok lá á sæng ok var vígd saman vid Bjarna í sænginni; var Eggerti bodit med ödrum, en hann fèkk ekki komit, ok sendi brúdkaupskvædi, er hann kalladi Sigrdrífumál hin nýu; fór þá Bjarni í Nes, ok tveir menn til hans, þeir er sídan urdu læknar; Jón Pètrsson, svarfdælskr madr af Mela ætt, hafdi verit djákn, vel skynugr til læknínga, en bækladr í höndum, ok Hallgrímr Jónsson Bachmann, systurson Jóns Benediktssonar í Rauduskridu. Skip komu snemma á allar hafnir, ok voru þau seinast af konúngshendi um sinn. Á alþíngi fóru mál fram at venju, ok nennum vèr ei at telja. Kom í yfirrètt mál Erlendar Ólafssonar, en Erlendr veik amtmanni frá, kvad hann vidridinn er hann hefdi vikit sèr frá embætti; sat Skúli í amtmanns sæti, ok dæmdist af hönum embætti, en hann sókti málit til hæsta rèttar. Ekki sætti stórtídindum at kalla megi í lögrèttu. Þá gaf Bjarni Halldórsson, sýslumadr, Medalheim til Christsfjár med fjórum kúgildum, en Þorsteinn Sigurdarson litlu sídar Sörlastadi Annexíukyrkju at Ketilstödum. Hinn annann dag Ágústí var haldin fagnadar-hátíd at konúngsbodi, ok þakkat Gudi fyrir fenginn almennan frid í Nordrálfunni, ok vernd hans yfir ríkjum Danakonúngs í þeim ófridi er verit hafdi vid Fridrik Prussakonúng. Fór þá Magnús amtmadr Gíslason utan med Eyrarbakka skipi; hann var mjök þrotinn at heilsu, en Skúli fór med Eyafjardarskipi. Þá var steinkyrkja á Hólum algjör um haustid, ok vígd hinn 25ta sunnudag eptir Trinitatis af biskupi sjálfum; voru menn í Nordrlandi jafnvel farnir fyrir þeirri þjónustu, er þar var höfd vid, þvíat fjármagn manna hafdi vaxit, en hvergi þverrat. Hardnadi þá vedrátt med Nóvembermánudi, ok hèldst svo sídan; var hrídasamr allr sá vetr hinn næsti, en fiskiafli þá allgódr; gekk fjársýkin sydra, en bólusóttin vestr 1764.
um land.

## L. Kap. Tilbreytni ok mörg tídindi.

Þann vetr þóttust menn sjá sjóskrímsl vid Hrólfssker í Eyafjardarmynni, nær 12 álnum at lengd ok med hnútum, þat svam inn med

landi. Dóu þá ýmsir menn, þeir er í fremri röd voru: Oddr prestr Þórdarson at Keldum á Rángárvöllum, Jón prestr Högnason í Hítarnesi af Mýra ætt, Erlendr prestr Þorsteinsson í Árnesi vestr, Halldóra Stephánsdóttir, ekkja Bjarnar prests Skúlasonar á Hjaltastödum; Bjarni Nikolásson, er fyrr var sýslumadr; Magnús á Brennistödum, Jónsson frá Einarsnesi, Sigurdarsonar, bródir Sigurdar á Hvítárvöllum ok Jóns prófasts í Stafholti; hann var fadir Páls prests á Valþjófsstad, ok Gísla, er seinast var prestr í Árnarbæli, Íngibjörg í Hèradsdal, Skaptadóttir, Jósephssonar, ok Magnús, bródir hennar, á Vídimýri, er verit hafdi fjárhyggjumadr mikill, en Sæmundr, sonr hans, bjó þar eptir hann ok var svakamikill ok eydslumadr, ægiligr vid öl, ok hræddi menn med hljódum ok ödrum látum, helzt Danska í kaupstödum; þoldi hann ok meiri hnyskíngar ok áfelli enn flestir menn adrir, ok sást ei fyrir. Þá dó ok Snæbjörn Hallsson á Lækjamóti, bródir Halldórs prests á Breidabólstad, ok Þóra Gudmundardóttir, kona Pètrs Þorsteinssonar sýslumanns. Eyríkr prestr Brynjólfsson í Middal í Árnessþíngi misti embætti fyrir hórdóm. Kom út konúngsbrèf, er átaldi Jón Vícelögmann um þat, at hönum gengi seint lagaverkit, edr um atferli hans þar vid, ok baud hönum at láta útkast sitt gánga í millum lögmanna, Sveins ok Bjarnar, ok dæma sídan um af amtmanni ok lögþíngismönnum, lagdi hönum þó til 100 dali enn um þrjú ár, en hverjum lögmanni 50 fyrir yfirskodun, ok kvad á at þá skyldi búit verda. Annat var um skilnadargjördir þær, er gjörvar voru milli biskupa ok skóla, skyldi þá aftaka hina addeildu rádsmennsku á biskupsstólunum, því biskupum þótti sèr þat óhagr, ok kvádu halda mega skólana med minna kostnadi; kljádi Biskupsstóla-Commissiónin þat til lykta, þvíat jafnan þótti áfátt vid þann atskilnad, hversu sem hann var gjör, ok var hætt at fást vid þat um sinn; tók Finnr biskup Skálholtsstól at nýu med rádsmennskunni, en Hólastóls rádsmennsku hafdi þá Vigfús Skevíng. Eitt brèf var um hjónaband skyldra ok mægdra; eitt um Jústitsfèhirzluupphaf í landi hèr, er eigi kom út á þeim misserum. Eitt var veitíngarbrèf Ólafs Stephánssonar fyrir Víceamtmannsdæmi, til adstodar vid Magnús amtmann, tengdafödur sinn, ok hafdi hann sýslat hönum þat, en eigi var Magnús amtmadr kominn út um þíng. Eitt var til Þorleifs, sonar Nikolásar sýslumanns Magnússonar, fyrir Víceland-

skrifara embætti eptir Sigurd, svo at þá voru tveir hvorir: amtmenn, landfógetar ok landþíngsskrifarar; afhendi Sigurdr Þorleifi landþíngsskrifaradæmit. Halldór Jakobsson var í máli útaf fángahaldi Eyvindar útileguþjófs ok Höllu, konu hans, ok Halldórs Ásgrímssonar, er strokit höfdu frá hönum, ok var settr frá sýslu, en Kammer baud at reikníngr skyldi gjörast hönum fyrir inntektir medan á því stædi, stód Jón Jónsson í Broddanesi fyrir sýslunni. Eyvindr þjófr var manna hagastr. ok reid körfur vatnsheldar, manna fóthvatastr, syndr ok kunni handahlaup vel; hann nádist þrisvar á fjöllum, en slapp aptr. Þá var gjör samníngr milli höndlunar-fèlagsins, er ordit var ok kallat hid almenna, ok hafdi goldit konúngi fyrir einkaleyfi sitt til kaupfara 7 þúsundir dala, ok verksmída-medlima í Reykjavík; gekk Skúli fyrir því, at fèlagit tækist verksmídina á hendr, ok var allt fè hennar, hús ok inventaríum innilukt ok falit á hendr höndlunar-fèlaginu, ok virt allt fyrir 25 þúsundir dala; settu þeir nöfn sín undir samnínginn amtmadr ok landfógeti, ok gekk þó Skúli í þjónustu fèlagsins, ok var kalladr fríhöndlunar forstjóri, ok stód enn fyrir verkinu, ok dreif þat; var þá vinátta mikil þar í milli, ok skyldi Skúli hafa 300 dali til launa hvert ár; stód þat nú svo um bríd. En svo var þá kallat, at landit hefdi fengit skada einan af duggusmídunum um hálfa 5tu þúsund dala hins þridja tugar. Gjördi nú vedr mikit einusinni, ok kviknadi í verksmidjuhúsunum eldr; Ámundi, son Jóns klènsmids í Vatnsdal, Gunnlaugssonar, var þar einn staddr, því hann var vefari, ok vaknadi hann, ella hefdi þeir allir farizt er í húsunum voru, ok vard mannbjörg, en þrjár brunnu stofurnar í Reykjavík med vefstólum ok öllu því er til heyrdi; sá Ámundi fór sídan utan ok vard hinn mesti smidr ok snillimadr ok málari, en bjó undir Eyafjöllum ok í Hreppum; hann var fadir Halldórs prests á Melstad. Var nú skipadr rádamadr fyrir tugthúsit, Gudmundr, son Vigfúsar í Hjörtsey Sigurdarsonar, ok hafdi 60 dali. Eitt konúngsbrèf baud hinum hærri valdamönnum at gjalda rangskatt; hann er goldinn eptir mannvirdíngar-röd tignadra manna; annat lagdi til tugthússins afgjald af Þíngeyra klaustri ok Arnarstödum. Lagdist þá brennisteinsverkit nidr í Krýsivík. Lögrèttumenn voru teknir af med öllu, nema í Árness, Kjósar ok Gullbríngu sýslum. Þá var þíng fámennt, því Magnús amtmadr var ei út kominn, ok lögmadr

hindradr, ok var kallat litla alþíng; kom amtmadr þá út seinna; sá madr kom annarr út, er nefndr er Jóhann Gerhard König, ok grensladist eptir jurtum ok grösum hèr, reid hann nordr um þíngit, ok þadan austr, en fór sídan utan í Reidarfirdi, svo at hann var hvorki lofadr nè lastadr. Lengdi þá konúngr uppgjöf á skatti vid fátæka nýbýlínga, var ok aftekinn búreisuskattr, en hvorugt ætla menn sýslumönnum væri uppbætt. Eyrarbakka skip týndist á höfn, er þat hafdi tekit farm sinn, ok þá fór Eggert Ólafsson utan um sumarit; var þá svo illt ok vott haustid, at hey voru vída ekki inn komin fyrir Mikilsmessu, en sumstadar ekki hirdtar tödur, ok þótti hardindis-ár mikit; gekk ok fjársýkin vída ok gjördi marga saudlausa; en sídan Októbér kom, ok öndverdr vetr þadan af, var umhleypíngasamt med stórhrídum. Þann tíma var Jóni Eyríkssyni bodit at vera lærimeistari Fridreks arfaprints, en Luxdorf taldi hann heldr úr því, hugdi hann ei svo eptirlátan um allt í skapsmunum sem hirdmenn þurftu at vera, ok því gekk hann ei at; en rádsmennsku fèkk hann Sóreyar háskóla med ödrum prófessórum um haustid, ok var þar óhægt ok til lítils vid at fást medan þat stód, ok tókst af þremr árum seinna. Þat haust andadist Ormr prófastr Bjarnason at Melstad; hann var meir enn áttrædr, ok hafdi lengi verit aflvana í hægra armi, en þjónat alls nær 60 árum, ok þótt merkiligr madr at mörgu. Prentverk var þá upptekid at Hólum, er lengi hafdi legit nidri, ok prentadar fyrst Pontoppidans spurníngar af Eyríki Hoff Gudmundarsyni; hann var prests son austan frá Hofi. Þá var á öndverdum vetri skipud Jústitsfèhirdslan, sem fyrri getr, ok ætlud í fyrstu til at gjalda lögrèttumannalaun, ok halda

1765. vid lögrèttunni. Var sá vetr gódr fyrir sunnan ok vestan, en nokkut hrídasamr ofanverdr nyrdra ok eystra fram yfir sumarmál, ok kaldt vorit; sumradi þó vel. Voru hlutir miklir fyrir sunnan ok vestan land, en selatekja ærin í þíngeyarþíngi. Týndist skip á Dölum nordr af Fljótum, hèt Finnbogi formadr; annat á Grímseyarsundi, ok á sjö Grímseyíngar; eitt týndist á sjó med þremr mönnum, var fyrir Augústinus bóndi í Kumlavík. Bæabrennur urdu 5, ok einn af þeim á Gudnabakka í Borgarfirdi; þar hljóp bóndinn inn aptr til at bjarga nokkru, ok fèkk vid þat bana.

## LI Kap. Utanfarir, mál ok mannalát.

Nú kemr fjársýkin í Húnavatnsþíng, ok gengr vestr um Dali; gekk þá ok faraldr á hundum ok kúm í Múlasýslu; þat hófst í Nordfirdi. Öndudust margir merkiligir menn: er þeirra talinn fyrst þorsteinn Sigurdarson, er verit hafdi sýslumadr í Múlaþíngi, hálfníræedr at aldri, eda þó á 7da ári hins 9da tugar, þá er Pètr, sonr hans, hafdi all-lengi haft sýsluna; hafdi þorsteinn verit merkiligr madr at vitsmunum, hugviti ok hagleik, bústjórnarmadr mikill ok audugr. Annarr deydi Sigurdr Stephánsson, er Skaptafells sýslu hafdi haldit; ok enn Halldór Eyríksson, prentari at Hólum; þóroddr þórdarson, er verit hafdi heyrari, ok Margrèt Stephánsdóttir, prests frá Höskuldsstödum, er átti Magnús prestr, son Jóns á Eyrarlandi, Bjarnarsonar frá Bustarfelli; hún dó af meini í þendi. Benedikt prestr Pálsson var þá kominn frá Miklagardi ok vestr, ok fèkk hann seinna prestsembætti í Túngu í Steingrímsfirdi, en 6 árum var þetta fyrr enn hann fengi Stad á Reykjanesi, ok hèldt nú Magnús prestr Jónsson Miklagard. Enn deydi Gudrún þórarinsdóttir, Fridrekssonar, ekkja Jóns sýslumanns í Grenivík ok módir þórarins á Grund, ok Ólafr prestr Brynjólfsson at Kyrkjubæ í Túngu. Niels, son Hans Wíums, fór til kennslu til Jóns prests Högnasonar undir Ási, ok druknadi í Lagarfljóti med fylgdarmanni sínum. Arngrímr, son Jóns lögsagnara Eyríkssonar á Núpi, gjördist þá lögsagnari Bjarna Halldórssonar sýslumanns; ok kom út konúngsbrèf um aftekníngu óþarfra kyrkna ok bænhúsa; en annat lagdi uppá aukaskatt, þá var ok leyft hjónaband allt at systkinabörnum. Hálfdan Einarsson, skólameistari á Hólum, fèkk meistara-nafnbót. þóttust menn sjá blódlit á sjó á Eyafirdi. þá var grasvöxtr lítill nordanlands ok nýting ill. Mörg voru mál á alþíngi, ok var Brynjúlfr Brynjúlfsson, er verit hafdi í Vestmannaeyum, dæmdr til fèbóta stórra, fyrir þat er hann hafdi skammyrdt ok misþyrmt kaupmannskonu þar í eyunúm, Apolloníu Klog; var ok med drykkjuskap á lögþínginu. Sett var til konúngsnádar um mál Gudrúnar Eylífsdóttur úr Gullbríngu sýslu, er dæmd var um dulsmál í hèradi; en Jón Eggertsson á Hvítárvöllum sýslumadr var látinn sækja fángahalds-málit á hönd Halldóri Jakobssyni, mælti Halldór um hardfengiliga, en þó dæmdi Sveinn lög-

madr vanhirdíngu hans er þjófarnir sluppu, ok hönum 60 lóda bætr til konúngs, en vísat var til hèrads því, er Halldór hefdi sett sik í mót rèttarhaldi er amtmadr baud; fór hann utan sídan í þeim málum; en lýst var þar Eyvindi ok Höllu ok fleirum óskilamönnum. Ólafr Stephánsson ónýtti dóm Jóns Ólafssonar Vícelögmanns í máli milli Erlendar Ólafssonar ok Davíds kaupmanns von Einen, útaf jardasölu; þat var í yfirrètti, ok var Erlendi heimilat at mega halda máli sínu fram vid kaupmann, ok í hæsta rètti vann Erlendr mál sín, ok hèldt embætti. Allir voru landshöfdíngjar á þíngi, ok voru sumir búnir til utanfarar; segja nokkrir at König færi þat sumar utan, ok var grasarit hans prentad aptan vid ferdasögu Eggerts ok Bjarna. Eggert hafdi þá lítid í hendi, en Bjarni var landlæknir, sem fyrr segir; hann kenndi mjök yktsýki, ok fór þá utan, (er hann ætladi þá för til heilsubótar sèr, þó lítt dygdi) ok med hönum Hallgrímr Jónsson Bachmann; hann var nokkra stund vid lífher konúngs á hesti, því hann var mikill madr vexti, sem módurfrændr hans Bustarfellsmenn, nær þrem álnum dönskum, þrekligr ok all-styrkr, en undir hönd gekk hann Bernardi Gilli, hinum ítaliska manni, er þá sýndi sik í Kaupmannahöfn. Brynjúlfr Pètrsson hafdi komít í læríngu hjá Bjarna á þeim misserum. Jón Árnason, sýslumadr frá Íngjaldshóli, fór ok utan, ok prestr sá er Ólafr hèt, frá Saurbæarþíngum í Dölum, son Gísla prests er þar var, Jónssonar á Ófridarstödum, Jónssonar prests í Reykjadal, ok Önnu Sophíu, dóttur Laurusar lögmanns Gottrúps, en systur Jóhanns; vissu menn ei hvert hans eyrindi var fyrr enn hann kom til Kaupmannahafnar; þá bar hann þat fram, at hönum sýndist rád at setja biskupsstól hinn þridja á Íslandi, ok leggja þartil jardirnar í Stapa umbodi, lèzt þess búinn at taka at sèr þat embætti; ok var því eigi ansat, en þótti sýnt at madr var eigi smáhuga. Á þeim árum var allmikil óvild med Stúdentum í Kaupmannahöfn, fylgdi annar flokkr Hannesi Finnssyni ok kalladr biskupssona-flokkr, en sá bóndasona-flokkr er Eggerti fylgdi ok hans brædrum; hafdi Eggert bedit fyrrum Margrètar Finnsdóttur ok yfirgefit hana, ok fleira bar til, fóru ei þykkjur saman; vildi Eggert at stúdentar hèldi uppi glímum ok leikum, en hinum þótti þeim ei þat hæfa, ok komst í metnadr. Þetta sumar var svo vott, ok illr heyskapr, sem ádr segir, en haust var óstödugt, ok svo frá vetrnóttum til nýárs,

med hretum stórum ok fannkomum, svo at í Nóvembri fennti bædi fè ok hesta til dauds, ok mest um Vestrland, ok spillti fiskibátum, en sumt fórst í snjóflódum, leit þá út til hardinda stórra, en þó komu þau ekki fram at sinni fyrir þessa sök, þvíat vetrinn var gódr frá nýári. 1766.

## LII Kap. Konúngaskipti, sandfall.

Hinn 14da dag Janúarii mánadar andadist Fridrekr konúngr, þrem vetrum betr enn fertugr at aldri; vard hann öllum mönnum harmdaudr í ríkjum hans; er svo sagt at ríki kæmist í skuldir miklar á hans dögum, sumt af umhyggju landvarna vid ófridinn þýzka, en sumt fyrir sakir framkvæmda hans tignarligra, er hann endist þó ei til at fullgjöra allar; ok svo gódleiks hans ok örleiks hins mikla, bædi vid Íslendínga ok adra þegna sína, er kænir menn ok eigingjarnir nýttu sèr til ábata; tók þá ríki Christján, sonr hans, því nær 17 vetra gamall. Þann vetr andadist frú Gudrídr Gísladóttir, kona Finns biskups í Skálholti, en systir Magnúsar amtmanns. Voru þá hlutir gódir sydra ok vestra, en hafísar komu fyrir Nordrland á útmánudum, ok tóku fyrir björg alla; en ofanverdan vetr, hinn þridja dag Aprílis um dagmál, sló nordr yfir landit myrkva miklum, sem um svartnætti væri; fylgdi þarmed sandfall ógrligt, dunur ok brestir; stód myrkrit um þrjár stundir, ok kveiktu menn ljós í húsum ok lásu gudsord; ætludu margir komin heim-slit; heyrdust hinir sömu brestir eptir þat er uppbirti, ok hèldust vid laungum um vorit. En þat var efni í, at Hekla spjó eldi ok sandi sem ákafligast, segja menn verit hafi í 18da sinn er hún brann at bygdu landi; kom hríd eptir sandfallit í Skagáfirdi ok Húnavatnsþíngi, svo mikil at varadi nær viku; rak þá inn ísinn svo mjök, at hafþök vard fyrir nordan land, ok bannadi fiskibjargir allar. Tók sá ís frá Látrabjargi á Vestfjördum, ok svo nordr ok austr fyrir landit, ok at sunnan allt at Reykjanesi; fèll sídan mjök penîngur hjá þeim er áttu, en sá vard gagnlaus er eptir tórdi, at mestu; hýmdu peníngar þegar upp tók snjóinn, ok fengu ekki gras fyrir sandi; urdu af því hin mestu hardindi ok fellir fyrir nordan land, ok kolfelldu sumir allt, ok lá mörgum sveitum vid eydíngu, en 10 jardir eyddust eystra af jardeldum, ok reit Hannes Finnsson á Dönsku um þau tídindi; var

þá kallat sand-vorit. Þann vetr andadist Björn prófastr Magnússon at Grenjadarstad, er opt er getid; hann hafdi átta Elínu, dóttur Benedikts lögmanns Þorsteinssonar, ok voru þeirra synir: Vigfús, prestr sídan at Skinnastödum ok Gardi, ok Magnús ok Einar prestar; gekk þá fjársýkin yfir í Skagafirdi ok vestr um land, en lítt gætti þar fellis af henni, þvíat peníngar fèllu þar unnvörpum af sulti ok megurd, ok voru þar daufligar tídir, er sandfallit ok fjársýkin sókti at senn ok bóla gekk. Var reykr svo mikill úr Heklu fram á sumar, at sól vàr at sjá daglángt sem járn eldraudt úr afli.

## LIII Kap. Annat er tilbar ok umskipti þá.

Á því sumri komu út konúngsbrèf ok tilskipanir nokkrar; var eitt um þat, at tveir læknar voru skipadir af konúngi í tvo landsfjórdúnga, at undirlagi Bjarna: Magnús fyrir nordan, Gudmundarson, en Hallgrímr Bachmann fyrir vestan; bjó Magnús fyrst í Arnarnesi, er vard læknisjörd, en sídan í Skagafirdi; hann fèkk allgott ord, ok var fjölhæfr at mörgu, en Hallgrímr var fyrst at Reykhólum, en bjó lengst at Bjarnarhöfn, því þeir fengu frjálsa bújörd hverr ok 66 dali í árlig laun af konúngi, en 50 dali um sinn hvorr til verkfæra ok bóka; Hallgrímr var rausnarmadr ok gódr fèlagi, en sköruligr at sjá. Annat konúngsbrèf ávann Bjarni einnig; þat lagdi til árligra launa íslenzkum yfirsetukonum yfirheyrdum 100 dali til samans. Eitt var til Guttorms, sonar Hjörleifs prófasts Þórdarsonar á Valþjófsstad, at vera skyldi adstodarmadr Pèturs Þorsteinssonar sýslumanns; annat til Vigfúsar Jónssonar frá Eyrarlandi, at adstodarmadr skyldi vera Jóns Benediktssonar í Rauduskridu, frænda síns; Þorgrímr múrari Þorláksson fèkk eitt fyrir sinni sýslan, hann hafdi farit utan med Bjarna. Stúdentum vid Kaupmannahafnar háskóla voru skipud 5 verdlaun fyrir ýmislegar ritgjördir, ok vann Hannes Finnsson í sagnafrædinni. Jón hèt madr Jónsson frá Kornsá í Vatnsdal, ok nær tvítugu, var sídan kalladr Jón strákr; Gróa hèt módir hans ok heldr kyndug; átti Jón vingott vid þá konu er Helga hèt, Símonsdóttir, ok vard hún med barni hans; hún var á næsta bæ, ok kvad Jón sitja eptir lífi sínu, ok þat var vitnat; fannst hún um vorit stúngin med skónál í kvidinn,

ok med 18 stíngjum ödrum, en tradk eptir vidreign hennar vid mordíngjann; lagdist ord á Jón, ok þat med, at Gróa, módir hans, mundi hafa veitt hönum, því hann var naumast fær vid Helgu í þraut. Lèt Bjarni sýslumadr Halldórsson járna Jón, ok prófadi málit lengi, gengu hönum öll vottord illa, en þrætti fyrir mordit, kvadst þó átt hafa þúngann; var hann því hardari sem meira var á hann gengit, ok kvadst lída saklaus sem frelsarinn; var hönum dæmt húdlát ok kastala-þrælkun um æfi; en hann hètst vid sýslumann, módur sína ok bródur sinn, ef hann kæmi aptr til Íslands. Ridu menn nú til alþíngs, ók komu þó seint sakir hardinda; voru engin stórmæli, en unnir eidar Christjáni konúngi 7da fyrir Magnúsi amtmanni af klerkum í Skálholts biskupsdæmi hinn 15da dag Júlíí, ok af veraldligum embættamönnum ok bændum daginn eptir fyrir Ólafi Stephánssyni; voru svo miklar þrumur þann eidatíma, at menn hræddust, ok urdu taldar 60 hvor eptir adra, ok þvílíkast sem himin mundi bresta; en þat er til sanninda, at sýslumenn svörudu Skúla landfógeta, er hann lýsti óloknum sköttum á þínginu: at hin mesta naud væri í landi, ok hefdi þeir sókt konúng um at skattarnir tækist ei at svo búnu, ok vænti svars: töldu þeir saudfè nær gjörfallit um Húnavatnsþíng ok Skagafjörd, þar sem sandrinn hefdi mest komit, ok kvádu svo at ordi: ok fjallit nú í dag enn opit, eldrinn uppi ok svart fyrir augum móti sólunni af ryki í loptinu, ok veit Gud hvad lángt slíkt kann at gánga. Er af þessu sýnt, at þrumurnar voru Heklubrestir. En fyrir því at fáir höfdu komizt at nordan ok úr Múlaþíngi, þá var Sveini lögmanni Sölvasyni falit á hendr at taka eidana af lærdum ok leikum nordanlands, ok Pètri sýslumanni Þorsteinssyni um Múlaþíng; tók Sveinn lögmadr sídan eida at Glæsibæ vid Eyafjörd, en Pètr sýslumadr at Valþjófstad. Sigurdr prestr Jónsson í Stafholti tók banasótt sína á þessu alþíngi, ok andadist, ok stódu margir mikilsháttar menn yfir grefti hans; hann var son Jóns smikkara Þorleifssonar, Eyríkssonar prests í Vallanesi, Ketilssonar prests, Ólafssonar prests, Gudmundarsonar, en fadir Markúsar prests á Mosfelli ok hans systkina; fèkk Stafholt eptir hann Christján prestr Jóhannsson, prests frá Mælifelli, Christjánssonar, er átti Sigrídi eldri Stephánsdóttur, systur Ólafs amtmanns. Þann dag er Sigurdr prestr var úthafinn, kom Magnús amtmadr sídastan í lögrèttu. Var lírud

dulsmáls refsíng þorbjörgu Jónsdóttur, ok skyldi gista tugthús um þrjú ár. þá kom út Eggert Ólafsson ok fór til Saudlauksdals. þorkell, son Ólafs biskups Gíslasonar, hafdi verit snaudr, þvíat lítid var eptir födur hans; vígdist hann þá til Hvalsness. Spratt vel sumar þetta, en nýttist illa til höfuddags; var reynt at sá mel eda sandhöfrum sunnanlands, ok lukkadist all-vel. þá kom upp fyrir sunnan sótt stríd, mikil ok mannhætt, ok vitum ver ógjörla hvort þessir menn öndudust í henni, eda sumir endrarnær á þeim misserum: Magnús prestr Gudmundarson á Hallormstad, ok Magnús Árnason á Reynivöllum í Kjós; Audbjörg Kortsdóttir, kona Gudna sýslumanns Sigurdarsonar; þorsteinn Hákonarson, er fyrr var lögsagnari í Gullbríngu sýslu, ok þorbjörn Bjarnason, lögrèttumadr í Munadarnesi. En annarstadar dóu þessir menn: Halldóra Jónsdóttir, módir Sveins lögmanns, Gróa Halldórsdóttir, biskups at Reynistad, Magnús Jónsson, Capellán at Breidabólstad í Vestrhópi, Jóseph prestr Ólafsson at Eyjadalsá, Gudrún, er átt hafdi Sveinn prestr Pálsson í Goddölum; Gísli, son Páls brita, skólasveinn í Skálholti, druknadi í Brúará. Utanlands andadist Laurits Stiestrup, er gefit hafdi med Testamenti í öndverdu 11 banko-aktíur til at kaupa med biblíur, ok útbýta gefins til fátækra manna, en sídan hafdi gefit nær 600 biblíur heilar til Íslands, ok nær 17 hundrudum Nýu-Testamenta. þá var landskjálfti í Árness sýslu, ok hrundu bæir nokkrir. Magnús amtmadr hafdi látid reisa múrhús á Bessastödum sídan hann kom út seinast, en á vori því, er nú var lidit, fluttust þeir Ólafr bádir mágar þángat, ok deydi frú þórunn Gudmundardóttir, kona Magnúsar amtmanns, þar í Ágústo, í sóttinni, ok hafdi fjóra um sjötugan, var hún mjök lofud um gódgjördir. Var hinn 24da þess mánadar haldinn bænadagr at konúngsbodi, ok bedit fyrir hamíngjusamligri stjórn Christjáns konúngs. Um sumarit kom út Jón, son Jakobs Eyríkssonar vid Búdir, sjúkr mjök, ok gjördi fadir hans mikit at um hann, svo hann vard heill; hann hafdi farit utan fyrir 6 vetrum eda 7, ok ætlad ádr at fá þeirrar konu er Rósa hèt, ok getid vid henni son, sá hèt Gísli, ok vard seinna prestr í Noregi, en hún brást hönum; hafdi Jón ordit Baccalaureus ok gengit á Kammeri einna fyrstr íslenzkra stúdenta, ok komit sèr vel; fór hann utan aptr þetta haust. þat haust var votsamt, ok kom svo mikit flód í Október mánadi af

vedri ok hafróti, at menn mundu eigi slíkt, sögdu gamlir menn at bodar hefdi risit nær 10 álnum hærra enn menn vissu til ádr; gjördi stórfenni mikit sydra, fennti naut, hesta ok saudfè. Í þeim mánadi andadist Magnús amtmadr Gíslason, er fyrstr hafdi verit hèr amtmadr íslenzkra manna, ok farit lidliga med, verit lempinn ok íhlutunarlítill til alls málafylgis, var ok kalladr gestrisinn höfdíngi, ok voru þau öll öndud á einum misserum ok Fridrekr konúngr; systir hans í Skálholti, frú hans ok hann; tók nú Ólafr Stephánsson fullkomliga vid amtmannsdæmi. Slapp Jón strákr frá Kornsá fyrir hæsta-rètti frá þrælkunarhúsi, er sagt módir hans hafi verit kunnug kaupmanni einum, er heldr studdi mál hans, en gögn fengust ekki, ok vard hann strídsþegn, ok hafdr þó til alls þess er verst var, því hann var hvimleidr medan hann lifdi. Sumir segja Björn prestr Magnússon á Grenjadarstad, er prófastr hafdi verit, dæi á þeim vetri öndverdum, er þá fór í hönd, heldrenn sídla á hinum er leid, en þó á þessum misserum; ok þá voru prentadar á Hólum Passíu hugvekjur ok Graduale. Var gódr vetrinn til Jóla, ok svo allt sídan, ok slíkt hid sama vorit, en mann- 1767.
tapar urdu þá miklir, ok druknudu á tveimr dögum fleiri enn 80 menn á Sudrlandi í sjó, ok 40 fyrir Jökli, ok eitt skip týndist á Skaga nordr; voru hlutir miklir fyrir vestan en minni sydra, ok gekk þá landfarsóttinn yfir, ok vard mannskæd fyrir nordan land.

## LIV Kap. Frá ýmsum mönnum ok mannalátum.

Í þann tíma var Halldór Jakobsson út kominn ok hèldt sýslu sinni. Þá andadist um vorit Þórarinn Jónsson á Grund, sýslumadr í Vadlaþíngi; áttu þau Sigrídr Stephansdóttir eptir 5 sonu: Stephán, Vigfús, Gísla, Fridrík, Magnús; hann var eigi misseris gamall, en Þórarinn sýslumadr var á 8da ári um fertugt. Þá var prentud á Hólum Vidalíns postilla. Eggert Ólafsson hafdi þá lengi verit á vetrum med Birni prófasti Halldórssyni, mági sínum, at Saudlauksdal, er átti Rannveigu, systur hans; hafdi hann ort mörg kvædi ágæt ok ritad grasabók, ok sumir ætla hann hafi studt at er Björn prófastr setti sídan saman bæklíng sinn Atla, þó var Björn prófastr vel til færr; fèkk Eggert í þennan tíma Vícelögmanns embætti; hafdi Jón Ólafsson Vicelögmadr

skipti, ok tók vid því umdæmi nordan ok vestan, en Eggert sunnan ok austan. Kom út konúngsbrèf um tugthússtekjurnar; annat um aukaskattinn, er þess getid ádr at hann var bodinn fyrir hvern þann sem hefdi 100 dala inntekt, skyldi sá gjalda fyrir hvern mann heimilisfastan einn dal hvert ár, þann sem 15 vetra væri; á því bádu menn um linun, ok töldu hve bágstadt var landit, ok um fjársýkina; kom sú linun út nú, ok gaf eitt brèf eptir at gjalda fyrir hjúin, medan fjársýkin stædi, en hverr sem reyndist at hafa 100 dala inntekt, ok urdu þeir ei mjök margir, sakir fjárfellisins, vard at svara hönum fyrir sik ok konu sína ok börn. Eitt brèf var um atskilnadargjördina á biskups-stólunum; eitt var stadfestíngarbrèf embættamanna. Kom út Arv Gudmundsson strídsrád, ok var sendr af höndlunar-fèlaginu at skoda hversu á stædi í Reykjavík, ok kalla skuldir; fór hann utan aptr at því sinni. Sótt kom í land med Austrlandsskipum, ok öndudust af henni margir menn; dóu prestar þessir: Halli Ólafsson at Þíngmúla, Jón Jónsson at Þykkvabæ, Gudmundr Jónsson á Krossi í Landeyjum, Sniólfr Einarsson í Seltjarnarnessþíngum, Sigurdr Þórdarson at Brjámslæk á Bardaströnd, þar tók vid Gunnlaugr prestr, sonr hans, ok andadist hann einnig litlu sídar, en Gudbrandr, annarr son hans, var þar sídan prestr, hvatr madr ok kappsamr. Ólafr prestr Einarsson at Stad á Snæfjallaströnd druknadi, ok þá dó Þóra Bjarnardóttir at Reynistad, ekkja Halldórs biskups, ok var mikit af gengit, ok Gudrún Vigfúsdóttir, Gíslasonar frá Hofi, kona Hans Skevíngs á Mödruvöllum, merkilig kona, sem hún átti þó kyn til. Þorvardr prestr Bárdarson í Felli dó enn, ok ekki meir enn medallagi tregadr, Jón prestr Gudmundarson í Fjördum, Jón prestr at Audkúlu í Svínadal, Bjarnarson, prests frá Hjaltastödum, bródir Stephâns; hann var spaklátr madr ok átti dóttur Árna Þorsteinssonar í Bólstadarhlíd, Halldóru; þeirra börn voru: Björn klausturhaldari, ok Halldóra, kona Andunar prests í Blöndudalshólum, Jónssonar; var þessi Jón prestr líkþrár ok mjök sjúkr. Árni í Bólstadarhlíd dó einnig, ok enn Bergr prestr Magnússon í Nesi, Þorsteinn prestr Eyríksson í Vestrhópshólum, allra manna minnstr, bródir Gunnlaugs prests Eyríkssonar, Þorsteinssonar prests, Gunnlaugssonar frá Saurbæ; Björn prestr Þorláksson at Hjaltabakka, þar kom Rafn Jónsson; Gunnlaugr Capellán til

Reynistadar, son Jóns prests Gunnlaugssonar, er þar var lengi ok marga læknadi á sínum dögum er til hans nádu; var sá Jón prestr Gunnlaugsson lágr madr vexti ok halltr mjök, en þó jafn þeim sem sterkastir voru þá; var annarr son hans Jón prestr, fadir Jóns prests at Grenjadarstad, en fyrr í Audbrekku ok Stærra-Árskógi. Enn deydu fleiri menn: Jón prófastr Vídalín í Laufási, gáfumadr mikill en audmadr enginn, ok Sigrídr Magnúsdóttir, kona hans, systir Skúla, viku seinna; voru þau bædi lögd í eina gröf, ok áttu börn nokkur eptir: Jóna tvo, Sigrídi ok Geir, hann var ýngstr, 5 vetra eda 6. Vigfús, son Hans Skevíngs, var þá settr fyrir Eyafjardar sýslu eptir þórarinn, hann var gjörfugligastr brædra sinna ok frídr madr, en þó eigi um vöxt eda orku sem Hans, fadir hans; var hann hár madr, svo eigi mundi skorta 2 þumlúnga á 70, smáfelldr ok frídr sýnum, rèttvaxinn ok eigi þrekligr at ödru enn limum; lá nokkut hátt rómr ok þó stilliliga, handfastr ok vel um sik, spaklyndr ok eigi ör, en fór vel, líkr í skapi mótdurfrændum sínum, gætinn ok þèttlyndr, en þó gladlátr. Enn öndudust fleiri menn svo um sè getid: Mála-Snæbjörn Pálsson; hann skorti þrjá vetr á tírædan, ok voru prestar vestra synir hans; Jakob Eyríksson vid Búdir, manndómsmadr mikill ok læknir, skorti vetr á sextugan, hafdi verit iktsjúkr sídan fertugt, ok þverrat því afl, þótti at hönum mannskadi; en Gudrún Jónsdóttir, kona hans, lifdi lengi eptir hann ok var skörúngr mikill. 10 prestar dóu alls í Hóla biskupsdæmi, ok enn eru þessir menn taldir: Skapti Sigurdarson, lögrèttumadr; þorkatla Sigurdardóttir, kona Jóns prests at Ballará; Agnes Erlendsdóttir at Mælifelli; Gottskálk þorvaldsson, lögrèttumadr, fadir þorvalds prests, er verit hafdi á Miklabæ, ok verit hafdi hann lögrèttumadr á dögum Páls Vídalíns, ok kvænzt aptr eptir dauda sonar síns, ok átt afkvæmi; Íngibjörg Einarsdóttir, kona Brynjólfs Sigurdarsonar sýslumanns; Steindór Helgason, er fyrr var sýslumadr í Hnappadal; Gudrún Magnúsdóttir, ekkja Páls prófasts at Höskuldsstödum; Eggert Gudmundarson á Álptanesi, fadir Jóns sýslumanns á Hvítárvöllum, ok mágr Magnúsar amtmanns; Magnús þorleifsson prófasts, Skaptasonar, hann bjó at Skútustödum ok átti Herdísi, dóttur Pètrs á Kálfaströnd, systur Bjarna prests á Melstad, en lítt mönnudust börn þeirra. Símon Sveinbjarnarson Capellán til Vogsósa, er Bjarni Pálsson hafdi haft í

læríngu. Þá losnadi Þorsteinn prófastr á Stadarbakka fyrst vid prófasts-sýslu í Húnavatns Þíngi; tók vid Bjarni prestr á Breidabólstad, er þá var Þíngeyra prestr, Jónsson frá Grjótnesi, Jónssonar höfudsmanns á Oddstödum á Slèttu; hann átti Elínu Stephánsdóttur, systur Ólafs amtmanns; voru þau barnlaus ok ólu því upp Fridrik Þórarinsson. Jónas Benediktsson prests, Jakobssonar úr Fljótshlíd, þess er týndist í stigreipinu, fèkk Vestrhópshóla; hann var hinn rádsettasti madr.

## LV Kap. Frá ýmsu.

Skip meiddist á Bátsendum um sumarit ok komst ei út, en Húsavíkr skip braut á höfn, vard fè borgit, en menn vistudust hèr, ok vid misjafnan kost, því skipsmenn á Eyafjardar skipi höfdu sik á brott ádr þeir nædi þeim, ok þótti mörgum þat amasemi. Þá kom konúngsbrèf um rentur at vera skyldu 4 dalir af hundradi; var ok lengdr lagaverkstími Jóns Ólafssonar ok lögmanna um tvö ár, skyldu annars árs ómakslaun gjaldast fyrirfram, en hin ei fyrri enn verkit væri lokit. Þat sumar sigldi Kerguelen, franskr madr, hèr umhverfis land. Dómr Bjarna Halldórssonar hafdi verit stadfestr á Þíngi yfir Kornsár-Jóni, þó eigi hrykki, ok Þorgrímr sýslumadr Sigurdarson verit hafdr fyrir óvidrkvæmiligum ordum vid þann mann er Þórdr Helgason hèt, ok konu hans, en lítid vard úr því, var ok eigi mjök merkiligt. Sigurdr Sigurdarson fèkk nú ei vel atstadit málssóknir í móti Erlendi Ólafssyni, er hann vard at gegna sýslu sinni í Vestmannaeyjum, ok var Jón á Gróustödum skipadr dómari; hann var son prests í Tröllatúngu, ok kalladr af því Trölli; dæmdi hann Erlend ok Ólaf, son hans, af embætti ok æru, en flest sókti Sigurdr málin; Erlendr ok Einar Magnússon, er fyrr var sýslumadr á Ströndum, sóktu ok Sigurd, ok höfdu eigi virdíngu af sókn, en skotid var máli Erlendar ok Jóns til hins næsta alþíngis. Þá gjördist Halldór prestr, son Finns biskups, prófastr í Arness Þíngi, ok reid Ólafr Stephánsson amtmadr nordr um haustid, at gjöra at búi Þórarins sýslumanns á Grund, mágs síns, ok þótti þá nýjúng at amtmadr kom í Eyafjörd. Kammer kalladi skatta, gjaftolla ok tíundir af embættamönnum, en þeir mæltust undan, ok leitudu at sýna af lögum, at þeim bæri eigi slíkt at gjalda, ok var deilt

um þat mikit. þau misseri var borinn Stephán, son Ólafs amtmanns, en Magnús ok þórunn voru eldri, Björn ok Ragnheidr yngri.

## LVI Kap. Kvonfáng Eggerts ok frá ýmsum mönnum.

Þá gjördist þorleifr prestr Bjarnason í Reykholti prófastr í Borgarfirdi, en Eggert Vícelögmadr Ólafsson gekk þá at eiga Íngibjörgu, dóttur Gudmundar sýslumanns á Íngjaldshóli, er fyrr var, var brúdkaup þat haldit at Reykjaholti um haustid at þorleifs prófasts, því hann var módurbródir Íngibjargar; fór veizla fram at fornum sid í gardinum, ok drukkinn mjödr grasadr; var brúdgumareid, þvíat Eggert vildi at Íslendíngar notudu sèr forna sidu í öllu, ok lèt hann einn bónda, er þorvaldr hèt, födur Jóns í Deildartúngu, vera forseta at bodi, ok bar öll klædi hinn sídasta veizludag af íslenzkum tilbúnadi. Sumir kölludu hann stórlátan ok sèrlyndan af slíkum hlutum, ok svo fleiru er þeir drógu til, en adrir hugdu gott til lögsagnar hans, kvádu hann verda mundi rèttdæman ok gódgjarnan; en lítinn krapt hafdi hann haft hèr til, at sína vilja sinn vid landit. Hann tók sèr bústad at Hofstödum í Hnappadals sýslu, ok húsadi þar mikit, ok skipadi þar búendum at hausti, en ætladi at verda í Saudlauksdal um vetrinn, sem hann gjördi, ok fara til Hofstada er húsasmídinni væri lokit. Var þá rosasamt haustid ok vedrátt styrd til Jóla, en eptir Jól gjördi vetr hinn 1768.
bezta; svo var ok vorit, ok sumradi vel, ok vard hin mesta árgæzka ok afli mikill um allt land; þó segir sumstadar at hardt væri um bjargrædi, ok var þó mannfátt, má því ok vel valdit hafa saudfjársýkin ok undanfarin tíd; en 20 vætta hlutir urdu í Grímsey, ok þar rak 4a reidarhvali, en 16 alls nordanlands. Týndist Ásmundr frá Krossanesi vid Eyafjörd vid 5ta mann á sjó. þann vetr fèkk Jón Jakobsson Vadlasýslu, en Jón, sonr Jóns prófasts í Stafholti Jónssonar frá Einarsnesi, Sigurdarsonar lögmanns, veitíngu fyrir adstod vid þorstein Magnússon á Móeidarhvoli, ok Rángár sýslu eptir hann nær sem hann fèlli frá; gekk Jón sídan at eiga Sigrídi, einka dóttur hans, en þorsteinn var audugr at fè ok mest virdr sýslumanna. Jón var medalmadr vexti, stinnligr ok skörugligr at sjá, dökkhærdr ok eigi dáfrídr. Kom út konúngsbrèf, at erfdir allar skyldu gánga á Íslandi eptir norskum

lögum; annat um arf þeirra er til þrælkunar voru dæmdir; eitt um tillög þeirra, er lögdu sig eptir handlæknis vísindum; eitt um aukagjald eda procento skatt, er gjalda skyldi af hverri hundrad dala inntekt er var af konúngslèni. Kammerbod kom til Ólafs amtmanns Stephánssonar, at kalla skyldi af verksmída medlimum í Reykjavík þá í stad 6 þúsundir 6 hundrud 68 dali, er þeir væri konúnginum skyldugir um, nema þeir vilji svara fullri rentu til þess lokit er; ei er hèr sagt hverr því olli. Var ok mikit talat um bóndaskattinn, er allir èmbættamenn áttu at gjalda; þótti prestunum þat mest fyrn, ok stód í því um hríd at þeir skattar voru ei loknir. Jón Eyríksson gaf út bæklíng Páls Vídalíns, eignadan Gudi, konúnginum ok födurlandinu, á dönsku, ok hafdi þó aukit hann ok umbætt. Skip týndist vid Hrísey med 5 mönnum; ok þá deydi Sigurdr prestr Eyríksson á Skeggjastödum austr, Hallgrímr prestr Jónsson á Rafnseyri, ok enn at nokkurra sögn Árni í Bólstadahlíd, er vèr töldum fyrri dáinn. Dó ok Bjarni Pètrsson hinn ríki at Skardi, er fyrir laungu var sýslumadr nokkra stund, ok var hann gamall mjök; hans synir voru: Eggert á Skardi ok Brynjúlfr í Fagradal, ok Torfi prestr, en dætur: Karítas í Búdardal, er arfleiddi Magnús Ketilsson sýslumann, þorbjörg, kona Eggerts prests, Ormssonar sýslumanns, Dadasonar, ok þrúdr, er Bogi Benediktsson átti í Hrappsey, módir Benedikts á Stadarfelli ok systkina hans, ok var þat audmanna kyn.

## LVII Kap. Druknun Eggerts.

Eggert Ólafsson Vícelögmadr snerist mjök í hugarfari þann vetr, til andligra hugsana, ok lýsir því sálmr einn eptir hann; en um vorit bjóst hann at flytja sik frá Saudlauksdal til Hofstada í Miklaholtshrepp, med konu sinni ok öllum varnadi, ok setjast þar í bú; hafdi hann útvegat timbr tilhöggvit til stofu, er hann ætladi at reisa þar, ok er mælt, at hann hafi ætlad at fara landveg, en þat vard skyndiliga at skiptist fyrirætlan hans um ferdina, ok rèdi hann af at fara sjóleid yfir Breidafjörd med öllu sínu; þau höfdu 6 menn adra á skipi enn sik, ok rèdi Eggert því, at bord voru lögd yfir skipit til at sitja hátt á. Gissur Pálsson hèt formadr, ok mælti hann at traudt mundi því skipi

ófærr sjór hèr vid land á sumardegi, en þat átti Jón Árnason sýslumadr. Voru helztir á med Eggerti Íngibjörg, kona hans, ok traudt einsamman, ok Ófeigr Vernhardsson, námsmadr. Var ísjáligt vedr nokkut, er þau lögdu frá Skor, ok töldu sumir úr ferdina, þó rèdi Eggert lögmadr þat af at fara, en myrkva dró upp úr Gilsfjardarbotni. Hann settist undir stýri, ok var byr gódr til þess er komit var nær viku undan landi, þá hvessti ok dymmdi í fjördinn; sá hèt Jón Arason, er á ödru skipi var þeim samfara, ok sneri hann þá at landi ok upp undir Skor; en þat sást sèinast til Eggerts, at hann sat vid stjórn, en seinast til skipsins, at seglit bar í fjardardymmuna, ok gjördi þá sem mest vedrit, ok æ hvessti til midsaptans, svo at hollenzka fiskiduggu, er lagzt hafdi vid akkeri innfjardar, neyddi til at höggva tog ok hleypa til hafs; rak þau Eggert svo í haf eda steypti, sem minnistædt er ordit, ok hefir aldrei spurzt til þeirra; var Eggert vetri eldri enn fertugr er hann týndist, ok med hönum fjárhlutr hans, virdr til 600 dala, ok mörg vísindi, ok skjaldfengar fornbækr; vard hann mjök harmdaudr vinum sínum ok merkiligum mönnum, ok kvádu þeir eptir hann Sveinn lögmadr ok Gunnar prófastr Pálsson ok margir adrir. Bjarni Pálsson tregadi hann mjök, þó ei felldi þeir at öllu ged saman; var þá Bjarni mjök þrotinn at heilsu. Skúla þótti ok sneidir at hönum; hann hafdi kvedit þetta eittsinn er Eggert fór utan:

Fardu vel af fósturjördu, fardu vel med frægdarordi,
fardu vel þó audt sè skardit, fardu vel í hilmis garda!

Á hinum sömu misserum druknadi einnig Hjálmar Erlendsson lögrèttumadr at Gufunesi, mágr þeirra Pálssona, vid þridja mann, hans synir voru þeir Halldór, Páll ok Erlendr.

## LVIII Kap. Mál ok annat.

Í þann tíma hefir Halldór, son Bjarna Halldórssonar, fengit Reynistadar klaustr, því hann baudst til at bæta þar upp aptr fallin kúgildi öll í hallærinu, ok gengu þau Ragnheidr, kona hans, ríkt eptir vid erfíngja frúr þóru. Þá hefir Skúli átt um hríd miklar málasóknir vid höndlunar-fèlagit, ok tapadi nú sókn fyrir sig ok samfèlaga sína, ok

skyldi gjalda 5 þúsundir dala; en höndlunar-fèlagit þat er þá var sendi nú út híngat Arv Gudmundsson strídsrád; hafdi hann ádr verit kaupmadr á Finnmörk, en nú skyldi hann vera kaupmadr í Hólminum, ok taka vid öllum verksmída forrádum af Skúla; gjördist brátt med þeim óvild mikil, sú er sídan varadi lengi; en ekki er gjörla kunnugt hversu Skúli komst í öndverdu í málssókn vid fulltrúa sína, ádr enn þetta fór fram, því málit var rekit fyrir hæsta rètti, ok vissu menn ei heldr gjörla hversu þat gekk; en sídan, er þeir Arv Gudmundsson sátu bádir samtídis hèr, hófust af nýu málssóknir miklar. Kom híngat út spillt mjöl ok óheilnæmt frá höndlunar-fèlaginu, svo at 10 tunnur voru ónyttar, en annat sett nidr at kammers bodi, ok nýtti Skúli þat. Þó var önnur sök fyrri: kærdu bændr þat til Arvs, at þeir lidi tafir af hönum ok misreiknínga, því kaupskapr á Finnmörk var allr ödruvís enn hèr, ok kunni hann ei þá medferd er hagkvæmust var; voru þarum haldin mörg þíng; en er dómr skyldi framfara bad Arv um frest til at koma gögnum fyrir sik, ok fèkk hann þat um nokkra daga; sídan bad hann um lengra frest, ok var því neitad, ok hönum dæmt skyldt at mæta þegar ok svara fyrir sik; frá því appelleradi hann, ok stefndi málinu til auka-lögþíngs; þat fór fram ok var þá sýslumanni dæmt skyldt at heyra afbatanir hans, ok gjalda málskostnad nokkurn. Þeim dómi skaut sýslumadr til yfirrèttar, ok var þar vefengdr lögmannsdómrinn, en höfudmálit fèll nidr, ok var ei framar at gjört. Mjölit þat hit skemmda var sumt selt med afföllum; sumu kastad í sjó, sumt gefit snaudum mönnum; en því lèt Skúli eigi stínga undir stól er svo vondt mjöl var híngat sendt, ok ákærdi fyrir kammerrètti í Kaupmannahöfn, sem enn mun getid verda. Þau misseri andadist greifinn Otto Manderup Rantzow, er verit hafdi Stiptamtmadr Íslands, ok afrekat því margt gott; hafdi hann verit Geheimerád ok riddari, ok jafnan gódr Íslendíngum, ok skipat svo fyrir at stúdentar íslenzkir skyldu bera lík sitt; bar þá svo vid, at Skúli fór utan med mál sín, ok Pètr Þorsteinsson ok Brynjúlfr Sigurdarson sýslumenn, fór Brynjúlfr at útvega brèf fyrir Árness sýslu til handa Gudna syni sínum; voru þeir í Kaupmannahöfn er greifinn andadist, ok báru stúdentar líkit, sem hann hafdi fyrirsagt, ok fengu fyrir þat allmikla penínga; en Brynjúlfr sýndi þá þann höfdíngskap, at hann baud öllum þeim er

likit höfdu borit til kvöldverdar, ok hèldt þeim veizlu virdugliga. Lèt konúngr ok gjöra Rantzow stóran veg, ok slá gullpeníng mikinn til heidrs hönum, med þessháttar titlum sem gefnir eru þeim einum er sigr mikinn vinna konúngi sínum.

## LIX Kap. Smátilburdir.

Nú verdr ei alls getit jafnsnemma, ok verdr því sumt at telja sem fyrri var. Kom út um vorit Jón Jakobsson til Vadlasýslu; hann þótti þar mikill madr ok skörugligr at sjá, sem hann reyndist sídan í framkvæmdum. Hann var nær 9 þumlúngum hins 7da tugar á hæd, breidvaxinn ok limagildr, nokkut hár í sessi, en ekki lángt lærit eda fótrinn, kálfar ok vödvar mjök miklir, rèttvaxinn var hann, ekki fyrirtaks frídr, en sómdi sèr harla vel, nefstór nokkut, gladsvipa en þó svipmikill, augnabragdit skarpt, ef hönum mislíkadi, en tillit mjök hýrt í mjúku skapi, var hann ok optast blídr, hárit dökkt, en sjón skörp til elli-ára; enginn var hann raddmadr, en rædu-rómr mikill ok lidugr; telja mátti hann med gyldum orkumönnum, ok bægdi hönum þó iktsýki í lidum at sýna þat, enda gjördi hann þat ei nema vid störf sín. Þá gjördist Ásgeir, Jónsson prófasts, Pálssonar, prófastr í Stranda sýslu, en Erlendr prestr Jónsson at Hrafnagili í Eyjafirdi, þvíat Hallgrímr prófastr Eldjárnsson fèkk Laufás ok fluttist þángat. Erlendr prófastr var vid lægri kost medalmadr á vöxt, en þó fyrirmannligr at sjá, ok í tali ok róm, manna rádsettastr; enginn var hann afbragdsmadr at gáfum eda mælsku, en rækti vel sýslu sína, ok var sidlátr. Stephán prestr Þorleifsson, Skaptasonar, vard prófastr í Þíngeyarþíngi, lærdr ok allvel at sèr; en þótti nokkud risjóttr vid öl. Sigfús Jónsson í Höfda var þar ásamt í vestri hlutanum, hann var skáldmæltr. Sigurdr Ólafsson var settr fyrir Skaptafells sýslu; hefir hans getid verit, ok var launsonr Ólafs Árnasonar, sýslumanns á Bardaströnd, en Sigurdr Sigurdarson kom til sýslu sinnar í Vestmannaeyum, því at dómr Jóns á Gróustödum um Erlend Ólafsson ok Ólaf, son hans, var ónýttr í lögrèttu, ok skaut hann hönum þá til yfirrèttar á næsta sumri. Voru á þíngi Sigurdr Valdason ok Geirlaug Þorsteinsdóttir úr Skaptafells sýslu dæmd til lífláts um dulsmál, ok skotid þó til konúngs; en Jón

Helgason sýslumadr hafdi dæmt þeim fjögra ára tugthús, en Sigurdi at vinna önnur 4 hjá sèr fyrir sekt, því hann var kvongadr, ok lèt ei verda af tugthúss-vistinni, ok hratt því er Amtmadr baud hönum at halda Geirlaugu, ok prófa málit, ok vildi at engu hlýda hönum. Jón Halldórsson, er ófyrirsynju hafdi stúngit dreng til bana vestr í Rifi, var ok dæmdr daudamadr. Ólafr Gíslason prestr, er fyrr er getid at utan fór, ok var Capellán födur síns sídan, var staddr á þínginu, ok líkadi lítt til Ólafs amtmanns Stephánssonar, annattveggja um medhald vid Magnús Ketilsson sýslumann, er Ólafr átti lítid gott vid, eda adra hluti; veitti hann hönum þar ill ord í fjölmenni hinn 14da dag Júlíí mánadar, ok fèll yfir hann, at því er vottad var, med stórillindum ok heitíngum, kvadst hafa skyldi líf hans á þessu sumri, eda liggja daudr, ok lètst hafa ætlat sèr þat lengi, en nú skyldi fram koma; var vottad at þá hefdi hann flett kápu frá sèr, ok gripit til buxnavasa, sem leitandi verkfæris; var hann tekinn, ok fundust á hönum tveir knífar; urdu lögmenn í vanda hversu med skyldi fara; ætludu sumir hann ódan, en ályktad var at setja hann í vardhald sterkt, ok senda utan med fyrstu skipum er út legdi; ætludu sumir hann mundi þetta gjört hafa til at komast því greidligar af landi, en madrinn ákafliga skapstór sem Jóhann Gottrúp módurbródir hans. Átti sýslumadr í Árness þíngi at láta vaka yfir hönum 2 menn dag ok nótt, þartil hann kæmist utan. Jón skáld, son Þorláks Gudmundarsonar, var þá sveinn Ólafs amtmanns, ok vígdist til Stadarhóls; hann var lítill vexti, sem frændr hans fleiri eda framar, med södulnefi; segir hann svo sjálfur í lýsíngu sinni at hann var 58 þumlúngar at hæd ok 12 fjórdúnga þúngr; hann gjördist hid mesta skáld, ok fèkk Margretar sídan, dóttur Boga Benediktssonar í Hrappsey, ok urdu ei samfarir þeirra lángar, en hann jafnan snaudr. Kerguelen sigldi hèr enn um land, ok var eptir hans lýsíngu sídan afmálun gjör af Frönskum yfir landit. Þá var híngat skipadr stiptamtmadr, Baron Christián Lebrekt von Prökk, er sagt er ádr hafi verit stjórnarmadr yfir löndum konúngs í Vestr-Indíum; ok þá kom út konúngs skuggsjá á íslenzka, danska ok latínska túngu, útgefin undir umsjá Jóns Eyríkssonar, á kostnad Sörens Pen kaupmanns, en at forlagi meistara Hálfdanar Einarssonar ok tilbúin af hönum.
1769. Voru þá hin beztu vedr um haustid til Jóla, ok svo allan vetr þadan

af, ok fiskiár hid bezta sunnan ok vestan land, en kólnadi um vorit fyrir nordan, ok spratt eigi vel.

## LX Kap. Frá ýmsu.

Um vorit ok sídan öndudust þessir menn: Halldór prófastr Jónsson á Hólum, er átti Salvöru þórdardóttur fra Stadarstad, med þeim hafdi verit ást mikil fyrst, en kólnat mjök, ok var þeirra dóttir Helga, er Magnús átti, son Gísla biskups; Hálfdan prestr Nikolásson á Hesti sudr, Ketill prestr Einarsson at Lundi. Ari prestr at Tjörn, son þorleifs prófasts Skaptasonar, andadist hinn 25ta dag Maji mánadar af átumeini í vör; hafdi hann verit all-hardgjör madr, borizt ok af karlmannliga; hann var tvíkvæntr, ok átti börn eptir bádar konur; var hin seinni þorkatla, dóttir Sigurdar prests á Bardi, Einarssonar; Ari hèt einn son þeirra, hann ólst upp med Jóni presti í Múla, födurbródur sínum. þessir deydu enn: Gísli prestr Sigurdarson at Lambastödum; Magnús Vídalín í Ögri, son Páls lögmanns; Margrèt Eyríksdóttir í Vigr, kona þórdar Ólafssonar, bródur Jóns Vícelögmanns. Bæabrennur urdu sumstadar; brann bær at Bustarfelli í Vopnafirdi at Marteins bónda Bjarnarsonar; hafdi þó ádr brunnit hjá hönum, ok farizt mest lausafè, en nú brann bærinn allr med öllu fèmætu ok kýr nokkrar, en nokkrum vard bjargat, en menn allir komust af. Brann ok bær at Leirá, med fè öllu, en kyrkjan stód ok tvær skemmur; þar bjó Björn Markússon lögmadr, en Ólafr amtmadr átti jördina, ok tók lögmann í hús; hinn þridji gódr bær brann at Öskholti; fjórdi at Kláku í Bjarnarfirdi ok 5 menn inni, ok vídar urdu smábrennur. Konúngsbrèf nokkur komu út, þau er út voru gefin hid fyrra árit, en nú var eitt gefit út um peníngarentu, ok veitt nokkur lèni: Magnúsi Ólafssyni, bródur Eggerts, Vícelögmannsdæmi eptir hann; Gudna Brynjúlfssyni at vera adstodarmadr födur síns í Árnessþíngi med sýsluvon, ok Jóni, eldra syni Árnórs Jónssonar í Belgsholti, er verit hafdi sýslumadr í Borgarfirdi, at vera adstodarmadr Hans Wíums í Múlaþíngi. þá gjördist prófastr í Nordr-Múla-sýslu Páll prestr Gudmundarson, Pálssonar, Ámundasonar; en Magnús, son Gísla biskups, var settr dómari í Skagafirdi, því Jón Snorrason sýslumadr átti þá í máli; þat var arfsmál,

hafdi sýslumadr tekid arfafè þess manns er Björn hèt, ok vard ekki greidt um útsvarit, því fè hans sóadist mjök; bjó hann at Hofi á Höfdaströnd, ok var drykkhallr ok hèldt bústýru, en var ei mjök ástúdligt til Gudrúnar Skúladóttur, konu sinnar. Þorkell, son Þorgríms Sigurdarsonar í Mýrasýslu, var settr hönum til adstodar med sýsluvon, en andadist utanlands. Þorsteinn prestr Sveinbjarnarson fèkk Hestsþíng; hafdi verit ádr í Reykjavík, ok var skáld ok vel laginn at fleiru, hann var bródir Egils í Njardvík. Í þann tíma er sagt at þúsund tunnum væri fleigt í sjó af skemmdu korni, ok lèt Skúli landfógeti af at taka saman jardabók sína, ok þá var tekit manntal í landi hèr, ok voru 6 þúsundir hins 5ta tugar ok tvö hundrud. Hallgrímr prófastr Eldjárnsson fèkk þá Grenjadarstad. Mál voru á alþíngi med mörgum mönnum; var dulsmál Páls Bjarnasonar ok Gudrídar Vilhjálmsdóttur úr Ísafirdi, ok þeim dæmt líflát. Dæmt var ok um atgjördir Magnúsar Gíslasonar vid Jón Snorrason í Bjarnarmáli; var þeim hnekkt, því Björn þótti ei hafa gott málefni, en Magnús skaut til yfirrèttar. Ónýttr var enn í yfirrètti dómr Jóns á Gróustödum um Erlend Ólafsson, ok Jón dæmdr óhæfr til dómaraverka; Jón Helgason úr Skaptafells sýslu í 110 dala bætr ok 60 lód silfrs at auki, ok Jústitsfèhirzlu dal, fyrir illa ok þverbrotna medferd vid dulsmálit úr sýslu hans, en hann skaut til yfirrèttar. Þar lýsti Skúli ósanni á skuldalýsíngu Arvs Gudmundssonar til sín frá höndlunarfèlagi; kvadst eiga hjá því lítid. 12 menn týndust ok kona af tveimr skipum á Grímseyjarsundi; hètu formenn Sigurdr, er kalladr var Grímseyjar-formadr, en annarr Jón Bjarnarson. Jón prestr Jónsson var á Mýrum í Álptaveri; födurfadir hans var Jón á Núpstad, módurfadir Einars skólameistara, en módir hans Ragnhildr Sigurdardóttir, Jónssonar prests gamla í Þykkvabæ, er málit átti vid Jón biskup Vídalín, Sigmundarsonar. Kona Jóns prests var Helga Steingrímsdóttir nordan frá Þverá í Skagafirdi, Jónssonar, Steingrímssonar; þau gátu son á þessu sumri, er sídan vard mikilsháttar, ok Steingrímr hèt. En öndverdliga á ári hafdi Jón Jakobsson, sýslumadr í Eyjafirdi, fengit Sigrídar Stephánsdóttur, ekkju Þórarins, ok keypti sídan Espihól hinn nyrdra af Jórunni Steinsdóttur biskups, ekkju Hannesar Skevíngs ok Stephán prófasts Einarssonar, en Hannes hafdi fyrri keypt af Magnúsi Bjarnarsyni, fóru þau Sigrídr

at búa þar um vorit, ok var þar þá þríbýli, ok jörd lítt byggilig, en brátt vard hún upphýst vel; áttu þau börn saman, ok var Jón ellztr, ok borinn um haustid.

## LXI Kap. Atfarir Skúla.

Í þann tíma voru mál Benedikts prests, sonar Árna í Krókum, er ól upp Geir Vídalín Jónsson; hann hafdi fengit Fells-braud eptir Þorvard prest Bárdarson, ok gengit at eiga Vilborgu, dóttur Högna Eyríkssonar ins stóra frá Búlandi, ok dótturdóttur Bjarnar at Bustarfelli; óttadist hann, at hann hefdi ofsnemma gengit í sæng med henni, ok lèt af prestsskap, ok fór at búa í Gröf á Höfdaströnd; fór hann ok utan á þessu sumri, at rádleggíngu eins manns, ok tók med sèr vættisburdi um, at barn sitt hid fyrsta hefdi ei verit fullaldra, er þat var borit; álitu þá læknar at þat mætti í hjónabandi getid vera, ok þó sem tæpast, þvíat fóstrid átti at vera getid 185 daga frá brúdkaupinu, ok þrem dögum eldra, enn líf mætti vera tilkomit; en sídan greiddist mál hans, ok fèkk hann prestskap seinna. En jafnframmi er þat nú at segja frá Skúla landfógeta, at hann kom út um sumarit, ok tók þat fyrir, med því at svo stód í höndlunarfèlags-lögunum, at engar óvirdtar vörur mætti flytjast híngat nema upptækar skyldi, at hann ritadi sýslumönnum öllum, at hvar sem þeir fyndi óvirdtar vörur á höndlunarstödum, skyldu þeir þær upptækar gjöra; gekk hann sjálfr eptir því á hverri höfn í Gullbríngu sýslu, ok í Hólminum var hann fyrirlidi at því, enn lèt Jón Eggertsson sýslumann skrifa sik fyrir atförinni, en á ödrum höfnum Jón landfógeta son sinn eda Gudmund Runólfsson sýslumann. Adrir sýslumenn gjördu ekkert at því, nema Magnús Ketilsson í Stykkishólmi, ok hljópu hinar uppteknu vörur þó at samtöldu ærit mikit. En svo bar til í Hólminum, er atförin var þar gjör, at þar fundust nokkur kvartil af brennivíni frönsku, ok tveir eda þrír hörlèreftspakkar, afsídis lagdir í sæng Arvs Gudmundssonar; lèt Skúli taka þat, en Arv gjördist vid þat óþolinn ok mælti: þèr farit fram eins ok ræníngi; kvadst eiga sjálfr pakkana; þeir væri sendir sèr frá vinum sínum, ok kæmi ei vid höndlun, en brennivínit væri virdt vara, ok mætti því ei upptækt gjörast. Skúli vitnadi ordin, ok sókti sök ok

lèt stefna hönum fyrir yfirrèttinn; var þar álitid, at mikit íllt mætti af standa, ef ekki væri til sveigt, ok dæmt at ordin skyldi hverugum at gjaldi koma, en um upptektar-málit var ei atgjört at sinni. Á þessu hausti fèllu skridur miklar í Hörgárdal, þvíat regn voru mikil, ok hrundu fram fjallahlídar heilar; tók nær af fjóra bæi: Hallfrídarstadi med koti, Uppdali ok Yxnahól; lètst þar kona bóndans er Ásdís hèt, ok tökubörn tvö ok kýr nokkrar ok saudkindr; var þá ok vetr hrídasamr til Jóla.

## LX Kap. Frá ýmsu er til bar.

1770. Sá vetr var allr hardr frá nýári, ýmist blotar eda hrídir ok hörkur, gjördi þá jardleysur ok hardindi mikil ok hrundu peníngar manna, ok helzt á Austrlandi; fèllu 600 hross ok 12 hundrud saudfjár í Skaptafells sýslu sydri, ok þykir oss sannligra enn verit hafi þúsundir svo margar, en mikill var fellirinn; gekk þá ok fjársýkin, var hún komin at vestan allt til Vadlasýslu, en ei austr lengra; var hafís fyrir nordan ok lángt nordaustr fram á sumar. Þá brann bær at Ökrum á Mýrum; þar bjó Árni skáld Bödvarsson; Bödvar, fadir hans, var son Páls prests á Stadarstad, Ketilssonar, prófasts í Hvammi, er getid er á dögum sona Odds biskups, Jörundarsonar. Sjúkleikr var í Húsavík, er alþýda kenndi þar draugi þeim er Húsavíkr-Lalli var kalladr, af illum atkvædum Pètrs nokkurs, er verit hafdi hit mesta illmenni. Þessi misseri sleppti Barón Prökk stiptamtmannsdæmi hèr, ok var ordinn amtmadr í Sælandi, en í hans stad var skipadr Lauritz Andreas Thodal, norrænn at ætterni, var hann ádr Jústitsrád ok stiptamtsskrifari, ok skyldi vera hèr 6 eda 7 ár, en ekki kom hann út fyrir þíng; var þá skipt ömtunum, ok fèkk Ólafr Stephánsson nordr- ok austr-amtid, en stiptamtmadr skyldi hafa sunnan ok vestan. Þá var hinn bezti fiskiafli um land allt. Var gefit út í Kaupmannahöfn ágrip af Pontoppidans spurníngum, er Vigfús prestr Jónsson í Miklaholti hafdi samit, en þó var bannat at brúka þat sídar. Einnig komu út 7 orda prèdikanir Herslebs Sjálands biskups, hafdi þær útlagt Pètr Þorsteinsson, sýslumadr. 10 eda 12 hundrada hlutir voru þá í Njardvíkum ok vídar sydra. Jón prestr, son Þorláks Gudmundarsonar frá Selárdal, skáldit,

gat barn vid Jórunni, dóttur Brynjúlfs í Fagradal, Bjarnasonar hins ríka á Skardi; hafdi Brynjúlfr ei viljad gipta hönum hana; misti hann þá prestsskapinn, ok var sídan um hríd med þorgrími sýslumanni Sigurdarsyni í Hjardarholti, ok Bjarna landlækni Pálssyni; lèt þá þorgrímr af sýslu, en Halldór, sonr hans, var settr í hana. Útgefin voru konúngsbrèf, ok komu ei út fyrr enn önnur misseri, en eitt kom út, at afbidja skyldi fjársýkina af prèdikunarstólum.

## LXIII Kap. Frá Commissariis.

Á þessu vori var sett Commissión, ok voru nefndarmenn í henni: fyrst yfir-Commissaríus Etatsrád Andreas Holt, hann hafdi verit rádmadr í Christianíu; þarnæst þorkell Fjeldsted Jónsson, prests frá Kvíabekk nordr, þess er fyrr var at Felli, Sigurdarsonar, hafdi hann gengit í skóla í Danmörku, ok verit talsmadr í hæsta-rètti, en nú ordinn lögmadr í Færeyjum; hinn þridji var Thómas Windekilde, af gódum borgaraættum í Kaupmannahöfn, hafdi lengi verit Íslandsfari ok yfirkaupmadr, ok var Cancellíerád at nafnbót. Skrifari þeirra var Eyólfr Jónsoníus, stúdent íslenzkr, bródir Vigfúsar prests í Miklaholti, ok Arngríms prests, er var at Melum í Borgarfirdi; hann var vel at sèr ok æfdr mjök í mælíngarfrædi ok byggíngarkunst; átti hann at gjöra hèr stjörnumeistara athugasemdir. þessir menn skyldu skoda hèr búnad ok landstjórn, ok ráda landinu til heilla, höfdu þeir til útgjördar hverr 4 hundrud dali, en 3 dali á dag til uppheldis; skrifarinn hafdi 300 dali til útgjördar, en 2 til uppheldis um daginn, ok allan fararkostnad höfdu þeir ókeypis. þeir komu út ok rídu á þíng, ok sídan nordr í land allt til Eyjafjardar, ok skodudu allt ástand med hinum helztu yfirmönnum landsins; þeir lögdu undir um fjárskurdinn, lausn kauphöndlunar, jardarrækt ok kálgarda, nýbýla-byggíngar, adskilnad Apótheks frá landlæknis-embætti (en þó at Bjarna þætti þat þá óþarfi, en hönum þótti sem var, at hann hafdi komit Apóthekinu á fót) innfærslu korns ómalads er ei var ádr, ok mölun þess, póstferdir ok vegabætr, er allt kom seinna fram, ok margt þykir af því þarft verit hafa. Hèlt Skúli þeim mjök til fylgis vid sik í því er hann mátti, þvíat þeim Thódal

stiptamtmanni samdi ekki um allt, sídan hann kom út, ok höfdu þeir atsetu í steinhúsinu at Arnarhóli vid Reykjavík. Ekki voru stórmæli á alþíngi, en af var tekinn Jón Halldórsson, er piltinum vard at bana í Snæfells sýslu, ok fèkkst ei annat; en þat hugdu flestir at óvilja hefdi verit vígit, ok þó af illum vana Jóns at ota knífum; hafdi piltrinn horft í brèf er hann ritadi, en þá stakk hann hann, ok fèllst þegar mikit um, ok var hann ójárnadr med sýslumanni ok gjördi aldrei til brotthlaups. Lágu þá ísar lángt fram á sumar, ok var votsamt, en spratt þó vel gras.

## LXIV Kap. Mannalát.

Þá andadist frú Thódals stiptamtmanns, en hann var hèr lengi sídan, ok enginn útlendr jafnstadfastr; var hann rádsettr mjök ok vandvirkr, en þótti seinn til úrlausna; hann var medalmadr vexti ok þrekvaxinn, starfsmadr mikill ok umhyggjumadr um búmannsháttu, ok átti vingott vid Ólaf amtmann Stephánsson. Þessir menn öndudust adrir enn frú hans, þeir er nafngreindir eru: Gudni Brynjúlfsson, sýslumadr med födur sínum í Árness þíngi ok prestar nokkrir. Halldór prestr Hallsson at Breidabólstad í Vestrhópi var þá nær áttrædu, ok var hann af mótkasti ýmsu ordinn fálátr ok stirdlyndr seinast, en þó málrædinn vid vini sína í kyrd; var hann ok rómlítill, ok gat ei embættad, ok var skipt þángad prestum, en nú andadist hann; hafdi hann alit upp Pètr prest af Tjörn á Vatnsnesi, er kalladr er Bjarnarson, en þat var mál manna, at Halldór prestr væri fadir at hönum, var hann ok gáfumadr gódr ok skáld; annarr prestr deydi: Jón Gudmundarson í Reykjadal; þridji Jón prestr Sigurdarson á Kvíabekk, fadir Þorkels Fjeldsteds, ok Jóns prests, er stad hèldt eptir hann; fjórdi Árni prestr at Saudanesi Skaptason, Jósephssonar; fimti Högni prestr Sigurdarson at Breidabólstad í Fljótshlíd, fadir þeirra Högnasona, merkismadr mikill; sjötti Vigfús prestr Sigfússon at Dvergasteini, sonarson Vigfúsar prests Árnasonar at Hofi; ok énn Sigrídr Sigurdardóttir, Einarssonar biskups, er átt hafdi fyrr Oddr Magnússon, en sídan Stephán prestr á Höskuldsstödum; var hún þá at Hólum med frú Íngibjörgu, systur sinni; ok Elín Hjaltadóttir, módir Bjarnar lögmanns, ok svo nokkrir íslenzkir

menn utanlands; segia ok sumir Illhugi prestr, er verit hafdi, bródir Bjarna Halldórssonar á þíngeyrum, dæi. Jón prestr Jónsson, Sighvatssonar, gjördist prófastr í Skagafirdi, en þorkell prestr Ólafsson biskups, Gíslasonar, er framadr var utanlands, ok haldit hafdi Hvalsnes, fèkk Hóla dómkirkju kall, ok hafdi lengi sídan. Jón Eyríksson lá vid at yrdi stiptamtmadr yfir Íslandi, ok hafdi verit bodit at fara í land-commissión þá er skipud var, en fann ei heilsu til eda húshag; þó lagdi hann þat sem hönum þótti vænligt til frumvarps þess er Commissióninni var lagt fyrir, var hann þá medlimr ordinn vísindafèlaga konúngligra, hins norræna ok danska.

# Drög til Árbóka,

## til undirbúníngs seinni mönnum,

### yfir sídasta hlut 18du aldar.

---

## I Kap. Konúngsbrèf ok mannalát.

1771. Vetrinn eptir komu Thódals stiptamtmanns var í medallagi, eda þó hardari, helzt sydra; voru öll vedrlög óstödug, ok hretasamt mjök; fiskiafli var hvervetna gódr. Þá var prentad á Hólum: fædíngar ok upprisu hugvekjur, píslarprèdikanir Vídalíns, stafrofskver, fædíngarsálmar Gunnlaugs prests Snorrasonar, píslar-sálmar Hallgríms prests, ok upprisu-sálmar Steins biskups. Komu þá út konúngsbrèfin, er út voru gefin á hinu fyrra árinu, at taka skyldi af helgra manna messur ok lægri hátídardaga, sem þridja í stórhátídum, þrettánda í Jólum, Jónsmessu, Maríumessu, Mikjalsmessu ok allraheilagra-messu; þat þótti mörgum almúga ok prestum sumum eigi all-lítid kristnispell; en hvort þat var edr eigi, þá olli því þó trúarbrestr þess manns er miklu rèdi, ok var rádizt fyrst í at taka þat af sem eigi mátti berliga grunda á kristinni trú, ok missast mátti; annat leyfdi at giptast í alla lidu er eigi voru bannadir í Mósis lögum; aftekin voru ok opinber skriptamál. Í þann tíma tók konúngr af leyndarrád sitt, eda hid forna rádaneyti, olli því annat er þá var eigi bert ordit. Eitt brèf var gefit út um rentur, at vera skyldu þá 5 dalir af hundradi; annat um Súpplicatíur; þridja um skuldamál; fjórda um frændaríki at eigi mætti setja börn sín eda náúnga í tugthús án dóms, en þat þurfti þó ekki hèr til lands at leida; fimta um stórþjófa, er til lífláts hafa verit dæmdir ádr, at stríkjast skuli ok markast, ok vinna í þrælahúsi sídan, en hengjast ekki; eitt var um barnaskírn; sagt er þá hafi verit tekit fyrst til at skera fyrir fjársýkina. Þá gekk andarteppa á börnum, ok taksótt á þeim er eldri voru fyrir nordan land, ok dó margt, öndudust ok margir hinir heldri menn á þeim misserum. Ólafr amtmadr var á Vatni, ok

flutti þat vor at Svidholti. Björn sá, er átt hafdi í máli vid Jón sýslumann Snorrason, hafdi farit utan ok dáit á leidinni, ok misræddu sumir um, en á þessu vori var Jón sýslumadr á för til vorþínga vestan vatna med veikum burdum, ok vard stórliga meint fyrir nedan Glaumbæ, barst þó all-hardmannliga af, fór hann heim á stadinn, ok dó mjök skjótt eptir; var hann naumstaddr um fjárhag ok annat; Gudrún Skúladóttir, kona hans, var lítt sæl med hönum, hún var handvirdakona mikil, ok var þó lengi sídan í Skagafirdi, ádr hún fór sudr til födur síns; áttu þau Jón Snorrason eigi börn. Annarr andadist Brynjúlfr Sigurdarson at Hjálmholti, sýslumadr í Árness sýslu; var hann audugr madr at jördum ok lausafè, ok hafdi þótt mikils verdt um hann; hafdi Einar, hinn eldri sonr hans, verit lögsagnari, er sídan bjó at Barkarstödum ok átti Jórunni, dóttur Sigurdar landskrifara, bródur Brynjúlfs, er bjó at Hlídarenda eptir Brynjúlf þórdarson; var nú þar settr fyrir sýsluna þorlákr Gudmundarson, er opt er getid, fadir Jóns prests skálds, er prestskapar hafdi mist hid fyrra árit. Guttormr Hjörleifsson, lögsagnari Pèturs þorsteinssonar sýslumanns, var á för, ok hafdi ridit af sèr fylgdarmann sinn, fèll af hestbaki, ok drógst í stigreipi, ok fèkk af því bana; ætludu menn hann mundi hafa hálsbrotnat. þessir dóu adrir: Sigurdr prestr at Bardi í Fljótum, Einarsson; Salvör þórdardóttir, er átt hafdi Halldór prófastr at Hólum; Laurits Barmer, kaupmadr á Akreyri; Einar prestr Jónsson í Kaldadarnesi; hann hafdi fyrri haldit Ás í Fellum, ok verit prófastr í nyrdri Múlasýslu; Jón prestr Pálsson at Stad í Steingrímsfirdi, er verit hafdi prófastr; Jón prestr Jónsson á Gilsbakka, hinn eldri; Gísli prófastr at Melum í Borgarfirdi, Bjarnason, Sigurdarsonar, Árnasonar lögmanns, Oddssonar; þórarinn prestr Jónsson á Skorrastad; Jóhann prestr þórólfsson í Garpsdal; Gudrún Árnadóttir, kona Hans Wíums sýslumanns, Gudrún Gísladóttir, kona Ólafs prests í Gördum á Akranesi, Brynjúlfssonar; Kristín Sigurdardóttir, er Pètr prestr á Raudamel átti, Einarsson, Halldórssonar í Ólafsvík, af Halls ætt; hún var módir Pèturs í Gördum í Stadarsveit.

## II Kap. Mál ok annat er til bar.

Þat sumar komu út 13 hreindýr í Vestmannaeyjum at undirlagi Ólafs

amtmanns Stephánssonar, dóu 10 í vesöld um vetrinn eptir, en þrjú lifdu; var ok freistad at leida inn skipalag Sunnmæra, ok reyndist ei mjök haganligt landi hèr. þá voru andligir gefnir frjálsir frá skatti ok gjaftolli, fyrir því at Finnr biskup sýndi med rökum at lög skyldudu þá eigi þar undir. Jón Eyríksson var þá kalladr frá Sóreyjar háskóla, ok settr í hid norska Kammer, ok fór til Kaupmannahafnar; rèdi því nokkud Greifi J. G. Moltke, ok fylgdi hönum sídan til frama, ok med hönum fluttist hann inní Tollkammerid. Fóru enn franskir menn umhverfis ok mældu hèr landstærd; þóttust finna landit minna enn þartil var haldit, helzt Verdun de la Crenne; Thómas Balle kaupmadr gaf ok út ritlíng um von Íslendínga til konúngs, at bæta þeim harda kosti; en Ólafr Stephánsson amtmadr gaf snaudum mönnum í Skagastrandarhrepp þúsund dala virdi í fasteign af búi sínu eptir sinn dag; því þar var upprunasveit hans; fóru mál fram á þíngi at venju, ok gegndi eigi stórtídindum, en kúgilda-mál var úr Húnavatnsþíngi, er sýslumenn fylgdu; Davíd Skevíng sókti, en Jón Jakobsson vardi, ok var sókn ok vörn mikil, ok fleiri mál voru. Á því þíngi lýsti Ólafr amtmadr ok Sigrídr Magnúsdóttir, frú hans, gjöfinni. Höndlunarfèlagit hafdi ákært atför Skúla landfógeta ok upptekt vörunnar, ok bedit um Commissaríos til at dæma málit; hafdi þat farit fram ok voru Commissarii sýslumenn í Rángárþíngi: þorsteinn Magnússon ok Jón Jónsson, mágr hans, en Oddr Stephánsson prests frá Höskuldsstödum, yfirrèttar-nótaríus, sækjandi sakar vegna fèlagsins. Skúli hafdi ok bedit um adra tvo Commissaríos sinnar handar, en þeir áttu leid svo lánga at eigi fengu komit; dæmdu svo hinir tveir, ok dæmdu þat at öllu skyldi aptr skilast því er upp var tekid, eda fullu verdi þess, ok málskostnadur gjaldast. þeim dómi stefndi Skúli landfógeti til hæsta rèttar, en hann var þar stadfestr ok því vidaukit, at þeir sem upptektina gjördu skyldu gjalda einn fyrir alla ok allir fyrir einn. Var þar Jón Eggertsson sýslumadr verst farinn, því hann var dreginn í þat, ok hugdi at vinna konúnginum hollustu, en hafdi ei sjálfr hit minnsta gagn af haft, en vard þó at svara 300 dölum, þvíat Skúli leyfdi ei at nokkur atför væri gjör á sínu fè, þar sem hann stód í ábyrgd fyrir konúngsins penínga; Jón Eggertson var skyldr frú Sigrídi, er Ólafr amtmadr Stephánsson átti, ok var þetta enn nokkurt efni til at

heldr kólnadi med amtmanni ok Skúla, en svo var amtmadr varfærinn, at eigi lèt hann mjök taka til sín mál Skúla medan hann þóttist mega hjá sitja, ok Skúli var í förum; hafdi svo margt verit med þeim fyrri. Fór nú Skúli utan í málum sínum ok eyrindagjördum, sem hann var vanr. Commissarii fóru ok utan, nema Eyólfr Jónsoníus, hann vard eptir sakir heilsubrests, en sídan fèkk hann árliga uppheldis penínga 80 dali, ok von fyrir Stadarstad eptir Jón prófast Magnússon; svo var mikils metin þjónusta hans um eitt ár; hafa margir embættamenn í naudsynja embættum þókzt fá minni styrk fyrir 20 ár eda 30, ok þótti þat mislagit; enda hefir þat opt verit háttr, at virda meira lítil nýnæmi er hugud eru til bóta, en mikit ok lángsamt gagn unnit, ok hefir þó eigi stjórn í Danmörku ætlad sèr til hag vid slíkt; meira hefir hún gefit af sínu til gagns mönnum enn svo megi vera. Er þat mælt, at Commissarii þessir hafi uppkast gjört politílaga eda hèrads- ok húss-stjórnar, en ekki kom þat fyrir mikit. Þat sumar var verra eptir því sem á leid, ok ill nýtíng, jókust frost ok hrídir því meir sem leid at skamdegi; var ok vetrinn mjök óstödugr, med frostum 1772.
svo miklum er á leid, at menn þóttust ei muna slík um 30 ár undanfarin; urdu úti í frostum ok hardvidrum at samantöldu 23 menn fyrir sunnan land; en fyrir nordan voru hafísar miklir, ok kalt vorit, ok sídán grasmadkr ærinn. Peníngafellir vard ok mikill á Vestrlandi, en fiski-ár var allgott sydra ok vestra.

## III Kap. Tídindi frá Danmörku.

Þau tídindi höfdu ordit í Danmörku, ok sannspurdust út híngat, er einna mest hafa ordit á stjórnardögum Christjáns konúngs hins 7da ok fleiri konúnga af Aldinborgar-ætt: hafdi hann hafit þann mann til greifadóms ok rádaneytis med sèr er Jóhann Fridrik Strúensee hèt, en annarr hèt Brandt, er ok vard greifi, en þetta olli því at konúngr afsetti radaneyti sitt hid forna, ok vard þat eigi vinsælt; en nú var Carolína Matthildur drottníng ok dóttir Engla-konúngs, ok greifar þessir bádir, Strúensee ok Envoldt Brandt, tekinn um nótt nær midjum vetri, ok drottníngu fylgt til Krónuborgar kastala í gæzlu, en greifar settir í kastalann Fridrikshöfn ok járnadir, ok nokkrir vinir þeirra, er

grundadir voru um rádagjördir med þeim, ok skildu þau konúngr ok drottníng, en þeir tveir voru teknir af, ok eru um þetta ljósari sagnir í Danmörku, ok þarf hèr ei gjör at telja. Jón Eyríksson kom þá í fornfrædanefnd Árna Magnússonar.

## IV Kap. Tilskipanir ýmsar.

Nú var gefit út konúngsbrèf um Jústits-fèhirdslu-reiknínga; annat um legordsbrot; þridja um saudfèd hid sjúka, at skera skyldi á þeim stödum er fjársýkin var lengst komin; var skorit í Rángárþíngi, en óvíst hve til hlýtar var gjört; Erlendr hèt bóndi Sigurdarson, er þar skar allt fè sitt fyrstr af hlýdni vid konúnginn, en margir adrir tregdudust; skorit var ok í Svarfadardal í fjórum kirkjusóknum, en þó gekk sýkin um dalina ok Eyafjörd; var þá eptir þíngeyar sýsla einsaman, ok Austrland, er hún hafdi ei á komit. Eitt brèf skipadi at peníngarenta skyldi vera sem fyrri var. Þá var ok Vigfúsi Hannessyni Skevíng veitt Skagafjardar sýsla; bjó hann sídan at Vídivöllum, ok var gódlátr höfdíngi, gegn ok stilltr vel ok hamíngjusamr; hann átti Önnu Stephánsdóttur, systur Ólafs amtmanns, var hún væn kona; þeirra börn voru: Lauritz, Gudrún, Ragnheidr, Stephán, Jónas; hann var nú tvævetr. Birni, syni Jóns frá Eyrarlandi, Bjarnarsonar at Bustarfelli, var veitt brèf fyrir apóthekaradæmi ok Instruction, þvíat medalabúdin var tekin frá landlæknis umsjá. Steindóri, syni Finns biskups, var veitt Árness sýsla, ok var hann vel at sèr; hann bjó lengi í Oddgeirshólum ok átti Kristínu Halldórsdóttur prests frá Breidabólstad, Pálssonar, Marteinssonar sýslumanns, Rögnvaldssonar, ok eigi börn; var hann haldinn med hinum vitrustu mönnum, en heyrnarsljór var hann mjök, eigi mikill vexti, líkari módurfrændum. Eitt brèf konúngs var útgefit Ólafi Ólavíusi, bródur Jóns Vícelögmanns, er sídan vard Kammer-Secreteri, at hann mætti reisa prentverk annat í landi hèr, ok hafa til prentunar annara bóka enn andligra; konúngsbrèf kom ok um Rangskattinn. Brynjúlfr Pètrsson gjördist handlæknir fyrir austan, ok var hinn þridji í landi hèr í þann tíma; en konúngr skipadi Eyólf Jónsoníus til himintúngla skodunar eda stjörnufrædi. Deilur voru med Skúla ok Arv Gudmundssyni. Þá gaf Landbústjórnarfèlagit út

ritgjörd Trojels, ok býtti þeim opt sídan launum er stundudu jardeplàirkju.' En þótt at nokkrum notadist þvílíkt allvel, vard þat allt skammvinnt í landi hèr; kunnu fáir til, en árin misjöfn mjök. Tóbak spratt hèr ok einnig þá reynt var, en var þó ei framfylgt. Þat var enn at konúngr nefndi til Commissión af lærdum mönnum í Kaupmannahöfn, er fram skyldi fylgja eptir mætti útgáfu fornfræda, eptir því sem Árni Magnússon hafdi grundvöll tillagt; þá voru ok med öllu afteknar leysíngar í legords-málum. Verdun de la Crenne var hèr enn vid land, ok kannadi hvervetna nes ok fjördu.

## V Kap. Tilburdir.

Þennan tíma deydi Þorlákr Gudmundarson, er fyrst var prestr, en þrisvar í sýslumanns sæti, ok eittsinn settr fyrir Árness sýslu, ok eittsinn hèlt klaustr, en Jón skáld, sonr hans, fèkk prestskap aptr ok Stad í Grunnavík, ok jafnskjótt ól Jórunn Brynjúlfsdóttir barn, ok kenndi hönum af nýu, ok var lokit hans prestskap um sinn, ok var hann sídan ridinn vid prentverkit í Hrappsey, ok fèkk Margrètar, dóttur Boga; bjuggu þau nokkra stund í Galltardal vid þraung mikla. Þá dó Erlendr Ólafsson, sýslumadr í Ísafirdi, eptir svo mikla baráttu, at menn vita varla dæmi til, at einn madr hèr á landi hafi svo opt felldr verit, ok reistr þó aptr vid; var Ólafr, sonr hans, settr þar fyrir sýsluna. Prestar dóu þessir: Nikolás Magnússon í Berufirdi, Árni Högnason at Núpi eystra, Gudmundr Jónsson vestr í Bitru; einnig Hannes Vigfússon at Hofi, Vigfús í Hjörtsey Sigurdarson, Einarssonar, Þorsteinssonar í Þykkvabæ, fadir Gudmundar rádamanns vid tugthúsit, ok Erlendar prests í Neshrepp, ok enn Jón í Ædey, Einarsson, Gunnlaugssonar prests, er verit hafdi lögsagnari Odds Sigurdarsonar, ok kalladr Hrekstada-Jón eda Jón Hrekkr; hafdi hann 2 vetr um nírædan, ok er margt manna frá hönum komit á Vestfjördum; ok enn fleiri menn heldri háttar dóu, þó vèr nefnum þá ei. Oddr Stephánsson vard Nótaríus vid yfirrèttinn, ok var þat ný sýsla; hófst þá yfirrèttrinn algjörliga ok skyldi stiptamtmadr hafa forsetu, ok amtmadr, ef hans væri eigi kostr, en sýslumenn vera meddómsmenn,

ok Nótaríus skrifari; skyldi þessi rèttr dæma yfir lögmannadómum, ok frá hönum skjóta sèr undir hæsta rètt einan; var mjök vid þetta ok margt annat tekinn til at minka vegr lögmanna frá því sem fyrri hafdi verit, eptir því sem jókst ríki amtmanna; vard þat sídan altídt, um hvern dóm, sem sýslumönnum líkadi ekki, at þeir skutu frá lögmanns dómi til yfirrèttar, ok þó lítils væri verdt. Taksótt gekk ok andarteppa á börnum þau misseri, ok dóu mörg. Þat sumar var grasmadkr mjök mikill ok nýting ill. Haust var stórvidrasamt, ok gjördi mikit vestanvedr í Septembri ok aptr í Oktobri nordanvedr med svo miklu brimi, at sagt er bodarnir hafi gengit uppá Drángey á Skagafirdi ok yfir midt Siglunes, en bændr mistu fjölda skipa; voru talin 80 skip, smá ok stór, sem brotnudu frá Hrauni á Skaga ok nordr á Tjörnnes, en fiskihjallar ok veidarfæri var þá ótalit. Þar eptir bar þat til í Nóvembri, at brann barnabadstofan á Hólum, ok einn madr inni, einnig svo kallat klausturhús at Múnkaþverá, þar kom eldr upp í smidju, var húsit alþiljat, 5 stafgólf med lopti á bitum, ok brann þar inni margt fèmætt, er Sveinn lögmadr átti, ok 4 hús brunnu þar önnur. Í hinum sama mánudi gjördi nordanhríd mikla um 6 dægur, svo aldrei stytti upp, fórst bædi fè ok hestar, skip ok veidarfæri, þá enn af nýu; í því vedri tók snjóflód tvo bæi á Látraströnd, heita Midhús ok Steindyr, komst fólk af í Midhúsum, en at Steindyrum voru 9 manns, ok allt háttad ok sofnad í rúmum sínum, ok er 4 dagar voru lidnir kom fólk af næsta bæ til at vitja þángat, ok mátti traudliga fyrir fönn þeirri er nidr var komin, ok bærinn allr grafinn undir snjó; fundust þar 5 manneskjur fullordnar daudar, en tvennt lifdi allsnakit undir snjónum, ok 2 smábörn, annat fjögra vetra, en annat fimm, ok þótti furduverk Guds. Þá tók ok snjóflód Midgerdi í Laufáss-sókn, ok týndist fernt, en tvennt komst af. Fjársýkin nádi eigi lengra austur enn þá var komit, þvíat bodit var at skera hvervetna, ok vard eptir Þíngeyarþíng ok Múlaþíng, er Jón Jakobsson, sýslumadr í Eyafirdi, fylgdi fast fram skurdinum, einnig Skaptafellsþíng, þvíat þar stemmdu ár fyrir, enda var skurdinum fylgt fram af sýslumönnum í Rángárþíngi Þorsteini ok Jóni jafnframt. Keyptu menn sèr fènad aptr sídan úr þeim sveitum er fríar urdu.

## VI Kap. Frá mörgu, helzt mannalátum.

Eptir nýárit hinn 13da í Jólum andadist Bjarni Halldórsson at þíngeyrum, ok er sagt hann hafi fengit fall af sænginni ádr; hafdi hann verit ellstr ok mikilhæfastr sýslumanna hèr á landi um hríd, ok audugr; hann var yfir sjötugt, ok hafdi legit í kör fyrir þýngsla sakir med elliburdum seinast; líkmenn steyptu kistu hans, er hann var grafinn, svo, at nidr sneri höfdahlutin, ok fengu ei lagat því at hríd var mikil, en legsteinn, er ætladr var ok útfluttr, var aldrei nýttr; gáfu erfíngjar sik meira vid at deila um fèd. Var þar settr fyrir sýsluna Magnús Gíslason biskups, er fyrr var settr fyrir Skagafjörd ok fór vestr, ok þótti Húnvetníngum skipti á ordit, þvíat þeir virdu hann miklu minna, var hann ok óríkari, ok skorti margt annat vid Bjarna. Sá vetr var óstödugr ok frostamikill er á leid, en kalladr medalvetr, ok hardari í Nordrsýslu ok Múlasýslum; var þar ok illa undirbúit at grasvexti, fyrir því gjördi þar fellir mikinn, ok lá vid mannfalli. Lögdust hafísar fyrir Nordrland, ok var kalt fyrst, þó lágu þeir eigi lángt á sumar fram; var fiskafli mjök mikill á Vestfjördum, gódr sydra ok í kríngum Jökul; gjördi grasvedr þegar voradi, ok spratt vel þurrlendi. 1773.

# REGISTR.

## A.

## H.

# I.

## K.

## N.

# O.

## P.



## R.

## S.

## T.



## V.

## Þ.

# Registur tilburda og hluta.

## I.



## K.



## L.



## M.



## S.



## V.



## Æ.

# Íslands Árbækr

## í sögu-formi.

Af

**Jóni Espólín,**

fyrrum Sýslumanni í Skagafjarðar Sýslu.

## XI. Deild.

**Kaupmannahöfn, 1854.**

Prentad á kostnad ens *íslenzka bókmentafèlags*

hjá prentara *S. L. Möller.*

# Íslands Árbækr,

## IXdi Hluti.

---

# Drög til Árbóka,

## til undirbúníngs seinni mönnum,

### yfir sídasta hluta 18du aldar.

---

## VI. Kap. Frá mörgu, helzt mannalátum. [Framhald.]

Þá dóu 23 menn af taksótt í einni sýslu, ok gekk fjársýkin ákaf- 1773.
lega fyrir nordan land, því at margir þrjózkudust vid at skera. Madr fór í skóg í Bardastrandar sýslu, med dreng 9 vetra gamlan; sveinninn hafdi rælni mikla, en madrinn tók hann ok skar hann á háls; var hann tekinn ok dæmdr til lífláts, en strauk ok nádist aldrei sídan. Stolit var ok til 500 dala úr Akreyrar-búdum, ok vard ei uppvíst. Týndust þá duggur nokkrar Hollenzkar vid land hèr. Sigurdr konrektor Stephánsson frá Höskuldstödum gjördist þá prestr til Mödruvalla, en Þorlákr prestr Þórarinsson hafdi verit þar til þess, ok búit at Ósi, en aflagt prófastsdæmi fyrir laungu í Eyjafirdi; var hann skáld ok læknir, sem fyrr er getid, ok hefir orkt kvædi ok sálma á Þorlákskveri ok enn fleiri. Nokkut var hann sèrlegr í skapi, ok þó vel stilltr; kölludu sumir hann kvennhollan, en þá er Karítas, dóttir Sigurdar sýslumanns Vigfússonar, hafdi kennt honum barn, er hún var á hlaupum sínum, vann hann eid fyrir þat, ok ætludu þeir, sem gjörst vissu, at hann mundi ei hafa verit rètt grunadr um faderni, en þó hugdu margir, at honum mundi þúngt hafa fallit; hann var kalladr forspár, ok sagdi þat opt, at hann mundi í vatni drukkna, ok nefndi eitt sinn til Hörgá; en í þennan tíma bar svo til, at hann átti leid yfir hana, lagdist nidr á bakkanum ok gjördi bæn sína, reid sídan útí, ok baud fylgdarmanninum at rída, ok segja til ef sèr yrdi nokkut; en áin var mikil, ok fór hann af baki í henni ok týndist. Gudrún, kona hans, andadist skömmu sídar, ok komst ei afkvæmi þeirra til mikils þroska, þar til er dóttursonr hans, er Þorlákr hèt, vard prestr nyrdra. En mörgum þótti mikils vert um fráfall hans. Allmargir menn

dóu adrir, þeir er mark var at; voru þar í medal Jón prófastr Bergsson á Eyrarbakka, ok Gunnlaugr í Hèradsdal, lögrèttumadr í Hegraness þíngi, son Ólafs Þorlákssonar ok Íngibjargar Skaptadóttur; hann týndist í Svartá, var hann fadir Gunnlaugs prests á Hálsi nordr, ok Ólafs Dahl, trúarboda á Grænlandi. Fleiri menn drukknudu. Bjarni prestr Helgason í Landsþíngum deydi einn, ok Einar prestr Halldórsson í Hraungerdi; Stephán Þorsteinsson, er fyrr var prestr at Núpi, ok Ólafr prestr Jónsson gamli í Middal, er í málunum átti fordum; Gísli prestr Bjarnason at Stad í Súgandafirdi; Haflidi prestr Bergsveinsson, er fyrr var í Hólum ok þá gamall, fadir Bergsveins prests vestra, er fyrir nokkru var dáinn, ok Einars, födur Helga prests, födur Árna stiptprófasts, ok enn Gísli Andrèsson, er í Hólum var þá. Sultr var svo mikill í Nordrlandi, at suma dró til dauda. Jón Steingrímsson vard prófastr í vestri Skaptafells sýslu, en Gudlaugr Sveinsson Gudlaugssonar í nordrhluta Ísafjardar sýslu.

## VII. Kap. Mál Skúla, útkoma hans ok annara.

Skúli Magnússon landfógeti hafdi unnit mjölmálit, er hann átti vid höndlunarfèlagit; var því dæmt at láta úti fjórar þúsundir ok 4 hundrud dala, ok voru þeir peníngar settir á rentu, ok goldin sídan af þeim ýmisleg verdlaun til upphvatníngar ok frama bjargrædisvegum Íslendínga, ok helzt landyrkjunni; en nú hafdi hann fyrir annat mál stærra, ok kom nú út, ok hafdi fengit konúngsbod til Magnúsar Ólafssonar Vicelögmanns ok Sigurdar Sigurdarsonar landþíngsskrifara, at taka þat fyrir ok dæma, en þat var í móti höndlunarfèlaginu, útaf breytni þess ok hirduleysi vid verksmídafèlagit ok verksmídar í Reykjavík; var Magnús Vicelögmadr vestr á Bardaströnd um sumarit, ok þóttist eigi vidlátinn, ok setti Skúli honum þá skilmála, er hann vildi ei at gánga, ok fyrir því tók hann í hans stad systurson sinn, Magnús Ketilsson sýslumann. Fór nú fyrst alþíng fram; þar var hreppstjóri einn úr Vestmannaeyjum fèsektadr fyrir illa reikninga, ok Margrèt nokkur Gudmundardóttir, er skorit hafdi barn sitt, dæmd til dauda. Halldór Jakobsson vard fyrir fèsekt, en sídan ridu menn af þíngi seinast í Julio, austr til Eyrarbakka; var þar haldin kommissiónin, en Lindberg, talsmadr höndlunarfèlagsins, bad um uppsetníngu, ok fór hún fram; drógst þat svò til hins 4da Októbris, þá komu kommissarii, ok Skúli ok Lindberg fyrir dóm þeirra; sókti Skúli málit fast, ok var dæmt at lyktum, at höndlunarfèlagit skyldi gjalda verksmídafèlaginu eda landfógetanum 6 ok 40 þúsundir dala, ok nokkur hundrud, ok hefir sá mestr fjárút-

láta dómr gengit hèr á landi; — en Skúli, ok þeir er fyrir verksmíd höfdu stadit, fyrri en höndlunarfèlagit tók vid, höfdu aldrei skýrt reiknínga sína, þvíat þeir brunnu med stofunum, at mælt var. Skip kom út at álidnu sumri sunnanlands, ok segja sumir þat kæmi fyrst hit fyrra haust, en þetta sumar fer sögn af því; hræddust menn þat í fyrstu, ok hugdu Tyrkja vera, þvíat siglíng var ókennileg, en þeirra koma snemma í 17du öld var þá enn í margra manna munni; einn landsmadr dirfdist at róa fram til þess, ok fylgdi inn á höfn, ok gjördi þat engum mein, en seldi hvorki nè keypti; þat var enskt, ok á því Jóseph Banks, Lord eda Lávardr, hann hafdi sex um tvítugt, en hafdi þó farit lengst í sudrheiminn, ok fundit ókenndar eyjar; hafdi hann ætlad aptr hina sömu för, en Spanskir vördudu, ok vildu eigi leyfa þat Enskum; er sagt, at þat skip, er honum var búit til farar, hafi lagzt á hlid í ánni Tems fyrir Lundúnum, en hann hafi eigi fengit annat skip, ok brygdi vid þat fyriræ̀tlan sinni, ok leitadi í nordrheiminn, ok tók hann fararbrèf frá Danmörku; voru á skipi 50 manns, ok eru nefndir: Doctor Solander frá Svíþjód, ok Doctor Uno von Troil, erkibiskupsson frá Uppsölum, þeir voru túlkar hans, þvíat Íslendíngar skildu vel svenska túngu; hann hafdi ok 6 sveina, vel búna, ok gisti at Ólafi amtmanni ok vingadist vid hann; voru þeir mjök lofadir um ljúflæti ok örleik, ok lærdóms-starf sitt; reid hann fyrst til Heklufjalls, ok skodadi einnin hverinn Geysir, ok þótti þat svo merkilegt, at hann lèt kalla eptir þeim tvo hvolpa er hann fèkk hèr; kom hann í Skálholt, bædi áfram á leid ok til baka, ok gisti þar, ok gaf Finni biskupi rakfæri silfrbúin, en silfr-úr hvorjum skólameistaranum, því þeir gjördu velfarnanar-vers hans á íslenzku ok latínu; galt ok ágætlega fylgdarmönnum sínum, ok öllum þeim er honum þèntu; hann hafdi á skipi med sèr hljódfæramenn ágæta, ok lèt þá leika þegar svo bar undir; einnig hafdi hann þá menn, er teiknudu marga hluti, ok med því hann var stórauðugr madr í sínu landi, var hin mesta rausn á veizlum hans ok bordhaldi, meir en nokkurr hafdi sèd hèr á landi. Hann sendi nordr til at kaupa íslenzkar bækr frá Hóla prentsmidju, ok leita eptir steinum í Tindastól, lèt ok kaupa alklædnad íslenzkan, karlmanns ok konu, ok ýmisleg búsgögn, reidtýgi ok ambod. Hann lá 7 vikur í Hafnarfirdi, ok fór á brott sídan; var hann eptir þat mikill madr á Englandi, ok lagdi mikit fè af sínu til almenníngs nota jafnan, sem mörgum á Englandi gjördist tídt, ok var Íslendíngum vinveittr; en Uno von Troil setti saman ferdasögu at sínu leyti. Þetta sumar kom enn út Ólafr Olavius, bródir Jóns Vicelögmanns, ok hafdi med sèr prentverkit nýja, ok allgott, ok leyfi at prenta sögur ok hvat sem hann vildi; fylgdi honum

Eyríkr Hoff prentari, er fyrr var á Hólum, ok settu þeir þat nidr í Hrappsey at Boga Benediktssonar; var þar reist stofa gód, tilhöggvin utanlands, ok gekk fljótt verkit. Jón ýngri kom ok út á Ísafirdi, son Arnórs sýslumanns, ok nokkrir menn med honum, til at hefja saltbrennu í Reykjarfirdi, ok var þar sett nidr timbrhús gott; ok enn komu út laxveidamenn í Hvítá í Borgarfirdi, en þeim tókst illa, ok fóru þeir utan aptr. Tveir menn höfdu verit sendir híngat fyrri frá Noregi, ok áttu at ráda til hags, hètu Walter ok Adam Usler, ok kom þat at engu lidi. Þá var Gudmundr, son Pètrs Þorsteinssonar sýslumanns, skipadr til adstodar födur sínum í Múlasýslu.

## VIII. Kap. Annat er vid bar.

Þegar eptir þíng gjördi stór áfelli med fjúki ok snjó, svo lá vid at þíngmenn at nordan mundi úti verda á fjöllum, gekk sú hríd um 6 dægr, ok vard ei athafzt; notadist þá gras illa, þó eigi væri lítid, því regn gengu sífeld mestallan heyjatímann, ok þau hey, sem nádust, spilltust nær til bruna; þóttust elztu menn varla muna jafnilla nýtíngu; gjördi ok stórregn seinna um haustid, ok mikla spillíngu á húsum manna, ok því er var í þeim; var ok hart vestr um land, ok hretvidrasamt til jóla. Á því hausti voru prentud í Hrappsey mánadatíd-indi nokkur, er Magnús Ketilsson skrádi, en þar eptir búnadarrit Bjarnar prófasts Halldórssonar ok Magnúsar sýslumanns; þar voru ok prentadar rímur Árna Bödvarssonar ok enn fleira. Þau hin sömu misseri var Jón Eyríksson skipadr í efri röd í rentu- ok tollkammeri, ok fyrir fleiri sýslanir, ok látinn sjá yfir málefni Íslands ok Færeyja ok Finnmarkar verzlunar ok fiskiveida; var hann ei á því, at embættamenn svörudu skatti, en Thodal stiptamtmadr var heldr í móti þeim, ok var lengi um deilt; vann Jón Eyríksson mest fyrir veraldlega, at þat gekk ei fram, sem Finnr biskup hafdi unnit fyrir klerkana.

## IX. Kap. Frá ymsu.

1774. Þar eptir gjördi vetr í betra lagi ok afla gódan vídast, nema fyrir austan ok í Vestmannaeyjum var hann lítill, en vor kalt med frostum ok snjókomum; týndust þá skip á Mýrum med 6 mönnum, ok 3 bátar á Vatnsleysuströnd med 6 mönnum, einn á Akranesi med 2, einn á Eyafirdi med 5 mönnum. Erlendr bóndi í Málmey á Skagafirdi drukknadi einnin med konum tveimr. Tveir menn urdu brádkvaddir í Bardastrandarsýslu á sama degi, ok á sömu leid, en voru þó ei samferda. Tveir menn hröpudu fyrir björg undir Jökli, fèkk annarr bana, en

annarr komst af, vinnupiltr at Íngjaldshóli. Þá kom út konúngsbrèf þat, er gaf upp skattana er embættamenn skyldu gjalda, ok nokkur önnur, er midr snertu almenníng; eitt veitti Magnúsi Gíslasyni Húnavatns þíng, annat Jóni Arnórssyni yngra Ísafjardar sýslu, skyldi hann þó hafa saltverkit á hendi sem ádr. Jón Jakobsson sýslumadr tók hálft Múnkaþverár klaustr vid Svein lögmann. Konúngr baud ok, at stjörnumeistarinn hefdi adsetr frjálst at Lambhúsum vid Bessastadi, ok nú skyldi hann ei hafa Stadarstad, þó losnadi, heldr 100 dali til launa þadan af. Enn var bodit Birni lögmanni Markússyni ok landfógeta, at þeir skyldu gjöra skodun á klaustra-jördunum í Skaptafells sýslu, ok virda til landskuldarhædar, þvíat Skúli hafdi fyrir þremr árum sett á þær landskuldir þær er enginn vildi gjalda, ok sögdu því klaustrhaldararnir af sèr alla umsýslu. Madr villtist á Steingrímsfjardarheidi, ok fannst kalinn, er hann hafdi verit matlaus med öllu í 15 dægr, ok vard græddr at heilu. Þá brann bær at Kaldbak vid Tjörnes, ok týndust 4 menn, en barni 4 eda 5 vetra gömlu vard skotid út um badstofu glugg, ok fannst þat aldrei aptr. Annar bær brann at Midhúsum á Látraströnd, þar er ádr kom snjóflódit, komust menn af, en kýr ok allt annat týndist. Badstofa brann at Hrafnabjörgum í Dölum, vöktu heimakonur yfir líki bónda undir badstofulopti vid ljós, ok sofnudu ok kveiktu í loptinu, ok skammbrenndu líkit, en konan hljóp med barn undan eldinum, ok fèll, af því dó barnit. Þá leysti konúngr til sín höndlunarfèlags-eignirnar fyrir 3 hundrud þúsundir dala, ok hafdi hèr sídan höndlun sjálfr; gjördist Jón Eyríksson medlimr í því stjórnarrádi er yfir hana var sett, fengu sýslumenn þá peninga af höndlaninni í launabót, alla þá stund er svo stód; en alla tíd enn stód taxtinn, sá er Lárits Gottrup útvegadi fyrrum, ok mátti enginn verda hægri, ok tók nú þó vöru verd mjök at hækka annarstadar, ok vard þat allt mikit efni, med ödru því er konúngr vard at gjalda ríflega til alls kaupmönnum sínum, ok þeir unnu ekki fyrir sik, at hann tapadi fè vid þá kauphöndlun. Atsjón var gjör hjá Skúla, at konúngs bodi, af stiptamtmanni ok tilteknum mönnum, ok fannst fèhirzluskortr svo mikill, at allt var virt fè hans, þartil er hann leiddi þá at múrkirkju, mjök vandadri, er hann hafdi reisa látid. Finni biskupi í Skálholti var gefin Doctors nafnbót í gudfrædi, ok hlaut hann hana fyrstr íslenzkra manna; hafdi hann þá gefit út í Kaupmannahöfn Historiam Ecclesiasticam, ágætt verk, er hann tók saman af bókum Jóns prófasts Halldórssonar, födur síns, ok mörgu ödru fleiru, ok setti á latínu í góda skipan, en Hannes sonr hans jók sumt, af því sem hann fèkk uppgötvad í Svíþjód ok annarstadar. Halldór prestr Brynjólfsson dó at Hraungerdi í Flóa, Einar

prestr Jónsson at Ólafsvöllum, ok Árni prestr Ólafsson í Gufudal vestr. Á þíngi var dæmt mál Jóns Jónssonar af Bardaströnd, er piltinum vard at skada, ok Gudrúnu Pálsdóttur úr Vestmannaeyjum, fyrir tvö barnsmord, at klípast ok aflífast; annari var dæmdr daudi úr Múla sýslu, um dulsmál, er Þóra hèt. En at lidnum August mánudi fóru þeir Björn lögmadr Markússon ok Skúli austr, ok virtu klaustrajardirnar; gjördu þeir sína ályktun hvorr, ok voru þær utan sendar med skipum til Kaupmannahafnar; fór ok Skúli utan á Berufirdi, því hann átti margt vantalat, ok ei var til lykta leidt málit mikla vid höndlunarfèlagit, þó þat væri dæmt hèr í landi; var þá þurt sumar ok grasbrestr, en frost á nóttum; gjördi ok vestra snjókrassa í Augusto, ok fram í midjan September, en þadan af var haust hit bezta ok öndverdr vetr. Bar þat þá til tídinda at Saudlauksdal, at Bjarnar prófasts Halldórssonar, ágæts manns, er Magnús Vicelögmadr mágr hans var med honum, at á Jólaföstu voru tveir ýngismenn skólagengnir at renna á leggjum, eptir stöduvatni einu skamt frá bænum, var ísinn vondr ok ótraustr, ok fèll annarr ofan um, en hinn fór til ok vildi duga honum, ok fór hann sömu leid, ok drukknudu bádir; drengr var hinn þridi med þeim, hann fór eigi at, ok því komst hann af ok heim, ok sagdi tídindin; fundust ei lík þeirra, þvíat vatnit er djúpt mjök. Þá fèkk Þorkell prestr Ólafsson Íngigerdar, dóttur Sveins lögmanns.

## X. Kap. Frá ymsum tídindum.

1775. Vetr var mestallr gódr fyrir nordan ok vestan land, en frá þorra gjördist hann hardr sydra ok jardbönn, fèllu sumstadar hross, ok var saudfè skorit af heyjum; fiskleysi var vída, helzt austanlands, en vor kalt nyrdra til Jónsmessu. Þadanaf batnadi árferdi, ok gjördi grasár gott. Afli var vída lítill, en nær enginn í Vestmannaeyjum. Týndust um vetrinn 6 menn af skipi milli Flateyjar ok Tjörness, þeir höfdu farit at sækja fisk, ok höfdu háfermi, en vedr gjördi mikit á eptir þeim; þrír týndust af ferju í Svalbardsá, ok tveir hröpudu í Vestmannaeyjum; fleiri urdu misfarir einstakar. Madr var myrdr í Árness þíngi, hafdi verit keyrdr páll í höfud honum, ok ætludu menn at kona hans mundi valda, en ei komst þat upp. Þá bardi ok einn bóndi í Rángár þíngi vinnukonu sína, svo at hún dó skömmu sídar. Aukaskattrinn var uppgefinn med öllu, ok allt hvat sem eptir stód af honum. Ýmisleg komu önnur konúngsbrèf: eitt um affall í smápeníngamynt nokkurri; eitt um þjófa; eitt um skipbrotsmenn, at þeir rádi hverjum þeir selja fè sitt; eigi kom þat á þeim misserum út híngat; eitt um justizfèhirzlu inn-

tektir af búum; eitt um hjónabandsleyfi í bönnudum lidum; þat kom eigi þá út. Bjarna Einarssyni var veitt brèf til adstodar vid Davíd Skevíng á Bardaströnd, hann var bródir Ólafs prests at Ballará, son Einars á Vatneyri, Bjarnasonar í Kollsvík, Jónssonar frá Sellátrum, Thómassonar, ok átti Ragnheidi, dóttur Davíds, var þeirra son Gudmundr Skevíng. Annat brèf var veitt Þorláki Ísfjörd, til adstodar vid Jón Árnason á Íngjaldshóli, sýslumann í Snæfells sýslu; Þorlákr var Magnússon, Sigmundarsonar, Sæmundarsonar, Magnússonar á Hóli, Sæmundarsonar, Árnasonar at Hlídarenda, ok fadir Kjartans Ísfjörds, kaupmanns. Þá andadist Eyjólfr Jónsoníus stjörnumeistari, ok Jórunn, dóttir Steins biskups, ok Íngigerdr, dóttir Sveins lögmanns, er Þorkell prestr á Hólum átti, son Ólafs biskups Gíslasonar; hún dó af barnburdi, en barnit lifdi ok hèt Sölvi. Dó ok kona Gudlaugs prófasts Þorgeirssonar í Gördum, ok kona Sigurdar prófasts Jónssonar í Holti undir Eyafjöllum, er sumir telja þó ári sídar, ok med því at Sigurdr prófastr trubladist, tók Páll prestr son hans vid stadnum þar, en Gísli prestr Snorrason í Odda prófastsdæmi á Rángárvöllum. Þorvardr prestr at Saurbæ vid Hvalfjörd, Audunarson, Benediktssonar prests at Hesti, Pètrssonar, andadist einnin, hann var vel fjáreigandi ok rádsettr, ok átti eigi börn eptir. Sendir voru híngat tveir menn, Henkel ok Ziener, til at skoda brennisteinsnámur ok surtarbrandsfjöll; tók ok Ólafr Olavius at ferdast um land, en Magnús sýslumadr Ketilsson í Búdardal í Dölum tók umsjá prentverksins í Hrappsey, med adstod Boga Benediktssonar, er þar bjó. Þá kom ok út prentadr kristinrèttr Þorláks ok Ketils biskupa. Tídemann hèt biskup í Kristjánssandi í Noregi, hann lagdi þat til, at klerkar í hans biskupsdómi lögdu saman, til at gefa fátækum prestum á Íslandi, þökkudu þat í latínskum ljódum Gunnar prófastr Pálsson í Hjardarholti, ok Kolbeinn prestr Þorsteinsson í Middal, fyrir Skálholts biskupsdæmi, en fyrir Nordrland meistari Hálfdán Einarsson, skólameistari at Hólum, ok Jón prestr Jónsson at Grund í Eyjafirdi, vel lærdr madr, fadir þess Jóns prests var Jón lögrèttumadr á Bakka í Svarfadardal, Oddsson frá Skeidi, Jónssonar á Melum, Oddssonar sterka, Bjarnasonar, Sturlusonar; en Sigrídr Bjarnadóttir hèt kona Jóns prests, eyfirzk at ætt, ok voru þau foreldrar Jóns prests í Mödrufelli. Þá spurdist andlát Matthildar drottníngar; en kaupskip öll komu í þann tíd út á konúngs reikníng. Á þíngi var Þórunn Bjarnadóttir úr Bardastrandar sýslu dæmd til lífláts um dulsmál. Þar sóktu þeir Helgasynir, brædr Jóns sýslumanns í Skaptafells þíngi, Ólafr ok Indridi, Jón Jakobsson sýslumann, ok vann hann málit, en Halldór Jakobsson vard fyrir fèsekt í máli vid Magnús Ketilsson. Þá kom út

Skúli landfógeti, ok vissu menn ekki hverju hann hafdi á leid snúit í málinu mikla vid höndlunarfèlagit, en ei var þá annat tídræddara en um stórmennsku hans; var málinu vísat til yfirrèttar hèr, en þat kom svo seint, at ei vard fyrir tekit; fyrir því voru Commissarii, ok adrir, er þar áttu hlut at, varadir vid, ok bodit at mæta fyrir yfirrètti á ödru sumri, fór Skúli þá aptr utan, ok Magnús Vicelögmadr Ólafsson. Halldór, son Finns biskups, fèkk Hítardal, ok vard prófastr, þó lifdi þar Vigfús prófastr Jónsson, födurbródir hans. Jón, prófastr í Gaulverjabæ, Teitsson prests, Pálssonar frá Kirkjubóli, mágr Finns biskups, vard ok prófastr í Árnes sýslu. Jón prófastr átti Margrètu Finnsdóttur, ok voru þeirra börn sum á legg komin; þessi eru talin: Sigrídr, Katrín, Sigurdr, Finnr, Gísli, Jón; en ádr átti hann adra konu, Halldóru Sigurdardóttur frá Hollti; var þeirra son Teitr prestr. Adra dóttur Finns biskups, Ragnheidi, átti Magnús Vicelögmadr Ólafsson, ok áttu þau börn saman; Finnr var sonr þeirra, er seinna vard merkilegr. Hannes Lárusson Skevíng gjördist þá Capellan at Grenjadarstad. Var gott haust ok jardasamt, ok vetrarfar fram til jóla, ok svo sídan.

## XI. Kap. Boga ætt.

Þess var getid, at Bogi Benediktsson hafdi forsjá prentverks í Hrappsey med Magnúsi Ketilssyni sýslumanni. Bogi hèt eptir kaupmanni einum, ok var sonr Benedikts gamla í Hrappsey, ok borinn honum í elli, Jónssonar í Brokey, Pètrssonar, en módir hans var Ýngvildr Bjarnadóttir frá Arnarbæli, Bjarnasonar, Jónssonar Dans, Magnússonar. Bogi var vid aldr er hèr var komit, hann var framadr vel, þó hann væri ólærdr, bóndi mikill ok athafnamadr, ok audugr at fè, gildr at karlmennsku; hann hafdi fyrst átta Þrúdi, dóttur Bjarna hins ríka á Skardi, Pètrssonar; þeirra börn voru Benedikt, Bjarni ok Margrèt; bjó Benedikt at Stadarfelli, ok var skólagenginn, ok gjördist audmadr í þennan tíma; hann átti Hildi Magnúsdóttur prests, nordan frá Höskuldstödum; þeirra börn voru Bogi ok Halldóra. Bjarni bjó í Frakkanesi, ok sídan lengi á Brimilsvöllum, ok var einnin skólagenginn; hann átti Jóhönnu Vigfúsdóttur frá Eyri, Helgasonar, ok börn. Margrèt var gipt Jóni presti skáldi Þorlákssyni um hríd, ok var þeirra dóttir Gudrún; en lítt seldist þeim út. Ödru sinni fèkk Bogi hinn gamli Kristínar, dóttur Bjarna prófasts í Kálfholti, systur Þorleifs prófasts í Reykholti, ok var hún vel, en þó skildu þau ólaglega; var sagt hún hefdi játad at taka mann undir hann, ok áttu þau ei börn. Þridja sinn kvæntist Bogi, ok fèkk Sigrídar Jónsdóttur prófasts frá Stafholti, Jónssonar í Einarsnesi, Sig-

urdarsonar lögmanns, hún var fyrri gipt Jóni presti Ásmundarsyni á Breidabólstad; þeirra börn voru mörg: Ragnheidar fèkk sídar Björn Gottskálksson, ok annarar Ragnheidar Gísli prestr Einarsson í Selárdal, Gudrúnar Eggert prestr Gudmundarson, Yngvildar Gudmundr prestr Eyríksson á Stad í Hrútafirdi, Kristínar Þórdr prestr Ólafsson frá Ballará, en seinna Skúli Magnússon sýslumadr. Þau Bogi ok Sigrídr skildu ólaglega. Flest voru börn Boga mannvæn, ok vard hann madr gamall.

## XII. Kap. Frá Sveini lögmanni ok nokkrum fleirum mönnum.

Nú höfum vèr studzt vid þat, med ödru, um hina næstu 30 vetr, ok er nú lokit, er vèr höfdum eptir Sveini lögmanni Sölvasyni, þeim manni, er bædi var svo vitr, ok kunnugr því er stórum málasóknum gegndi, á þeim dögum er hann sjálfr lifdi ok hafdi embætti, at ei munu adrir sannara frá herma, þeir er annathvort gylla hóli, edr ámæla þeirra athöfnum er þeir skiptu vid; ok var Sveinn lögmadr merkilegr madr í mörgu. Hann var lágr madr á vöxt, ok all beinsmár, eigi frídr en gildr af holdum, hann var drjúgmæltr ok gagnordr, ok mikill rómrinn, lagamadr gódr ok hefir ritid um sakamála lög ok Tyro Juris edr vidvaníng í lögum, ok enn fleira; skáld var hann gott ok gamansamr, ok hefir kvedit lofkvædi um Lovísu drottníngu, módur Kristjáns konúngs, er hann kalladi Lovísu-lilju, ok annat um greifa Rantzau, einnig eptir Eggert Ólafsson; hann kvad ok brúdkaups vísur til Jóns Jakobssonar ok Sigrídar Stephánsdóttur, dróttmæltar, en at nedan er annarr bragr, þar sem svo byrjar:

Phœbus hátt á hjalli
himin- byggdi stól, o. s. frv.

ok enn fleira, ok er allt ágæta vel orkt; hann hefir ok kvedit Gizurar rímur. Nokkut var hann hneigdr til öls, ok þótti kýminn; fann hann sèr, at mælt er, til kýmnis um lækna: inntökur þeirra ok stólpípur, ok kallsadi þat eittsinn til Bjarna Pálssonar, en Bjarni bad hann hógt um tala, kvad þat mundu til mega liggja at Jón sonr hans yrdi landlæknir eptir sik; en þat var fleira, af því er Bjarni mælti, at fram kom, at því er Sveinn Pálsson segir í æfi hans. Sveinn lögmadr átti Málmfrídi, dóttur Jóns í Grenivík, sýslumanns; voru börn þeirra frumvaxta, er hèr var komit. Jónar tveir voru synir þeirra, átti Jón eldri seinna Gudrídi, dóttur Sigurdar landskrifara, en Jón ýngri ekkju Þorláks Ísfjörds, dóttur Erlendar sýslumanns Ólafssonar; Ingigerdi átti Þorkell prestr á Hólum, ok var hun öndud; Ingibjörgu átti Magnús

prestr, son Erlendar prófasts Jónssonar at Hrafnagili, ok Gudlaugar Magnúsdóttur, systur Gísla biskups; Gudrún deydi ógipt; Karítas átti Erlendr Hjálmarsson. Allvingott var med Sveini lögmanni ok Jóni Jakobssyni sýslumanni, er bjó at Espihóli, en at hans var velgengni meiri en at lögmanns, ok hann keypti Grund at Jóni Thorlacius Brynjólfssyni, Thorlaciussonar; voru þá ordin börn þeirra Jóns sýslumanns ok Sigrídar Stephánsdóttur: Jón, Bendt, er úngr dó, Margrèt, Jakob, hann var vetrgamall. Kunnleikr var mikill med þeim Sveini lögmanni ok Gísla biskupi Magnússyni á Hólum, ok stundum sem glettni. Gísli biskup hafdi verit baldinn höfdíngi mikill, en tók nú at eldast ok hneigdist heldr til drykkju, en jafnan þótti mikils vert um hann, þeim er vid hann skiptu. Íngibjörg frú hans Sigurdardóttir, Einarssonar biskups, þótti nokkut sèrleg; voru börn þeirra mönnud fyrir laungu: Magnús sýslumadr í Húnavatns sýslu ok Oddr prestr at Miklabæ ok Kristín, er átti meistari Hálfdán Einarsson; en ólíkir voru þeir brædr födur sínum. Þat er sagt einhverju sinni, at Sveinn lögmadr var staddr at Hólum, ok átti tal vid frú Íngibjörgu med glettni nokkurri, bar svo til at hrafn sat á stofustaung ok gall; þá kvad hann þetta:

Hrafn sitr á hárri staung,
höldar mark á taki:
ei þess verdr æfin laung,
sem undir býr því þaki.

Hún svaradi:

Engin hrakspá er þat mèr,
þó undan gángi ek naudum,
en ef hann kvakar yfir þèr
ekki seinna daudum?

Þau meistari Hálfdán ok Kristín Gísladóttir áttu eina dóttur barna, er Íngibjörg hèt, hennar fèkk mjök laungu seinna Magnús Þórarinsson. Í þann tíma er hèr var komit lágu þjófar úti á fjöllum: Eyvindr, er slapp frá Halldóri Jakobssyni, ok Halla kona hans, Abraham ok Arnes, ok lá Arnes lengi úti; Eyvindr var rádgódr ok lèttfærr, ok slapp þó hann nædist. Björn hèt madr skólagenginn, Bjarnarson frá Bödvarsdal, Ólafssonar prests at Kirkjubæ, Ásmundarsonar, en dótturson Bjarnar at Bustarfelli, mikill ok gildlegr; hann fór vid annan mann, ok hittu þeir þau Eyvind ok Höllu, tók Björn Eyvind, ok batt hann, en Halla fèkkst á medan vid fylgdarmann hans, kom honum undir ok ætladi at bíta hann á barkann, var hún dökk ílits; Björn tók hana þá, ok voru þau sídan flutt í medal sýslumanna, ok sagdi Halla svo, at hún

hefdi sèd fyrir börnum þeirra; þau sluppu aptr, ok nádi enn Einar Brynjólfsson á Barkarstödum ok hans fylgdarmenn Eyvindi, en ei vard honum haldit.

## XIII. Kap. Skevíngs ætt.

Í þann tíma var ætt Lárusar Skevíngs á Mödruvöllum tekin mjök at breidast út um land, helzt nyrdra. Lárus, son Hannesar Skevíngs sýslumanns, Lárussonar, bjó í Gardi nordr, ok hafdi um bríd hálft Múnkaþverár klaustr; hann átti Önnu, dóttur Bjarnar prests at Grenjadarstad, Magnússonar; þeirra börn voru: Stephán, Hannes, Jórunn. Stephán Skevíng var prestr í Presthólum, hann átti fyrri Þorbjörgu Stephánsdóttur prófasts, Þorleifssonar prófasts, Stephánssonar, ok börn mörg, en seinna átti hann systurdóttur sína. Hannes Skevíng var prestr at Helgastödum, hann átti Snjólaugu, dóttur Hallgríms prófasts Eldjárnssonar, ok börn. Jórunn átti Þorstein, son Hallgríms prófasts, ok börn, urdu fjórir synir þeirra prestar ok ein dóttir prestskona seinna. Margrèt átti Einar prest Árnason á Saudanesi ok börn mörg. Þórunn Hannesdóttir, systir Lárusar í Gardi, hafdi fyrri verit gipt Jóni á Reynistad, Vigfússyni frá Hofi, Gíslasonar, ok áttu þau börn saman, en sídan Jóni prófasti Steingrímssyni í Skaptafells sýslu. Hans Skevíng Lárusson hèlt Mödruvalla klaustr, hann var þessa stund gamall ok karlægr, hafdi hann verit mikill madr at álitum ok afli, en kalladr nokkut einfaldr, ok þó allvel, hafdi hann átta Gudrúnu Vigfúsdóttur frá Hofi, Gíslasonar, ágæta konu; þeirra börn voru Lárits, Hannes, Davíd, Vigfús, Þórunn. Lárits hafdi dáit utanlands, mannvænlegr madr. Hannes Skevíng átti Rannveigu Marteinsdóttur frá Bustarfelli, Bjarnarsonar sýslumanns; þeirra börn voru: Hans, Marteinn, Gudrún. Davíd ok Vigfús voru líkir í skapi módurfrændum sínum, var Davíd Skevíng sýslumadr á Bardaströnd, ok bjó í Haga, ok hýsti þar merkilega; hann átti Þóru, dóttur Eggerts á Álptanesi, Gudmundarsonar, systur Jóns sýslumanns á Hvítárvöllum; þeirra dóttir var Ragnheidr, er átti Bjarni Einarsson. Vigfús Skevíng á Vídivöllum átti Önnu Stephánsdóttur, prests frá Höskuldsstödum, systur Ólafs amtmanns; þeirra börn voru: Lárus, Gudrún, Ragnheidr, Stephán, Jónas, ok verdr þeirra enn getid, var Jónas 5 vetra er hèr var komit. Þórunn Hansdóttir var gipt Jóni prófasti Magnússyni á Stadarstad, bródur Skúla; hún var gedveik; þeirra börn voru: Lárits, Hallgrímr, Árni, Helga; hún var gipt seinna Stepháni Skevíng Vigfússyni, en Hallgrímr Oddnýju, dóttur Skúla; öll voru börn Jóns prófasts Magnússonar ólík födurfrændum sínum, nema

Lárus. Björn prestr Skevíng var ok son Lárusar Skevíngs, ok var hann dáinn, ok átti einnig eptir afkvæmi.

## XIV. Kap. Frá Árna presti ok Bjarna.

Þá hèlt Seltjarnarnes þíng Árni prestr Þórarinsson frá Hjardarholti, prests, Jónssonar prófasts, Þórarinssonar; hann átti Steinunni dóttur Arnórs sýslumanns í Belgsholti, en adra dóttur Arnórs sýslumanns átti Jón prestr at Mosfelli, Hannesson frá Marteinstúngu, Jónssonar frá Reykjarhóli í Fljótum, Magnússonar í Djúpadal, Eyríkssonar, Magnússonar, Bjarnarsonar, Jónssonar biskups, Arasonar; þeirra synir voru Audun ok Arnór, er laungu seinna urdu prestar. Jónar tveir, sýslumenn, voru synir Arnórs sýslumanns, ok Sveinbjörn snikkari; Finnr Arnórsson var launsonr hans. Þau Árni prestr ok Steinunn áttu börn mörg: Magnús hèt son þeirra ok Þórdr, Páll, Jóhann ok Gudmundr, Þórarinn ok Arnór, Þórarinn dó úngr, ok dætr tvær. Er þess getid eitt sinn, er til orda kom um barnlagnad þeirra á mannfundi, at þar var staddr Bjarni Pálsson landlæknir, ok kvad prestr eigi meira mundu af verda en þá var, en Bjarni kvad þau 7 sveina eiga mundu ok stúlkur tvær, ok annattveggja mundu þær ei lánglífar verda, eda hann mundi dáinn þegar þær fæddist; ok svo vard, sem hann sagdi; ok er hann var spurdr af kunnmönnum sínum, hvert mark hann hefdi til haft, sagdi hann svo, at hann hefdi eittsinn mætt Steinunni húsfreyju á Lambastödum í dyrum frammi, þegar húmat var af degi, ok hefdi sèr sýnzt um hana 9 börn, en tvö af þeim sem í þoku væri. Árni prestr var eigi mikill vinr Thodals stiptamtmanns, ok er svo sagt, at hann lyti honum eigi mjök, því hann var kappgjarn í skapi. — Á þessum misserum, er nú voru talin, var leitad Bjarna úr Eyjafirdi; gekk þar þá sýkin franska, er svo er köllud, lagdi hann þat til, med rádum ok fylgi annarra lækna, er dugdi.

## XV. Kap. Frá ýmsu er til bar.

1776. Önnur misseri var gott allt árferdi, þá urdu 5 skipreikar á Sudrnesjum, ok drukknudu 12 menn, ok slík misferli urdu fleiri á einstökum mönnum. Sturlan gekk yfir ok rænuleysi svo mikit, at marga vard at taka til vöktunar, svo lærda sem leika, var þar í medal Sigurdr prófastr Jónsson í Holti undir Eyjafjöllum, er fyrr getr, gamall ok sjónlaus, ok Jón prestr Stephánsson í Vallanesi. Einn madr hengdi sik í Skídadal á hríslu, Sigurdr Jónsson, rádvandr madr; annarr í

Svarfadardal var settr í stokk, ok dó svo. Þat þóttu tídindi, at hjón deildu vestr í Hnífsdal, ok er madrinn gekk úr badstofu frá rimmunni, mælti konan: "far þú til helvítis!" í því hneig madrinn daudr nidr í gaungunum, en konan fèkk af því harm mikinn, ok deydi þegar líkit var kistulagt. Í þann tíma var tekit til at grennslast eptir mordsmálinu úr Árnes þíngi, ok kom þat þá upp, at Jón Gudmundarson, fostrsonr bóndans Jóns Gizurarsonar, er myrtr var, hafdi ordit manninum at bana, at áeggjan konu hans, því hún hafdi viljat eiga Jón Gudmundarson; var hann sídan dæmdr frá lífi, en hún á spunahús. Mörg voru þá konúngsbrèf gefin út: eitt um speciu-mynt danska, eitt um eydijardir í 13 greinum, var þeim unnt margra handa frelsis er þær tæki at byggja; eitt var um lènajardir konúngs, uppbod á þeim, festu, afgjald ok uppsögn; eitt um tíu skildínga penínga; eitt var forbod kaupskapar vid útlendar þjódir; eitt um at slètta skyldi þúfur; annat um at gjöra skyldi vegabætr; einnig um at setja skyldi túngarda. Eitt var um innfæddra rèttinn, ok at ódalsrèttr Nordmanna skyldi hèr gilda. Eitt um póstgaungur, er þá skyldu hefjast hèr med embættisbrèf manna, hverja sýslu frá annarri, ok hófust þadan af póstferdir úr hverjum landsfjórdúngi; hèt sá Gunnarr, er fyrstr gekk at nordan, úr Eyjafirdi, ok þá var einna hvatastr. Eitt var nýr vörutaxti, hann var því skipadr at vörur gjördust dýrari en fyrri, ok brá mönnum, sídan er þessi kom á gáng, vid þann, er Lárits lögmadr hafdi útvegat en Fridrik konúngr fjórdi sett med kostnadi sínum, af gódvild vid Íslendínga; eitt var um verd á framflutníngs tillagi íslenzkra stúdenta, því er "*Föring*" var kallat, ok í vöru kom hèdan. Eitt brèf var um þat, at þeir sem hefdi líkþrár kennimerki skyldi eigi gefast í hjónaband, því at sú sýki tók þá allmjök at aukast aptr, sídan stórubólu. Magnús læknir Gudmundarson var snotr madr, ok vel at sèr gjörr um marga hluti, ok hafdi mannhylli, hann tók at sýkjast af líkþrá, ok fèkk Jón Pètrsson læknisdæmi nyrdra, sá er fyrr var med Bjarna Pálssyni, en Magnús var nokkut vid sídan ok eigi lengi, því at hann var óvarkárr um sik. Jón Pètrsson var kalladr vel viti borinn til lækrínga, en stundum at þótti mistækr; hafdi hann vída farit, var lítill madr, bækladr í höndum; hann fèkk sídan Margrètar Árnadóttur, prests frá Fagranesi; Pètr fadir hans var Oddsson, Jónssonar frá Melum, Oddssonar sterka, Bjarnasonar, sveins med Ólafi biskupi Hjaltasyni ok sídan lögrèttumanns, Sturlusonar smids; voru þeir af einni ætt: Jón prestr at Grund ok Halldór prestr á Knappstödum í Fljótum ok hann; er frá Jóni presti sagt fyrri, en Halldór prestr var Pálsson, Jónssonar frá Melum, hann var fadir Gudrídar, er Sigurdr prestr átti,

Stephánsson frá Höskuldsstödum; Jón hèt ok bródir Pètrs, Jónsson, Oddssonar, Jónssonar frá Melum; þeir voru smidir miklir; hans dóttir var Gudrún, er átti Pètr prestr at Tjörn á Vatnsnesi, sá er upp var alinn at Breidabólstad med Halldóri presti Hallssyni; þeirra son var Pètr, er seinna bjó at Sjáfarborg, ok fekk Elínar Grímólfsdóttur prests frá Glaumbæ, er átt hafdi Sveinn á Sjáfarborg, son Þorláks Markússonar, er þar var, ok fyrri í Gröf á Höfdaströnd; var Pètr Pètrsson í þennan tíma frumvaxta madr, skólagenginn ok vel at sèr, idjumadr mikill, ok gildlegr at öllu. Flekkusótt gekk yfir á börnum, er læknar kalla skarlatssýki, ok dó ekki margt af. Var þá Hannes, son Doctors Finns biskups, vígdr af Harboe Sjálands biskupi til dómkirkjuprests í Skálholt, ok nefndr til at vera stiptprófastr. Þeir Walter ok Adam Úsler áttu at líta til um saltverkit, en kapteinn Wleugel kom út á herskipi til Austrlands ok lèt gjöra sjáfar-kort gód ok afstödu-mælíngar allt til Horns vestr.

## XVI. Kap. Þíng, mannalát ok annat.

Á þíngi var madr úr Rángárvalla sýslu, er Hjörtr hèt, Indridason, dæmdr til tugthúss vistar alla æfi fyrir ónytjúngskap, ok hafdi Þorsteinn Magnússon sýslumadr dæmt þat ádr; þar var ok dæmt um mord á Jóni Gizurarsyni, ok stadfestr hèradsdómrinn, ok svo birt konúngsbrèfin; eigi var þar annat stórtítt, en mál átti Jón Ólafsson vicelögmadr vid Magnús sýslumann Ketilsson ok Boga í Hrappsey, ok vard undir, því at illa þótti stofnat. Mál Skúla gengu lengra en þá var enn komit. Þá sleppti Þorsteinn prestr Pètrsson, er prófastr hafdi verit, Stadarbakka, ok deydi Halldór, son Þorgríms sýslumanns í Hjardarholti í Mýra sýslu, ok lèt Þorgrímr fadir hans þá af med öllu; var Jón Eggertsson sýslumadr á Hvítárvöllum settr þar fyrir. Jón Árnason sýslumadr í Snæfells sýslu hafdi verit audsældarmadr mikill, sem frændr hans, var ok vinsæll alþýdu, en þótti atkvædalítill höfdíngjum sumum, hann var hinn mesti skartsmadr. Bók hafdi hann samit um íslenzkan rèttargáng fornan, en Jón Eyríksson mjök fullkomnat hana. Jón sýslumadr vard aldrei kvæntr, en barn gat hann eitt, er hann kenndist, ok annat var kennt honum, ok hugdu margir hann ætti, en hann vann eid fyrir þat, ok var sídan mælt af alþýdu, at hann bæri eigi rètt höfud; var Þorlákr Ísfjörd þessi misseri skipadr adstodarmadr hans algjörlega. Jón sýslumadr Benediktsson í Rauduskridu lá í þann tíma, ok var mjök veikr í fótum ok baki; þjónadi Magnús læknir Gudmundarson honum lengi vel, þoldi hann ok vel mikla kröm, ok andadist á

þessum misserum, er hann hafdi sýslu haft í þíngeyjar þíngi um 40 ár, ok þótt skörúngr mikill; tók Vigfús frændi hans Jónsson frá Eyrarlandi þar vid sýslunni, hann átti Halldóru, dóttur Sæmundar prests á Stad í Kinn, ok Gróu þorleifsdóttur prófasts, Skaptasonar; þeirra börn voru: Björn, Gudbrandr, Gísli, Árni, Jón, Katrín, Helga, Margrèt. þau bjuggu á ýmsum jördum í þíngeyjarþíngi, Vigfús sýslumadr ok Halldóra, ok voru laungum fátæk. þá deydi einnig Jón prestr í Múla, þorleifsson, Stephán prestr Pálsson í Vallanesi, Magnús prestr Sveinsson í Stóradal, Halldór prestr Bjarnason í Landþíngum, ok Vigfús prófastr í Hítardal, Jónsson, bródir Doctors Finns biskups, hann var fadir Eyríks prófasts, er sídar var í Reykholti, ok átti Sigrídi Jónsdóttur, Teitssonar, ok Margrètar Finns dóttur biskups. Einnig deydi Jón prestr Sigfússon í Saurbæ í Eyjafirdi, skorti þrjá vetr á nírædan. þórdr, er fyrr var Reykjadals prestr med litlu ágæti, ok í málunum átti, hafdi farit utan á dögum Fridriks konúngs fimta, ok bedit þá konúng ölmusu, ok svo drottnínguna; hún gaf honum dýrmætt klædi, er sídan var haft at altariskædi í Skálholti; en er þórdr prestr átti mál vid Greifa Rantzau, ok líkadi ei allt þat er hann sagdi, mælti hann þat ordskrípi sem uppi er haft: "mikill rusti ertu Rantzau!" þórdr prestr var veizlukarl í Skálholti á elliárum, ok andadist í þennan tíma, tveim vetrum midr en áttrædr. þá var Bjarnarhöfn lögd lækni til, ok svo Brekka, ok bjó Hallgrímr Bachmann í Bjarnarhöfn sídan, ok var rausnarsamr.
Var gott þessi misseri, er nú hefir verit frá sagt, til jóla, ok allr vetr 1777.
þadan af til sumarmála. Um þær mundir andadist Árni skáld Bödvarsson á Ökrum á Mýrum, er margar rímur hefir kvedit.

## XVII. Kap. Frá ymsu.

Á þeim vetri var Skúli Magnússon landfógeti utan, ok tók út höfudstefnu í móti höndlunarfèlaginu, en þat aptr í annan stad andstefnu honum í móti; þó kom svo málunum um sídir, at ekki var fortekit um sættir, ok ritudu hvorutveggju þat á stefnurnar, fóru því ekki málin í dóm, ok urdu adrar lyktir á, sem enn mun sídar sagt verda. En svo mikla frægd hafdi Skúli af málum þessum, slíkt sem hann hafdi í fángi, ok nú ordinn madr gamall, at enginn annarr íslenzkr madr þykir jafnmikit fram brotizt hafa, ok virdi þat hverr at sínu skapi, en þat er þó sannast, at Skúli vildi frama Ísland, þó misjafnt þætti út seljast, ok svo hitt, at hann var flestum mönnum ólíkr at hug ok ofrkappi, þeim er þá voru; vitum vèr þó fátt af vidreign hans ok hans mótstödumanna, edr hve mart fèll fyrir, er yfir stíga þurfti. þá

gjördi vor kalt ok hart, ok var hafíss rekstr fyrir Nordrlandi; fèllu hross mörg sumstadar fyrir nordan, en fiskafli var gódr vídast. Sumar öndvert var kalt ok þurt, ok grasbrestr mikill. Þá kom út Taxtinn nýi, ok lètu menn allilla vid, þó svo yrdi at vera, enda tók nú árferdi at spillast ásamt. Konúngsbrèf var gefit út um jarda afgjöld leigulida, ok annat um lögrèttumenn, at þeir skyldu eigi vera fleiri en 6 í dómi, því at ádr voru 12, en assessores í yfirrètti 6, ok hafi hverr 10 dali á ári, er taka skyldi af jústiz-fèhirzlu, ok svo lögrèttumanna launin; Nótaríus skyldi ok hafa 10 dali. Þat sumar var settr kaupstadr nýr ok kaupstefna í Flatey á Breidafirdi. Kom út Hannes Finnsson, ok hafdi verit vígdr til biskups í Skálholti til adstodar födur sínum, af Harboe Sjálands biskupi, hinn 12ta dag Maji, en fám dögum ádr hafdi hann sókt konúng um adstod til fátækra presta ekkna á Íslandi, ok sídan fengit af póstfèhirzlunni 200 dali á ári hverju til Skálholts biskupsdæmis, en 100 til Hóla. Magnús Ólafsson vicelögmadr gjördist rádsmadr í Skálholti, ok fór þángat. Þá var gefin út prentud Sciagraphia edr lærdómsrita frásaga meistara Hálfdanar Einarssonar, einnig kristinrèttr Árna biskups, er þó var ádr prentadr á latínu eptir útleggíngu Árna Magnússonar, ok svo konúngs erfdir at fornu í Noregi. Hreindýr komu út híngat, ok margir tóku þá Íslendíngar at gánga í þjónustu kaupmanna. Þann tíma hafdi Jón Eyríksson fengit Etatsráds nafnbót fyrir tveim vetrum, ok hlut í forsjárfèlagi hvalveida ok kaupverzlunar Grænlands, en nú vard hann Etatsrád til fullnustu, ok tók deild í Skóla-Commissíón.

## XVIII. Kap. Ættir, ok frá einum stuldi.

Magnús Ketilsson sýslumadr, í Búdardal, er nú hefir opt getid verit, hafdi snemma komizt undir fjárafla mikinn í Dölum, hafdi Karítas Bjarnadóttir hins ríka, er átt hafdi Þorsteinn Pálsson í Búdardal, gefit honum mestallt fè sitt eptir sik; hafdi Magnús nú umsjá prentverksins med Boga í Hrappsey; hann var kalladr vel lærdr madr ok búmadr mikill, var hann hèradsríkr, ok kalladr nokkut skaphardr, ok laginn til fjár; hann átti Ragnhildi, dóttur Eggerts á Skardi, Bjarnasonar hins ríka, Pètrssonar, hún var gódlát kona ok veiklynd; þeirra börn voru: Skúli ok Sigmundr, Jón ok Karítas, Helga, Sigrídr, Gudrún, Ragnheidr; voru hin elztu nokkut á legg komin í þennan tíma. Skúli var heitinn eptir Skúla landfógeta, módurbródur Magnúsar, Sigmundr eptir Sigmundi bónda í Saltvík, syni Þorláks í Rauf, þvíat hann hafdi fóstrad Magnús sýslumann. Óþokki mikill var med Magnúsi ok Ólafi

presti Gíslasyni, systursyni Jóhanns Gottrúps, hann hafdi fengit uppreisn eptir þat hann sýndi sik í tilrædinu vid Ólaf amtmann, en kunni jafnan lítt at stilla sik, því hann var ofsamikill ok berlyndr, en Magnús ríklundadr ok lángsærri. Hafdi Ólafr prestr fyrst komizt í mál, þat er hríngsmál var kallat, útaf kirkjuhurdarhríng, ok misst þá prestskapar, ok þótti Ólafr amtmadr vera sèr mótfallinn, þá hann gjördi honum árásina, ok vildi svo komast af landi; en nú, er hann hafdi prestskap fengit aptr, vard annat mál verra med þeim Magnúsi sídan, er kallat var meramál: hirdi Ólafr meri eina, er ei spurdist til hverr átti um lánga tíma, en sló sídan hendi yfir hana, ok kom eptir þat eigandinn; átti þá at gjöra þat at stuldi. Þess er getid, at þá bjó Bjarni Bogason at Frakkanesi, hann átti Jóhönnu Vigfúsdóttur frá Eyri, Helgasonar, Helgasonar, Vigfússonar hins gamla Hellnaprests. Vigfús Hellnaprestr var Helgason, Vigfússonar, Jónssonar í Kalmanstúngu, er Jón murti vo, Grímssonar í Sídumúla. Vigfús prestr hafdi verit mikill ok sterkr, ok fornlyndr, ok átt tvo sonu: Árna at Heydalsá ok Helga at Lundum, voru lángnidjar Árna menn sterkir, sem Vigfús prestr eda framar, Vigfús Árnason ok Sigurdr Vigfússon sýslumadr, ok var karlleggr sá nú mjök þrotinn; en Helgi at Lundum var vel viti borinn, ok heldr brögdóttr; hann fèll fyrir Stapakletta; en nidjar hans líktust honum, Helgi son hans ok Vigfús, bjó Vigfús Helgason í þennan tíma á Öndverdri-eyri, er köllud er Hallbjarnareyri, ok var hospítal, ok var gæfr madr ok stilltr, en þótti nokkut blendinn, ok eigi traust at færi med hindrvitni; hann átti Íngibjörgu Helgadóttur tíu- aura- skeggs frá Hellnum, ok var hún hardlynd; þeirra börn voru Jóhanna, kona Bjarna Bogasonar ok Sigrídr, Helgi ok Ásgrímr. Þat bar til um þennan tíma, at Helgi Vigfússon sigldi frá Eyri inn í Grundarfjörd, þá er mönnum þótti ólíklegt fyrir leidis sakir, ok sjórok í móti, ok sást siglíng þeirra, ok þótti undarleg, ok var þat almennt eignat fjölkýngi Helga; stálu þeir úr búdum í Grundarfirdi, því at eigi voru þar eptirlegumenn, ok voru þar um nóttina, ok lèt Helgi svo illa, at Magnús var nær flúinn frá honum; sídan fór Helgi inn í Frakkanes, til systur sinnar, ok inn um Strönd, ok seldi varníng sinn, en Magnús fór út í Rif; var þá Þorlákr Ísfjörd at Íngjaldshóli, ok fyrir sýslunni, því at Jón Árnason sýslumadr andadist, ok fór víds vegar fè hans. Magnús fór óvarlega med farángr sinn, ok kenndist á því at stolit var, en hann var þá tekinn ok haldinn á Íngjaldshóli ok fór utan í þrælkan; en er spurdist at hann var tekinn, brenndi Helgi, ok ætludu menn foreldra hans vita brennuna, þat allt er heima var á Eyri eptir af varníngnum, ok strauk sídan, ok kom til Bjarnarhafnar um nótt, var sagt hann hefdi

stolit hesti úr hesthúsi Hallgríms Bachmanns, ok reidtýgjum ásamt, ok duldist hann um vetr í landi hèr, ádr hann komst utan; en Vigfús ok Íngibjörg unnu eid; kölludu menn víst, at Vigfús hefdi eigi vitad um stuldinn, en heldr var grunr á um hylmíngu, ok var Vigfús aldrei med glödu bragdi sídan, ok dó um sídir af ángrsemi; en mælt er, at Helga hafi illa reidt af at lyktum. Bádir gátu þeir Magnús börn, ádr þeir fóru hèdan, ok Helgi tvö, voru drengir, ok mönnudust mjök lítt; en Ásgrímr, son Vigfúsar, var í skóla, ok gjördist sídan prestr vid Hellna, ok þótti grályndr ok óvinsæll.

## XIX. Kap. Mannalát ok adrir tilburdir.

Þá dóu vída menn úr bjargarskorti; en á alþíngi var vogrekamál úr Skaptafells sýslu; hafdi Jón Helgason sýslumadr sektad þann mann fullri stuldar sök, er Jón Kolbeinsson hèt, fyrir medferd á vogrekum, er hann kalladi, ok voru þó eigi; vard sýslumadr fyrir bótum allmiklum. Í ödru máli gekk honum á líkan hátt, hafdi hann stefnt Jóni Kolbeinssyni til eids, en vildi eigi taka hann er at kom; skaut hann þeim bádum málum til yfirrèttar Steindór Finnsson sýslumadr átti þar tvö mál um sveitarefni, ok áleizt ólöglegt at slíku var til dóma haldit móti sýslumanns bodi. Sigurdr landþíngsskrifari vard þar fyrir fèsekt um ólögmæta innstefníngu. Þar vann Jón Ólafsson vicelögmadr mál sitt fyrir yfirrètti. Mannalát urdu þá enn nokkur heldri manna: deydi Eyríkr prestr Hallsson í Grímstúngum, bródir Halldórs prests á Breidabólstad; hann var fadir Einars prests, er þar var sídan, ok mikit varmenni var; Gudmundr prestr Íngimundarson at Hofteigi, Jón prestr Sigurdarson at Þæfusteini, er krenktr hafdi verit, Marteinn bóndi Bjarnarson at Bustarfelli austr, Torfi á Stórólfshvoli Erlendsson, þess er þar var ádr, Jónssonar eldra, Vigfússonar, Gíslasonar lögmanns, Hákonarsonar; hann var merkilegr madr, kyrrlátr, hógvær ok gudrækinn; hans dóttir var Gudfinna, er Halldór prófastr Finnsson átti. Þá var Eyríkr Mínor hafnamælari hèr vid land, en umferdir Ólafs Olavius endudu þá, ok hafdi hann fundit porcelínsjörd í Mókollsdal, ok sent nokkut af henni til prófunar forstjórum porcelínsverksmidjunnar, virtist þeim þat lítid til fullrar reynslu sem sent var, ok fór hann utan. Skógabruni vard á þeim bæ á Bardaströnd, er Audnir heita, var madr nokkurr at gjöra til kola í skóginum, ok hljóp eldrinn óvörum í hrísit fyrir honum, brenndi sídan lengra ok lengra út, frá því um messudaga ok fram í September mánud, þá regn fengu slökkt hann um sídir, ok vard at mikill skadi. Var þá vætusamt haust,

ok nýtíng ill, med stórhrídum ok áhlaupum er á leid, ok allr heyskapr illr, gjördi ok jardleysur á öndverdum vetri. Skömmu fyrir jól brann bærinn at Haga á Bardaströnd, at Davíds Skevíngs sýslumanns ok Bjarna Einarssonar, dótturmanns hans ok lögsagnara, hafdi kviknat af kertaljósi í hálmi milli stafs ok veggjar, ok brann sá bær allr á þremr stundum, en hann var gjörr af kostum, eitt hús med 18 deilíngum; fóru þeir mágar til Vatneyrar um vetrinn, en lágu í tjöldum sídan, medan byggt var upp aptr. Þann vetr, nær midjum, dó Jón Ólafsson 1778.
vicelögmadr eina nótt, ok tregudu hann eigi mjök margir, en blöd voru þá eptir af lagaverki hans, útkast til hinnar 6tu bókar, er vönd-ust var, ok lèt Thodal stiptamtmadr þènara sinn ólöglesinn upp rita, ok sendi Cancellíi, ok stód þat svo sídan, ok var aldrei at gjört.

## XX. Kap. Frá ýmsu.

Sá vetr var óstödugr, med stórhrídum ok áfredum, en hart vorit, fèllu bædi kýr ok adrir peníngar, ok dóu nokkrir menn af sulti fyrir nordan land; fiski-ár var í medallagi vídast. Þat var um þorra lok at bóndann at Látrum í Saudlauksdals sókn rak í sjó med hundradi fjár, ok margar adrar slysfarir urdu á mönnum. Deydu prestar nokkrir: Þorlákr prestr Sigurdarson til Kirkjubæjar klaustrs, Sigurdr prófastr Jónsson gamli í Holti undir Eyjafjöllum; Pètr Miklaholts prestr, fadir Pètrs í Gördum, son Einars Halldórssonar, Gudmundarsonar, Gudmundarsonar, Hallssonar, Ólafssonar prests í Saurbæ, Kolbeinssonar; Magnús prestr Halldórsson, er haldit hafdi Garpsdal, hann var gamall mjök; Ketill prestr Jónsson, er haldit hafdi Húsavíkr kall, fadir Magnúsar sýslumanns í Dölum, ok þeirra brædra; Eyjólfr prestr í Grímsey, ok Þorlákr prestr at Prestbakka. Kom út konúngsbrèf um bancósedla; þótti mönnum þeir nýlunda ok hègómi, ok illir 5 dala sedlar er þá komu fyrst; annat um rekarèttinn, ok voru þó fleiri, ok komu minna vid almenníngi. Lèt Hans Wíum þá af sýslu í Múlaþíngi, en Þorlákr Ísfjörd fèkk nú hinn sydsta hluta þeirrar sýslu, ok Jón eldri Arnórsson Snæfells sýslu aptr, ok svo umbodit, sem þar til hafdi verit. Gudmundr Ketilsson, bródir Magnúsar, eigi samborinn, fèkk Mýra sýslu; hann var gódlátr madr ok vel viti borinn. Á þíngi var ei annat merkilegra, en Grundarfjardar stuldar-málit, ok stód þar opt fyrir málum Oddr Hjaltalín lögrèttumadr, son Jóns sýslumanns. Fyrri, hinn 17da Maji, hafdi drukknat Mínor hafnamælari, er hann var ferdbúinn utan. Þá var Páll prestr Sigurdarson í Holti prófastr í Rángárþíngi, ok fèkk meistari Hálfdán Einarsson, rektor á Hólum, 3 minnispenínga fyrir

ritgjördir sínar. Rasmus Lievog var nefndr híngat til stjörnumeistara sýslana, eptir Eyjólf Jónsoníus. Þá var lokit jardabókar framhaldi af hendi Skúla landfógeta, ok komst hún lítt á lopt til gagnsemda um hríd, en konúngr hafdi þó launat hönum med 700um dala. Út voru komnar sögur frá Commission þeirri, er fram hèlt at konúngsbodi skipan Árna Magnússonar: Kristni saga ok Gunnlaugs Ormstúngu, Húngrvaka med sögu Páls biskups, ok Þorvaldar vídförla; hafdi Hannes biskup ádr verit Secreteri í þeirri Commission, en sídan var Grímr Thorkelín, son Jóns Teitssonar sýslumanns Arasonar í Haga, Þorkelssonar; gaf konúngr þúsund dala til at lètta undir prentkostnadinn. Þat sumar fannst af manntali, at 50 þúsundir voru í landi hèr, en sídan fækkadi. Var sumarit laungum óstödugt, ok opt med frostum, krapa eljum ok köföldum, en sídan med votvidrum miklum, ok var illr heyskapr; gjördi svo mikinn snjó hinn 23ja dag Septembris, at fè fennti vída til skada, en tveir menn urdu úti, er á grasafjalli voru, ok adrir tveir komust sem naudugleg ast til bygda; sídan var jafnan illt vedr ok óstödugt til nýárs, med óvedrum ok hreggjum, ok urdu menn mjök at lóga fè sínu.

## XXI. Kap. Árferdi ok mannalát.

1779. Þessu næst gjördi vedr gód frá nýári til einmánadar, ok fóru Nordlendíngar á þorra ok gói til grasa, ok annars bjargrædis, þó var vedrlag óstödugt, ok kom áhlaup svo mikit fjórda mánudag eptir páskir, at austr á Rángárvöllum fennti hross 11, ok saudfè vída; ok fyrir því at hey voru svo mjök spillt, vard peníngr vída fódrvani, ok fèll um vorit. Lágu hafísar vid land, ok gekk taksótt. Urdu tvö skiptjón í Bardastrandar sýslu, ok nokkrir menn bráddaudir á Vestfjördum. Á öskudaginn gjördi flód svo mikit á Eyrarbakka, at umflotid var Stórahraun, ok bátinum ekki fridt á túninu, en í kálgardi, sem lá fyrir ofan fjósit ok bæinn, fannst keila, er eptir hafdi ordit af því flódi; spilltust vid þat margar jardir. Var þá gæftaleysi til sjóar ok fiskleysi öndverda vertíd, drukknudu vída einstakir menn. Kúm vard at beita út þegar mátti. Hinn 8da dag Martii mánadar andadist Gísli biskup Magnússon á Hólum, skorti hann 3 vetr á sjötugan, var í fyrstu meistari Hálfdán Einarsson settr þar fyrir stiptid. Margir urdu þá mannadaudar adrir, þeirra er mark var at. Deydi þá Hallgrímr prófastr Eldjárnsson á Grenjadarstad; Ásgeir prófastr á Stad í Steingrímsfirdi, Jónsson, Pálssonar, hann var fadir Jóns prests í Stapatúni vid Íngjaldshól; Magnús prófastr í Vatnsfirdi, Teitsson prests, Pálssonar, fadir

Markúsar prófasts í Görðum; Gudbrandr prestr Sigurdarson at Brjámslæk, hann hafdi ridit í sókn sína ok fannst daudr um morguninn, ok brotin hausskelin; Gunnlaugr son hans var þá 6 vetra, en annarr hèt Einarr; Þorleifr prestr Þorláksson, fyrr á Kirkjubóli; Jón prestr, er fyrr var at Setbergi, Magnússon prófasts, Magnússonar, bródurson Árna Assessors; Philippus prestr Gunnarsson, fyrr í Kálfholti, son Gunnars Einarssonar, Þorsteinssonar í Þykkvabæ; Bödvarr prestr, son Högna prests Sigurdarsonar í Marteinstúngu í Holtum, hann drukknadi í læk, ok var fadir Þorvalds prests Bödvarssonar; Dadi prestr Gudmundarson at Reyni; Jón prestr Halldórsson at Völlum, Þorbergssonar, Hrólfssonar, fjórum vetrum meira en áttrædr, ok fadir Halldórs prófasts á Hólum, er laungu var dáinn; voru þá uppi af sonum hans, er rosknir voru: Þórdr, er sídan var prestr at Völlum í Svarfadardal, ok Jón prestr í Glæsibæ. Þessir öndudust enn: Eyríkr prestr at Hofi á Skagaströnd; Árni prestr at Fagranesi, fadir Magnúsar prests, er þar var sídan, ok Margrètar, er Jón læknir Pètrsson átti; Einar Magnússon, er fyrr var sýslumadr í Stranda sýslu, hans son var Magnús prestr, er sídan var í Stóraskógi; Margrèt Halldórsdóttir biskups, kona Gísla prófasts Snorrasonar í Odda, Sveinn Hóla rádsmadr Pètrsson frá Skjöldólfstödum,. Jónssonar, Gunnlaugssonar, Sölvasonar prests í Mödrudal; hann var fadir Pètrs, er bjó at Bjarnastödum í Kolbeinsdal, ok átti Þrúdi Loptsdóttur, Gudmundarsonar, Lýdssonar. Var þá skipt Múla sýslu í tvo jafna hluti. Drukknudu 6 menn af skipi í Hornafirdi, ok gekk sótt á börnum, svo at eigi lifdi meira en þridjúngr þeirra er þá voru alin.

## XXII. Kap. Annat er þá bar til.

Þá er hèr var komit var út rudt med öllu fjársýkinni í landi hèr, ok hafdi hún gjört allmikit tjón, en vída vard saudfè eigi jafngott ok fyrr hafdi verit. Komnar voru þá sættir á med Skúla landfógeta ok höndlunarfèlaginu, ok stadfesti konúngr þær sjálfr, voru med þeim hætti, at Skúli ok verksmídar-medlimir afhendu höndlunarfèlaginu verksmídar allar, ok tóku peninga fyrir sumt, en felldu nidr ákærur um sumt hverir vid adra; taldist þat svo til, at höndlunarfèlagit galt alls 14 þúsundir 9 hundrud þrjátygi ok 6 dali, ok 46 skildínga, ok skyldi sídan málsóknum þeim lokit vera; kom nú konúngsbrèf út um þetta med Skúla, ok annat um póstferdir; önnur voru sídr fyrir almenníng. Þá var utan Stephán Þórarinsson, sýslumanns frá Grund, ok Sigrídar Stephánsdóttur, hafdi hann alizt upp med Ólafi amtmanni, módurbródur sínum, en fengit ásjá

ok framhald Jóns Eyríkssonar, hins merkilegasta manns, er þá var Etatsrád, ok nú gjördist Assessor í hæstarètti, en sídan Conferenzrád ok einn hinn ædsti í Kammerinu, ok mikit lid veitti Íslandi; var nú Stephán skipadr vicelögmadr í lögdæmi Sveins, í stad Jóns Ólafssonar, ok fèkk brèf fyrir því af konúngi, en eigi kom hann út á því sumri, því at konúngr hafdi bodit honum för um Noreg, allt nordr til Þrándheims; hann var skarpr madr at gáfum ok hvatlegr, grannlegr at sjá ok nokkut smámannlegr á ýngri árum, skýreygr, lagamadr gódr. Sveinn lögmadr fór á alþíng sídast á því sumri; þar voru fáein þjófamál ok óreidumanna, ok Gudmundr Vigfússon tugthúsrádsmadr ok Gudmundr sýslumadr Runólfsson urdu þar fyrir fèsekt nokkurri í máli vid Hans Kristjánsson kaupmann, skutu þó til yfirrèttar. Ólafr amtmadr lèt bjóda upp Þíngeyra klaustr, med öllu því er til heyrdi, voru þat margar jardir, gjörvar af erfíngjum Bjarna Halldórssonar, bædi í álag, ok fyrir 30 kúgildi, er skorti; lèt amtmadr birta, at auk þeirra jarda, er lagdar voru út úr dánarbúi hans konungi, ok þá seldar: Hofs med Gróustödum ok Kötlustödum, er voru 60 hundr., med þremr kúgildum, Mardarnúpi, er var 70 hundr. med 6 kúgildum, ok Márstada ok Steinkots, 30 hundr. med tveimr kúgildum — skyldi bjóda upp á ödru alþíngi til fullrar skuldalúkníngar: Stóru Mörk á Laxárdal fremra 30 hundr., Giljá 20 hundr., í Haukagili 30 hundr., Valdarás 24 hundr. ok Melagerdi 10 hundrud. Sídan fóru menn af þíngi, svo at eigi vard tídara. Skúli fór þá enn utan, ok alls fór hann 18 sinnum frá því er hann vard landfógeti, en Jón landfógeti, sonr hans, var hèr jafnan. Jón var allgjörfuglegr madr ok allvinsæll, heldr drykkjugjarn, svo at meira bar á því en um Skúla, þó at hann væri bædi stórbrotnari ok starfadi í fleiru, því at Skúli hafdi gedstyrk mikinn; hann var Jóni óeptirlátr, en Ragnheidr Þórarinsdóttir, kona hans, kom jafnan máli vid Skúla sem bezt, var hún ok merkileg kona, ok virdi Skúli hana vel. Ádr Skúli færi, andadist Bjarni Pálsson landlæknir, hinn 8da dag Septembris, á 61ta ári aldrs, en hafdi verit í embætti 20 ár ok 6 mánudi, hefir Sveinn læknir Pálsson ritid æfi hans; Skúli stód fyrir útför hans, en bú hans vard ekki meira, þat er af skuldum gengi, en rúmir 100 dalir, ok stód þó ærit lengi ádr skipt yrdi; vard hann tregadr af mörgum manni, því hann var læknir gódr ok vildi vel, ok hafdi verit hinn lærdasti madr. Börn hans, þau sem á legg komust, voru: Steinunn, er sídar átti Vigfús Þórarinsson; Skúli, hann vard seinast stýrimanns sveinn, ok fór til Kína ok dó þar; Hallr, hann týndist á utanför, vetri seinna en hèr var komit; Eggert, er seinna var prestr á Snæfoksstödum, ok heitinn eptir Eggert Ólafssyni; Þórunn, er Sveinn

Pálsson átti sídan. Þá tók Gudlaugr prófastr Sveinsson prófastsdæmi í Strandasýslu, ok var hann at mörgu vel. Var nú híngat ætladr hafnamælari í stad Mínors, sá hèt Mallíng, en hafdi dáit þá er skipit var seglbúit híngat; en kom út Rasmus Lievog stjörnumeistari, ok settist at Lambhúsum, ok hafdi 200 dali. Sumar var þá mjök regnasamt, ok spilltust hey ok ónýttust, ok dóu nokkrir menn á Mýrum ok vídar af hardrètti; en haust var kafaldasamt ok öndverdr vetr, ok svo mikil sjáfarflód vída um land, at tók út hey, braut skip, ok skemmdi lönd manna stórum, ok var þat undirbúníngr hardinda. Á því hausti hófu Íslendíngar í Kaupmannahöfn lærdómsfèlag, undir umsjá Jóns Eyríkssonar, ok ritudu á hverju ári bæklíng til margrar ágætrar upplýsíngar, en þótt þat væri þá enn lítils virt af mörgum; var í þeim ritgjördum merkilegr stíll, ok hèlzt þat fèlag all-lengi.

## XXIII. Kap. Útkoma ýmsra manna.

Eptir nýárit var vetr gódr til gói, en þadan af hardnadi, voru menn 1780.
þá lítt staddir, þvíat kúpeníngr var gagnlítill, en saudfè mjök fátt, sakir fjársýkinnar, er undan hafdi farit; urdu nú ok ill peníngahöld, en vorit þúngt fram á messur, svo bædi fennti saudfè manna ok hrakti í sjó, en nokkrir fáir dóu af megrd undir Eyjafjöllum. Um sumarmál ok bænadag gekk yfir á Vestfjördum kafaldshríd svo mikil, at drap saudfè mart ok nokkur hross; hrakti í sjó af einum bæ í Ísafjardar sýslu 60 fjár, ok ödrum 30, ok drap 80 í Búdardal; týndist þá skip af Ísafirdi med 4 mönnum, en hinn fimti lifdi, ok brotnudu tvö skip prestsins í Adalvík, ok eitt í Oddbjarnarskeri á Bardaströnd; tvö týndust eystra, var annat í Fáskrúdsfirdi. Um þær mundir andadist Gudfinna Torfadóttir, kona Halldórs prófasts Finnssonar í Hítardal. Fiskafli var þá all-lítill, en misfarir ýmsar; voru hvalrekar miklir fyrir nordan land. Út var gefit eitt konúngsbrèf um vitnisburdi húsbænda ok hreppstjóra, ok um sýsluvist í legordsmálum; skyldi fyrir útlegd af sýslu gjalda 2 dali, allt at 10. En vid þat, at vitnisburdir alþýdu tókust af, ok komu passar edr fararleyfisbrèf, þá tókust af margar óvenjur af hlaupamönnum, er ádr voru. Hinn 24da dag Aprílis mánadar fèkk Jón prófastr Teitsson, Pálssonar, í Gaulverjabæ, brèf fyrir biskupsdómi á Hólum, því at hann var utan farinn í þeim eyrindum, ok var vígdr í Kaupmannahöfn hinn 7da Maji, kom hann út um sumarit. Þá kom ok út Stephán vicelögmadr Þórarinsson, ok Skúli landfógeti. Gjördist Sveinn prestr Halldórsson í Hraungerdi prófastr í Árnesþíngi. Enn kom út Nicolaus Mohr, hann var Færeyíngr at ætt, var hann

sendr híngat at grenslast eptir porcelínsjördinni í Mókollsdal, ok skyldi jafnframt leita vídar, ok gæta at ödru, er til náttúrufrædi horfdi ok búsældar framfara. Hann lèt sídan fara utan med Skagastrandar skipi allmikit af porcelínsjördu, er sýndist gód; þat skip týndist, en Mohr fór nordr ok austr um landi, ok allt til Djúpavogs. Kammerjúngkæri einn kom ok út, hann hèt Hans Christofor Didrik Victor von Levetzow, ok med honum Þórdr, son Þórodds heyrara Þórdarsonar; fóru þeir hèr um land. Þá týndust 15 menn af þremr skipum á Ísafirdi en 4 af einu fyrir austan, prestr komst af hinn 5ti; 9 menn drukknudu fyrir sunnan. Þessir menn fengu konúngsbrèf ok komu út seinna: Jón eldri, son Sveins lögmanns, fyrir landlæknis embætti, en Jón ýngri fyrir Múla sýslu, því at Þorlákr Ísfjörd dó. Vigfús Þórarinsson frá Grund fèkk þat ok seinna fyrir Kjósarsýslu, ok hèradsdómara embætti í Gullbríngusýslu, þá er Gudmundr Runólfsson var andadr; hann hafdi alizt upp med Þorsteini sýslumanni Magnússyni, ömmubródur sínum, ok komu þeir tveir ei út þetta sumar. Einarr prestr Bjarnason Thorlacius fèkk Grenjadarstad, ok vígdist í Kaupmannahöfn. Voru gódvidri um hríd þat sumar, ok grasvöxtr í betra lagi. Á þíngi var dæmdr madr til lífláts úr Borgarfirdi, er Þorsteinn Vigfússon hèt, fyrir þrjú hórdómsmál, ok þó skotid til konúngs; önnur voru þar ekki stórmæli, en Magnús sýslumadr Gíslason úr Húnavatns þíngi átti í máli vid Jón bónda á Eyvindarstödum, ok hafdi Arngrímr lögsagnari dæmt í hèradi, Jónsson, Jónssonar lögrèttumanns frá Núpi, Eyríkssonar.

## XXIV. Kap. Mannalát ok misfarir.

Þá gekk sótt mikil yfir land ok mest um haustid, dóu þá margir menn; þessir öndudust af nafnkunnugum: Þorlákr Ísfjörd ok Gudmundr Runólfsson sýslumenn, er fyrr er getid; var Gudmundr Vigfússon tugthúsrádsmadr settr fyrir Kjósar sýslu; Sigurdr landþíngsskrifari at Hlídarenda, tók Þorleifr vid því embætti til fulls; Gísli prófastr Snorrason í Odda, hann átti eptir einn son barna, er Gudmundr hèt; sá mannadist illa, ok eyddi öllu fè sínu; Jón prestr Gunnlaugsson, læknir, í Vík í Skagafirdi, fadir Jóns prests á Hafsteinsstödum; Jón prestr í Hvammi í Nordrárdal, Sigurdarson frá Hvítárvöllum; Jón prestr at Holti í Önundarfirdi, Eggertsson frá Skardi, Bjarnasonar hins ríka, Pètrssonar, bródir Ragnhildar í Búdardal, er Magnús Ketilsson átti; hann var fadir Eggerts prests, er sídan var at Ballará; Jón prestr Andrèsson í Arnarbæli; Eggert prestr Sæmundarson, Hrólfssonar, at Undirfelli í Vatnsdal; Magnús prestr at Þíngvelli, son Sæmundar prófasts, Magnús-

sonar í Brædratúngu, hann reid heim ís frá kirkju, ok drukknadi í vatninu; hann var fadir Gudmundar prests, er var í Fljótshlíd, en sídan lengi at Kálfatjörn, ok átti Íngibjörgu Brynjólfsdóttur, sýslumanns frá Hjálmholti, Sigurdarsonar; þeirra börn voru Brynjólfr ok Gudni prestr, ok Ragnhildr, er seinna giptist Torfa presti Jónssyni, Finnssonar biskups. Ragnheidr giptist Bjarna bónda at Laugardælum í Flóa. Enn deydi Jóhann prestr Kristjánsson, er fyrri hèlt Mælifell, at Stafholti, med Kristjáni presti syni sínum, hann var son Kristjáns prests Bessasonar at Saudanesi, ok Valgerdar Pètrsdóttur, Bjarnasonar á Bustarfelli, Oddssonar, ok hafdi átt Agnesi Erlendsdóttur, systur Margrètar, er Gunnarr prófastr Pálsson í Hjardarholti átti; þeirra börn voru: Kristján prestr, er fyrr er getid, ok Jón snikkari, Sigrlaug, Valgerdr, Sigrídr, Margrèt, hún var gipt Jóni presti at Helgastödum, Jónssyni, Jónssonar, Hannessonar frá Snóksdal, Eggertssonar, Hannessonar gamla í Snóksdal; þeirra dóttir var Hólmfrídr, er Þorsteinn í Reykjahlíd átti, son Jóns ríka á Reykjum; þeirra son Jón prestr at Stad í Kinn ok vídar. Sigrídr Jóhannsdóttir var skáldmælt, hennar fèkk Bjarni prestr at Mælifelli, er hann kvæntist ödru sinni, son Sigþrúdar Jóns dóttur prests frá Stadarstad, systur Gudrúnar vid Búdir, konu Jakobs. Jón var kalladr fadir Bjarna prests, Gíslason, hafdi hann verit at Þíngeyrum med Bjarna Halldórssyni sýslumanni, ok haldit sídan Undirfell, ok átt fyrst Gudrúnu Þorkelsdóttur, prests frá Fagranesi, er fyrst var gipt þá Reynistadr brann; hèlt Bjarni prestr lengi sídan Mælifell, ok var einardr madr ok hreinskilinn, ok mikilmannlegr í lund ok hætti; voru börn þeirra Sigrídar mörg: Sigþrúdr, er Pètr prestr Pètrsson fèkk sídar; Agnes, er átti Gísla prest Oddsson; Valgerdr, kona Bjarnar prests Sigurdarsonar; Gudrún, er sídan átti Páll prestr Bjarnason, prests frá Melstad, Pètrssonar á Kálfaströnd; Jóhann, Bjarni á Bjargi. Í þridja sinni kvæntist Bjarni prestr, ok fèkk Sigrlaugar Árnadóttur; þeirra börn, sem lifdu, voru Sigrídr, Margrèt, Solveig, Brynjólfr, Jóhann. Enn dó á þessum missirum Íngimundr, er fyrr var prestr á Eydum, ok mist hafdi prestskapar, hann drukknadi voveiflega í Lagarfljóti; hann var son Ásmundar á Kjaranstödum, bródur Sigurdar, födur Jóns, prests á Vestfjördum, ok Steinunnar, er Hans Klingenberg átti á Krossi; en þau voru Ásmundar börn frá Ásgardi, Sigurdarsonar lögrèttumanns, Gudnasonar; sá Íngimundr prestr hafdi verit sterkr madr, sem födurfrændr hans, en neytt lítt. Enn andadist Sigrídr Ketilsdóttir, prestsekkja tíræd, ok skólasveinn í Otrardal vard undir þaki vid húsastörf: Þoroddr son Þórodds á Vatneyri, Þóroddssonar, Þórdarsonar. Þat haust komu mikil áhlaupavedr, ok braut skip, en fennti fènad vída; þá

gjördi hrídarvedr laugardaginn fyrstan í vetri, ok stód 4 daga, hrakti skip frá Svidnum vestra, ok rak at landi undir Jökli óbrotid med árum, en menn höfdu týnzt af: bóndinn frá Svidnum ok karlmenn tveir ok kona. Þá gekk Hannes biskup at eiga Þórunni, dóttur Ólafs amtmanns.

## XXV. Kap. Reynistadar tjón.

Halldórr, son Bjarna sýslumanns Halldórssonar á Þíngeyrum, hèlt þá Reynistadar klaustr, sem fyrr er sagt, ok átti Ragnheidi Einarsdóttur frá Söndum, bjuggu þau þar, ok kalladi Halldór sik Vídalín, eptir Páli lögmanni módurfödur sínum; Ragnheidr þótti skörúngr ok vel viti borin, þau áttu mörg börn, Bjarni var elztr, skólasveinn um tvítugt, en Einarr 11 vetra, Páll ok Benedikt, en dætr Björg, Hólmfrídr, Anna, Sigrídr, Elín. Jón hèt madr, Þorvaldsson, húskarl þeirra, kalladr austmann, gildr fyrir sèr ok hardgjörr. Þat var í slætti, at þau Halldórr ok Ragnheidr sendu Bjarna, son sinn, ok Jón austmann, til saudfjár kaupa austr í Skaptafells sýslu, sem mörgum var títt eptir saudfjársýkina, fóru þeir fjöll ok tóku at kaupa, ok höfdu skotpeníng mikinn, kvennsilfr ok annat; en seinna um sumarit, undir sláttarlok, sendu þau þeim til adstodar landseta sinn, er Sigurdr hèt, ok Einar son sinn, hann fór mjök naudugr, ok kvadst ei mundu aptr koma; þeir mættu á Kjölnum Jóni biskupi Teitssyni, med búferli sínu, er hann fluttist til Hóla; ridu þeir austr, ok fundu fèlaga sína ok feingu mikit saudfè, tvö hundrud, vard þeim sídfarit, ok bádu margir gódgjarnir menn þá at leggja ei á fjöll vid vetr sjálfan, ok budust til at taka þá til vetrvistar, ok svo saudfèd, en Jón austmann vildi mjök áfram; er sagt at Bjarna væri bodinn skóli í Skálholti um vetrinn. Fylgdarmadr var med þeim hinn fimti, prestssonr at austan, er Jón hèt. Lögdu þeir upp úr Hreppum laugardag annan í vetri, med 2 hundrud saudfjár ok 5 klifjahesta, var vedr ískyggilegt; sídan gjördi snjóhríd, ok er sagt hana hafi ei slitid á mörgum dægrum í bygd; höfdu þeir komizt í Kjalhraun nordr, at því er sídan vottadist, ok tjaldat þar. Á jólaföstu gjördi stillt vedr ok hjarnadi, ok sendu þau hjón á Reynistad þá tvo menn gángandi sudr á Kjöl, at njósna um ferdir þeirra, hèt annarr Björn Illhugason, húskarl þeirra, úngr at aldri ok framgjarn þá, en annarr Jón frá Stóru-Gröf, á Lángholti, þeir þóttust einkis vísir verda á Kilinum, en komst í flimtan, at þeir hefdi heyrt hljód edr kall undir Kjalhrauni; eptir þat þóttust menn vita, at þeir Bjarni mundu ordnir úti, ok var mikit tjónid allt saman á þeim ok fènu, ok öllu er med þeim var. En um vetrinn eptir slæddust saudkindr nokkrar nordr, ok hestr ofan

at Rugludal vestra, ok Svartárdal, ok nam þar stadar medan vetr stód yfir.

## XXVI. Kap. Hardindi ok tjón.

Vetrinn versnadi med þorra lokum, ok var allillr fram yfir sumarmál, 1781. var þá svo mikill bjargarskortr, at hrossakjöts át gjördist tídara en nokkurn tíma fyrr hafdi verit, frá því er kristni kom á land þetta. — Landfarsótt ok magasýki gekk á börnum ok gamalmennum um vorit, ok var því verri, at mjólk var eigi til eda holl matbjörg, en byggstrá mikit keyptu menn helzt, því þat var ódýrast, ok átu þat mest vid sjó, hrá söl ok annat illæti, því at seinfiskit var, vard þá mannfellir mikill vid sjóinn vestra ok sydra, þvíat vor var illt, ok kom svo mikil hríd midvikudaginn fyrir uppstigníngardag, at á þeim bæjum einum saman, er liggja nidr med Varmá, midreitis í Ölfusi, dóu 19 kýr, ok eigi allfáar annarstadar. Dó saudfè framar venju, ok eignudu sumir vanþrifum, er fylgdu hafís; urdu þá jardir vída lausar í sveitum, því at peníngslausir menn lögdust í sjóbúdir, ok var þó ekki þessi vetr almennt talinn med hardindisárum. Þá týndust tvö skip á Bardaströnd, med 7 mönnum, ok voru 4 brædr á ödru, er dugnadarmenn voru á sjó ok landi; 4 skip sydra ok áttæríngr í Keflavík vestra, med 9 mönnum, hèt einn Vigfús, son Erlendar prests Vigfússonar at Þæfusteini, bródir Gudmundar tugthúsrádsmanns. Skip týndist í Beruvík, med tveimr mönnum, ok bátar þrír sunnan Jökul; einn í Breiddal, austr frá þeim bæ er at Þverhamri heitir, med 5 mönnum. Skip týndist á Skagaströnd, annat á Reykjaströnd sama dag, med fjórum mönnum hvort; brunnu ok bæir, einn í Borgarfirdi, ok týndist barn inni, annarr í Fljótshlíd, er at Skardi heitir.

## XXVII. Kap. Konúngsbrèf, þíng ok annat.

Þá deydi Benedikt prestr í Vestmannaeyjum, ok Vigfús prestr Erlendsson at Setbergi, en þann stad fèkk Björn prófastr Halldórsson í Saudlauksdal; hinn þridi andadist Gísli prestr Jónsson í Hvítadal, fadir Ólafs prests, er í málunum átti, hann hafdi verit spaklátr; einnig Jón prestr Sigurdarson í Ögri. Konúngsbrèf kom um attest, ok um mál þau, er stuttlega mættu afgjörast af sýslumönnum, án þess at koma fyrir ædri rètt edr til dóma, ok var farit eptir þeim um hríd. Einnig gjördi konúngr skilnad ítarlegan á landfógeta-embætti ok hèradsdómara í Gullbríngu sýslu, þvíat landfógeti hafdi sýsluna; þá fèkk ok Jón ýngri, son Sveins lögmanns, Sudr-Múla sýslu. Árni prestr Þórarinsson, er

hafdi Seltjarnarnes þíng ok bjó at Lambastödum, fèkk þá Oddastad, ok gjördist prófastr í Rángárvalla sýslu, en Jón Sveinsson vard prófastr í Stranda sýslu, bródir Gudlaugs prófasts. Meistari Bjarni, rektor í Skálholti, fèkk Gaulverjabæ ok vígdist þángat. Kom út Vigfús Þórarinsson sýslumadr, en Davíd Skevíng sagdi af sèr Bardastrandar sýslu, ok hafdi þó sídan allmikit af laununum í vidrlífis-penínga, alla stund medan hann lifdi, tvígilt vid þat er adrir sýslumenn uppgefnir fengu af konúngi, því hann hafdi 60 dali, ok var hann vel fjáreigandi ádr, ok hafdi eigi mjök lengi haft sýslu, en slíkir samníngar voru fyrirbodnir seinna; tók Bjarni Einarsson, dótturmadr hans, vid, en bródir Bjarna, Ólafr prestr Einarsson at Ballará, gjördist prófastr í Dölum; Hannes prestr Lárusson Skevíng fèkk Helgastadi, ok dó Einarr Jónsson, er verit hafdi rektor ok lögsagnari, hann var fadir Ísleifs Assessors ok systkina hans. Snæbjörn prestr, son Halldórs biskups, fèkk Mödruvalla klaustr braud ok dó Eggert prestr at Undirfelli, Sæmundarson, Hrólfssonar, hans börn voru: Ólafr, flysjúngr mikill, ok dætr þrjár: hèt ein Helga, ok var gipt Eyríki presti á Stad í Hrútafirdi, Gudmundarsyni, prests í Middölum, Eyríkssonar prests hins gamla á Fagranesi, Gudmundarsonar, Kolbeinssonar bartskera, Hjálmssonar; þeirra son var Gudmundr prestr, ok annarr Gísli. Margrèt hèt önnur, ok var allvæn kona ok skörugleg, hún var gipt þeim manni er Jón hèt, Gunnarsson, fènaumíngja miklum ok sjálfsvesælíng, ok áttu þau börn mörg. Íngibjörg hèt hin þridja, hana átti Brynjólfr smidr, son Halldórs biskups. Á þíngi voru lögmenn, Björn Markússon ok Stephán Þórarinsson, þar átti Jón Jakobsson sýslumadr mál vid þann mann er Sigurdr Ísfeldt hèt, hann hafdi dæmt hann um barsmíd, en Sigurdr stefnt þángat dóminum, vard hann fyrir fèsekt, því hann kom ekki. Þjófr var dæmdr til hýdíngar ok þrælkunar, er Jón Sæmundarson hèt. Mál var med Jóni Helgasyni sýslumanni ok Andreasi Kyhn kaupmanni, hafdi Jón dæmt Kyhn sektir um ránga vigt ok mæli, en gat ei fullsannat; en annat var, at hann hafdi barit Kyhn ok skammyrdt, ok fundizt ofan á honum, ok mælt at stínga mætti hann í höfudit med knífi, ok var þetta sannat; vard Oddr Nótaríus talsmadr Kyhns, en Jón kom eigi, ok var honum lagdr lögdagr, dæmdi Björn lögmadr honum fèsekt seinna. Þorsteinn á Laxamýri Benediktsson, bródir Jóns sýslumanns í Raudu-skridu, átti þar mál vid Sigmund Þorláksson í Saltvík, fóstrfödur Magnúsar Ketilssonar sýslumanns, um hvals adtekt. En Ólafr amtmadr Stephánsson ok Björn lögmadr áttu í máli vid kaupmenn, ok var dómandi Magnús Ólafsson vicelögmadr, þóttust þeir eigi skyldir þar dóm at lída, en hann dæmdi ei at sídr, fríadi þá þó vid skuldina, en þeir

appellerudu frá máls medferd. Sigurdr Olafsson klaustrhaldari var launsonr Ólafs Árnasonar, sýslumanns á Bardaströnd, hann var settr fyrir Skaptafells sýslu, þann hluta sem Jón Helgason hafdi, medan Jón var í útistödum.

## XXVIII. Kap. Reynistadar mál.

Þat hafdi ordit um vorit, er ferdir hófust fyrst um Kjöl, at menn höfdu fundit tjald Reynistadar-manna; Thómas Jónsson hèt madr, er bjó at Flugumýri, hann fann þat fyrstr, reid hann nordr undan til Stadar ok sagdi tídindin, var haft eptir honum sídan, at hann hefdi hugat lík þeirra brædra vera í tjaldinu, ok tveggja manna annarra; Eyfirdíngar fóru sídarr, ok þóttust eigi finna nema tvö líkin. Jón hèt madr, Egilsson, Illhugasonar, Sigurdarsonar prests á Audkúlu, er dó hjá Svínavatni, ok bródir var Jóns prests í Laufási, Magnússonar; hann bjó þá at Reykjum á Reykjaströnd, ok var einrænn, myrklyndr ok fornlyndr, hann kom um þat mund úr fjárkaupum, ok med honum Sigurdr sonr hans, eigi frumvaxta, ok Björn Illhugason frá Reynistad, er getid var at sudr gekk á Kjöl um vetrinn. Þau Halldórr, ok Ragnheidr sendu menn med líkkistur fram á fjöllin, ok fengu Eggert prest Eyríksson í Glaumbæ til fylgdar, en er til tjalds kom, fundust at eins tvö lík, Sigurdar ok Jóns prestssonar, ok þótti undarlegt, ok fátt er sagt þar væri fèmætt. Voru eptir þat margar leitir gjörvar, ok fundust aldrei lík þeirra brædra. Hönd fannst af Jóni austmanni, ok reidtygi hans á þúfu, ok skorit á gjardir, en hestrinn hálsskorinn í kvísl, þeirri er Beljandi heitir; ætludu menn, at hann mundi hafa hleypt honum þar nidr, er hann var vonlaus um líf, svo at eigi kveldist hann til bana, en verit því kominn svo lángt nordr á fjöllin, at haldit hafi áfram í hrídinni til at komast nordr af í bygd. Var þeim Reynistadar hjónum þat mestr harmr, at ekki fundust lík þeirra brædra, ok ætludu at illgjarnir menn mundu hafa stolit þeim, sèr til stærri skapraunar, ok svo at sídr yrdi eptir grennslast fè því, er þeir höfdu haft med höndum, hefdi ok hugat, at þeir mundi fyrstir hafa fundit tjaldit; höfdu þau Jón Egilsson fyrir þeim sökum, ok fylgdarmenn hans, ok var tekit til at þínga um þetta á álidnu sumri af Vigfúsi Skevíng sýslumanni, ok var svarit, at 3 hefdu verit líkin í tjaldinu, er þeir Thómas fundu þau; reis af mál lángsamt ok flókit — voru ærit margar sagnir, ok sumar all-ótrúlegar; — sú var ein, at konu nokkra á Reynistad hefdi dreymt Bjarna kveda fyrir sèr stöku þessa:

Enginn finna okkr má,
undir fannar hjarni;
dapr yfir daudum ná,
dægr lifdi Bjarni.

ok enn þessa:

Í kletta skoru krepptir erum vit bádir,
en í tjöldum ádr þar
allir lifdum fèlagar.

Var þó flestra manna ætlan, at þat væri uppljóst ok ósannindi ein, en þat megum vèr muna, at borin var hin fyrri vísan þegar um vetrinn, ádr tjaldit fannst. Þat var merki kapps þeirra Ragnheidar, at þau fengu mann at sunnan, er sagdr var fjölkunnigr, sá hèt Páll frá Mógilsá, ok var þá gamall, son Halldórs á Seilu, Þorbergssonar, Hrólfssonar, ok lèzt hann mundu verda víss, hvat af líkunum væri ordit, en þó kom þat at engu, sem líklegt var; ætludu þá margir því heldr, at Jón Egilsson mundi fjölfródr, ok varda því, at uppvíst yrdi, ok hafdi þat ord lagzt á hann ádr; en opt þótti ólíklega taka fyrir prófit, ok lögdu þeir svo út, er skammsýnastir voru, at sýslumadr hefdi hita af Jóni, adrir ætludu, at lint mundi fylgt þeim Reynistadar hjónum; enda var eigi góds von, er tekit var svo illt rád, at leita slíkra vidburda. Sögdu þeir sídan, en hlut áttu at med Jóni, ok voru þó eigi haldnir jafnsekir honum, at þeir menn, er líkin sóktu, mödkud, ok störfudu at því, eigi betr en algádir, at koma þeim í kisturnar, hefdi mátt rydja saman beinum fjögra manna ok eigi at gæta, ok hefir þeirri gátu verit mótmælt fyllilega, ok gjördi hún grun meiri, en þó var aldrei skodat í kisturnar í prófinu.

## XXIX. Kap. Biskups lát ok annat.

Þat sumar fór Nicolaus Mohr utan, ok var þá hit bezta sumar, ok gódr heyskapr ok nýtíng, en menn höfdu þó fækkat í landi þann árshríng nær um þúsund, ok mest í Skálholts biskupsdæmi, vid sjóinn; en ádr en jardir lögdust í eydi, voru þá flest býli bygd í landi hèr, ok jafnvel þau, er eigi höfdu bygd verit sídan pláguna fyrri. En þó hey yrdi mikil, þóttu mönnum þau lètt, því at eigi vard trodit fjórdúngs þýngd í hálftunnu; vard gott haustid, en landfarsótt gekk í Nordrlandi, ok lágu þeir ei lengi sem dóu. Brann bær um haustid at Helgafelli vestr, hafdi þann stad fengit Sigurdr, klaustrprestr til Mödruvalla, Stephánsson frá Höskuldstödum, ok flutt þángat um vorit fyrir, en Gunnlaugr prestr Snorrason bjó þar þó ásamt, ok fannst silfr allmikit saman-

runnit eptir brennuna, er hann hafdi átt; fórust mestallir fjárhlutir, en menn komust af. Jón landlæknir Sveinsson gekk þá at eiga Gudrídi, dóttur Sigurdar landskrifara, en Markús prestr, son Magnúsar prófasts Teitssonar, Pálssonar, Torfasonar adra, er Ragnheidr hèt, hann hafdi fyrri átt Gudnýju, dóttur Gudlaugs prófasts Þorgeirssonar í Gördum; var bod inni, ok fóru bædi brúdkaupin fram at Barkarstödum í Fljótshlíd, at Einars Brynjólfssonar ok Jórunnar Sigurdardóttur, systur þeirra brúdanna. Jón Eyríksson gjördist þá Conferenzrád ok bókavördr konúngs, ok fèkk margar sýslanir adrar. Á því hausti týndist Eyrarbakka skip, ok drukknudu skipverjar 18 saman, ok einn Jón Vídalín, son Jóns prófasts í Laufási, Assistent á Bakkanum; Kristján Hjörtmann, er þar var kaupmadr, tók sèr þat svo nær, at leiddi hann til bana. Þá var Páll Jakobsson, Eyríkssonar, settr fyrir Skálholts skóla í stad meistara Bjarna; en hinn 16da dag Nóvembris andadist Jón biskup Teitsson at Hólum, ok tók meistari Hálfdán Einarsson aptr vid umsjá stiptisins, en húsfrú Margrèt Finnsdóttir biskups-ekkja fór sídan í Nedra-Ás, ok bjó þar; voru nú tvær biskups-ekkjur nyrdra. Á þessum misserum var borinn Bjarni Þorsteinsson, er sídan vard mikilsháttar.

## XXX. Kap. Ættartala.

Þann tíma var allmikil ordin ætt sú, er komin var frá Jóni sýslumanni Hjaltalín, Oddssyni, ok dreifdist hún vída út fyrir sunnan ok vestan land. Oddr lögrèttumadr var elztr sona hans, hann var opt fyrir málasóknum, hann átti Oddnýju, dóttur Erlendar lögsagnara í Reykjavík, Brandssonar; þeirra börn voru: Hans, Rannveig, Oddný, Jón, Þorbjörg, Jón annarr, Sesselja, Gudrún, Erlendr, Páll, Jórunn. Hans Hjaltalín var kaupmadr, ok lengst á Stapa, hann var vitr madr ok vel stilltr, Sophía hèt kona hans, dönsk, þau áttu margt barna. Rannveig átti Hjört smid, Eyríksson; Oddný átti Helga Engilbertsson, þeirra synir voru Erlendr apóthekari ok Sigurdr, urtakramari í Kaupmannahöfn. Jón Hjaltalín var prestr, fyrst at Hálsi í Hamarsfirdi, ok þá vígdr fyrir fjórum árum er hèr var komit, sídan at Kálfafelli, ok þareptir at Hvammi í Nordrárdal, Saurbæ vid Hvalfjörd ok Breidabólstad á Skógarströnd. Hann átti fyrst Gudrúnu, dóttur Jóns prests í Bjarnanesi ok 14 börn, en sídan Gróu, dóttur Odds prests á Reynivöllum, Þorvardssonar í Brautarholti, ok börn allmörg; var hann gladlyndr madr ok skáld. Sesselja átti Davíd vid Búdir, son Sörens ok Gunnhildar, födursystur sinnar. Gudrún átti Ólaf kaupmann Thorlacius í Bíldudal, son Þórdar í Hlídarhúsum ok Ingirídar Olafsdóttur,

Jónssonar, Þorlákssonar biskups, ok börn fjögr. Páll var undirkaupmadr í Stykkishólmi, hann átti Magdalenu, dóttur Sörens ok Gunnhildar, ok börn mörg. Jórunn átti Jón, undirkaupmann á Stapa, er ok bjó í Bödvarsholti, son Jóns Bjarnarsonar, Steindórssonar á Selhóli, Jónssonar, var Björn bródir Eyríks lögrèttumanns vid Búdir, födur Jakobs, þau áttu börn mörg. Silpha hèt dóttir Jóns Hjaltalíns, systir Odds, hún átti Gizur Jónsson lögrèttumann, at Arnarhóli. Anna hèt önnur Jóns dóttir, hún var gipt Árna bónda í Ánanaustum, Einarssyni, þeirra synir voru: Árni, mannvænlegr madr, hann drukknadi, ok Einarr tinsteypari, á Borgundarhólmi. Hans hèt enn son Jóns Hjaltalíns, bródir Odds, hann lærdi látúnssmídi utanlands. Jóhanna hèt enn Jónsdóttir, hún var gipt Jóni Bergsteinssyni, þeirra son var Árni reipslagari, hann bjó at Kirkjubóli á Midnesi, ok var lögrèttumadr; sídan átti hún Stephán, og er frá þeim bændafólk. Páll hèt enn sonr Jóns Hjaltalíns, bródir Odds, hann fór utan, ok átti tvo sonu, er stýrimenn voru til Indíalands. Gunnhildr eldri Jónsdóttir átti ok afkvæmi. Gunnhildr ýngri Jónsdóttir, systir Odds, átti Sören Davídsson Grönager, danskan mann ok reipslagara, þeirra börn voru: Davíd vid Búdir, er fyrr átti Sesselju Oddsdóttur, en sídan Mettu Níelsdóttur, ekkju Jóns prests Arngrímssonar; ok Magdalena, er Páll Hjaltalín átti. Gunnhildr var svarkr mikill, hún fór utan á dögum Fridriks konúngs fimta, ok gekk fyrir konúng í íslenzkum kvennbúnadi, sagdi konúngr svo, at honum þótti búnadrinn sèlegr, nema kápan svarta ok sykrtopprinn, svo kalladi hann faldinn; hún bad konúnginn um tvær bónir: at módir sín, er ekkja var, fengi vidrlífispenínga, ok bóndi sinn hamp útfærdan árlega til Íslands, til færaspuna, ok heyrdi hann mildilega bádar. Niels Hjaltalín var enn sonr Jóns, bródir Odds, hann var lögrèttumadr ok þríkvæntr, ok var honum varit stórmannlega, átti hann öll börn sín med hinni fyrstu konu, hún hèt Gudrún, dóttir Eyríks prests Bjarnasonar ok Íngunnar Sigurdardóttur, komust þessi til menníngar: Eyríkr, hann fèkk sýslun í Lángasundi í Noregi; Metta, hún átti fyrr Jón prest á Borg, son Arngríms prests á Melum, bródur Eyjólfs Jónsoníus, en sídan Davíd Sörenson; Íngunn, hún giptist í Eyrarsveit. Vildum vèr því ei undanfella at telja þennan frændbálk, þó eigi væri í hann komit margt stórmenni, at hann ægsladist vída, ok kom vid í ýmsum stödum.

## XXXI. Kap. Frá Hjálmarssonum.

Hjálmarr Erlendsson var læknir ok vel at sèr um marga hluti; hann var kynjadr úr Fljótum, en drukknadi á Gufunesi sudr, hann átti Phil-

ippíu Pálsdóttur, systur Gunnars prófasts í Hjardarholti ok Bjarna landlæknis ok þeirra systkina, ok voru börn þeirra uppi ok mönnud í þenna tíma: Halldórr ok Erlendr, Páll, Kristín ok Hólmfrídr; Halldórr var vel lærdr madr, ok gjördist conrector á Hólum, en bjó seinna í Hofstadaseli, hann átti Gudrúnu Jónsdóttur frá Heinabergi vestan, Gunnarssonar, ok var þeirra barn Íngigerdr; Erlendr var fyrst at Múnkaþverá med Sveini lögmanni, ok átti Karítas, dóttur hans, ok hèlt eptir hann klaustr; þeirra börn voru: Páll, Sigrídr ok Philippía, en seinna átti hann Kristrúnu Þorsteinsdóttur prófasts, Ketilssonar, ok var seinni madr hennar. Páll var í Kaupmannahöfn í þennan tíma, eda nokkru seinna, ok framadist vel, ok verdr enn sídarr getid. Kristín giptist Jóni lækni Einarssyni vestra, ok var þeirra son Hjálmarr; hún var námskona mikil, en mátti trautt gánga Hólmfrídr giptist Gudmundi, er missti prestskapar, Gudmundarsyni, Teitssonar sýslumanns á Bardaströnd, Arasonar í Haga, þeirra son var Hjálmarr, er prestr vard. Mikill ætthríngr er kominn frá Páls börnum, systkinum Philippíu, er Hjálmarr átti.

## XXXII. Kap. Frá ýmsu.

Hinn næsti vetr eptir Helgafells brennu var kaldr ok frostamikill, var 1782.
kúpeníngr vída kálflaus, sakir lèttra heyja, en hafís rak inn hinn 16da dag Martii, ok lá sídan lángt fram á sumar, jókust þá skuldir manna til kauphöndlunar; fiskiár var ok í lakara lagi. Þá kom út reikníngskver Jóns Jónsoníus, hann var kynjadr frá Urdum í Svarfadardal ok lengi utanlands vid fornfræda Commissíón, var hann skáld gott, ok átti mikit í Kristjánsmálum, þat var kvædi ágætt, er stúdentar íslenzkir kvádu til Kristjáns konúngs, ok töldu þar í velgjördir hans vid Ísland; voru þar med ödrum ritadir undir: Magnús, son Ólafs amtmanns, er kalladist Stephensen, ok Gísli Þórarinsson, sýslumanns frá Grund, er alizt hafdi upp at Espihóli med Jóni Jakobssyni sýslumanni ok módur sinni. — Jón, sonr Gríms á Giljá, Jónssonar, hafdi þá verit 6 ár med doktor Finni biskupi, en 2 ár sveinn Hannesar biskups, var hann þá þrítugr, ok vígdist til Garda á Akranesi; hèt kona hans Kristín Eyríksdóttir, lítilla manna at austan, en Ólafr amtmadr hafdi tekit hana, ok sídan var hún herbergjastúlka at Leirá, ok fèkk Jón prestr hennar eptir þetta. Jón hèt son Gríms, bródir Jóns prests, gardirkjumadr, ok ei mjök þokkadr, hann átti Gudrúnu Bjarnardóttur, Benediktssonar lögmanns, Þorsteinssonar, ok börn mörg. Halldóra hèt systir þeirra, kona Jóns Ketilssonar, bródur Magnúsar sýslumanns, hann hafdi Skógarstrandar jardir, ok bjó at Ósi ok Kidey. Kristín hèt önnur kona Ara

prests Gudlaugssonar, prófasts í Gördum, þorgeirssonar. — Íngibjörg hin þridja, kona Jóns á Mýri í Skaptafells þíngi, þeirra son var Mála-Davíd; ok enn voru Gudrúnar tvær, átti adra þorfinnr lögrèttumadr í Seli, þorbjarnarson. Margir menn í fremra lagi öndudust á þessum misserum; var einn Hans Skevíng Lárusson á Mödruvöllum, ok var hann gamall mjök; hèlt Hannes sonr hans klaustrit um hríd; annarr Skapti prestr at Hofi, Árnason, Skaptasonar, Jósepssonar; þridi Páll prófastr Gudmundarson í Vallanesi; ok enn þessir: Hannes, prestr at Kvennabrekku, Bjarnarson, þórdarsonar, Ormssonar í Eyjum; Jón prestr Audunnarson at Bergstödum í Svartárdal, hann var fadir Audunnar prests í Blöndudalshólum; Eggert í Búdardal Bjarnason, mágr Magnúsar sýslumanns; Illhugi prestr Jónsson at Kirkjubóli, hann var nordlenzkr at ætt, strandadi hann á skeri med syni sínum ok fjórum mönnum ödrum, ok frusu þar til bana; þorleifr Kláus á Yztu-Grund í Skagafirdi, bródir Halldórs biskups. Kaupmadr á Eyrarbakka vard brádkvaddr, ok 5 menn í Flatey, ok fleiri urdu misferli; þat var eitt, at madr einn á Álptanesi datt á knífa, er hann bar á sèr, ok fèkk af því bana. þá andadist enn Karítas í Búdardal, Bjarnadóttir hins ríka frá Skardi, er þorsteinn Pálsson hafdi átta, ok arfleitt hafdi Magnús sýslumann Ketilsson at fè sínu mestöllu, föstu ok lausu. Skip týndist á Ísafirdi med 8 mönnum, annat í Dritvík, þridja í Keflavík undir Jökli. Kom bylr um vetrinn ok braut kirkju á Eyri í Skutilsfirdi nidr til grunna, stód eptir altarit; þar var þorbergr prestr Einarsson. — Koníngsbrèf kom út um mótþróa presta, burdarbrèf biskups ok prófasts, drykkjur ok áflog á helgum, tukthússhald eda þrælkunarhús í stad bannfæríngar, ok um tíundargjörd, ok um tekjur presta ok kirkna, ok svo um laun fyrir móskurd til eldividar, ok mýra þurkun, ok um hjálparmedöl í næmum sóttum, ok enn fleira. Markús prestr Magnússon í Gördum gjördist þá prófastr í Kjalarnesþíngi, en Jón prestr Ormsson á Bardaströnd, hann var vel at sèr; Ormr fadir hans var kalladr Dadason, Ormssonar, en margir ætludu vera mundi Ormr Dadason sýslumadr; Jónas prestr til Vestrhópshóla, Benediktsson prests, Jakobssonar, Benediktssonar, gjördist prófastr í Húnavatns þíngi, því at Bjarni prófastr Jónsson sagdi af sèr fyrir heilsubrests sakir. Bjarni prófastr átti Elínu Stephánsdóttur, ok ólu þau upp Fridrik þórarinsson frá Grund. Sigurdr prestr Stephánsson vard prófastr í Snæfellsness þíngi. Á alþíngi fóru fram nokkrir ómagadómar, en stórmæli engin, en Thodal stiptamtmadr dæmdi í yfirrètti mál Jóns Helgasonar sýslumanns ok Kyhns, ok stadfesti aukarèttar-dóm Bjarnar lögmanns Markússonar, ok sektadr var Jón um 10 dali at auki, í mælismálinu, ok appelleradi hann; en í misþyrníngar-

málinu voru honum dæmdar á hönd ofríkisbætr, hálft konúngi en hálft til Kyhns, ok í málskostnad at gjalda 66 dali. — Hinn 6ta dag Augusti mánadar andadist Sveinn lögmadr Sölvason at Múnkaþverá, ok hafdi hann lengst verit lögmadr, gjördist þá Stephán Þórarinsson lögmadr algjörlega, en klaustrit hálft hèlt um bríd Erlendr Hjálmarsson, er átti Karítas, dóttur Sveins lögmanns. Þá var grasbrestr mikill ok brídasamt, ok drápu menn peníng sinn; vard svo lítt sprottid í Þíngeyjar þíngi, at ekki urdu hærd tún á 8 bæjum á Lánganesi; komust ei skip á hafnir fyrir ísum, ok gengu sumir menn frá heimilum; er sagt: á því ári ok hinu fyrra hafi dáit á 8 mánudum 9 hundrud 80 ok 9 menn. Þat haust var bod inni í Videy at Skúla, gekk Vigfús Þórarinsson sýslumadr at eiga Steinunni, dóttur Bjarna Pálssonar, ok var hún 19 vetra, ok hafdi alizt upp med Skúla, módurfödur sínum; var nú Skúli seztr um kyrt, enda tók hann mjök at eldast; en þau Vigfús bjuggu sídan at Brautarholti á Kjalarnesi, ok áttu börn mörg; var Bjarni hinn elzti son þeirra; gjördist Vigfús brátt málafylgismadr mikill; hann var einardr madr, grannlegr ok óholdugr, ekki var hann frídr madr sínum, stirdtaladr nokkut, en lagdi vigt á ordin. Einarr prestr Thorlacíus á Grenjadarstad fèkk Gudrúnar, dóttur Halldórs Jakobssonar, hafdi Halldórr komit henni at Espihóli til Jóns sýslumanns, bródur síns, ok hann gipti hana; en þat líkadi Halldóri illa, ok fór honum margt midr í skiptum þeirra, því at hann hèlt Kolbeinsstödum öllum, er þeir áttu saman, ok vafdi þat med kirkjureikníngum ok ödrum smámunum, ok gaf at lyktum sem sína eign, en Jón var svo frændrækinn, at hann vildi ei sækja hann, gjördi hann ok fleirum naudstöddum mönnum gott en Halldórr, ok lagdi mörgum meira til náúngum sínum, ok mátti þó jafnan betr. — Á því hausti sá Páll Ásmundarson á Steinkirkju í Fnjóskadal, sannordr madr, loptsýn mikla, ok ollu því hardinda dampar, er í lopti voru, ok brátt komu fram, þó at margir ætludu þat furdu; var vetr áfredasamr til jóla, ok svo alla stund þadan af, ok hinn frosta- 1783.
mesti, med miklum jardbönnum, höfdu verit etin á gói 30 hross á Lánganesi, ok vídar tídkadist þat meirr en þörf þótti krefja; en á einmánadi kom bati sá, er frelsadi menn í þat sinn frá kolfelli; voradi þá vel sydra, en hörd voru vedr nordanlands, ok kuldar lengi fram eptir.

## XXXIII. Kap. Hardindi ok elds uppkoma.

Þá var fiskiár fyrir austan ok sunnan land í betra lagi, midlúngi vestra, en lítt fyrir nordan land; hákalls afli mikill var í Fljótum, ok ætludu menn af því orsakazt hafa, er hann var etinn mjök nýr, at

margir menn urdu þar bráddaudir. Margir dóu af megrd, flosnadi upp margt fólk í Þíngeyjar þíngi. Þar vard í Þaunglabakka sókn í Fjördum ekkja ein svo vitstola, at haldin var djöfulód. Var nautkynspeníngr þá talinn hèr allmikill í landi, en saudfè færra at sínu leyti, því at ei var fullfjölgat; yfrit margt var af hrossum, svo at þat kom mönnum at miklu ólidi. Þá var gefit út konúngsbrèf um refsíng ok afskipun lausamanna, ok annat um nýtt skírnarform án særínga, ok enn um kirkju-eignir ok adrar stiptanir; eitt um trúlofanir; eitt um ýmsa tilskipan í Vestmannaeyjum; eitt um konúngsjardir; eitt um þat fè sem tekit er í fèhirzlu konúngs edr höndlunar; eitt um mýrarækt; eitt var brèf Stephåns lögmanns Þórarinssonar fyrir amtmannsdæmi nordan ok austan, ok svo instruction hans, þvíat Ólafi amtmanni Stephánssyni var sleppt frá amtmannsdæmi, ok þó kallat at væri med velþóknan konúngs er hann skildi vid, ok lagdist Skaptafells sýsla til sudr ok vestr amtsins, en Ólafr Stephánsson skyldi hafa 400 dali í vidrlífispenínga; átti Stephán amtmadr þó at halda fyrst um sinn lögmannsdæminu ásamt, ok hafa Mödruvalla klaustr til ábúdar; fyrir því lèt hann nú taka þat út af Hannesi Skevíng ok gekk fast eptir, ok lèt Hannes jardir sínar í álagit, ok vard sídan fèskortr, því at hann hèlt lítt á. Gjördist þá Gísli, son Einars skólameistara, Jónssonar, kirkjuprestr í Skálholti, en Eyríkr Vigfússon prófasts, Jónssonar, frá Hítardal, bródurson doktors Finns biskups, fèkk Reykjaholt. Fleiri gjördust kapellanar, er sídar urdu nafnkenndir, en sumir höfdu braudaskipti, ok teljum vèr ekki. Jón Ásgeirsson vard prófastr í vestrhluta Ísafjardar sýslu, en Pètr í Gördum, son Pètrs prests í Miklaholti, Einarssonar, lögsagnari Páls Axelssonar í Hnappadals sýslu. — Um vorit, hinn 28da dag Maji, dæmdi Vigfús sýslumadr Skevíng í líkamálinu frá Reynistad, ok dæmdi þeim Jóni Egilssyni, Birni ok Sigurdi, at synja med eidi; skaut Halldórr Vídalín dóminum til yfirrèttar. Oddr nótaríus kom þá at sunnan, hafdi hann fengit Þíngeyra klaustr, en Björn í Stóradal, son Jóns prests Bjarnarsonar á Audkulu, hafdi verit fyrir því um hríd; Oddr var medalmadr vexti, ekki mikill, blóddimmr mjök, hann var lèttlátr ok ljúfmannlegr í bragdi; hann átti Hólmfrídi, dóttur Pètrs Þorsteinssonar sýslumanns, systur Gudmundar í Krossavík, ok var Pètr sonr hans þá 5 vetra. Þat ár gengu út á prent í Hrappsey, ok höfdu ádr gengit út fyrir 9 árum sídan, ljódmæli ágæt Jóns Þorlákssonar, er hann lagadi eptir anda Túllíns ok annarra gódskálda erlendis Hafís kom fyrir nordrlandi ok kopadi nokkut grasvexti, þó leit hann allvída ei mjök ólíklega út, ok vída vard hann mikill vid gódvidri í öndverdum Junio, en þá komu at ótídindi. Kom upp nær midjum mánudinum

eldr fyrir sunnan Geirfuglasker, ok skaut upp landi, ok ætludu Danir at setja varda á, ok hugdu sèr til nytja, en þat rauk fyrst, ok sökk skjótt aptr; en hinn áttunda dag þess mánadar kom eldrinn upp í Skaptár jökli, ok gjördist ógrlegr, rann hann út í straumum, ok bræddi svo grjótid, ok eyddi þremr bæjum hins þridja tugar þar um sveitir, voru þarmed tvær kirkjur, í Skál ok í Hólmaseli, en hin þridja, at Ásum, var nær fallin af landskjálfta, þar stód eldrinn sem múrveggr fyrir utan túngardinn ok kólnadi þar. 15 jardir eyddust med öllu, en 29 spilltust, ok flýdi allt fólk á vergáng þadan úr sveitum; gengu þá brestir ok þrumur, eldíngar ok sandryk, ok svo miklir landskjálftar, ok rigndi brennisteini ok allri ólifjan. Skaptá þornadi öll, ok kom upp gardr mikill, en þó kom hún aptr sídarr í farveg sinn hinn forna; en gras allt, þat er á jördu var komit, spilltist, ok gjördist svo banvænt, at peníngar hýmdu um hásumar ok urdu gulir um granir, þvíat grasit allt var gult ofan af brennisteins falli, en af því urdu sídan margskonar veikindi. Var þá sól hæst á lopti blódraud um midja daga, ok svo mikit þoku-mistr at ekki sá bæja í milli, en skallar ádr kalnir í túnum; voru ok sumir flekkir þar grasit var gult, ok visnat nidr at rótum, bar mest á því öllu til dala; fölnudu súrur ok birki ok lýng, ok öll fjallagrös, er mönnum var mestr styrkr at; smári hvarf í Skaptafells sýslu ok vídar, ok skógar, þeir fáir er eptir voru, eyddust, svo at sumstadar komu aldrei upp sídan, mátti mylja kvistuna med höndum sèr ofan til mids, er ádr voru blómgadir, en peníngr eyrdi hvergi. Urdu þá hey hálfu minni en vant var, ok þó miklu verri at kostum, ok skáru flestir þridjúng, en sumir helmíng nautpeníngs, en allir peníngar gengu horadir undan; lagdi sídan at vetr snemma um haustid, med hrídum ok jardbönnum, svo at fènad vard á gjöf at taka mánudi fyrr en vant var.

## XXXIV. Kap. Manntjón ok þíng.

Þau misseri týndust 6 menn á Seltjarnarnesi, ok kvæntir flestir, ok 8 menn segir Jón prestr Hjaltalín at týnzt hafi á Sudrnesjum; tvö skip fyrir vestan, en fjórir menn ok ein kona vid Hvaleyjar, þau fóru med heyband, ok enn fjórir vid Drángey. Á þíngi var dæmdr þjófr einn, er Hannes hèt, er stolit hafdi úr Búda kaupstad, til hýdíngar ok mörkunar ok þrælkunar sídan. Þar átti Vigfús Jónsson sýslumadr úr Þíngeyjar þíngi mál, þótti ólaglega farit hafa med málspróf; átti hann ok andstædt í fleiru í þennan tíma, en var madr fátækr, lingedja ok frómlyndr, ok vard honum þat þúngt fyrir þá sök. Hann var

sektadr um fè nokkut í máli vid Hannes prest Skevíng. Skúli landfogeti sókti þar Björn Jónsson apóthekara, bródur hans, um yrkíng á Akrey, ok vann ei á. Fátt var þar stórra tídinda. Þá gjördist Jón Einarsson læknir á vestrlandi.

## XXXV. Kap. Frá gjöfum ok ödru nýnæmi.

Ölmusu peníngar höfdu dregizt saman í Danmarkar ríki til vidrèttíngar biskupsstóli ok skóla at Hólum, ok afhendi Lodvík Harboe, Sjálands biskup, er hèr hafdi verit úti fyrrum, ok var hit mesta gódmenni, 900 dali af þeim Nicolai Edinger Balle, dótturmanni sínum, er biskup var í Sjálandi eptir hann, ok hinn ágætasti madr. Deydi Harboe sídan á þessum hinum sömu misserum, ok voru peníngarnir á rentum þadan af, en konúngr gjördi landsmönnum hèr mikit gott; hafdi hann gefit 300 dali ádr til byggíngar eyddra jarda í Þíngeyjar þíngi ok eystra, en nú sendi hann á þessu hausti skip, hladit med timbr ok kornvöru til Hafnarfjardar, ok gaf þat húsviltum ok naudstöddum, er undan höfdu flúit eldgánginum, leyfdi ok at safna ölmusum, þeim til adstodar, um ríkin, ok þó gjördi hann framarr seinna; en þat leyfi fèkk af konúnginum Karl Pontoppídan, Jústizrád, son Eyríks biskups Pontoppídans. Voru þá 5000 ok 700 dala á rentu, er barnaskólinn átti út hèr, auk jardanna, er Jón Þorkelsson rector hafdi gefit. Tóku nú flestir at breyta eptir, ok gáfu kirkjur í Skálholts biskupsdæmi til uppbyggíngar Helgafells kirkju 120 dali. Commission var þá hafin í Kaupmannahöfn um stólana; sendi ok konúngr út um haustid Levetzow kammerherra, er fyrri fór hèr um land, at skoda þau hèröd, er eldrinn eyddi, ok skýra þar frá, hvat þeim mætti til vidrèttíngar verda, ok med honum Magnús Stephensen, son Ólafs amtmanns, skyldi hann hjálpa þar at, ok gjöra greinilega frásögu um eldinn, því at hann var námgjarn ok laginn til frama, þó at hann væri þá enn allúngr; fóru þeir þar austr, ok skodudu sem þeir máttu þat er þeir komust vid.

## XXXVI. Kap. Tjón í Sýrdalsvogum.

Í September mánudi lögdu þrír formenn út af Eyjafirdi, vestr á Ólafsfjardar mid: Oddr at Dagverdareyri Gottskálksson, Snorri at Reistará ok Runólfr í Fagraskógi; þeir fóru at lídanda sunnudegi, ok fiskudu allvel í þrjá daga hina næstu, ok framan af á fimtudaginn, en er á leid daginn hvesti mjök ok gjördi sjórót mikit, en fyrir því, at þeir

ætludu heim at morgni, lögdu þeir þángat skipunum, er skemmst þótti til, ok at þeir fengi lagt morgunkast á föstudaginn, ádr þeir færi heim, en þat var inn at Sýrdalsvogum. Eru klappir fyrir framan voginn, ok sátu þar opt sjómenn á um vorvertíd, en þá kemr vogrinn, en björg ok hamrar fyrir ofan, ok hin versta landtakan, ok fjall ófært upp frá, svo þadan nær enginn manna bygdum. Runólfr lagdi fyrstr upp á klappirnar, ok festi þar skip sitt, en þá Snorri, ok Oddr sídast, versnadi þá svo sjórinn, at skipin hèldust ei vid, ok fyrir því báru þeir upp á klappirnar fisk sinn ok veidarfæri, ok settu þar upp skipin, ok skordudu skip þeirra Snorra ok Runólfs, en sídast gengu til 10 menn af öllum skipunum, at skorda skip Odds, ok sátu 7 vid skipit Snorra; kom þá ólag svo mikit, at tók út skip Odds ok alla þá er umhverfis þat voru, ok svo þá 7 menn hjá Snorra skipi, fisk allan ok farángr, ok setti inn í voginn nær at landi, týndust þar þeir 10 menn, er nefndir voru vid skip Odds, þrír formennirnir ok þrír menn adrir kvongadir þar med, ok einn af þeim er sátu hjá Snorra skipi, en 6 fengu skridit uppá sker þar hjá, ok hèldu sèr um þrjú ólög, ok voru þeir minnstir máttar; þeir ætludu at þá mundi vera um midjan aptan; tóku þeir skip Runólfs ok settu út, því at ei þótti þeim betra at bída þar bana, en at sækja hann í sjóinn, ok hleyptu yfir um voginn til lands undir hamrana, ok drógu skipit sem lengst upp undir klappirnar, var þat allt lamat. Kom þá stórhríd á þá um kveldit, ok birti ei upp fyrr en á sunnudags morguninn. Á mánudaginn tóku þeir skip Runólfs, ok var þat þá ónýtt, en þeir þrekadir ok þrotnir at rádum, ok klifrudu þó uppá klettana, ok hugdu svo at komast til manna bygda; voru þar svo miklar ógaungur, at þeir urdu aptr at snúa, ok mátti þá rekja blódferil þeirra, því sumir voru skólausir ordnir, ok þrotnir af kulda, ok allir berhendtir, ok máttlausir af vosi; sáu þeir þá skip Snorra á klöppunum, hvar þat hèkk í skoru einni, ok vildi einn þeirra, er Þorlákr hèt, vada yfir um voginn, en hann var nær drukknadr ok komst þó upp aptr; bidu þeir sídan fjöru til þridjudags, ok ódu þá yfir voginn þar sem grynnst var; ok er þeir komu at skipi Snorra, var þat mjök fast, en þeir máttvana, ok freistudu þó tvisvar at koma því upp, ok nádu því í þridja sinni; voru þá komin á þat göt þrjú, en þeir tóku pokaræfil, ok skáru í sundr ok tródu í götin, rèru sídan med árastúfunum til Ólafsfjardar, ok höfdu þá verit matlausir í 11 dægr, nema þat er þeir fengu af súrkáli ok fjöruþaunglum undir klettunum; voru þeir bædi frosnir ok kaldir ok sjóvotir, ok urdu þar eptir fluttir hverr til síns heimilis, dóu sumir, en adrir urdu aldrei jafngódir. Ólafr Snæbjarnarson prests at Ósi, Halldórssonar biskups,

vard einn alheill þeirra manna; en þessa sögu hefir Jón Jakobsson sýslumadr sett í annál sinn, eptir samanburdi vid þessa menn sjálfa; vissu þat ok margir, hversu lengi stód á hrakníngum þeirra.

## XXXVII. Kap. Adrar misfarir.

Á því hausti átti Vigfús sýslumadr í Þíngeyjar þíngi at dæma í máli nokkru at Hrafnagili í Eyjafirdi, þat var í milli Jóns Jakobssonar sýslumanns, at Espihóli, ok Önnu, konu Kristjáns Redzlews, undirkaupmanns á Akreyri; hún var svarkr mikill, ok ætladi at sækja málit, kom hún á þíngit, en mótpartr hennar kom ei sjálfr, ok sendi skjöl sín; Vigfús sýslumadr kom seinna en hún; en jafnskjótt er hann var kominn, kom sendimadrinn frá Espihóli ok lagdi fram skjölin; vísadi þá sýslumadr málendum frá rètti, ok svo þíngvottum, ok gekk af stad ofan til Eyjafjardarár, ok sídan út í hana, ok ód med landi fram meir en hálfa bæjarleid; en er menn fóru til at duga honum, kalladi Anna ok mælti: „látid hann vera, hann drepr nú lús á sèr"; er þess því getid, at þat þótti ókvennlegt. Fóru menn til á byttu, ok tóku hann, ok var hann sídan med Magnúsi presti bródur sínum, er þá hèlt Miklagard um hríd, ok sídan frá embætti, sakir þeirrar fásinnu er honum fylgdi þadan af, ok var þat mjök ættgengt í Bustarfells ætt; en Björn Thómasson var settr fyrir Þíngeyjar sýslu, hann var af bænda ætt gódri, vitr madr ok rádsettr. Fleiri urdu þá voveiflegir tilburdir; týndi sèr í Eyjafjardará konan frá Melgerdi í Eyjafirdi, og madr skar sik í Múlaþíngi.

## XXXVIII. Kap. Mannalát ok tilburdir.

Þau misseri gjördist Björn prestr, er hèlt Saurbæ á Hvalfjardarströnd, son Þorgríms sýslumanns í Hjardarholti, Sigurdarsonar, prófastr í Borgarfirdi sunnan Hvíta; hann var bródir Gudmundar prests á Lambastödum, ok átti Helgu Brynjólfsdóttur, sýslumanns í Hjálmholti, Sigurdarsonar, þeirra börn voru: Sigurdr, Ragnhildr, Þóra, Þorlákr ok Íngibjörg, en Páll prestr á Valþjófstad í nyrdra hluta Múla sýslu, son Magnúsar á Brennistödum, Jónssonar í Einarsnesi, Sigurdarsonar, hann átti Sigrídi dóttur Hjörleifs prófasts Þórdarsonar, ok börn, var eitt Guttormr prestr eystra. Þá öndudust margir hinir fremri menn: Jón Stephánsson, en verit hafdi prestr at Vallanesi, ok gedveikr lengi, Þorleifr prestr Bjarnason at Hofi í Álptafirdi, Eyríkr Brynjólfsson, sá er fyrr var prestr í Middal, ok þess hafdi mist, ok Kolbeinn prestr Þor-

steinsson, er þar var þá, hann var gáfadr madr ok latínuskáld, ok hafdi sett á latínu Hallgríms-sálma, undir sálma brögum, en Hjörleifr prófastr hafdi sett eptir latínubrögum; krenktr hafdi hann verit um hríd; hann var fadir Jóns Kolbeinssonar, kaupmanns í Stykkishólmi, ok systkina hans. Enn dó Ólafr prestr Brynjólfsson í Gördum á Akranesi, bródir Halldórs biskups, ok mun verit hafa fyrri en Jón Grímsson fèkk þann stad, átti hann afkvæmi í Borgarfirdi, ok Þorleifr prófastr Bjarnason í Reykholti, ádr Eyríkr prestr Vigfússon fèkk stadinn. Eyríkr prestr átti Sigrídi, dóttur Jóns biskups Teitssonar ok Margrètar Finnsdóttur; þeirra son var Vigfús. Enn öndudust Eyjólfr prestr Sturluson at Brjámslæk á Bardaströnd, ok Magnús prófastr á Söndum, son Mála-Snæbjarnar, Pálssonar; Sveinn prestr Jónsson í Arnarbæli, ok Helga, dóttir Halldórs prófasts á Hólum, Jónssonar, kona Magnúsar Gíslasonar sýslumanns í Húnavatns þíngi, ok presta konur margar; einnig Ísleifr Skálholts rádsmadr, í Haukadal, Halldórsson, Pálssonar, Marteinssonar sýslumanns, Rögnvaldssonar, ok Sæmundr, er fyrr bjó at Vídimýri, en þá at Æsustödum í Lángadal, ok mikill svakamadr hafdi verit, son Magnúsar Skaptasonar, gamall ok lerkadr, var hnýtt allt höfud hans af byltum, er hann hafdi fengit, þá hann reid af húsum fram ok hraunklettum, ok hvat sem fyrir var. Audunn, son Jóns prests Audunnarsonar á Bergstödum, fèkk þá Blöndudalshóla, en Björn, son Jóns Hóla-rádsmanns Árnasonar, Þorsteinssonar í Bólstadarhlíd, Bergstadi, ok bjó hann í Bólstadarhlíd. Árni prófastr Þórarinsson í Odda var bodadr utan til biskupsvígslu at Hólum. Þat haust gekk Stephán amtmadr Þórarinsson at eiga Ragnheidi Vigfúsdóttur Skevíngs, sýslumanns, var bod inni á Vídivöllum um tvo daga, ok fóru þau sídan at búa á Mödruvöllum, ok lèt hann reisa þar timbrkirkju mikla ok timbrstofu, er vera skyldi amtshús, á konúngs kostnad, ok drógst þeim brátt fè; voru hófsmenn bædi; var hún kona stillt ok hóglát, ok fastlynd mjök ok óör, en hann var örvari, ok þótti heldr bitrordr mörgum, en umsjámadr mikill um embætti sitt, ok opt þrautgódr; þau frú Ragnheidr áttu börn mjök mörg, ok dóu þau fyrst. Gjördist nú vetr áhlaupasamr þegar í öndverdu, ok svellóttr, andadist á honum snemma Einarr prestr Bjarnason Thorlacíus á Grenjadarstad, var hann haldinn lærdr madr, þó hans nyti skammt, ok átti bókhlödu mikla; hann var ok ljúfmenni, en ekki var hann frídr sýnum, einsýnn ok hafdi gleraugа; Gudrún Halldórsdóttir, kona hans, ól barn eptir nýár, ok and- 1784.
adist þat, ok hún litlu sídar, ok var skammr skilnadr þeirra þriggja.

## XXXIX. Kap. Fellivetr.

Þessi vetr var í versta lagi, ok þó ei væri hann um allt land hardari öllum vetrum ödrum, þá gjördist hann hinn mesti óaldarvetr, sakir þess er undan var farit. Voru þá jafnan útsynníngar, blotar ok jardbönn, ok frosta-íhlaup mikil, ok vída drápust hross ok hestar af slysum, en sumir átu hina, er daudir voru, torf ok trè, ok hvat sem fyrir var. Drápust þá alls í landi hèr átta þúsundir hins þridja tugar af hrossum. Saudfè át ull hvat af ödru, ok höfdu margir menn, helzt fyrir nordan land, mist hross öll ok saudpeníng at midjum vetri, en kýr tóku þadan af at stráhrynja, ok mest sakir óedlis þess, er í heyjum var; voru bein peníngs sem fraud eitt. Hálkur voru svo miklar fyrir sunnan, at vída rotadi eda beinbraut kvikfènad — hvergi fèll meira en í Húnavatns sýslu vestarlega. Hafísar komu fyrir midjan vetr ok drógust kríngum land allt, nema sydra, þó var þá eigi mjök hart í Múlasýslu. Var kalt vorit mjök, ok dó enn nautpeníngr ok saudfè af lidaveiki, brígslum ok ýmislegum innanmeinum, urdu þá margir gódir bændr saudlausir ok hestfáir, en sumir áttu enga kind eptir lifandi; dóu sumir í ófeiti nordanlands, en sumir gengu frá, en allt var etid þat er tönn festi á, horkjöt af hrossum, horn ok skóbætr, ok jafnvel hundar. Vard ekki sumstadar komit líkum til kirkju, sakir hestleysis, í Þíngeyjar þíngi; en fjórir bændr hèldust eptir vid bú í Þistilfirdi af 20; eyddust þá 315 býli, ok fèll helmíngr alls nautpeníngs í landi hèr, en þat voru 11 þúsundir; af hestum fèll meira, en þó mest af saudfè; var hneppusótt á mönnum, blódsótt ok heltusótt, ok dó mikill fjöldi manna af húngri ok megrd. Fèll ok flosnadi upp til samans úr nordrlandi á fjórdu þúsund. Aleyddust nær sveitir sumstadar, þvíat foreldrar dóu frá börnum, en þau fundust eptir í bæjum, komin at bana, en sumstadar dó allt er inni var, ok lá þar inni sem statt var, til þess er þat var fundit. Margir fèllu nidr af sulti bæja á milli, ok margir voru opt grafnir á dag, ok mart sett nidr í tötrum sínum. Lidu þá margir sult hinir heldri menn, svo at sá á sumum, en stuldr ok ránsháttr var hinn mesti, ok voru margir hýddir fyrir, ok dró þó suma naud til, er at öllu ödru voru kenndir ádr, en hinir hleyptu því heldr fram órádvendni sinni, sem meira knúdi þá, sem jafnan verdr; var þá ok fiskilítid ok sídan, er hann fèkkst, bönnudu ógæftir. Þá hljóp fram á skírdag Skeidarár jökull, med eldsbruna ok vatnaflódi. Drukknudu þau misseri 5 menn fyrir vestan, ok var drepinn madr í Múlasýslu, urdu mordíngjar uppvísir ok teknir. Var þá sídgróit, ok heyjadist því lítt sídan. Á fimtu þúsund dó þá alls í mannfallinu.

## XL. Kap. Ný tídindi ok mannalát mörg.

Þá týndist einn sexæríngr fyrir sunnan, ok bátr frá Engey. Var nú á annan dag páska vígdr í Kaupmannahöfn til biskups á Hólum Árni prófastr Þórarinsson frá Odda, er fyrr er getid, kom hann út ok fór til stóls síns; hann þótti laginn til framkvæmdar, skarpr madr, hardr í svari ok kalladr hreinskilinn, helzt til kappfullr; hann var brjóstveikr mjök af tæríngu. Þá voru hèrar fluttir út híngad til reynslu, ok lauk hèr æfi þeirra. Konúngsbrèf kom út, um útdeilíngu 300 dala hvert ár til fátækra presta ekkna, en annat um tukthúss-fundazíu; eitt um vigt ok mæli, ok var gefit út fyrri annat, því vidkomandi; eitt um lögþíngisrèttar hald; konúngr bèt ok verdlaunum fyrir aukníngu ædarvarps. Lauritz Thodal var þá leystr frá stiptamtmannsembætti, er því hafdi lengi þjónat, tók hann at eldast, ok hafdi verit kalladr sanngjarn ok spakr, en þótti sumum seinn til svars, ok heldr fastr á því er hann tók upp; hafdi hann verit hèr lengi, ok ordinn kunnugr lenzkunni, enda hneigdr mjök til búsýslu, var kyrr ok settr í tali ok framgaungu, ok hafdi enga styrjöld átt vid hèrlenda höfdíngja. Gísli, son Þórarins sýslumanns á Grund, var erlendis, ok fèkk þá Oddastad. Var í þann tíma Commission sett í Kaupmannahöfn um vidrèttíngu lands hèr eptir eldsbrunann, ok komu at hennar forlagi þau umskipti, er sídar gjördust: um skólaflutníng, kauphöndlun ok vestr-amtid, en þá kom í ord fyrst at flytja allt fólk úr landi hèr, ok setja nidr í Danmörku, og var nær stadrádit. Páll Jakobsson sleppti þá rektorsdæmi í Skálholti. Þá andadist Jón Eggertsson á Hvítárvöllum, sýslumadr í Borgarfirdi, en Gudmundr Ketilsson í Mýra sýslu var einnig settr fyrir þat er hann fèll frá. Þessir heldri menn öndudust adrir: Stephán prestr í Presthólum, er prófastr hafdi verit, Þorleifsson, Skaptasonar; Láritz Skevíng í Gardi, er haft hafdi hálft Múnkaþverár klaustr, Hannesson, Lárussonar; Jón prestr Egilsson í Laufási, Jón prestr frá Helgastödum nordan, Jónsson, Jónssonar, Hannessonar frá Snóksdal, hann var gamall, ok þá kominn at Grund í Eyjafirdi, þar hafdi hann fengit fall, ádr hann lagdist í seinasta sinn, en þar bjó þá Jón prestr Jónsson, Oddssonar, sá er fyrri hefir nefndr verit; Grímólfr prestr í Glaumbæ, Illhugason, hann var þá elztr allra presta fyrir nordan land, en þángat var fyrir laungu vígdr Eggert prestr Eyríksson, Eggertssonar frá Ökrum. Var Grímólfr prestr fadir Elínar, er Sveinn á Sjáfarborg, son Þorláks Markússonar, átti, en sídan Pètr Pètrsson frá Tjörn, ok þeirra systra. Sigurdr prestr Jónsson í Glæsibæ, hann var gamall mjök. Þorsteinn prestr Pètrsson at Stadarbakka, er prófastr

hafdi verit í Húnavatns þíngi, ok nytsemdamadr, ok hafdi 7 vetrum ádr látid frá sèr 6 fóstrbörn sín, nákomin sèr, ok flest vaxin, en hafdi tekit þau fyrr af sveit, gipt nokkur saman, ok eflt at miklu bú þeirra, samt ok ritgjördir ok stadit vel í prófastsdæmi. Magnús prestr at Höskuldstödum andadist enn, ok Egill prestr at Stærra-Árskógi, var Magnús prestr fadir Jóns prests at Borg sudr, Gunnlaugs prests at Hafsteinstödum, Hildar, er Benedikt átti Bogason at Stadarfelli, ok Þorláks prests, ok hafdi átt Ásgerdi Pálsdóttur, systur Gunnars prófasts ok Bjarna. Fèkk Jónas prófastr Benediktsson Höskuldstadi, en Stærra-Árskóg Þorsteinn Hallgrímsson prófasts, Eldjárnssonar. Enn deydi Einarr prestr á Skinnastödum, son Jóns prests, er kalladr var greipaglennir, Einarssonar prests gamla, Nicolássonar; þat lid hafdi allt trúat á forneskju, ok verit óhamíngjusamt; ok enn dóu: Gudmundr prestr Eyríksson at Refstad, Jón prestr Bergsson ýngri í Bjarnanesi, Þorsteinn prestr Stephánsson at Krossi, Gísli prestr at Desjarmýri, Gíslason lögrèttumanns, Eyríkssonar, Jónssonar, Ketilssonar, Ólafssonar prests, skálds, at Saudanesi; hann var gamall, ok fornmannlegr í ásýnd ok háttum, voru synir hans: Halldór prestr ok Árni í Höfn, hinn gildlegasti madr, en heldr ósidvarr, allvel gáfadr; hans synir voru þeir: Jón á Bakka ok Hjörleifr í Snotrunesi, ok þennan tíma frumvaxta, er sterkastir menn voru þá á austrlandi, ok þó vídar væri leitad. Enn dó Þorbergr prestr Einarsson at Eyri vid Skutilsfjörd, ok er ætt frá honum: Jón prestr Ólafsson at Túngu í Steingrímsfirdi, Páll í Gufunesi Sveinsson, klaustrhaldara, Torfasonar prófasts í Gaulverjabæ; Sigurdr Einarsson, bródir meistara Hálfdans, hann hafdi verit heyrari í Skálholti, en trublazt skyndilega, ok sídan vistum med Álfheidi systur sinni í Saurbæ í Eyjafirdi, konu Thómasar prests, en fadir Thómasar prests var Skúli prestr Illhugason, Jónssonar, Illhugasonar Hóla rádsmanns, voru börn þeirra Álfheidar: Einarr prestr ok Skúli prestr ok Ólafr prestr, ok þá allir úngir, ok Helga, er átti sídan Jón prestr Jónsson í Mödrufelli, ok Gudrún, er átti Gísli Jónsson klaustr-umbodsmadr. Enn andadist frú Málmfrídr Jónsdóttir, sýslumanns í Grenivík, er Sveinn lögmadr hafdi átta, ok konur þeirra sýslumanna: Davíds Skevíngs ok Lýds Gudmundssonar, ok ekkja Erlendar Ólafssonar; ok enn Gudrún Jónsdóttir vid Búdir, er átt hafdi Jakob Eyríksson, gömul mjök, ok hafdi haft stod af Jóni sýslumanni syni sínum um hríd; hún hafdi verit skörugleg kona, ok þar hafdi alizt upp med henni sonarsonr hennar Gísli, launsonr Jóns Jakobssonar, ok var frumvaxta þennan tíma, ok allvænlegr, fór hann utan en gjördist seinna prestr í Noregi.

## XLI. Kap. Gjafir ok annat, landskjálftar ok óár.

Á alþíngi var tekit fyrir líkamálit frá Reynistad, er Halldórr Vídalín hafdi stefnt til lögþíngs, en eigi komu þeir Jón Egilsson, Björn ok Sigurdr, ok var þeim lagdr lögdagr til annars sumars, sem þá var títt. Þar var lesin upp instruction Stepháns amtmanns Þórarinssonar, en engin voru þar stórmæli. Þau misseri braut franskt skip vid vestrland, ok vard þó borgit mönnum ok fè. Var þá illt ár, sem fyrr segir, ok engar eda litlar búsafleifar undan sumri hjá mönnum, en mjólk nær smjörlaus. Þarmed gjördi landskjálfta um heyskapartíd hina beztu, sem mestan mátti verda, í Holtasveit, í Rángárþíngi, Hreppum, Biskupstúngum ok Skeidum, ok nedarlega í Flóa, hinn 14da ok 16da dag Augusti, fèllu 69 bæir í grunn, en nær jafnmargir gjörspilltust; er mælt at tvær manneskjur hafi dáit, en skada fengu meir en 370 bæir, urdu menn at hrúga upp aptr húsum sakir rigninga, til kostnadar eins, en ei til frambúdar; hèldust þeir landskjálftar í hverri viku fram um jól; en fyrir jólaföstu tóku menn at horfalla í Þíngeyjar þíngi, ok hafdi þar sumstadar eigi verit borinn ljár í gras. Gengu á þessum hinum sömu misserum landskjálftarnir miklu í Calabríu á Nedri-Ítalíu, er þar hafa mestir komit ok týndu meir en 30000 manna, sem vel má verda þar sem borgir hrynja ok ei er hægt undankomu; mundi þat ok sýnzt hafa hèr í landi, ef eins hefdi á stadit um stadabyggíngar ok mannmergd, ok má virdast til sanninda þeirri ætlan, at ein eldæd sè undir, milli Íslands ok Nedri-Ítalíu ok Sikileyjar. Heyleysi var mikit ok vanþrif á peníngi, ok vard því minni vetrarbjörgin, þar med var allr kvikfènadr dreginn undir vetr, ok hafdi fengit allsháttada vanheilsu, fyrir því dó margt enn úr meinsemdum ok lidaveiki, ok hestar úr bolhnúsku; gaddr var í saudfè ok horadist þat af, ok svo kýr, þó nóga gjöf hefdi. Sídan var vetr frá nýári gódr at vedrátt, en sótt 1785.
gekk mannskæd, er orsakadist af hallærinu; var húngr ok sultr á mönnum med blódsótt ok hneppusótt, því vidrlífi var farit; sá þá bædi á prestum ok mörgum beztu bændum, en enginn mátti vera óhultr um sitt fyrir stuldum ok ránshætti; stódu þá 4 kýr á Lánganesi öllu, en hestar fullfeitir fèllu, ok hljópu af hömrum fram ok í brunna, peníngar fèllu ok at sínu leyti jafnmiklir sem hit fyrra árit, því at þá var ordit á færra at taka, en missirinn var nú þeim mun þýngri. Manndaudi var ok mjök mikill, ok fækkadi enn landsfólkit meir en um 5 þúsundir, ok aumlegt var þá allt; hafdi þó konúngr gefit 700 dali til Hólastóls fyrir 9 árum eda 10, er hèldust vid sídan, ok lánat landsmönnum matvöru mikla, ok sendi nú einnig 80 lestir timbrs til Eyrar-

bakka, til hjálpar þeim sem landskjálftann lidu; lèt ok flytja tvo skipfarma af fiski vestan at, ok til nordrlands, til þurftugra manna, ok kostadi þat meira en 1700 dala, med enn fleirum hægdum, er hann lèt gjöra landsmönnum; leyfdi ok enn at safna gjöfum um ríki sín. Gáfu þá ok margir ágætir menn Íslandi, svo at Kaupmannahafnarar lögdu til Skaptafells sýslu 9 þúsundir ok 700 dala. Um mörg ár sendi ok klerkdómrinn í Kristjánssands stipti í Noregi fátækum prestum hèr, ok Andreas Holt etazrád prestaekkjum ok námgjörnum skólasveinum fátækum. Lodvík biskup Harboe hafdi gefit fátækum prestum í senn 200 dali, en naudstöddum mönnum gaf út híngad 100 dali Frímúrara samkunda, sú er Zóróbabel nefnist. 100 dali sendi einn frá Holsetulandi, þeim er skada höfdu lidit af eldinum í Skaptafells sýslu; en Guldberg geheimerád ok stiptamtmadr, hinn merkilegasti madr fyrir allra hluta sakir ok ágætasti, gaf tveimr prestum í Skálholts biskupsdæmi, er mest þurftu vid. Úr öllum ríkjum Danakonúngs gafst Íslandi hálf önnur þúsund dala hins fimta tugar, ok voru 9 þúsundir brúkadar um næstu 13 ár, en annat stód á rentum, ok hafdi þat aldrei fyrri ordit, at Íslendíngar ætti svo mikit fè á skuldastödum erlendis, því at þeir áttu þartil ekkert.

## XLII. Kap. Mannalát ok annat, er til bar.

Vorit eptir fellirinn var mislægt, vott sydra ok grasgefit, en þurt fyrir nordan. Urdu skadar nokkrir, þvíat skip týndist í Rifi med 8 mönnum, ok þrír menn af báti á Vestfjördum; 10 menn rak undan á Akranesi á tveimr skipum, ok 5 drukknudu á Eyjafirdi, drukknadi ok á Skagafirdi Símon í Bæ á Höfdaströnd vid annan eda þridja mann, ok skólasveinn í Búdardal hrapadi til bana; faraldr var þá á hundum vída. Kammerherra Levetzow fèkk nú stiptamtmannsdæmi, en Thodal bjóst til burtufarar, kom Levetzow út, ok var hann úngr madr enn, ok þótti ei mjök lærdr eda reyndr, en skarpr ok gjarn til framkvæmdar, brauzt fyrir fleiru en sumir vildu hèr landsmenn; var hann ok kalladr madr brádlyndr. Jón Eyríksson conferencerád var þá settr í nefnd, þá er ráda skyldi úr vandkvædum háskólans ok annarra skóla, ok svo í nefndina um Íslands hagi, höndlunarfrelsi, biskupsstóla sölu ok annat, er áformat var, ok flutníng skóla til Reykjavíkr; fèllst hann lítt á þær breytíngar, en þá rèdu adrir meira ok gjördi hann þó mikinn formála til athugasemdar vid medferd á því öllu; ok gefit var þá út konúngsbod, at biskupsstólinn ok dómkirkjan, er alla æfi hafdi verit í Skálholti, skyldi flytjast í Reykjavík, ok var mælt mjök væri at undirlagi

Hannesar biskups, en hann hafi þó idrat þess seinna, þvíat þat vard mörgum embættamönnum, er óár ok ókjör geysadi mest, at ætludu óhultara mundu at þurfa ei at annast jardir, ok taka laun af konúngi, en Reykjavík átti þá at efla til höfutbæjar; átti nú því at selja Skálholts jardir, ok skyldi þat gjöra Magnús Stephensen; kom út ritgjörd hans um eldinn í Skaptafells sýslu, ok reikníngsbók Ólafs amtmanns Stephánssonar; skólinn skyldi ok flytjast til Reykjavíkr, ok var Skálholts stól svarat út um haustid, ok Magnús Ólafsson vicelögmadr, er rádamadr var, færdr í skuld fyrir kúgildabrest ok annat, um hálfa þridju þúsund dala; gengu þeir fedgar í borgun: doktor Finnr ok Hannes biskupar; keypti Hannes biskup sídan Skálholt, ok fengust jardir margar med gódu verdi, ok nutu þeir þess mest, er þá höfdu vald í höndum ok audugastir voru. Gísli prestr Þórarinsson kom út um sumarit til Odda, ok brutu þeir skip sitt; hyggjum vèr væri Eyrarbakka skip, er þá brotnadi. Fèkk þá Laufás, eptir Jón prest Egilsson, Stephán prestr Halldórsson frá Myrká, hann var fadir Jóns prests nyrdra, ok Sesselju á Mælifelli, en Myrká fèkk aptr Þórarinn prestr Jónsson, prests frá Vogum, Þórarinssonar prests, Jónssonar prests í Stærra-Árskógi, Gudmundssonar í Flatatúngu; hann var gladlátr madr ok skáld gott. Á alþíngi var þjófr einn úr Árnes þíngi dæmdr í þrælkun, ok annarr úr Kjósar sýslu; þar dæmdi Stephán amtmadr Þórarinsson í lögmannssæti í líkamálinu frá Reynistad; virtist honum sem eitt líkit at minnsta kosti hefdi á brottu verit, ok med því at Jón Egilsson, er helzt var haldinn fyrirlidi, var þá dáinn um vetrinn fyrir, í Sveinskoti á Reykjaströnd, eptir þat hann hafdi fengit þar stefnu á banasæng, þá sýndist honum enginn málsvegr at neita þeim Sigurdi syni hans ok Birni Illhugasyni um synjunareid, ok stadfesti dóm Vigfúsar sýslumanns; en aldrei unnu þeir Björn ok Sigurdr eidinn. Vigfús Þórarinsson sat lögrèttu í stad Bjarnar lögmanns Markússonar. Þar var Jón sýslumadr Helgason dæmdr í bætr til jústitz-fèhirzlu. Madr var í Húnavatns þíngi, er Ámundi hèt, hafdi flosnat upp ok flakkadi med barn sitt; hann bar barnit í poka á baki sèr til Glaumbæjar-kirkju einn sunnudag, ok var þat örent er þar kom, ok var ei skipt sèr af; fór sídan vestr aptr, ok tók annat barn sitt til at fara med, stúlku fárra ára, henni varpadi hann eitt sinn í Blöndu, þar sem sídan hèt Ámundahylr, tók hann sídan til þess, er upp kom, hve vel hún hefdi bedit sik um líf, ok dó hann í haldi at Magnúsar Gíslasonar. Þessi misseri var borinn Grímr, son Jóns prests Grímssonar í Gördum, er seinna vard mikill madr. Þá andadist meistari Hálfdán Einarsson, er verit hafdi bædi rektor ok officíalis á Hólum; hann hafdi verit hinn lærdasti madr

ok hinn vitrasti, en aldrei var hann vígdr; hann var gedprúdr madr ok gódlyndr, ok þó hann drykki skeikadi aldrei í því er hann skyldi um sjá, en þá var hann hólsamr, er hann var vid öl, ok ei af því mörgu, er honum var vel gefit, heldr því, er ekki var, en þat var afl, því hann var lágr madr ok orkulítill. Hann hafdi átta Kristínu, dóttur Gísla biskups Magnússonar, ok var hún heldr hneigd til drykkju; þeirra dóttir var Íngibjörg, er Magnús Þórarinsson átti sídar. — Annarr merkilegr madr andadist: Þorsteinn sýslumadr Magnússon at Móeidarhvoli; hafdi Jón sýslumadr Jónsson, dótturmadr hans, búit at Stórólfshvoli ádr, en nú tók hann vid sýslunni at öllu, ok allt fè eptir Þorstein, ok Móeidarhvol, ok fór hann þángat, þvíat Sigrídr var einberni Þorsteins, ok áttu þau börn saman, er á legg voru komin í þann tíma, hètu: Þorsteinn, Gudbrandr, Jón, Valgerdr, Margrèt, Ragnheidr, Helga; hafdi Þorsteinn Magnússon átt Valgerdi, dóttur Bjarna hins ríka á Skardi, Pètrssonar. Hinn þridi deydi Þorgrímr Sigurdarson í Hjardarholti, er verit hafdi sýslumadr á Mýrum. Fjórdi Arnórr Jónsson í Belgsholti, er sýslumadr hafdi verit sunnan Hvítá, hann var mjök vid aldr, því verit hafdi hann í þjónustu Páls Vídalíns. Fimti Einarr á Barkarstödum, Brynjólfsson frá Hjálmholti, er átti Jórunni Sigurdardóttur landskrifara; áttu þau eigi börn saman, en Jórunn flutti at Hlídarenda, hún var skörugleg kona ok fèrík. Þessir öndudust af prestum: Jón prestr at Kvíabekk, Jónsson, Sigurdarsonar, bródir Þorkels Fjeldsteds, var misskipt med þeim brædrum, þvíat Jón prestr var óríkr, ok mótgángsmadr í mörgu, ok þó vel at sèr, hafdi hann ok verit krenktr nokkur ár af líkþrá. Annarr deydi Þorvaldr prestr Jónsson í Hvammi í Laxárdal, hann hafdi átt eina dóttur Grímólfs prests hins gamla frá Glaumbæ. Þridi Grímr prestr Bessason á Hjaltastad, er kerski-kvædin orkti, eru frá honum bændr eystra; fjórdi Hálfdan prestr Gíslason í Eyvindarhólum, fimti Magnús prestr Einarsson í Fljótshlíd, medallagi vinsæll; sjötti Einarr prestr Jónsson í Landþíngum; sjöundi Jón prestr Bjarnason á Rafnseyri vestr; áttundi Rafnkell prestr Bjarnason at Stafafelli; níundi Eyríkr prestr sonr hans at Hofi í Álptafirdi. Torfi prestr Eggertsson í Flatey drukknadi, en Capellanar dóu: Benedikt á Breidabólstad nordr, ok Bjarni í Selárdal; einnig dó Nævel, kaupmadr vid Búdir. Þá andadist ok Steinunn Bjarnardóttir, kona Skúla landfógeta í Videy, Kristín Eggertsdóttir frá Álptanesi, hún fèkk gott ord, ok Símon Bech, Sigurdarson prests, Bjarnasonar prests, Ormssonar, hann bjó at Bakka í Yxnadal ok var handverkssveinn, ok fadir Sigurdar, er þar bjó sídan, ok Worms á Geitaskardi. Skip strandadi austr á Reydarfirdi, portugísiskt; þar voru á dýr vín, ok fèkk Andrès Kýhn

kaupmadr af mikinn ábata, svo at hann vard sídan stóraudugr mjök; gekk ærit misjafnlega, og margt var þá um med þeim Jóni sýslumanni Helgasyni. Einarr prestr Eyríksson hèlt þá Grímstúngur eptir födur sinn, ok kom sèr illa vid hvern mann, hann misti konu sinnar, ok fól penínga kistil í rúmi, ok vard sídan ákærdr um þat ok adra breytni, ok dæmdr frá prestskap. Þá gjördist Gísli Thorlacius, Þórdarson frá Teigi, Brynjólfssonar á Hlídarenda, Þórdarsonar bískups, bródir Skúla Jústizráds, skólameistari vid skólann sydra, er í Reykjavík skyldi vera, en Halldórr Hjálmarsson Conrector, bródir Erlendar at Múnkaþverá, stód fyrir skóla á Hólum, ok var spakr madr ok vel lærdr; kom þar út til Árna biskups stofa mikil, tilhöggvin. Var vetr þá hrídasamr til Jóla, en batnadi sídan.

## XLIII. Kap. Frá ýmsu.

Vorit var kalt, þvíat hafísar voru þá vid land, en þó allgott í ári, drukknudu þá 6 menn í Fljótum, 5 á Skaga, 3 á Gufuskálum. Bóla var í landi hèr, ok gekk fyrir sunnan, en eptir um sumarit var þurt, ok færdist hún þá nordr, andadist í henni mart úngt fólk efnilegt. Þar var fyrst frú Þórunn, Ólafsdóttir amtmanns, 22 ára, er átti Hannes biskup Finnsson, ok Ólafr son þeirra, var hann lagdr á brjóst módur sinni, ok fóru þau í eina gröf, ok Ólafr son Magnúsar Vicelögmanns Ólafssonar, ok stód biskupinn Doctor Finnr yfir grepti þeirra. Mörg dóu önnur börn hinna heldri manna: var eitt Brynjólfr, son Gudmundar Magnússonar prests á Þíngvelli, Sæmundarsonar prófasts, Magnússonar, ok Íngibjargar Brynjólfsdóttur frá Hjálmholti, var hann þá kominn at Odda, 11 vetra, med Jórunni frændkonu sinni, Sigurdardóttur; hún var þá nýgipt aptr Gísla presti Þórarinssyni í Odda, en Gudmundr var sídan prestr at Kálfatjörn, hèt Gudni annarr sonr hans. Einn var Þorsteinn, djákn á Mödruvöllum, Þorsteinsson frá Laxamýri, Benediktssonar lögmanns. Sett var sumum bóla, ok hafdi þat ei gjört verit fyrri, lifdu þeir flestir. Sydra gekk fiskr, ok fyrir sudaustan ok vestan í betra lagi, en mjök lítt nordanlands. Þá fèkk Thómas prestr Skúlason Grenjadarstad, en Magnús prestr í Miklagardi, Jónsson frá Eyrarlandi, Bjarnasonar, Saurbæ aptr, ok Hallgrímr Thorlacíus Miklagard, födurbródir Einars prests, er verit hafdi at Grenjadarstad, ok þó ýngri en hann, átti hann opt í málum. Egill Jónsson, skagfirzkr madr, fèkk Stadarbakka, Magnús Magnússon Hvamm í Laxárdal; Gísli prestr Einarsson, er í Skálholti hafdi verit, Selárdal, ok þótti kennimadr mikill; Jón prestr Sigurdarson Rafnseyri; Jón prestr Hjaltalín Oddsson Saurbæ

á Hvalfjardarströnd, hafdi hann haldit Hvamm í Nordrárdal næst ádr, en þann stad fèkk Jón prestr at vestan, Ásgeirsson prófasts, Jónssonar prófasts, Pálssonar. Konúngsbrèf voru mjök mörg gefin út; eitt var um refsíngu fyrir kvikfjárstuld ok innbrot; annat um þá landfógeta, Skúla ok Jón; hafdi Ólafr amtmadr vandat um reiknínga Skúla, er hann var látinn af utanförum, en Skúli hafdi teiknat á atfinnzluna, at ef Ólafr Stephánsson þegdi, þá mundi þegja Skúli Magnússon; var audgengara at, er Skúli tók mjök at eldast, en reikníngar Jóns fóru ei at skilum, var þó Jón madr vel þokkadr, ok áttu þau Ragnheidr þann son, er Jón Vidöe hèt, ok var frumvaxta í þennan tíma, ok fór utan, ok var bædi efnilegr ok gildlegr, ok líklegr til mikillar mennfngar. Baud nú konúngsbrèf, þat er kom út um Skúla ok Jón, at víkja þeim frá embætti. Hit þridja brèf var um verdlaun fyrir þá, er bjarga drukknudum mönnum eda frosnum til lífs; eitt um hrepps-protocolla; eitt um póstbrèf; eitt um þat, at amtmenn, Levetzow ok Stephán Þórarinsson, mætti sekta embættismenn um einn eda tvo dali, þegar þeir gæfi ei skýrslu er amtmenn heimti, ok enn fleiri. Voru sum útgefin, þau er eigi komu þá út: — um frjálsa kauphöndlun, er sídar skal getid verda, ok tíundarsvik, ok at ei skyldi fara af landi nema med amtmanns leidibrèfi; einnig um refsíngu drengja eigi confirmeradra fyrir fyrsta stuld, orsakadist þat af dreng einum í Skagafirdi; eitt var um kaupstada frelsit. Var nú þeim Skúla vikit frá landfógetadæmi, en settr fyrir þat danskr madr, Hans Jakob Lindahl, ok stód í því um bríd. Ólafr amtmadr hafdi mjök stodat fátæka menn, þá er nærri honum voru, í hardindunum, hafdi hann mannhylli mikla fyrir örleik sinn ok lítilæti, þó at minna færi gæfist, ok komu hans framferdir fyrir ok hjálparsemi utanlands, fyrir því gaf konúngr honum gullpeníng hinn mikla til vegs; en eigi seldist eins út hit sama öllum; hafdi Jón Arnórsson á Íngjaldshóli sýslumadr, ok þau Gudrún kona hans, dóttir Skúla, verit ærit hjálpsöm í þeim hardindum, en þar fór eigi jafn skipulega, ok söfnudust skuldir stórar, ok vard Skúla mikit mein at því, er hann vildi hjálpa reiknígum mágs síns. Konúngr gaf af sínum fèhirzlum þá peninga til gjafa-medala ok fátækra, er ádr guldust af kauphöndlun, en sýslumenn mistu þeirra peninga er þeir höfdu haft af höndlun ádr, ok fengu ei idgjöld, þó þeir sækti um, því amtmenn voru þeim ófylgisamir til þess, ok kölludu þat dirfd eina; en opt var ekki sèd í þó meira væri veitt, þegar svo bar undir. Þá var dæmdr frá prestskap Ólafr Gíslason í Hvítadal í merarmálinu. Lèt Pètr sýslumadr Þorsteinsson af sýslu í Múlaþíngi, en tók vid Gudmundr sonr hans, ok bjó hann í Krossavík. Sigurdr sýslumadr í Vestmannaeyjum,

er þeir kölludu Skugga, Sigurdarson, fèkk Borgarfjardar sýslu sunnan Hvítá, en Vestmannaeyjar Jón Eyríksson, bródir Jóns Conferenzráds; Páll Axelsson var dáinn í Hnappadals sýslu, ok var fyrir henni Pètr Pètrsson í Gördum; baud ok konúngr at Björn Thómasson væri fyrir Nordr-sýslu. Þat sumar kom hèr í hafnir vestra ok sydra Lövenörn General-Adjutant, ok Egede Lieutenant. Þá kom ok út náttúru-saga Nikolásar Mohrs, ok var hún glöggvari en fyrr hafdi verit gjör yfir Ísland.

## XLIV. Kap. Hvarf Odds prests.

Á alþíngi var þjófr einn úr Rángárvalla sýslu dæmdr til þrælkunar; þar kom ok fyrir áflogamál Kristjáns Redzlews vid dreng í Hofsós, ok var samþykktr dómr Vigfúsar Skevíngs sýslumanns; einum þjófi var dæmd þrælkun, frá Árness þíngi, annat var þar ekki mjök títt. En í Múla þíngi bar þat til, at drengr skar túngu úr ödrum, ok vard fyrir þat líflaus. Jón prófastr frá Flugumýrar þíngum, Jónsson, fèkk Grímstúngur eptir Einar, ok fèkk sídan prófastsdóm í Skagafirdi Þorkell prestr Ólafsson á Hólum. Þá tók Hjörleifr prófastr Þórdarson á Valþjófsstad sótt ok andadist, fadir Guttorms sýslumanns, ok þótti hafa verit merkilegr madr at öllu, ok þá nær nírædr, ok hafdi sjálfr gjört grafskript sína gudrækilega á latínu ok íslenzku skömmu ádr hann dó. — Gudmundr Pètrsson sýslumadr hafdi fyrr átt Þórunni, dóttur Páls prests Gudmundarsonar, ok voru þeirra börn: Páll ok Þórunn, Sigurdr, Sigrídr, Málmfrídr, en sídan átti hann Þórunni Guttormsdóttur, sonardóttur Hjörleifs prófasts ok systurdóttur sína, þeirra börn voru mörg. Enn andadist Þórdr prestr at Hálsi í Hamarsfirdi, Jónsson frá Núpi, Magnússonar í Brædratúngu; Brynjólfr prestr Gudmundarson at Kálfafelli í Hornafirdi; Sigurdr prestr Jónsson at Reyni, ok Vigfús prestr Jónsson at Miklaholti, bródir Eyjólfs Jónsoníus. Jón Högnason gjördist prófastr í sydri Múla sýslu, en Eyríkr prestr Vigfússon at Reykholti í Borgarfirdi sunnan Hvítá. Þeir nafnar dóu þá utanlands, allefnilegir menn: Lauritz Sneefjeld, son Jóns prófasts Magnússonar at Stadarstad ok Þórunnar Hansdóttur Skevíngs, ok Lauritz Vigfússon Skevíng frá Vídivöllum; voru systkin Laurusar Sneefjelds Hallgrímr prestr, er átti Oddnýju dóttur Skúla landfógeta, ok Helga, er Stephán Skevíng átti, en systkin Laurusar Skevíngs eru nefnd ádr: Gudrún, Ragnheidr, Stephán ok Jónas, var Ragnheidr þá ein gipt Stepháni amtmanni Þórarinssyni, ok urdu börn þeirra mjök mörg; Vigfús ok Þórarinn voru elztir sona þeirra, er lifdu, en Anna Sigrídr ok Ragnheidr dætra. Þorkell Fjeldsted, Ís-

lendíngr, gjördist þá stiptamtmadr í Þrándheimi. Lítill var heyskapr þegar á leid sumarit, sakir ógæfta, því haust var hrydjusamt, ok týndist þá enn Eyrarbakka-skip. Á því hausti vard þat til tídinda, hinn 1ta dag Októbris mánadar, at Oddr prestr at Miklabæ í Skagafirdi, son Gísla biskups Magnússonar ok húsfrúr Íngibjargar Sigurdardóttur, reid fram til Silfrastada á annexíu-kirkju sína, hafdi hann þótt jafnan madr nokkut sèrlegr í háttum, ok hlaupit eittsinn frá ödrum mönnum til fjalls; hann reid um á Vídivöllum, er hann kom aptr um kvöldit, ok drakk þar kaffe, baud Vigfús sýslumadr Skevíng honum fylgd heim, þvíat blákumyrkr gjördi mikit um kvöldit, en hann vildi ekki, þvíat hann var algádr, en örskammt at Miklabæ ok slètt gatan, en um morguninn eptir var hestrinn í mýri, fyrir nedan völlinn, med reidtygjum, en prestr var horfinn ok leitudu hans 40 menn í átta daga, en hann vard aldrei fundinn, ok ekkert af honum, ok voru þarum margar getur, þvíat margt var til dregit, ok engar líklegar, en þat þótti einna líkast, at hann hefdi farit í Gegnir, stokk einn í Jökulsá, er köllud er Hèradsvötn, þó at eigi fyndist hann; hann hafdi átt Gudrúnu Jónsdóttur, prests frá Goddölum, Sveinssonar prests, Pálssonar, Sveinssonar prests á Bardi, systur Þorsteins í Gilhaga, ok voru þeirra börn Gísli prestr ok Íngi-
1787. björg, kona Jóns prests Jónssonar á Audkúlu. Þar eptir gjördi vetr hinn bezta allt fram um páskir.

## XLV. Kap. Pètr fèkk Miklabæ.

Pètr, son Pètrs prests at Tjörn á Vatnsnesi, ok Gudrúnar Jónsdóttur, Jónssonar smids úr Svarfadardal, af Mela ætt, sem fyrr hefir getid verit, bjó at Sjáfarborg, ok átti Elínu Grímólfsdóttur prests hins gamla í Glaumbæ, eptir Svein, son Þorláks Markússonar, ok hafdi fengit fè med henni; er mælt, at Vigfús sýslumadr Skevíng hafdi lagt þat til hann fengi hennar. Pètr var skólagenginn ok bjó svo lengi óvígdr vid allgód efni. Var módir Pètrs prests at Tjörn Halldóra Árnadóttir, Halldórssonar í Arnarholti, er bródir var Vigfúsar hins gamla Hellna prests, Helgasonar. Þau Pètr ok Elín áttu ei börn, var hún ok nokkut komin til aldrs, er hún giptist honum, en bædi voru þau fyrirhyggjusöm ok Pètr eljunarmadr mikill, ok gildr at öllu. Þá bjó í Áshildarholti hjá Sjáfarborg Brynjólfr smidr, son Halldórs biskups, ok Íngibjörg Eggertsdóttir prests, Sæmundarsonar; Brynjólfr var hagordr ok allvel at sèr, en drykkjugarn ok spiladist lítt; voru þau Íngibjörg fátæk; Þóra ok Halldórr hètu börn þeirra, ok voru þá nær frumvaxta; bar svo stundum til at þau komu til Borgar, ok kvad Pètr þetta eitt sinn, er hann sá Þóru:

Auds ei neina ásýnd ber
andlits-hreina snótin;
þessi eina mun þó mèr
mædu reynast bótin.

Pètr hafdi á þridja ár yfir þrítugt í þennan tíma, ok vígdist hann þá ok fèkk Miklabæ eptir Odd prest, ok var merkismadr mikill ok veitíngasamr, lærdr sæmilega ok skáld gott, sem fadir hans.

## XLVI. Kap. Höndlunar ok embættamanna skipti.

Vorit eptir hvarf Odds prests á Miklabæ var hart ok ógæftasamt, ok mistust peníngar nokkrir fyrir nordaustan land; ógæftir voru til sjóar sydra, en þó var þar fiskafli gódr; týndust 4 skip, eitt úr Lóni med 6 mönnum, annat úr Stadarsveit, þridja af Rosmhvalanesi, fjórda bátr úr Njardvíkum. Kaupskip týndist úr Kúvíkum, ok menn allir á. Miklir voru þá hvalrekar, ok hin mesta laxveidi. — Konúngr lèt enn færa höndlun fyrir sinn reikníng hèr, því fæstir kaupmenn gátu byrjat med eindæmi sitt, höfdu þó margir þeirra audgazt medan þeir seldu fyrir hann, ok keyptu sídan hús ok annat, er til höndlunar þurftu, af konúngi, ok þó mjök í skuld fyrst; var þá um sinn gefinn út stundartaxti, er kalladr var tarif, ok skyldi standa þat árit; þótti mönnum æ þýngri vörukaupin, en þess var þá vænt, at batna mundi, med þeirri höndlan, er frjáls væri öllum ríkjum Dana konúngs; kom þá konúngsbrèf til amtmanna, at gefa mætti uppreisn á gömlum dómum í sakamálum ok júztizmálum, ok um varnarþíng sakamanna; annat um vareygdir vid bólu ok mislíngum, ok tók þadan af at leidast inn at setja í menn bóluna; komu ok þau, er gefin voru út hit fyrra árit, ok svo ýmislegt smálegt: um gjöld til tukthúss, prestakalla veitíngar, laun fyrir ýmsa hluti, ok ýmislegir úrskurdir. Menn höfdu verit hvattir til skídagaungu, ok voru Nicolási Buch ákvedin laun fyrir kennslu á því ok enn fleiru; hann var danskr madr ok kvæntr hèr, ok vid brennisteinsverkit, er þá var nyrdra, ok vel á sik kominn. Árni biskup Þórarinsson á Hólum hafdi útvegat uppreisn Jóni skáldi Þorlákssyni, ok vard hann eptir þat prestr at Bægisá, en jafnan snaudr; hann hafdi ok látid reisa timbrstofu mikla á Hólum, en hin forna stofa var þá enn köllud Audunnarstofa, sem fyrri. Árni biskup andadist á annan dag páska, ok voru þá þrjár biskupsekkjur nordanlands: frú Íngibjörg Sigurdardóttir, ekkja Gísla biskups á Hólum, frú Margrèt Finnsdóttir í Ási, ekkja Jóns biskups Teitssonar, ok frú Steinunn Arnórsdóttir; hún flutti sik at Flugumýri ok bjó þar. Var Þorkell prófastr Ólafsson á Hólum settr fyrir

stiptit. Árni Gíslason gjördist prófastr í Austr-Skaptafells sýslu. Þá var Hnappadals sýsla lögd vid Mýra sýslu, ok hèlt Gudmundr Ketilsson hana sídan ásamt. Ólafi Stephánssyni var nú aptr fengit amtmannsdæmi, med þeim hætti, at aukit var hinu þridju amtinu, ok skyldi þat vera vestrlandit, en Levetzow hafdi sudramtid ásamt stiptamti. Ólafr amtmadr hafdi búit at Leirá, ok í Svidholti, en nú bjó hann á Innrahólmi; hann var umsýslumadr mikill ok stóraudugr, en stodir jókust enn, er börn hans óxu upp ok efldust, ok tengdir ok mægdir voru vid marga hina heldri menn, ok var hann þeim öllum heldr í sinni; en þó at svo hafi mátt vera, at honum hafi farit í því líkt Oddi biskupi Einarssyni at nokkru, þá var þó miklu meira ord af því gjört af sumum, þeim er þat var öfundsamt; vinsæld hafdi hann mikla á alþýdu, ok var kalladr hinn mesti höfdíngi, gaf hann ok opt stórum. Lítt fèll á med þeim Levetzow stiptamtmanni, þvíat hann var brádlyndr, ok ókunnr hèr lenzku, bar ok margt til. Levetzow var lítill madr vexti, frídr sýnum, ok lèttlátr í umgengni medan honum mislíkadi ekki, berr ok óslægr. Bar honum ok til vid Hannes biskup, þá hann sat at Innrahólmi med Ólafi amtmanni, eptir landskjálftann, hafdi hann veitt Gudmundi Magnússyni Kálfatjörn, en Gudmundr þótti ei mjök til hæfr fyrir lærdóms sökum, ok ritadi biskup utan um þat, ok var þá kvedit á hversu haga skyldi braudaveitíngum, ok hvat biskup skyldi at gjöra. Annat umtal var um sendimann stiptamtmanns, er hann sendi til Videyjar, en Gudmundr prestr á Lambastödum setti í helgidagsbrot, því hann fór um messu á sunnudegi, þar af vard Levetzow reidr, ok vildi afsetja prest, en hann sendi til Hannesar biskups, ok spurdi hvort hann skyldi láta af embætti; biskup bad hann vera vid, ok ritudu þeir bádir utan um þat; fèkk þá kammerherrann vítr miklar, en þó vann hann þat á, at helgidagsbrot skyldu koma til stiptamtmanns atkvæda ádr út væri tekin. Hin þridja misklíd var af undirskript á nöfnum þeirra í Synodo, vildi biskup rita nafn sitt útundan nafni hans, því hann þóttist hafa forsæti med honum, sem at fornu hafdi verit, en Levetzow bad hann rita þat nedar, kvad hann vera meddómsmann at eins. Þat fór ok utan, ok var ályktad at biskup hefdi rètt at mæla, stiptamtmadr mætti at eins rita nafn sitt á undan. Stephán Þórarinsson á Mödruvöllum hèlt sem ádr nordr- ok austr-amti ok lögdæminu. Þá var á alþíngi madr úr Árnes sýslu, er Óttarr hèt, dæmdr at útleggíngu þeirra laga er þá voru ok enn verdr getid, fyrir stuld á lambi, ok hrút vetrgömlum, til kagstrýkíngar ok æfiþrælkunar; önnur komu þar ekki stórmæli. Þeir öndudust þá: Jón prófastr, er verit hafdi at Hólmum í Reydarfirdi, ok nú prestr uppgefinn, Þorláksson, Sigurdar-

sonar, Jónssonar, Teitssonar, Bjarnarsonar, Jónssonar biskups, Arasonar; hann var afargamall, ok hafdi ordit prestr þrem vetrum eptir andlát Jóns biskups Vídalíns; annarr Markús prestr í Flatey, son Mála-Snæbjarnar Pálssonar; þridi Eggert prestr Hákonarson, bródurson hans, er þar var einnig, ok þar kom eptir hann, ok enn Didrik Hölter kaupmadr í Höfda, hann dó snögglega, hann hafdi verit stórlyndr ok brádlyndr, en mannlyndismadr mikill. Jón Eyríksson Conferenzrád hafdi verit settr hit fyrra ár í Commission til at athuga kosti bændastandsins í Danmörku, fèkk ok enn fleiri nafnbætr, ok allar óbedit; var hann sèrplægnislaus í tillögum, en kappsamr nokkut vid adra uppgángsmenn, ýngri ok framgjarnari, í því at verja kosti Íslands, ok tók sèr þat nærri, ef illa færi um þat; en þó mörgum þætti mikils um hann vert, þá ætludu sumir fèlagar hans, at hann væri ofkeppinn fyrir Ísland, enda kunni hann lítt at hræsna, en bædi heilsulítill ok óskaphardr, ok hafdi gengit helzt til nærri sèr; var hann þá laungum mjök sjúkr, ok stundum med órádi, ok fèll honum þúngt at fríhöndlun yrdi á Íslandi takmarkalaus fyrir kaupmenn; urdu þá margir í móti honum, ok er helzt tilnefndr sá madr er Eggers hèt, úngr ok fljótskarpr ok breytíngagjarn; var hann þá mjök gedveikr af öllu saman, en þat var ætterni hans; ok nú, er hèr var komit, gekk hann eittsinn af Rentukammeri med þúngri hyggju; hann keyrdi yfir Laungubrú, ok lèt vagninn standa vid nær vestra landinu, ok fèll þá af brúnni ok nádist ódaudr, en dölud var höfudskelin, ok bad hann gud launa med handsali þeim er björgudu honum; hugdu menn hann þó viljandi hafa steypt sèr; sídan dó hann hinn 29da dag Martii, á 59da ári; spurdist um sumarit híngat fráfall hans, ok var íslandi mikill söknudr at honum; Skúli mælti, er hann spurdi lát hans, þá stund leid: "þar tókst þeim at fara med hann, ok er nú úti um ísland", ok er svo sagt, at hann yrdi ei samr sídan; hann hafdi ordit var vid hann í barnæsku hans í Skaptafells sýslu, en kynnzt honum í förum sínum. Jón Eyríksson hafdi ok verit vinr mikill Ólafs Ólafssonar lektors, ok biskupa ok doktora þeirra fedga Finns ok Hannesar, ok haft hylli margra stórmenna í Danmörku; ok svo hefir sagt verit, at varla hafi betri madr eda gætnari íslenzkr komizt til stórvalda, edr unnt meira landi sínu, hafdi hann ok margt skrásett í ritgjördum. Þá var lagdr grundvöllr dómkirkjunnar í Reykjavík, ok skyldi flytja þar allt til frá Skálholts kirkju. Margir menn fengu þá verdlaun í landi hèr, fyrir gardahledslur ok annat. Þá rak upp á Engjanesi í Stranda sýslu skip þat er *Fortuna* hèt, eda Lukka, ok Halldórr Jakobsson komst í mál af sídan, en þá hann fór at heiman til atgjörda vid þat skip, bad Ástrídr hann

gæta sín, ok var hún ei opt vön því, kvadst ætla honum mundi sú för til mikils ótíma. Þá var sumar graslítid ok ill nýtíng, en hrídasamt til jóla, ok rak þá inn hafísa.

## XLVII. Kap. Hèr byrjast fríhöndlun, ok frá tjónum.

1788. Vetr var kafaldasamr eptir nýárit, ok hart vor til uppstigníngardags, ok taksótt mikil nordanlands; var þá svo hart nordaustr á landinu, at lá vid at eydast mundi mikit af Vopnafirdi, ok flosnudu þar upp margir; en prestr á Svalbarda í Þistilfirdi lifdi hálfan mánud á skelfiski einum; hvert sá var edr ei prestr, er þar flosnadi upp, megum vèr ei vita; en einn madr, er átt hafdi 17 hesta, hèlt einum eptir. Þá var hit mesta fiski-ár á Sudrnesjum, ok gott vída, þó var stormasamt ok ógæftasamt, ok nýttist illa fiskr; mikil urdu þá manntjón, týndist teinæríngr med 11 mönnum dönskum fyrir Hafnarfirdi, ok 5 bátar, en tveir á Akranesi, ok 3 fyrir vestan; áttæríngr týndist ok í Rifi, ok voru á 9 menn karskir; bátr fórst vid Hrísey med fjórum mönnum af Látraströnd; 5 menn drukknudu undir Jökli, ok bóndi hengdi sik í Svarfadardal; vard ok manntjón á skipi dönsku fyrir Smidjubergi, ok fleiri misferli; er svo sagt, at fleiri en 50 menn hafi farizt í sjó, en at um þessi ár þrjú hin næstu hafi fækkat í Skálholts biskupsdæmi um 8 þúsundir, ok nær 9 hundrudum manna, en bólan hafi tekit þar 10 hundrud 33, en alls dóu 1500 bólu-árit. 15 manneskjur urdu brádkvaddar í Ísafjardar sýslu, 4 í Patriksfirdi, 4 á Bardaströnd, einn í Steingrímsfirdi. — Eyjólfr prestr Teitsson at Hofi í Álptafirdi misti skyndilega ráddeildar, máls ok burda, er hann hafdi gengit út til kirkju at sækja brýni, ok lifdi vid þat lengi sídan. Þá komu fríhöndlunar kaupmenn, ok skyldu vera höfud-kaupstadir: Reykjavík ok Akreyri, Grundarfjördr ok Ísafjördr, Reydarfjördr ok Vestmannaeyjar; var sú höndlan snemma mest frjáls kaupmönnum, en þó höfdu þeir nokkra tálmun at færa fram vöru sína mjök, medan landsmenn höfdu þat at bjóda er þá girnti helzt; var hún leyfd öllum reidurum í ríki Dana konúngs, ok máttu þeir sem vildu sigla uppá útfjördu ok andnes; en þat fengu kaupmenn takmarkat, ok spillt því seinna. Íslendíngum var ok leyft at halda skipum sjálfum til landa Dana konúngs, en því gátu þeir eigi sætt. Þótti mörgum nú þegar þessi höndlun hörd, en vard þó meira seinna; ok rèttist þó betr úr mörgu en á horfdist, þvíat ýmsir vidburdir lifnudu hjá mönnum; jókust þó jafnframt þarfir til meira munadarlífis, en fyrr hafdi verit, ok gjördust allir hlutir þadan af dýrari miklu í landi hèr en ádr voru; höfdu fiskibændr audugir

þar hagnad vid medan fiskiár hèldust, ok svo saudabændr, en þeir söfnudu skuldum er fátækari voru; ok svo tóku embættamenn, þeir er konúngr launadi ekki sjálfr eda jók laun þeirra, þeim mun minna inn en ádr, sem peníngar fèllu meira úr verdi, þó þar yrdi ei skjót umskipti á at sinni, ok var þat mjök lengi, at engum kom til hugar, at jafnmikit yrdi at fást fyrir peninga sem fyrri, ef þeir skyldi vera jafngildir.

## XLVIII. Kap. Umskipti önnur.

Þá kom út konúngsbrèf um hjónabandsmál, at þau skyldi dæma sýslumadr ok prófastr med tveimr prestum; annat, at stiptamtmadr samþykki dóma um helgidags brot, ok kom af því tilefni er fyrr gátum vèr; þridja um ekkjumanns rètt til borgunar af dánarbúum fyrir innsetta penínga í ekkjufèhirzluna fyrir konu hans; einnig um sakamanna flutníng til tukthúss, ok enn fleira; en kauphöndluninni gaf konúngr hálfa áttundu þúsund dala hins sjötta tugar, fyrir tekinn skada á vöruútsendíngum híngat, ok samþykkti at þá væri aukinn híngat kornvöru flutníngr um tvær at sex þúsundum tunna, en þat kostadi hann meir en 18 þúsundir dala; lánadi hann ok ærit fè kaupmönnum, til at hefja med höndlun þeirra. — Magnúsi Stephensen var gefit brèf fyrir vicelögmanns dæmi nordan ok vestan hinn 23ja dag Maji, ok kom hann út; en Stephán bródir hans, er utan hafdi verit med honum, vard eptir, ok hèlt Ólafr amtmadr þá sonu sína vid háskólann med meiri rausn, en adrir íslenzkir menn í þann tíma; hafdi Björn ok utan farit, hinn ýngsti son hans, en tekit ekki examen, því hann var lítt gefinn vid námi, ok undi þar ekki; ok sýktist af því; var þeim brædrum ólíkt farit í mörgum háttum. Þá andadist Hans Wíum sýslumadr, nær áttrædr, ok Jón Jónsson at Móeidarhvóli, sýslumadr í Rángár þíngi, lèt hann eptir fè mikit, ok er sagt virt hafi verit til 12 þúsunda dala; var Þorleifr Nikolásson landþíngsskrifari settr fyrir sýsluna; en af Bardastrandar sýslu lèt Bjarni Einarsson, ok fèkk hana Oddr Vídalín, launsonr Halldórs Vídalíns á Reynistad, sá er honum var kenndr á brúdkaupsdegi, þá hann fèkk Ragnheidar; en Davíd Skevíng skyldi þó enn hafa 60 dali af sýslunni, ok hafdi Oddr lítid vid at stydjast; hann var latínumadr mikill, ok vel at sèr í fleirum vísindum, en undarlegr í skapi. — Páli Hjálmarssyni, bródur Halldórs, var veitt skólameistaradæmi at Hólum, hann var attesteradr ok hafdi túngumála examen hit meira, ok vard hann í Kaupmannahöfn þau misseri; þeir höfdu tekit hin sömu examina: Einarr Gudmundarson frá Vestmannaeyjum, ok Geirr Vídalín Jónsson, prófasts frá Laufási, ok systurson Skúla. Þau misseri andadist

Páll prófastr at Valþjófstad, Magnússon frá Brennistödum, Jónssonar frá Einarsnesi, Sigurdarsonar, hann hafdi átt eina dóttur Hjörleifs prófasts Þórdarsonar, ok var þeirra son Guttormr. Þessir öndudust enn: Eyríkr prestr Einarsson á Kolfreyjustad, Gísli prestr Magnússon at Arnarbæli; Eggert prestr Ormsson, er fyrr hèlt Selárdal, son Orms Dadasonar; Elín, dóttir Benedikts lögmanns, er átti fyrr Björn prófastr Magnússon á Grenjadarstad; Sigrídr Jónsdóttir, er Jón Benediktsson hafdi átta, í Rauduskridu, ok Karítas dóttir Sveins lögmanns, kona Erlendar Hjálmarssonar, af barnsför; fèkk hann sídan Kristrúnar Þorsteinsdóttur prófasts, Ketilssonar, er Simon Bech hafdi átta fyrri, ok gekk af honum fè. Freywaldt hèt kaupmadr á Skagaströnd, vinsæll madr, hann var á för, ok drukknadi í Kolbeinsdalsá; en Árni prestr, er þá var at Bægisá, ádr Jón Þorláksson hafdi fengit þann stad, systurson Jóns Arnbjarnarsonar at Giljá, týndist á Eyjafjardar legu med þeim hætti, at hann fèll út af báti vid duggu á höfninni, ok nádist ekki lifandi. Fór Jón prestr Þorláksson þángat eptir hann, einhleypr, ok vard konan vestra. Sú kona var á Hofstödum í Skagafirdi, er Íngibjörg hèt, hún fargadi barni sínu, ok gróf í mykjuhaug, ok verdr þess enn getid.

## XLIX. Kap. Þíng ok annat.

Þann tíma var Jón Arnórsson, sýslumadr í Snæfells sýslu, kominn í skuldir miklar, hafdi lítt spart á haldit, en umbodit vandasamt ok illt at heimta skuldir í svo miklu hardæri sem verit hafdi, enda hafdi fædt margan mann er þá vard bjarglaus; ok med því, at Ólafi amtmanni þótti þær skuldir ærit miklar, ok sem ei mætti hann hlutlaust láta konúngsins vegna, þá tók hann þat til yfirsýnar, en þá hafdi Skúli landfógeti ádr gjört nokkut vid reiknínga hans, ok því var gengit at hans reikníngum, ok þeim fedgum vikit frá af Levetzow, sem fyrr segir, ok Lindahl skipadr fyrir landfógetadæmit, hann var umbodsmadr stiptamtmanns ok þótti lítid um bæta, en ádr hafdi hann verit embættismadr í Noregi. Var nú ok Jóni Árnasyni vikit frá Stapa sýslu ok umbodi, ok vard hann vetr í Bjarnarhöfn med Hallgrími Bachmann sídan, er átti Halldóru Skúladóttur, systur konu hans, en þareptir bjó hann at Ellida, ok var Pètr Pètrsson í Gördum settr fyrir umbodit og sýsluna. Á þíngi var þá lýst verdlaunum fyrir gardahledslu ok annat, 260 dölum, ok þó var þat minna en hit fyrra árit; þar var ok lýst reglugjörd um brúna á Jökulsá, var hún þá algjör sem þurfti ok hafdi verit goldinn til brúartollr um Nordrland. Þá þóttist Stephán amtmadr

þórarinsson ei vid látinn at þjóna lögmannsverkum á þíngi, ok fől þat Magnúsi vicelögmanni, Stephensen, hann dæmdi Bjarna sýslumanni Einarssyni fèsektir fyrir óskjallegan dóm í áflogamáli milli Pèturs Hernings assistents, ok þorgríms Gudmundssonar á Hladseyri. þá kom fyrir medferd Halldórs Jakobssonar sýslumanns á duggunni, er rak vid Engjanes, hafdi hann látid allt fèd selja óuppskrifat ok óvirt, en eigi verdr jafnan vel birt hvat eina, er svo ber vid; var ok mælt hann hefdi tekid sumt óskodat, ok borit fram sídan þíngsvætti um virdínguna, þeirra manna er eigi vildu vid kannast er til efna kom; var þetta borit fyrir kammerit, en þat baud Ólafi amtmanni at víkja honum frá embætti ok taka upp mál, enda sýndi Halldórr amtmanni, er honum þótti hafa kært sik, óvild í móti, í því, at hann lèt prenta í Kaupmannahöfn blöd nokkur, ok taldi þar í alla eda flesta hina fremri menn á Íslandi í tengd vid amtmann, en þat var seinna; baud Ólafr amtmadr Magnúsi sýslumanni Ketilssyni at prófa málit ok dæma. þá var sumar í medallagi, en heyskapr ok nýtíng bágleg. Á því hausti fèkk Magnús Stephensen Gudrúnar, dóttur Vigfúsar Skevíngs, ok var bod inni at Vídivöllum um tvo daga; var þar margt virdíngamanna úr Eyjafirdi ok Skagafirdi, en Ólafr amtmadr fadir hans at sunnan, ok Björn bródir hans. Var þá gódr öndverdr vetr, en spilltist mjök vedrátt undir nýárit, ok var þat eigi undarlegt, því at hafís var kominn inn á fjördu í Stranda sýslu fyrir jól, einnig fyrir Adalvík ok Ísafjardar djúp, ok þarmed fyrir Raudasand, ok er þat fátítt. Gekk þá kvefsótt sumstadar fyrir nordan.

## L. Kap. Biskup kom til Hóla. Skipti í Videy.

Sigurdr prófastr Stephánsson at Helgafelli hafdi farit utan um haustid, ok var honum veitt biskupsdæmi at Hólum hinn 24da dag Martii mánadar, en vígdr af doctor Balle biskupi hinn 10da Maji, kom hann 1789.
sídan til Hóla. þá var vetr hardr eptir nýár, en betri fyrir sunnan, ok dó Ólafr smidr at Lundum í Borgarfirdi, vard ok úti í kafaldshríd á Breidadalsheidi Jens Lassen, kaupmadr í Flatey, en fylgdarmadr hans nádi bygdum; hrapadi ok madr úr Látrabjargi, annarr úr Hænuvíkr bjargi, ok fengu bádir bana; drukknadi ok í Geirlandsá á Sídu Sigurdr, kapellan til Kirkjubæjar, son Jóns biskups Teitssonar, ok hafdi fengit brèf fyrir Lundi í Borgarfirdi, því Snæbjörn prestr þorvardsson var daudr, er þar hafdi verit. Hinn 10da dag Martii mánadar andadist Jón Skúlason landfógeti í Videy, en Skúli sendi Jón Vidöe, son hans, ok tvo menn adra: fánga einn er hann hèlt, ok húskarl sinn, á báti

til Reykjavíkr, at sækja nokkut til útfarar hans, þeir komu í Reykjavík, ok drukku bádir húskarlinn ok fánginn, ok fóru rángsáttir til baka, en í þeirri ferd týndust þeir á sundinu: Jón Vidöe ok þeir allir saman. Skúli átti þá mjök andstædt, hann sjálfr ok mágr hans í vandrædum, ok þeim vikit frá embætti bádum, ok vandi búinn fyrir fángann, er hann skyldi hafa gætt, sonr hans dáinn ok hann sjálfr til lítils færr fyrir elli sakir, ok missti nú sonarson sinn svo mannvænlegan; ok þó þat bæri þá allt at í senn, vard hann allhraustlega vid, er mannskadinn spurdist; „goldit hefi ek nú landskuldina af Videy", sagdi hann. Ragnheidr Þórarinsdóttir barst ok prúdlega af, því hún var vitr kona ok vel stillt. Þar var þá enn med Skúla Gudrún, dóttir hans, er Jón Snorrason hafdi átta. Fèkk nú Stephán Skevíng Vigfússon frá Vídivöllum umbodit vestra, ok var þat skilit frá sýslunni, ok hafdr reikníngr á. Voru þá svo miklir kuldar ok hardvidri í Majo sem um vetr. Stephán Stephensen kvæntist í Kaupmannahöfn, fèkk Marthu Maríu, dóttur Didriks Hölters kaupmanns á Skagaströnd, ok var hún gód kona; attesteradi hann ok kom út sídan, en eigi líkadi foreldrum hans edr frændum kvonfángit, vildu leita slíks helzt í ætt sinni. Páll Hjálmarsson rector kom ok út, ok fèkk sídan Íngibjargar, dóttur Bjarna prests á Melstad, Pètrssonar á Kálfaströnd, Bjarnasonar, módir hennar var Steinunn Pálsdóttir, systir Bjarna landlæknis ok Gunnars prófasts; en Sigurdr biskup tók nú Hóla, ok ofanálag sem formenn hans; hann átti Gudrídi Halldórsdóttur, prests frá Knappstödum, ok eigi börn, var hann ljúflátr madr, ok óáleitinn vid alla menn, heilsulítill mjök ok hjartveikr, ok vard honum þúngt at standa í ríg eda andþófi; en amtmanni nyrdra, er hann átti vid at skipta, var svo varit, at hann var nokkut ómjúkr vid hann ok adra, er eigi voru vid hans géd, ok var þat skapsbrestr hans en enginn illvili, ok kom helzt fram vid þá, er honum voru nákomnir, ok þó hann vildi þeim vel í þraut, var madr reglugjarn ok vandlátr, en þótti beiskr nokkut ok hótfyndinn, enda var hann stjórnsamr ok úrskurdargódr; hann lèt þá af lögmannsdæmi, ok tók lausn til af konúngi, en Magnús Stephensen tók vid því, ok var nú sem mestr uppgángr Ólafs amtmanns. Vigfús Þórarinsson fèkk Rángár þíng, en þó var hann vid Gullbríngu sýslu ok Kjósar þau misseri. Prestr gjördist Fridrik Þórarinsson, bródir þeirra Stephans amtmanns ok Vigfúsar, hann hafdi alizt upp med Bjarna prófasti Jónssyni ok Elínu Stephánsdóttur, módursystur sinni, at Breidabólstad í Vestrhópi, ok farit utan ok tekit tvö examína, gjördist hann capellan Bjarna prófasts, hann var einfaldr madr ok brotalaus, mjúklátr ok þokkasæll, medalmadr vexti, einna líkastr módur sinni. Var Þórarinssonum svo

misfarit, at enginn þeirra var líkr ödrum, hvorki at ásynd eda skapferli. Annarr madr vígdist Páll Bjarnason prests, Pètrssonar, bródir Ingibjargar, er Páll Hjálmarsson átti, ok var hann allvel á sik kominn, ok hèlt sídan Undirfell, hann átti Gudrúnu, döttur Bjarna prests Jónssonar at Mælifelli. Hinn þridi madr hèt Sæmundr Magnússon, kalladr Holm, kynjadr úr Skaptafells þíngi, hann hafdi verit 16 ár í Kaupmannahöfn, ok numit teikníngar ok sund, var ok smidr, en eigi framadist hann at ödru, ok var mjök einhæfr ok undarlegr í skapi, áleitinn í ordum vid allt stórmenni ok óvæginn mjök ok óráðþæginn, en lèzt unna mjök landi sínu, urdu þeir nálega fegnir í Kaupmannahöfn at veita honum nokkut, ok fèkk hann Helgafell ok fór þángat, ok kvæntist hann aldrei; en Fridrik prestr Þórarinsson gekk at eiga Hólmfrídi, dóttur Jóns Ólafssonar vicelögmanns ok Þorbjargar Bjarnadóttur, Halldórssonar.

## LI. Kap. Frá ýmsu.

Þá kom út konúngsbrèf um refsíngu þjófa ok hylmenda, ok svo refsíngu tukthúss-lima, er þverúd sýndu, einnig um úttektir prestakalla, ok annat fleira smálegt, ok var þvílíkt svo margt í þann tíma ok sídan, at eigi verdr talit. Björn prestr Þorgrímsson, sýslumanns frá Hjardarholti, er fyrr hafdi haldit Saurbæ vid Hvalfjörd, hèlt þá Setberg, ok gjördist hann prófastr í Snæfells sýslu; hann átti Helgu Brynjólfsdóttur sýslumanns í Hjálmholti, Sigurdarsonar, en þó lifdi þar Björn prófastr Halldórsson, ok var þá blindr. Magnús Gíslason sýslumadr í Húnavatns þíngi andadist, ok var settr fyrir hana Björn Jónsson í Stóradal, er þá hafdi hálft Múnkaþverár klaustr. Gjördi þá hinn 10da dag Junii landskjálfta mikla, svo at hrundu hús mjök um allt sudaustrland, ok lágu menn vída í tjöldum, því at opt vard vart vid þá um sumarit; urdu þá sprúngur í jörd vída, ok nýir hverar, ok umbreyttist Þíngvallahraun ok svo vatnid, svo at sökk grundvöllr vatnsins at nordan, ok dýptist þat þeim megin, ok hljóp á land, en alfaravegr forn vard undir vatni sumstadar, grynntist þat ok allt at sunnan; hrundi mjök Almannagjá ok klettar fleiri. Þá var á þíngi Ingibjörg Jónsdóttir, er fargat hafdi barni sínu í Skagafirdi, dæmd til dauda, en seinna var hún tekin af í Hellu-hólma hjá Vídivöllum. Þar sókti Vigfús Þórarinsson skipsmálit á Halldór Jakobsson, en Magnús Stephensen vísadi því heim í hèrad til fremra prófs. Var þá Jón Jónsson frá Bæ í Borgarfirdi settr fyrir sýsluna, hann var son Jóns Högnasonar, Bjarnarsonar prests at Snæfoksstödum, Stephánssonar. Þar var ok dæmt skulda-

mál Jóns Arnórssonar úr Snæfells sýslu, ok af honum umbodit ok skuldirnar; ýmisleg voru þar mál önnur. Tók þá konúngr af þat er ádr var, at Hrappseyjar prentverk skyldi gjalda til Hóla 100 dali á ári, en Bogi baud þá prentverkit falt, þeim er kaupa vildi, ok til væri færir at stjórna því, þar sem hann tók svo mjök at eldast ok var blindr ordinn. Þess er getid um Levetzow, at hann hafdi komit á þat mál, at Íslendíngar gjördi sèr verjur ef á lægi, ok lètu margir vel vid því á Nesjum, ok kvádu á hvat þeir vildu hafa at vopni. Ekki var þá fiskiár, en hvalrekar ok selatekja var fyrir nordan, sumar heitt ok regnasamt, ok heyskapr allvída gódr. Þá fór utan Ólafr Gíslason frá Hvítadal, er fyrr var prestr, ok ætladi at ræda um mál sín.

## LII. Kap. Mannalát ok árferdi.

Hinn 23ja dag Julii mánadar andadist doctor Finnr biskup í Skálholti, hálf níræðr at aldri; hafdi þar opt ridit mjök at, er hann hafdi fylgt, ok lágu eptir hann mörg rit merkileg, og verit hafdi hann hamíngjumadr mikill, ok lærdastr biskupa, at ótöldum Hannesi biskupi syni hans. Þá öndudust einnig á þeim misserum, auk þeirra er ádr eru taldir, Gudláugr, er fyrr var prófastr, Þorgeirsson, at Gördum á Álptanesi, Bjarni prestr at Melstad, Pètrsson, Bjarnasonar; þann stad fèkk seinna Jón prestr Gudmundarson frá Hvanneyri nordan; Páll prestr Magnússon á Ofanleiti í Vestmannaeyjum; Jón prestr Þórdarson at Reynivöllum; Bergr prófastr Gudmundarson í Bjarnanesi; Kristín Gísladóttir biskups, er átt hafdi meistari Hálfdán Einarsson; Valgerdr kona Benedikts prests Pálssonar, hún var systir Erlendar prófasts Jónssonar at Hrafnagili; Helga módir Þorláks prests í Húsavík, kona hans hèt Sigrídr Ketilsdóttir; Kristján Redzlew, kaupmadr á Siglufirdi, hafdi hann verit drykkjugjarn ok medallagi eyrinn, en Anna kona hans var sídan í förum; einstakir menn drukknudu, ok fleiri urdu misferli. Kom út konúngsbrèf um þat, at biskupar skyldu vígja hvorr annan í landi hèr, ok var hvorutveggja, at biskupsstólunum ok veg þeirra kopadi mjök, enda þurfti þess eigi all-lengi við. Árni prestur Þorsteinsson, er þá hèlt Hof í Vopnafirdi, gjördist prófastur í Múla sýslu nyrdri; módir hans hèt Þórdís, dóttir Jóns prests yngra í Presthólum, Þorvaldssonar, en ord lèk á Stepháni prófasti Þorleifssyni um faderni, var ok Árni prófastr álitlegr ásýndum ok merkismadr at mörgu; hann átti Björgu Pètrsdóttur sýslumanns, Þorsteinssonar, systur Gudmundar í Krossavík ok Sigurdar, ok Hólmfrídar, er Oddr nótaríus átti. Sigurdr Pètrsson, bródir þeirra Gudmundar, var utanlands, ok fèkk sýslu í Kjós ok heradsdómara embætti

í Gullbríngu sýslu, en ei kom hann út þat sumar; hann lá á Borchens Collegio, ok þeir Geirr, son Jóns prófasts Vídalíns í Laufási. Kvongadist þá Hannes biskup í ödru sinni, ok gékk at eiga Valgerdi, dóttur Jóns sýslumanns á Móeidarhvoli. Var þá haust gott, en hardnadi þegar á leid, ok gjördi á eptir vetr strídan ok frostamikinn, en vor kalt, ok 1790.
lágu hafísar kríngum allt land, frá Látrabjargi vestra, ok at austan undir Reykjanes; urdu peníngar magrir, ok dóu únglömb mjök; 18 vikna skorpa var í Árnes sýslu, ok dugdu eigi heybirgdir þær, er mönnum þóttu vera; höfdu hrönnum dáit rjúpur, álptir ok snjótitlíngar; var ok fiskleysi vid sjó. Þá týndust 23 menn í Fljótum, af vedri ok stórsjó, er til hákallaveida höfdu farit, ok voru þar eptir ekkjur 9; fjórir menn drukknudu í Borgarfirdi, ok fjórir í Kvíárósi í Eyrarsveit, ok fleiri urdu önnur misferli smærri. Kom þá konúngsbrèf út um offr presta, ok um foreldra ok presta skyldu vid barna uppfóstr, ok enn fleiri. Gekk taksótt á þeim misserum nordanlands.

## LIII. Kap. Yfirmanna skipti, ok enn fleira.

Nú fèkk Levetzow stiptamtmadr brottfararleyfi frá landi hèr, en brèf fyrir því embætti fèkk aptr Ólafr amtmadr Stephánsson á Innrahólmi, ok hlaut hann slíkan veg ok nafnbót fyrstr allra íslenzkra manna, hafdi hann ok vestr-amtid ásamt; en sudr-amtid fèkk sá madr, er nefndr er Thómas Hammond Meldal. Stephán Stephensen gjördist þá vicelögmadr, ok var at Innrahólmi med födur sínum, en Magnús bjó at Leirá, ok áttu þau frú Gudrún þrjú börn saman: Olaf, Sigrídi ok Þórunni. Björn skyldi vera vice-nótaríus vid yfirrèttinn, en þat embætti hafdi sjálft Oddr Stephánsson, bródir Sigurdar biskups, ok hálf-bródir stiptamtmanns, ok hafdi haldit 17 sumr, bjó hann at Þíngeyrum, ok hafdi klaustrid, ok áttu þau Hólmfrídr kona hans börn saman, er þá voru nokkut á legg komin: Pètr, Sigrídi, Þórunni ok Laurus. Kristján prestr Jóhannsson í Stafholti gjördist þá prófastr í Mýra sýslu, ok voru nú flestir hinir heldri menn á landi, þeir er nokkurs þóttu verdir, tengdir ordnir Ólafi stiptamtmanni, ok tóku öfundarmenn efni af at bera þat fyrir stjórnina utanlands, at hann hefdi helzt til mikit ríki; hann framadi ok þá menn suma, er eigi voru tengdir honum, ok var þeim nálega jafnvel sem sínum, ef hann hafdi fóstrad þá eda foreldra þeirra; en sumir þeir, er at engu voru vid hann ridnir, þóttust þess verda varir, at þeim væri vandfarnara. Þá kom út Sigurdr Pètrsson til sýslu sinnar, hann var skáld ok gáfadr vel, jafnlyndr ok smá-gamansamr, og nokkut skeytíngarlítill, gjördi sèr allt jafnlètt, bólugrafinn í andliti, lítill vexti

ok sköllóttr snemma; Gudmundr sýslumadr í Krossavík var haldinn þeirra lærdari. Sigurdr fór at Nesi, ok var þar laungum med Jóni Sveinssyni landlækni; er ekki sagt frá Jóni, kölludu menn hann lítid gjöra at, þó hann væri sóktr, ok var lengi saknat Bjarna, en í umgengni var hann hinn hóglyndasti, ok smákýminn. Á þeim misserum um vorit deydi Ólafr, son Erlendar Ólafssonar sýslumanns, hafdi hann haldit Ísafjardar jardir. Ísleifr, son Einars Jónssonar, er fyrr var skólameistari, en sídan stód fyrir sýslum, bródir Gísla prests í Selárdal, fèkk þá Húnavatns sýslu, ok tók ei vid henni þau misseri; hann var haldinn vel at sèr um vitsmuni og lærdóm. Hannes biskup Finnsson fèkk doktors nafnbót í gudfrædi, sem fadir hans hafdi haft. Þá gekk sótt eystra um sumarit, ok andadist Ólafr prestr Eyríksson í Holtum; ok Gudmundr prestr at Lambastödum, Þorgrímsson, var þat svo um sláttinn, at varla var í Árnes þíngi nokkurr madr heill. Á alþíngi voru mál ýmisleg, ok átti Jón Helgason sýslumadr í einu, var landaþræta, ok köllud Ranamál, sókti þat Vigfús Þórarinsson, ok færdi þat eitt fram, at Levetzow kammerherra ok stiptamtmadr, er gefit hefdi út stefnu til yfirrèttar, hefdi afbakat hana ok breytt málinu, því til spillíngar, ok heimti at Jón væri dæmdr af embætti, en málinu var vísat í hèrad. Þar var Halldórr Jakobsson dæmdr af embætti ok í bætr stórar í duggumálinu, lýsti hann því yfir, at hann mundi appellera, en þó fèkk hann aldrei framgáng til þess. Verdlaunum var þar lýst fyrir garda hledslur, sem á hinum fyrri þíngum. Þá dó Eyríkr prestr Gudmundarson at Stad í Hrútafirdi, rædumadr mikill ok lángtaladr, fadir Gudmundar prests, er átti Ingvildi Bogadóttur. Þá kom út Jón Stanley hinn enski, ok skodadi Geysi ok Heklu. Björn Thómasson fèkk konúngsbrèf fyrir Þíngeyjar sýslu um haustid, ok hafdi hann lengi þar adstodat, hann var vitr madr ok rádsettr mjök, ok bjó lengi á Knútstödum í Nes sókn, ok átti fyrst Steinunni Þórdardóttur, voru þeirra börn þroskud í þennan tíma: Þórdr, er sídan tók embætti, ok Thómas södlasmidr ok Gudrún, hún giptist þremsinnum; en sídan átti hann Gudrúnu Sigurdardóttur, systur Jóns prests í Gardi, ok börn mörg. Á því hausti gjördi hretvidri svo mikil, at hey spilltust mjök. Þá fèkk Björn Stephensen Margrètar, dóttur Jóns Jakobssonar sýslumanns at Espihóli, var þar bod inni um tvo daga, ok vard Björn þar um vetrinn; gjördi þá gott vedrlag til jólaföstu, en hrídasamt um föstuna.

## LIV. Kap. Frá ýmsu.

91. Vetrinn eptir var hinn frostamesti, en stundum voru áfredar ok jard-

bönn; snjóar voru ok mjök miklir í Borgarfirdi ok vestr undan; var þá í Februario hafþök af ísum fyrir nordrlandi, en firdi alla lagdi af frostum, svo gánga mátti ok rída fram á vor, komu hvítabirnir á land, ok var einn skotinn á Látraströnd, annarr í Fljótum, sá hafdi tekit saudkind úr fjárhúsi. Þá var gengit á milli allra eyja hjá Seltjarnarnesi, ok frá Videy at Hofi á Kjalarnesi, ok svo yfir Hvalfjörd frá Klafastadagrund yfir á Kjalarnes; hesta fullfeita ok saudfè kól á fótum, en frostbrestir urdu svo hvellir sem mörgum fallbyssum væri skotid; urdu vída sprúngur á hardlendi, eda þar sem jardhitar voru undir, sprúngu ok þil ok veggir frá húsum, og fór klaki aldrei úr jördu á því sumri, því bædi var kalt vorit ok sumarit; var í fardögum ridit fyrir framan Bitru frá Skridnes-enni at Skálholtsvík, ok vertídarloka hestar reknir á ísi yfir Hvítá í Arnessþíngi. Fiskiafli var gódr sydra, ok þó nokkut missagt um. Týndust 9 menn þar, ok þrír á Mýrum, 9 á Ísafirdi, at því er Jón prestr Hjaltalín segir. Skip týndist med þremr mönnum á Fellsströnd, en 5 brotnudu fyrir brimi í Hergilsey á Breidafirdi. Vörur voru mjök spilltar, er komu til nordrlands, sakir útivistar skipanna, en stigu þó í verdi, ok fèllu vörur Íslendínga. Hinn 9. dag Martii andadist Björn lögmadr Markússon, ok var þá at Innrahólmi med Ólafi stiptamtmanni, hafdi hann lengst allra verit lögmadr á Íslandi, ok tók Magnús Ólafsson á Medalfelli þá vid lögdæminu algjörlega, ok hafdi ærit lengi verit vice-lögmadr, sídan Eggert bródir hans fèll frá; hann átti Ragnheidi, dóttur Finns biskups, ok voru börn þeirra á legg komin, ok Finnr elztr, námgjarn madr og skáld. Magnús lögmadr var vel í vexti ok settlegr, frómlyndr ok vinsæll, ok hafdi góda sjón á lækníngum, ok var madr gódgjarn; þótti höfdíngjum þar sydra hann nokkut einlyndr, ok óhræsinn vid þá. Þá kom út konúngsbrèf um ábúdarrètt leigulida medan í lögskilum stædi; ok um Speciubánka, ok bláa Bancósedla annarsvegar; en eitt, er út var gefit þá, kom ei út, at eigi skyldi taka menn af med sverdi. Þá kom út Geirr Vídalín Jónsson, ok gjördist dómkirkjuprestr í Reykjavík, var þá dómkirkjan í smídum, hann var gildlegr madr at sjá, ok feitlaginn, hinn lærdasti madr ok hinn ljúflátasti, var mælt at hann hefdi leitad til Ragnheidar, dóttur stiptamtmanns, ok þótt heldr óaudugr, en henni var eptirsjá í honum. Ólafr stiptamtmadr lèt þá setja upp barnaskólann á Hausastödum, ok voru þar sídan 16 úngmenni til kennslu. Þá andadist Jón prófastr Steingrímsson í Skaptafells sýslu; en í Snæfells sýslu var þá prófastr Árni prestr Sigurdarson, at Breidabólstad á Skógarströnd; þar kom út taksótt mikil á Stykkishólms skipi, ok gekk sídan vestra, ok nordr ok sudr um land; öndudust 52 menn í Helgafells sveit; ok þá andadist Gunnar prófastr

Pálsson, hinn lærdasti madr, ok var þá at Reykhólum, skorti hann 3 vetr á áttrædan; einnig Jón prestr Þórarinsson, Jónssonar prests í Stærra-Árskógi, Gudmundarsonar, hann hafdi verit prestr vid Mývötn, en þá var hann at Myrká med Þórarni presti syni sínum, ok hafdi þrjá um áttrætt, en Benedikt son hans var utan, er kalladr var Gröndal; þeir voru bádir skáld, Þórarinn prestr ok Benedikt. Mál var á þíngi úr Vestmannaeyjum, höfdu þrír menn haft í frammi misþyrmíngar ok illrædi vid einn bónda, ok var þeim dæmd þrælkan eptir ástædum; þar var ok yfirlýst launagjöfum vid ymsa menn. Annat hófst fyrir Árna Jónssyni, Reynistadar-mág, er kalladr var, því hann átti Hólmfrídi dóttur Halldórs Vídalíns, útúr illyrdi Jóns á Járngerdarstödum vid hann, sakir tunnu einnar, hafdi hann kallat hann þjóf. Benedikt Gröndal, er nú var getid, fèkk þá vice-lögmannsdæmi sunnan ok austan, ok kom út um haustid med póstskipinu, brotnadi þat, en menn hèldust. Þá andadist Brynjólfr bóndi í Fagradal Bjarnason hins ríka frá Skardi, var hann gamall mjök ok sjónlaus. Ólafr Gíslason frá Hvítadal var utan í málum sínum, ok mjök svo hálfærr ordinn, leyfdi konúngr honum at bera hempuna. Bágr var þá heyskapr ok stirdr öndverdr vetr. Bjarni Einarsson, er sýslumadr hafdi verit, fór utan þat haust, ok þá dó Þorsteinn prestr í Stærra-Árskógi Hallgrímsson, Eldjárnssonar, voru synir hans prestar; en hinn 19da dag Novembris andadist Meldal amtmadr at Bessastödum, hafdi hann verit spaklátr madr, en eigi hafdi hann allskostar byr at heldr, ok stód Ólafr stiptamtmadr sídan fyrir hans sýslu um hríd, med ödru er hann hafdi á hendi. Á þeim árum efldust fiskibændr ok saudabændr í landi vid höndlunina nýju.

## LV. Kap. Tilburdir næstu misseri.

1792. Næsti vetr var þúngr nordan ok vestan, en sunnan og austan betri; var vedrátt rosasöm med áfredum, en hláku gjördi þó góda í Februario. Hafísar lágu fyrir landi um vorit austr undir Horn, ok var þat hart, var gengit yfir Hvalfjörd ok Kollafjörd, ok ridit fyrir framan Bitru. Á þeim árum drukknudu 60 menn í Skálholts biskupsdæmi, ok nokkrir fyrir nordan. Ísleifr Einarsson var þá kominn til Húnavatns sýslu; andadist þar á hinn fyrsta sumardag Björn Jónsson klaustrhaldari í Stóradal, eptir lánga þjáníngu, ok hafdi vænt sèr þann dag lèttis, var hann vanr á honum at gefa ölmusu, átti hann eptir dóttur eina, launborna, er Rósa hèt, ok hafdi gefit henni allt fè sitt eptir sik, en þat var mikit, ok tók Ísleifr sýslumadr hana sídan med fènu, ok hèlt um hríd, ok mentadist hún lítt, var sagt hún væri tornæm, en fèd þótti mjök skert

er þat var goldit út aptr, ok vard þat seinna. Sóttin, sú er út kom um sumarit, gekk þá yfir, ok dóu margir menn, ok mest í kríngum Jökul, en börn af andarteppu; en fiskafli var mjök lítill sydra. Sóttin gèkk vestr um Dali, ok dóu 30 menn í sóknum Ólafs prófasts Einarssonar. Hákallatekja var mikil fyrir nordan land, ok síldargengd í Eyjafirdi. Þá andadist úr sóttinni Jón Arnórsson sýslumadr í Snæfellssýslu, bjó hann þá at Ellida, ok var snaudr; en Stephán Skevíng, er umbodit hafdi at stiptamtmanns veitíngu, ok Rif afgjaldslaust, ok festur allar ok reka, bjó at Íngjaldshóli, skyldi hann gjöra reikníng fyrir allt, ok hafa af sjötta hlut, þótti þat enn inntektasamt, ok hafdi þá enginn sýslumadr meira; Finnr, son Jóns biskups Teitssonar, var þá settr fyrir sýsluna eina saman, ok var hún harla lítid braud, en hafdi þó ord mikit utanlands, ok vitu allir at þat var ófyrirsynju; þó hlaut Finnr, þá stund er hann var þar, happ mikit, því at hann gekk í dánarbú hin mörgu, er fallit höfdu í sóttinni, ok tók fullt í þeim, ok þar med skatt af hverjum lausamanni, en' þeir voru þar margir, ok því ætladi hann, at slíkan ard mætti þar lengi hafa. Kom nú konúngs brèf, er bannadi at setja stiptunarpenínga á rentu í konúngsfjárhirzlu; annat, at sýslumenn skyldu uppbod gjöra, svo á dánarbúum klerka sem annarra, en ádr var komit, at þeir skyldu einnig skipta eptir lækna; mjök mörg önnur komu út, um reiknínga ok annat. Þá kom ok út Sveinn Pálsson, Sveinssonar prests í Goddölum, hann skyldi semja náttúrusögu; en Geirr prestr Vídalín gekk at eiga Sigrídi Halldórsdóttur prófasts frá Hítardal, er Gudmundr prestr Þorgrímsson hafdi átta, ok bjuggu þau at Lambastödum, hún var gód kona, en lítt til framráda, en hann sást ei fyrir um veitíngar. Jón prestr Jónsson gjördist prófastr í Vestr-Skaptafells sýslu, en Gudmundr prestr Jónsson, er ok var Skaptfellíngr, í Árness sýslu. Einn mann úr Húnavatns þíngi, er Gísli hèt, hafdi Ísleifr sýslumadr dæmt fyrir stuld á tveimr saudkindum, eptir útleggíngu þeirra laga er þá voru, til kagstrýkíngar ok æfi-þrælkunar, en Magnús Stephensen dæmdi hann á þíngi til tukthúss eitt ár; ekki var þar annat stórmála, nema Jón Helgason var dæmdr til bóta stórra í yfirrètti í Ranamálinu; lýst var þar verdlauna gjöfum, sem fyrri. Þá var bágr heyskapr ok nýtíng, helzt í austrsveitum, en í betra lagi fyrir nordan, brann bær í Biskupstúngum, er at Hellum heitir, med fjórum mönnum eda fimm inni. Á því sumri þótti mönnum enn stíga vörur hinar útlendu, en innlendar falla. Þá var þras mikit um embættis-athafnir Sigurdar sýslumanns Sigurdarsonar í Borgarfirdi, er þeir kölludu skugga, þótti honum mart takast ófimlega, ok olli meir vesöld ok addugnadarleysi sumu, er hann var hafdr fyrir, eda öllu, en illvili, hafdi Meldal amt-

madr tekit at víkja honum frá sýslu, en nú sagdi hann af sèr, at rádum Ólafs stiptamtmanns, ok var Þórarinn Liliendal settr fyrir sýslunа, son Sigvalda prests Halldórssonar at Húsafelli, er bródir var Bjarna á Þíngeyrum, fór honum þar allvel, en var heilsu lítill, ok andadist fyrr en því ári væri lokit. Þá setti Stephán amtmadr Þórarinsson bókalestrar fèlag í þremr hinum vestri sýslum nordanlands, en Markús prófastr Magnússon í Gördum um sömu mundir annat sydra. Davíd Skevíng gaf fátækum á Bardaströnd Lægra- Vadal, 20 hundrud, med tveimr kúgildum. Sigurdr Ólafsson, er fyrr var klaustrhaldari, var skipadr dómari í máli Árna kaupmanns ok Jóns, ok sektadi Jón um 30 dali, en hann appelleradi dóminn. Konúngsbrèf voru gefin út um haustid: eitt um afgjald af arfi þeim, er útarfar skyldu taka; annat um atgæzlur vid framkvæmd dóma, er hljóda uppá 'fríunareida; eitt um vinkilskrifara, edr þá, er leida alþýdu til at semja lognar ákærur. Þá dó Páll prófastr Sigurdarson í Holti, Jón prestr í Hítarnesi, ok Eyríkr prestr Bjarnason, nær nírædr, vitum vèr þó eigi víst, nema einhverr þeirra dæi hit fyrra árit. Þat spurdu Jöklamenn, at Bjarni Einarsson, mágr Davíds Skevíngs, mundi sækja um Snæfells sýslu, ok kvidu þeir því, ok vildu heldr Finn, því Bjarni var sagdr fègjarn mjök ok sínkr, en um haustid kom út á póstskipinu Jón Espólín, son Jóns Jakobssonar, sýslumanns í Eyjafirdi, ok hafdi fengit Snæfells sýslu umbodslausa, ok Ólafr Gíslason frá Hvítadal; fór Ólafr vestr í Dali, ok var laungum kalladr med litlu rádi þadan af, en Jón Espólín fór til Íngjaldshóls, ok vard med Stepháni Skevíng um vetrinn; kom Finni mjök á óvart, og var eptirsjá í sýslunni, ok var Ásgrímr Vigfússon Hellna prestr teljandi hann ásamt til at neyta þess, er þeir sáu at sýslumadr var úngr ok örr, ok órádinn nokkut, en þar leiddi af óþokka. Var þat ok satt, at Jón Espólín kom þar einstædr ok fèlaus, til braudlausrar sýslu, ok hneigdist þarmed, sem fleiri er hana höfdu, nokkut til drykkjar, ok var þá óvarr at sjá vid brögdum. Jakob Espólín, bródir hans, hafdi farit utan hit sama haust, hann var frídr sýnum, ok líklegr til mikillar menníngar, en andadist þann vetr af brjóstveiki. Er nú lokit þeim upplýsíngum um árferdi, sem doctor Hannes biskup Finnsson hefir gefit, ok þrotid er prestatal hans, ok verda enn af óhægdir at greina sumt hèdan af.

## LVI. Kap. Frá ýmsu.

1793. Sá vetr hinn næsti var allgódr, en snjóasamr þá er á leid, nyrdra ok vestra; var þá ok fiskifátt, ok gekk sóttin hid þridja ár fyrir nordan.

Í Februario gjördi hríd mikla, ok vard vída saudfè úti — var sól opt í úlfakreppu um vetrinn. Í April týndust tvö hákallaför í Fljótum, ok 18 menn á, gagnlegir, voru þar eptir 6 ekkjur med börnum; teinæríngr týndist í Vestmannaeyjum, ok fleiri skadar urdu minni. Einarr ýngri Brynjólfsson frá Hjálmholti hafdi unnit tvær þúsundir dala í Lotteríi, ok strax 400 eptir, en lítt hafdi honum á haldizt; hann reid óvarlega drukkinn í Hólmaós í Ölfusá, ok týndist þar, ok átti hvorki konu nè börn eptir; þá gekk yfir barnaveiki ok dóu mörg af. Var afli mikill á Eyjafirdi af hrognkelsi ok síld. Þá komu út konúngsbrèf um ýmisleg atvik vid kauphöndlunina, ok um sekt þeirra, er ránglega telja fram til uppskriptar í búnadartöflur; um andlegt fè, at ei þurfi svara tukthús-tolli; um atbúd í fángelsi, ok þá er inn eru settir fyrir skuldir; um arfa skipti samfrænda, ok ýmisleg um rèttargángs efni; eitt var brèf, gefit kapteini Joachim Kristjáni Wibe, til at vera amtmadr á vestrlandi, en Ólafr stiptamtmadr fèkk sudr-amtid um vorit; var Wibe norrænn madr, ok kom ei út þat sumar. Seinna kom út um skýrslur, er sýslumenn skyldu gjöra yfir fánga. Nú var Skúli Magnússon landfógeti svo nauduglega staddr, at menn ætludu honum mundi ekki annat hlífa fyrir þúngum álögum en elli hans, ok sagdi hann nú af sèr embætti at kalla, heldr en at hann væri afsettr, fèkk hann ok vidrlífis-penínga; en Magnús lögmadr Stephensen var skipadr fyrir landfógetadæmit; var útnefndr fyrir landfógeta Georg Kristófor Lídemark, ok kom hann eigi út. Þá gjördist Gísli prestr Þórarinsson at Odda prófastr í Rángár þíngi, en Björn prestr Þorgrímsson at Setbergi í Snæfells sýslu, því at Árni prófastr á Breidabólstad fèkk Holt undir Eyjafjöllum, eptir bródur sinn. Gudmundr sýslumadr Ketilsson á Svignaskardi hafdi verit settr fyrir Borgarfjardar sýslu sunnan Hvítá sídan Þórarinn Liliendal andadist, ok þíngadi þar um vorit, en sídan var Finnr Jónsson settr fyrir hana, því hann hafdi þá ekkert, en Ólafr stiptamtmadr hèlt honum fram; eigi voru þeir brædr honum vinveittir, ok litla hafdi hann mannhylli af alþýdu, seldist sumt midr út en hann vann til, en þat var skaplöstr hans, at hann sýndi stundum kænsku til at koma ágengni fram þar sem hann treysti sèr, ok vard þá berari í henni en sumir adrir, gjördist ok drykkjugjarn, ok þá kvennhollr ok rádlítill, ok vard svo berr, en mart var honum vel gefit. Þá var biskupum falit á hendr af kancellíi at yfirskoda adra bók í laga útkastinu, ok svo lögmönnum, Magnúsi Stephensen ok Magnúsi Ólafssyni; en þeir þóttust sjá, at svo mikit hafdi um skipt allt ástand landsins, at þá þurfti allt at umsteypa, ok afsökudu sig frá því at takast þat á hendr launalaust. Kom enn konúngs bod um Gufuness hospítal,

þat hafdi verit fyrrum sett í Videy, ok ætlad af höfudsmönnunum kon-úngs landsetum uppgefnum, en Skúli hafdi látid flytja þat til Gufuness, þegar hann fèkk at láta setja múrhúsit mikla í Videy fyrir landfóget-ann; hèlzt þat þó enn um nokkra stund, en sídan hefir framfæri þess veitt verit í peníngum, 10 dalir fyrir karlmann en 6 fyrir konu.

## LVII. Kap. Þíng, mannalát ok annat.

Mál var í Húnavatns sýslu: gjördist Ísleifr sýslumadr þar brátt hèr-adsríkr, ok leit á sik, en kunni vel at laga sik þess í millum eptir rík-mennsku Húnvetnínga, ok hèlt fram bændastètt í ordi, virdu þeir því engan sýslumann jafnmikils eptir Bjarna Halldórsson, ok þat þó, er Ís-leifr var vinsælli. Hann var lítill vexti ok dimmleitr, eigi frídr sýnum, dökkr á hár, ok vard úlfgrátt er hann eltist, starfsmadr mikill, ok þrek-meiri en vöxtr var til; hann fèkk bodmála á Geitaskardi af Þorláki presti blinda, syni Magnúsar prests á Höskuldsstödum, ok var heitid kauparèttinum brèflega, en prestr vildi kippa aptr, ok átti Oddr nót-aríus at dæma málit, þar hagadi prestr sèr ei vel fyrir dómi, ok gekk á hann. En á þíngi voru mál ýmisleg, ok átti Skúli ok Vigfús sýslu-madr Þórarinsson eitt í móti Steindóri sýslumanni Finnssyni, um skipti eptir Bjarna Pálsson, tapadi Skúli ástædu sinni fyrir dómi Magnúsar lög-manns Ólafssonar, var ok Steindórr vitr ok mjök sigrsæll í málum. Þar lèt Ólafr stiptamtmadr birta kancellí-brèf, er menn hugdu hann útvegat hafa, um þat, at ei skyldi hórdómssekt gjaldast eptir stóradómi af þeim er ógiptr var, eda ókvæntr, ok braut med þeim er var í hjónabandi; var ei mjök dreginn taumr sýslumanna, en þetta þótti nokkurskonar ójöfnudr, ok var fljótt gripit vid því, en þó er mjök tvírædt um, hvort ei muni annat ósannlegra í stóradómi, eda fleirum lögum, en at sá gjaldi hórdómsbætr sem liggr med maka annars manns, helzt konu, þó hann sè ókvæntr sjálfr. Þeir voru enn dæmdir til fjár-útláta vid Steindór sýslumann í dánarbús máli Bjarna: Skúli landfógeti ok Sigurdr sýslu-madr Pètrsson. Þau misseri andadist frú Íngibjörg Sigurdardóttir at Hólum, ok svo Ragnheidr Eggertsdóttir, kona Magnúsar sýslumanns Ketilssonar í Búdardal, hún hafdi gódleiks ord mikit, ok var þarmed gedveik, ok gekk ei sem skyldi, því at Magnús var haldinn nokkut hardlyndr, ok kunni ei at fara med skap hennar, þó hann vildi, ok segja menn hana sjálfa valdit hafa dauda sínum, ok ei er þat gáta; höfdu þau átt börn allmörg, er þá voru frumvaxta, var Skúli þá utanlands, en Sigmundr bjó seinna í Búdardal, ok enn verdr getid um fleiri. Kalt var þá sumar, en grasvöxtr í medallagi, ok gód nýtíng, brá þó til votvidra

med sólar-myrkvanum, er vard á álidnu sumri. Þat bar til í Höfda kaupstad, at kaupmanns umbodsmadr þar, ok þó skólagenginn ok gáfuskarpr, en nokkut framgjarn ok glettinn, Jónathan, sonr Sigurdar smids á Ljósavatni, Oddssonar, ærdist ok var bundinn, var hann þó þá á för, en aptr fèkk hann vit sitt. Voru þá íslenzkar vörur í meira verdi en hit fyrra sumarit. Þat sumar var talit barnaskóla fè hèr, þat er á rentum stód utanlands, ok var átta þúsundir ok hálft níunda hundrad dala, en minni not urdu at skólanum en skyldi, því lærendr voru stundum lítt valdir. Áhlaupavedr gjördi mikit hinn 15da dag Oktobris um haustid, af sudvestri, ok urdu skadar á húsum ok heyjum, ok fiskiskipum; brotnudu 12 skip í Ísafjardar sýslu, ok mörg annarstadar. En þetta var allt ein misseri ok þat, er upphlaupin miklu urdu á Frakklandi, er hófst af hin mikla ok lánga styrjöld, er sídan gekk yfir alla nordrálfuna, ok flestir hlutu af mikinn ótíma.

## LVIII. Kap. Frá því er bar til um vetrinn ok vorit eptir.

Næstu misseri var medalár um flest; fèkkst þá svo mikill hlýri á Bardaströnd, at 300 ok meira kom á hvern bæ. Í Januario urdu fjártjón mikil í Stranda sýslu ok sumstadar á Mýrum; týndist ok skip í Stranda sýslu med þremr mönnum; annat á Ísafirdi med nokkrum mönnum; átta menn týndust í Grindavík, sjö í Gardi, ok vídar einn eda tveir í sjó; menn urdu ok bráddaudir vída, þaraf var fernt á einum bæ í Reykjadal í Þíngeyjar þíngi, er dó á stuttri stundu. Öndverdlega á því ári andadist Björn prófastr Halldórsson á Setbergi, er fyrr hèlt Saudlauksdal, hann var mjök vid aldr ok hafdi lengi verit sjónlaus, ok þótti verit hafa hinn merkilegasti madr, hafdi hann átta Rannveigu Ólafsdóttur, systur þeirra Eggerts ok Magnúsar lögmanna, ok Jóns, er var í Kaupmannahöfn, en systir hans önnur var Gudrún Halldórsdóttir, er lengi var ekkja eptir prest, ok lengi á Þíngvöllum, skynsöm kona ok læknir gódr, ok hin mesta yfirsetukona. Á einmánudi rak 6 hvali í Stranda sýslu. Þá var lagt svo mikit af þorskanetum undir Vogastapa, at því var um kennt at allr afli hvarf þadan mjök, því at sú var mælt at raun hefdi á ordit í Noregi, hlutadist þá þar til Magnús Stephensen, því at hann hafdi umsjá í Gullbríngu sýslu med landfógetadæminu, en konúngr hafdi lagt var[illegible] vid um netalög, ok var því eigi hlýdt, þótti þat sumum óþarfi at aptra sjálfrædi manna í slíku, hvern óhag sem af leiddi. Magnús lögmadr átti einnig í þann tíma mál vid kaupmann einn þar sydra, ok má ætla at verit hafi nokkurt tilefni höndlunar-ákærunnar, er hann hóf litlu seinna, ok 1794.

flestir adrir fèllust á, af því at mönnum þótti höndlan versna. Konúngs brèf kom út um refsíngu lækna þeirra óreyndra, er um hlaupa, um lausar barnamædr, hrossagröft, ok um gjafir til Kristjánsborgar-slots, er brunnit hafdi; um hreindýra veidi, skip ströndud ok annat; einnig verdlauna auglýsíng frá kammeri fyrir ýmsa hluti. Landfógetinn, sá er út var nefndr hit fyrra árit, vildi ei at gánga ok losadist vid þat embætti aptr, ok því kom hann aldrei híngat. Sigurdr sýslumadr í Borgarfirdi fèkk ok lausn af konúngi frá sýslu, sem Ólafr stiptamtmadr hafdi rádit honum til at leita, hann hafdi búit á Hvanneyri ok var fadir Thómasar prests í Flatey; var Finni Jónssyni veitt sýsla, ok dvaldist hann í Reykholti med Eyríki prófasti Vigfússyni, mági sínum ok frænda, en bjó sídan mjök litla hríd at Bæ, ok er þar ekki gjörr frá sagt, en Sigurdr fór utan, ok dó þar sídan. Sat nú at Hvanneyri Stephán Stephensen vicelögmadr, ok hafdi þar skjótt rausn mikla, þegar hann mátti, þvíat hann hafdi gott skaplyndi til þess; hann var manna skarpastr ok fljótrádr, gledimadr mikill ok örr til veitínga, samdi hann sik um sumt eptir bródur sínum, þó hann væri honum ei skaplíkr; meirr var hann laginn til framkvæmdar en hirdíngar, ok nokkut brádr ok berordr, en þó lítilátr í umgengni, ok gódr athvarfs ok hugljúfi flestra manna, med meiri medalmönnum á vöxt, ok medallagi frídr sýnum. Björn bródir hans bjó at Hvítárvöllum, hann var eigi líkr þeim brædrum at lærdómi, brádr ok skjótlegr ok umfángsmikill, en eigi mátti hann stórlyndan kalla nè örfan; hann var mikill vexti ok stórleitr. Ólafr stiptamtmadr, fadir þeirra brædra, átti Leirá, Hvanneyri ok Hvítárvöllu, er þeir bjuggu á, ok fèkk þeim þær jardir til umráda, var Magnús fyrir þeim at rádum ok reglu, ok umsjámadr mikill um stórt ok smátt. Jón Jónsson fèkk þá Stranda sýslu, er settr hafdi verit fyrir hana, ok bjó á Bæ vid Hrútafjörd, var hann madr gæflyndr ok allvinsæll alþýdu þar, gaf sik ok lítt vid umsýslu, en hafdi jafnan medhald Ólafs stiptamtmanns ok sona hans.

## LIX. Kap. Frá málum, prentverki ok ödru.

Magnús lögmadr Ólafsson á Medalfelli sat lögþíngit um sumarit, því at Magnús Stephensen fèkk honum umbod sitt fyrir anna sakir, ok var hann einn fyrst, en sídan sat Benedikt Gröndal, því at Vigfús Þórarinsson átti mál vid Magnús lögmann; þángat var stefndr Jón Helgason sýslumadr enn, í Ranamáli, ok vard ei at gjört því hann kom ekki, en launum var þar heitid fyrir ýmsar tilraunir eda dugnad. Magnús lögmadr dæmdi at konúngs bodi ónýt nokkur afsalsbrèf á konúngs-

jördum, er farizt höfdu, ok bætr af Árna kaupmanni Jónssyni Reynistadarmági, en Benedikt Gröndal dæmdi lángan dóm í lögmannstollamálinu, er Magnús lögmadr var um sóktr vegna Önnu, ekkju Bjarnar lögmanns Markússonar, hafdi Sigurdr Pètrsson dæmt hann ári ádr til at svara því er krafit var, en Gröndal fríadi hann. Þar var ok dæmt í Snæbjarnar máli úr Árness þíngi, at hann skyldi gjalda skyldur sínar í óframfærdum aurum. Þat sumar ræntu Franskir skip mörg hollenzk, ok flest fyrir Vestfjördum, komu 72 menn á land í Grundarfirdi, er ræntir voru, ok veitti Björn prófastr Þorgrímsson ok adrir menn þeim adstod góda, fóru þeir sídan á brott ok lofudu mjök landsmenn. Ólafr stiptamtmadr var þá seztr í Videy. Þat sumar hit sama endadi yfirför Sveins Pálssonar hèr um land, ok hafdi hann ei mjök vída yfir farit. Björn Gottskálksson hèt skagfirzkr madr, er utan hafdi farit med Sigurdi biskupi Stephánssyni ok lært bókband, hann fèkk Ragnheidar, dóttur Boga hins gamla í Hrappsey, Benediktssonar, ok keypti hann prentverkit í Hrappsey af Boga, hafdi þat þá hvílt um hríd, sakir kostnadar, en ádr höfdu þar prentadar verit bækr margar med umsjá Magnúsar sýslumanns Ketilssonar: Skardsár annáll, konúngsbrèfa söfnudr Magnúsar sýslumanns, mánadar tídindi, rímur eptir Árna Bödvarsson, ok búnadarrit Bjarnar prófasts Halldórssonar ok Magnúsar sýslumanns, einnig ljódmæli Jóns prests Þorlákssonar. Lèdi Björn sídan prentverkit landsuppfrædíngar fèlagi, er svo var kallat, þat hófst á þessu sumri at forlagi Magnúsar Stephensens, ok var prentverkit sett at Leirárgördum vid Leirá; var Ólafr stiptamtmadr kalladr forseti þess fèlags, en þar næst höfdu hlutdeild doctor Hannes biskup Finnsson, Stephán Þórarinsson amtmadr, ok Magnús lögmadr Stephensen, stód þá vinátta med þeim amtmanni, Stephán vicelögmadr, Markús Magnússon prófastr ok Björn Gottskálksson. Vóru þá ok gjörfar samþykktir prentadar fyrir lestrar-fèlagit sydra, ok var þat talit undir umsjá Hannesar biskups. Þau misseri urdu sumstadar húsbrunar, ok týndist Eyrarbakka skip. Þá dó Magnús prestr Einarsson at Tjörn í Svarfadardal, skáld gott, Gudmundr prestr Högnason í Vestmannaeyjum, merkilegr madr, hafdi hann haft embætti um 51 ár, Jón prestr Halldórsson at Snæfoksstödum, hann var prestr 52 ár, ok þó frá þjónustu nokkur ár seinast; Benedikt prestr Jakobsson at Hálsi í Hamarsfirdi, er undarlegr var í skapi, Eyríkr prestr at Stadarbakka, Ólafr prestr Jónsson at Kvíabekk, ok Eyjólfr prestr Sigurdarson at Brúarlandi á Höfdaströnd, hann hafdi átt andstædur vid bónda þann er Sigurdr hèt, Andrèsson, ok þá bjó í Ártúnum, var sagt hann hefdi lagzt fyrir prest á leid, ok barit hann, en hann var gamall, ok komst þat ei í

dóm, því at skömmu sídar hneig prestr örendr af hesti, er hann reid yfir Grafará, en átti eptir talsmenn hirdulitla; einnig deydi Gudmundr prestr Gudmundarson at Undirfelli, ok enn Jón prestr, er verit hafdi vid Hellna, Þorgilsson, Sigurdarsonar, Pálmasonar, Henrikssonar á Hólmi, Gíslasonar lögmanns, Þórdarsonar, hann var attesteradr en hafdi þó lifat alla æfi vid fátæki, en Ásgrímr Vigfússon at Laugarbrekku, er Hellna prestr var eptir hann, son Vigfúsar Helgasonar á Eyri, hafdi tekit þar vid fyrir nokkrum árum, ok gefit saman flakkara einn, kvæntan, vid adra konu, frillu sína, í móti rádum ok forbodi Jóns Arnórssonar sýslumanns, ok gjört þat til at strída honum, framit ok adra varmennsku í vidskiptum vid marga menn, ok var hann nú dæmdr af prestskap, en utan fór hann ok fèkk hann aptr, var sagt verit hefdi med adstod Snæbjarnar Stadfeldts Ásgeirssonar í Danmörku, bródur Jóns prests í Stapatúni, því Ásgrímr átti Sigrídi systur þeirra, hèlt hann sídan lengi prestskap í sama stad, ok kom sèr vid engan mann. Þá gjördist Magnús prestr Erlendsson at Hrafnagili prófastr í Eyjafirdi med födur sínum.

## LX. Kap. Fráfall Skúla.

Svo er sagt, at Skúli Magnússon landfógeti hafi verit trúmadr lengi æfi sinnar, þó nokkrir brestir þætti á vera, ok hafa menn nokkur rök til þess, at slík umhugsun tók hann jafnvel þá, er hann var vid öl, er helzt var í heimahúsum, þó at litla vo hefdi, sakir stórbrota þeirra er hann stód í, en sídan hann eldist ok mæddist, vita menn, at hann rækti húslestra sína med vissri skipun, ok var sá háttr hans, at lesa hvern dag í ritníngunni sumar ok vetr, ok sýngja Hallgríms sálma um pínu Krists, ok hóf jafnan af nýju aptr hit sama, þar sem ödru lauk. Hann var nú í Videy med Ólafi stiptamtmanni, ok tók sótt ok andadist hinn 9. dag Novembris, er hann skorti einn mánud á fjóra vetr hins níunda tugar; hafdi hann mestr afkastamadur verit á þeim manns aldri; börn þeirra Steinunnar voru: Björn byggíngarmeistari vid Hólminn, Jón landfógeti, er átti Ragnheidi Þórarinsdóttur ok var þeirra son Jón Vidöe, ok var sá ættleggr þrotinn, Gudrúnar tvær, Rannveig, Halldóra, Oddný. Gudrún eldri átti Jón Snorrason sýslumann, ok eigi börn; Gudrún ýngri var gipt Jóni sýslumanni Arnórssyni, ok var snaud eptir hann lidinn, bjó þó vid fátæki; voru þeirra börn Jón dreyjari ok Gudrún; Rannveig átti Bjarna Pálsson, ok eru talin börn þeirra fyrri, ok vard þat mesthàttar er frá henni kom; Halldóra var gipt Hallgrími Bachmann lækni, í Bjarnarhöfn, þeirra börn voru: Jón prestr, er fèkk Ragnhildar,

dóttur Bjarnar prófasts Þorgrímssonar, ok Árni, hann fór til Vestr-indía, ok Kristín, hún var gipt Ólafi lækni Brynjólfssyni; Oddný var ófríd, sem módurkyn hennar allmargt, hún var kona Hallgríms prests Jónssonar, prófasts at Stadarstad, Magnússonar, bródur Skúla; hann var í þennan tíma Capellan födur síns, en seinna prestr í Gördum á Akranesi, hóglátr madr ok smágjörr, ok ólíkr födurfrændum sínum at skapsedli ok líkams atgjörfi; hèt Gudmundr son þeirra, ok kvæntist á Akranesi.

## LXI. Kap. Frá tjónum, ok ýmsu ödru.

Í þann tíma voru eptirlegumenn hèr vid land, ok svo þadan af, umbodsmenn þeirra er seinast höfdu konúngshöndlun ok keypt höfdu hús ok annat af konúngi, ok voru þeir kalladir faktorar, en sumstadar voru kaupmenn sjálfir. Fridrik Lynge hafdi faktor á Eyjafirdi, þó voru þar fleiri kaupmenn; Jóhann Höwisch hafdi faktor á Hofsós. Í Reykjavík voru margir, ok má hèr ei telia alla í hverjum stad. Pêtr Hölter, bródir Didriks, hafdi höndlun í Stykkishólmi, hann var vin mikill Stepháns vicelögmanns á Hvanneyri, med mágsemd, ok rausnarmadr mikill, hafdi hann þar faktor sinn; Hans Hjaltalín Oddsson var kaupmadr á Stapa ok hafdi þar adsetu, en lèt vera faktor vid Búdir; Jakob Plum hafdi Ólafsvík, gódlyndr madr ok einfaldr, ok eigi mjök heppinn í kaupförum, en Kristján Plum, bródir hans, var í landi hèr; hann gekk undir Olafsvíkr-enni vid annann mann, eptir nýárit, ok fèll smásteinn 1795.
úr Enninu í höfud honum ok fèkk hann bana; en madrinn fór nokkut á undan, ok lamdist. Var þá vetr í medallagi til þorra, en gódr allr fyrir sunnan ok vestan, nema köst gjördi á þorra ok góe, sem drápu fè manna, helzt á Ráugárvöllum ok á Landi, en nokkut í Mýra sýslu ok á Vestfjördum; fyrir nordan var hann í hardara lagi ok helzt hinn seinni hluti, ok gekk peníngr illa undan; en fiskiafli var í medallagi. 18 menn eda fleiri týndust af bátum í sjó. Nær þeim tíma deydi Magnús prestr Þórhallason í Villíngaholti, hann var fadir Þórhalla prests á Breidabólstad í Fljótshlíd. Þá voru gefin út konúngsbrèf um námsdóma, ok um ákæru samfrænda skipta, ok um tillag tukthússfánga á heimleid; einnig um sáttanefndir ok sáttamenn, er þadan af hófust, ok enn fleira. Kom ok út konúngsbrèfit um frjálsar gjafir til slots byggíngar í Kaupmannahöfn, hvat sem hverr vildi til leggja, því þess er ádr getid, at Kristjánsborgar slot hit ágæta hafdi brunnit. En sídar á því sumri var tilskipud til prentunar, ok almennilegrar brúkunar, útlegging sú, er Einarr Gudmundarson, stúdent frá Vestmanna-

eyjum, ok hinn lærdasti madr, hafdi gjört, yfir barnalærdóms bók hina nýju, er biskup Balle hafdi sett saman, var sú bók minni en barnalærdómr Pontoppídans, ok þó greinilegri ok öllu betri, því at Balle ritadi sem varlegast, ok eptir sjálfri ritníngunni sem verda mátti, en átti þá í höggi vid þá menn, er brjóta vildu kristna trú í mörgum greinum, fyrir því at tídska mikil gjördist þá at vefengja ritníngar lærdóma, en reida sig á skynsemdar ljós eittsaman, ok voru helzt til margir vísindamenn í þann tíma, er snert höfdu af því, meiri eda minni. Vorit var afar kalt fram um messur, ok rak inn hafísa fyrir nordan land, dó þá mikill fjöldi af lömbum, svo at talid var til 16 þúsunda. Þar eptir hófust hinar mestu rigníngar ok óvedr, svo spillti fiskifaungum manna, en skridur hljópu á tún ok engjar; tók af Laungublíd í Hörgárdal hinn 12ta dag Junii, ok týndust tveir menn, naut 9 ok 20 saudkindr. Nær þeim tíma vard ok bruninn mikli í Kaupmannahöfn, er enginn hafdi slíkr ordit, sídan á dögum Fridriks fjórda, ok kom eitt brèf um gjafasafnad til handa þeim er lidu. Eptir þat gafst til Kristjánsborgar slots í landi hèr nær fjórum þúsundum ok 9 hundrudum dala, en til þeirra er brunann lidu í stadnum 17 hundrud ok 40. Cancellie-brèf hafdi út verit gefit hid fyrra árit, um at prenta mætti í Hrappseyjar prentverki bækr í allskonar vísindum, en nú kom heitord at adstoda landsuppfrædíngar fèlags limi, ok leyfi at breyta fornum sálmasaung at því skapi sem upplýsíng væri vaxin; var þá tekit til at safna sálmum til nýrrar bókar, en þat sálma safn höfdu þó ádr hafit biskupar í landi hèr, ok látid hina fornu sálma um gánga medal skálda. Var nú prentud í Leirárgördum sumargjöf barna, ok kvöldvökur doctor Hannesar biskups, Hallgríms sálmar, ok árstídindi, er Magnús lögmadr Stephensen samdi, var Gudmundr Skagfjörd prentari, hann hafdi ádr verit í þjónustu Ólafs stiptamtmanns. Ólafr stiptamtmadr sat í Videy, en hèlt bú at Innrahólmi, var fyrir því Björn Gottskálksson. En bækr þær hinar nýju fèllu eigi öllum vel í skap, ok þó var minna bragd at því en fyrr hafdi verit, því fleira var mörgum mönnum kunnugt ordit en ádr, en þó svo, at fyrirlidi prentverksins tók sèr til móds þykkjur manna, ok gjördist af því nokkut frekordr í formálum sínum edr eptirmálum, en þat afladi því meiri óþóknunar en ádr, því at sumir þóttust sneyddir, en þó virdu margir vel ritgjördirnar sjálfar, ok margir höfdu vit á at gjöra grein þeirra.

## LXII. Kap. Annat er bar til á þeim misserum.

Öndverdlega á þeim misserum andadist Jón prófastr Magnússon á Stadarstad, bródir Skúla, meir en áttrædr, einnig Jón prestr, er fyrr

var á Grund, en þá at Núpufelli, Jónsson, ok er getid ádr at lærdómi, fjórum vetrum midr en áttrædr; Sesselja, ekkja Markúsar prests Snæbjarnarsonar í Flatey, nær nírædu; Hildr Lýdsdóttir sýslumanns, Gudmundarsonar, hana átti Illhugi prestr Hannesson at Villíngaholti. Vigfús Jónsson, er fyrr var sýslumadr í Þíngeyjar þíngi, hafdi gengit frá bæ sínum í þaunkum eda rádleysu sinni, ok kom ei aptr; var hans leita farit, ok fannst hann skammt frá bænum, andadr, hjá steini einum, med hönd undir andliti; hafdi hann heilsulítill verit um tvö ár, ok var þá nær sextugu, ok mjök mæddr af ýmsu andstreymi. Þá gjördist Jónas Skevíng adstodarmadr Vigfúsar sýslumanns, födur síns, á Vídivöllum. 300 fjár tólfræd urdu sjálfdaud í Háls sókn í Hamarsfirdr í Sudr-Múla sýslu, ok vard allt helblátt ok ónýtt. Ásgrímr, son Páls Jónssonar frá Gufunesi, fèkk þá Kaldadarnes; Þórarinn Sigfússon, Sigurdarsonar prests at Bardi, Einarssonar, Hvanneyri í Siglufirdi; Bóas, son Sigurdar Oddssonar smids, Grímsey, Jón prestr Jónsson Grund ok Mödruvelli eptir födur sinn, hann bjó at Núpufelli fyrri, med födur sínum, ok sídan, en at Mödrufelli seinna, ok átti Helgu, dóttur Thómasar prests Skúlasonar, er fyrr var í Saurbæ, en þá at Grenjadarstad. Gunnlaugr prestr Gunnlaugsson frá Hèradsdal fèkk Háls í Fnjóskadal, eptir Jón prest Þorgrímsson; Bjarni prestr, son Arngríms prests Jónssonar, bródur Eyjólfs Jónsoníus, Mela í Borgarfirdi. Kona var sagt at dáit hefdi hálf-sextug úr bólu í Vatnsfjardar sókn, ok hafdi þó fengit hana miklu fyrri; en önnur sextug lagdist, ok batnadi aptr; var þó engin bóla í landi. Menn urdu sumstadar úti, ok misferli urdu fleiri, en þrír skipreikar urdu í Gullbríngu sýslu, einn vid Akranes, einn í Borgarfirdi, ok sex menn drukknudu vestra, ok þó enn fleiri vídar. — Þá kom út amtmadrinn til vestr-amts Joachim Kristján Wibe, ok Páll Michael Finne landfógeti, en Finnr Jónsson hefir fengit Borgarfjardar sýslu, þar hann hafdi verit settr ádr, ok vildi þó fá Snæfells sýslu heldr, ætladi at þar mundi hann hafa byr betri. Mikla mergd rak þá af hlýra á Raudasandi. Á þíngi var stadfestr dómr Odds nótaríus í Geitaskardsmáli, ok eignadist Ísleifr sýslumadr þat, ok bjóst þar vel um. Þá var ok annat mál, þat hafdi hafizt á hendr Oddi sýslumanni Vídalín á Bardaströnd, hafdi hann komit drukkinn á Vatneyri, ok illyrt Pètr Herning kaupmann ok fleiri menn, dæmdi Bjarni Einarsson hann, ok eigi rètt stefndan, í 60 dala bætr, ok stefndi til embættis missu, en allir er hlut áttu at skutu til lögþíngis. Grasvöxtr var þat sumar í medallagi, en nýtíng vída ill, nema á tödum, þar sem snemma hófst sláttr, þó bezt í nordrlandi; sydra ok vestra vard illa bjargat heyjum er á leid, ok brunnu þau stórum; spillti flód ok sjáf-

argángr miklu sunnanlands, bædi heyjum ok skipum, en vott var haustid fyrir nordan. Hálda skyldi mega vid Pontoppidans lærdóm um fjögr ár, þó hinn nýi kæmi, ok svo vid frædi Lúthers álengdar. Ranamáli Jóns Helgasonar var skotid til auka-lögþíngs. Þau misseri var kaupböndlun mjök þúng mörgum, ok þá dóu enn þessir menn heldri háttar, sem ádr eru ótaldir: Hólmfrídr Jóns dóttir prests Ketilssonar, kona Þorsteins Benediktssonar á Laxamýri, af krabba í túngurótum, var hún þá komin austr at Hólmum, til Jóns prests sonar síns; en á jólaföstu Marteinn Skevíng, son Hannesar Skevíngs, ok dótturson Marteins at Bustarfelli, hann hafdi verit Regiments-kvartermeistari í Noregi, ok var þá út hèr; ok hinn 4da Decembris andadist Pètr Þorsteinsson, er lengi hafdi sýslu haldit í Múla þíngi, hálf-áttrædr at aldri, þótti hann jafnan merkilegr verit hafa, ok hafdi fyrrum lagt út Herslebs prèdikanir ok gefit út sálmabók, ok verit einn hinn fremsti af sýslumönnum, fèll börnum hans hverju mikill arfahluti, en svo sagdi Gudmundr sýslumadr, son hans, í Krossavík, at þat hefdi sik at engu dregit, svo var hann ádr audugr ordinn, því hann var fjáraflamadr mikill.

## LXIII. Kap. Mannalát, ákæra, mál ok annat.

1796. Sá vetr var hardr ok hrídasamr vídast, en batnadi med midgóe, ok var blítt sídan til vors; hafísar lágu fyrir landi nyrdra ok eystra, ok var þá hart vorit, ok gjördi sídan miklar hrídir í Julio fyrir nordan. Fiskafli var til jafnadar í betra lagi; sjáfargángr mikill á Austfjördum, ok flæddi margt fè. Brádasótt var ok á saudpeníngi í Háls sókn í Hamarsfirdi. Öndverdlega deydi þá Þórunn Hansdóttir Skevíngs, er átt hafdi Jón prófastr Magnússon á Stadarstad, en þareptir Jón Arnórsson sýslumadr í Ísafirdi, lagdist þar nidr saltverkit upp frá því er hann hafdi haft þat. Því næst dó Eyríkr prestr at Stad í Hrútafirdi, Gudmundarson, er átta hafdi Helgu Eggertsdóttur prests Sæmundarsonar; fèkk Gudmundr prestr, son hans, stadinn sídan; hann var þá at Tjörn á Vatnsnesi, því at Pètr prestr, er þar hafdi verit, var farinn med Gudrúnu konu sinni til Pètrs prests sonar síns ok Elínar Grímólfsdóttur á Miklabæ í Skagafirdi, þá fyrir fjórum árum. Enn deydi Gunnlaugr klaustrprestr til Múnkaþverár, Eyríksson prests, Þorsteinssonar, Gunnlaugssonar prests í Saurbæ, Sigurdarsonar, ok Michael Jakobsson, faktor í Stykkishólmi; ok öndverdlega í Junio frú Margrèt at Nedra-Ási í Hjaltadal, dóttir Finns biskups; hún andadist í svefni, var þó kraunk ádr nokkut. Fjögr skip týndust í Gullbríngu sýslu med 20 mönnum, eitt á Akranesi med 5, þar voru þrír fedgar; eitt fyrir Ólafs-

víkr-enni; eitt í Stadarsveit med 8 mönnum. Jón prestr Sigurdarson í Holti í Önundarfirdi tvímennti med ödrum manni yfir fjörd einn á vadi, ok var þó rádit frá at rída þat, fèll hann af hestinum ok drukknadi. — Þá var gródrleysi ok kalt sumar, svo at fannir höfdu lagt ofan á fjöll sumstadar í öndverdum Julio. Magnús Thorlacíus, faktor á Ísafirdi, andadist þá, ok Jón prestr Sigurdarson til Gards sókna ok Áss í Þíngeyjarþíngi. Þá var gefit út Cancelliebrèf um hjón, er þrjú ár hefdi haldizt í fjærvistum, at freista skyldi at semja med þeim ádr þau mætti sækja konúng um skilnad at bordi ok sæng; en þó gjördist þat þá altítt, ok svo sídan, at mörg hjón skildu leyfislaust, svo at ekki var um vandat af amtmönnum eda ödrum, ok svo voru margar reglur, at meir voru litr einn ok fjölyrdi, en yrdi til nytsemda, enda lögin ordin helzt til mörg ok hvikul, ok þá ei fylgt lengi hverju af alhug, en ósidamenn efldust í þrályndi, er þeir fundu at slakat var til vid þá. Konúngsbrèf kom eitt, ok nytsamlegt, um skjóta ok tilhlýdilega rèttarframkvæmd, gjördi þat mikla breytíngu í atferli vid sakamál ok önnur, frá því er ádr hafdi verit, ok þó vandfarnara; skyldu þá ei vera þadan af nema fjórir þíngvottar í stad átta, ok lögdagr eigi leggjast, sem fyrr hafdi verit, ok marga óþarflega töf gjört, ok þess skyldi minnzt í öllum stefnum, einnig skyldi vid uppsögn dóms hvers þess getid vera, hvort mál var rekit tilhlýdilega, en 100 dala sekt lögd vid, ef hlífzt var vid sakamál, ok var þessu vel fylgt í 12 ár eda 13 sídan, ok vída lengr sem vid vard komit. — Annat brèf var til stiptamtmanns ok biskups um sálmabókina, at hana mætti fullgjöra ok gefa út af landsuppfrædíngar fèlaginu, er kallat var. Þá kom seinast ritgjörd frá lærdómsfèlaginu í Kaupmannahöfn. Alþíng var nokkut deilusamt um sumarit, ok áttu þeir Halldórr Jakobsson ok Oddr Vídalín í málum, ok höfdu eigi vel; hafdi Halldórr átt í þeim sídan duggumálit vard, en stórsektalaust var þar, var ónýttr dómr Bjarna Einarssonar um Odd, ok málssókn Hెrníngs, ok rekinn dómr Finns sýslumanns í arfamáli nokkru, appelleradi þó Vigfús Þórarinsson fyrir hann. Magnús Stephensen dæmdi mál Halldórs Jakobssonar at Leirá, ok losadi hann vid skuldalýsíngu Andrèsar Sigmundarsonar. Fyrirmenn í landi sendu þá utan ákæru yfir kaupmönnum, ok ætludu menn Magnús Stephensen samit hafa, settu sýslumenn margir nöfn sín undir, en Magnús Ketilsson í Búdardal stiptadi eina grein fyrir sjálfan sig; þótti höfudákæran, sú er gekk milli manna, nokkut hardord, ok leiddi af óþægju mikla; ritadi Stephán amtmadr adra, því at vinátta var þá med þeim Magnúsi Stephensen, en þó samdi hann hana at sínum þokka, en Ólafr Stephánsson stiptamtmadr vildi sèr ekki af skipta. Þá var bodit at kyrrsetja Ólaf

Gíslason í Dölum, ok mál voru fleiri. Brá þá vid endalok Julii mánadar til hinna mestu óþurka fyrir sunnan ok vestan land, nádu færstir óskemmdum tödum, en flest hey spilltust, ok brunnu vída til agna; voru þá allstadar hin mestu bágindi med heyfaunguin, ok lógat peníngi sem menn máttu. Á því hausti lagdi út Ólafsvíkr skip ok Jakob Plum, er þar var kaupmadr, en er þat kom fyrir Skarfsvík vid Öndverdtnes, braut skipit, en menn hèldust allir, spilltist vara ok var seld sem vard ok mátti, en þeir skipverjar urdu í Ólafsvík um vetrinn eptir vid allhardan kost; voru þá um haustid rigníngar ok illvidri.

## LXIV. Kap. Ýmisleg manna skipti.

Nú var tukthús-fèhirzlan ordin hálf níunda þúsund dala, ok þó mest á rentum, fyrir því leyfdi konúngr at enda skyldi taka tollr sá, er til þess hafdi goldinn verit, þegar árit lidi út, en hann var goldinn af jördum ok kúgildum, er hinir mestuháttar menn áttu margt af. Urdu þá andlát margra hinna heldri manna: deydi Þorkell Fjeldsted, er stiptamtmannsdæmi hafdi haft í Noregi, ok margar adrar sýslanir; en hèr í landi andadist hinn 4da dag Augusti mánadar doktor Hannes biskup Finnsson í Skálholti; hafdi hann verit hinn lærdasti madr ok spaklátasti, ok gjördi Magnús Stephensen grafskript eptir hann, ok samdi um hann eptirmæli, ok lofstír mikinn. Níu dögum sídar, edr hinn 13da í mánudinum, deydi Jón prestr Jónsson at Gilsbakka; ok um þær mundir Sigrídr Ísleifsdóttir í Oddgeirshólum, er átt hafdi Halldórr prófastr Pálsson, ok módir Ísleifs í Haukadal, ok skorti þrjá á nírædan; en Gunnlaugr prestr Snorrason, er fyrr var at Helgafelli, þrem vetrum meir en áttrædr, hinn 30ta Septembris, hann hefir orkt fædíngar sálma, ok lofkvædis sálma, ok enn fleira, ok þótti mjúkr hafa verit til kvedskapar, ok skildi Hebresku. Þar eptir andadist Björn Thómasson, sýslumadr í Þíngeyjar þíngi, fyrst í Octobri, þótti hann merkismadr verit hafa, ok var til eptir hann ritgjörd um hreppstjórnar skyldu; einnig Þorbjörg Stephánsdóttir, prests í Laufási, gipt, ok Jón Eyríksson sýslumadr í Vestmannaeyjum, bródir Jóns conferenzráds, af líkþrá. Þórdr, son Bjarnar sýslumanns, var settr í Þíngeyjar þíngi, hann hafdi ætlad sèr Gudrúnu, dóttur Þorláks prests í Húsavík, en Ísleifr sýslumadr Einarsson á Geitaskardi fèkk hennar, ok af því skiptust þeir ómjúkum ordum, ok var þat fyrir engan mann vid Þórd; hann var ok vitmadr mikill, ok gjördist brátt virdr í sýslunni, ok var kænn vid þá hluti er þar heyrdu til, lítill madr vexti. Jakob, son Árna prófasts Sigurdarsonar ok Kristínar Jakobsdóttur frá Búdum, var settr fyrir Reykjavíkr

skóla, því Gísli Thorlacius var lítt færr, tekinn at eldast, en drakk mikit. Jón Johnsoníus fèkk Ísafjardar sýslu, sá er lengi hafdi verit vid fornfræda fèlagit utanlands ok kvongadr þar, en Jón Jónsson í Bæ vid Hrútafjörd hafdi verit settr þar ádr. Skúli, son Magnúsar sýslumanns Ketilssonar, gjördist adstodarmadr födur síns, ok bjó sídan at Skardi; hann var kalladr madr miklu mjúklyndari, en lærdómsmadr miklu minni, bólugrafinn mjök ok einsýnn. Benedikt prestr Árnason, er fyrrum var at Felli ok sleppti þar prestskap, fèkk Kvennabrekku þíng; Árni prestr, Illhugason prests, Halldórssonar, Hof á Skagaströnd; Þórdr prestr Þorsteinsson Hellna þíng, var Þorsteinn fadir hans prestr á Stad í Súgandafirdi, son Þórdar prests, er dó undir rúmi á Grenjadarstad, Gudmundarsonar prests í Selárdal, Vernhardssonar prests í Adalvík, Erlendssonar, var hann ödrum ok þridja vid Jón prest Þorláksson skáld, lítill madr vexti, sem þeir frændr fleiri, en drjúglyndr, komst Ásgrímr Vigfússon brátt í ertíngar vid hann, en vard at litlu. Magnús Erlendsson viceprófastr í Eyjafirdi fèkk Múnkaþverár kall, Jón prestr Jónsson Bard; fleiri fengu enn veitíngar ok voru vígdir. Jón prófastr Ásgeirsson fèkk Hollt í Önundarfirdi, Eggert Gudmundarson tukthússrádsmanns frá Hjardarholti, Vigfússonar í Hjörtsey, Gilsbakka; Árni Snorrason prests frá Hjaltastödum í Skagafirdi, Bjarnasonar prests, Jónssonar frá Grímsey, þess er týndist á Skaga, Fell í Slèttuhlíd. Jón Grímsson Húsafell, því Snorri prestr, son Bjarnar á Hvanneyri, Þorsteinssonar í Höfn, sá er þar hafdi lengi verit, en fyrr í Adalvík, var eigi lengr til færr fyrir elli sakir, ok var hann þó ern lengi, því hann var hraustr ok hardgjörr ok atgervimadr um marga hluti. Daniel Jónsson, Sveinssonar prests, Gudlaugssonar, fèkk Stadarhraun, Hannes prófastr í Þíngeyjarþíngi, Lárusson Skevíngs, Hannessonar, Laufás; Þórdr Þorsteinsson, Þórdarsonar prests í Hvammi í Hvammssveit, Þórdarsonar, Hvamm í Nordrárdal; Björn Halldórsson Eyjadalsá, ok ei megum vèr þá alla telja. Hinn 7da dag Octobris lèt Ólafr stiptamtmadr bjóda til fèlagsfundar í Reykjavík, í minníngu doktors Hannesar biskups, urdu nær 200 saman í latínuskólahúsunum, stiptamtmadr sjálfr ok amtmadr Wibe, landfógeti ok lögmenn bádir, ok margir klerkar: Geirr prestr Vídalín á Lambastödum, hann var biskupsefni, Markús Magnússon stiptprófastr, Jón landlæknir Sveinsson, Vigfús Þórarinsson sýslumadr, hann bjó þá at Hlídarenda, Þorvaldr barnaskólahaldari, Bödvarsson prests, Högnasonar, Rectores, kaupmenn ok bændr gódir, einnig skólasveinar; var þar súngit nokkut, er Magnús lögmadr Stephensen hafdi orkt, ok þareptir hèlt hann tölu lánga á tölustóli; at henni lokinni var súngit aptr, en stiptamtmadr hèlt sídan gestunum veizlu allgóda. Var sídan

Magnús Stephensen tekinn til formanns vid lestrarfèlagit, í stad hins, er andadr var. Markús prófastr í Gördum hafdi verit settr fyrir stiptid. Á því hausti týndist Stykkishólms skip med 7 mönnum nálægt Flatey á Breidafirdi, voru þá þídur ok vætur jafnan. Þá fengu þeir sýsluskipti Finnr Jónsson, er Borgarfjardar sýslu hafdi haldit, ok Jón Espólín, er haldit hafdi Snæfells sýslu, því at Finnr hafdi fast leitad eptir, voru þeir ok óríkir bádir ok ókvæntir, ok hafdi Jón safnat skuldum nokkrum.

## LXV. Kap. Hrakníngr Erlendar.

Seint í Octobri vard hrakníngr Erlendar bónda Gudmundarsonar á Holltastödum í Lángadal, hann var bródir Gudmundar prests, er verit hafdi at Undirfelli, ok voru 5 saman med honum; þeir lögdu út til ródrs frá Ásbúdum á Skaga á sexæríngi stödugum, voru honum vanir at róa 6 menn eda 7, en þá var mannfátt; var Erlendr formadr, en hásetar voru: Davíd sonr hans 18 vetra, Jón Ólafsson, Gudmundr Jónsson, Jón Illhugason, hann var úngr ok heilsulinr; Arnþórr hèt madr, er Erlendr lofadi at flytja í því þeir settu frá landi; þeir lögdu út hinn 20ta dag Octobris, á midvikudags morguninn fyrstan í vetri, höfdu þeir hvorki segl nè stjóra, því at þat var eigi venja, var vedr gott ok lygnt, en er þeir komu austr milli skers ok lands, er kallat er, virtist Erlendi lopt vindlegt, ok hèlt inn á vid hóglega undir landsynníng; þeir rèru inn á þar er köllud er Hamraslód, í medal-fiskileitum, ok renndu vödum um hríd, en skjótt þykknadi, svo Erlendr lèt hánka upp færin, ok halda til lands sem mátti; en er eptir mundi hálf vika, brast á hid mesta sunnanvedr, ok gjördi svo mikit hafrót at þeim bar ekkert áfram, gekk svo til þess er þeir urdu aflvana. Þá tók Erlendr þat ráds, at hann batt saman ífæru, hákallasókn ok þrjá hina sterkustu aungla, ok lèt krókana snúa út, ok sívafdi at utan, batt vid haldfæri þrjú med vadsteinum, ok renndi til botns; festust þá krókarnir, en ekki treystist hann at binda færin vid skipit, því hann vissi þau mundu hrökkva í svo miklu hafróti, ef strídt væri; hèlt hann endunum, ok slakadi nokkut til stundum, vard hann þá gagndrepa af sjáfaraustri, ok hafdi aflraun mikla at halda svo lengi strengnum; var þat ok hættulegt, at hann kynni at hrökkva útbyrdis, eda meidast ok togast um of í örmum; þat gekk lengi dags, slitnudu tvö færin en Erlendr þreyttist at vonum; hit þridja sagadist í sundr um kvöldit vid botninn, ok vard þá ei vid rádit lengr, ok rak skipit í haf um nóttina; var sú nótt allógrleg í vetrar skammdegi í hinu mesta ofvidri ok sjó, þar sem Erlendr var mjök þreyttr, en Davíd sjósjúkr, dreif ok sjórinn yfir allt jafnt, en skipverjar

sátu þó undir árum, ok kostudu alls at halda skipinu í horfi. Erlendr lèt þá snidskera medan mátti; en er birti á fimtudaginn lygndi nokkut, ok sáu þeir at þá hafdi svo mjök í haf rekit, at Skagaheidi ok þridjúngr fjalla mundi í sjó, gekk þá vedr til útsudrs, ok leitudu þeir vid at ná Fljótum, var þat í land heldr at sækja, gekk þeim vonum fremr um hríd; en er þeir komu fyrir Skagafjörd opinn, gjördi landsynníng, jafn óskaplegan sem í fyrstu, ok allt til kvelds; rak þá nú aptr ok voru bædi vonlausir ok þrotnir af vosi ok sulti, en þó gaf sjaldan mjök yfir, bægdi ok ekki í haf, því austrfall var mjök mikit, ok komu þeir um kveldit allnærri landi austanvert vid Ólafsfjörd, at því er sídar vitnadist, svo at þeir sáu gjörla undirlendi; kom þá enn hit mesta vedr ofan af landfjöllunum, med fellibyljum ógrlegum, svo at særokan tók hátt í lopt upp, en brothljód í skipinu; lagdist þá Jón Illhugason fyrir, med öllu þrotinn, ok mjök rænuskertr, en Erlendi lá vid bana af köldu-flogum, dró sik þó í skipsbarkann, en bad þá þrjá, er uppi sátu, at halda skipinu í horfi sem mætti, ok verjast áföllum; hann blundadi nær midnætti, en reis upp sídan, ok settist undir ár, ok lèt hina hvílast til skipta; var Arnþórr þrotinn, ok sjónlítill af særoki, en Jón Illhugason andadist í dægramót á föstudaginn. Þar eptir lygndi nokkut, en þá voru þeir svo máttfarnir, at ei fengu vid rádit, voru þeir komnir í vog nokkurn mikinn, er þeir þekktu ekki, ok voru há fjöll at sunnan ok austan, en lángt nes fram í sjóinn frá austrfjöllunum, er Erlendr ætladi vera Tjörnnes, ok væntu þeir þá enn at þar kynni upp at komast; en er fullbjart var, vóx aptr hvassvidrit af þeim fjöllum, ok rak þá sídan allan daginn í haf, til þess er fjöllin urdu lág ok bláleit, ok nesit mjök gengit fyrir; en er náttadi, gjördi fjúk ok lægdi sjóinn ok vedrit; tóku þeir þá enn stefnu at landi; goladi þá nokkut ok vissu þeir ei hvadan, því at undiralda var þá engin — en er fjúkit birti, sáu þeir fjöllin, ok lètu þau á stjórnbord; en á bakborda sáu þeir hnjúk einn, þat reyndist sídar Grímsey; tók Erlendr at rádgast vid Jón Ólafsson, hvort heldr skyldi stefna á fjöllin eda hnjúkinn, en hann var allmjök þrotinn ok rænulítill, rèdu þeir þó af at stefna á fjöllin, sátu þá ei adrir uppi en þeir tveir. Þeim gafst útnyrdíngr med sjóleysu um nóttina eptir, en undir daginn gjördi fjúk, ok svöludu þeir sèr á snjó, hrestist Erlendr þar vid, en Jóni versnadi. Ok er birti upp aptr, hèldu þeir austr med fjöllunum, lagdi þá Jón upp ár, því hann var yfir kominn, en Gudmundr tók at bera vid at róa móti Erlendi. En í hálfbjörtu á laugardaginn sá Erlendr til hægri handar hólma einn mikinn ok flatan, þat var Flatey; þeir stefndu þar at fastalandinu, ok hittu sandvík eina, skammt frá bæ nokkrum; komst Gudmundr ekki út, ok vard Erlendr

at taka vid skipinu, þó máttfarinn væri, ok stydja hann á land. Þar voru menn nokkrir at saga trè, komu þeir at, ok brýndu skipinu; þat var Hjálmarr bóndi Finnbogason, er þar bjó, hèt Óluf kona hans, ok var Bjarnadóttir, en bærinn heitir Vík á Flateyjardal. Þádu þeir þar alla hjúkrun; voru þeir bædi kaldir ok rifit hörund af, ok Erlendr skemmdr mjök á höndum ok sýktist; var vakat yfir þeim nótt ok dag í 16 daga; ok þat ætludu menn, þá mundi hrakit hafa meir en 30 vikur sjáfar med landi fram. Urdu margir gódir menn til at lidsinna þeim, ok komust þeir Erlendr ok Arnþórr heim fyrir Jólin, en Davíd lá eptir í örkumslum, því hann var kalinn mjök á fótum. Tveir menn fórust þá med 30 saudum á Vattarnesi í Fáskrúdsfirdi.

## LXVI. Kap. Ýmsir tilburdir.

Á þessum misserum kom út í Leirárgördum lærdómsbókin, þótti þá mörgum sem börnum mundi ördugt í fyrstu at svara eptir, er engin voru spursmálin, en þó at bókin sjálf væri betri til skilníngs en hinar fyrri höfdu verit, voru þó látin spursmál fylgja; einnig kom stafrofs kver med frædum ok bænum, ok Vinagledi Magnúsar Stephensens, allfródleg ok gamansöm, en klausur nokkrar voru þar í, er mörgum gatst ekki at, þóttu frekar, því hann hafdi tekit sèr þat nærri er sumir vildu ei þekkjast þat er honum þótti þarflegt, ok ordit nokkut brádr; komu þá upp kvedlíngar hjá sumum, ok orktust menn á med eda móti, ok lítt stundum med mannúdar gæzlu. Stúrms hugvekjur komu ok út, er útlagt hafdi Markús prestr Magnússon, er þá var stiptprófastr, ok vígdi Reykjavíkr kirkju; einnig tídindi, lögþíngisbækr ok yfirrèttar, ok
1797. annat smálegt; en á Hólum voru prentadar upprisu hugvekjur, ok fóru þar um brèf frá nordrlandi til Leirár, því at Sigurdi biskupi var þadan úr átt fundit til vansemdar um prentverkit á Hólum, ok hvern frama þat ynni, en gripit vid því sydra, bædi fyrir þá sök, at þar var vili til at koma fleiru á lopt en fornum bókum, þeim er ræktar voru fyrir vana sakir, og svo hinu, at rígr var milli prentsmidjanna, ok drógu þeir sik fram er meira máttu, sem sídan birtist. Steyttu menn sik margir á því nordanbrèfi, er at þessu laut, ok sá kalladi sik Holanophilum er ritad hafdi, ok svo undirtekt Magnúsar Stephensens, ok því, at hann lèt birta þat í tídindum, ok var spè í því; en Sigurdr biskup eignadi þat þó meir meinsemi annarra vid sik en honum, ok kvadst ætla hann vænlegan til góds höfdíngja, er honum ykist reynsla. Þat vard þá til tídinda nóttina hins 10da Januarii, at peníngahús brann í Arnardal vid Skutilsfjörd, med kúm fjórum ok bola. Þá sá Jón bóndi

Jónsson í Reykjahlíd nordr, rèttordr madr, eldsloga nokkurn sudr á fjöllum, tvö kvöld um vetrinn, ok vard varr vid öskufall; þess urdu ok fleiri varir. Rak þá mikit af svartfugli daudum um nordrland allt. Vetrinn var blídr ok med blákum, svo at kýr gengu vída úti, en sumstadar voru jafnan rigníngar. Í nordrlandi gjördi snjóa med þorra, ok jardbönn sumstadar, ok fennti penínga, en í þorra lok gjördi aptr hin beztu vedr til krossmessu, ella hefdi ordit fellir mikill. Jörd var alltjafnt klakalaus, ok var unnit á túni á Þóroddstödum í Ólafsfirdi ok ausin í midgóe, en reist kirkja á Skeggjastödum á Lánganes-ströndum á einmánudi; en mjök var vedrasamt, ok vard hinn mesti skadi á jördum vestra, ok hljópu á skridur ok aur med vatnagángi, svo at sumar jardir í Ísafjardar sýslu urdu nær óbyggjandi; þar höfdu ok brotnad fyrir stórvidri 8 skip snemma á vetrinum, ok tekit 87 saudfjár at Höfn í Dýrafirdi. Penings burdir urdu sumir nokkut óskaplegir. Þá drukknudu hinn 7da dag Martii mánadar sjósóknarmenn gódir í Fljótum: Jón Eyólfsson á Yzta-Mói ok Jón Arason á Mid-Mói, bródir Þorsteins bónda at Höfda, er þeir fóru at vitja um sela nót á kænu, en Þorsteinn Jónsson á Fjalli í Grafará á Höfdaströnd, Sjö menn týndust á sjó úr Stadarsveit, en tveir úr Borgarfirdi. Rak skip enskt mastralaust í Medallandi, öndverdlega í Aprili, þat var komit úr Ameríku vestan, ok flutti lýsi ok fisk, fannst ok á því vín nokkut ok skipskostr. Á þeim vetri ofanverdum, ok um vorit, öndudust allmargir menn í fremri tölu, fyrst Anna Eyríksdóttir, kona Sveins prófasts Halldórssonar í Hraungerdi, en systir Jóns conferenzráds; sídan Steindórr prestr at Hvammi í Nordrárdal, Jónsson, Eyríkssonar vid Búdir, Steindórssonar, gódlátr madr ok gildlegr; Ólafr Gíslason Waager, kaupmadr á Akreyri; Þórdr Þoroddsson heyrara Þórdarsonar, eda Thoroddi, er vída hafdi farit um lönd, ok Stephán prófastr í Presthólum, Þorleifsson, Skaptasonar; Gudlaug Magnúsdóttir, kona Erlendar prófasts Jónssonar at Hrafnagili, en systir Gísla biskups, ok úng dóttir Finne landfógeta.

## LXVII. Kap. Frá tilburdum, biskups vígslu ok veitíngum.

Eptir krossmessu kólnadi vedrátt, ok gjördi nordan þurvidri hvöss, ok kyrkti grasvöxt allt til Jónsmessu, en þadan af batnadi, ok voru þurkar miklir ok gódvidri, nema nordaustr um landit, þar var regnasamt ok skriduhætt, sem enn mun heyrast, vard grasvöxtr í medallagi vídast, en nýtíng á eptir hin bezta. Þá gekk landfarsótt mikil, ok dóu börn mjök mörg, ok nokkrir fullordnir; andadist Jón prestr Hálfdanarson at Eyvindarhólum undir Eyjafjöllum, en þá edr hit fyrra árit Gísli prestr

Sigurdarson í Heydölum, hann var son Sigurdar prests Sveinssonar frá Svínafelli, Jónssonar, Einarssonar, Jónssonar at Hofi, Sigmundarsonar, Ormssonar; en Einarr Jónsson var bródir Sigmundar á Hnappavöllum; átti hann fyrri Íngibjörgu Brynjólfsdóttur, ok voru þeirra synir: Árni prófastr at Kálfafelli, ok Brynjólfr prófastr í Heydölum, fadir doktors Gísla ok þeirra systkina; annarr dó Jón prestr Grímsson í Görðum á Akranesi, ok enn Björn Snorrason, er verit hafdi kapellan födur síns at Húsafelli, af líkþrársýki, ok enn Íngibjörg Jónsdóttir, kona Þórdar prests á Völlum, Jónssonar prests, Halldórssonar, hún drukknadi í Hörgá; dó ok Gudmundr á Hálsi í Kjós, bóndi merkilegr. Tveir menn drukknudu á Skaga, 4 á Seltjarnarnesi af tveimr bátum. Pètr, son Jóns læknis Pètrssonar í Vidvík, drukknadi einnig í Hjaltadalsá vid ármót, ok fleiri einstakir. Slys vard vestra í Knararkoti, var húsfreyja at færa upp slátr, en barn hennar þriggja vetra fèll í sodpottinn, risti hún ekki utan af því, heldr færdi þat úr, ok fèkk þat bana daginn eptir. Kona dó af barnssæng í Hrútafirdi, ok fæddist barnit andvana, eptir þat er hún var stirdnud; börn tvö bárust vansköpud ok adrir burdir. Peníngr var ardsamr um sumarit vída, ok fiskiafli gódr í Nordrlandi, en lítill í Múla sýslu. Þá rak mikit fyrir nordan ok vídar, af vestindiskum sykrreyr, ok þótti furdanlegt. Smá húsbrunar voru vída. Tók snjóflód bæ at Fjósum í Mýrdal austr, týndist þar allt þat er inni var, nema menn ok kýr. Þá tóku þeir sýslur, er þeir höfdu fengit í skiptum, Finnr Jónsson ok Jón Espólín, ok fóru hvorr til sinnar; verdr þess at geta, at med þeim höfdu verit, sem fyrir búi, þjónustustúlkur þeirra, hèt Úlfdís þjónusta Finns sýslumanns, dóttir Jóns í Botni, Ísleifssonar, hafdi hann tekit hana at sèr þá hann var í Reykholti, ok þó allnaudugt systur sinni þar, en ei þótti þat illa rádit, þvíat hann var ádr haldinn laus fyrir til kvenna, ok fèll þó eigi til hags honum, þvíat hún var medallagi sidlát; höfdu þau búit í Bæ þann vetr, ok var mjök almælt þar í sveit at hún hefdi þúngud ordit, en enginn sannadi þat; eptir þat kom hann henni fyrir um tíma at Leirá, sem til náms. Jón Espólín hafdi haldit Rannveigu, dóttur Jóns bónda á Vatnshorni í Haukadal, Egilssonar; módir Jóns bónda var Helga, er lengi þjó á Jörva ok var audug, dóttir Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni, af ætt Þórdar lögmanns. Jón Egilsson var vitr madr ok vel at sèr, ok í þennan tíma gamall, en þeir gallar höfdu lagzt á rád hans, at hann tók framhjá hinni fyrri konu sinni, ok átti tvö börn med þeirri konu er Íngirídr hèt, sídan gaf Gunnarr prófastr Pálsson hann saman vid Íngirídi, ok lá vid embættistjóni, en þau áttu sídan þrjú börn saman, ok var Rannveig elzt af þeim; gjördi konúngr börnin öll arfgeng, en sídan vard

Jón frásnúinn Íngirídi, ok fór hún frá honum ok börn hennar, med valdi ok fylgi Magnúsar Ketilssonar sýslumanns, ok lidu vid þat afdrátt mikinn, tók Jón Espólín þá Rannveigu at sèr, þótti hún verd atstodar, ok áttu þau samskipti, vildi hann þá ei yfirgefa hana, ok ætladi at fá hennar, en frændr hans lögdust nokkut svo á móti; þá gjördist berara um samfarir þeirra, ok því meir sem þat var torveldat, ok vard hún þúngud; en Stephán vicelögmadr á Hvanneyri lagdi þá til vid födur sinn, at hann teldi Jón sýslumann Jakobsson í at mótfalla ei hjónabandi þeirra, ok var þat þá eptir látid; kvongudust þeir nú Finnr bádir, ok var bod inni at Leirá, at Magnúsar lögmanns Stephenssens. Þar var einn heldri madr útlendr, er svo sagdi, at hann sá þar konur ólíkastar í líkri röd. Fór Jón Espólín at búa í Þíngnesi, en Finnr fór vestr, ok bjó at Sveinstödum, ok gekk þar mjök á adra leid en hann hafdi ætlad. Veitíngarbrèf var gefit Geiri Vídalín Jónssyni, presti á Lambastödum, hinn 10da dag Maji, fyrir biskupsdæmi í Reykjavík, ok var hann vígdr af Sigurdi biskupi Stephánssyni á Hólum hinn 30ta dag Julii. Hafdi enginn biskup verit vígdr fyrri hèr á landi, nema Jón Vigfússon, hann var vígdr af Skálholts biskupi til Hóla, en nú Reykjavíkr biskup af Hóla biskupi, ok þat annat hafdi ei fyrr verit, at Skálholt var eigi biskupssetr; var Geirr biskup lærdr madr, ok hit mesta ljúfmenni. Gudmundr prófastr Jónsson úr Árness þíngi fèkk þá Stadarstad, hann var á Ólafsvöllum fyrri, fadir hans hèt Jón, á Sólheimum austr, Stephánsson, Gunnarssonar frá Hvammi, Jónssonar, Stephánssonar í Oddgeirshólum, Gunnarssonar á Vídivöllum, Gíslasonar, en Hallgrímr prestr, Jónsson prófasts, Magnússonar, kapellan þar, fèkk Garda á Akranesi; Jón son Þorleifs landskrifara var settr fyrir sýslu í Vestmannaeyjum, en Þórdr Bjarnarson Thómassonar fèkk brèf fyrir Þíngeyjar sýslu.

## LXVIII. Kap. Frá konúngsbrèfum, prentverki ok málum.

Þá var rádit at nýta skyldi til lærdóms framfara hèr í landi þá peninga, er safnat hefdi verit um Danakonúngs lönd til vidrèttíngar Hólastól ok heyrist enn gjörr; en Nordlendíngar þóttust heldr hremmdir ok aflaga bornir med sumt, ok þó meira sídarr. Kom þá konúngsbrèfit út um sættanefndir, ok hófust þær fyrst hèr í landi á þeim missirum; afstýrdu þær mörgum málum, en þó ei svo mjök sem menn kynnu ætla, ok var þat helzt efni til, at hvert smárædi, er menn hlífdust ádr vid at bera undir dóm, eda sýslumenn eyddu, var nú borit fyrir sáttamenn, en kom sídan til dóma, hversu lítid sem var, ef ei vard af sáttum.

Sídar á þeim misserum voru gefin út konúngsbrèf um vitnisburdi af kirkjubókum í sakamálum, ok um netalög, at leggja mætti á laugardagskvöldum ef svo snemma væri upp tekin at morgni, at ei hindrudust kirkjuferdir; ok um forkaupsrètt leigulida til ábýlisjarda þeirra. Eitt var um þat, at hvorugt prentverkit hèngi af ödru, ok mætti hvort um sik prenta allskonar bækr, vard þat leyfi skammvinnt: eitt veitti Magnúsi, syni Einars Magnússonar sýslumanns á Ströndum, er fyrr hafdi verit at Kvennabrekku, ok frádæmdr var prestskap fyrir barngetnad, leyfi at bera prestabúníng. Eitt var um þat, at af skyldi taka Nes kirkju, ok leggjast þat, er af skuld gángi, Reykjavíkr kirkju. Enn voru fleiri, ok þó Cancelliebrèf at auki. Á alþíngi um sumarit sókti Jón Jónsson sýslumadr í Bæ Jón Espólín um dóm í máli Andrèsar nokkurs, er sleginn var í Ólafsvík, ok skyldu þeir er slógu gjalda Andrèsi, en sýslumadr málskostnad med 6 dölum; þar var Vigfús Þórarinsson sýslumadr sóktr um ill ord til Árna kaupmanns Jónssonar Reynistadar-mágs í Grindavíkr málinu, ok dæmdr í fèsekt, ok þarmed fyrir órádvanda málssókn af Benedikt Gröndal, en hann appelleradi jafnskjótt til yfirrèttar. Ásgrímr Vigfússon Hellnaprestr hafdi ok mál fyrir vid Jón Espólín um dóm á próventu gjöf, ok var þá stefnt fyrst, ok ödru máli úr Snæfells sýslu, er Sæmundr prestr Holm hafdi í móti Hallgrími Bachmann lækni, um áþrif vid sik óþyrmileg eptir messu, er Finnr Jónsson hafdi dæmt í, ok sektad prest fèsekt. Bodit var þá Ólafi stiptamtmanni at láta sækja Jón Helgason sýslumann fyrir rángt atferli í máli Sigrídar nokkurrar, er barn hafdi getid vid Gudmundi bródur sínum; hafdi hann ei tilkynnt þat stiptamtmanni, ok ei at gjört, en spurt sik fyrir vid konúng, hvort Gudmundr mætti ei fá eid, en nú kenndi Sígrídr barn ödrum bródur sínum. Þá kom út í prentverkinu annat bindi af Stúrms hugvekjum, ok Gaman ok alvara, er Magnús lögmadr Stephensen ritadi.

## LXIX. Kap. Tilburdir fleiri til árs loka.

Þat sumar var gód nýtíng sunnanlands, sem ádr er sagt, ok fengu menn hey mikil ok settu mjök á, en fyrir nordaustan voru rigníngar ok nýtíng ill, ok fèllu vída skridur um Eyjafjörd ok Yxnadal, ok tók ein skrida bæ at Gudrúnarstödum hinn 18da dag Septembris, komust þó menn af, ok var þeim gjörr greidi mikill; var vindasamt haust, en vetr öndverdr áhlaupasamr ok snjóamikill. Eptir vetrnætr andadist Gudrún Árnadóttir á Ökrum, ekkja Gísla prests, er seinast var í Arnarbæli, Magnússonar. Í Novembri drukknudu tveir menn af báti á Skaga. Þat haust voru 60 hnýdíngar reknir á land á Stapa med smábátum,

ok lagdi Hans Hjaltalín kaupmadr helzt rád á til þess. Þá gjördist Torfi prestr í Hruna Jónsson, Finnssonar biskups, prófastr í Árness þíngi, fèkk hann þá ok Hruna, því fadir hans sagdi af sèr, en Brynjólfr, er þá var pro-conrector vid Reykjavíkr skóla, son Sigurdar landskrifara, var skipadr til Seltjarnarnes þínga; hann vígdist til Reykjavíkr ok Videyjar, en 6 skólamenn til kapellana, var einn Thómas, son Sigurdar sýslumanns úr Borgarfirdi, Sigurdarsonar; einn Eggert, son Jóns prests Eggertssonar frá Skardi, Bjarnasonar hins ríka; einn Audunn, son Jóns prests at Mosfelli Hannessonar ok Sigrídar Arnórsdóttur sýslumanns; ok fyrir nordan: Björn Halldórsson til Eyjadalsár, er seinna vard merkilegr, Jónas Jónsson til Ness í Adalreykjadal, ok Jón Konrádsson kapellan til Glaumbæjar, því Eggert prestr Eyríksson tók at eldast fast, var þó hinn hressasti. Laun voru gefin fyrir gardahledslur ok annat, til 280 dala, en all-lítt hvöttust landsmenn vid þat til meira. Þá var vid árslok talit bótafè þat, er höndlunar fèlagit hafdi fyrrum goldit Íslandi, ok á rentum hafdi stadit sídan, ok var nær fjórum hundrudum hinnar sjöttu þúsundar dala, en nær tveimr hinnar fjórdu þúsundar hafdi verit af tekit, ok haft til launa útbýtíngar fyrir jardyrkju ok annat; höfdu þess margir menn at notid, ok gekk þó jafnan til fleira en þess eins, er ætlad var, ok þó hafdi höfudstóllinn allmjök vaxit; en þetta kom fyrir af því, at höndlunar-ákæra Íslendínga, er beidzt höfdu eptir frjálsri kauphöndlan med öllu, hafdi þat ok á skilit, at fá at vita um landsfèd, hve mikit var, en sjálfri ákærunni hafdi konúngr tekit þúnglega, ok vítt þá alla er þar voru vid ridnir ok þó med mildum ordum, ok ólíkum þeim, er hèr tídkudust sumstadar, þá er víttir voru undirmenn. Í þann tíma voru mál Gríms í Skagafirdi, sonar Ólafs prests Jónssonar á Kvíabekk. Á þeim vetri kom út margt frá prentverkinu sydra, sumt á honum öndverdum, en sumt ofanverdum, ok skal allt senn telja: Kross-skóla sálmar, kalladir auknir ok lagadir, sídari hluti kvöldvaka doktors Hannesar biskups; edlis útmálun manneskjunnar, er Sveinn Pálsson hafdi yfirsett; Sigrljód Kristjáns prófasts í Stafhollti, þat voru Sálmar af upprisu Krists ok miklu minni slægr til en vera átti. Passíu hugvekjur Sturms hafdi lagt út Markús stiptprófastr Magnússon; sjö föstu-prèdikanir, er menn vissu ei höfund at; tídindi, lögþíngisbók, ok altarisgaungu kver Halldórs prófasts Finnssonar í Hítardal, er hann kalladi Guds barna bordskikk; einnig Nýárs prèdikun 1798.
Jóns prests at Borg, sonar Arngríms prests at Melum: "vorir tímar standa í Guds hendi"; var hún hans hin sídasta, því at hinn 4da dag Januarii fór hann út úr smidju heitr ok fáklæddr til fjár síns, í hríd, ok komst

ei heim aptr; var hann á 9da ári hins þridja tugar, ok setti Magnús lögmadr Stephensen minníngu eptir hann.

## LXX. Kap. Frá Grími.

Grímr Ólafsson, sá er getid var, frá Kvíabekk, var bródir Jóhannesar prests í Vestrhópshólum, hann hafdi verit í Hóla skóla, ok ætlad þá tvisar eda þrisvar at kveikja í skólanum; sídan tók hann at vilja nema galdra, ok ætladi eitt sinn at vekja upp födur sinn; kom þá prestr sá, er þá var á Kvíabekk, Jón Oddsson, at honum vid leidit, ok bannadi honum særíngar; svo lauk skólaveru hans, at hann stal peníngum frá þeim bónda, er Páll hèt, í Stórubrekku á Höfdaströnd; sídan fór hann á fund bónda, ok vard þess vís, at hann kveinadi um stuldinn, baudst hann þá til at opinbera þjófinn med fjölkýngi, ok lèt bónda sækja mundlaug nýja í kaupstad, ok er þat var gjört þóttist hann ei sjá þjófinn ödruvís en á bak honum, ok bad alla menn fara úr bænum ok fá sèr lykla alla, bóndi kvad svo vera skyldu, ok var borin úr bænum kerlíng ein karlæg seinast, en Grímr var í bænum, ok stal þá enn peníngum, sídan komst hann á brott, svo bóndi vissi ei hvat honum leid, ok stal um nóttina frá Jóni bónda Konrádssyni í Gröf; var þá farit at leita hans ok nádist hann ekki, en í þeirri för týndi hann töfrablödum sínum, þar var ritinn á kontrakt til fjandans, hèt hann honum sèr þar í ok elzta barni sínu; skólasveinar tveir fundu, ok færdu skólameistara, brendu sídan, en Grímr fór strjúkandi ok laug sitt í hverjum stad um för sína; hann kom um sídir til Ólafs stiptamtmanns, ok bar sik aumlega; vissi stiptamtmadr at hann hafdi brotid, en ei hvílíkr hann var, ok tók út yfir hann, ok kom honum á ölmususkóla í Reykjavík, ok sídan, er hann þreifst ei vid þar, sakir óknytta, kom hann honum í kaupskap í Reykjavík, ok mæltist þat ei vel fyrir, ok vard eitt med ödru stiptamtmanni til öfundar af óvildarmönnum hans; en Gríms verdr enn getid.

## LXXI. Kap. Vetrarfar ok tjón, ok manna lát.

Vedrátt var misjöfn eptir nýárit, en hörd fyrir nordan, svo farga vard af heyjum; þá andadist Páll, úngr son Geirs biskups Vídalíns, ok þar eptir Bjarni prófastr Jónsson at Breidabólstad í Vestrhópi; gjördi þá, hinn 29da dag Januarii mánadar, þriggja daga hríd fyrir nordan ok vídar, urdu margir menn úti: einn á Vadlaheidi; einn í Hjaltadal; tveir í Stranda sýslu ok kona austr í Odda; hrakti fè í sjó ok af klettum fram, braut skip ok kaffenti bæi austr um land, ok urdu fleiri óvenjur. Vard fellir eystra, mest í

Skaptafells sýslu ok Rángár þíngi; missti bóndinn á Skardi vid Þverá hundrad fjár í byl, þat hrakti í sjó, en 30 urdu eptir. Sjógæftir voru stirdar sunnanlands til páska, en vetr batnadi med midföstu. Var stillíng á vedri frá páskum til krossmessu, ok fiskadist mikit vídast, nema í Hafnarfirdi, ok einnig fyrir nordan, en þó hindradist þar afli af rekaísi, var þar ok vorit ákastasamt, en hit bezta at vedrátt fyrir sunnan, þó ekki gæftasamt eptir krossmessuna. Þá gekk sótt mikil í Sudr-Múla sýslu, ok dóu börn mörg; 60 dóu þar um árshrínginn. Um vetrinn vard úti Vigfús prestr á Snæfokstödum Jónsson, á heimleid frá Klaustrhólum, ok fannst lík hans vid túnit heima, þá upp lètti bylnum. Í hinum sama byl vard úti piltr í Borgarfirdi, ok fannst á ísjaka. Marga hvali rak um vetrinn nordr um Strandir. Tveir menn drukknudu í Vadla sýslu, fjórir vid Hellna, tveir vid Akranes; Steinn Stephánsson, skólasveinn, drukknadi í Nordrá í Skagafirdi, ok Jón vestra, sonr Gudmundar prests at Stadarstad. Flód mikit gjördi hinn 15da ok 22an dag Martii mánadar, ok eyddi sex grasbúdum; fleiri urdu ok misfarir. Þá deydi Kristín Bergsveinsdóttir, prófastsekkja á Brjámslæk, ok Jón prestr Sveinsson, Pálssonar, Sveinssonar, sá er fyrr hafdi haldit Goddali um lánga æfi, vetri meir en hálfáttrædr, hann hafdi reist allan bæ í Goddölum, ok fært í hann med ödrum manni svo mikit grjót ok stórt, at traudfært þótti sídan at rífa, nema med mannafla, hann hafdi ok sjálfr klappat legstein yfir sik; var hann fadir Gudrúnar, er Oddr prestr Gíslason á Miklabæ hafdi átta, ok Þorsteins bónda, er þá var í Gilhaga, en sídan í Húsey; enn dó Vernhardr prestr Gudmundarson í Otrardal, vetri midr en hálfnírædr. — Þá gjördi enn vedr, hinn 29da dag Aprilis, med brimi, ok voru mörg skip af Sudrnesjum hætt komin; rak upp á Akranes 10 skip af Álptanesi sunnan; var þeim þar vel tekit, ok greìdi gjörr, ok þakkadi Markús prófastr Magnússon þat sídan brèflega, ok hreppstjórar á Álptanesi, Akrnesíngum, ok sendu fátækum þar 13 dali til þakklætis. Þá fèkk Jón prestr frá Vestrhópshólum, Magnússon, prests frá Höskuldsstödum, Borgarþíng, en Hjalti Jónsson viceprófastr Stad vid Steingrímsfjörd, þvíat Jón prófastr Sveinsson, fadir hans, bródir Gudlaugs prófasts í Vatnsfirdi, lèt af stadnum, var Hjalti prestr klerkr mikill. Arnórr, son Jóns prests Hannessonar at Mosfelli ok Sigrídar Arnórsdóttur sýslumanns, var þá pro-conrector vid Reykjavíkr skóla, hann fèkk Hest-þíng í Borgarfirdi ok vígdist, þvíat Þorsteinn prestr Sveinbjarnarson sagdi af sèr ei mjök laungu sídar. Arnórr prestr var lítill madr vexti ok hvatlegr, ordamadr mikill ok skáld, ok hinn skarpasti; fleiri voru þá til presta vígdir; ok þá var heitid verdlaunum af dönskum manni í Kaupmannahöfn, fyrir ýmsar manndóms athafnir hèr,

landsmönnum, en ekki var því mjök sinnt. Þat vor, hinn 24da dag Maji mánadar, andadist Sigurdr biskup Stephánsson á Hólum, á fjórda ári hins sjötta tugar, átti hann eigi barn eptir sik, ok eigi var heimt álag á stólinn af ekkjunni, frú Gudrídi, því at enginn kom til sídan, enda var Stephán amtmadr Þórarinsson henni þá sinnr, tók stiptprófastsdæmi á Hólum aptr Þorkell prófastr Ólafsson, er þat hafdi haft fyrri, hann var allra manna gæfastr ok jafnlyndastr optast, ok eins vid drykk, er hann hneigdist til er hann eltist, en hirdíngarlítill mjök ok gjördi eigi grein á reikníngum, vard hann fèlauss, ok lifdi vid þat lánga æfi, svo at enginn vissi at honum lægi í þúngu rúmi hvat sem yfir hann leid.

## LXXII. Kap. Frá ýmsu því er til bar um sumarit.

Um þann tíma ritudu kaupmenn Íslands móti höndlunar ákærunni: Kyhn, Henkel ok Busch, kalladi Kyhn naudverju þat sem hann samdi; voru þar í margar hardar ákærur móti frændum Ólafs stiptamtmanns, er hann kalladi helzt til marga ok ríka hèr á landi, ok mest á móti Magnúsi lögmanni Stephensen, en Magnús svaradi því aptr med ödrum bæklíngi, allvel gjörfum ok jafn hardfengilegum. Voru í þat mund, ok höfdu verit nokkrar stundir, höfd af ýmsum öfundarmál til Ólafs stiptamtmanns, en þat kom ekki fyrir mikit medan enginn var oddviti at gánga í berhögg vid hann; var all-vingott med þeim Wibe amtmanni, ok þarmed hafdi Ólafr stiptamtmadr fengit virdíngu konúngs, af því at hann fylgdi ekki höndlunar ákærunni, þar sem adrir fengu óþökk; en eitt af því, sem Henkel hafdi getid í riti sínu, var, at hreppstjóri sá í Ísafjardar sýslu, er Þórdr hèt, ok var Þorsteinsson, hefdi tekit þíngsvitni fyrir sik, þá hann þíngadi í forföllum Jóns Johnsoníus sýslumanns, fyrir þat lèt Wibe amtmadr tiltala seinna þeim hreppstjóra, ok enn fleiri vidlíkar sakir hafdi hann fyrir, er sumum þótti kenna óþarflegrar vandfýsni, en var þó samkvæmt tilhlutunum þeim, er amtmenn áttu sídan, ok þótti embætti sitt. Þá tók Hjalti prestr Jónsson á Stad prófastsdæmi í Stranda sýslu, en Snæbjörn prestr frá Ósi í Hörgárdal fèkk brèf fyrir Grímstúngum, son Halldórs biskups, þvíat Jón prestr Jónsson, er fyrr var prófastr í Skagafirdi, hafdi af lagt. Um sumarit ridu menn seinast á alþíng vid Öxará, er lengst hafdi stadit, þvíat landshöfdíngjum þótti þar stundum kaldsætt, er lögrèttan, sú er af timbri var gjör, tók at fyrnast, ok nenntu ei at kosta endrbót hennar, vildu hafa minni ómaka. Nefndi Magnús lögmadr Ólafsson á Medalfelli þar seinast út lögrèttumenn: Bjarna Halldórsson á Hlidi úr Gullbríngu sýslu, Vern-

hard Gunnarsson ok Magnús Þórdarson úr Árness þíngi, ok Davíd á Fitjum, son Bjarnar lögmanns Markússonar úr Borgarfirdi. — Sæmundr prestr Holm at Helgafelli bad um talsmann í móti Hallgrími Bachmann lækni, í Bjarnarhöfn, um þat, er honum þótti hann hafa blakat sik eda jardvarpat, ok Finni sýslumanni, er honum þótti hafa fylgt honum; sídan voru lesin upp konúngsbrèfin, þau er ádr er getid, ok fjárhirzlu-reikníngr Íslands. Þvínæst sóktust þeir Ásgrímr Vigfússon, er þá var prestskaparlaus ok bjó at Laugarbrekku, ok Bjarni Jónsson, er bjó at Hnausum, óvildarmadr hans forn; hafdi Jón Espólín dæmt í millum þeirra um próventumál, var sú sök nidr felld á allar sídur, en Bjarni skyldi gjalda nokkut talsmanni. Sídan tók Magnús lögmadr Stephensen vitnisburd Wibe amtmanns, Magnúsar lögmanns Ólafssonar, Stepháns vice-lögmanns Stephensens, Finne landfógeta, ok sýslumanna er þar voru: Vigfúsar Þórarinssonar, Jóns Espólíns ok Jóns Þorleifssonar, ok svo lögrèttumanna, at lögrèttan var þá óheilnæm fyrir sik af hráslaga, at sitja í, ok kvadst ei hafa heilsu til at sitja þar yfir málalykt Sæmundar prests vid Hallgrím Bachmann ok Finn sýslumann, en Magnús lögmadr Ólafsson dæmdi þar þá enn í málum, einu þrætumáli um Vodmúlastadi í Landeyjum, ok eyddi þar dómi Vigfúsar sýslumanns Þórarinssonar, ok dæmdi honum fèsekt á hönd; en í ödru, er reis af atferli Jóns Helgasonar í sakamálinu, var hann dæmdr í bætr stórar, 100 dali til næsta hospitals, ok adrar fèsektir at auki. Var þá ok sókn á hendr Jóni um samsetu Sveins Sveinssonar vid barnsmódur sína, hafdi hann þrisvar fallit í hórdóm med henni. Jón sýslumadr Þorleifsson hafdi dæmt þau systkin, Sigrídi ok brædr hennar, frá lífi, en Kristján, son Vigfúsar prests Benediktssonar, er settr var fyrir Austr-Skaptafells sýslu, dæmdi Svein á sama hátt, var stirt med þeim Jóni sýslumanni ok Kristjáni. Magnús Stephensen dæmdi ok at lyktum í máli Sæmundar prests, ok vísadi barsmídarmálinu í hèrad á kostnad Finns, en leyfdi presti at fá hans atgjördir prófadar, ok ónýtti dóm hans, kvad ok á, at Finnr sýslumadr skyldi gjalda málskostnad presti, en ei framar, medan ei prófadist meiri sök med honum. Vigfús sýslumadr Þórarinsson appelleradi sitt mál ádr þíngi lauk. Jón Espólín þóttist hafa reynt tveimsinnum áleikni af Finni sýslumanni, en felldi þat nidr, ok hafdi bedit hann taka skuld vestra, dæmda sèr, hann svaradi því eigi vel, ok heldr óvinsamlega, en Jón Espólín hafdi svarat því aptr þúnglega; ok á þessu þíngi afflutti Finnr hann vid Wibe amtmann, vard því þó hnekkt, en er Borgfirdíngar ridu af þíngi Botnsheidi, ok höfdu hresst sik, var Jón Espólín eggjadr fram, ok lagt undir at fá þyrfti hann fyrirgefníngar bón af Finni, en ei mundi þat vinnast

nema honum væri óttad ádr, ok ei yrdi hann ella áreitíngarlaus; bar þeim þá saman fyrst í ordum, ok sídan hrakti Jón Espólín hann nokkut, en hann bad hann sídan forláts brèflega á rógi at Leirá, ok sleit med því, en aldri lèt Jón þat brèf koma fyrir sjónir ödrum, ok brenndi, þá er hann þóttist ei þurfa þess lengr. Jón Helgason var nú settr frá sýslu; en Jón Gudmundarson, Jónssonar frá Núpi, Magnússonar í Brædratúngu, fèkk þá Vestmannaeyja sýslu. Sigurdr, son Gudlaugs prófasts í Vatnsfirdi, Sveinssonar, hafdi faktors sýslu, því hann var vid ýmist brugdinn, ok var þó stúdent ok hafdi leugi verit utan, en Sveinn bródir hans hafdi andazt þar fyrir mjök mörgum árum, var Sigurdr nú látinn halda manntalsþíng í Gullbríngu sýslu, þvíat Sigurdr Pètrsson þóttist lítt heill, enda lítt viljugr at þjóna embætti.

## LXXIII. Kap. Mannalát, skadar ok annat.

Þat sumar í Julio vard skiptjón á Dýrafirdi vestr med 7 mönnum í hákallalegu; en fjórir menn drukknudu í Austfjördum, fóru af Berufjardarströnd til kaupstadar, ok var ætlad at fellibylr hefdi komit í seglit; þeir voru tveir skólalærdir, Einar Þorsteinsson ok Pètr, son Brynjólfs læknis Pètrssonar, hann var vel at sèr, ok silfrsmidr, ok hafdi lagt veg úr Múlaþíngi, úr Brúaröræfum, milli Trölladýngju ok Vatnajökuls, allt á Sprengisand, svo at mjök svo vard komizt fyrir Jökulsá í Axarfirdi. Þat sumar var ill nýting, ok hröktust ok spilltust tödur ok úthey, bárust þá margir vanskapadir burdir. Þau misseri seldi Björn Gottskálksson landsuppfrædíngar fèlaginu prentverkit í Leirárgördum, voru þeir þá Geirr biskup Vídalín ok Magnús lögmadr Stephensen sem ódast at safna til sálmabókarinnar; þeir sálmar voru flestir yfirsettir, ok þó sumir frumkvednir en sumir fornir. Þorvaldr Bödvarsson prests, Högnasonar, skólahaldari, er misst hafdi prestskapar fyrir barngetnad, en haldit sídan barnaskólann á Hausastödum, kvad flesta, en suma kvad Jón prestr Hjaltalín Oddsson, er þá hèlt Saurbæ á Hvalfjardarströnd, eda Jón prestr Þorláksson at Bægisá, er bezt skáld var þá kalladr á landi, eda Kristján prófastr Jóhannsson í Stafhollti; en þar eptir kvádu nokkra Arnórr prestr Jónsson, Þorsteinn prestr Sveinbjarnarson, Jón Espólín ok Magnús lögmadr Stephensen sjálfr; en þat þótti alþýdu verst seinna, er bókin kom út, at þeir biskup ok lögmadr breyttu allvída ordatiltæki í hinum fornu sálmum, ok fundust þeir stadir, er þat var eigi til betra. Á þeim misserum öndudust nokkrir merkilegir menn: Jón prestr Þorgrímsson prests, Jónssonar prests, Þorgrímssonar prests, Ólafssonar, er haldit hafdi Háls í Fnjóskadal, ok þá gamall, ok hafdi

verit orkumadr ok hardgjörr af sèr, fadir Þorgríms bónda at Á í Ólafsfirdi; Sigrídr, kona Jónasar prests Jónssonar at Nesi í Adalreykjadal; Karen Bjarna dóttir kaupmanns Thorlaciuss, Halldórssonar biskups, kona Nicolásar Buchs í Húsavík, þau áttu 10 börn eptir; Björn apótekari at Nesi, Jónsson, Bjarnarsonar frá Bustarfelli, hinn 19da dag Septembris, hann hafdi verit ríngladr í nokkur ár, hafdi hann þótt allmerkilegr madr, helzt at trúleik ok frændrækni; Hallgerdr Magnúsdóttir hins prestlausa í Stóraskógi, Einarssonar sýslumanns, Magnússonar, hafdi hana átt Jón prestr Gíslason, er um þat bil var í Hjardarhollti, ok var þeirra son Þorleifr prestr; Meistari Bjarni Jónsson, prestr at Gaulverjabæ, er rektor var fyrri, hinn lærdasti madr ok bezti kennandi; Sigurdr prestr Vigfússon at Hofi í Álptafirdi, Hákon prestr at Álptamyri, son Mála-Snæbjarnar Pálssonar, hann var madr gamall. Þórdr prestr Ólafsson, prófasts at Ballará, hann drukknadi, yfir hann setti grafskript Benedikt Bogason at Stadarfelli, mágr hans; Anna Jónsdóttir í Gegnishólum, ekkja Einars prests Jónssonar á Landi; Gudrún Jónsdóttir, kona Jóns prests Hjaltalíns í Saurbæ; hún dó af barnsæng, voru hennar börn Oddr Hjaltalín læknir ok 12 önnur; Stephán Bjarnarson mælíngarfrædismadr, er fyrr er getid á Hólum, dó utanlands. Þá fèkk Björn prestr Hjálmarsson Tröllatúngu; Jóhannes son Ólafs prests Jónssonar á Kvíabekk Vestrhópshóla; Eggert prestr Jónsson, Eggertssonar, Bjarnasonar hins ríka á Skardi, Álptamýri, var hann dótturson Hákonar prests Snæbjarnarsonar; Audunn prestr, Jónsson prests, Hannessonar, Mosfell, því at fadir hans lèt af stadnum. Hit helzta konúngsbrèf, er þá var gefit út, var um refsíngar dóma yfir ómyndugum, at eigi framkvæmdist fyrri en bornir eru fyrir Cancelliit; ok um lausakonur, er eiga mörg börn, at frelsist frá refsíngu, ef giptast ádr fjórdungr árs sè lidinn; en Cancellie brèf voru ýmisleg. Þat sumar voru fluttar utan 250 tíu fjórdúnga vættir af brennisteini frá Húsavík. En hinn 7da dag Augusti brann badstofa at Barmi í Bardastrandar sýslu, med öllu því er inni var, medan fólk var á engjum. Í þeim mánudi brotnudu 3 skip á Raudasandi, en eitt í Reykhóla sókn í Octobri fyrir stórvidri. En hinn 15da dag Octobris hrakti í sjó í áhlaupabyl 50 saudfjár frá Skerdíngstödum í Reykhóla sveit. Á því hausti urdu menn mjök at farga af peníngi, sakir bágborins heyskapar, helzt nordanlands; týndu menn um vetrnætr saudkindum í sjó at Hafnarhólmi í Stranda sýslu, hrapadi ok fennti einnig vída á Fellströnd lömb ok geldfè, nær hundradi. Þá vard úti Jón bóndi Markússon frá Skálmardal, er hann fór úr Ísafjardar sýslu yfir Skálmardalsheidi, ok Þorleifr vinnumadr hans med tveimr hestum ok saudkindum nokkrum, ok 30 saudir í Arnardal vid Skutilsfjörd; ok enn fleiri urdu þá skadar.

## LXXIV. Kap. Vetrarþúngi, vedr ok brim.

Eptir midjan October mánud lagdi vetr at, med hinum mestu hrídum ok snjóþýngslum fyrir nordan ok vestan land, svo vída vard at taka útigángs penínga á gjöf, en hey voru lètt, ok gjördu kýr lítt gagn af, þótt ei hefdi svo at borit; fennti þá ok hrakti fèd vestra, sem ádr segir, en í Skriddal í Sudr-Múla sýslu misstu flestir bændr 20 kindr ok allt at 40, batnadi þó í midja jólaföstu, ok var sídan betra, nema vetr var mjök med áhlaupum; rak þá 4 eda 5 stórhvali vestra en
1799. marga smáa. Þá gjördi, atfara nótt hins 9da Januarii, sunnan ok vestanlands vedr mikit af útsudri, höfdu þó komit önnur fyrri, en eigi jafnmikil; fylgdi því vedri regn mikit, þrumur ok leiptranir, ok var himininn all-ógrlegr at líta, þar med fylgdi brim ok hafrót med miklum straumi, ok urdu því skadar hvervetna sem mestir máttu verda hèr af slíku; tók sjórinn vöruhlada-hús á Eyrarbakka med allmikilli vöru, en vidinn rak upp í mýri lángt fyrir ofan; stakkstædum öllum velti um ok steina skansi, er þar var hladinn, svo at engin merki sá til þegar fjaradi; timbr ok annat bar sjórinn víds vegar, en gróf grundvöll undan flestum húsum, spillti vörum, gekk upp um húsagólf, ok braut glugga ok þili; voru menn þar í svo mikilli hrædslu, sem líklegt var, at sjórinn ok vedrit mundi lífláta þá alla, en þó lèzt enginn, vard þó hvergi flúit undan. Malarkampinn allan braut sjórinn af, svo at sýnilegt var at hit næsta flód mundi gánga undir húsin upp, brotnudu í Stokkseyrarhverfi 26 skip ok bátr einn. Jardir spilltust þar ok brotnudu hús; tók út bædi hey, hross ok kýr í Stokkseyrar hjáleigum, svo at sumar urdu ei byggilegar; vard ok líkr skadi á tveimr býlum hins sjötta tugar í þíngsókninni, ok flýdu 29 menn heimili sín med öllu. Skadi vard í Þorlákshöfn ok Selvogi. 5 hjáleigur spilltust í Grindavík ok tók völl af tveimr, braut ok tún vída; þar brotnudu 6 skip, en 8 meiddust, ok fórst 100 saudfjár. Timbrkirkjuna í Hvalsnesi tók ofan at grundvelli í vedrinu, ok sá ekki eptir af, ok öll höndlunar ok bæjar hús á Bátsendum braut sjór ok vedr, svo þar stód ekkert ok rótadist grundvöllrinn, fèkk einn madr bana, en Hansen kaupmadr flýdi at Stafnesi med konu sína ok börn. Fiskigardar ok túngardar á Nesjum sópudust heim á tún, sumstadar tók af túnin, skipa uppsátr ok brunna, ok braut 8 skip; kirkjan skekktist í Kirkjuvogi; þar brotnudu í sókn tvö skip, ok meiddist madr. Tveir bátar fuku í sjó í Njardvíkr sókn, ok fundust ei sídan, ok einn brotnadi; 4 brotnudu í Útskála sókn. Tók af völlum á Vatnsleysuströnd, spillti malarkömpum ok ödru; skekkti kirkjuna í Kálfatjörn fyrir vedri, en tvö negld bord tók af mæni hennar,

ok sáust aldrei sídan. 9 bátar ok eitt fjögra manna far brotnadi þar á Ströndinni. Þá tók ofan at grundvelli kirkjuna at Nesi vid Seltjörn, nýlega, vandada ok sterka, ok spillti mörgum jördum; sagdi Geirr biskup Vídalín, er þá bjó at Lambastödum, at 5 álnum hefdi sjór gengit hærra, þverhnýptu máli, en í ödrum stórstraumsflódum; braut sjórinn þvert yfir um nesit fyrir innan Lambastadi, svo at hvorki var fært hestum nè mönnum; lèt biskup mæla þat, ok voru 3 hundrud fadma tírædir; spilltust til ónýtíngar á nesinu 18 skip, eda meira, med þeim sem í Videy ok í Engey voru; kot braut á Kjalarnesi ok nokkra báta, ok vedr spillti vídar húsum. Tók af Breid á Skipaskaga med húsum ok túnum, en sjórinn brauzt inn undir pallskörina, fèkk bóndinn brotid gat á badstofu-þekjuna, ok komit þar út mönnum, en vard at brjóta sik inn í adra búd, til at koma þeim af sundi, týndist margt þat er hann átti, en honum bættist þat þó aptr af örleik annara. 36 skip brotnudu eda gjörspilltust í Borgarfjardar sýslu fyrir sunnan Hvítá, en býli mörg skemmdust, ok gróf undan þeim veggi, ok helzt á Skaganum. Sjómanna búdir tók af vid Hítarnes ok Álptanes, ok brotnudu 16 skip í Mýra sýslu, spillti varpeyjum ok mörgum jördum bædi at túnum ok engjum, en skekkti hús. Í Stadarsveit vestra urdu hinar mestu skemmdir, því hún lá fyrir opnum sjó, gekk sjór þar allstadar meir en 300 födmum, ok allt til hins 15da hundrads lengra á land upp en í ödrum flódum stórstreymdum, tók hús ok 50 saudfjár; af tók nær Búda kaupstad, en eitt hús brotnadi at öllu, nema rjáfrit, kom gat á annat, en grundvöll gróf undan því þridja. 14 spilltust kirkjujardir Stadarstadar, braut af sumum hálf húsin, en hin, er eptir voru, hèngu á bakka, þar brotnudu 16 skip; vída spillti ok í Beruvík, ok brotnadi kista í bæjardyrum í Helludal; en vedr hafdi brotid fyrri um haustid 10 báta þar í sveit. Tók upp flutníngaskip Hans Hjaltalíns kaupmanns, ok braut undir Sölvahamri; höndlunarhús eitt braut ok at grundvelli í Ólafsvík, ok 2 skip á Sandi; 5 skip brotnudu á Skógarströnd ok 3 bæir, en hvervetna spillti húsum í öllum sveitum, tók sumstadar hús ofan at veggjum vestr um Dali, en sjór braut af löndum, ok tók hjalla ok fiskifaung. 18 skip ok bátar brotnudu þar til vissu, ok þóttust menn ei vita til um annat vedr, er á einni nóttu hefdi gjört meira tjón; kom þat ok á Vestfjördum, ok í Nordrlandi, en vard af minna.

## LXXV. Kap. Frá prenti ok nýjum ritgjördum.

Þá er á leid vetrinn batnadi, ok gjördi sídan vor gott, kom þá út á þeim tíma í Leirárgördum prentad: sá hinn gudlega þenkjandi náttúru-

skodari, er ritad hafdi Pètr Fridrik Suhm, hinn lærdasti madr ok frægasti, en sett á Íslenzku Jón prestr Jónsson í Mödrufelli; bænir Bjarna prests at Melum í Borgarfirdi, Arngrímssonar, hann var bródir Jóns prests, er úti vard at Borg; ok svo kvöld ok morgun sálmar eptir ýmsa menn; útleggíng höfudlærdóma meistara Bastholms, gjör af Gudmundi presti Jónssyni á Stadárstad, er prófastr hafdi verit í Árness þíngi; Biblíulestrar biskups Balle, er útlagt hafdi Arnórr prestr Jónsson, er þá hafdi Hestþíng, hinn fyrsti hluti; gaman ok alvara Magnúsar lögmanns Stephensens, fyrri hluti; útleggíng af Pope, hafdi gjört Jón prestr Þorláksson at Bægisá; ok lögþíngis bækr ok yfirrèttar. Slíkar bækr all-margfródlegar höfdu ei út komit fyrir almenníng, svo at jafnmikit nýnæmi væri í, sídan Gudbrandr biskup lèt prenta ritnínguna, tóku sumir þó misjafnt á móti, en margir betr, ok gafst hyggnum alþýdumönnum þánka efni mikluf meira en fyrr hafdi verit, ok er þat sannast at segja, at ekki ollu sjálf hin nýju ritin óvild svo margra alþýdumanna vid prentverkit í Leirárgördum, heldr hitt, at þeir, sem því áttu at stjórna, tóku sèr svo nær álit fávísra manna í öndverdu, ok ritudu sídan um heldr hardfengilega, ok þóttust sumir hraktir í ordum, er í fyrstu lètust unna allri ný-innleiddri þekkíngu, en Nordlendíngar þóttust hafa minni orsök en hverir adrir at unna því, þar sem biskupsdómr var nú frá Hólum, ok konúngsbrèf fengit, at þar skyldi leggja nidr prentverk, en sameina landsuppfrædíngarfèlags prentverki, skyldi þat svo vera undir fèlagsins umsjá þadan af; en þat er Hóla prentverki heyrdi til, ok ei yrdi nýtt, bækr ok annat, skyldi seljast, ok bækr falla til Hóla stiptis eptir tiltölu. Hafdi nú verit gjör af fèlaginu almennileg stiptun, ok lagt til hennar, henni til algjörleiks, þúsund dalir, at því er talit var, sumt í peníngum, sumt í bókum, er prentadar höfdu verit at Leirárgördum, ok ei útgengnar, en sumt í verkfærum, ok gjördi Magnús lögmadr Stephensen reikníngjnn; sídan skyldi stiptan sú leysa til sín prentsmidjuna at Leirárgördum af eiganda. Madr nokkurr í Kaupmannahöfn gaf þá Íslandi, ok var ókunnr, því hann duldi nafns síns, er þá tídkadist stundum med gódum mönnum utanlands, en hèr var þá enn þat eigingirnisleysi fáheyrdara; til hans kvad Jón prestr Þorláksson þakklætisvísur landsins vegna, ok er þetta upphaf at:

Fátæk em ek
ok ei fjölskrúdug,
öldrud módir
ótal barna;
em ek köldum klædd
klaka stakki,

af því ber ek nafn
alla daga.

en þetta er nidrlag:

Á gulli grafna,
ef ek gull ætta,
munda'k mèr kjósa
minníng þína,
ásettu nafni,
þar ei annat veit:
"sá hinn rèttlyndi
rausnarmadr".

## LXXVI. Kap. Orsakir framfararleysis.

Þar sem nú er þess getíd, hve kalla mætti fram færi þekkíngu landsmanna hèr efst á 18du öld, þá mundi eigi afleidis, þó minnzt væri á hitt, ok þó svo, at þeir bæti vora ætlan sem betr vita, med hve miklum ólíkindum þat var nidr fallit ok at engu ordit allt, er Danakonúngar ok adrir merkilegir menn höfdu til lagit at hefja land þetta ok gjöra sem líkast ödrum löndum, bædi med verksmídum ok stórum tillögum þar til, handverkum, byggíngum ok stórgjöfum, svo at ei var nú eptir ordit af verksmidjunni í Reykjavík annat en þófaramylnan, ok hún spillt ok óbrúkud, ok af ödru ei annat en hrennisteinsverkit í Húsavík, en byggíngar fóru hnignandi. En þat má ei ætla, at landit megi engri betran taka í móti, þó hart himinstrik, vídátta landsins, vegaleysi ok mannfæd, er af slíku leidir, torveldi margt; ei heldr, at landsmenn sèu fráhverfari nytsemdum en margar adrar þjódir; veldr ok ei, at konúnga hafi skort gódan vilja, nè heldr máttinn at betra kosti landsins. Hyggjum vèr þessa hluti valda, at ei hefir til meiri nytsemdar ordit, med þeim torfærum sem landslagi fylgja: fyrst ótrúleik eda vanhirdíngu sumra þeirra, er framkvæmd hefir verit á hönd falin, drógu þeir sèr stundum ábatann en idjudu lítid, ok þó sumir sýsludu nokkut gagnsamt, þá skorti þó landsmenn hèr einíngu ok landskærleika svo mikinn, at hverr vildi umbæta annars verk, ok hverr þægi þat af ödrum, heldr var hvat látid nidr falla þar sem komit var, en konúngar höfdu þá ei annat en sögusögn þeirra, er þá tjádu þeim þat sem þeim þótti vænlegast, leiddi af því kostnad mikinn, en seinast nidrfall þess er kostad var til, ok af því nidrfalli óvilja landsmanna til at brjótast í annat, er þeir ætludu hafa mundi hinar sömu affarir. Þar næst ætlum vèr valda árædisleysi Íslendínga ok vanaleysi úr at ráda ef nokkut brást; en fátt nidr lagt fyrirfram, svo at fyrir öllu

væri rád gjört, vildu því fáir kosta til nytsemda almenníngs miklu fè, ok ei þótt þeir mætti sjálfir gagn af hafa, hræddust, at útfallit kynni at verda óvíst, en landit fjarlægt, ok átti óhægd at ná til annarra landa, þótti því betra at búa at sínu í kyrrd heima, ok láta konúnginn kosta til, en þat gekk sem fyrr segir. Hin þridja sök hyggjum vèr væri ókunnugleiki konúnganna, höfdu þeir sagnir þær einar, er hinir ædstu yfirmenn hèr fluttu, ok bjuggu sumir mest undir at draga sik fram, hirdu ok ei þó fornri lenzku væri brugdit, þó hún væri hagkvæm, ok hefdi komit til mikils góds at haldizt hefdi, ásamt því, er nýrri þekkíng jókst; ok þó þeir skeyttu nokkut þar um, þá var sjálf sú tilætlun stjórnarinnar, at gjöra landit sem líkast í háttum Danmörku, í vegi fyrir því á margan hátt, at þat hèldist vid sem haglegt var, ok því af tókst mörg þarfleg regla forn, en nýjar skipanir urdu margar ok hvikular, ok því vard aldrei komit á einlægu lagaverki, en margir í landi lauslyndir ok óróagjarnir, ok hlýdnislitlir vid yfirvöld sín, sem leiddi af því, at hèr hafdi aldrei verit hússtjórn, ok tóku slíkir þann lagafjölda svo, at sumir ætludu yfirmenn mundu þat eda hitt útvegat hafa sjálfum sèr til hagsmuna, sumir hugdu breytíngar sèr vinveittari en voru, sumir dirfdust til óhlýdni vid lög og yfirmenn, af því at jafnan var linat meira stórbrotamönnum, ætludu ok at hvert bod mundi vara skamma stund. Sú var hin fjórda sök, at landsfjórdúngar voru skjaldan í einum hug, þótti sumra landsfjórdúnga mönnum þeir, sem mestu rèdu í ödrum, hafa sik at hornúngum ok pretta sik, ok þat hefir mest valdit einíngarleysi Íslendínga, at fáir hafa ætlad hverr annan heilhuga. Sú var hin fimta orsök, ok eigi hin minnsta, at stjórnin sjálf hefir opt breytt ætlan sinni, eptir því sem hún hefir verit bedin, ok fyrir hefir fallit, ok verit svo nidr fellt þat sem fyrir skömmu var hafit med stórum kostnadi. Þannig var eigi rannsakat til hlítar, hví verksmídarnar fèllu í Reykjavík, en þeim heldr sleppt; þannig af tekinn Hóla stóll, ok forlögd kirkjan, er miklu var til kostad, þannig seldar stólseignir, ok vildi konúngr heldr kosta allt af nýju, ok launa biskupi sjálfr at auki, eda þó heldr: þeir fengu þat af honum sem svo vildu vera láta, ok var miklu óhagfelldara, því þess var ei gætt, at landaura gjaldit tókst af, ok allt var miklu dýrra í penínga reikníng en verit hafdi, ok vard nú at kosta meiru einn biskup ok einn skóla en ádr tvo, ok þó af konúngs fè, ok launa ödrum hinum hærri embættismönnum at því skapi; svo var ok lengi á reiki öll hin nýja nidrskipan á skólanum. Ok þó at menn sæi eptirá, í hverju einhvers hefdi ávant verit, eda hvat betr hefdi verit ógjört, þá var þó jafnan hvat eina sem inn var leidt sama edlis í því, at breyta fornri lenzku ok auka nýjan kostnad, sem fyrri. En

nidrfalli því, sem ordit hefir á því sem til hefir verit kostad, hyggjum vèr þat valda, at þeir, sem því hafa af stad komit, hafa treyst mildi konúnganna, þó rádstjórn þeirra yrdi at ónýtu, ok eigi þurft at gjöra svo skýra grein ok tímanlega fyrir medferdum sínum, at þat hafi hrædzt, enda eigi rádgjört fyrirfram hversu útseljast mundi.

## LXXVII. Kap. Þíng ok annat, samt mannalát.

Á þessu ári öndverdu dó Andrès prestr Gíslason, kapellan til Múla á Skálmarnesi, af líkþrársýki, en seinna andadist Bjarni Einarsson, er fyrr var sýslumadr á Bardaströnd; en snemma á þeim misserum vígdist Jakob Árnason til Gaulverjabæjar, ok fèkk Þórarinn prestr Jónsson, bródir Benedikts Gröndals, at Myrká, Mödruvalla þíng eptir Snæbjörn prest; Jón prestr Þorvardsson á Svalbardi Myrká aptr, Eggert Bjarnason landlæknis, Pálssonar, Snæfokstadi; Sigurdr Ögmundarson prests, Högnasonar, Kross sóknir í Landeyjum. Þóroddr, son Þórodds heyrara Þórdarsonar, hafdi lengi verit beikir á Vatneyri, ok var honum margt vel gefit, en dæmt hafdi Oddr Vídalín hann ómyndugan sakir drykkjuskapar, en sídan, er hann bætti þann brest fyrir nokkrum árum, hafdi Oddr snúit dómnum med ödrum nýjum; gjördi hann slíkt hvorutveggja meir at fornri venju, en at þat þætti þá rètt, en enginn áfrýdi. Þóroddr tók sótt stránga, ok andadist á þessum misserum; Þóroddr hafdi átt Bergljótu, systur Bjarna Einarssonar sýslumanns, ok ellefu börn, var eitt Þórdr á Reykhólum, er átti Þóreyju Gunnlaugsdóttur, systur Þorkels í Haga. Þá kom út, at auk þess sem fyrr er getid, konúngsbrèf, sem tók af trúlofanir, en þrisvar skyldi prestr lýsa med hjónum, ok Cancelliebrèf, at lögþíngit skyldi halda í Reykjavík; eitt konúngsbrèf kom út, er gefit var út hit fyrra árit, um fjögra dala sedla frá speciubánkanum; ok annat um þat, at hreindýr mætti veida, en þó med atvikum ok amtmanns umsjá, ok þóttu þau þó flestum ordin helzt til mörg, ok gjöra meira mein med því at uppræta fjallagrös, en gagn, ok aldrei höfdu þau ordit at lidi, því landsmenn máttu ei fara med þau sem Finnar, en at fjallagrösunum var mikill söknudr, ok því meir sem þau voru lengi ærit fá, sídan eldsumarit. Eitt brèf var á þessum vetri gefit út, þat er út kom um legordsbrot í tvöföldum hórdómi, ok eitt um lán á Collectu-peníngum; eitt um þat, at sá sem frá væri stolit skyldi stefnast til eids, um at án sína vitund væri sèr horfit þat er misstist, ok enn nokkur um sættanefndir ok annat. Voru prestr ok einn bóndi sáttamenn í hverju umdæmi. Geirr biskup Vídalín fèkk Cancelliebrèf um þat, at sýslumenn einir skyldu dæma í hjónaskilnadarmálum.

Mál var í Borgarfirdi um barn, er Loptr hèt, er menn ætludu hordautt ordit hafa. Alþíng var sett í Reykjavík, ok voru lögrèttumenn Beinteinn Íngimundarson úr Árness sýslu, er átti Vilborgu, dóttur Halldórs biskups, Gudmundr Jónsson í Skildínganesi, ok Sveinbjörn Þórdarson á Kjaranstödum; þar hafdi Páll Sveinsson úr Skagafirdi, bródir Jóns prests í Goddölum, en fadir Sveins læknis, ok Eggert prestr Eyríksson í Glaumbæ, landaþrætumál fyrir, hafdi Eggert prestr lengi unnit lönd undir Glaumbæ, ok stundum medallagi rèttilega, ok ónýtt heimalöndin fyrir þat; þar kom ok sakamálit úr Skaptafells sýslu, blódskammarmál systkina þriggja, er Jón sýslumadr Helgason hafdi mjök vanhirt, dæmdi Benedikt Gröndal vicelögmadr þau frá lífi, en þó undir konúngs nád, ok enn Svein, þann er sekr var um þrjá hórdóma, en Jón sýslumann frá embætti fyrir margar, stórar ok þúngar sakir, er honum voru fundnar, sem jafnan hafdi verit, því hann hafdi opt verit dæmdr í fèsektir stórar, ok aldrei svarat, voru honum nú dæmdar 100 dala bætr til hospitals, tveggja til jústiz-fèhirzlu, 80 dala til Jóns sýslumanns Þorleifssonar, ok 75 til Kristjáns Vigfússonar, ok enn meiri málskostnadr. Jón var þá nær áttrædr, hann var vid dóminn, ok hrækti á bordit medan hann var lesinn, skaut hann sínu máli til hæstarèttar, en fèkk þó engan framgáng. Sigurdr Gudlaugsson faktor hafdi þar eina sök, hafdi hann dóm dæmt, ok var sá vefengdr; en landamálinu úr Skagafirdi var vísat til aukalögþíngs, hafdi Jónas Skevíng dæmt í því, son Vigfúsar sýslumanns á Vídivöllum, hann tók vid sýslu af födur sínum um þær mundir; Finnr sýslumadr hafdi þar ok tvö mál fyrir, ok var bádum vísat heim á hans kostnad, ok fleira gekk honum öfugt í þann tíma.

## LXXVIII. Kap. Mannalát ok annat.

Þá var hit bezta ár í landi, grasár allgott ok nýtíng hin bezta; var þá fluttr prentstíllinn frá Hólum, ok var kallat at hann væri nokkut svo týndr ok slitinn, en miklu mest týndist hann í medferdinni sudr, því hún var eigi vöndud, ok fannst af honum hèr ok hvar; þótti þá Nordlendíngum sem mjök ætti at mýja þeim. — Um haustid fèkk Hálfdán Oddsson, prests frá Reynivöllum, Þorvardssonar í Brautarholti, Mosfell í Grímsnesi; Erlendr prestr Gudmundarson frá Hofteigi Kolfreyjustad; Björn Benediktsson, prests frá Hamraendum, Hannessonar prests at Kvennabrekku, Bjarnarsonar, Hítardal; módir hans var Þórunn Ólafsdóttir sýslumanns, Árnasonar; hafdi hann verit kapellan med Halldóri prófasti Finnssyni, ok kom hann því á at hann fèkk stadinn,

þvíat margr hefdi þótt ei sídr til kjörinn; Björn Sigurdarson fèkk Akra þíng. Flateyjar skip týndist á útsiglíngu ok skipverjar allir, þar var einn sonr Kúlds kaupmanns; skip týndist ok med 5 mönnum á Flateyjarsundi í Þíngeyjar þíngi, ok fèll úngr sonr Hans Hjaltalíns, kaupmanns á Stapa, fram af sjáfarkletti, ok fèkk bana. Þá dó úr svefni Þórdr Ólafsson í Vigri, bródir Jóns vicelögmanns, vetri meir en sjötugr; en seint á sumri andadist Sigurdr prestr á Ökrum; son Þórdar Ólafssonar var Matthías, fadir Jóns prests. — Þessir dóu enn merkilegri háttar: Jóns Sveinsson lögmanns, sýslumadr í Sudr-Múla sýslu, hann hafdi átta Sophíu, dóttur Erlendar sýslumanns Ólafssonar, ekkju Þorláks Ísfjörds, ok voru börn þeirra: Birgitta María, er giptist presti dönskum, Málmfrídr, hún var gipt faktori á Eskifirdi, ok Fridrik Svendsen kaupmadr; Ragnhildr, kona Arngríms prests, er fyrr var á Melum, módir Bjarna prests; Íngibjörg Ólafsdóttir, kona Jóns prests Sigurdarsonar á Rafnseyri; Andría, dóttir Kúlds kaupmanns í Flatey, af ormum stórum innvortis; Pètr Sigurdarson á Einarstödum, hreppstjóri merkilegr í Þíngeyjar þíngi; Íngibjörg, systir Þorkels Fjeldsteds stiptamtmans, ok Jóns prests, er fyrr var á Kvíabekk, hana hafdi átta Jón Hallgrímsson málari; Gunnlaugr prestr Gunnlaugsson at Hálsi í Fnjóskadal; frú Steinunn Arnórsdóttir, ekkja Árna biskups, ok var þá frú Gudrídr ein eptir biskupsekkja nordanlands; Jón prestr Jónsson í Grímstúngum, er prófastr hafdi verit í Skagafirdi; Markús, er hafdi Vatnsdalsjardir, Markússon, nordan frá Hlödum; Gísli prestr Sigurdarson at Heydölum, fadir þeirra Árna prófasts at Stafafelli ok Brynjólfs prófasts, Íngibjörg Jónsdóttir, ekkja Páls prests Gudmundarsonar í Vallanesi, ok önnur Íngibjörg Þórdardóttir, kona Jóns prests Hallgrímssonar at Þíngmúla; Sesselja Gudmundardóttir, ekkja Jóns prests Þórdarsonar á Reynivöllum, er verit hafdi prófastr í Árness þíngi, er sagt hana hafi skort vetr á tíraedan; ok Mensalder Raben hinn audgi í Papey; var mælt bú hans hefdi ei ordit meira en 8 þúsundir dala, en má vera at linvirt hafi verit bú hans í samanburdi vid adra virdíngu, er þá tók at tídkast, enda er sagt, at bankósedlar hans hafi mjök margir fúnadir verit. Þat sumar gengu út frá Húsavík 350 tíufjórdúnga vættir brennisteins, ok komu 8 dalir fyrir hverja.

## LXXIX. Kap. Frá fyrirmönnum.

Á þessu hausti fór Magnús lögmadr Stephensen at Leirá utan, ok var mest kallat at væri sakir heilsubrests hans, þó at fleira væri ásamt; Stephán Þórarinsson amtmadr frá Mödruvöllum fór ok utan, ok höfdu

þeir þá bádir landseyrindi, ok bar á milli; er mælt, at amtmadr hafi birt brèf hans eitt fyrir kammeri, er því gatst ekki at ordtaki í, en lögmadr kvadst hafa ritad honum í trúnadi, ok yrdi hann stórr af, ok lítil vinátta var jafnan med þeim sídan. Amtmadr hafdi ádr safnat tillagi af mörgum mönnum, ok fengit styrk erlendis, til at koma upp litunar ok þófara mylnu fyrir nordan, en er til efna kom, ok margt var fengit til sem þurfti, þótti þó bædi kostnadarmeira en rád var fyrir gjört í öndverdu, ok margt enn til skorta, enda kom amtmanni ei heldr saman vid Jón Jakobsson sýslumann, hvar setja skyldi mylnuna, kom þeim ok saman um fátt, því at þeir voru óskaplíkir; var amtmadr beiskr í brèfum, svo fáum gazt at, ok bar mest til milli þeirra, því at þeir voru næstir, en sýslumadr brádlyndr nokkut ok hreinlyndr, ok þóttist æ hafa viljat vel gjöra, ok hafdi mikla mannhylli fyrir marga kosti ok atdugnad, en öllum hinum eldri sýslumönnum kom lítt amtmanna ríkit; en þó at amtmadr væri í öllum hlutum ödrum, en hardyrdum þessum, embættismadr merkilegr, þá þótti honum þat ei vel fara, at peníngar þeir allir, er lagdir voru til mylnunnar úr mörgum sýslum, urdu hjá honum, svo at ei kom út af, fèkk enginn þá aptr, ok kalladi hann maklegt, ef eptir þeim var kallat, at gengi til nokkurrar almennilegrar nytsemdar, en þó vard þat aldrei. Hann fèkk ok af mönnum at gánga í borgun fyrir Þórd Helgason, Húnvetníng einn, er tekinn hafdi verit af volædi í Höfdakaupstad í eldhardindunum, ok settist nú í höndlun á Eyjafirdi, ok gekk í hana sjálfr, ok seldist þat illa út. En í þessari ferd þeirra Magnúsar lögmanns var margt talat um Íslands háttu, eptir því sem ádr var format, ok sídan kom fram, ok gaf konúngr þeim Commissorium til, er þeir voru komnir saman í Kaupmannahöfn, Grími Thorkelín, Stephání amtmanni Þórarinssyni ok Wibe, ok Magnúsi lögmanni; en ekki vitum vèr at Magnús Stephensen ætti þá neina þrætu vid Kyhn edr adra kaupmenn út af ritgjördum þeirra. Amtmadr hafdi sett Sigurd Snorrason, prests frá Hjaltastödum, Bjarnarsonar, fyrir sýslan sína medan hann var utan, hann hafdi danskt embættis examen ok lengi verit med honum, ok var mál manna, at hann hefdi viljat koma honum til embætta fyrri, ok jafnvel til Vadla sýslu, fèkk hann ok sýslu seinna, ok raktist þá ei svo mjök úr. Stephán á Hvanneyri gegndi lögmannsverkum í stad Magnúsar bródur síns, hann dæmdi í barngetnadarmáli Ólafs frá Rana í Ísafjardar sýslu, sá hafdi getid barn vid stjúpdóttur sinni, ok gjördi hann þat tukthúss mál; hann skrádi ok tídindin — var hann rausnarmadr mikill. Var þá prentad í Leirárgördum sidalærdómr eptir Campe, er Gudlaugr Sveinsson, prófastr í Vatnsfirdi, hafdi lagt út, en Sigurdr Snorrason bætt nokkru vid um barna aga eptir

Hasse; einnig sídari hluti höfudlærdóma doktors Kristjáns Bastholms, ok lögþíngisbók. Sveinn Pálsson fèkk þá brèf fyrir læknis-embætti í Vestr-Skaptafellssýslu, Rángár ok Árness þíngi, ok Vestmannaeyjum, ok þótti hann vel at sèr; en Magnús Ormsson tók vid Apótekara sýslan. Lestrarfèlagit sydra veikladist heldr, því at Magnús Stephensen hafdi sagt af sèr forstödu þess er hann fór utan.

## LXXX. Kap. Mannadaudi ok tjón.

Vetrinn eptir var hinn bezti, ok gekk flestr allr peníngr sjálfala, en 1800.
þó urdu heyin öllu notrabetri kúm til mjólkr; þá týndust eptir midjan vetr þrír menn af sleda í Lagarfljóti, bóndi á Húsum ok tvær mædgur, hleyptu þau í vök á ljósum degi, en ein kona nádist, er á var. Vorit var hógvidrasamt en nokkut kalt, ok vard gras í medallagi. Hríd gjördi á Vestfjördum um sumarmálin, ok fennti saudfè manna vída ok hrakti; hvalbrot rak í Melasveit, nær 12 álna fyrir spord. Á þeim vetri fèkk Sigurdr prestr Árnason, er haldit hafdi Goddali um nokkur ár, Háls í Fnjóskadal, hann var lángfedgum frá Jóni lögmanni Sigurdarsyni á Reynistad, ok ein lángfedga ætt at honum ok þeim brædrum: Gudmundi á Íngjaldshóli ok Þorgrími í Hjardarholti, sýslumönnum, ok Sigurdi presti í Flatey, ok sonum þeirra; hann var fjáraflamadr mikill ok átti Björgu Halldórsdóttur Vídalíns á Reynistad ok Ragnheidar, en Goddali fèkk Jón frá Ási í Hjaltadal, Jónsson biskups, Teitssonar, bródir Finns sýslumanns ok Gísla, ok var hann kalladr vel at sèr um lærdóm, en allir voru þeir brædr nokkut vidsjálir kalladir, ok þó allir ógætnir vid öl, nema Gísli. Hjaltastadi austr fèkk Hjörleifr prestr Þorsteinsson frá Desjarmýri, dótturson Hjörleifs prófasts Þórdarsonar; Klyppstadar í Lodmundarfirdi ok Húsavíkr kall Gudmundr Erlendsson, Desjarmýri Einarr Jónsson, Álptamýri Ólafr Einarsson prófastr frá Ballará, því Eggert prestr Jónsson skipti vid hann ok tók Skards þíng, en þat var seinna á árinu, gjördist sídan Eggert prestr fèdráttarmadr mikill. Mánudaginn seinastan í vetri týndust fyrir nordan vedri þrjú skip í Stadarsveit, voru áttæríngar tveir, ok einn sexæríngr, ok á tveir menn hins þridja tugar, ok voru þeir flestir úr Dalasýslu; enn fleiri skip hrakti; 15 ekkjur voru eptir, ok þaraf 9 í Dölum med börnum, en hin 10da missti fyrirvinnu sína; eitt skip nádi lendíngu á Malarrifi, eptir tveggja eda þriggja daga hrakníng, en annat fannst á 5ta dægri á sjó, þar var formadr Oddr bóndi Oddsson á Kirkjuhóli, ok var einn hans madr dáinn en adrir máttvana, voru þeir rónir upp í Lón. Þann dag hinn sama týndust þrjú skip úr Bjarneyjum í Bardastrandarsýslu, ok 15 menn, voru 10

úr Dölum. Tvö skip komust þar af fyrir fylgi formanna, med guds adstod, fleygdi annarr sèr í sjó á streng, nokkra fadma frá landi, ok nádi í klett ok gat svo borgit skipinu. Hinn 31ta dag Maji drukknudu fjórir menn úr Keflavík, er þeir voru á heimleid úr Ólafsvíkr kaupstad, en undir Messur drukknudu þrír menn á Laungufjörum, hjá Stakkhamarsnesi, þeir voru at nordan ok komu frá bókasölu undan Jökli, var einn þeirra Pètr bóndi frá Bjarnastödum í Kolbeinsdal, skólagenginn madr ok vel fjádr, son Sveins Hóla rádsmanns, Pètrssonar á Skjöldólfstödum, Jónssonar, hann hafdi átta Þrúdi Gudmundardóttur, bródurdóttur Lýds sýslumanns; Sveinn hèt son þeirra, hann eyddi á stuttum tíma öllu fè hans, ok vard snaudr; alls drukknudu 60 menn á því ári. Þau misseri öndverd andadist Magnús lögmadr Ólafsson at Medalfelli, á ödrum misserum hins áttunda tugar, setti Benedikt Gröndal grafskript eptir hann, ok orkti lofvers eitt, var hann ok lofs verdr fyrir gudrækni, sidsemd ok gódgirni; en sídar um vorit deydi Andreas Kuld, kaupmadr í Flatey, af slagi, manngæzkumadr mikill, kom þat at honum undir húslestri; ok svo Jón prestr, kapellan ok prófasts umbodsmadr hjá Jóni prófasti Högnasyni í Sudr-Múla sýslu, son Þorsteins Benediktssonar, er fyrr var á Laxamýri; Rósa Snorradóttir, ekkja Nikolásar prests Magnússonar í Berufirdi; Þorsteinn prestr Jónsson á Dvergasteini, mikit skáld; Sigurdr Högnason, er fyrr var prestr at Sólheimum í Vestr-Skaptafells þíngi; Gudrún Ólafsdóttir, ekkja Vigfúsar prests Jónssonar at Miklaholti; Óluf Þórdardóttir, er átt hafdi Jón prestr Sigurdarson í Ögri, ok Jón prestr Brynjólfsson til Eyda, hann hafdi þolat hrakníngar fyrri af Hermanni Jónssyni í Firdi í Mjóafirdi, er þar var hreppstjóri ok hrokkr mikill. Þá bördu tveir menn Einar Hjaltested, faktor á Akreyri. — Hey brunnu sumstadar, ok var áhlaupasamt vída.

## LXXXI. Kap. Enn frá sama.

Enn urdu þá fleiri misferli en þau, sem nú eru talin; höfdu menn margir hrakfarir fyrir vedrum í Ísafirdi, ok voru þá skornir af sèr 100 hákallar, hrakti þá einn formann vestra, sá hèt Jóab Þorkelsson. Barst á Markúsi presti til Reynis ok Höfdabrekku, Sigurdarsyni, vid ferju á Ölfusá at Óseyri, svo hann nádist naudugiega ok vinnumadr hans, ok Ólafr á Steig, medhjálpari, ok ferjumadr annarr, því ferdamenn voru nálægir, en kona hans nádist med lífi, ok dó þó, tveir nádust örendir, en fjórir ekki, rak upp bein af einum þeirra; hugdu menn þannig atborizt hafa sakir ofhledslu. Tveir menn drukknudu í Pennu eda Penníngsdalsá hjá Brjánslæk, var annarr Ólafr Jónsson frá Rafnseyri, er sudr fór eptir prests-

vígslu. Skip Þórdar Helgasonar, kaupmanns á Eyjafirdi, fórst vid Hrísey, fyrir þann Þórd hafdi Stephán amtmadr Þórarinsson sjálfkrafa gengit í borgun um þúsund dali, ok naut hann nokkurs hagnadar af honum upp í þat, en hvergi nærri at öllu, fengit ok sýslumenn til, ok þó allnauduga, Jón Jakobsson um 400, en Vigfús Skevíng um 200, ok var meir at Vigfús lèt þat eptir Jónasi syni sínum, en at hann gjördi þat sjálfr, því hann var glöggr af fè, svo at hann týndi ekki sóma sínum, ok sneiddi hjá því flestu er hann mátti; Jónas hafdi þá verit 5 ár lögsagnari hans, en tekit nú algjörlega vid sýslu; bændr auduga hafdi ok amtmadr fengit til at gánga í hina sömu borgun, ok reiddi þat illa, því at Þórdr var örr ok ríklyndr, ok lifdi lítt med hófi, ok brást svo bædi húsbónda sínum ok ödrum, ok strauk at lyktum úr landi, þó laungu seinna en hèr var komit. Eitt skip fórst í Húsavík, er Hanstein kaupmadr átti. Þat bar enn til seint í Julio, at Jón bóndi Bjarnason frá Gelti vid Súgandafjörd, audugr madr, fór í hákallalegu vid 7da mann, ok er þeir höfdu úti legit rúm tvö dægr fóru önnur skip í land, en sáu þat til at þeir lögdu dýpra, kom þá vedr med brimi um nokkur dægr, ok spurdist ei til þeirra sídan. Heidemann kaupmadr í Ólafsvík lagdi ok út skipi sínu, ok var þat um haustid, ok fyrir því seinna en komit er frásögunni, ok hefir til þess skips eigi spurzt sídan. Á þeim misserum sýndu margir svo mikinn dugnad at frelsa hrakta menn, at fyrir slíkt eru gefin laun ok virdíngar annarstadar í löndum, en þat var þá eigi almennt ordit hèr í landi, at menn gengist mjök fyrir virdíngum, því at þeir voru gódir menn sem slíkan dugnad sýndu, ok ætludust eigi til launa, en þeir, er ödruvís voru sinnadir, virdu meir ábata sinn eda hægd sína en virdíngar, ok fór hverr at gedi sínu ok eigin sannfæríngu um þat ok annat. Þau misseri deydi enn Halldórr Bjarnason Vídalín at Reynistad, ok setti sídan amtmadr, er hann kom út, Sigurd Snorrason fyrir klaustrid, en Ragnheidr Einarsdóttir ritadi utan, ok fèkk at halda því seinna, voru ertíngar med þeim Sigurdi medan hann var vid.

## LXXXII. Kap. Lögþíngit sídasta.

Þat sumar var í annat sinn lögþíngit haldit í Reykjavíkr kaupstad, ok var þat í skólahúsinu, settu þat vice-lögmenn, Stephán Stephensen ok Benedikt Gröndal, en lögrèttumenn voru nefndir: Eyvindr Jónsson á Skógtjörn úr Gullbríngu sýslu, Einarr Ólafsson ok Vernhardr Gunnarsson úr Árness þíngi, Loptr Þorkelsson úr Kjós, Ólafr Pètrsson smidr frá Kúludalsá úr Borgarfirdi, bródurson Ólafs smids á Lundum, födur Þorbjarnar, en bródir Jóns faktors í Húsavík, ok Gudrúnar, er Einarr

í Bæ átti, son Snorra prests hins gamla at Húsafelli, Bjarnarsonar, ok Önnu, er Gudmundr átti, son Gísla prófasts Snorrasonar í Odda; eru þessir því nefndir, at þeir voru sídastir lögrèttumenn til dóma kalladir á Íslandi. Þar sókti Sæmundr á Krossi í Borgarfirdi hormálit Lopts í móti Jóni Espólín, en sýslumadr kom ekki ok var á Akranesi at þíngum; var Sigurdr sýslumadr Pètrsson fyrir hönd Sæmundar, en þá sendi Jón Espólín ok beiddi, at ekki væri hrapat at dóminum fram undir þínglok, kvadst þá koma mundu. Oddr Vídalín var þar kærdr um dóma atferli vid þann mann, er Eyjólfr Jónsson hèt, í Skáleyjum; ok Finnr sýslumadr sókti Ólaf á Kjalveg, Bjarnarson, um atför, er hann hafdi verit látinn gjöra á fè hans, var því máli vísat frá, til þess er Finnr innstefndi á löglegri hátt; sídan voru þar lesin upp konúngsbrèf, þau er ádr eru nefnd; þar var ok eitt sakamál úr Þíngeyjar þíngi. En Benedikt Gröndal dæmdi í hormálinu, ok gjördi lítid úr, sektadi Sæmund at eins lítid eitt, kom Jón Espólín þó ádr dómr var afsagdr, en ei var þá tekid hans forsvari, þvíat líkast er hann hafi verit rádinn, ok var nokkru fyrir þínglok, en því vard ei af appelli, at rèttargángr allr skiptist mjök litlu sídar, ok tók þó Sæmundr þann kost, er honum þótti færilegastr, sættist vid frændr Lopts eptir upplagi sýslumanns, ok hlítti ekki dóminum, ok þótti þat fátítt. Sídan var Sigurdr úr Þíngeyjar þíngi dæmdr frá lífi fyrir hordóm í þridja sinn, en skotid þó til konúngs nádar; en dómar Odds Vídalíns voru álitnir af Stepháni vicelögmanni verri en ódæmdir, ok honum þó hlíft vid stórum bótum, sakir fátæki hans ok óheppni; var þat ok sannast, at hann lifdi vid bágindi stór, ok bjó einn sèr í húsi vid litla inntekt, ok litla virdíngu sinna hèradsmanna, ok var þó vel at sèr í mörgu, ok hinn mesti latínumadr, þó hann þætti undarlegr í skapi ok svakafenginn.

## LXXXIII. Kap. Mörg ný umskipti.

Þá gjördist sýslumadr í Sudr-Múla sýslu Þórdr Thorlacius, danskr madr at ödru en faderni, var hann sonr rektors Skúla justizráds, Þórdarsonar í Teigi, Brynjólfssonar Thorlaciuss. Sigurdr Snorrason hafdi fyrrum verit lögsagnari Jóns Jakobssonar sýslumanns, en nú gjördist þat Gunnlaugr Briem Gudbrandsson, prests frá Brjámslæk, Sigurdarsonar, hann hafdi lært bílætahögg, en lagt sik mjök eptir latínu sjálfr, ok tekid danskt examen ok fengit kunnugleik í kammerinu. Á þeim misserum vard margt annat, þat er tídindavænlegt þótti, ok horfdi til breytínga, en þat leiddi margt af Commissioninni, er fyrri getr, ok hinir

mestu háttar menn hèdan af landi sátu þá yfir í Kaupmannahöfn. Komu út konúngsbrèf nokkur um rèttar efni, var eitt gefit út hinn 18da dag Junii, er skipadi nefnd manna til at ferdast um land hèr, ok verdleggja jardir allar, átti þar af at koma öll önnur skipan en fyrr hafdi verit; voru þessir til nefndir: Kammerrád Lodvík Erichsen, sonr Jóns Eyríkssonar conferenzráds, Stephán vicelögmadr á Hvanneyri, Árni Sigurdarson landskrifara ok Gunnlaugr Briem; en þat var þó fyrri, at Magnús Stephensen var skipadr at vera Justitiarius í landsyfirrètti, er setjast skyldi á Íslandi, í stad lögþíngis ok yfirrèttar, svo sem gjört hafdi verit í Noregi fyrir nokkurum vetrum, at þar höfdu verit teknir af lögstólarnir, ok settr landsyfirrèttr; vard Magnús ásamt jústizrád at nafnbót; en Assessores skyldu tveir vera ok einn Secreteri; hafdi Stephán vicelögmadr nefndr verit til Assessors, ok skyldi þó ei dóma sitja, en honum var á hendr falit at semja lögbók nýja; en í rèttinum skyldu þeir vera Assessores: Benedikt Gröndal, því hann hafdi verit vicelögmadr, ok einn sýslumadr, vard fyrir því Ísleifr Einarsson frá Geitaskardi í Húnavatns sýslu, en hann var einardr madr ok fasttækr, ok haldinn mjök vel at sèr; sú sýsla var veitt Vilhjálmi Frímanni Krog, norrænum manni ok allvel á sik komnum, ok kom hann ei út á þeim misserum. Secretera vildu þeir utanlands vera láta Þorleif landskrifara Nikolásson, en Magnús Stephensen kvad hann gamlan ok ei til færan, ok kom því svo, at Björn bródir hans á Hvítárvöllum var settr. Árni Sigurdarson jardacommissarius var Secreteri í nafnbót, ok var hann bródir Jórunnar í Odda ok Brynjólfs prests í Seli vid Reykjavík; Gunnlaugr Briem fèkk ok Secretera nafnbót, en Oddr Stephánsson, er nótaríus hafdi verit vid yfirrètt, ok þá bjó at Giljá, ok Þorleifr landskrifari, fengu full laun í vidrlífis peninga sína, þó fengu þá eigi sýslumenn, er frá embætti voru, heldr en ádr, meira en 30 dali, ok var svo enn mjök lengi þar eptir, en tekjur þeirra rýrdust, sem rètt peníngagildi mínkadi. Kom nú Magnús jústizrád út, ok hafdi mest áorkat í því er frændum hans kom vid, ok þó enn um fleira; var hann vel tekinn af vinum sínum, ok gaf þeim gjafir er þeir sóktu hann heim, hafdi hann út híngat organ, ok lèk þat sjálfr í kirkjunni ok kenndi fleirum. Stephán amtmadr kom ok út, ok kalladr ei mjök gagni feginn, en þó var þat í gátum, at Erichsen mundi vera honum vinhollari en Magnúsi jústizrádi eda Ólafi stiptamtmanni, födur hans, ok þeim frændum, ok hreysta hann heldr, en mótfalla þeim, sem sídar vitnadist. Urdu nú hèr vid mikil umskipti í landi, ok meir en fyrr hafdi ordit; tókst þat frá ríki amtmannanna, at þeir dæmdu eigi þadan af í málum, ok sá hinn nýi rèttr fèkk haldit til jafns vid þá, fengu allir þessir menn mikil laun, þvíat kon-

úngr bætti laun allra hárra embættismanna, eptir því sem þarfir allar urdu dýrari en fyrri, en sýslumönnum jókst ei annat en meiri vandi, ok sumt frá tekit er fyrri var, en alþýda vildi ei gjalda þeim nema í hinn minnsta peníngareikníng, þó margt væri þrefalt edla ferfalt dýrara en fyrri, ok vard því at eins líft vid gódar sýslur eda stadi, þó bújardir hefdi, at árin höfdu verit gód um hríd til þessa.

## LXXXIV. Kap. Frá ýmsu.

Eitt konúngsbrèf var þá gefit út, ok kom ei út þau misseri, um at taka skyldi manntal í landi hèr; en af Cancelliebrèfum, er út höfdu komit, var þat einna merkilegast, er lèt eptir at sækja mörg leyfi til amtmanna, er ádr höfdu verit sókt til konúngs; voru þat helzt dóma uppreistir ok testamenta stadfestíngar, ok leyfi at sitja í búi óskiptu, ok slíkt annat, skyldi þó stíla bænabrèfin til konúngs, ok kostadi nær 12 dölum flesta menn at fá þau leyfi, en suma meira, eptir sem efni voru til, ok breyttist enn nokkut seinna; var þat þá upp tekit, en ei nidr lagt, at veita amtmönnum slík völd ok önnur þvílík. Bodit var ok landsyfirrèttinum at láta prenta tilskipanir, almenníngi til nota. — Þau misseri lèt Jakob prestr Árnason af rektors sýslan í Reykjavík, hafdi hann haldit henni ásamt, sídan hann var vígdr til Gaulverjabæjar. Þá var mikit óþerra sumar, en haust stadvidrasamt fram undir allraheilagra messu. Þá andadist hinn 2an dag Octobris Margrèt Jónsdóttir Jakobssonar, kona Bjarnar Secretera, af brjóstveiki. Þat var eptir barnburd, ok hèt sveinninn Jakob, en ádr áttu þau saman Ólaf ok Jón; setti Magnús Stephensen grafskript hennar, en Árnórr prestr Jónsson hèlt líkrædu allsnjalla, þvíat líkprèdikanir voru þá úr venju hjá mörgum; hana skorti þrjá vetr á þrítugan. — Þat haust rak 18 hvali í Stranda sýslu, en 30 beggja megin vid Hrútafjörd, ok hálfr fimti tugr marsvína hljóp á land á Selárdals reka, ok vída rak hvali, ok einn med tönn stórri í Dýrafirdi; sagdi svo Gudlaugr prófastr Sveinsson, at hún hefdi verit hálfrar annarrar álnar, var sá etinn, ok vard ei meint vid; grunadi suma menn, at af ísum mundi standa reki sá, ok hardindi mundu á eptir koma. Þau misseri var prentad í Leirárgördum hugleidíngar Bastholms fyrir altarisgaungumenn, hafdi lagt út Þorvaldr Bödvarsson skólahaldari; Campes sálarfrædi, þá bók lagdi út Bjarni prestr Arngrímsson; viku-bænir Lassenii, er Steinn biskup hafdi útlagt, ok Jóns biskups Teitssonar, ok svo sálmar; útleggíng af kristni-kvædi Gellerts, eptir Þorvald Bödvarsson; matreidslukver frúr Mörthu á Hvanneyri, ok lögþíngisbókin sídasta, en at forlagi Bjarnar Secretera yfirrèttar

acta, ok barna Árna biskups Þórarinssonar æfi Árna biskups ok frú Steinunnar; en at tilhlutan Vigfúsar Þórarinssonar sýslumanns á Hlídarenda æfi Bjarna Pálssonar landlæknis, skrád af Sveini Pálssyni, ok enn at Jóns forlagi landlæknis rímur af Gizuri jarli, er orkt hafdi Sveinn lögmadr Sölvason, fadir hans.

## LXXXV. Kap. Aldar lok.

Nú þarf eigi at telja mismun þann hinn mikla, er at öllu hafdi ordit á landi hèr á þeim hundrad árum, er þá voru næst lidin, því at frásögnin ber þat med sèr sjálf, ok margra manna ritgjördir; en þat sýnist þó einna mestu muna, næst þekkíngunni, sem yfrit mjök hafdi aukizt hjá mörgum, hve almenníngr var hyggjumeiri, gætnari ok öruggari, ok rèdist þó í meira en fyrr hafdi verit; þó hafdi jafnframt almennari ordit fèdráttr ok minni virdíng fyrir yfirbodurum sínum; en ríkismenn voru miklu ofsaminni ok óstórlátari en fyrri, ok eirnari en á dögum Odds Sigurdarsonar; rèttargángr allr vissari ok hættuminni, ok meira virdir menn eptir framferdum en fyrri, þvíat hinir ríkustu voru mest virdir fyrrum, hversu sem þeir högudu rádi sínu, var slíkum haldit til góda þó óeirnir væri vid öl, fram á midja 18du öld eda lengr, meir en nú var ordit títt. Var nú ok meiri jöfnudr med mönnum, því at dýrleiki sá, er á öllu var ordinn, var ein orsök í, at varla mátti einn vera ofreflismadr annarra fyrir fjár sakir. En vid þat, at drykkjuskapr hafdi mjök mínkat, ok þekkíng var vaxin, voru brydjur nær engar; voru ok fáir orkumenn uppi, er jafnmikit máttu bjóda sèr um þat, sem sumir ádr, ok þó nokkrir væri, sem Hjörleifr ok Jón Árnasynir, frá Höfn í Borgarfirdi eystra, þá voru þeir óbreyttir menn, ok róstur úr tídsku — sýnist ok allþarft verit hafa sjálfbyrgum alþýdumönnum, at allt fullrètti, þat er fyrr var fyrir misgjördir eda misþyrmíngar vid menn, ok lagat eptir stètt þeirra, var af numit med dönskum lögum, en þó leiddi nokkut af því sídan helzt til mikit mannblendi til lausúnga; en í því var líkt, at margt var ósamþykkt med mönnum, ok öfundsamt, stjórnleysi á alþýdu, því at ekki vard sèd fyrir hèradsstjórninni sem þurfti, ok sjálfrædi lausíngja var sem ádr, ok í því framar en fyrri, at sèrhverr gipti sik sem svo rèdi vid at horfa, þótt einkis ætti úrkosti, ok mátti því eigi hamla. Var engum bannat hjónaband, nema þeim, sem sýnt þótti at sýkjast mundi af líkþrá, enda tók sú sýki mjök at þverra. En vid sjálfrædi lausíngja, ok vanefni þeirra, gjördust hjónaböndin svo laus, at hvat hljóp frá ödru þegar minnst vardi, var þá ok búdafólk næsta margt í endir aldarinnar, ok all-óskilsamt. Hjátrú var

at mestu horfin, ok varla heyrdu menn nefnt fjölkýngi eda álfa, þar sem upplýsíng var helzt, en ei var örvænt, at helzt til margt væri efat er eigi skyldi; viljum vèr þat innfæra, er Jón prestr Hjaltalín kvad í tídavísum, því þat lýsir allvel mörgu, þó kvedskapr sè fornlegr, ok þyki ei mjök vandadr; hann segir svo:

Þannig útrann þessi öld,
þrifasæl, í mörgu góð,
hún hefir bædi heit ok köld
heita mátt vid Íslands þjód;

Yfrit marga umbreytíng,
ýmislegt sem gagn at var,
á sjóndeildar Íslands hríng
upp hún dró til skodunar:

Tólf biskupum Íslands af
andardrátt hún taka vann,
fyrna mörgum fleirum gaf
fararleyfi heims úr rann.

Híngat stórubólu bar,
búum lands er hlífdi sízt,
adrar þrjár ok eptir þar,
er mannskædar hètu víst.

Eldgos færdi ok um lád,
úr Grímsvötnum nordr frá,
ok úr Heklu, skýrt er skrád,
Skaptár-Jökli ok Kötlugjá.

Íslenzka hèr amtmenn gaf,
ok fógeta samlendan,
ok nú loksins láni af
landi fæddan stiptamtmann.

Flutti hún hèr frónit á
Fabrikuna í Reykjavík,
fjárpestin, sem fylgdi þá,
fólki vard mjök skadarík.

Stiptadi hún á stord, ek finn,
stjörnukunstar æfdan sid,
lækni færdi ok hèr inn,
apótek ok tukthúsid.

Skálholts flutti skóla ok stól
skrifud öld at Reykjavík,
börnum lærdóms eu þó ól
ördugleika skikkun slík.

Öldin prentverk einnig gaf
oss hèr nýtt á Sudrland,
þess svo komist idui af
upplýsing í betra stand.

Átjánda nam öld ok ljá
eptirlegur kaupmanns stètt,
loksins færdi frón vort á
fríböndlun ok borgarrètt.

Alþíngit frá Öxará
ofan í Reykjavíkr stad
flutti hún, ok fèkk svo þá
fornri venju umturnad.

Í þrjú skipti ömtin sett
eyju vorri, þar med sú
lögmanns nidr lagdi stètt,
líka nafnit seinast nú.

Lögrèttuna lagdi af,
laga stytti mæliþrád;
yfirrètt einn aptr gaf,
assessóra ok jústizrád.

Ok enn:

Far þú vel hin fræga öld!
forþènar þú mikit hrós:
uppgötvanin ótalföld
á þèr vída kom í ljós.

Villumyrkr vont er eydt
vída hvar, ok hjátrú örg,
svo í stadinn sèst innleidt
sannleikr ok skynsemd mörg.

Svo kvad Arnórr prestr at Hesti einusinni um öldina:

Annars víst þó er at mestu:
engu harmdaud vard hjá meingi
sú oss kvaddi öld, ok eyddist,
áralaung var nóg í gaungu.
Öskrudu fjöll, því eldi fullar
ædar þúngu jardar sprúngu,
spúdu ógnum, eitri, dauda,
undir frónit skalf ok stundi.

Saudi sló hún kaunum kláda,
kvaldi pestum gripi flesta
faldi jörd í klaka köldum
knúdi þorsk frá landaflúdum;
stundum blíd var lýd ok landi,
listir vandar allrahanda
kenndi bezt, ok hjátrú hrinda
hönduglega fórst í löndum.

Hvort hún vantrú hrekja hirti,
hýrt vid lèk, eda skelfdist freka,
ósagt læt ek, adrir geta
um þat dóma fellt í tómi.

Benedikt Gröndal kvad samtal 18du aldar ok 19du, ok þótti vel orkt, ok lýsir slíkt skáldskapar anda er á var kominn, en þetta er nidrlag:

Eystra kljár fyrir alda burum
ein á dýngju Gullinfingra
vefjar hvel, en skaut á skýlum
skerdast brátt yfir líki náttar.
Líd ek í burtu hálft med hjarta
hrygg ok glöd frá mínum stödvum,
lifdu sæl! vèr lèttum tali,
lypti þèr jafnan hálig gipta!

## LXXXVI. Kap. Vetrarfar ok annat.

Eptir allraheilagra messu gjördi hrídir miklar ok hardvidri, svo at saudfè fennti í kaf, ok hrakti vída nordanlands í sjó, vötn ok ógaungur, ok lidu margir menn tjón af, hèlzt þat svo fram um nýár. Þá var þann vetr í sýslumanns stad í Húnavatns þíngi Oddr nótaríus á Þíngeyrum, medan Vilhjálmr Frímann Krog kom ei til, er hún var veitt, en Ebenezer Þorsteinsson, prests frá Eyjadalsá, Jónssonar frá Einarstödum, Jónssonar, gjördist lögsagnari í Vadla þíngi eptir Gunnlaug Briem, ok þótti hann hvergi vel tilfallinn í þann tíma. — Vetrarfar var allgott vída frá nýári til midgóe, en hinn 11ta dag Martii lagdist at mikit 1801.
vetrarríki med hrídum ok stórvidrum, frostum ok ísalögum; gjördi varla upprof til hins 13da Aprilis, svo at fært væri á milli bæja hættulaust; gjördi þá byli marga skadvæna, en þó má helzt telja þann hinn 11ta dag Martii, ok á Góeþrælinn. Í hinum fyrra rak inn hafísa fyrir Nordrlandi öllu, ok tóku frá Bardaströnd til Reydarfjardar austr, umhverfis land; vard þá úti smalamadr í Hítardal med 160 fjár, ok fannst 30 af því á þridja degi med litlu lífi, ok madrinn mjök skemmdr, svo at af honum voru sagadar sídan hendr ok fætr, gjördi þat ólærdr læknir, ok þótti þeim sumum midr takast, er lærdir voru til þess. 40 saudfjár fórst á Hamraendum í Hraunhrepp, 30 á Svarfhóli þar, 17 at Stadarhrauni, mestallr saudr at Litla-Fjalli í Borgarhrepp, ok nokkut í Þverárhlíd. Í byljum týndist einnig saudfè at Vatnsnesi í Húnavatns þíngi, at Torfalæk ok Hjaltabakka, en at Haukagili í Vatnsdal, at Jóns bónda Ísaakssonar, er átti Helgu Bárdardóttur frá Stakkhamri, systur Högna skálds, vard tjón mikit á Öskudaginn; þar var saudamadr Sæmundr, sonarsonr Jóns, nýkvæntr Brigetu Snæbjarnardóttur prests frá Grímstúngum, Halldórssonar biskups, hann las húslestr um daginn, ok er honum lauk, hljóp hann út, því at brast á hrídin; var forrádsvedr hit mesta, fann hann 7 eda 8 kindr, ok hafdi látid inn; en eptir á föstudaginn fannst Sæmundr fram á Skútueyrum, nær hálfri þíngmannaleid frá Haukagili, frosinn vid svell nidr, med litlu lífsmarki, ok andadist sídan, er hann var fluttr heim, en fèd fannst aldrei, nema ein eda tvær kindr um vorit, ok týndust 200. Þat vard enn á Góeþrælinn, at fórust 3 skip í Höfnum med 15 mönnum, bátr med tveimr mönnum í Gardi, ok annarr á Strönd, en hinn þridja Aprilis týndist skip fyrir Keflavík vestra, med 8 mönnum eda 9, er voru á heimleid til Dala. Litlu sídarr steypti Sigurdi Gudmundarsyni prests frá Adalvík, úngum manni, á báti med ödru úngmenni, þó nádist Sigurdr; enn fleiri urdu þá úti, ok margar urdu slysfarir adrar á einstökum mönn-

um. Var þá kalt vor ok batnadi seint, ok fèll mikill fjöldi kvikfjár um Austrland, svo at Stephán amtmadr sagdi, at verit mundi hafa um 50 þúsundir í hans amti; þá vard ok vart vid brádasótt á saudfè í Dölum, en þat hafdi ei verit um 40 ár, ok vard fèd fyrir ásókn músa, at því er sagdi Magnús Ketilsson sýslumadr; hross fèllu þá einnig, ok mest í Skagafirdi. Var sú hin fyrsta hnekkíng, er þessi vetr ofanverdr ok vorit gjördi á velgengni manna, er þá var ádr ordin allgód vída í sveitum, því at allir lifdu í þann tíma sæmilega, fátækir af láni, þegar þeir þurftu vid, ok var þó ei svo mjök almennt, en gódir bændr höfdu grædt stóra penínga af kvikfè sínu ok útveg vid kauphöndluninni, því þeir þurftu eigi stórum at kaupa matinn, er dýrr var, en hátt verdit á vöru þeirra.

## LXXXVII. Kap. Enn frá árferdi.

Þá var mislægr fiskafli ok ógæftir stórar, þó var vorfengr mikill á Inn-nesjum þegar gaf, ok þegar vard fyrir lagnadarísum, jafnvel meira en 9 hundrud stór; fiskadist ok allvel umhverfis Jökul; en af því vard mörgum manni bagi í Bolúngarvík vid Ísafjörd, at fyllti alla fjördu af ísi, þar sem veidarfærin höfdu lögd verit, ok misstust þau öll af 30 skipum, ok vard lítid eitt upp slædt af seinna, en menn urdu at yfirgefa skipin ok brjótast heim med allmiklu vosi, ok voru þó ádr máttþrota mjök af hallæri, því er þar var. Hvalr brauzt þar upp um ís á föstudaginn lánga, ok nýttu menn þat eptir því sem vid vard komizt, en ördugt var um atfærslu alla, því ófærdir voru miklar, en hestar illa ordnir undan vetri. Vor var þá kalt, ok gródr lítill, en fiskafli í Múla sýslum var næsta mikill um sumarit, ok svo fyrir nordan, svo at bátar í Eyjafirdi fengu 300 af gódum þorski á hálfum mánudi, en tví- ok þrí-hladit á degi skammt undan landi á Slèttu ok Lánganesströndum, þar ei hafdi lengi fiskazt. Selar voru ok allmargir teknir á Lánganesi; en í fjördunum: Borgar-, Lodmundar- ok Seydisfirdi voru tvö eda þrjú hundrud sela rotud í ísi. Margt fengu norrænir menn í síldarnetum ok laxavodum í Hafnarfirdi, ok ætludu sumir af því, at síld mætti veida vídar í fjördum en á Eyjafirdi, þó þar sè einna bezt, fyrir hægdar sakir, ok svo var um hrognkelsa veidar, at þær voru tídkadar á Inn-nesjum. Hinn 16da dag Junii mánadar drukknadi Einarr prestr, kapellan í Múla, son Thómasar prests at Grenjadarstad, Skúlasonar, af vatnakænu med ödrum manni, þeir voru at silúngaveidi á Vestmannsvatni; hann átti Gudrúnu Bjarnardóttur sýslumanns, Thómassonar, systur Þórdar sýslumanns, ok voru börn þeirra: Hálfdán ok

Gudrún ok Álfheidr, en Jón hennar ok fyrra manns, Jóns prests, son; en Sveinn bóndi Einarsson í Hergilsey vid Bardaströnd, hreppstjóri ok formadr í Eyjahreppnum, týndist med heimamönnum sínum öllum, tíu saman, á heimleid frá kirkju sinni í Flatey, á skipi sínu, hinn 19da dag Julii. Degi sídar fórst Ólafsvíkr skip med allri áhöfn í brimi fyrir Eyrarbakka, ok stódu menn búnir til mannbjargar í fjörunni er brimgardrinn tók þat; ok enn drukknudu fjórir menn í Hvalfirdi, ok fjórir í Fljótum, ok fleiri urdu misfarir einstakra manna, þótt vèr teljum ekki. Var eitt um verzlunarskip í Höfda kaupstad, er hèt "Hákallinn", ok var sá skipari á er hèt Knútr Herleifr Pètrsson, úngr madr ok vel á sik kominn, ok sundmadr hinn mesti. Kristján Gynther Schram var þá kaupmadr. Þat skip sleit upp af höfn, ok braut í Laxárósi, ok fórust menn af, en mörgum þótti grunsamlegt mjök um skiparann, svo röskvan mann, þvíat merki þótti sjá, sem hann hefdi komizt á land; fannst flaska á uppreistri tunnu, med nokkru brennivíni, ok hundr hans á landi; vard þá þegar margrædt, en Schram kaupmadr gjördi sèr engan eptirrekstr at því; þótti Þorvaldr, son Jóns gardyrkjumanns Grímssonar, at Gilja, peníngaríkari eptir, en menn ætludu, en hvar sem hundrinn sá hann, sókti hann at honum, en ei ödrum mönnum, ok vard at verja hann fyrir honum.

## LXXXVIII. Kap. Mannalát ok adrir tilburdir.

Öndverdlega um vorit hafdi andazt Gudrún Þorláksdóttir, kona Ísleifs Einarssonar assessors at Geitaskardi, ok var þat ádr hann færi sudr, ok setti hann sjálfr saman grafskript hennar; höfdu þau átt þrjú börn saman ok lifdu eigi. Þar eptir andadist Sigrídr eldri Stephánsdóttir, kona Kristjáns prófasts Jóhannssonar í Stafholti, nær hálf-áttræd; Gudrún Halldórsdóttir eldri at Þíngvelli, þremr vetrum meir en sjötug, hún var systir Bjarnar prófasts, er fyrr var at Saudlauksdal en sídar á Setbergi, ok Gudrúnar, hinnar frægu yfirsetukonu ok læknis, er átt hafdi Halldórr prestr Brynjólfsson í Hraungerdi, en þessa Gudrúnu hafdi átt Gudmundr prestr, son Jóns Magnússonar á Núpi, ok var hún módir Jóns sýslumanns; einnig deydi Jón prestr Henriksson at Keldum, ok Sigurdr prestr Jónsson, er fyrr var at Kálfatjörn, en þann stad hèlt þá Gudmundr prestr Magnússon frá Þíngvelli, Sæmundarsonar prófasts, Magnússonar; ok enn Helga Jónsdóttir frá Vatnshorni, Hákonarsonar, er fyrr hafdi átta Magnús Einarsson, ok búit á Jörva í Haukadal, hún var þá at Vatnshorni med Jóni syni sínum, Egilssyni, ok skorti vetr á tírædan, því hún var 5 vetra í stóru bólu. Þat vita menn med vissu,

at þá fjölgadi enn fólk í landi hèr. Á þeim misserum hófst landsyfirrèttrinn nýi, ok hèlt Magnús Stephensen tölu sæmilega á tölustóli, er hann setti hann fyrst, vildi hann ok eigi láta adra menn sækja þar mál eda verja, en þá, er Examen höfdu, ok voru þá fyrst sýslumenn optast fengnir til, er næstir voru: Vigfús Þórarinsson á Hlídarenda, hann var mest æfdr í málasóknum, Gudmundr Ketilsson á Svignaskardi, hann var ok lögvitr, Sigurdr Pètrsson ok Jón Espólín; var einna fyrst tekit fyrir dulsmálit úr Krýsivík: hafdi sú kona, er Steinunn hèt, dóttir Árna Nathanaelssonar, alit barn, ok látid þat farast, med rádi barnsfödur síns, var hún þá dæmd frá lífi, en fèkk þó líf seinna, ok at lyktum fullt frelsi; gjördust þá ok líflát mjök ótíd. Þat þótti mönnum at, er aldrei kom út prentad þat er fram fór í þeim rètti, eda neitt um þat, lánga tíma. Hófst þá enn ferdalag Commissariorum um landit, ok var Lodvík Erichsen annarsvegar, en Stephán Assessor hinsvegar; hèldu þeir þíng í sveitum, ok sögdu menn þeim til um jardir sínar, ok mjök misjafnt, svo at ugga mátti, at eigi yrdi allgódr jöfnudr, er á slíku skyldi byggja sídan skuldagjald af jördunum. Erichsen götvadi þar jafnframt upp allt þat er hann mátti, er til óþurftar gæti ordit Ólafi stiptamtmanni ok þeim frændum, ok var þar fjandskapr í milli, ok var þá fundit stiptamtmanni eitt til, med ödru, medhald med Grími Ólafssyni þjófi, er fyrr er getid, var þá Grímr í Reykjavík, ok átti dóttur Páls Brechmanns, höndlara eins, er ættadr var úr Dölum, ok verdr hans enn getid at ódádum.

## LXXXIX. Kap. Frá ýmsu er til bar.

Nú fèkk Lýdr Gudmundarson lausn frá Skaptafells sýslu, var hann þá ok gamall mjök, en þá sýslu fèkk Jón Gudmundarson frá Vestmannaeyjum, ok Vestmannaeyjar aptr Jón Þorleifsson landskrifara. Páll Jónsson í Gufunesi klaustrhaldari var settr fyrir Kjósar sýslu, ok hèradsdómari í Gullbríngu sýslu, því at Sigurdr Pètrsson í Nesi var opt vanheill sagdr, ok hafdi eigi lengi mátt atstanda sýslunnar, enda verit lítt vid þat felldr, því hann var lèttlátr, ok meir gefinn fyrir gaman enn standa fyrir vandfærni ok vítum, ok því var honum eigi um Ólaf stiptamtmann, ok lèt stundum fjúka í kvedlíngum, ok vard þá enn vandstadnara, ok því hafdi Sigurdr Gudlaugsson faktor stadit um hríd fyrir sýslu-rekstri. Sigurdr Pètrsson var innfalla-skáld mikit, ok jafnan í Nesi, ok gjördi sèr allt jafnlètt, átti hann hvorki konu nè börn svo menn viti. Þá deydi Halldóra Teitsdóttir, Arasonar, ekkja gömul Ólafs Árnasonar sýslumanns, ok Gudrún Skúladóttir landfógeta, er átt hafdi Jón sýslumadr Arnórsson á Íngjalds-

hóli; hún bjó í Stadarsveit vid fátæki; einnig mála-Ólafr Gíslason, er prestr hafdi verit, hafdi Wibe amtmadr látid flytja hann til Öndverdrar-Eyrar, til systursonar hans, Gudmundar bónda Sigurdarsonar, er hèlt hospítalit, sá var son Sigurdar, er á Eyri var fyrir hann, Gudmundarsonar á Hrauni, merkilegs bónda, er gróf í dys Halla ok Leiknis. Þá fèkk Björn Eyda í Múla sýslu, son Vigfúsar prests, er þá hèlt Gard, en fyrri Skinnastadi, Bjarnarsonar prófasts at Grenjadarstad, Magnússonar; Benedikt prestr Sveinsson frá Vogsósum Hraungerdi, en Jón prestr Krýsivíkr þíng; Jón prestr Ketilsson, bródir Magnúsar sýslumanns ýngri, Hvamms sókn í Dölum, ok Sigurdr prestr Jónsson, kapellan, Saurbæ í Eyjafirdi, því Magnús prestr Jónsson, Bjarnarsonar at Bustarfelli, sá er þar var, tók at eldast ok gaf upp stadinn; átti Sigurdr prestr Elínu dóttur hans. Konúngsbrèf komu út um sumarit, ok ei mjök almenníng snertandi; var eitt stadfestíng á nidrskipun fátækra-fèhirzlu í Eyjafjardar sýslu, er Jón Jakobsson sýslumadr ok Fridrik Lynge kaupmadr höfdu sett, ok hafit í öndverdu, ok gefit sjálfir mikit til, ok ætlad fátækum ekkjum ok börnum födurlausum. Þá var prentud messusaungsbókin nýja, ok tók hana fyrst upp Hallgrímr prestr í Gördum á Akranesi, Jónsson, ok sídan margir prestar í Borgarfirdi ok vídar, en sunnudaginn eptir hina næstu Michaelsmessu var hún innleid í Reykjavíkr dómkirkju; beiddu margir prófastar um hana, en þó gekk hún mjök tregt út lengi, þvíat almenníngr var, sem vant er, ófúss á nýjan sid, en líkadi verst er breytt hafdi verit hinum gömlu sálmunum, er þar voru í; vard einna minnst hirt um hana á Hornströndum ok í Dölum, Húnavatns sýslu ok Skagafirdi; risu þá upp í þat mund kvedlíngar at sunnan ok nordan, þeir er eigi skyldi æfa, ok vard Jón presti Þorlákssyni þat, at verda þar vid ridinn, ok fyrst af því, at honum þótti breytt sálmum sínum, ok þó á bádar sídur.

## XC. Kap. Enn fleira er bar til.

Brèf þau er út komu, auk þess um skólafærsluna ok hins, er getid var, voru Cancellie brèf, um stúdenta at ei svari skatti, ok kapellanar at eins tíundum til fátækra, en sýslumenn þremr tíundum, til prests, kirkju ok fátækra; einnig konúngsbrèf um embættisklædi amtmanna, ok at þau mætti ei adrir bera en leyft væri, ok lífgjöf Ástrídar Halldórsdóttur úr Árness-þíngi fyrir dulsmál, hún skyldi vera í tukthúsi alla æfi; stopult gekk þá þó um tukthúss veru, þó svo væri at kvedit. Þat sumar voru illar nýtíngar fyrir sunnan, helzt þar sem ei var þurrlendi, en þó heyjadist vída eigi all-lítid. Þá andadist enn Stephán prestr

Högnason, er fyrrum hafdi haldit Breidabólstad í Fljótshlíd, ok þótti hann hafa verit merkilegr madr; ok Magnús Ormsson apótekari, hafdi hann slèppt þeirri sýslan nokkru ádr, ok var hún veitt Gudbrandi Vigfússyni, sýslumanns úr þíngeyjar þíngi, Jónssonar. Var nú Hóla-stipti lagt til Reykjavíkr stiptis, ok skyldi Geirr Vídalín vera biskup yfir allt land, hafdi þat eigi fyrr verit sídan á dögum Gizurar biskups Ísleifs-sonar, ok þótti at kynlegra þeim sem til nokkurs vissu, er biskupi vard trautt veitt svo uppheldi sem honum mátti nægja, þó mikit væri at penínga upphæd; var þat víst satt, at hann var hinn mesti örlætis-madr, enda var ærit kostnadarsamt at lifa á þann hátt í Reykjavík, er höfdíngjum sómdi, ok flestum vard þeim þat skýlt, þó þeir væri kall-adir forsjámenn ádr, svo sem sýndist um Ísleif assessor; fyrir því vildi Magnús jústizrád eigi fara sudr, þó honum væri til þess haldit, því þeim var öllum bodit at vera í Reykjavík, sem embætti skyldu hafa vid landsyfirrèttinn. Var nú ok skólinn frá Hólum lagdr saman vid hinn sydra, ok höfdu þá lengi tveir verit á landi hèr; en Páll rektor Hjálmarsson fór utan, ok vildi vinna þat á at Hóla skóli hèldist, ok gat ekki; hèlt hann þadan af ekki nema einstöku skólasveina; hann hafdi haft umbod stólsjardanna um hríd, ok þóttist þá eiga þúngt vid amtmann, ok þó hann hefdi þá allmikit med böndum þá græddi hann eigi fè. Björn Stephensen seldi Hvítárvelli Sveinbirni bónda Þórdar-syni á Kjaranstödum, er lögrèttumadr hafdi verit, en keypti Lágafell ok fór þángat. Þá setti Wibe amtmadr Odd Vídalín frá sýslu á Barda-strönd fyrir ýmsar sakir, er honum voru gefnar, komst þó aldrei svo lángt at sannadar yrdi, eda dæmt í þeim, en Gudmundr Skevíng, son Bjarna Einarssonar ok dótturson Davíds Skevíngs, var settr fyrir sýsl-una, hann var skarpr madr, grannlegr ok smámannlegr at sjá, ok þótti fègjarn nokkut. Þat haust lèt Magnús Stephensen taka út prentverkit, ok skyldi fèlagit afhenda stiptaninni, med því tillagi er fèlagit lagdi, ok ádr er á vikit; fèkk hann þá af Jóni sýslumanni Espólín at sækja um sýsluskipti vid Jónas Skevíng, því hann vissi at honum fèll lítt vid amtmann nyrdra, ok vildi fá hann sudr til at mægjast vid sik, þóttist ok sjálfr mjök vanheill, ok fyrir þeirrar vanheilsu sakir sendi hann nordr eptir Jóni lækni Pètrssyni at Vidvík; hann brá vid ok reid sudr, en bad ferdamenn á nordrleid, hvar sem hann hitti, at heilsa ekkjunni í Vidvík, en er hann kom í Reykholt, andadist hann, nóttina hins 9da Octobris, ok var lík hans flutt út at Leirá, ok þar grafit, hafdi hann ritad upp rád þau, er hann ætladi at brúka jústizrádi til heilsubótar, ok voru þau höfd sídan, undir tilsjá Hallgríms Bachmanns frá Bjarnarhöfn, því hann var þá sóktr vestr, ok komu at lidi. Jón

Pètrsson var haldinn vitr í læknisdómum, en hafdi þótt mjök mistækr; hann hefir skrád um skyrbjúg íslenzkan, svo kalladi hann líkþrána, ok um iktsýki, er þá gjördist mjök tíd, ok enn um orsakir sjúkdóma, ok lækníngabók, ok er allt kallat vel samit; hafdi Ari, son Ara prests at Tjörn í Svarfadardal, Þorleifssonar prófasts, Skaptasonar, haft ásamt honum læknisembætti fyrir nordan nokkra hríd, en nú hafdi hann fengit konúngsbrèf fyrir því, ok hèlt þat sídan. Þat sumar var vída grasgott, nýttist vel fyrir nordan þó votsamt væri, ok allt var sumar hit bezta fyrir austan. Hvali rak hèr ok hvar, ok tvo mikla á Vestfjördum, seint um sumarit. Fjórir menn týndust úr Fljótum um haustid, en hinn 14da dag Novembris áttæríngar tveir, med fjórum mönnum hvorr, þeir fóru at sækja hey til Oddbjarnarskers. Þá andadist enn Sigrídr Stephánsdóttir prests, Högnasonar, kona Páls prests Þorlákssonar frá Þíngvelli, ok hinn 15da dag Decembris Einarr prestr Þórdarson, er fyrr hèlt Hvamm í Hvammssveit, ok hafdi hann verit haldinn vel at sèr at mörgu. Þann tíma voru hèr út Leutenantar tveir, Aanum ok von Olsen, at mæla hafnir ok andnes fyrir sunnan land; var þá Guttormr, son Páls prófasts at austan, Magnússonar á Brennistödum, settr fyrir Reykjavíkr skóla. Runólfr prestr Jónsson fèkk Keldna þíng, en Helgi prestr Bjarnason Hvols ok Skúmstada; Audunn prestr Jónsson, prests frá Mosfelli, Hannessonar, Reyni ok Höfdabrekku, en Markús prestr, son Sigurdar prests Jónssonar í Stafholti, er eystra hafdi verit, Mosfell aptr, því þeir höfdu skipti, ok var þat sá Markús prestr, er barst á í Ölfusá. Þorkell prestr Jónsson fèkk Stad í Súgandafirdi, en Jón prestr Ketilsson Hjardarholt í Dölum, skipti Jón prestr Gíslason um vid hann ok tók Hvamm. Á því hausti brann smidja Þorsteins bónda á Hvaleyri sudr, sú er mest var ok bezt á Íslandi, ok hús enn fleiri. — Þá var fólk á landi hèr á áttunda hundradi hinnar fimmtugustu þúsundar.

## XCI. Kap. Vetrarfar ok annat slys.

Med vetrnóttum lagdi þegar at vetr mikinn fyrir nordan ok austan land, ok helzt eystra, ok jafnvel sydra, med hrídum ok snjóaþúnga, öndverdlega á Jólaföstu, en med nýári gnúdi hann á vídast um allt 1802.
land, ok var hinn hardasti, tók fyrir jörd alla í hinum fyrstu blotum, ok kom vída ei upp aptr fyrr enn hálfr mánudr var af sumri; gengu blotarnir allan vetrinn milli hverrar hrídar; enginn madr mundi þá jafnhardan vetr ok lángan. Var jardlaust í Stranda sýslu, ok kom ei upp til hlítar fyrr en mánudr var af sumri, svo var ok vídar. Bönn-

udu ísalög, hafísar ok ófærdir, bjargir allar, ok flosnudu margir upp vestra. Margir menn skáru peninga á þorra ok þadan af, ok lógudu bædi kúm ok hrossum, ok af því flosnudu sumir sídan upp á Bardaströnd; hrakti 50 fjár úr höndum saudamanni í Grímstúngum í Vatnsdal í gil, ok týndist. Í dölum öllum nordanlands var jardbann mikit, en þó bezt í Húnavatns sýslu, en í Eyjafirdi voru hardindi mikil, ok nordr þadan frá. Eystra var engin jörd fram um sumarmál, svo var ok vída sydra, helzt í Borgarfirdi, Árness þíngi ok Skaptafells þíngi. — Hafísar miklir lágu fyrir landi vestan, nordan ok austan, ok komu á þeim tveir birnir vestra, var annarr unninn í Trèkyllisvík. Var þá hinn mesti vorkuldi med hrídum, ok aldrei blýnadi á því sumri eptir, svo telja mætti, ok spratt mjök illa, en fiskitekja var sumstadar, ok eigi sízt fyrir nordan, ok mikil síldargánga á Eyjafirdi. Lambadaudi var mjök mikill. Hvali rak vída fyrir nordan: einn í Málmey fertugan, ok dró Sigfús bóndi Jónsson, er þar bjó, leynd á, medan mátti, til þess er Þorsteinn bóndi Arason á Höfda veiddi þat upp, en eigi gjördi Jónas sýslumadr rekstr eptir því, ok flæmdist Fúsi sídan úr eyjunni; á Vestfjördum rak ok hvali. Margt fólk dó úr sótt eda vesöld umhverfis Reykjavík. Misferli urdu enn nokkur, ok urdu 4 menn bráddaudir á einum bæ í Dýrafirdi, nær samstundis; ætladi Gudlaugr prófastr Sveinsson hákalls át ógætilegt valdit hafa. Bóndi nokkurr í Kollafirdi lagdi sik viljandi til bana undir bríngspalirnar, ok tveir menn hröpudu á Raudasandi, ok höfdu bana bádir. Einn var í Reydarfirdi austr, er hugdist gánga eptir ljósi í kaupmanns húsi, var svo drukkinn, en gekk eptir skipsljósi, ok týndist í sjónum. Brotnadi Höfda-skip í Múla sýslu eptir lángan hrakníng, en annat fórst í spanska sjó, var Schram þá faktor í Höfda; en skip eitt, er Kyhn átti, braut vid Hornstrandir, ok týndust af allir skipverjar; var einn Einarr Hjaltested kaupmadr eda faktor, Ásmundarson, hann hafdi átta Gudrúnu, dóttur Runólfs Runólfssonar, Sigurdarsonar í Sandgerdi, ok Margrètar Gudnadóttur sýslumanns, Sigurdarsonar, er sídan var gipt Birni Olsen á Þíngeyrum; fjórda skip týndist, er átti Lynge kaupmadr. Brann bær á Reykjavöllum í Árness þíngi, ok týndust tveir menn, ok fleiri urdu brennur, ok tvö börn úng brunnu í Sudr-Múla sýslu af eldkveikju í lýngi, er eldri börnin höfdu gjört.

## XCII. Kap. Mannalát, ok frá ýmsu.

Öndverdlega á því ári, hinn 11ta Februarii, andadist Joachim Kristján Vibe amtmadr, en sídan Jón prestr í Reynistadar þíngum, Jónsson

prests, Gunnlaugssonar, hann var fadir Jóns prests, er sídan var at Audbrekku, Stærra-Árskógi ok Grenjadarstad; Sveinn prestr Sigurdarson at Stöd í Stödvarfirdi; Björg Pálsdóttir, ekkja Einars prests þórdarsonar í Hvammi, systir þeirra Pálssona; Hilaríus prestr Illhugason at Mosfelli í Grímsnesi; Sigrídr Sigurdardóttir, kona Jónasar prófasts á Höskuldstödum, Benediktssonar prests, Jakobssonar, var þeirra son Benedikt; ok enn Stephán prestr Halldórsson í Laufási, er átti þorbjörgu, dóttur Jóns prests Ketilssonar at Myrká, fadir Jóns prests ok Cecilíu at Mælifelli, ok þeirra systkina, var hann gamall mjök; ok svo Ástrídr Bjarnadóttir sýslumanns, Halldórssonar, kona Halldórs Jakobssonar, hafdi hún farit nordr at Reynistad til Ragnheidar, en fèll þar ekki, ok ætladi vestr aptr til Halldórs, en er hún var í Vídidalstúngu med þorbjörgu, systur sinni, ekkju Jóns Ólafssonar vicelögmanns, dó hún, ok var farit fè hennar flest. Fridrik prestr þórarinsson átti þá Hólmfrídi, dóttur Jóns Ólafssonar ok þorbjargar, ok bjó í Vídidalstúngu, en þorbjörg var sèr, en Halldórr Jakobsson fór at Bæ vid Hrútafjörd til Jóns Jónssonar sýslumanns, ok hafdi þó ætlad ádr til vistar med Birni sekretera Stephensen, er hann bjó at Hvítárvöllum, ok gefit börnum hans ok Margrètar, bródurdóttur sinnar, Kolbeinstadi ok þær eignir, er systkin hans áttu þó med honum, en hann gjördi þeim aldrei skil fyrir. þeim voru veitt sýsluskiptin Jónasi Skevíng ok Jóni Espólíni, ok voru þeir þó hvorr í sínum stad þau misseri. Sigurdr prestr Ögmundarson, Högnasonar, fèkk Reyni ok Höfdabrekku, ok skipti aptr vid Audun prest Jónsson, hann tók Kross ok Vodmúlastadi; Gunnlaugr prestr frá Ríp fèkk Reynistadar kall, son Magnúsar prests á Höskuldstödum Pètrssonar ok Ásgerdar Pálsdóttur, hann var fátækr madr ok lítill í skapi; Arnfrídr hèt kona hans, þorláksdóttir, Sigfússonar, lögrèttumanns, nordan frá Grund, ok áttu þau börn mörg, er enn mun getid sumra. Magnús prestr Árnason biskups, þórarinssonar, fèkk Ríp aptr, en Jón prestr þorvardsson Glæsibæ, ok Jón prestr Myrká, sá er í Glæsibæ var fyrrum, son Jóns prests at Völlum, Halldórssonar. þeir voru skrifarar vid jardavirdíngar-nefndina: Jóhann, son Árna biskups þórarinssonar, ok Fridrik Abraham Kolvig, fóru þeir Commissarii yfir land fyrir nordan, ok baud Stephán assessor Stephensen upp Hólastól, ok allar stólsjardir í Skagafirdi, nema Flugumýri ok Vidvík, ætladi hann at Flugumýri skyldi verda sýslumanni til ábýlis, en Ari læknir Arason baud ásamt uppá Flugumýri; Stephán amtmadr baud upp á stólinn tvær þúsundir dala, en Jakob Havstein, undirkaupmadr í Hofs-ós, uppá Drángey, ok margir uppá ábýlisjardir sínar, ok gátu sumir ei setid at því seinna, er fátækir voru, því at hardindin fóru í hönd, en sumir bændr, er fjádir voru, budu uppá margar:

Jón bóndi á Bakka Bjarnason, ok Þorlákr á Ökrum Símonarson, ok enn fleiri. Flestar jardir nádu 100 dölum, en allt voru þá bankósedlar, en mjök margar var meira bodit fyrir af þeim, er efnadir voru, en leigulidar gátu sætt, ok vildi þó konúngr at þeir nyti helzt; urdu margir drjúgari af peníngum en taldir höfdu verit til tíundar, en þó var verdit ærit gott á jördunum, hjá því sem sídarr vard, ok helzt fyrir bankósedla. Þá kom út konúngsbrèfit um vegsklædin amtmanna, þau skyldu vera raud, dregin med gullvír, ok skyldi hækka þeirra virdíngu til jafns vid biskupa; einnig um útbýtíngu 400 dala af kollektu-peníngum til fátækra presta, er mest hefdi misst í þeim hardindum er þá voru á komin, ok mundi Geirr biskup Vídalín hafa um gengit; einnig um kýrbólu, er þá var fundin, at hún væri naudsynlegt verndarmedal vid bólusótt, ok nokkur önnur, stúdenta uppreisnir ok slíkt annat. Tilskipanir konúngs komu 5 prentadar út í Leirárgördum, en ei annat, þat er teljandi var, dó Jón bóndi Jónsson at Audunnarstödum í Vídidal, ok Þorleifr Pálmason at Breidabólstad í Sökkólfsdal.

## XCIII. Kap. Stórmæli vestra.

Þá bjó at Skildínganesi Gudmundr bóndi Jónsson, er lögrèttumadr hafdi verit, hann fèkk gull-minnispeníng fyrir hjálp naudstaddra manna í brimi, ok skyldi bera á brjósti sèr, því þat var þá tídt í Danmarkar ríki, at gefa slík minníngarlaun fyrir hjálpir. Þá vard atburdr illr á Bardaströnd, á þeim bæ er heitir at Sjöundá, þar bjó sá madr er Jón hèt, kona hans hèt Steinunn, ok þótti sidlát ok sæmilega vel at sèr; þar bjó á móti honum sá madr er Bjarni hèt, ok var Bjarnason, hann var med gildari mönnum ok kalladr gæflyndr ok óknyttalaus; hans kona hèt Gudrún. Þat bar til, at Jón gekk inn í Skor á Raudasandi, ok var at fara vestr yfir hlídar brattar; í þeirri ferd hvarf Jón, ok ætludu menn hann hrapat hafa; hann rak sídan af sjó, ok fannst á honum stíngr; var þá ok Gudrún kona Bjarna dáin, ok grafin; vid þat kom upp grunr, ok var lík Gudrúnar grafit upp aptr, ok sá ummerki, at misþyrmt hefdi verit; lèt þá Gudmundr Skevíng taka Bjarna ok Steinunni, ok medgekk Bjarni, at hann hefdi farit eptir Jóni, at rádum Steinunnar, ok lostid hann í rot med staf, ok hrundit honum sídan úr hlídinni, en þau hefdi kyrkt Gudrúnu. Steinunn medgekk mjök treglega, en þó vard allt sannat um sídir, ok gekk sídan frá hverjum rètti til annars, sem þá var tídt ordit vid sakamanna mál, ok var þeim hvervetna dæmdr daudi bádum, ok Bjarna at klípast, sem lög stódu til. Þat bar til einnig um haustid, at Gardabrekku vid Sydri-Garda í

Stadarsveit, at Gudrún, bústýra Jóns Halldórssonar, er þar bjó, ok hafdi sýnzt þúngud um sumarit, en þrætt fyrir, ok gengit í heyskap, fèll nidr er hún þvodi höfud hans, var dreypt á hana, ok dugdi ekki. Var þá fengin til önnur kona at gjöra verk hennar, sú fann, er hún bar út ösku, lík af sveinbarni, er sýndist fullburda hefdi verit, ok brunnit mjök, ok var engum til dreift at ætti nema Gudrúnu daudu, hafdi hún eigi viljat fara til kirkju sunnudaginn fyrir, ok verit þá ein heima, ok ætludu menn hún mundi þá hafa alit barnit, ok er lík hennar var skodat, fannst stálmi í brjóstum.

## XCIV. Kap. Embættaskipti.

Á þeim misserum gjördist Magnús Erlendsson prófastr í Eyjafirdi, þvíat fadir hans var mjök tekinn at eldast; ok þá lèt Hallgrímr Bachmann af læknis embætti, hafdi hann haldit þat í 7 vetr hins 4da tugar, ok bjó sídan nokkra stund í Krossnesi; gjördist aptr læknir Ólafr Brynjólfsson, er átti Kristínu dóttur hans. Var þá vetr áhlaupasamr öndverdr, en ræktist vel af. — Hófust sakamanna mál í Borgarfirdi ok vídar. — Var midr vetrinn gódr, en misjafn endrarnær. Þá dó margt 1803.
fólk úr sótt, en sumt úr hardrètti.

## XCV. Kap. Klædabúnadr.

Þat hafdi lengst verit í landi hèr, at fyrirmenn báru kjóla ok bændr höfdu mussuföt, en konur flestar hempur yfir klædum, ok falda, en þær, er mikilsháttar voru, skjöldu ok knappa, ok belti ok annan silfrbúnad á skartsklædum sínum; en sídan um aldamótin tók sá búníngr mjök at breytast: tóku konur margar upp hatt, ok treyju ok frakka, á danskan hátt, ok seldu silfr sitt, en þó vard þat eigi mjök almennt. En fyrirmenn margir tóku upp treyjur at jafnadi, ok höfdu eigi kjóla nema til vidhafnar, ok þá stutta, ok margir bændr tóku þat eptir þeim, ok enn minniháttar menn ok lausíngjar, at búast treyjum; en um þetta leyti, er nú segir frá, ok svo sídan, hófst þat, ok kom frá Danmörku, at konur færdu midtid á frökkum eda treyjum nær upp undir hendrnar, ok karlmenn styttu einnig treyjurnar, ok höfdu buxur bædi miklar ok vídar ofan, en klipptu sèr koll; þó var þat tídast í Reykjavík ok í höndlunarstödum.

## XCVI. Kap. Frá ýmsu. Stiptamtmanna skipti.

Nú hefir Magnús Stephensen látid af at rita tídindi, en Finnr, son

Magnúsar lögmanns Ólafssonar, skrádi hin sídustu, ok vard sídan misbrestr á þeim. Var Finnr sydra, og gekk opt at talsmennsku í Reykjavík, eda var vid reikníngai, hann var skáldmæltr ok skarpr, ok hafdi einn verit í Kaupmannahöfn þá Enskir hleyptu inn í Eyrarsund ok fengu vidtöku harda; höfdu þá stúdentar verit æfdir vid at bera vopn, ok einnig Íslenzkir, þeir er þar voru; ok fækka nú sem mest stodir at rita eptir; þó er þat at segja, at á þessum misserum öndverdum, er nú voru komin, andadist Ásmundr prestr Pálsson at Audkúlu, hann var barnlauss, ok fèkk stadinn eptir hann Jón, son Jóns prófasts Sveinssonar at Stad í Steingrímsfirdi, bródir Hjalta prófasts, hann átti Íngibjörgu Oddsdóttur prests frá Miklabæ, Gíslasonar biskups. Annarr deydi Egill Eldjárnsson, er fyrr var prestr at Útskálum, bródir Hallgríms prófasts, ok hinn þridi Þórdr prestr Þórhallason at Saurbæ á Kjalarnesi. Um vorit lagdi Bóas Grímseyjar-prestr, son Sigurdar smids Oddssonar, úr eyjunni vid 10da mann, á skipi allgódu ok vel menntu, er úr landi hafdi komit at sækja skreid, ok ætladi alfarinn úr eyjunni, ok rádstafa sèr á landi, en þat skip týndist med allri áhöfn, ok rak upp af nokkut á Skaga. Þá dó einnig Sophía, dóttir Halldórs prentara Eyríkssonar, ok Gudrúnar Eyríksdóttur frá Búdum, Steindórssonar, hún var kona Þórarins prests á Hvanneyri, Sigfússonar. Þat vor var hit kaldasta, ok svo öndvert sumar, ok voru hafísar vid land; var þá dæmt í yfirrètti mál Bjarna ok Steinunnar, ok gistu þau í tukthúsinu, en sumarit allt var med köstum, ok all-illt. Þá dó einnig Sigfús prófastr Jónsson í Höfda nordr, bródir sammædra þeirra Eldjárnssona; ok Oddr Vídalín, sýslumadr á Bardaströnd, í bágindum miklum; en Sigurdr Pètrsson fèkk lausn frá Gullbríngu sýslu ok Kjósar, ok Páll í Gufunesi lèt af sýslumanns atgjördum þar. Auglýsíng var gefin út af konúngi um vareygdar–reglur vid næma sjúkdóma, en seinna um 10da peníng af arfi. Magnús Stephensen flutti sik frá Leirá, ok út at Innrahólmi, hafdi hann fengit jardaskipti af födur sínum, en vildi eigi vera í Reykjavík, en sídan byggdi hann upp Innrahólm tígulega, ok hafdi þar bú mikit, flutti hann med sèr organit þángat. Björn sekreteri, bródir hans, hafdi selt Hvítárvelli Sveinbirni bónda Þórdarsyni á Kjaranstödum fyrir 12 hundrud dali, ok keypt Lágafell, ok flutt þángat, til at vera nær vid landsyfirrèttinn, hann reid nordr at Gilljá undir messur, bjó þar þá Oddr nótaríus Stephánsson, er at Þíngeyrum hafdi verit, ok bad Björn Sigrídar dóttur hans, ok fèkk hennar, ok fór med hana sudr. Ísleifr Einarsson var ok sudr farinn, ok hafdi flutt til Reykjavíkr, ok látid reisa þar hús mikit á Austrvelli; var hann einn í Reykjavík af þeim landsyfirrèttar-höfdíngjum, því at Benedikt

Gröndal var í Nesi vid Seltjörn. Jónas Skevíng sýslumadr hafdi verit á Vídivöllum med foreldrum sínum, en haft bú at Silfrastödum, ok med því hann hafdi ei haft kostnad mikinn, en árin verit gód, tók hann at gjörast efnadr; fór hann nú sudr, því at honum var heitin Ragnheidr, dóttir Ólafs stiptamtmanns, ok settist at Leirá; en Jón Espólín fór nordr til Skagafjardar, ok bjó fyrst á hluta Flugumýrar, móti Ara lækni, höfdu Commissarii lagt út jördina sýslumanni, er Ari hafdi bodit uppá, fèkk hann þá Cecilíu, dóttur Vigfúsar prests í Gardi nordr, Bjarnarsonar, audugs manns; Kjarni var lagdr út sýslumanni í Eyjafirdi, en Grund í Svínadal í Húnavatns þíngi, ok skyldu þó vera leigujardir, en því trúdi almúgi varla, at sýslumönnum væri skamtad svo naumt. Var á því vori hákallsfengr mikill í Fljótum. Þá andadist í Junio Jón Sveinsson landlæknir í Nesi, ok hafdi fengit af konúngi lausn frá embætti, þó var hún ei þá enn út komin; hann hafdi verit drykkjumadr, en jafnan spakr, kalladr vitr í læknisvísi, en at lítid skæri úr. Annarr deydi Snorri prestr Bjarnarson, er þá hafdi lengi haldit Húsafell, ok var hann á 10da tugi, ok hafdi þángat til verit hinn hraustasti, verit hafdi hann skipasmidr ok skipstjórnari mikill, færr at sundi ok til annars atgjörfis ok karlmennsku, ok skáld gott, ef hann hefdi vandat þat. Hann hafdi átta Hildi, dóttur Jóns prests Einarssonar í Adalvík, ok voru þeirra synir Björn prestr, er dáinn var, Jakob smidr, ok Einarr, ok bádir rosknir í þenna tíma, bjó Einarr þá í Bæ í Borgarfirdi, en Jakob at Búrfelli, en seinna at Húsafelli, ok var smidr mikill, en nær daufr. Þat sumar kom út Lodvík Erichsen, ok var amtmadr, en Ólafi stiptamtmanni var at hans undirlagi vikit frá stiptamtmanns embætti hinn 10da dag Maji, ok sett Commission yfir gjördir hans ýmislegar: tilsjá med dómkirkjusmídinni í Reykjavík, ok ýmsu ödru, en þat þóttu þá hin mestu tídindi og furda, ok ætludu margir Erichsen mundi verda öllum hans frændum þúngr í skauti; fèll þá stirt á med þeim Magnúsi jústizrádi, sem líklegt mundi þykja, ok var Erichsen settr fyrir stiptamtid, en í Commissioninni voru: Ísleifr assessor, ok kammerrád, er nefndist Bendike. Var þá þúngt árferdi, ok lítill fiskifengr vída; hafdi Ólafr stiptamtmadr Stephánsson borit þat fyrir kammerit, ok fyrir því gjördi þat samníng vid þann kaupmann, er Just Ludvigsen hèt, at senda híngat um haustid skip, hladit med matvöru, en honum þótti hættleg siglíngin svo seint á ári, ok vildi hafa tvær þúsundir dala í skipsleigu, ok 100 dala þóknun til skiparans; þat eptirlèt konúngr honum af fèhirzlu eda kollektu-peníngum Íslands; ok kom þat skip út á þessu sumri, ok hafdi legit í Noregi vetrarlegu. Voru þá enn lánadir híngat 1000 dalir af kollektu-pen-

íngunum, ok þótti sumum sem þeim hefdi mátt reida betr ok þarflegar, en vard, í sumu.

## XCVII. Kap. Tjón, mannalát ok fleira.

Á því ári dóu ei allfáir úr hardrètti, ok fleiri dóu en fæddust; skipatjón þeirra, er í förum voru, urdu í ýmsum stödum. Misti Hans Hjaltalín kaupmannsskip á þessu hausti fyrir ofvidri, er hann var búinn til utanfarar; komust af menn allir. Allmargir menn drukknudu, ok fleiri urdu misfarir; týndist skip í Gardi med mönnum á, er Bjarni prestr Pètrsson á Útskálum átti, en hann komst af vid annann mann, var einn sá madr er týndist sonr hans skólagenginn, er Einarr hèt — 8 menn týndust ok á sjóferd úr Drángey, ok 8 á Akranesi; ok fannst daudr Erlendr prestr Gudmundarson, Jónssonar á Núpi, Magnússonar, er hèlt Stöd, í sjó, nærri Eskifjardar kaupstad, ætludu margir hann hefdi sjálfr valdit, því at þat fólk var margt veiklundat; hann var gáfumadr, ok fátækr. Ari Magnússon hèt höndlunarmadr í Reykjavík, er hleypti af fallbyssu, en hún sprakk, ok braut höfud hans; fjórir menn drukknudu á Eyjafirdi: Pètr Markússon frá Eyrarlandi, systir hans og tveir adrir; skadar urdu ok af eldsbruna á ýmsum stödum. Peníngastuldr mikill var í Reykjavík, ok vard flækjumál, urdu 6 uppvísir, þeir höfdu med ödru stolit eirtöflu, er enskir ferdamenn höfdu látid í varda einn á Orfyrisey, sèr til minníngar, ok sett á nöfn sín, þá fyrir 14 árum. Voru ok nokkur dulsmál, blódskammir ok húsbrot. Á því sumri gengu mest yfir mál Gríms Ólafssonar í Reykjavík, er fyrr er getid, var hann tekinn fyrir illvirki, ok vard berr at því, at hann hafdi ætlad at brenna inni Pál Brechmann, mág sinn, ok medgekk at hann hefdi tvisvar viljat eyda fóstri med konu sinni, ok annarri konu, ok blódskammir ok margar adrar ódádir, svo at sumir ætludu hann lygi á sik einhverju, var hann þá settr í þraungt hald; en fyrir því, at medkenníng hans þótti ei full röksemd fyrir öllum ódádunum, var honum eigi dæmt líflát, heldr ævarandi þrælkun, ok fluttr utan; þó dæmdi hæsti rèttr honum líflát, ok gjördist hann þó mörgum óstrídr, en konúngr leyfdi, at hinn fyrri dómr dygdi, ok er ei meira sagt frá honum. Enn var stolit þúsund dölum úr Vallaness kirkju, er Jón prestr Stephánsson átti flesta, ok vard af þess máls medferd rekstr mikill. Þá bárust undir Eyjafjöllum tvö meybörn, samangróin frá öxlum til nafla. Enn öndudust, auk þeirra er fyrr voru nefndir, Gudmundr Þórdarson faktor í Hafnarfirdi, hann var fadir Helga prests, er kalladr var Thordersen, ok prestakonur nokkrar. Á hinu sama sumri andadist Magnús

Ketilsson, sýslumadr í Dölum, ok þótti mikilsháttar verit hafa, ok Magnús Þórarinsson at Múnkaþverá, er þar hèlt hálft klaustrid, bródir Stepháns amtmanns á Mödruvöllum hinn ýngsti samfedra; hann hafdi ádr stadit fyrir brennisteins-verkinu í Húsavík, ok átta Íngibjörgu, dóttur meistara Hálfdáns Einarssonar ok Kristínar Gísladóttur biskups; voru börn þeirra: Þórarinn, er kalladr var Öefjörd, Hálfdán ok Páll. Én í Septembri deydi Pètr prestr, er fyrr var at Tjörn á Vatnsnesi, ok seinna Gudrún, kona hans, foreldrar Pètrs prests at Miklabæ í Blönduhlíd, ok höfdu þá verit lengi med honum, erfdi hann þau ágætlega, ok at öllu þótti hann þá merkismadr; einnig deydi Hannes Skevíng, bródir Vigfúsar sýslumanns á Vídivöllum, ok Þorbjörg Jónsdóttir, kona Gudmundar prófasts Jónssonar á Stadarstad, ok Bogi bóndi Benediktsson í Hrappsey, hann var þá gamall mjök, ok hafdi lengi verit blindr, þótti hann verit hafa mikilmenni fyrir hvervetna sakir í sinni stètt; bjó þá Benedikt son hans at Stadarfelli, skólagenginn ok audugr, ok átti Hildi Magnúsdóttur prests frá Höskuldstödum, voru þeirra börn Bogi ok Halldóra, ok vaxin; Bjarni, son Boga hins gamla, bjó þá á Brimilsvöllum; Margrèt í Fagradal, kona Jóns prests Þórlákssonar at Bægisá, med dætrum sínum; Ragnheidi átti Björn Gottskálksson, er verit hafdi at Innrahólmi fyrir búi Ólafs stiptamtmanns, ok fyrr átti prentverkit, bjuggu þau sídan at Hrappsey, barnlaus, ok fengu ord gott; Íngvildr átti þá Gudmund prest Eyríksson á Stad í Hrútafirdi, en seinna Stephán, son Benedikts prófasts Árnasonar at Kvennabrekku; Gudrún átti Eggert prest at Gilsbakka, son Gudmundar í Hjardarhollti, er fyrr var tukthúss-rádsmadr, Vigfússonar; Kristínu átti nú Skúli sýslumadr at Skardi á Skardsströnd, son Magnúsar Ketilssonar.

## XCVIII. Kap. Veitíngar ok fleira.

Þá voru nefndir nýir leutenantar til strandamælínga: Hans Frísak, Vetlesen ok Olsen, ok var veitt Rasmusi Frydensberg embætti í Gullbríngu sýslu, skyldi hann vera býfógeti í Reykjavík, ok hafa tvo pólití-þjóna, fèkk ok Finne lausn frá landfógetadæmi, ok var Frydensberg skipadr í hans stad, ok var hann gætinn; en Sveinn Pálsson var settr fyrir landlæknis embætti um hríd. Voru þá lærendr vid latínuskólann í Reykjavík: Jón Jónsson, prests frá Hafsteinstödum, Gunnlaugssonar, ok Hjörtr prestr Jónsson. Jón Jónsson prófasts, Sveinssonar, hafdi fengit Audkúlu; Jónas prestr Jónsson í Nesi fèkk Höfda ok Grýtubakka, ok var allvel at sèr, en Nes fèkk Skúli, son Thómasar prests Skúlasonar á Grenjadarstad; Jóhannes Jónsson fèkk Grímseyjar

kall, ok margir stúdentar urdu kapellanar. Konúngsbrèf komu nokkur, ok er sumra getid ádr, sumt voru eptirgjafir á refsíngum ok skuldum fyrir einstaka menn, sum voru úm aukatekjur til konúngsfèhirzlu, ok annat slíkt. Þá gjördi vetr hinn bezta, ok var þat á honum öndverdum at Finne fèkk lausn frá landfógeta-sýslunni, ok skyldi vera býfógeti í Túnsbergi; hann hafdi verit spakr madr ok gæflyndr, ok óharddrægr í reikníngum; en fyrir því, at svo mjök var álidit ordit, vard hann hèr um vetrinn. Einarr Gudbrandsson, kapellan í Hvammi, bródir Gunnlaugs Briems, fèkk konúngsbrèf, at hann mætti fá ekkju módurbródur síns, Jóns prests at Gilsbakka, hún hèt Ragnheidr Jónsdóttir, prests í Hvammi, Sigurdarsonar frá Hvítárvöllum sýslumanns, ok hafdi fóstrad hann, var ok merkileg kona, en ei áttu þau börn saman.

## XCIX. Kap. Frá nokkrum heldri mönnum.

Nú þótt at óþarflegt sè á vorum dögum at telja þá heldri menn, er uppi voru á öndverdri nítjándu öld, þá má þó vera, ef frásagna vidburdr vor kemr fyrir þá menn, er lifa 40 eda 50 árum seinna, at þeir finni þar nokkut í, sem þeir hefdi viljat gjörr vita, en þat þarf enginn at álíta, er hann vill ei taka fyrir merkilegt, ok munum vèr þá telja nokkra, ok helzt þá, er at embættum voru, ok þó fáa. — Ólafr stiptamtmadr Stephánsson var þá fremstr, hann bjó í Videy, ok var höfdíngi at eignum ok rausn, örleik ok lítilæti, tók hann nú at eldast, en var þó enn kvikr ok ern, stód í þennan tíma Commissions hald yfir forsjá hans fyrir kirkju í Reykjavík, ok skóla ok ödru, ok mikit var þá gengit til byggíngar dómkirkjunnar af verdi Skálholtsjarda, ok vard þannig kostnadr einn stjórninni af margri upptekt í þann tíma, en til styrktar urdu jardasölur landslýdnum. — Magnús Stephensen jústizrád, sonr stiptamtmanns, var fluttr til Innrahólms, þótti þat nær vid landsyfirrèttinn, en vildi ekki fara til Reykjavíkr; þar gjördi hann stórmannlegan bæ ok skrautlegan, ok hafdi gardyrkju mikla ok adrar sýslanir, ok bú annat at Kúludalsá, tók honum þá at batna heilsa; hann var mjök lærdr madr ok unnandi frædi, ok helzt þeirri nýrri upplýsíngu, er þá jókst utanlands ágætlega í mörgu; var hann kalladr rèttdæmr ok vinhollr, ok einlægr þeim sem hann unni, en nokkut stórr, ok hlífdist lítt vid er svo bar undir; stíl hafdi hann lærdan ok ordríkan, en þúngan nokkut; hann var umsýslumadr ok fyrirhyggjumadr mikill um alla hluti, er hann hafdi med höndum, ok svo á heimili, ok færr til hvervetna, hugkvæmr ok veitull þeim er ræktu hann, en ei örr hversdaglega, ok hèlt heldr til sparnadar, en sá þó um med komu sinni at ei væri of

naumt; skáldmæltr var hann meira af lærdómi en náttúru, ok fór þó opt vel; heldr med hærri mönnum á vöxt, 7 edr 8 þumlúngar ok 60, grannleitr ok fölleitr, medan hann var ýngri, dökkr á hárslit, en seinna, er hann hyldgadist nokkut, gjördist hann tíguglegr ásýndum, var þá kallat, er fjölgudu óvildarmenn hans, at hann væri yfrit gefinn fyrir gagn sitt ok veg. — Stephán Stephensen assessor, bródir hans, á Hvanneyri, var honum allólíkr, ok er frá sagt fyrri, var hann miklu lèttlátari madr, örvari ok vinsælli, ok einnig gódr athvarfs, en brádlyndr nokkut ok eigi all-fastrádr; samdi hann sik eptir honum um marga hluti, nema fór at skapi sínu um rausn, átti hann ok góda konu. — Björn bródir þeirra á Lágafelli var ólíkr þeim bádum um frama, en stórmannlegr í látbragdi, mikill vexti. — Benedikt Gröndal assessor var skáld mikit ok fornfródr, dulr í skapi, eigi búmadr nè audmadr, medalmadr á hæd, grannlegr ok bólugrafinn; en frá Ísleifi er sagt ádr. — Stephán amtmadr Þórarinsson á Mödruvöllum var umhyggjumadr mikill í embætti sínu, ok þó hann væri vandlátr nokkut, olli þat honum ei vinsælda bresti, ef hann væri nokkut hógværari í ordum eda brèfum; var hann ok lagamadr gódr ok forsjáll, en lítilsigldr ef á herti, nýlundugjarn meirr en framkvæminn, ástsamr vid konu sína og börn, ok þrautgódr þeim er hann vildi; þreklítill í skapi ok óstyrkr at líkama, en álitlegr á at sjá, ok fagreygr mjök, kunni vel mann at sjá ok var nærgætr um margt; ekki örr af fè, en þó framar en kona hans. — Finne landfógeti var spaklátr madr ok gæfr, medalmadr, grannlegr, hökustuttr mjök ok eigi frídr. — Steindórr Finnsson, sýslumadr í Árnes sýslu, var vitr madr, stjórnsamr ok vel virdr, lítill vexti, sem móderni hans var til, ok nær því daufr. — Vigfús Þórarinsson í Rángár þíngi var málafylgismadr mikill, ok vel at sèr, nokkut hardlegr ok óþýdr á manni, medalmadr á vöxt vid hærra kost, grannlegr ok skarpleitr; hann var höfdíngjadjarfr, raddgódr til saungs, ok smidr sæmilegr. — Jón Þorleifsson landskrifara í Vestmannaeyjum var lítt nafnkenndr, lítill madr og smámannlegr. — Jón Gudmundarson, er Skaptafells sýslu hafdi, var madr einlyndr, óslægr, huggódr, heldr lítill á vöxt. — Þórdr Thorlacius í Sudr-Múla þíngi hafdi mjök á sèr danska háttu; eigi þótti hann sèdr í málum, en þótti heimta ríkt; hann var medalmadr á vöxt, grannlegr, dökklitadr. — Gudmundr Pètrsson í Krossavík var lærdómsmadr, búmadr mikill ok fjáraflamadr, þótti heldr hardr í tekjum ok var audmadr mikill; drykkjugjarn þótti hann, ok lítt svífinn, en hafdi útvegu marga til fjár, bædi kaupskap ok annat, ok var óörr, medalmadr á vöxt, fastvaxinn og álitlegr. — Þórdr sýslumadr Bjarnarson í Þíngeyjar þíngi var vitr ok mjök vel at sèr, ok hverjum

manni sjónbagari í embættissýslan, vinsæll, spaklátr ok óáseilinn; hann drakk med hrídum, ok kom ei at gjaldi, því hann var kænn vid alla umsýslu, en eigi var heimilishagr hans at því skapi, sem embættit; lítill var hann vexti ok ekki frídr. — Jón Jakobsson á Espihóli hèlt þá enn Vadla sýslu, ok hafdi verit allmikill höfdíngi, hugull ok gódgjarn, gladlyndr ok gestrisinn, umsýslumadr mikill, en þó ófègjarn; manna hreinlyndastr ok þrautbeztr, alvörugefinn en þó hinn vinsælasti, unni ok lærdómi; er hans at fleiru getid ádr, en nú tók hann at mædast heldr ok lýjast, en var laungum nokkut kránkr af iktsýki. — Jón Espólín, er þá var kominn til Skagafjardar sýslu, var haldinn allfródr í mörgu, ok skáldmæltr, óáleitinn ok ófègjarn, hreinlyndr ok nokkut ljós í skapi, heldr hneigdr til drykkju, en vandi sik þó af því smámsaman, tók nú heldr at krenkjast af iktsýki; hann var þá enn fèlítill, var ok lítill búsýslumadr á heimili; manna hæstr, 73 þumlúngar fullir, ok ásjálegr, en sköllóttr snemma; ekki mátti hann sterkan kalla, nema í gildara lagi. — Vilhjálmr Krog í Húnavatns þíngi var gódlátr madr ok vel at sèr, hærri nokkut en medalmenn; eigi virdu Húnvetníngar hann fremr en skyldi, þótti þeim ok lítils vert um sýslumenn sína, sídan Bjarni Halldórsson var, nema Ísleif. — Jón Jónsson í Bæ var spakr madr ok vinsæll, óáleitinn ok hafdi mannhylli, var ok íhlutunarlítill, medalmadr á vöxt, ok þá heilsulítill ordinn. — Jón Johnsonius í Ísafirdi var madr frómlyndr, búmadr lítill eda framkvæmdarmadr, ok heldr heilsulítill; hann var skáld gott ok fornfródr, medalmadr á vöxt ok stinnlegr; ekki hafdi hann mikit yfirlæti af Ísfirdíngum, ok víst minna en vert var. — Gudmundr Skevíng á Bardaströnd var gáfadr kalladr, ok óvílsamr, þótti hardr ok fègjarn, grannlegr á vöxt ok smámannlegr at sjá. — Skúli Magnússon í Dölum var í minna lagi á vöxt, bólugrafinn mjök, ok einsýnn, lèttlátr í umgengni ok þægr, ok eigi áleitinn; eigi var hann lagamadr mikill, ok þótti miklu atkvædaminni um allt en fadir hans, en miklu var hann vinsælli í hèradi. — Finnr Jónsson í Snæfells sýslu var medalmadr á vöxt, nokkut reigíngslegr at sjá, hökulángr; hann var allvel at sèr í mörgu, en haldinn áleiknisamr, ok óþokkadist mjök fyrir honum, ok stundum meira en hann vann til, fórst ok opt ólidlega ef hann var vid öl, bætti ok kona hans lítt fyrir honum, drakk hún eigi sídr, eda var sidlátari. — Gudmundr Ketilsson í Mýra sýslu var vitr madr ok vel at sèr, gódgjarn ok óáleitinn; hann var þá mjök þrotinn at heilsu; medalmadr var hann vexti ok medallagi frídr. — Jónas Skevíng, er þá bjó at Leirá, var vinsæll madr ok þrautgódr, örr ok einardr, hreinlyndr ok meirr at hann hefdi mikit í broti, en væri umsýslumikill; lítt var hann eptirgángssamr í sýslu sinni;

hann var heldr hár medalmadr, graunlegr, líkr at því einu födur sínum at hann var handstórr, raudleitr ok bólugrafinn ok nefstórr. — Frá Sigurdi Pètrssyni er sagt fyrri. — Stephán Skevíng at Íngjaldshóli var gæflyndr ok spaklátr, eigi skarpr, en þó drjúglyndr nokkut ok sèdr, heldr hár medalmadr, eigi hardmannlegr. Geirr biskup Vídalín var vel medalhár, nokkut gildvaxinn ok gildlegr at karlmennsku, ok gjördist heldr þúngfærr af holdum, breidleitr ok eigi ljóslitadr; hann var hverjum manni lítilátari, skemtinn í tali ok gagnordr, lærdr mjök ok vel at sèr, þó at þess sæi helzt til lítil merki eptir hann; ekki sást hann fyrir at veita medan hann hafdi, ok var lítill fyrirhyggjumadr um slíkt, hafdi ok ödru at sinna, en kona hans var gódlynd ok spaklynd, ok lítt til forsjár, ok höfdu nálega allir í húsi hans hvat þeir vildu, var því eigi undarlegt, þó mikil inntekt eyddist á skömmum tíma. Ekki visiteradi hann nema lítid eitt um Sudrnes ok þar næst sèr, en því kom hann fram sem hann þurfti at sýsla í embætti. Hann var óáleitinn svo mjök, at sumum þótti þat gedleysi, ok ei var kallat at hirtist vel fè þau, er hann hafdi reikníng yfir; enginn madr sá hann reidast; hann var allra manna bezt pennafær, vid hvern sem hann átti. Skal nú eigi fleiri telja um sinn af klerkum, eda ödrum mönnum; en þess skal geta, at sá madr var þá á Vatnsnesi í Húnavatns þíngi, er Gunnlaugr hèt, ok í frændsemi vid Bjarna prests Pètrsson á Útskálum; hann var smidr mikill, ok fann uppá margt, ok lagdi jafnskjótt nidr aptr hvert um sik, var eitt skip, er rèri sèr sjálft. Björn hèt sonr hans, ok þótti mjök ómannblendinn og annarlegr í æsku, en reyndist seinna at gáfu mikla hafdi til mælíngarfrædi ok fleira. Margir voru þá smidir, þeir er smídudu stofu-úr ok annat þvílíkt, ok mörg idn jókst, er ei hafdi fyrr verit; færdust inn ok fjölgudu rokkar um Sudrland, er ádr voru ótídir nema nyrdra, ok fjölgat höfdu danskir vefstadir, ok öll idn vaxit á ullarverki; en jardyrkja hafdi at engu batnad í landi, ok var jafnan kært, at jardir færi versnandi; var þat sumt af ódugnadi ábúenda, en sumt af skridum eda vatnagángi, ok spillti þat mestu, er mjök margir tóku sèr fyrir at hafa sem mest undir, ok framarr þörfum, ok at slíku var ei hamlat, en mönnum haldit til at nýta vel þat er hverri jördu fylgdi; enda hèldu margir öreigar jardir stórar, er þeir fengu ei unnit upp; kályrkja var þó þá heldr í vexti en þverrun, sídan í midri 18du öld, ok jókst mannblendni ok forsjá med alþýdu.

## C. Kap. Mannalát ok annat.

1804. Á öndverdu ári andadist Oddr nótaríus, er verit hafdi á Þíngeyrum, en sídan at Giljá, bródir Sigurdar biskups Stephánssonar samborinn, en hálfbródir Ólafs stiptamtmanns; hann hafdi átta Hólmfrídi Pètrsdóttur, systur Gudmundar í Krossavík ok Sigurdar, sýslumanna, voru þeirra börn Sigrídr, er Björn secreteri hafdi þá fengit, en önnur Þórunn, Pètr ok Lauritz. Pètr hafdi verit utanlands þá Enskir sóktu í sundit, hann var danskr júristi, ok kalladist Ottesen. Hólmfrídr fór sídan sudr at Lágafelli, til mágs síns, ok fèll þar eigi vel, fèkk hún þá fásinnu; en á þessum misserum fèkk Jónas Skevíng Ragnheidar, dóttur stiptamtmanns, ok bjuggu þau at Leirá; var hún gód kona, ok fengu þau almenníngs ord; bad Björn secreteri sídan systur sína at taka Hólmfrídi, ok var hún þar um hríd, vel látin, til þess er hún var flutt austr til frænda sinna. Annarr andadist Oddr prestr Þorvardsson at Reynivöllum, hann var son Þorvards í Brautarholti, Einarssonar, Þorvardssonar á Hvítanesi, Erlendssonar á Sudr-Reykjum, Þorvardssonar, Þórólfssonar, Eyjólfssonar á Hjalla, mágs Ögmundar biskups, en fadir þeirra Þorvards ýngra í Brautarholti ok Hálfdanar, er prestskapar missti, Gróu, er var seinni kona Jóns prests Hjaltalíns í Saurbæ, ok frúr Gudrúnar á Hvanneyri. Enn andadist Jóhann conrector, Árnason biskups, Þórarinssonar, Páll Sveinsson á Steinstödum, fadir Sveins læknis, ok Jón prestr Ketilsson, bródir Magnúsar ok Gudmundar, sýslumanna. Lodvík Erichsen hafdi þá fengit dóttur amtmanns Vibe, ok var hèr í stiptamtmanns stad, lèk nokkut á tveim túngum hversu hann væri viljadr landinu, ok var eigi undarlegt, er landshöfdíngjar adrir áttu í strídi vid hann, en adrir voru vinir hans, en hvat sannast var leyfdi eigi tíminn at sýndist; ætludu þeir Finne landfógeti bádir utan, en þeir öndudust bádir um vorit, ok þótti sèrlegt, ok vard þeim lèttir at, er hann átti at skipta vid, en Jónas Skevíng sýslumadr hafdi ritid um hann ákæru, ok sendi utan í þat mund, ok ætludu menn hann mundi hugat hafa at hann lifdi, er hún var send, en þá var hann nýdáinn er hún var samsett, ok þótti hún heldr hardord; gátu sumir til, at fleiri hefdi um fjallat, er Erichsen var lítt viljadr, ok þeir hvorir ödrum, ok neytt þess, at sýslumadr var einardr ok ódeigr, en Erichsen hafdi frændafla mikinn utanlands, ok gáfu sídan brædr hans sýslumanni sakir þúngar á. Þóttust þá fleiri bornir hinni sömu sök, at ákært hefdi Erichsen, sem var Skúli Magnússon á Skardi, sýslumadr í Dölum eptir födur sinn, hann hafdi eitthvat átalit, því at honum brá vid vandlæti amtmanna, en þeir nýttu vidlögur konúngs um ósannadar ákærur á embættamenn, þó at þeim

hinum lægri kæmi þat fyrir lítid, til at fá bót fyrir, ef þeir voru kærdir nokkut. — Vard nú Stephán amtmadr Þórarinsson settr fyrir stiptamtid eptir Erichsen, en Fridrik greifi af Trampe gjördist amtmadr vestanlands, ok kom hann út seinna. Landfarsótt gekk þá yfir, ok dóu allmargir í henni, en nokkrir af hardrètti.

## CI. Kap. Getid nokkurra manna vestra.

Þá var hit seinasta land-commissiónar ár, ok hafdi Gunnlaugr Briem secreteri verit tvö ár í Reykjavík, en eitt at Hvítárvöllum, en nú hafdi hann bú í Arnarbæli; hann var madr hagr til bílætahöggs, ok á adra smíd, ok vel um sik í allmörgu, mjök hneigdr til húsagjörda, þótti nokkut stórlátr ok umfángsmikill medan hann reyndist ekki, en var þrautgódr; hann var í hærra lagi, grannlegr, skarpleitr ok dökkhærdr; hann átti Valgerdi, dóttur Árna prófasts Sigurdarsonar, er fyrr var at Breidabólstad á Skógarströnd, en sídan at Hollti undir Eyjafjöllum, ok Kristínar Jakobsdóttur; en ádr hann fór til Arnarbælis bjó þar Bogi, son Benedikts á Stadarfelli, Bogasonar, ok Hildar Magnúsdóttur. Bogi var skólagenginn, en samdist lítt vid þann lærdóm er prestskap henti, ok var meirá gefinn fyrir kaupmannskap, þó var hann fródr madr í mörgu. Hann kvæntist, at rádi módur sinnar meir en sinni þykkju, ok átti Jardþrúdi Jónsdóttur prests, Sigurdarsonar, vard honum þó konan at skörúngi; Hildr, módir Boga, var ríklundud ok fálát, en Benedikt bóndi gledimadr ok örr, ok fóru lítt saman þykkjur þeirra. Bogi gjördist sídan faktor í í Stykkishólmi. Halldóra Benediktsdóttir, systir Boga, var gipt Gudmundi Skevíng í Haga. Björn Gottskálksson bjó þá í Hrappsey, ok átti Ragnheidi Bogadóttur hins gamla, systur Benedikts, en hafdi ádr gipt Ragnhildi systur sína Gísla, syni Gudmundar tukthúss-rádsmanns Vigfússonar; þau bjuggu í Reykholtsdal, ok var hún ólík bródur sínum, þvíat Björn var madr rádsettr ok gódlátr; en Bjarni Bogason, bródir Benedikts ok Ragnheidar í Hrappsey, hafdi lengi búit at Brimilsvöllum, ok átti Jóhönnu, dóttur Helga Vigfússonar á Eyri; hann bjó sídan í Fródár sveit ok í Máfahlíd, ok var nokkut í sid vid heldri bændr, er fyrr höfdu verit, ok medallagi rádsettr, en virdíngamadr var Benedikt bródir hans meiri, ok betr fjáreigandi. Sá madr bjó þar vestra, í Raudseyjum, er Einarr hèt, audugr ok virdr vel, hann var Ólafsson, en módir hans var frá Ásgards-Teiti Eyríkssyni, ok ætludu sumir hann mundi eiga frændsemi vid Brynjólf, er verit hafdi í Fagradal, Bjarnason, bródur Eggerts á Skardi. Sigmundr, son Magnúsar sýslumanns Ketilssonar, bjó í Búdardal, en seinna í Akreyjum, hann átti Valgerdi, dóttur Jóns

prests Eggertssonar frá Skardi, Bjarnasonar hins ríka, ok Gunnhildar Hákonardóttur prests frá Álptamýri, Mála-Snæbjarnarsonar. — þessir menn voru þá audugastir í Breidafirdi, med Benedikt Bogasyni.

## CII. Kap. Frá ýmsu er bar til.

Finnr sýslumadr Jónsson í Snæfellssýslu bjó á Sveinstödum; hann vildi helga sèr salthúsit í Rifi, ok tók þat um nótt; var sídan samit um, ok lèt hann úti 50 dali, ok hèt at setja þat nidr aptr; var sídan aldrei gott med þeim Stepháni Skevíng, enda komst nú Finnr í margan vanda, ok skuldir stórar, ok var vikit frá sýslu, en Ebenezer þorsteinsson, lögsagnari úr Eyjafirdi, var settr fyrir hann. þat vor andadist Elín Grímólfsdóttir, prests í Glaumbæ, kona Pètrs prests at Miklabæ, er nú var prófastr í Skàgafirdi, ok Gunnlaugr prestr Magnússon at Hafsteinstödum. þá flutti Vigfús Skevíng sýslumadr frá Vídivöllum, ok Anna Stephánsdóttir kona hans, sudr at Innrahólmi, til mágs síns, Magnúsar jústizráds, þótti mörgum þat ólíklegt, því þau höfdu lengi búit á Vídivöllum, ok hýst þar gódan bæ, svo kallat var at líkr væri bænum á Espihóli, er Jón Jakobsson sýslumadr hafdi látid gjöra; var ok enn Vigfús í fullum veg sínum, þó hann hefdi lagt af embætti ok tæki at eldast, en nokkut deilusamt þótti fyrir sunnan; saknadi margr madr þeirra hjóna úr firdinum. Hann hafdi selt Ara lækni Vídivelli, ok fór Ari þángat. Thómas Klog var þá landlæknir, son kaupmanns í Vestmannaeyjum; hann þótti ærit dýrkeyptr, en kallat þó at tækist all-lítt. þá gjördist Hannes prestr Laurusson Skevíng í Laufási prófastr í þíngeyjar þíngi, hann var gæflyndr madr, en samheldinn, ok gjördist fjádr vel, átti hann Snjálaugu, dóttur Hallgríms prófasts Eldjárnssonar, ok var þeirra son Hallgrímr Skevíng. þorvaldr Bödvarsson, skólahaldari frá Hausastödum, fèkk Reynivelli í Kjós, en Gudni, son Gudmundar prests frá Kálfatjörn, Magnússonar, var settr fyrir skólahaldit hit næsta ár, ok þótti lítt færr til þess, voru þeir fedgar menn gáfulitlir, en miklir menn ok allsterkir, ok Gudni meira. Kristján Vigfússon, lögsagnari í Skaptafells sýslu, var dæmdr frá öllum dómara atgjördum, hafdi hann þá um nokkra hríd stadit í málum, ok var eitt um sveina tvo, son hans ok annan honum skyldan, er annarr vard ödrum at skada; gjördist Kristján hreppstjóri laungu seinna. Greifinn kom út um sumarit, ok landfógeti, er híngat var skipadr ok fyrr er getid, Rasmus Frydensberg, ok hafdi hann Gullbríngu sýslu, sem fyrr hafdi verit vandi, ok gjördist býfógeti fyrstr í Reykjavík, ok hafdi pólitíþjóna; kom hann þar á betri skipun, en fyrr hafdi verit. Kærdi nú Finnr sýslumadr Stephán Skevíng fyrir greifanum, um þat, at hann

hefdi tekit mannalán af hverjum landseta í umbodinu framar en rètt var, því hann hefdi eigi þat, at þeir rèri á vegum hans; voru ok þeir menn inn í eyjum, er hann kvad hann hafa tekid af tvennar eda þrennar festur, ok bar hann málit fram af hendi eins þeirra, en sá gekk sídarr á móti því, ok leiddi af þat, er seinna kom fram, en dult ætla menn hit sannasta. Jardakaupa bod á Hólastóls jördum voru öll samþykkt í kammerinu, ok fèkk hverr þá stólsjörd er hann hafdi bodit uppá, nema Flugumýri ok Vidvík voru óánafnadar. Var þá kúabólan send híngat í land, ok orkadi á fáa er hún var sett, því at hún var dofnud; enn fleiri smátídindi, ok mannalát ómerkilegri, eru nu ótalin. Þat sumar í Augusto brann barn Krogs sýslumanns á Geitaskardi til bana í heitu vatni, fyrir litla vangá; hafdi hann út hèr erfidleik mikinn, ok hlotid at halda sik í leiguhúsi, stofu Ísleifs assessors, at Worms bónda Símonarsonar Bechs á Skardi, er keypt hafdi Geitaskard at Ísleifi, en gjalda kaup allmikit umbodsmanni sínum Pètri Oddssyni nótaríus, eda Ottesen, var hann ok ókunnugr lenzku, ok madr gódgjarn, en Húnvetníngar margir hardir ok stórlátir; fèkk hann nú fógetadæmi í Noregi, en komst eigi hèdan á því sumri. — Eptir midt sumar andadist Sveinn prestr at Knappstödum í Fljótum; var þá heyskapr gódr ok svo nýtíng sunnanlands, en medallagi nyrdra, ok betri en hit fyrra árit hafdi verit, en þá var þat hinn 29da dag Septembris, er Jónas Skevíng fèkk Ragnheidar, ok fyrr er getid, ok var þat allt mest af fylgi Magnúsar Stephensens jústizráds, ok meir en af vilja födur hennar, en ef hún hefdi rádit ætladi hún sèr annan mann, ok þó fór vel med þeim, en eigi vard þeim barna audit. — Vetrinn eptir gjördi allgódan, en kauphöndlun var söm ok fyrri, ok eigi betri. Á þeim vetri voru mál Finns sýslumanns vestra, ok var Gunnlaugr Briem secreteri látinn prófa þau. — Seint á því ári var gefin út konúngs auglýsíng um kvarantaine-reglurnar í Danmarkar ríki, ok um endrnýjun skuldabrèfa ómyndugra; annat teljum vèr ekki merkilegt, er híngat mátti ná, þessháttar.

# REGISTR.

## A.

## D.



## E.

## H.

## I.

## J.

## M.

## N.



## O.

## P.

## R.

## T.



## U.



## V.

## W.



## Z.



## Þ.

## Ö.

# Registr tilburda ok hluta.

# Íslands Árbækr

## í sögu-formi.

Af

Jóni Espólín,
fyrrum Sýslumanni í Skagafjarðar Sýslu.

## XII. Deild.

Kaupmannahöfn, 1855.
Prentad á kostnad ens *íslenzka bókmentafèlags*
hjá prentara *S. L. Möller*.

# Íslands Árbækr,

## Xdi Hluti.

# Drög til Árbóka,

## til undirbúníngs seinni mönnum,

### yfir fyrra hluta 19du aldar.

## I. Kap. Mannalát ok misfarir.

Á öndverdu ári hinu næsta andadist Jóhannes prestr í Vestrhópshólum, 1805.
Ólafs son prests frá Kvíabekk, af iktsýki, er þá gjördist mjök tíd; Jón prestr Stephánsson í Vallanesi austr, ok Árni prestr Sigurdarson at Hollti undir Eyjafjöllum, sá er fyrri hèlt Breidabólstad á Skógarströnd ok var prófastr; ok Magnús, sonr hans, hann var með Gunnlaugi Briem, mági sínum, vestra. Um vorit deydi frú Martha á Hvanneyri, Didrichs dóttir Hölters, er átt hafdi Stephán assessor Stephensen, var hún gód kona, ok áttu þau eptir börn mörg á lífi: Ólafr var elztr ok Sigrídr, Ragnheidr, Magnús, Hannes, Pètr, Stephán, Elín, Martha. Ásgrímr prestr, son Páls í Gufunesi, drukknadi; en Halldór Hjálmarsson, er conrector hafdi verit á Hólum, ok bjó í Hofstadaseli, andadist í Junio, hann var vitr madr ok lærdr vel. Íngigerdr hèt dóttir hans ok var gipt Gísla Jónssyni biskups, Teitssonar, er verit hafdi í conrectors stad, ok bjó vid Halldór í Hofstadaseli, ok áttu þau dætr nokkrar. Þat vor var mikit flód á hvítasunnu, ok spilltust vída jardir í Skagafirdi. Þá andadist ok Þorleifr Nikolásson landþíngsskrifari, en greifinn tók vid stiptamtmanns embætti.

## II. Kap. Konúngsbrèf ok skipanir.

Konúngsbrèfin komu þá út um kvarantaine, eda sjúkleika vörzlur, ok um kýrbólu frá kansellíi, innstefníngu sakamála, ok forbod á sölu

edr útbýtíngu ritgjörda bónda þess í Noregi, er Hans Hauge hèt, ok marga þótti hafa villt til hjátrúar ok ædis med fortölum sínum, ok enn mörg fleiri, er hèr eru ei talin eda lítt nádu hèr til lands. Jón Jakobsson á Espihóli fèkk þá lausn frá Vadla sýslu, ok hafdi haldit hana á sjöunda vetr hins fjórda tugar, eigi fèkk hann at heldr meir en 30 dali vidrlífis penínga um ár, ok hafdi þó ádr fengit silfr-minnispeníng fyrir nytsemdir vid jardyrkju ok annat, en þat þó ótalit, er hann setti ekkna sjódinn ok födrleysíngja, og gaf til sjálfr fyrstr 30 dali. Þá fór Krog utan frá Geitaskardi, ok fèkk Sigurdr Snorrason Húnavatns sýslu, en Gunnlaugr Briem sekreteri Vadla þíng, þjónadi þó Sigurdr Snorrason þar sýslunni, því sekreterinn kom ekki brádlega til, hèlt og amtmadr Sigurdi heldr til adstodar vid sik. Nú var samþykkt í kammerinu bod Ara læknis uppá Flugumýri, svo hann fèkk hana, en sýslumanni í Skagafirdi vísat til Vidvíkr, ok þó til leigu, bjó Ari sídan at Flugumýri, ok þótti mörgum ásvellr, ok átti opt í landa þrætum, en vann sum ítök med lempni; hann var karlmannlegr madr í sjón, sem frændr hans, eigi mjök frídr, sjónhagr í mörgu, lastvarr í ordum, læknisdómar heppnudust honum betr en hann hafdi lærdóm til, en fyrirhyggjumadr var hann mikill. Cecilia kona hans var álitleg ok hèlt sèr mjök upp, ok höfdu þau á sèr ríkismanna bragd, ok urdu audug, býstu ok sæmilega. Þá stódu yfir commissionar-mál Ólafs stiptamtmanns Stephánssonar, og svo mál Finns sýslumanns Jónssonar vestra.

## III. Kap. Frá Bjarna mordíngja, ok fleiri málum.

Þat er at segja frá Bjarna mordíngja ok Steinunni, at þau höfdu verit lánga hríd í tukthúsinu, sem þá var títt um sakamenn, þó þeir væri dæmdir til hærri refsíngar, því málin þurftu at gánga fyrir hæstarètt. Bjarni hafdi nád járnstaung úr glugga, ok komizt út ok haldit sídan upp í Borgarfjörd; en er hann kom upp yfir Hvítá, sagdi hann til sín, ok var tekinn ok fluttr sudr aptr; en er mál þeirra var nú komit í hæstarètt, ok daudadómar stadfestir, ok Steinunn spurdi þat, dó hún þegar af helstrídi, ok var kösud í holltinu vid tukthúsit. Þóttust höfdíngjar þá engan fá hèr í landi færan til at taka mann af, en þó leitadi amtmadr nyrdra fyrir sèr, ok fèkk sýslumadr í Skagafirdi þann mann, er fyrr hjó Íngibjörgu í Helluhólma, fyrir 50 dali eina, med ferd sudr ok öllu; var ætlad, at þeir mundu ei hafa nennt at fást vid slíkt sydra, því at stjórnar brèf kom, at engan skyldi hèr af taka, ok því var leitad í meiri kostnadar, ok Bjarni látinn fara utan um haustid, og fenginn til prestr hèdan at telja um fyrir honum, er Hjörtr hèt Jónsson, all-

úngr madr, hafdi fyrrum verit med Vigfúsi sýslumanni Þórarinssyni á Hlídarenda, sídan vid skóla; komu þeir til Noregs, ok var Bjarni þar höggvinn, ok sagt hann hafi líklega búizt við dauda sínum, en Hjörtr prestr varla ordit samr lengi, ok fólki mörgu, er þar var nærri ok horfdi á, vard svo bylt, eda tródst svo, at datt fram af kletti ok meiddist. Hjörtr prestr kom út, ok var sídan lengi at Gilsbakka. Nálega voru þá sakamenn hèr dæmdir til tukthússveru fyrir hverja sök, ok var hún svo fánýt ok agalítil, at óreidismenn kusu þat heldr fyrir sik en vistir, ok sjálfir formenn tukthússins kveinudu um þat. Tvö eda þrjú mál höfdu fallit til, er líflátsmál höfdu þótt þángat til, en ekki voru adrir menn af teknir í þat mund, en Bjarni; var aldar sidr svo mýktr í því sem ödru, ok nóg í sumu: — hèt einn madr Ísleifr, bóndi á Akranesi, ok dótturmadr Hans Klingenbergs á Krossi, hann hafdi getid barn med stjúpdóttur sinni, ok verit dæmdr til dauda í hèradi, eptir stóradómi, ok svo fyrir hærri dómstólum, var hann þessa stund í tukthúsinu, ok ei lokit hans málum í þenna tíma.

## IV. Kap. Frá Jóni Þorkelssyni.

Jón hèt stúdent íslenzkr, Jónsson, Þorkelssonar, af Mýrum, ok nefndi sik Therkelsen, all-lítilla manna ok óaudugr, en hafdi verit mjök námgjarn í æsku, ok fengit lidsinni til kennslu af Halldóri prófasti Finnssyni í Hítardal, ok sídan verit djákn um hríd, ok gefit sig til at kenna börnum til at vinna sèr nokkut inn, ok safnat svo nokkru til utanfarar, en er hann var þar kominn, fèkk hann med eptirgángi 30 dali um sídir af fátækra sjód til styrks, er kammerit átti at býta, því at teknir höfdu verit frá honum djáknapeníngar hans; gjördist hann svo vel at sèr, at hann las grisku sem dönsku, ok lagdi svo út latínu, at í afhaldi var; hann var frágerdamadr at næmi ok skilníngi, en þróttlítill ok heilsuveikr, sýktist af brjóstveiki ok andadist á þessu sumri, ok gaf ádr bækr sínar til Reykjavíkr skóla, en Börge Thorlacius prófessor gjördi minníngu hans. Steingrímr, son Jóns prests Jónssonar ok Helgu Steingrímsdóttur, systur Jóns prófasts í Skaptafells sýslu ok Þorsteins, födur Bjarna, er sídar nefnist, var þá utanlands ok kynntist honum; hann var þá midaldra ok framamadr mikill; en Jón var 5 árum ýngri, ok þá á 31ta ári; Steingrímr kom út þetta sumar ok var lector vid skólann, ok ritadi sídan æfi Therkelsens eptir vidtali þeirra.

## V. Kap. Árferdi ok tídindi.

Þetta sumar var allgott, bædi at grasvexti ok nýtíngu, en dýrleiki á

vörum Dana hækkadi nær hvert ár, ok einna mest á Sudrlandi ok umhverfis Reykjavík, svo at nálega engir embættamenn hèldust vid skuldlausir. Geirr biskup Vídalín var þá enn á Lambastödum, ok einna mest í skuldum; máttu ekki virdíngamenn verda smálátir í Reykjavík, ef þeir ætludu at halda nokkut til jafns vid höndlunarmenn, en þeir hugdu sèr lítt hóf um ríkilæti ok stórveizlur; hrukku þeim ei inntektir, þó auknar væri, er þar þóttust verda at breyta eptir; en alþýda manna mörg vildi fátt nýta, nema kaupstadar vöru, ok setti opt í óþarfa, ok vard mönnum af því skuldasamt um Sudrnes öll, ok var þar laungum margt fólk óhardgjört, ok fór ei batnandi. Þetta sumar öndudust nokkrir hinir heldri menn, þegar á leid: Dómhildr Eyríksdóttir, er sídar hafdi átta Þorsteinn prófastr Ketilsson, systir Gunnlaugs prests fyrrum til Múnkaþverár Eyríkssonar, Þorsteinssonar prests, Gunnlaugssonar prests í Saurbæ, Sigurdarsonar, gömul mjök; Sigrídr at Innrahólmi, dóttir Magnúsar jústizráds, all-efnileg mær ok hugþekk, en Ólafr ok Þórunn, börn hans, lifdu; Jón í Bólstadarhlíd, er fyrr var Hóla rádsmadr, son Árna í Bólstadarhlíd, Þorsteinssonar, Benediktssonar, at Bjarnar prests sonar síns, er þar bjó; Gudmundr prestr at Stad í Hrútafirdi, Eyríks son prests, Gudmundarsonar, ok Gudrún í Hofstadaseli, ekkja Halldórs Hjálmarssonar, bjó þá Gísli þar, Jóns son biskups Teitssonar, dótturmadr þeirra. Skrida tók Nýjabæ í Hörgárdal síd um haustid, ok 5 menn inni. Þá var lestrar fèlag sett í Skagafirdi, en annat var fyrr í Húnavatns þíngi medan Ísleifr hafdi þar sýslu, var þar nú sýslumannslaust, ok hin næstu misseri, því at Sigurdr Snorrason var fyrir nordan, en settr var lögsagnari Thómas Thómasson at Ásgeirsá.

## VI. Kap. Frá ýmsu.

1806. Vetrinn eptir var allhardr ok gekk peníngr vída illa undan, gjördi þá ok mikil hardindi austanlands; fiskafli var ok lítill í veidistödum, því hann kom seint, en fyrir nordan vard hann allgódr um sumarit, ok hákalls fengr allmikill í Fljótum ok Siglufirdi. Þá urdu tveir menn úti fyrir vestan Vatnsskard; ok er skip komu, spurdist út andlát Fridriks arfaprinz, bródur Kristjáns konúngs. Þá braut Pètr Hölter kaupmadr, födurbródir frúar Mörthu á Hvanneyri, skip sitt hèr vid land, komust menn í bátinn nema hann sjálfr, því hann var þúngfærr, stód hann svo af sèr brimit um hríd, en vard ei nád, því at ófært var at skipbrotinu hverjum manni, ok lèzt hann þar; hafdi hann verit skörúngr ok gildlegr madr, ok rausnarmadr mikill. Þá kom Stephán Stephensen út, ok hafdi fengit amtmannsdæmi fyrir vestan land, ok settist

at Hvanneyri, en Ólafr stiptamtmadr Stephánsson fèkk allar virdíngar sínar, þó hann væri frá embætti, ok fulla vidrlífispeninga, sem laun hans höfdu verit, ok þarmed Videy afgjaldslausa til ábúdar medan hann lifdi þadan af, var þá afgjörd med öllu sú commission, er hans mál hafdi haft med höndum, en hversu hún gekk, er oss ei heyrinkunnugt. Gunnlaugr Briem sekreteri kom ok út til sýslu sinnar í Eyjafirdi. Þá hófst sú commission, er skamta skyldi biskupinum ok skipa launum hans, ok gjalda skuldir, ok hafdi hann sjálfr beidzt hennar; í henni voru: Ísleifr Einarsson assessor, ok hafdi hann þá næst ádr haft umbod amtmanns Stephans Þórarinssonar til stiptamtmanns verka sydra, medan hann stód fyrir þeirri sýslan; Rasmus Frydensberg landfógeti ok Markús stiptprófastr Magnússon í Gördum; þótti mörgum þat eyrindi fátítt, er biskupi einum á landinu skyldi ei verda launat svo dygdi, ok þó var þat upp lagt at hann skyldi sitja í Reykjavík, þar sem dýrast var fyrir konúnginn at kosta hann, en hann mátti sjálfr einna minnst vera til sidbóta med lærdómi sínum ok dagfari, því at meira var þar býlífi ok fjárplógs andi ok hirdíngarskortr andlegra efna en svo, enda þótti þat ok sumum undarlega rádit, þó vera ætti til býjareflíngar, er hinir ædstu menn landsins skyldu þar vera saman, medal kramara einna, ok konúngs fèhirzlurnar, skólinn, yfirrètturinn, ok allt ágæti landsins, í varnalausum bý móti opnu hafi, en öll forn regla var nidr felld, er allvel hafdi hagat í mörgu; ok ei sídr þótti þat mörgum undarlegt, er konúngr hafdi látid selja allar þær eignir, er fæddu hèr ádr stórhöfdíngja, ok vildi heldr launa þeim sjálfr margfalda upphæd, eptir því sem tídin gjördi þeim dýrara lífit. Var þá fjarstædr aldarháttr því, sem var á 17du öld, þó betri væri í sumu, ok allt fráleitast þat, er til þeirra manna kom er mannsmót var at; svo var ok alþýdan ordin mjök ólík því, er fyrr var, hlutsamari ok hvikulari ok tilhaldssamari, en mannblendin ok sidgód í umgengni, frá því sem var ádr.

## VII. Kap. Frá Hólamönnum.

Stephán amtmadr Þórarinsson hafdi bodit uppá Hóla tvær þúsundir dala í bankósedlum, sem þá gengu, ok ætlad frú sinni, ef hún lifdi hann, en þó þat væri gott verd, þá idradi hann þess, ok seldi aptr Páli Hjálmarssyni rectori ok Gísla í Hofstadaseli, Jóns syni biskups, Teitssonar, er kalladr var proconrector, ok fyrir hit sama verd; flutti Gísli þá til Hóla hit sama ár sem Jón Espólín flutti til Vidvíkr ok bjuggu þeir Páll rector á jördinni, ok tóku þegar at rjúfa húsin ok selja vidinn ok allt fulldýrt, seldu þeir allt þat er þeim þótti missast mega, en þó at jördin

væri gód, ok þeir færi slíku fram, búnadist þeim þar lítt, ok med litlu samþykki voru þeir þar, nema í því at vilja eigna Hóla jörd afrèttina; bjó frú Gudrídr, ekkja Sigurdar biskups, á litlum hluta, ok gekk mjök af henni, en þorkell Ólafsson stiptprófastr var á framfæri þeirra fyrir tekjur sínar; hafdi hann drukkit, ok þó ekki nema einn sèr í húsi, ok var fèlaus med öllu, en þeir hèldu hann lítt, ok var helzt ord á því gjört í húsi Gísla, en aldrei heyrdist þó á honum í einu ordi eda atviki, svo var hann jafnlyndr.

## VIII. Kap. Frá brèfum.

Þá var gott sumar fyrir sunnan, en kalt ok votsamt nyrdra, ok nýttust illa hey, hafdi aldrei allskostar gott ár verit sídan um aldamót; kom þá út kansellí-brèf um kennimerki á venus-sýki, ok opit brèf konúngs um hin þýzku lönd, sem lægi undir ríkit; var ok gefit út konúngsbrèfit um hálfan þrettánda af hundradi auka-inntektar reikníngs embættismanna, er bæta skyldi vid, ok gánga til konúngs, einnig aftekin heykaup eptir Jónsbók: skyldi enginn framar neydast til at selja óbyrgum, þótt byrgdir hefdi; þar at auk um talsmanna laun, hestagröft, skóla, ok enn fleira, er eigi nádi þá hèr út at koma.

## IX. Kap. Mál ok mannalát.

Þá andadist Jóhannes Jónsson, úngr prestr í Grímsey, ok var nokkut misrædt um, ok þó líkast hègóma, en í Augusto eda Septembri andadist Kristján prófastr Jóhannsson í Stafhollti, er orkt hafdi Sigrljód; þá dó ok Jón prófastr Högnason á Hólmum, ok Jón Thorberg, assistent á Vatneyri, son þorbergs prests Einarssonar. Vigfús, son Erlendar prests Hannessonar, útlærdr, hafdi ordit úti ádr yfir saudfè á Gufudalshálsi. Seint á því hausti voru mál í Eyjafirdi: átti annat Jón prestr Jónsson at Mödrufelli vid Hallgrím prest Thorlacius, um hospítalsfiska, ok reis af þeim þremr fyrst, en annat sá madr er Sveinn hèt, Bernhardsson, vid Jón Jakobsson sýslumann, kalladi af honum arf sinn, er stjúpfadir hans Bóas Sigurdarson Grímseyjar-prestr, sá er drukknadi á Grímseyjar sundi, hafdi eydt, því at hans formælendr vildu, at sýslumadr hefdi verit í yfirformyndara stad; sókti Sigurdr Snorrason málin, ok höfdu sækendr hærra hlut í hèradi, þó minna en þeir ætludu; vard Hallgrímr prestr fyrir bótum miklum, enda hafdi hann fyrri verit málagjarn, ok átt í þeim bædi þá er Thómas prestr Skúlason tók vid Grenjadarstad, þar hann var þá kapellán, ok svo sídan, ok gefit sik opt meira vid fjárafla en em-

bætti sínu; en er kom til landsyfirrèttar, mýktist nokkut mál hans, ok hefdi þó ordit framar nema ógætni hans hefdi spillt, en Jón Jakobsson sýslumadr vann sitt med öllu fyrir þeim rètti. Yfir stódu þá ok sýslumál Finns Jónssonar, ok er hèr ekki sagt frá þeim klækiskap, honum var borinn, því vèr vitum ei hvat satt er í, voru þau ei afgjörd, en þó veik greifinn honum frá sýslu fyrri, medan hann hafdi umrád, ok var þar settr fyrir sýsluna Sigurdr Gudlaugsson, er lengi hafdi verit í Reykjavík, ok vid margt ridinn, en Ebenezer Þorsteinsson, er þar hafdi verit settr fyrri, var dæmdr frá. Stepháni Skevíng var ok vikit frá Stapa umbodi, útaf ákærum Finns, ok skipadr fyrir þat Ólafr smidr, hreppstjóri ok bóndi á Munadarhóli, Bjarnarson, Þorsteinssonar, prests at Tjörn á Vatnsnesi, Bjarnarsonar prests at Stadarbakka, Þorsteinssonar, prests at Hofi á Skagaströnd. Ásgrímr Vigfússon hafdi aptr fengit prestskap vid Hellna, med fylgi tengdamanna sinna, ok var þó mörgum mjök á móti skapi. Mál hafdi ok verit med sýslumönnum, Skúla Magnússyni á Skardi ok Gudmundi Skevíng í Haga, en Jón Gudmundarson í Skaptafellssýslu var dæmdr í fèsektir eigi all-litlar í einu máli. Hans Koefod hèt danskr madr, er út kom, ok hafdi fengit Kjósar sýslu, hann dæmdi í því máli sem Jónas Skevíng var hafdr fyrir, um ákæru vid Erichsen, var ákæran virt sem af illum hug væri, ok eptir tilskipuninni um vanbrúkun prentfrelsis, þó þat væri nokkut á annan hátt, ok Jónasi sýslumanni dæmd á hendr 800 dala fèsekt til fátækra, ok þó fleiri útlát; þótti mönnum þat fáheyrt, ok var þat nokkra stund at hann rèdi hvorugt af, at appellera eda halda dóminn, en þó vard þat um sídir, at hann skaut máli sínu til hæstarèttar.

## X. Kap. Mannalát ok hardr vetr.

Öndverdlega á hinum næstu misserum öndudust þessir menn, er helzt voru teljandi, svo at vèr vitum: Gísli Thorlacius rector gamli, Jón bóndi Egilsson at Vatnshorni í Haukadal, vel áttrædr at aldri, ok voru margir erfingjar hans; Gísli prestr at Tjörn í Svarfadardal, Magnús son prests Einarssonar, skáld ok gáfadr vel, sem fadir hans, átti hann eptir börn mörg; Helga Finnsdóttir, Arnórssonar sýslumanns frá Belgshollti, hennar hafdi nýlega fengit Páll prestr at Hafsteinsstödum, son Árna biskups Þórarinssonar; Rafn prestr Jónsson á Hjaltabakka, er þar hafdi lengi verit, hann dó snögglega á ferd ok var stadrinn mjök illa kominn; ok einnig Audunn prestr í Blöndudalshólum, hafdi hann lengi legit ádr; hans son var Björn Blöndahl, og enn all-úngr í þenna tíma. Erlendr prófastr Jónsson at Hrafnagili andadist enn, ok hafdi þá verit

blindr um hríd; þótti at honum söknudr, því hann var valmenni mikit; einnig ekkja Gunnlaugs prests at Hálsi í Fnjóskadal, hèlt þá þann stad Sigurdr prestr, er fyrr var nokkra vetr í Goddölum eptir Jón prest Sveinsson; hann var Árna son frá Sigluvík, Hallgrímssonar, Sigurdarsonar frá Svalbardi, Jónssonar frá Hèradsdal, Jónssonar lögmanns á Reynistad, Sigurdarsonar, ok átti Björgu, dóttur Halldórs Vídalíns ok Ragnheidar á Reynistad; hún þótti skörúngr ok græddu þau vel fè. Enn deydi Íngibjörg Markúsdóttir sýslumanns, Bergssonar, módir Markúsar stiptprófasts í Gördum sudr, hún hafdi þrjá vetr hins tíunda tugar. Sá vetr var strídr ok hardr, med miklum hörkum, ok var mælt frostid at Miklabæ í Blönduhlíd 26 tröppur, eptir hitamæli Rèaumurs, en einni tröppu minna í Hofsós; þar var þá Jakob Havstein faktor; voru hafísar svo miklir, at enginn mundi þá slíka, ok komu þeir helzt med vestan átt, þeirri er laungum hafdi vid haldizt, sídan snjóavetrinn mikla, er þá var kalladr, ok verit hafdi þá fyrir 5 sumrum; var hafþök fyrir nordan ok vestan ok austan land, ok svo fyrir sunnan, nema nokkut af Faxafirdi var audt; voru þar svo miklir lagnadar-ísar, at ekki vard róit, en fyrir nordan land sá enginn út yfir ísinn af háfjöllum, ok komu Grímseyíngar á honum í land, ok inn á Akreyri, ok sögdu hafþök fyrir utan Grímsey; lítt var þó gagn at honum, nema þat, at höfrúngar nokkrir voru drepnir á Eyjafirdi, ok var illt at bjarga sèr um vorit, komust ok eigi skip at landinu. Var vor hart ok gjördi felli mikinn á peníngum í Múla sýslu, hlífdi þat eitt vid felli í Nordrlandi, at menn höfdu miklu skamtlegar sett á en fyrrum; ok voru þessi ár híngat til engu betri sydra en nyrdra, en hèdan af tók at skipta um þat ok hardna æ miklu meir nordanlands. Á þessum vetri hafdi Gunnlaugr Briem setid á Akreyri med Hemmert faktor, ok fór hann vestr til Arnarbælis um vorit, ok sókti konu sína ok bú, ok setti saman at Kjarna í Eyjafirdi, ok hafdi þar starfa mikinn vid húsagjördir ok annann kostnad. Þá skildi Hildr, kona Benedikts bónda Bogasonar at Stadarfelli, vid mann sinn samvistir, ok fór vestr til Haga, til Halldóru dóttur sinnar ok Gudmundar Skevíngs.

## XI. Kap. Upphaf tekjumála.

Þetta vor fór Sigurdr sýslumadr Snorrason vestr til Húnavatns þíngs, hann átti Gudrúnu, dóttur Þorsteins á Laxamýri, Benedikts sonar lögmanns, var hann madr medallagi á hæd, toginleitr, grannlegr ok óstyrkr, smágjörr um alla hluti, en þó nokkut hvatvís ok ætladi sèr meira, en hann var vel færr um; þar var sagt at fallit hefdi til meinamál, en vard

þó lítid af; setti hann sídan bú at Gilja. Þá bjó at Þíngeyrum Björn Ólsen, er hèlt klaustrid, hann átti Gudrúnu Runólfsdóttur, er fyr var gipt Einari Hjaltested, ok var hún köllud gód kona. Björn var bænda ættar, bródurson Þorkels gamla Bergmanns, er lengi var vid porcelíns-verksmidju í Kaupmannahöfn, en sídan kaupmadr í Reykjavík; þeir frændr voru bólugrafnir allir, ok rómdigrir. Björn hafdi verit vid kaupmannsskap ok grædt fè mikit, hann var djarfr ok hvatr til alls, ok snarpr atgaungu, heldr lítill vexti. Brædr átti hann marga, voru Helgi ok Magnús kalladir Bergmann, ok voru fyrir sunnan, ok knálegir menn, mátti Magnús kalla bædi sterkan ok hardgjörfan; Jón, einn þeirra, bjó á Hnausum, ok var hann gildlegr vel. Margir voru þá menn í Húnavatns þíngi vel fjáreigandi, ok eigi audveldir at ráda fyrir, ok urdu þó torveldari sídar. En í þennan tíma hófust skattamálin; hafdi þat verit venja, at goldnir voru 90 skildíngar í skatt fyrrum, í stad 20 álna, því þat var þá jafngyldt, ok þar med fannst þess getid í einni bók Magnúsar júſtizráds, „Gamni ok Alvöru", at 90 skildíngar væri rètt goldnir í skatt, en nú var enginn landeyrir ódýrri en tvöfaldr eda þrefaldr vid þat er ádr var, í móti peníngum, ok var því inntekt sýslumanna ok presta miklu fèminni en fyrrum, en lítt þurfti at eggja alþýdu fram at tregdast í gjöldum; freistudu á þessu vori sýslumenn í Nordrlandi, nema í Þíngeyjar sýslu, at fá meira í peníngum, en annarstadar höfdu þó fyrri þeir sýslumenn, er hardir þóttu, kallat slíkt sem þessir eda meira, sem Gudmundr Pètrsson í Krossavík, Þórdr Thorlacius ok Gudmundr Skevíng, en þessu fór fyrst á flot Gunnlaugr Briem í Eyjafirdi, gekk honum ok greidast fyrst; vildi hann hafa 12 skild. fyrir alin, eptir því sem þá gengu verdaurar, þeir er bókin tiltekr, en þat þótti bændum frekt. Í Húnavatnsþíngi var farit uppá hit sama, ok mótmæltu bændr, ok fèll þar nidr um sídir; í Skagafirdi var nokkut midlat til, ok gekk þó treglega. Prestar leitudust ok vid at fá fyllra en peninga reikníng, ok höfdu þeir sumir komit því á um sumt þá fyrir nokkru sídan; enda voru prestar í Skagafirdi illa sviptir tíundum af stólsjördum, þeim er fyrri voru, því at þeir höfdu fengit þær af stólnum, en hinir nýju eigendr vildu eigi gjalda, helzt þeir, sem ekki áttu til fulls, eda höfdu at öllu lokit verd fyrir jardirnar, ok guldu rentu af, en amtmadr vildi ekki midla af rentunni til tíunda lúkníngar; var einum presti, er lögsókti, dæmd tíundin í hèradi, eptir kristinrètti ok brèfi Fridriks konúngs annars, ok vard þat flestum at reglu þar. Margt var þá fleira ókarrat, sakir nýmæla þeirra er upp voru komin, ok orsökudu vandrædi um suma hluti, þar sem ekkert var til lykta leidt; jardeigendr vildu færa fram

landskyldir, því þær höfdu goldizt í peninga reikníng á hinum sídustu árum stólanna, en hann var nú svo rýr ordinn, ok gekk þat sumum, en skuldsetníng sú, er menn væntu frá konúngi á jördunum, kom ekki, nè önnur tilskipun um slíkt, ok leit svo út, þó at sú skammsýni mætti ótrúanleg þykja, sem forrádendr sæi ekki adal-grundvöll allrar óskipunar, penínga fallit, ok afstýrdu því ei afleidíngum þess, med því at undirbúa vid stjórnina í tíma, ok jafnskjótt sem fríhöndlan kom, at gjöld væri skordud vid landaura verd, sem jafnan hafdi verit, ok útvegadr kapítuls-taxti; hins er eigi til getanda, at þeir hafi aldrei hirt hverjar tekjur adrir höfdu, ef þeirra laun væri aukin sjálfra eptir tídar þörfum.

## XII. Kap. Tilskipanir ok mál.

Útkjálka mælíngu var þá fram haldit af stjórninni, ok komu út leutenantar á Eyjafirdi: Frisak ok Scheel, ok var sagt, at þeim væri launat af peníngum landsins; þá komu út brèf um yfirsetukonur, ok börn andvana borin, ok kver til leidarvísis um slíkt; konúngsbrèf um óþörf kærumál fyrir hæstarètti, ok annat um fríhöndlunina, ok mest kaupmönnum þarflegt; var þat eitt, at Vestmannaeyjar ok Grundarfjördr skyldu ei lengr kaupstadarètt hafa, heldr en hver höndlunarstadr; eitt um fortinun matar íláta, ok fleiri, er vid komu lækna-íþrótt. Mál var í Snæfells sýslu, hafdi kerlíng ein verit skotin um vetrinn ófyrirsynju til bana, ok var helzt fyrir hafdr Kjartan, son Ólafs á Munadarhóli, Bjarnarsonar; Ólafr læknir, er þar var, ok átti Kristínu, dóttur Hallgríms Bachmanns, ok Jón prestr Ásgeirsson í Stapatúni, skodudu hana, ok flimtadi Ólafr á Munadarhóli um þat, ok lèt sídan úti í samníngi fyrir þá flimtan 40 dali, þó gjördist ei út um málit, ok var Kjartani dæmdr eidr. Stephán amtmadr Stephensen reid um sumarit vestr þángat, ok þadan í Dali.

## XIII. Kap. Ár ok mannalát.

Mjök var þá illt sumar, kalt ok gródrlaust öndvert, ok tók af nautjörd í Skagafirdi í Julio, en sídan voru jafnan óvedr ok gjördi hrídir þá verst gegndi, ok hin versta var nýtíng nordanlands, þángat til er seint í Augusto ok öndverdum Septembri lagdi at med frostum ok fjúkum, ok því verra sem nordr kom, urdu þar stórir fjárskadar, ok bædi lítil ok ill heyin; en fyrir sudaustan land var allgód nýtíng; stigu þá æ jafnan vörur Dana ásamt í verdi, en ei hinar íslenzku. Á því sumri andadist Snorri prestr

Bjarnarson á Hjaltastödum, fadir Sigurdar sýslumanns ok systkina hans; var eitt Árni prestr í Felli, ok var hann ólíkr þeim frændum. Þá bar ok svo til, at Gísli prófastr Þórarinsson í Odda kom heim af ferd, hann hafdi lengi verit heilsulítill ok þúngfærr af offhyldgun, ok dó hann heldr snögglega; var þá Jórunn Sigurdardóttir, kona hans, ekkja ödru sinni, hún var ærit holdug, ok var þat helzt ordlagt, at Gudni, son Gudmundar prests Magnússonar at Kálfatjörn, mátti varla koma henni í södul; hún fór sídan til Ísleifs assessors, ok var med honum er hann bjó á Brekku, því hann hafdi fengit Sigrídar, dóttur þeirra Gísla prófasts, ok vard hún kona gömul.

## XIV. Kap. Teknir siglíngamenn.

Frá midjum September mánudi voru ýmist regn eda snjóar med frostum, ok leit þá út til hinna mestu hardinda í öllum sveitum fyrir nordan land, urdu sumir saudlausir þegar um haustid, en margir felldu kýr til helmínga, ok þó enginn meir en þurfti. Á því hausti rak upp 147 hnýdínga eda marsvín á Þíngeyra sandi, ok höfdu margir menn gagn af í Húnavatns þíngi, en Björn Ólsen ábata, er klaustrid hèlt, þó þat væri á reikníng. Fridrik greifi af Trampe reid nordr til Mödruvalla um sumarit, hann hafdi enga vidhöfn á háttum sínum eda sveinahald; hafdi eigi allmjök fallit á med þeim Magnúsi Stephensen justizrádi, ok fóru þeir bádir utan um haustid. Höfdu borit til ádr utanlands þau stórtídindi, er þeir vissu ekki ok engir út hèr, en þat var, at Enskir komu med skipaher í Eyrarsund, var lid þat hálfr fjórdi tugr þúsunda, en ekki voru, at því er mælt var, til varnar fyrir Kaupmannahöfn nema sex þúsundir hers, því Fridrik konúngsson var á Holsetulandi med meginher Dana, kom hann sjálfr til borgarinnar snöggva ferd, ok beiddust hinir Ensku herflota Danakonúngs, kvádu ei Dani mundu verja hann, hvort heldr sem væri, fyrir meginlands stjórnandanum Napoleon Bonaparte, Frakkakeisara, ok mundu þeir þá hljóta at hafa hann í móti sèr, lètust þessvegna vilja verda fyrri til at bragdi ok fá hann til láns, lètust mundu skila honum jafngódum. En med því þá var ord á komit, at stjórnin hin enska væri ótrú, þá þóttust ekki Danir slíkt mega gjöra vanvirdulaust, treystust því ok lítt fyrir Frankismönnum, var því fyrir þá sök skjótt neitad, ok foríngi settr fyrir borgarlidit, ok reyndist hann lítt; komust Englismenn á land, ok sóktu at borginni med herbúnadi sínum, brendu þeir mörg hús ok gjördu mikinn skada, ok var sagt, at vistaskortr hefdi þrengt mest borginni, ok því verit gefizt upp fyrr en ella mundi, ok settir skil-

máttar; ekki vissu menn þó svo gjörla um þat, en sídan hefir mælt verit at sljó væri vörnin; en hitt er ljóst, at konúngssonr kom födur sínum ok öllu konúngs húsi á brott í dularklædum, höfdu þeir enskt leidibrèf ok fóru sídan úr Sjálandi; tóku Enskir flotann, ok gjördist þadan af ófridr; verda hèr ei talin nema höfudatridin í svo stórum tilburdi, ok þó ófródlega, ok þarf ei at greina nema at því leyti er tók til lands þessa; 1600 menn fèllu eda fórust alls af Dönum, ok var einn íslenzkr; en sídan tóku Enskir upp öll skip Dana, er þeir nádu; var sagt þeir hefdi alls tekit 1000 skipa, ok voru þar í flest kaupför er frá Íslandi fóru, nema fáein, er af komust, ok gátu sèlt med ábata vöru sína. Urdu þá Nordmenn fyrstir til at leika á hina Ensku. Greifinn af Trampe ok Magnús jústizrád urdu teknir: greifinn vid Sjáland, ok slapp þar, ok komst brádlega til módur sinnar, en Magnús Stephensen vid Lídandisnes, ok var hann settr upp í Skotlandi, þar er sagt hann hafi mælt fyrir því, at nokkrum skipum væri sleppt til at halda fram kauphöndlun vid Ísland, medan ófridr stædi, ok komst hann sídan med ensku leidibrèfi til Kaupmannahafnar, ok enskt leidibrèf hafdi póstskipit út híngat. Gudmundr Pètrsson í Krossavík hafdi fengit lausn frá sýslu, en Páll sonr hans vid tekit, ok lagdi Gudmundr mjök lítid af til eflíngar honum; sídan hafdi Gudmundr farit utan med kaupskap, sem hann átti stundum vanda til at hafa í hendi, ok var hann tekinn; vard mikill fjöldi manna af skipum Dana fánginn á Englandi, ok ræmdist þetta stórilla, en sunnanlands tóku margir at ugga um sik fyrir ófridi af Enskum, sem Reykjavíkíngum ok Nesjamönnum var þó heldr títt, þó minna væri um. Spurdist þetta svo seint híngat, at margt var ádr ordit, þat er enn er ótalit, ok var eitt, at Ólafr Brynjólfsson var settr í stad Brynjólfs Pètrssonar handlæknis, födur síns, á Austfjördum, en Oddr, son Jóns prests Hjaltalíns, vard læknir vestra. Pètr, fadir Brynjólfs læknis, var Brynjólfsson, prests at Hálsi í Hamarsfirdi, Ólafssonar prests, Gíslasonar, Jónssonar prests í Fellsmúla, Bjarnasonar.

## XV. Kap. Tjón ok mannalát.

Þá hafdi Finnr Jónsson sýslumadr farit at vestan ok skilit vid konu sína Úlfdísi, því þau höfdu hvergi hæli, ok gekk hún til frænda sinna sudr í Borgarfjörd; voru þau barnlaus. Finnr reid nordr til Vídimýrar; þar bjó Benedikt Halldórsson Vídalín, mágr hans, ok þadan til Hóla, til Gísla bródur síns, gjördi hann þá þat rád, at komast utan á Hofsós skipi, ok ridu þeir brædr bádir til Vidvíkr, ok bádu Jón Espólín um fararbrèf, því þat var þá komit til sýslumanna; hann grunadi, at

þó Finnr hefdi ei fast hæli vestra, mundi þó ei gefa eiga honum fararbrèf í ödru amti, ok at þetta mundi vera mega áleikni, er Finni var eignud, ok hann sæi sèr þá ei annat færi til; var þat ok líkt atferli Gísla stundum, at koma fljótt at mönnum; þó med því, at hann þóttist vita at rádaleysi mætti valda, ok atsetu mundi hann taka sèr med frændum sínum í Skagafirdi, en aumkadi hann svo vesælan, þá hèt hann brèfinu, ok hefdi gefit honum, nema annat hefdi at borizt; ridu þeir brædr til Hofsóss, at taka Finni far, ok var med þeim hálfvaxinn sveinn, Kristján, launsonr Finns; þeir komu hvergi fyrr en í kaupstadinn, ok fengu heit um farit; þar drukku þeir, ok skildu sídan í því öli, bad Gísli hann rída, ok mælti eigi vel, ok laust hestinn, kvadst mundi koma eptir; Finnr var mjök máttvana, hann reid heimleidis til Hóla, ok sveinninn, ok komu til Ártúna, þar beiddist Finnr at leggjast fyrir, at því er sveinninn sagdi sídan, ok fèkk ei, þar bjó Sigurdr Andrèsson, er málit hafdi átt fyrrum vid Eyjólf prest, sídan reid hann sudr yfir ána, ok sveinninn af sèr, en þá tók at dimma, fèkk piltrinn leidarvísi til Grafar, þar bjó Benjamín prestr Jónsson, sá er átt hafdi í tíunda-málinu; var þá ætlan manna, at Finnr hefdi ridit tilbaka, því hann fannst um morguninn, er leitad var, daudr í Grafará, vid stein einn mikinn, ok var sagt at lètt væri líkit ok óþrútid, vildi Sigurdr ei at þat væri sett inn í Ártúnum, ok var þat þá flutt til Hóla. Litlu ádr, en Finnr drukknadi, hafdi drukknat sonr Thómasar Thómassonar at Ásgeirsá; en seint í hinum sama Octobri andadist Magnús prestr í Saurbæ, Jónsson, Bjarnarsonar frá Bustarfelli, fljótlega, hafdi hann verit vel þokkadr í Eyjafirdi; ok um sömu mund Þorkatla Sigurdar dóttir sýslumanns Vigfússonar, kona Þorbjarnar gullsmids á Lundum, Ólafs sonar smids, hafdi hún lengi verit illa höfd, en Þorbjörn var mjök audugr. Annarr deydi Helgi smidr á Steinum, ok týndist skip á Dýrafirdi med 8 mönnum. Þá dó enn Jón bóndi Bjarnason at Bakka í Vidvíkrsveit, ok Sigrlaug kona hans, ok fóru í eina gröf, áttu þau eptir jardir nokkrar ok annat fè, ok erfdi Eyríkr prestr Bjarnason, dótturmadr þeirra, er þá var kapellán Bjarna prests Jónssonar at Mælifelli. Á öndverdri jólaföstu andadist frú Sigrídr Magnúsdóttir í Videy, var hún fræg at viti ok stillíngu, ok lofud um adra kosti. Ekki voru birt konúngsbrèf þau, er mjök væri hèr vid komandi, var sumt um læknismedöl eda um fángahöld. Var þá öndverdr vetr þegar eigi gódr, en menn undirbúnir hit versta, spurdist þat úr Þíngeyjar þíngi, at þángat var komit margt umferdarfólk austan at.

## XVI. Kap. Árferdi, tjón ok mannalát.

1808. Þessi vetr var allhardr ok frostamikill, en menn svo illa vid látnir, fátt um afla ok kalt vorit; var hafís mikill lengst fyrir Nordrlandi, urdu vída hvalrekar mjök miklir í Húnavatns þíngi, rak tvo mikla á Þíngeyra rekum ok meir en 130 hnýdínga á Sandinn, ok hafdi Björn Ólsen hag mikinn, sem optar. Á því ári öndverdu, hinn 12ta Januarii, andadist Thómas prestr Skúlason á Grenjadarstad, hafdi hann átta Álfheidi Einarsdóttur, systur meistara Hálfdáns, ok börn; Helgu, konu Jóns prests at Mödrufelli, Jóns sonar prests, er seinast var at Núpufelli, Jóns sonar, Gudrúnu konu Gísla Jónssonar klaustrhaldara, Einar prest, er drukknadi, Skúla prest ok Ólaf prest; son Einars prests var Hálfdán. Annarr deydi Gudlaugr, prófastr í Vatnsfirdi, Sveinsson, Gudlaugssonar, ok enn um þær mundir öndudust nafnkenndir menn fleiri: Jón prestr Hannesson, er Mosfell hafdi haldit, ok var þá kominn at Hvítárvöllum til Arnórs prests, sonar síns, ok fleiri adrir. Eldr kviknadi í Haga á Bardaströnd, ok brenndi þar bæjarlopt, en þat var á degi ok vard eldrinn slökktr; brann ok bær at Stadarfelli, at Benedikts bónda Bogasonar, innanbæjar-hús öll, í rökkri, ok vard fáu bjargat; fórust 60 fjórdúngar smjörs, 32 saudarföll, 12 tunnur skyrs, bordbúnadr, skeidar ok smídat silfr, ok bækr margar ok allgódar, en fiskr ok mjöl ok peníngar voru í kirkju; lá Benedikt í fjósbásnum nóttina eptir, ok vard vel vid skada sínum. Flód hljóp at Hvammi í Nordrárdal, ok tók af hús meströll, en eitt barn Þórdar prests Þorsteinssonar fèkk bana. Þat spurdist austan at, en hafdi sked ádr, at Þorsteinn Melsted snikkari, son Jóns Ketilssonar í Kidey, er fyrr var at Ósi á Skógarströnd, er hann hafdi ádr haft afskipti nokkur ok umsýslu um peníngahvarfit þat er vard í Vallanesi, en farit sudr um sumarit, ok med honum sá madr er Jón Ófeigsson hèt, systkinabarn vid Þorvald prest á Reynivöllum, Bödvarsson, en er þeir komu austr aptr, hafdi Þorsteinn tekit at reisa stofu fyrir Jón bónda í Papey, vantadi 24 bord, fór hann þá í land einn sunnudag, í kaupstad, ok tók út bordin, ok fèkk þadan far heimleidis, ok faladi menn med sèr, en engir urdu til, nema Jón Ófeigsson; sídan fengu þeir sèr hressíngu, í því komu tveir pilfar Jóns, efnilegir, ok ein stúlka, ok vildu fara med; sigldu þau beinan byr frá landi, ok spurdist aldrei til þeirra sídan; hafdi þetta sked litlu fyrir vetrnætr. Þat var á öndverdum þessum misserum, at fjórir menn sóktu lömb úr Hrappsey í ey eina óbygda, ok nádu þeim öllum, nema einu; þeir fermdu skipit ok elltu sídan allir hit eina lambit; var skipit rekit undan er þeir komu aptr, ok stökk einn út á jaka, ok ætladi at henda

sik at því af einum á annan, fèll hann þá í sjóinn ok drukknadi, en skipit rak undan med lömbunum. Skridur fèllu vída, ok höfdu fallit hit fyrra árit í Kjós. Þá var mjök uggasamt fyrir Enskum, ok siglíng mjök afskorin frá Dönum; var ótti um Sudrnes, at Enskir mundu ræna; var þar á Nesjunum audugastr madr Egill bóndi Sveinbjarnarson í Njardvík, uggdi hann mjök um fè sitt, ok fèkk af því áhyggjur svo stórar, at dró hann til dauda, ok er ei gjörr frá sagt; var bú hans talit frá 15 til 20 þúsunda dala verds, ok mun þat svara 10 hundrudum hundrada at forngyldu; hann átti tvö börn, sonr hans hèt Sveinbjörn, en dóttir Gudrún, hún var á Innrahólmi, ok hafdi alizt upp med Magnúsi jústizrádi Stephensen, en ekkja Egils var fús at giptast, ok fèkk hennar seinna vinnumadr hennar, Skagfirzkr, Ari Jónsson, bródurson Þorsteins bónda á Höfda, Arasonar. Þá var fiskilítid sydra, en bágt at fá björg í kaupstödum. Draugr var sagt at gengi um í Garpsdal vestr, þar Sæmundr prestr var, Þorsteinsson, ok margt um talat, en reyndist lítid mark at, þá at var hugat. Jón Jakobsson sýslumadr á Espihóli hafdi legit lengst vetrarins í iktar-verkjum, er inn höfdu slegit, hann andadist hinn 22ann dag Maji at kvöldi, er hann var vel sjötugr, ok var mjök tregadr af mörgum manni, en alþýda kalladi, at eigi mundi koma hans jafníngi í Eyjafjörd, sem sannar sálmr Jóns prests Þorlákssonar; var hann jardadr á Grund, framundan kirkjudyrum, hjá Þórarni sýslumanni, ok gekk Stephán amtmadr á Mödruvöllum fyrir útför hans, med ekkjunni, ok Jón Espólín. Á því vori spurdist þat frá Danmörku, at Kristján konúngr hinn sjöundi væri andadr, ok ætludu margir honum nærri mundu gengit hafa ásamt skada þann hinn mikla, er Enskir gjördu; hann var hinn ástsælasti konúngr, ok hafdi gjört mikit gott Íslandi. Þá dó í Junio Þorleifr bóndi Jónsson á Siglunesi, ok var hann gamall mjök, var einn hans son Ólafr prestr, er hèlt Kvíabekk.

## XVII. Kap. Frá Magnúsi Stephensen.

Magnús Stephensen var þá kominn til Danmerkr; hann hafdi sett saman út hèr þá bók, er hann kalladi eptirmæli 18du aldar, en í ferdinni jók hann hana, ok setti á Dönsku, ok breytti nokkut, ok kalladi „Ísland á 18du öld" hann lèt geta þess í dagriti því, er kallat var Kaupmannahafnar mynd (*Kjöbenhavns Skilderie*), ok svo hins, at upplýsíng hefdi aukizt út hèr, ok þó væri margir mótfallnir sálmunum nýju ok ödru, ok eigi sízt klerkarnir; var þessu svarat nafnlaust, ok kallat at hann gjördi lítid úr upplýsíngu Íslendínga, ok mundi eigna sèr sjálfum helzt

til mikit; var ok spurt, hversu á uppfrædíngar fèlaginu stód, ok hvert þat var ei sjálfs hans forsjá er hann bældi. Því tók hann eigi vel, ritadi á móti ok kalladi þann illviljadan, ok ödrum óvinveittum nöfnum, er slíkt bar fram, ok duldi þó nafns síns; taldi sjálfa stjórnina ei mjök kunnuga háttum hèr nú, ok lèzt mundu gjöra grein á sínum medferdum, hèlt ok svari sínu um þat, er hann hafdi at fundit. Þessu var jafnskjótt svarat, ok tekid af honum fyrir framgirni, gaf sá sik fram er ritad hafdi, ok var þat Grímr Thorkelín; hann ámælti honum um kapp, ok bar honum nokkut svo eigingirni, ok gat þess, at slík svör, svo stór eda stríd, væri ekki í tídsku í Danmörku, ok mundi vera hèrlenzk, en stód á því, at konúngi ok kammeri væri fullkunnugt hvat hèr væri þarflegt. Því svaradi Magnús Stephensen aptr all-hardfengilega, ok taladi um sínar medferdir vid landsfèlagit, ok bar sumt af sèr er hinn bar fram, en lèzt þá ei framar gegna mundu, því hann væri ferdbúinn til Íslands. — Thorkelín svaradi þar fáu til, lèzt ei vilja vinna til jafnadar, er hann var á brottu, ok ei til andsvara, kvad sèr þat nægja, at engin væri sín ord rekin; lagdi Magnús Stephensen út, ok komst til Noregs, ok vard þar um vetrinn. Á því sumri keypti Stephán amtmadr Þórarinsson Espihól af erfíngjum Jóns Jakobssonar, ok komst svo at öllum hans menjum, en leigdi landit, ok módur sinni stofuna fullri leigu.

## XVIII. Kap. Rænt sydra.

Sumar var allgott ok þerrasamt fyrir nordan, en ekki lètti hardæri, miklu var þat magnadra, ok hèlzt enn lengi svo; gjördist þá heldr til nýtídinda í landi hèr, ok helzt í Reykjavík. Bar þat til á laugardaginn hinn 23ja Julii mánadar árla, at sást frá Landakoti briggskip sigla inn til Hafnarfjardar, en menn áttu ei von á skipum Dönskum eda Norrænum; barst þetta um Reykjavík, ok gjördi mörgum þar áhyggjur, reid Thomsen faktor til Hafnarfjardar á njósn, ok kom skjótt aptr, ok kvad enska hernadar-brigg vera, ok hafa tekid jaktir tvær fyrir Bjarna Sigurdarsyni, er út höfdu legit til fiskjar; nokkrir höfdu farit þar á land, ok skodat húsin, ok leitad peninga, lokat sídan vöruhúsunum, ok fyrirlidarnir tekit lyklana, ok farit á skip sitt. Árni Ketilsson lótsmadr hafdi farit fram, ok fleiri Íslendíngar, var honum haldit, en hinum sleppt; þeir fundu 5 eda 6 menn íslenzka á skipinu, er teknir höfdu verit upp fyrir Jökli á fjögra manna fari, þat var Kjartan, son Ólafs bónda á Munadarhóli, er þá stód fyrir Stapa umbodi, sá er borinn hafdi verit vid at hafa skotid kerlínguna; þessir menn kvádust vel

haldnir, en hafa átt at setja hina Ensku inn í Ólafsvík, ok lètu þat ei ordit hafa, en vid þat kvádu þeir Kjartani heitid hafa verit hengíngu, ok sídan vedr bægt þeim, svo þeir hèldu til Hafnarfjardar. Jón Jónsson, er þá hafdi umsjá vid skólann á Bessastödum, því hann hafdi verit fluttr þángat frá Reykjavík, var einn af hinum sídustu, sem fyrir midjan dag fóru á skipit; var hann vel tekinn, ok vid bord höfudsmannsins um daginn, en sídan fóru þeir á land, höfudsmadrinn ok átta adrir, ok var Jón látinn bída hans aptrkomu um 12 stundir, taladi skipslæknirinn vid hann á Frönsku vinsamlega, ok kvad hann hljóta vera í gislíngu medan þeir væri á landi, en þeir yrdi at brenna Hafnarfjörd ef höfudsmanninum yrdi nokkurt mein; hann sagdi, at kapteinn hèti Gilpín, ok skipit Salamine, hafdi þat 23 edr allt at 26 fallbyssum, ok mikinn útbúnad, þar med bombur; lèzt vera konúnglegt herskip frá Leirvík á Hjaltlandi, ok eiga at sækja konúngsfè ok brjóta vígi; spurdu þeir eptir kastala á Bessastödum, ok var þeim sagt, at þar væri allt nidr fallit; hafdi skip þetta tekit Þórshöfn á Færeyjum, svo at ekki var fyrirstada, brotid kastalann, ok flutt þadan konúngsfè ok vöru alla til Skotlands; sagdi þat Jóni danskr skipari Hansen, er á því var, ok opt hafdi farit til Íslands; hann höfdu þeir tekid í Þórshöfn. Er nú at segja frá kapteininum, at hann fór á land ok hans menn, fundu þeir einn landsmann, ok lètu fylgja sèr, ok spurdu hvar landshöfdínginn byggi? þeim var sagt, at hann væri þá ekki í landinu, en umbodsmadr hans væri Ísleifr Einarsson assessor, á Brekku; þeir fóru þángat, ok spurdu at honum, var hann farinn til Reykjavíkr ok vard þeim illa vid þat, gengu í stofu ok fundu Þorgrím Thómasson gullsmid, settu þeir honum brugdinn höggkorda fyrir brjóst, ok töludu hátt til hans um peninga, en hann skildi þá ei, grunadi þó hvat þeir mundu vilja, lauk upp dragkistu sinni, ok tóku þeir þar þat sem þeim þótti nýtilegt, 13 bankósedla, 2 silfr-úr ok 5 gullhrínga, ok fèkk hann þat ei aptr. Konur flýdu frá Brekku til næstu bæja, en tveir hinir Ensku fóru til Skógtjarnar, ok hittu þar tvær stúlkur vænar, ok veittu þeim árás; þar kom út kerlíng ein sjötug, med barn á armi, er Jórunn hèt, ok sögdu sumir, þó adrir bæri þat sídan aptr, at hún hefdi haft kníf í annarri hendi ok otad at þeim; en hversu sem þat var, hurfu þeir aptr. Þadan fóru þeir landveg til Bessastada, ok spurdu um peninga, en gjördu ei adrar óspektir en þeir tóku byssu gamla. Á Breidabólstad tóku þeir bát ok fóru yfir á Seltjarnarnes, komu til Reykjavíkr um midjan dag, ok fylgdi þeim íslenzkr madr, höfdu þeir allir höggkorda brugdna ok pístólur, þeir tóku hús á landfógetanum, ok var þar inni Ísleifr assessor ok Hans Koefod sýslumadr; þar kom

Andreas Mitchell, kaupmadr danskr, en skotzkr at uppruna, ok var hann túlkr. Sá kvadst vera óvinr Dana konúngs, er foríngi lèzt verá, ok krafdi þess, at sèr væri sagt til penínga hans ok eigna, lèzt hlífa mundu annarra manna fè, ef enginn sýndi vörn. Hann heimti lykla at konúngs fèhirzlum ok kvad skipit í dag koma skyldu til Reykjavíkr, eda nær sem hann fengi því vid komit, ok þraungva þeim til þess er þeir vildu ei med gódu. Landshöfdíngjar þóttust varnarlausir ok fengu þeim lyklana, fóru þeir þá til húss Greifans af Trampe, er Ísleifr hafdi byggja látid ok selt honum, þat var múrhús mikit á Austrvelli ok há stètt undir; fór Ísleifr ok landfógeti med þeim, var fèhirzlan opnud, ok teiknat upp hvat í var, sídan var henni læst, en þeir tóku lyklana, ok pístólur tvær, er greifinn átti, skygndust um í bænum ok fengu sèr því næst hjá landfógetanum nokkut til matar ok drykkjar; sídan fóru þeir aptr til Hafnarfjardar. Landfógeti ok sýslumadr ridu eptir þeim, ok njósnudu um háttu þeirra ok ástand; baud landfógeti at halda gódum háttum á í Reykjavík, ok hafa vardhöld. Um nóttina lèttu þeir akkerum hinir Ensku, ok komu fyrir Reykjavík á sunnudaginn um dagmál, höfdu konur sumar flúit þadan, en bæjarmenn voru hræddir, sem þeir áttu þó stundum vanda til. Víkíngar sigldu á höfn ok höfdu á eptir sèr jagtskipin bædi, er þeir höfdu tekid; fór bátr at landi med 12 mönnum, ok fyrirlidarnir bádir, allir vopnadir. Kaupmenn höfdu sett upp flögg dönsk, en hinir Ensku tóku þau, fóru sídan til húsa landfógetans, en spurdu at húsi landstjóra, ok lètust vilja þángat, var þeim þá fylgt þartil af hinum sömu ok fyrri, tók kapteinninn upp fèhirzlu-lyklana, ok bad upp ljúka, sídan töldu þeir peníngana ok lètu nidr aptr, ok fluttu á skip alltsaman, kröfdu sídan bókar yfir fè hirzlunnar af landfógetanum, var hún þá nýlega fullgjör at reikníngum ok fengin þeim; en þat er sumra sögn, at sá, er landfógetinn afhenti peníngana, hafi tekit sjálfr 100 dali af þeim, svo at þeir horfdu á, ok látid hjá sèr, ok kallat vangoldit, ok hafi landfógetinn goldit af sínu, en Koefod hafi geymt tvær þúsundir dala, ok ei viljat láta af hendi eda til segja, ok ekki þó þeir ofrudu vopnunum. Þeir lètu stórilla yfir, at ekki var meira til en 35 þúsundir dala, ok þó verr yfir því, at ei var nema 300 í silfrpeníngum, ok rúmar 6 þúsundir í skildíngum, kvadst kapteinninn ekki gagn hafa af bankósedlunum, ok bad kaupmenn leysa þá med silfri, ella lètst hann taka mundu vöru þeirra, dugdi ekki þó honum væri tjád, at slíku mætti menn ei orka, ok bodit allt þat er til var: silfrbúnadr landfógetans ok annat, í umskiptum; því neitadi hann, kalladi þat ósæmilegt, en hèlt á svari sínu sem ádr; lèzt hann hafa lokat kaupmanna húsum í Hafnarfirdi fyrir þá skuld,

at hann ætladi konúngr ætti hèr höndlun alla, sem í Færeyjum, trúdi hann ei at ödruvísi væri, fyr en þeim var sýnd höndlunar-tilskipunin. Þeir skodudu kaupmanna vöru, ok litu helzt á lýsi, ædardún ok refaskinn. Sídan hittu fyrirlidar biskupinn, ok spurdu hvort hann hefdi eigi stjórnarinnar penínga eda tíundir undir höndum, hann neitadi því, ok bad þá hlífa messuvíni fyrir almennings naudsynja sakir, ok því hètu þeir. Um kvöldit fóru fyrirmenn til Videyjar ok fundu Ólaf stiptamtmann Stephensen, hann tók þeim vel, ok svo sýndu þeir sik vinsamlega á móti, lèt hann þá sjá silfr sitt, er þeir bádu, ok gaf þeim 8 lömb ok 2 saudi. Þeir gáfu herra Ólafi 10 eda 12 pund kaffebauna, en fylgdarmenn þeirra stálu silfrbikurum tveimr. Um nóttina fóru tveir af skipinu á land til Videyjar, á íslenzkum báti litlum, ok höfdu pístólur ok höggkorda, þeir komu at opnum dyrum ok gengu inn, ok fundu stiptamtmann í sæng sinni í skyrtu einni saman, þeir voru hávarir mjök ok hótudu honum med vopnunum, svo hann vard upp at standa, ok sýna þeim silfr sitt ok penínga; sagdi hann svo sjálfr sídan, at ótti allr hefdi frá sèr horfit, ok hann hefdi búizt vid dauda sínum einum; ræntu þeir sem svara mundi tveggja hundrada dala verdi. Rádsmadr stiptamtmanns, er Audun hèt, sá til ok fèkk ei at gjört, en húskarlar treystust ei at þeim, voru hræddir, ok helzt um hefnd, ef þeim væri gjört nokkut; sumir sögdu þeir hefdi komit út í stofudyrnar ok rádizt ei inn; hèt einn Gísli Gudmundarson, skagfirzkr, mikill vexti ok í sterkara lagi, en all-óeinardr. Audun bjóst at fara á njósn, ok rèri til Reykjavíkr, ok fèkk Mitchell til at fara med sèr fram á skipit, vöktu þeir stýrimanninn ok fèkk svo kapteinninn at vita hvat um var; voru þá vardmenn spurdir, hvort nokkur hefdi farit af skipi edr á um nóttina, ok neitudu þeir því; sídan voru allir skipsmenn kalladir, ok kendi Audun annan, er á land hafdi farit, ok var sá settr í járn, en kapteinninn kvadst mundu finna hinn eda fá uppspurdan sjálfr. Á mánudags morguninn fór kapteinninn á land í Reykjavík med lækni sínum, ok ætladi inn í Videy, at fridstilla stiptamtmann ok lækna, ef þyrfti; þótti þat mörgum mönnum líklegt, er þetta spurdu, at svo gömlum manni hefdi nær gengit atförin, ok helzt af því hann hafdi jafnan verit haldinn nokkut óttagjarn, en hann kom í hinu sama til Reykjavíkr sem kapteinninn. — Lèt þá Gilpín á sèr heyra, at honum hefdi illa líkat tiltæki sinna manna, ok kvadst mundu láta hengja þá, en fèkk herra Ólafi mest allt aptr, þat er þeir höfdu tekid, nema bikarinn fèkk hann ekki; komu ok upp hjá þeim hríngar gullsmidsins, er þeir höfdu fólgit í braudskál. Stiptamtmadr bad þeim grida, en kapteinninn kvadst þat fá vilja skrifat, svo fylgja mætti prótókolnum, lèt ok svo, at Íslend-

íngar mætti skjóta menn sína, ef þeir færi þannig fram sem þessir. Þar eptir lètu þeir kaupmenn greina sèr allar vörur þeirra, ok fengu 12 saudkindr, er þeir höfdu bedit um, ok landfógetinn hafdi keypt fyrir sjálfs síns peninga, lèt þá ok fá kál ok egg ok annat, ok launudu þeir þat engu. Á þridjudaginn komu þeir á land med vöru-listann, ok höfdu gjört jöfnud á kaupmenn, hversu mikit hverr skyldi innleysa, voru þat alls 28 þúsundir dala, en þeir fengu at eins tvær þúsundir, þar lètu þeir fyrir bankó-sedla, þá er íslenzka var á annarsvegar, því þá vildu þeir sízt, ok heimtu fleiri peninga, sem ádr. Á midvikudaginn settu þeir adra jagtina upp, ok skófu hana, brendu ok tjörgudu, kvádust þá taka mundu vöru, ef þeir fengi eigi peninga, fyrir bankósedlana, ok fara .med jagtina adra. Einarr Gíslason frá Ási, skipari á annari, kvad þá mundu brenna þá sem lakari var, nema hún væri leyst med tveim hundrudum dala, hann lèzt vilja fara med þeim, en fáir vildu þat adrir, af þeim er þeir höfdu upp tekid. Kapteinninn baud þá fyrirmönnum í Reykjavík til bords um daginn, komu fáir, ok var þeim vel veitt. Var enn gefinn 5 daga frestr til innlausnar bankósedlanna, ok sent í allar áttir; lèt kapteinninn sem sèr væri naudugt at halda jagtinni fyrir Bjarna Sigurdarsyni, en kvad þó svo vera verda, ef hann fengi ei peninga. Var þá enn bodit fyrirmönnum í Reykjavík til balls um kvöldit á skipinu, en þat var eigi þegit; þá beiddust hinir Ensku at mega halda þat á landi, ok treystust hinir ei at neita, var þat sídan haldit um nóttina, ok sýndu fyrirlidar alúd alla á sèr, ok fóru svo á skip sitt. Eptir um daginn lètu þeir hefja nokkur flögg, ok sagdi Mitchell, at þeir væri at þakka med því skemtanina um kvöldit. Gleraugum stiptamtmannsins, er hann hafdi mist, hèt kapteinninn, hvadan sem þau fengist. Lètu þeir út um daginn ok skildu eptir jagtirnar ok menn med, en kvádust mundu vitja þeirra at tveggja daga fresti; ætludu menn þeir mundu óttazt hafa áhlaup óvina sinna, Franskra, ok viljat heldr mæta þeim á rúmsjó, því talat var um at skip hefdi sèzt ok heyrzt skot úti fyrir. Þeir fundu fiskibát einn á föstudaginn, því vindr bægdi þeim, ok spurdu þá er á voru, hvort þeir hefdi sèd skip eda heyrt skotid í hafinu. Á laugardaginn var kyrt, en þó hurfu þeir úr sýn um midjan dag, sídast sást til þeirra úr Keflavík, ok ætludu menn þá elta fiskiskip hollenzk, ok þareptir heyrdust í hafinu úti skot mikil á föstudaginn næsta, er var hinn 5ti Augusti; sídan komu þeir aptr í Reykjavík til hafnar, ok med þeim dugga hollenzk, fór þá kapteinninn ok skipslæknirinn á land um kvöldit, ok kvádust elt hafa skip hollenzk, en þau hefdi oflángt verit undan dregin. Þeir höfdu komit inn í Vestmannaeyjum, en fólk allt var flúit á

fjall upp; tóku þeir þar 6 saudkindr, ok guldu bændum, er þeir fundu, verd fyrir; annat sinn höfdu þeir fengit at gjöf af faktornum þar 2 saudi ok 4 lömb, en gjört þar engar óspektir. Þeir höfdu nád fyrir einum degi duggunni hollenzku, er þeir fóru med, hún hafdi innan borda 34 lestir fiska. Stundu fyrir midjan aptan fór kapteinninn aptr á land, ok fèkk 6 þúsundir ok 700 dali í skiptum, ok sleppti sídan jögtunum, þegar adgjördin var launud, bad ok ei um fleiri penínga, en 12 saudkindr at eins, ok 4 svört lömb til kaups, ok fèkk hann þat. Lèt hann þá bækurnar af hendi, ok kvittunarbrèf fyrir konúngs fèhirzlunni, en bad um vitnisburd landstjórans ok tveggja embættismanna fyrir því, at hann hefdi vel farit med sínu rádi hèr vid land, en engu vildi hann aptr skila, hversu sem hann var bedinn. Á laugardaginn galt hann 300 dali fyrir ýmsa hluti, er hann hafdi fengit; spurdu menn þá, at þeir væri dæmdir til hengíngar, er rænt höfdu í Videy, ok skyldi bída til þess þeir kæmi heim. Þeir fóru þá enn til Videyjar fyrirmennirnir, ok fengu Ólafi stiptamtmanni gleraugu hans ok silfr-úr, ok enn fleira er hann hafdi mist. Á sunnudaginn voru þeir vid danzveizlu í bænum, en á mánudaginn slepptu þeir Árna Ketilssyni lótsmanni, ok fengu honum 40 dali, sem hann hafdi af þeim heimt, kölludu þat þó helzt til mikit, ok eigi þótti þeim þeir gjalda sèr vel, er þeir höfdu tekit vestra; þeir lètu út at lídanda nóni, ok sáust ei sídan; var margt eptir þeim haft um ófrid utanlands, ok helzt eptir Hansen, en þó sátu þeir mjök á honum, var ok þá enn vissulítid fyrir því er þeir sögdu. En um þetta allt lagdist á misjafn ordrómr med alþýdu, sem opt kann vera, en var fátt um talad af hinum stærri mönnum; þótti mörgum sem landfógetanum hefdi verit drengilegra at láta taka sik med fèhirzlunni, ok ætludu hann heldr vera gódan mann ok gætinn í sýslun sinni, en at honum hefdi þetta skörugglega farit, eda hugr væri í honum; spurdist þat sídan, at Gilpín hefdi ei haft leyfi til annars en hernadar á sjó, ok hefdi verit ófrjáls at því, at ræna inni í landabugum, ok hann ok hans menn hefdi þarum ákærdir ordit á Englandi.

## XIX. Kap. Frá Reykjavíkr ok Nesjamönnum.

Þat hafdi sýnzt mörgum mönnum í Danmörku, at heldr mætti þykja misrádit at í Kaupmannahöfn voru saman komin öll rádaneyti ríkisins, ok allar fèhirzlur, ok margt annat, er týnast mátti í ófridi; svo mikit tjón hafdi þar ordit á mörgu, at ófridr Enskra lauk upp augum manna um slíkt; en miklu var þat ólidlegra, at því leyti er numit gat þessa

lands ágæti, at konúngs fèhirzlurnar ok allt annat skyldi saman komit vera í Reykjavík, þar sem bær var varnarlaus ok opinn sem mest mátti verda, fyrir hverjum víkíngi sem fyrstr kom at landinu, hversu vanmáttugr sem var, ok þarmed var þar engin fyrirhyggja höfd um annat en fèdrátt ok skart; voru allir bæjarmenn kramarar, ok þernur þeirra ok þjónar hugsudu ei um annat en skart ok móda: konur höfdu gullhrínga marga hver, ok keppt var um hvat eina sem til yfirlætis horfdi, samkvæmi jafnan ok danzar ok drykkjur, ok eptir þessu vandist alþýdan, er þar var um kríng, ok jókst þar mikit idnarleysi, en allt þat er horfdi til hardgjörfi, eda rèttrar karlmennsku ok hugrekki, var þar sem fjarlægast. Ok med því, at slíkt þótti horfa til sidaspillis úngum mönnum, þá hafdi skólinn verit fluttr til Bessastada, vard hann þar þó ærit kostnadarsamr ok atbúnadr illr um hríd, því húsin voru afar köld. Dómkirkjan, sú er bygd hafdi verit þá fyrir fám árum í Reykjavík med miklum kostnadi, var þá þegar tekin mjök at láta á sjást. Voru í þenna tíma þessir höndlunarmenn ok kaupmenn sydra: Kristján Jacobæus í Keflavík, ok hafdi verit all-lengi; Bjarni Sigurdarson í Hafnarfirdi, hann var frá Árnes sýslu, ok hafdi verit lögrèttumadr fyrrum, en fadir hans bóndi gódr; var hann nú í förum, ok var bædi árædinn ok hamíngjusamr; í Reykjavík voru: Vesty Petræus, hann var tekinn á Englandi í þenna tíma, þótti kænn ok fèdrögull mörgum, Knudsen ok Thomsen, Strube ok Faber, ok Gísli Símonarson, skagfirzkr madr, son Símonar í Málmey, en smákramarar at auki.

## XX. Kap. Mannalát.

Nú vitum vèr æ færra, ok verda þeir vid at auka er sídar koma, ok laga ef ósannlegt hefir med slædzt, en þat skal telja þeim til fyrirgreidslu, er vèr vitum framast; má því vel verda at margt verdi hèdan af órèttara en fyrri, at eptir engu verdr farit, er skrád hefir verit á pappír, ok allar skortir upplýsíngar um hvat eina, nema sagnir, þar sem vèr höfum eigi sjálfir sèd ok mundum. Á því sumri andadist Jónathan prestr at Stad í Hrútafirdi, Sigurdar son smids, Oddssonar, hann hafdi stundum verit med litlu rádi, en gáfadr var hann vel, hlaut kallit eptir hann Þorkell prestr Gudnason frá Flatey; annarr deydi Eyríkr prófastr Vigfússon, ok var þá kominn í Stafholt, en Reykholt hafdi fengit Eggert prestr Gudmundarson frá Hjardarholti, Vigfússonar, hann hafdi haldit ádr Gilsbakka, ok fèkk þann stad Hjörtr prestr Jónsson, sá er utan hafdi farit þá er Bjarni mordíngi var tekinn af. Þorleifr

prestr Sæmundarson at Stad í Kinn andadist enn, ok Vigfús prestr í Gardi, Bjarnarson prófasts, Magnússonar, Bjarnarsonar, Pálssonar, hann hafdi verit vel fjáreigandi, mikill álitum ok þykkr, ok átti fyrri þá konu, er Gudlaug hèt, Andrèsdóttir, ok med henni Björn prest, er fèkk Önnu Stephánsdóttur frá Presthólum, ok Cecilju, konu Ara læknis á Flugumýri; þau voru bædi skörugleg; Elínu, Sigrídi ok Þrúdi; en seinna hafdi hann fengit Kristínar Þórdardóttur, Árna sonar hins ríka á Arneidarstödum, bródurdóttur Jóns sýslumanns á Íngjaldshóli; hún var fjárgefin; þeirra son var Benedikt. Enn deydi Steinunn Sigurdardóttir, Sigurdarsonar á Geitaskardi, Einars sonar biskups, sú er átt hafdi Snorri prestr Bjarnarson á Hjaltastödum, ok módir Sigurdar sýslumanns á Gilljá. Sídla ársins kom út í Reykjavík skip norrænt, at forlagi rentukammers, búit híngat til lands med naudsynjavörur: korn, járn ok annat; þóttu þær mjök dýrar, sem von var til, í svo miklum kostnadi ok ófridi sem á lá, ok kunnu margir lítt vid þat at koma, þó framfærslulítid væri selt frá innkaupum, enda voru fáir færir at kaupa, því peníngar voru mjök þrotnir, en vörur litlar til ok óhægt at koma yfir land; skiptu amtmenn þessu gózi í sýslurnar, ok sýslumenn í hreppa, ok vísudu mönnum med sedlum til landfógetans, er deildi því út; en fyrir því, at litlu sídar kom höndlun meiri sydra, vard lítid af útsölu þess. Þeir brædr drukknudu: Þorvaldr í Brautarholti, ok Hálfdán, er prestr hafdi verit, synir Odds prests á Reynivöllum Þorvardssonar; ok andadist Margrèt Bogadóttir úr Hrappsey, kona Jóns prests Þorlákssonar at Bægisá, sleppti hann tilkalli til arfs eptir hana, ok var þó snaudr.

## XXI. Kap. Lögmál.

Þat sem af konúnga brèfum, er út komu þau misseri, tók helzt til almenníngs, var reskript eitt, er tók af tukthús-dóma fyrir flest, en lagdi vid hvern einfaldan stuld, lausgángara hátt ok margt annat, smáhýdíngar, er hreppstjórar skyldu framkvæma med sýslumanns rádi; skyldu þó amtmenn ádr samþykkja dómana. Var tekid frá sýslumönnum sakeyrir ok svo fángahald, ok skipud sakafalls fèhirzla, er sýslumenn skyldu safna til ok ábyrgjast kauplaust, ok þó med amtmanns yfirsýn, en hvat meira yrdi at kosta málin, en eignir hinna seku hrykki, skyldi jafnast á almenníng, ok svo enn fleira, þat er til kostnadar horfdi; var þetta í sumu betra en fyrr hafdi verit, en í mörgu torveldara, helzt med skriptir og reikmínga, ok kröfur til fèhirzlunnar, ef amtmenn vildu vera hótfyndnir, ok var þeim þat ekki óskapfelt, helzt

sumum hinum íslenzku, er sýna vildu vandlæti sitt. Gapastokkr var ok af tekinn, sem annat, er til mínkunar horfdi, hafdi hann verit vanbrúkadr stundum fyrrmeir, en þó þótti sumum, eigi allheimskum, illa, er enga mínkun skyldi mega bjóda þeim, er sýndu sik í mínkunarverkum med fullum ódrengskap, því oflítil var jafnan manngrein á Íslandi á framferdum manna, ok rèdist eigi bót á því med slíku; var frumvarp þeirrar löggjafar eignat Magnúsi Stephensen. Konúngr baud med ödru brèfi, at auka álit ok virdíngu hreppstjóra, ok gaf þá fría frá útgjöldum, ok ödrum skylduverkum almenníngs, ok framfylgdu landshöfdíngjar þessu seinna. Var nú hart nyrdra af fiskleysi, en sydra
1809. var aflasamt um haustid, en minna þá til vetrarins kom, á venjulegri vertíd, því at mjök margt fór sudr, en fiskleysi var mikit úti á Nesjum. Sá vetr var allgódr, en hörd ár höfdu svo undir búit, at menn máttu varla standast, ok stódust þó nær med ólíkindum, svo mikit bjargleysi sem var, bædi af sjó ok svo kauphöndlaninni, enda leit þá út hit óvænlegasta.

## XXII. Kap. Útkoma Savignaks.

Skip enskt kom í Hafnarfjörd, ok vildi höndla um vetrinn; höfdu þeir mest salt, jardepli, er kartöplur kallast, ok nokkut annat gæda, en Frydensberg landfógeti ok Hans Koefod sýslumadr sendu til þeirra, ok fyrirbudu þeim kaupskap; hinir Ensku sáu, at því fylgdi ekkert afl, ok fór í hótun, höfdu þeir varnir nokkrar, kom svo, at hinir treystust ei annat en leyfa kaupskapinn; var þá brátt sókt til þeirra, því at verdit var nokkut lægra en þá var vant, komu ok mörgum manni at gagni jardeplin. Lá hit norræna skipit um vetrinn, er Justitia hèt, ok svo þetta, ok hèt Savignak hinn enski kaupmadr, lèt hann snemma, sem hann mátti, efna til kálgarda stórra, ok var í húsi sýslumanns, vid greifahúsit, er Ísleifr assessor hafdi látid reisa. Sá madr var med honum, er Jörgen Jörgensen hèt, hann lèzt hafa verit víkíngr danskr, eda kapara kapteinn, ok tekinn upp af Enskum, var hann túlkr þeirra, ok barst mjök á; gjördist þar stundum hredusamt, tóku Enskir segl frá hinu norræna skipinu, ok eignudu sèr áhöfn alla, en Danir, er á voru, fengu sèr eitthvat at seglum, ok lögdu út, þá elti Jörgensen þá á áttæríngi, ok nádi ekki, en þó urdu þeir aptr at hverfa sakir seglaskorts, ok í Hafnarfjörd, en seinna var þeim sleppt. Savignak lèt skip sitt fara utan þá fyrst er vard, ok fór Jörgensen med því, en hann vard sjálfr eptir at selja varníng.

## XXIII. Kap. Útkoma landshöfdíngja.

Því næst komu út kaupmenn, Petræus ok Bjarni Sigurdarson, er kalladr var Sivertsen, höfdu þeir lagt út snemma ok ordit aptrreka, en nú komu þeir ok þótti þá lítid um batna. Magnús Stephensen ok Fridrik greifi af Trampe höfdu átzt vid utanlands, hafdi greifinn lagzt í móti því, at hann fengi at vera á Innrahólmi, ok svo því, at Jónas sýslumadr Skevíng kæmist af med minni fèsektir en honum voru dæmdar, ok þó hann þætti hafa höfdíngjatraustid meira, dugdi þat ekki, því at Magnús Stephensen vann á um hvorutveggja. Hann var þá etazrád, ok bar þat hit þridja á milli, at hann vildi fá Videy af konúngi fyrir Reykhóla, mundi þat unnizt hafa, sem hitt, ef eigi hefdi þat vardat, at hann mátti eigi gjörla segja hve mikil var kirkjueignin á Reykhólum. Hann hafdi fundit konúnginn, Fridrik hinn sjötta, ok skrásett at hans bodi um bjargrædi Íslendínga, hèlt hann embætti sínu vid landsyfirrèttinn, en hafdi legit í Noregi um vetrinn. Um bók hans „Ísland í 18du öld" er fyrr getid; var hann nú vel framadr ok æfdr í enskri túngu, ok hafdi mikit aukit bækr sínar; var mælt, hann hefdi því á komit vid Banks á Englandi, þann er fyrrum fór hèr yfir, ok var vinr mikill Ólafs Stephánssonar stiptamtmanns, ok hinn audugasti madr ok ágætr kalladr af gódleik ok ödru, at hann vann á vid stjórnina ensku, at 10 eda 12 Íslandsför voru gefin laus at fara híngat, því allan fjölda skipa ok manna, er Dönum heyrdi til, höfdu Enskir í haldi; at mörgu þótti hann stórum framadr; hann kom út á einmánadi á norrænu skipi, ok lèt flytja sik sjóveg upp at Innrahólmi, kom hann þar mjök á óvart, svo at frú Gudrúnu vard bylt; þótti mörgum um Borgarfjörd gód hans koma, ok sumum annarstadar, ok urdu nokkrir til at færa honum kvedlínga, en hann gaf þeim, er sóktu hann heim ok eigi áttu adrar skylduferdir, 10 bankósedla hverjum; þótti hann heldr lítilátlegri í umgengni en fyrri. Næst honum kom út greifinn Fridrik af Trampe, stiptamtmadr, á því skipi er hèt Orion, ok hafdi keypt hálft med konúngs fè af Adser Knudsen, med áhöfn, ok ætladi at nota leyfisbrèf hans; hann hafdi mikit vald, því honum var falit at gegna þeim málum, er amtmenn máttu ei yfir taka ok konúngr einn eda Collegia voru vön at skera úr; kom þá ok konúngsbrèf um sakamanna mál, at yfir-sakamála rèttr skyldi vera, medan hæstarètti yrdi ei nád; annat var um málin sjálf, ok svo um nýja hreppstjórnar skipan, þat er ádr er getid, skyldi ei vera nema einn eda tveir í hrepp, ok mega bera einkenníngarklædi; voru ok brèf frá greifanum: eitt áminníng til landsmanna, at halda sem bezt til hagnadar, mjúklega stílat; ok frá etazrádi hugvekja til

landsmanna, ok enn eitt rit um saltgjörd, en þetta vard ei mjök framgengt á þeim misserum fyrir ödru, er í veginn kom. Flest skip höfdu ensk leidibrèf, sem greifinn, nefndi hann sik Knútsen, ok átti helst í skipi ok vöru, sem fyrr segir, en konúngr hálft. Var hann þá af summum kalladr stórr í broti, ok vard brátt ordfleygt, at hann hafdi talit kaupmenn á at hækka verd á vörunni ok selja matartunnu fyrir 16 dali; brá þat svo vid komu hans, at Hjálmar skólahaldari á Hausastödum, son Gudmundar prestlausa, Gudmundarsonar, Teitssonar sýslumanns, Arasonar, bad hann um forlag til barnanna, ok fèkk ei kost á ödru en mjöli, ok þó hverri tunnu á 16 dali, ok eptir þat fyrirbaud greifinn kaupmönnum í Hafnarfirdi at selja á annann hátt. Hann bannadi ok hardlega, undir lífstjóns sektir, at kaupa vid hina Ensku, en strídskapteinn sá enskr, er Jón Nott hèt, kom út, ok hafdi mætt ádr greifanum í hafi, ok spurt þá at Bessastödum, ok hafdi verit vísat til þeirra á Austfjördum, ok dvalizt vid þat, vita menn ei hvat af hans komu hefdi leidt, nema greifinn hefdi bannat kaup vid Englismenn; brautst þetta í milli þeirra ok lèt Nott handtaka stýrimann á skipi greifans, ok hafdi einn dag í haldi fyrir gabb vid sik, en vítti sídan greifann þúnglega fyrir forbodit, enda þótti þat fávíslegt, ok lauk svo, sem vita mátti, at greifinn vard at leyfa Enskum kauphöndlun, en Nott hèt þá Íslendíngum aptr á móti fridi af sínum mönnum, ok var sá samníngr gjörr hinn 16da dag Junii mánadar; lítid vard þó enn um hríd af kaupskap vid Enska, var ei kominn tími landsmanna, er Enskir hugdu æ vera, því þeir vissu ei af fátæki manna, ok ferda torveldni hèr, þóttu mönnum ok dýr kaup vid þá, svo at til lítils var at slægjast.

## XXIV. Kap. Mannalát.

Í þann tíma lánudu nokkrir ríkismenn konúngsfèhirzlunni penínga at beidni amtmanna, ok vard þat konúnginum ógagnsamt, sem fleiri slíkar tilhlutanir, því at þeir vildu hafa fullt fyrir lánit, ok áskildu sumir jardir med litlu verdi, var einn Björn Ólsen á Þíngeyrum, ok fèkk seinna fyrir þat keypt Þíngeyrar ok Hnausa. Þá drukknudu Fagreyjarbrædr fjórir saman, er þeir fóru inn eptir úr Dritvík, synir Einars Pálssonar, Gunnarssonar prests í Stafholti, Pálssonar; prestakonur nokkrar dóu, ok týndist Jörgen Hólm úr Húsavík, er kaupmadr eda faktor hafdi verit í Hofsós, á Deildardalsjökli, er hann ætladi at sækja heim Jakob Havstein, mág sinn, er þá var í Hofsós, hann var at rèttu stjúpfadir Marínar, konu Jakobs; þat bar til í Junio; en ádr um vorit hafdi andazt Jón prestr Grímsson á Húsafelli, er krenktr hafdi

verit af líkþrá; leyfdi biskup Eggerti presti Gudmundarsyni í Reykjaholti at halda kallit sídan. Nokkru fyrr hafdi ok biskup lagt Stóradals kall austr til annars kalls, en því var breytt sídan.

## XXV. Kap. Útkoma Phelps ok Jörgensens.

Litlu sídar en Nott kom út enskr kaupmadr, Samúel Phelps frá Lundúnum, ok var hann þá kalladr hinn stóraudugasti madr, med honum var á skipi Jörgen Jörgensen, er utan hafdi farit med því skipi er skildi Savignak hèr eptir; sá var annarr madr med Phelps, er kalladr var frændi hans, ok ferdast vildi um land til náttúru-fródleiks. Jörgensen var túlkr Phelps, en hann sagdi svo, at hann hefdi tekit at sèr höndlun Íslands, ok þó at tilmælum herra Banks á Englandi, ok tjádi þetta þeim, sem Banks voru kunnugir, var því vid skotid, at skipum þeim væri nú eigi leyfd útkoma, er fyrr var heitid, fyrir þá skuld at þau hefdi sýnt undirferli í því, at flytja kúlur ok púdr til Noregs, tjádi því Phelps, at sèr einum hefdi leyfd verit öll kaupverzlan á Íslandi um 5 ár, ok lèzt hafa brèf Englakonúngs fyrir því, at hann mætti breyta vid Íslendínga svo hardfengilega sem hann vildi; kvadst nú þó mundi betr gjöra, ok vilja frelsa landit frá þúngri kauphöndlun ok yfirrádum Dana, en hèt þeim afarkostum er eigi vildu taka slíkt med þökkum; þó gjördi hann sik eigi beran í slíku sjálfr fyrir alþýdu, ei heldr var því þá þegar fram slegit, en Jörgensen gekk mest fyrir því; þeir höfdu útbúnad á skipi ok var ei á þá rádizt, en Jörgensen gjördi sik at fyrirlida til yfirgángs, ok gáfu sik þegar nokkrir umrenníngar íslenzkir í þjónustu hans; voru þeir fyrst kalladir soldátar en sídan vardmenn, ok fengin vopn, þó enginn þeirra kynni at beita. Samson, son Samsonar Sigurdarsonar nordan af Midfjardar-hálsum, ok dótturson Halldórs prests Hallssonar á Breidabólstad, var fyrstr þeirra, hann hafdi hlaupizt frá ómegd sinni; Gísli hèt annarr, sunnlenzkr, ok annarr Gísli, kalladr Sigrborgarson; Dagr, strákr einn úr Hegranesi, er þadan hljóp úr vist sinni; Jón, er stolit hafdi ádr í Eyjafirdi; Sveinn, son Pètrs frá Bjarnastödum, er týndist á Laungufjörum, Sveinssonar, hann hafdi eydt fè sínu öllu á ári, ok kalladi sik Hjaltalín; Gísli Gudmundarson Skagfirdíngr, er verit hafdi í Videy þá er þar var rænt; ok sá er einna mest gjördi at, Jón, er kalladr var greifi, son Gudmundar í Skildínganesi, hann hafdi verit sveinn greifans ok hans umbodsmanns, Ísleifs assessors, ok var þeim illviljadr, ok getid til at hann mundi ekki af spara illri medalgaungu.

## XXVI. Kap. Tekinn greifinn, ok annarr yfirgángr.

Nú var greifanum gjör atför, ok gefit at sök, at hann hefdi logit til nafns síns ok farit med okri, en þat var raunar, at þeir uggdu hann mundi fylgja fram konúngs valdinu, eda banna þeim kaupskap ok önnur yfirrád, þurfti ei at segja þeim þat, en þó var grunat, at einhverir mundu hafa rádit þeim at taka yfirmenn; er sagt hann hafi varizt, en þó fengu þeir kúgat hann til at gefast upp, ok var hann sídan hafdr fram á skip; þat var sunnudaginn hinn 25ta Junii; vildi hann þá ei at menn gæfi sik fram hans vegna, urdu ok flestir forvida, en mannfátt í Reykjavík þá; var hverjum hótad, er á nokkru lèti brydda í bænum, at skjóta skyldi þá til bana, ok treystist enginn út at gánga; var svo jafnan at kvedit, at skjóta skyldi sèrhvern innan tveggja tíma, átti þat at vera rádslögunar eda prófs stund, ok var þetta lagt vid hvern hègóma, ef nokkurr grunr yrdi um þat er Jörgensen mátti taka sèr til þykkju, þó at líklegt sè at minna mundi hafa af ordit, ef á hefdi reynt; var af þessu ótti allmikill; en er Geirr biskup Vídalín heyrdi þat, sendi hann þènara sinn Gunnar Gunnarsson til Jörgensens, ok bad hann mæla vid sik; Gunnarr lèt sèr ei óhætt at gánga út, en fór þó, ok gekk Jörgensen med honum til biskups; mælti þá biskup vid hann áþèttlega fyrir slíkar framferdir, kvad þær ómannlegar ok ósidlegar, en hann þagdi vid, þó hann þætti brádlyndr; gekk hann þadan í stiptamtmannshúsit, braut upp innsigli fyrir skrifstofunni ok tók at fylgja fram fyrirætlan sinni; var þá skjali nokkru eda plakati slegit upp, ok lýst upptæku öllu fè danskra kaupmanna, ok bodit at selja fram verjur allar í landinu, en þeir Phelps ok Jörgensen slógu sinni hendi yfir allt fè greifans ok konúngsins: sídan var sett upp annat skjal daginn eptir, í 20 greinum, þar í var ákvedit, at landit væri frjálst frá Danakonúngum; yfirvöld öll skyldu íslenzk vera, ok útvelja skyldi menn til at semja lög ok skipa stjórn, sem líkast því er verit hafdi ádr landit kom undir Noregs konúng; allir skyldu gefa Jörgensen til kynna innan ákvedins tíma, hvort vid embætti sín vildu vera, edr ei; landit skyldi hafa flagg sjálft, vera í fridi vid allan heim, ok varnir setjast upp fyrir þat; hospítöl ok skólar setjast í betri skipun en ádr var; skuldir allar til konúngs ok Danskra vera fyrirbodit at gjalda; kornvörur skyldu lækka í verdi, en Íslendíngum gefast hálfir skattar um eitt ár; embættamenn skyldu hafa laun hjá Jörgensen, ok landsmenn allir dæmast af 12 mönnum, hvort lagastraff skyldu lída edr ei, á þann hátt sem verit hefir á Englandi; fyrirmuna skyldi öll samkvæmi vid dönsk skip, en löggjafar verda settir: 3 úr sudramti, 1 úr

austramti, 2 úr vestramti ok 2 úr nordramti, þeir skyldu nefnast fulltrúar, en þat gekk Jörgensen skrykkjótt í stjórninni, at hann vildi stundum ráda öllu einn, en stundum lètta af sèr stiptamtmanns sýslun ok leggja á adra; sáu þat allir hinir vitrari menn, at í þessu var meira gabb en alvara eda skynsemd, ok þó full landrád; blekkti þó marga, at sá væri þá einn undanfæris kostr, ef stjórnin enska hefdi hlut í þessu sem upp var lostid, at láta Jörgensen ráda, en nálega þeir einir, er óvitrari voru, ætludu gott mundi af hljótast. Engan vildi Jörgensen láta rètt halda í konúngs nafni, eda Danakonúngs lög gilda, en landaþrætumál eitt var fyrir landsyfirrèttinum úr Húnavatnsþíngi, er Björn bóndi Gudmundarson á Audólfstödum, módurbródir Bjarnar Ólsens, átti vid annann mann, var þat fyrir því, at Magnús Stephensen etazrád mælti fram med rèttinum, ok kvad ei þat standast mega at nú væri þegar kastad lögunum, lèt þá verda mundu allskonar óstjórn, ok samdist þetta svo, at landsyfirrèttrinn var haldinn, ok settu þeir Jörgensen bádir nöfn sín undir Audólfstada dóminn; sá einn dómr var hèr stadfestr af útlendum þjódum ok óvinveittum, því þá þótti ei annars kostr, ok var afrádit at svo skyldi standa, þar til er samkoma yrdi haldin. Var þá talat um at fá nokkurn til at vera stiptamtmann um hríd, í stad greifans, ok fèkkst Magnús etazrád ekki, kom þó ei til ofríkis, því at þeir Ólafr stiptamtmadr ok Phelps áttu allt í makindum saman, en sagt eptir Jörgensen, at honum þætti þeir brædr vel sparandi, ef þeir kynni at vinnast med gódu; grunadi suma þar launmál, en ei vard sannat; mátti þeim brædrum duga þat fyrir röksemd, at engin ódygd fylgdi, at þeim hefdi þótt varlegra at synda í milli skers ok báru medan tími gæfist til rádrúms, ok ei bættara þó fleiri færi sem greifinn, medan ei sáust málslok, en menn voru þeim Jörgensen í greipum; enda þótti þetta einnig haglegt at bera fyrir. Gramastir lètust þeir Jörgensen vera Dönskum. Ekki mátti landfógetinn út rída, ok fyrir þat hann reid út á Austrvöll med barn sitt til skemtunar sèr, ok þó mjök hræddr, sem jafnan, tóku þeir hann ok lètu í tukthúsit, en þá hafdi Jörgensen ádr hleypt þadan öllum sakamönnum; þó vard þat fyrir bæn konu hans um sídir, at hann fèkkst þadan aptr. Biskupinn ok klerkdóminn hlífdust þeir helzt vid, ok þurftu þó engin undirmál at valda, sem nokkrum vard fyrir at geta til; lèt biskup eigi mjök til sín taka medan hann var ei áhrærdr, en hèlt einurd sinni. Ok med því at fleiri menn, þeir er málsmetandi voru þá sydra, þóttust í hers höndum, ok naudsyn at láta at ordum Jörgensens, er bana væri hótad ella, þá vard Benedikt Gröndal einn, er ætlat var eigi mundi vera allskostar leid stjórnarskipun Jörgensens, töldu menn þat ok, at lítil mundu líkindi til verndar frá Danakon-

úngi, ok væri því skárst úr rádit at slá nokkut undan, en sæmilegast væri at telja ei adra til., at vel hafi líkat þessi rádstjórn, en sveina Jörgensens, er fyrr voru nefndir; ok þat vitu menn, at heldr hneigdust þeir til hans af hinum fremri mönnum: Árni Jónsson Reynistadar-mágr ok Petræus. Enginn átti þá at vera ordfrjáls í Reykjavík, ok eigi tveir mæla saman á götu; þó voru eigi allir svo huglausir, at enginn hefdi til ordit at rádast bædi á sjálfa formennina ok skipit, ef einíng hefdi fengizt, eda nokkurr öruggr oddviti, ok deigdi þat menn þó, at ætludu herskip þat, er vart hafdi ordit útifyrir ok ei var inn komit, mundi hefna þeirra, ef þeim væri nokkurr vansi bodinn, ok jafnvel hin enska stjórn sjálf, en engin lids von af Dönum, eptir því sem þá var á at sjá.

## XXVII. Kap. Tekinn Ísleifr.

Nú gengr þetta svo nokkra daga, ok er greifinn í haldi, en Jörgensen vill fá Ísleif Einarsson assessor til at vera stiptamtmann; hann bjó at Brekku ok hafdi jafnan mikinn starfa vid jardarbót ok hýsíngar ok annat, ok vann at því sjálfr; fèkkst hann ekki til þessa, en hitt er sagt, at hann sendi menn upp at Innrahólmi til Magnúsar etazráds, ok mæltist af honum til lidsinnis eda ráda, lètst mundi fá til 60 menn á Nesjum til at fara at Jörgensen; var því ei mjök brátt svarat; en sídan fór etazrád sudr í Reykjavík, ok mæltust þeir Jörgensen vid; var þat þá, er Jörgensen sat at bordum, mælt af hans mönnum, at því er kunnmenn Magnúsar etazráds sögdu, at mannsöfnudr mundi vera á Brekku, en þeir, er verra ætludu Magnúsi Stephensen, gátu til, at hann mundi hafa sagt Jörgensen rádagjördir þessar, því at fátt mundi hafa verit med þeim Ísleifi, ok er óhættara at ósanna þat, en ekki er getid svars hans til Ísleifs, ok heldr hins, at hann hafi kallat röksemd til at taka hann. Er þá sagt, at Jón greifi væri mjök eggjandi atfarar at Brekku, ok fóru menn Jörgensens þángat, ok hann sjálfr, voru þar fyrir margir karlmenn, en óbúnir allir, en Jón Gudmundarson ok nokkrir adrir gengu at Ísleifi med óvirduglegu atferli, ok gekk hann á vald þeim viljugr, ok tóku þeir hann ok settu á hross eitt, lítt fansat, ok fluttu í Reykjavík; vildi Jörgensen geyma hann í tukthúsinu, en Ísleifr lètst ei mundu una því, ok bad fá sèr sæmilegra herbergi en þat, er óbótamenn höfdu verit í, en lífláta sik ella; þá gjördi Jörgensen sik bistan, en Ísleifr kvadst ei at því fara, ok hafdi þar um nokkur ord, ok lèt í engu sitt minna; þá sókti Jörgensen pístólu sína, ok otadi henni, sem hann gjördi jafnan; en er þat kom til einkis, rèdi hann

þat af, at láta Ísleif hafa sæmilegra herbergi, þat var í greifahúsinu, en hvergi mátti hann koma, svo at vardmenn Jörgensens gætti hans ei; þeir voru á treyjum bláum, ok höfdu korda, áttu þeir at hafa 60 dali til launa, ok fædi at auki, ok höfdu einhleypíngar látid blekkjast af því helzt, er þeir áttu von brádrar lausnar; þeir höfdu ok reidkápur til ferda, ok hesta fèkk Jörgensen þeim, er hann keypti, ok var ádr stýfdr hálfr stertr af þeim at enskum sid; þeir fóru óspaklega, ok ridu yfir tún ok bæi, ok mæltust til margs illa, ok helzt ef ei vard nád tali af honum sjálfum, sidadi hann þá ok lítt, því hann var örr ok framgjarn, ok ólærdr. Ísleifr var tekinn á sunnudegi, viku seinna en greifinn, ok var sagt at Magnús etazrád hefdi bodit fè mikit til lausnar honum, en þeir Jörgensen tæki því ekki nær, ok kvádust mundu hafa hann í England; biskupinn bad ok fyrir hann, ok vann ekki.

## XXVIII. Kap. Frá þeim Phelps.

Svo var sagt, at þá er Magnús etazrád mælti vid þá Phelps, hefdi þeir í fyrstu hótad at umkríngja bæ hans ok brenna, en sem hann sagdi þeim, at slíkt væri engar röksemdir, ok taldi, hve illa hefdi fram farit hèr ádr en landit kom undir konúng, ok ósamþykki mundi aukast enn í landi, ef stjórn skyldi breyta, lèt Phelps telja sik ok kvadst því einu fara skyldi fram er landsmenn vildu; en hver rök eru fyrir þessu vitum vèr ei, nema Magnús Stephensen sagdi svo kunnmönnum sínum; ok ekki lèt Jörgensen svo, sem menn ætti at vera hèr sjálfrádir, var því getid til seinna af sumum, at nokkrir málsmetandi menn mundu hafa studt at því, at landit fengi frístjórn, því at Jörgensen lètst fylgja því sem fastast, ok þeir Phelps bádir, ok gáfu engan kost á ödru; ok þótti þat enn sumum líkast, at samtekin rád mundu hafa verit med þeim Phelps ok Jörgensen, at hafa hèr allt af landinu medan þeir mætti, ok skilja þat svo greinarlaust eptir, ok hafa þá alla at ginníngar-fíflum er lètust sæma stjórnarskipun þeirra, var þat ok ærin skammsýni ok óvizka, at gefa sik vid slíku, ef nokkur hefdi þat gjört, því at hvorgi þeira Jörgensens hafdi vit á stjórn, ok engin efni til at styrkja nýbreytni eda verja hana, þó einhverr hefdi viljat vera ótrúr konúnginum; en at þessi hafi verit fyrirætlan Phelps, var eigi leidt sèr mjök almennt í hug þá í stad, ok heldr adrar gátur ósannlegri. Phelps seldi mjöltunnu á 12 dali, ok tók tólgar pund á tólf skildínga, ok var þat lítid betra en Danir gjördu þá, svo hægt sem Enskum var um, ok sýnt á því, at þar var engra gódra kosta von, ok slíkt at eins gjört til sýnis, ok at blinda þá sem skammsýnastir voru; hann gjördi þá þó þegar

kostnad, ok hafdi umönnun fyrir at láta flytja vöru yfir land, vildu þeir láta flytja á hestum ok heimti Jörgensen þá kauplaust fyrst, en þá fyrir kaup er þat fèkkst ekki, ok þó rádit væri frá því af mörgum, voru samt heimtir menn ok hestar til at senda á ýmsa stadi. Þeir áskildu ok einnig menn ok hesta til skansagjördar, ok áttu þeir ekkert kaup at hafa sem tregdudust í nokkru. Einn íslenzkr madr vard þá til at bjóda landfógetanum at drepa Jörgensen, ef sèr væri látid óhætt, en þat var bannat.

## XXIX. Kap. Sýslanir Jörgensens.

Jörgensen reid til Keflavíkr, Eyrarbakka ok Hafnarfjardar, ok kastadi eign sinni á kaupmanna vöru. En um lestir, þá er málit var dæmt úr Húnavatns þíngi, þat er fyrr getr, hafdi Sigurdr sýslumadr Snorrason ridit sudr ok verit vid; ok er hann reid nordr um aptr, mætti hann Jóni Espólín í Kalmanstúngu, hann reid sudr at Hvanneyri, Hólmi ok Videy, ok var bedinn á þeim stödum öllum at fara ekki í Reykjavík, því þar væri ei hættulaust ord at mæla, hann lèt þat ei saka mundu, en kvadst vilja spara þat, er hann var þess beiddr, med því hann ætti ei þángat eyrindi. Jón sýslumadr Jónsson í Bæ reid ok sudr, ok er hann kom at Hvítá, spurdi hann tídindin ok vildi snúa aptr; reid þó til Hvanneyrar ok rèdist um vid Stephán amtmann Stephensen, kvadst eiga eyrindi í Reykjavík, en vilja ei fara nema honum sýndist, hann kvad honum þat óhætt, því hann var vid aldr ok hverjum manni kyrlátari, var hann ok í vináttu vid þá brædr. Fóru nú bod milli brædranna, ok var kallat at Jörgensen lèti þeim ei hættulaust; en hinn 11ta dag Julii lèt Jörgensen setja auglýsíngu upp í Reykjavík, í 17 greinum, hafdi á konúngsstíl, ok átaldi þat, er embættamenn voru þá enn ei saman komnir, til at semja þat er hann vildi, kalladi almenníng óska umskiptanna, ok at menn bædi sik hundrudum saman at takast á hendr umsjá landsins, kvadst vera landsins forsvarsmadr ok fyrirlidi á sjó og landi, ok lèt flagg landsins vera blátt med þremr hvítum þorskum; þat kvadst hann verja mundu med lífi og blódi. — Stiptamtmanns innsiglit fyrirbaud hann, en kvad sitt brúka skyldu, þar til er landit sjálft tæki sèr annat. Embættamenn, er ei höfdu heitid vid at vera, skyldu hafa greint orsakir innan 20ta Julii, en innan fjögra vikna þeir, sem lengst voru á brott, ok landrádum sekir þeir allir, er hlýddi þadan af þeim valdamönnum, er eigi vildu á hans mál fallast; slíkir skyldu ok hafa sik til Vestmannaeyja, ok flytjast þadan til Kaupmannahafnar er færi gæfist, nema borgun fengi fyrir framferdi sínu. —

Hinni andlegu stèttinni hèt hann öllu gódu, kvad hana vera gjarna til fridstillíngar. Landinu skyldi vörn reisa, ok almúginn ei hafa kostnad fyrir. Einn madr skyldi stadfesta fridinn vid Englands konúng. Íslenzkir einir skyldu embætti hafa, en hann lèzt mundu leggja nidr embætti sitt hinn 1ta Julii næsta ár, þá fulltrúa samkomunni væri lokit ok landstjórn ákvedin. Allar eignir Dana, þeirra er eigi byggi sjálfir hèr út, skyldu upptækar fyrir landit, ok amtmenn nú þegar kyrrsetja þær, hvort sem yrdi vid embætti eda ekki, en hverr sem bryti á móti þessu nokkru, ok spillti þarmed almenníngs gagni, skyldi án dvalar ok rèttargángslaust láta lífit. Lögin skyldu standa þetta ár, nema í því, at allir mætti fara um land vegabrèfalaust. Hann kalladi sik í því alls Íslands verndarmann, ok hæstrádanda til lands ok sjóar, lèt ok nefna sik Excellence. Árna Jónsson Reynistadarmág skipadi hann fyrir landfógeta, en líkadi hann þó eigi allskostar vel, vildi hafa Sigurd Thorgrimsen, son Bjarnar prófasts Þorgrímssonar at Setbergi, hann hafdi þó látid taka hann ádr fyrir rógs sakir, edr þá Finn Magnússon, þeir höfdu verit umbodsmenn landfógetans, ok voru æfdir vid slíkt ok vel at sèr, en vildu eigi verda til þessarar þjónustu vid hann. Ok er þeir áttu at gánga í málsókn vid landsyfirrèttinn, hvorr í móti ödrum, ok menn hugdu þar gott til at heyra sókn ok vörn ítarlega, þá fórst þat fyrir, þat var í máli Gunnlaugs Briems sekretera ok bænda í Eyjafirdi um tekjurnar, því þá þeir lètu ei at vilja Jörgensens í því, at taka landfógetadæmit, lèt hann sem hann mundi binda þá vid staf ok skjóta, en þat vard af, at hann gjördi þá ræka frá öllum embættum ok talsmennsku, ok nálega frá öllum gódum mönnum. Hann setti Benedikt Gröndal fyrir amtid, eda jafnvel stiptamtid, medan hann ætti sjálfr ödru at gegna, en kveldit eptir þat er auglýsíngin var fest upp kom madr at Hvanneyri, ok hafdi þreyttan hestinn, ok færdi Stepháni amtmanni Stephensen brèf Gröndals, med þessum öllum skipunum sem í auglýsíngunni voru greindar, ok bar ásamt eitthvert brèf frá Innrahólmi; tjádi hann mikit af yfirgángi Jörgensens ok hans manna, kvad þá fara óspaklega; þeir höfdu atsetu í tukthúsinu ok átti Savignak at æfa þá vid vopnaburd, en sídan skal greint hversu amtmanni brá vid brèfin. Þann dag sleppti Jörgensen Ísleifi assessor, fyrir bænir konu hans, biskups ok annara, ok bjóst at rída úr Reykjavík, en bad medan hann væri á brottu at taka fallbyssur, er lengi höfdu legit á Bessastada skansi, ok voru sokknar í jörd, ok flytja til Reykjavíkr, ok setja skans vid Arnarhól, ok kalla Phelps-skans, ok færa þau þar á, ok þá gaf hann sèr jafnframt Excellence-nafnit, ok reid sídan, ok med honum Árni Jónsson landfógeti hans, Jón greifi Gudmundarson, Samson Samsonsson, Dagr ok fleiri, hálft lidit; vissi

enginn hvert hann mundi rída, gátu sumir til í Borgarfjörd, sumir austr eda nordr; en þat var á midvikudaginn hinn 12ta Julii mánadar.

## XXX. Kap. Nordrreid Jörgensens.

Þeir Jörgensen ridu Mosfellsheidi, ok ádu í Vilborgarkeldu, þar fundu þeir ferdamenn, ok kúgudu af þeim hestana, ok guldu nokkru fyrir, ok ridu í Kalmanstúngu; höfdu þeir lítid nesti sem ekki, því þeir ætludu at hafa ferd hrada; ridu þeir nú nordr, ok fundu á leid Magnús bónda í Hvammi í Svartárdal, ok tóku hesta hans, en hann kvad eigi vera samkvæmt því, er Jörgensen hèt mönnum, at fara svo vid ferdamenn med ofrvaldi, ok lèt þá eigi hafa skyldu hestana, þá lètu þeir hann vera, ok adra, er slík mótmæli höfdu, en tóku þar hesta er þeir fengu. Þeir komu til Þíngeyra, ok hótadi Jörgensen Birni Ólsen, ok tók til pístólunnar, hann spretti frá brjósti sèr, ok bad hann skjóta ef hann þyrdi, sagdi ok svo, at hann hefdi mannafla fyrir ærinn at hefna sín, ok svo var; sídan fór í makindum med þeim. Á föstudagskvöldit eda laugardaginn árla komu þeir í Höfda-kaupstad, mæltust þeir vid Jörgensen ok Schram, er þar var faktor, ok bar skjótt í milli svo Jörgensen tók til pístólu sinnar, kom svo, at Schram gjördist hans madr, ok kvadst Jörgensen gefa honum húsin öll; þadan reid hann til Laxárdals, ok tók hesta á Skídastödum, ok fèkk ekki skil nema annarr bóndinn er þar bjó, því hann fylgdist med þeim til Borgar; þeir fóru yfir Hegranes á ferjunni, ok komu at Vidvík á sunnudaginn á lestri, kölludu fólk út ok spurdu at Jóni Espólín sýslumanni; ok er þeim var sagt at hann væri ekki heima, þá at konu hans; Rannveig kom út, ok heimti Jörgensen hesta, en hún kvad þá ei vera til; hann segir hún skuli taka þá hjá bændum; hún lèt eigi mundu af því verda, kvad þat engan sid, ok fólk allt væri at leita sèr bjargar ok sumt á fjöllum vid grös; þar var einn karlmadr heima, úngr ok óhardnadr. Samson ok Dagr voru med Jörgensen, ok vildu beita hestum sínum túnit, en hún lèt þá ei ná því; þá hèt Jörgensen at brenna bæinn, hún kvad hann því ráda mundu, ok lèt í engu til. Þadan reid hann í Hofsós, en hún sendi á medan sem skjótast nordr at Mödruvöllum, til Stephâns amtmanns Þórarinssonar, til at gjöra hann varan; tók hann því med þökkum, en engu launadi hann ferdina, vard hún honum ok til lítils. Jakob Havstein var ekki heima í Hofsós, fór þar allt í makindum at kalla; voru þeir þar um nóttina, ok ridu sídan nordr Svarfadardal ok til Mödruvalla; amtmadr kom seint út, mælti Jörgensen vid hann ok heldr hardfengilega, ok geigadi hon-

unr; hann heimti at honum konúngspenínga, en amtmadr kvad ei til vera nema 100 dali ok tók Jörgensen helmínginn. Hann hafdi sent sudr Húnvetníng einn, at bera brèf í Reykjavík, um at skip skyldi koma nordr. Hann var nótt á Mödruvöllum, ok reid þadan á Akreyri, þar voru fyrir 60 manna, því þeir voru í síldarveidi. Jörgensen lèt menn sína sitja á hestum í mannþraunginni, medan hann gekk inn til Hemmerts kaupmanns, þeir höfdu hladnar pístólurnar ok skulfu á medan af hræðslu, gekk hann inn í stofuna med brugdnum höggkorda, en lagdi hann þó af sèr, er hann sá at ekki var at óttast, ok rèdi hann þar öllu. Gunnlaugr Briem sekreteri kom ofan á Eyri, ok mæltust þeir vid, lèzt hann eigi mundu verda vid sýsluna, en Jörgensen baud honum þá at fara utan med sèr; hann lèdi honum reidhest konu sinnar, en hinn vísadi honum til verds hjá amtmanni, ok var þat ekki til; þó fèkk hann þat sídar, er hann skrifadi eptir því. — Lieutenantarnir voru ekki vid, ok sögdu sumir Scheel hefdi óskat sèr at hann hefdi þar verit, mundi þá nokkut hafa í skorizt, en ei var þat sídan á þeim sjálfum at heyra, at þeir mundu at hafzt hafa. En er Jörgensen hafdi kvadt, baud hann mönnum sínum at skjóta af pístólunum út á fjördinn; þeim gekk þat ekki greidt, því þeir voru stirdhendtir af hræðslu. Þórdi sýslumanni baud hann hardlega, med brèfi, at færa sèr Wulf kaupmann, ef hann kæmi þar út, lifandi eda daudan. Sídan reid hann; þeir voru mjök matlausir, ok þádi hann í einhverjum stad skyr á hestbaki. En er lestamenn fóru nordr um, hinir skagfirzku, einrèdu þeir allir med sèr at neita Jörgensen um hesta, ok verjast ef hann vildi ræna þá. Jörgensen reid Yxnadalsheidi tilbaka, ok yfir Túnguna, hann kom til Hafgrímstada til Eyríks prests Bjarnasonar, kapelláns Bjarna prests Jónssonar at Mælifelli. Bjarni prestr hafdi lengi verit blindr, ok var mjök þrotinn fyrir elli sakir ok heilsubrests, en Eyríkr prestr sat mjök eptir stadnum. Jörgensen heimti at honum hesta, ok er þeir voru ei jafnskjótt til, hèt hann at brenna bæinn; prestr bad hann hafa bidlund, ok þiggja fyrst kaffe; þeir þágu þat, ok komu þá hestarnir ok voru sóktir med vèl til bónda eins, er Þorkell hèt, hann var haltr, ok gekk þó ódlega um vid staf sinn, ok hardmælti Jörgensen; mælti nú prestr nokkut svo málum sínum, ok gaf Jörgensen sjálfum reidhest, en lèdi hina adfengnu hesta mönnum hans, en Jörgensen kvad hann hafa skyldu Mælifell þá þegar, þó Bjarni prestr lifdi; fèkk Eyríkr prestr af þessu ámæli, ok hafdi lengi lítinn framgáng, en Bjarna presti fèll mjök þúngt, hrumum ok gömlum, er hann spurdi, ok barst þó vel af; mundi nokkut sögulegt ordit hafa ef hann hefdi verit heill ok ýngri, ok þeir Jörgensen fundizt svo,

at nokkut hefdi á milli borit. Þeir Jörgensen ridu Mælifellsdal fimtudaginn á álidnu, ok mættu þar Jóni Espólín; spurdi Jörgensen at ferdum hans, ok sídan tídinda úr Reykjavík, en hann lèzt engin kunna, var hann vid annan mann únglíng, en Jörgensen vid þridja mann, ok minnti einn hann á, at þar væri sýslumadr, en hann kvadst vita þat, yrdti á hann engu ordi, horfdi á hann ok kvaddi, ok reid sídan. Sýslumadr spurdi vid sel á dalnum, at hann hefdi komit at Vidvík, ok lá vid at rída eptir honum, þó hvorki hefdi manna kost nè hesta, þar til hann vissi at þar hafdi ei ordit á. Jörgensen mætti sumstadar lestamönnum á fjöllunum; hann fèkk regn mikit, ok er hann kom sudr yfir Sand, hitti hann kaupamenn, ok þádi mat af þeim; voru þá trosnadir sokkar hans. Aptr mætti hann mönnum á Kaldadal, var þá med honum Einarr úr Kalmanstúngu med 10 hesta, ok hann þá mjök þrotinn, en vel launadi hann Einari. Þótti ferdin mikil á skömmum tíma, med svo illum útbúnadi, ok kvad um hana Eggert prestr Eyríksson hinn gamli í Glaumbæ þær vísur er hèr má setja, því þær lýsa manninum, þó þær sè eigi mjök skáldlegar eda vandadar.

Fálkinn enski fló hjá,
sem færi af boganum píla,
faktóra hèr fann þrjá
fljótt þá gjördi mýla,
med byssu ok korda uppá,
amtmanni vard grýla;
hans belg þyrfti at býla.

Prentad sendi plakat,
púdrhegrinn myndugt,
á sèr setid ei gat,
illfyglit blódsyndugt,
af enskri makt því út frat,
sem álft ein blèsi fyndugt,
eda klár frísadi kyndugt.

Lög ok landstjórn nýja
lèzt hann stipta at ári,
fulltrúana fría,
sem födrland ei dári,
frá oss sídan flýja,
fljótt sem brenndr Kári:
er inntak úr hans pári.

Eigi mundi Jörgensen hafa farit frá Eggert presti med heilu skinni, ef hann hefdi verit nokkru ýngri, ok þeir hefdi átzt illt vid.

## XXXI. Kap. Sýslanir ok tilskipanir Jörgensens.

Nú voru sendir menn med hesta ok vörur nordr í Höfda, ok fóru þeir illa med alltsaman, en peníngar voru sendir í Hofsós, at kaupa tólg fyrir, þúsund dalir, var þángat heitid skipi, þat átti at sækja hinar dönsku vörurnar, því Jörgensen hafdi gjört þær upptækar allar, þar sem kaupmenn sjálfir, er áttu, bjuggu ei hèr í landi. Stephán amtmadr á Hvanneyri hafdi þegar ridit vestr á land, er bodin komu frá Jörgensen, ok lokat höndlunarhúsum Danskra; þat þótti sumum kynlegt um svo vitran mann ok vel hugadan, ok ætludu hann mundi sjá í þat nokkut, er menn vissu ei, ok sumir hugdu, at traudt mundi hann þat gjört hafa nema brèfit hefdi komit frá Hólmi; en hann sagdi svo sjálfr, at þat mætti verda kaupmönnum meira gagn en skadi, úr því sem ráda var, ef hann færi í þá för; en nokkrir drógu þat saman til öfundarmáls vid Magnús etazrád, ok ætludu, at hans rád mundu valda; verdr ok flestum fyrir, ok helzt ef ekki er umsvifarúm til rádagjörda, at fylgja straumnum, þó allvitrir sèu ok vili sæmilega. Lieutenantarnir frá Akreyri voru vestra, ok reid Jörgensen vestr at leita þeirra, hittust þeir ekki sjálfir, en samit vard med þeim; hann hafdi gjört upptækar vörur á skipi Henkels, er greifanum heyrdu til, í Reykjavík, ok öllum dönskum skipum, er þángat komu, veittu þeir árásir. Var nú tekit til at setja skansgard hjá Reykjavík, ok færdar á fallbyssur frá Bessastödum; flaggit hafdi ok verit sett upp, ádr Jörgensen fór nordr, ok vissu nú flestir lítt hvat af skyldi ráda. Stephán amtmadr Þórarinsson ok Gunnlaugr Briem ok Þórdr sýslumadr Bjarnarson kvádust mundu láta af embættum sínum, en þeir voru fleiri er lètust mundu vid verda, ok sumir áskildu, at þurfa ei at gánga á eida sína, ef nædist sídan til Danakonúngs, ok var þat virt sem þeir vildu ei vid vera. Fáir sem engir gjördust menn Jörgensens, en til þess gaf Sigurdr Snorrason sik at yfirsetja fyrir hann. Gunnlaugr Briem reid sudr, ok ei lengra en í Borgarfjörd. — Gudmundr Skevíng reid ok sudr í Reykjavík, var þat sögn margra manna, at hann hefdi bodit sik til at taka vid amtmannsdæmi nyrdra, ok Jörgensen þegit þat, en svo sagdi hann sjálfr, at Jörgensen hefdi lagt at sèr; sídan reid Gudmundr Skevíng nordr, ok med honum Jón Gudmundarson, ok skyldi vera umbodsmadr hans ok sitja á Mödruvöllum á medan Gudmundr færi vestr ok sækti varnad sinn. Þeir sendu menn undan sèr til Mælifells nóttina hins 19da

Augusti, ok heimtu hesta marga, ok at þeir væri til at midjum morgni, sídan komu þeir á eptir á ákvednum tíma, ok voru eigi hestarnir búnir; var Brynjólfr, son Bjarna prests, fyrir svörum á Mælifelli; hann var mikill madr ok þreklegr, breidleitr ok í gildlegra ok hardgjörfara lagi, þeirra manna er þá voru, ok óhræddr, mundi hann eigi uppnæmr þó hann væri einn fyrir þeim nokkrum saman; hafdi Gudmundr heldr í hótunum, en Brynjólfr lèzt eigi hrædast þat, sagdi ei audvelt at koma mörgum hestum saman á fám stundum. — Gudmundr Skevíng sagdi, at þeir skyldu eigi senna, er þeir voru samlendir, ok beid þess er hestarnir voru til; mælti hann þá um þat nokkrum ordum, at víst hefdi óþarfi verit fyrir Stephán amtmann Þórarinsson at láta embætti sitt, en eigi væri minni óþarfi fyrir sik at neita því, at takast þat á hendr, er þat baudst. Þeir ridu þadan yfir Yxnadalsheidi ok at Audbrekku, þadan á sunnudaginn til Mödruvalla, undan faráugri sínum, ok hlýddu messu, sídan sóktu þeir faráugrinn ok lètu bera töskurnar í stofu, gekk allt í makindum fyrir amtmönnum, ok settist Gudmundr þar upp; hann vildi fá Jón bónda Sigurdarson á Böggvistödum, ruskinn mann ok audugan, fyrir sýslumann í sýsluna, en hann var ei þess búinn, skipadi hann þá Pál á Múnkaþverá, Benediktsson, er fengit hafdi Karítasar, dóttur Magnúsar sýslumanns Ketilssonar, ekkju Vigfúsar Fjeldsteds, ok var hann í sýslumanns stad fimm nætr, sem sídar telst efni til; sídan sendi Gudmundr póstbod sudr, var sagt med því hefdi farit bónarbrèf frá amtmanni til Jörgensens, ok er nú sannat at svo var, en svo fèll, at þat kom aldrei fram.

## XXXII. Kap. Brèf Jóns Gudmundarsonar sýslumanns.

Jón Gudmundarson, sýslumadr í vestri Skaptafells sýslu, bjó í Vík; hann hafdi átt þíng vid bændr í sýslunni, ok fengit heit af þeim til fylgis, hafdi og njósnir úti, en þar var einstigi til sýslunnar, ok hægt at verja; hann sendi Jörgensen brèf hinu 10da dag Augusti mánadar, þat var á dönsku, en Björn prestr Jónsson í Bólstadarhlíd setti þat á íslenzku á þenna hátt: „Jörgen Jörgensen í Reykjavík! Ek heidra sèrhvern konúngsins strídsmann, ok ber virdíngu fyrir vergángsmanninum vegna þess hann er manneskja; en hverr ert þú? fæddr vart þú danskr þegn, þessvegna vart þú vors ríkis medlimr ok samborgari at upprunanum til; — en nú? — af ok hjá Bretlenzkum nádir þú aldrei landsmanns rètti, samt hættir þú at vera þat sem þú vart, ok med rèttu áttir at vera; já, þú ert hættr at vera manneskja. — Þú hefir, hverr helzt ok hvat þú ert, vanvirt persónu mína med hinni 5tu

grein í auglýsíngu þinni af 11ta Julii næstlidna, þar þú álítr mik svo nautheimskan, at þèr muni hægt veita at táldraga mik, þat gúngumenni, at ek muni hrædast heitíngar þínar, ok þá mannskömm, at ek muni yfirgefa æru mína ok skyldu. Til lítils endrgjalds fyrir þetta skal þèr hèrmed sagt vera, at hvorki þèr nè þínum fylgjurum skal (at svo miklu leyti í mínu valdi stendr) vera óhætt á lífi, frá því sama augnabliki sem þú skreppr yfir Jökulsá. Ærlegr fjandmadr krefst stórútláta af þeim, sem enga vörn fá veitt, at vidlagdri hótun báls ok bruna, ok í því tilliti gat þat stadizt, at vèr dalabændrnir hefdum látid úti nokkut af saudfè voru, í hvers stad þeir edallyndu Bretar láta sèr nægja at höndla vid oss; en þú hefir — líkr djöflinum, sem um er getid í Miltons bók, þeirri er nefnist hin tapada Paradís — lagt allt kapp á at leida afvega þínar medmanneskjur, já, leitazt vid at kollsteypa oss frá allri vorri mannvirdíngu; verdskuldar þú þá ekki, at eptir þèr sè æpt útaf skodunarplátsinu, med þessu úr öllum áttum samstemmandi bergmáls orgi:

eidrofi fordastu ágæta lýdi,<br>
umflý þú Danmörk, hvar sízt fær þú gröf;<br>
útflæmdr, bannsettr sèrtu um sídir,<br>
sökktr af verstum í forsmánar höf!

einasta áttu nú eptir at taka á móti eilífdinni; því óska ek þèr, at þú getir hèdanaf byrjat nýtt ok betra líferni!"

Þessu brèfi reiddist Jörgensen mjök, en fèkk ei svifarúm at endrgjalda.

## XXXIII. Kap. Áfall Phelps ok Jörgensens.

Jafnframt þessu er at geta þess, at greifinn hafdi verit kránkr ok hugsjúkr í haldinu, ok var honum bodin lausn, en hann vildi ei þiggja, ok kaus heldr at fara til Englands ok eiga mál vid Jörgensen; en hinn 12ta dag Augusti kom herskipit inn í Hafnarfjörd, er úti fyrir var, ok hèt Talbot, var þat nær þeim tíma er Gudmundr reid nordr um; þat herskip höfdu sumir uggat, ok sídr fyrir þá skuld viljat í rádast; fyrir því var kapteinn Alexander Jones; en þat er fram hafdi farit hafdi Bjarni Sigurdarson í Hafnarfirdi allt ritid í eina sögu á enska túngu, ok þat fundu þeir af herskipinu hjá honum. Jörgensen hræddist, er hann spurdi komu kapteinsins, reid þó á fund hans, ok baud honum heim, en hann vildi ei þiggja ok hèlt skipi sínu nær landi, ok spurdist fyrir af landsmönnum, ok hèt fylgi sínu; sídan lagdi hann skipinu til Reykjavíkr, hinn 14da dag Augusti, ok vard ei af vörnum Jörgensens; var

þá enn mælt, at kona þess manns, er híngat fór med Phelps til umskodunar, hefdi sagt kapteininum frá haldi greifans, ok því ödru, er Jörgensen hafdi sýslat; greifinn fèkk ok vidtal hans ok sagdi honum frá því sjálfr. Svo hefir verit sagt, at Hákon Vilhjálmsson í Kirkjuvogi vildi eiga tvær konur, ok hafdi Jörgensen leyft honum, en nú, er menn hræddust um hans rád, hradadi Hákon at fá konunnar, hún var dóttir Jóns Sighvatssonar í Njardvík, var þat látid standa óátalit sídan af þeim er næst rèdu, enda skorti Hákon eigi fè; — segja sumir Alexander Jones hafi því næst látid senda eptir Magnúsi etazrádi ok þeim brædrum, en þat er ljóst, at þeir fóru at finna hann, er þat spurdist at hann væri Phelps eigi vinveittr, því hann sagdi svo, at hann skammadist sín þess, at þeir væri samlendir; báru þeir brædr fram fyrir kapteininn skjal á Ensku, ok ákærdu gjördir Jörgensens, ok athafnir þeirra ósæmilegar ok leyfislausar hèr vid land; kom nú Jörgensen til máls vid þá, ok var þat um sama leiti er hann fèkk brèfit at austan, ok mundi þá hafa ridit austr, nema hann hefdi haft ödru at sinna; er þá sagt hann hafi tekit pístólu sína, ok sett fyrir brjóst etazrádi, ok mælti: „skjóta skal þik fyrst!" en Jones hafi slegit á arm honum ok af lagit, ok hljóp þá byssan. Samdist nú svo, at vilja Jones ok hinna, at varnir skyldu engar vera fyrir Reykjavík; en skansarnir voru á Arnarhólskletti, ok bjó fyrirlidi þeirra í tukthúsinu, hann hèt Malmqvist, ok var ádr beikissveinn sænskr, en sídan hafdr fyrir sökum. Samdi nú kapteinninn ok þeir brædr, hinn 22an dag Augusti mánadar, í þat mund sem Gudmundr Skevíng var settr at Mödruvöllum, at allar gjördir Jörgensens skyldu ómerkar vera, embættamenn allir vera vid, nema þeir sem hann setti, varnir allar brjótast, en enskir mega höndla, ok hafa frid vid landsmenn, ok hver þjód önnur; setti Phelps sjálfr nafn sitt undir þann samníng, ok var nú tekit til at brjóta skansinn, þartil ekki var eptir af, ok gjördu þat hinir Ensku, en fallbyssurnar lágu þar eptir í bleytu; var þeim seinna sökkt nidr á Videyjarsundi; földu sik þá menn Jörgensens, en hann sjálfr var at rída út um nes, sem í órádi. Skiptu þeir brædr med sèr sýslunum greifans, svo at Stephensen amtmadr var í andlegum málefnum, en etazrád í öllu ödru, þvíat greifinn vildi ekki annat, en fara til Englands, ok var mönnum þó grunr á, at sú skipun mundi ekki gjör med hans rádi. Nú var póstr sendr nordr med þessum eyrindum, ok mætti hann pósti Gudmundar Skevíngs á fjöllunum, ok sagdi honum hvar komit var, sneri hann vid þat aptr, ok fór til Mödruvalla; skipti þar þá um allt, ok reid Gudmundr Skevíng vestr ok hans menn, ok fóru mjök sundrlausir, ok komu hvergi á hina sömu bæi sem þá er þeir

ridu nordr um; en peníngar Phelps í Hofsós voru upptækir gjörvir. Bjarni prestr at Mælifelli fèkk ok at spyrja hvar komit var, ok andadist mjök litlu sídar, en Eyríkr prestr fèkk ei Mælifell. Þá var graslítid vída, ok enginn fiskifengr nyrdra. Var þá Jörgensen fluttr á skip; þá mælti hann, at fjandinn skyldi vera konúngr yfir Íslandi.

## XXXIV. Kap. Utanfarir.

Nú siglir greifinn ok Phelps, á því skipi er Phelps átti þá, en Jörgensen á skipinu Orion, er hann tók frá greifanum; fóru med honum til Englands Sveinn Pètrsson ok Dagr, ok þeir fleiri hans menn, einnig Malmqvist ok kona hans; hún var yfirsetukona dönsk. Á skipi Phelps voru 340 skippund tólgar, ok 400 tunnur lýsis, kviknadi í því á sjónum, ok brann þat upp fyrir Reykjanesi, ok voru ýmsar getur á, hvat valda mundi; Jörgensen var nærstaddr á Orion, ok dugdi hann þá vel at bjarga mönnunum, en fallbyssurnar hleyptu sèr af sjálfar seinast, er þær voru hladnar; þótti líklegt, at þetta mundi bæta mál hans, en þeir lögdu aptr til lands, ok ádr þeir komu inn, hitti Jörgensen ródrarmenn af Akranesi tvo á báti, ok mælti vid þá, var annarr meira fyrir svörum, ok hèt sá Hallr. Hann spurdi: hverir þeir væri? Jörgensen kvad þá vera Franska, ok í eptirleit eptir Enskum, en kunna lèzt hann Dönsku, ok spurdi hvort Enskir hefdi ei þar komit? Hallr segir at svo var, ok at túlkr þeirra hèt Jörgen, ok gjördi sik at landstjóra, lèt þess von at hann mundi enn liggja í höfn, ok þeir Phelps, en Alexander Jones væri sigldr. „Hversu líkadi ydr vid hann?" segir Jörgensen. Landsmadr svarar: „sem verst var þat, fór hann yfir sem víkíngr, ok fángadi yfirvöld vor saklaus, ok gjördi mart illt, en þó ber ek honum ekkert illt fyrir sjálfan mik, ok segja svo landshöfdíngjarnir, ok helzt Magnús etazrád, ok hafa á honum þúngan hug". Margt sagdi hann óspurt. Jörgensen spyrr: hvort hann mundi vilja veita þeim at drápi hans ef kostr væri, eda hversu landsyfirmönnum mundi þat líka? — Landsmadr segir, at þat vildi hann at vísu, ef svo mætti verda, en lèzt ei vita hvort hann fengi svo mikit at gjört: „en fegnir mundu landshöfdíngjar vera því, ef landrádamadr sá yrdi af rádinn". — Jörgensen mælti: „vel hefir þú sagt, ok er sá illr er þú segir mèr frá, vil ek fara ok drepa hann, ok skaltu fylgja mèr". Þeir fóru svo á skip med honum, til þess er lótsmenn mættu þeim; þá mælti Jörgensen til Halls: „nú em ek, sem vid þik mæli, sá sami, er þú taladir um"; hann vard hræddr vid, en Jörgensen kvad hann þess ei þurfa, ok gaf honum dúkat; lèzt þó nú sjá, hvílíkir væri vinir sínir: „en þú mátt þakka hamíngj-

unni", sagdi hann, „er þú slappt, svo málgr sem þú vart". Þeir lögdu inn í Reykjavík hinn 28da dag Augusti; hafa þá sumir sagt, at Jörgensen hafi viljat skatta landit fyrir skadann, ok þeim etazrádi farit nokkur ord á milli um þat, því at þat fèkkst ekki, at hinir dönsku skipverjar medkenndist at hafa valdit brennunni. Tók Jones greifann á sitt skip, ok Koefod sýslumann, áttu þeir at bera vitni á Englandi. Lögdu þeir nú utan aptr, til Englands, Jörgensen ok Phelps, ok greifinn ok Koefod med Jones, en Magnús etazrád lèt brèf gánga um í Reykjavík, ímóti illum grun, er honum þótti sèr borinn, ok mest eptir ordum Jörgensens. Lèt Árni Jónsson af landfógetadæmi ok sýslunum þar sydra, ok hafdi haldit þeim 8 daga, ok vann þat eitt á, medan hann var vid, at taka djarflega til konúngs penínga, ok kvad sá madr um býfógetadæmi hans er Páll hèt, ok vard seinna prestr í Vestmannaeyjum, skáld gott, ok heldr flimsamr medan hann var úngr; tók Frydensberg vid landfógeta-sýslunum aptr, ok umbodi Koefods yfir hans sýslu. En skip þat, er Jörgensen hafdi fengit til at fara í Hofsós, kom þar, ok átti at taka tólg, fyrir penínga þá er Phelps hafdi senda, en fór eyrindislaust aptr. Þá fór Hooker hinn enski nokkut um land.

## XXXV. Kap. Tilbreytíngar ok annat.

Skip hafdi komit í Reykjavík, medan Phelps var þar; voru þat Ameríkanar, þeir seldu med miklu betra verdi en adrir, ok var þat kallat at forlagi Magnúsar etazráds, því hann hafdi samit vid þá, en þat líkadi mörgum höndlunarmönnum illa vid hann; gátu fáir sætt þeim, því bædi voru vörur Íslendínga uppgengnar, enda gjördu faktórarnir þeim þann baga, er þeir máttu, ok meinudu þeim hús; þó seldu þeir mikit. Skip kom í Hofsós frá Höwisch kaupmanni, þat eitt kom til Nordrlands med vöru, en dýrleiki var mikill, ok ritadi Magnús etazrád nordr til amtmanns á Mödruvöllum, at Nordlenzkir mætti vitja sudr, en þat var ei auglýst. Um sídir seldu Ameríkanar Petræusi í Reykjavík vöru sína. Nú tóku landshöfdíngjar at láta konúngsbrèf gánga um land, var eitt um þurrabúdamenn, at þeir ætti at vera sem fæstir; eitt áminníng um sparnad; eitt um veitíngabrèf, at þau skyldu öll stadfestast af hinum nýja konúngi, ok ónýtast ef þat væri eigi gjört í tíma; beiddist Magnús Stephensen, samkvæmt sýslun sinni, at sá tími væri lengdr; eitt var um kúabólu, ok svo hugvekja etazráds um nýtíngu ýmsra hluta, ok fleira. Sakamenn voru kalladir aptr til tukthússins, þeir er Jörgensen hafdi hleypt þadan, ok hert þar vistin, ok önnur

skipan á gjör, en hestum Jörgensens hinum stertskornu var slátrad, sakamönnum til vidrlífis, því at þar var konúngsbod fyrir, at hrossakjöt mætti hafa til átu faungum ok sveitarlimum, ok hverjum sem med þyrfti — svo skjótt var öllu snúit, sídan hègómamenn voru fældir úr leiknum. Menn Jörgensens voru allir reknir til átthaga sinna, þeir er þá voru hèr í landi, ok skyldi þá eigi lagt til þeirra, en ella skyldu þeir vera ófridhelgir undir refsíngu sydra: fór Samson nordr í Húnavatns þíng med varníng, ok vard þar sekr um práng, ok misti hann allan, en Gísli Gudmundarson fór í Skagafjörd til frænda sinna; hafdi hann verit þeirra spakastr. — Þat var þá eitt bodit, at karlmönnum skyldi lýsa í leidibrèfum þeirra eda pössum, ok þeir rita uppá sjálfir. Þá kærdu hreppstjórar nokkrir úr Skagafirdi dýrtíd, ok höndlun þadan, til Magnúsar etazráds, ok vard þat þá strax eptir, at amtmadr nyrdra birti þat, er honum hafdi ritad verit, um tilbod vid Nordlenzka, ok þótti nokkut óljóslegar en menn höfdu ætlat upplagt í fyrstu, en ákæruna hafdi Magnús Stephensen sent amtmanni, því honum þótti hún ei koma sèr vid, ok gramdist hann henni fyrir hönd Havsteins, en lèt þó ei prófa hver efni í voru, spunnust af erjur, en batnadi þó nokkut sumt um hríd, þat er áfríat var. — Mikil þraung var þá med mönnum, því fáir gátu keypt kaupstadarvöru, peníngar ok þrotnir, en afli enginn fyrir nordan. Sunnanlands var illt á landi, en fiskafli svo mikill af sjónum, at gekk inn allt á grunn, ok guldu margir menn allar skuldir sínar á stuttum tíma; þarmed rak á Akranesi, ok vid Hvalfjörd, 9 eda 10 hundrud hnýdínga, á reka þeirra brædra, stiptamtmanns-sona ok Jónasar Skevíngs sýslumanns; voru þeir reknir á land; ok enn voru mjök margir, er ei vard yfir komizt ok rak í ýmsum stödum, en landsetum vard at eptirláta helmíng fyrir brædsluna, ok kom þat mörgum í gagn. Hreppstjórar nýir voru á þessum misserum skipadir sydra ok vestra, ok um Vadla sýslu, eptir konúngs bodi, ok eidteknir, nutu þeir alls útsvars síns til hverrar stèttar um sinn. — Þá andadist í Decembri Gudmundr sýslumadr Ketilsson at Svignaskardi; hafdi hann lengi verit heilsu-lítill, ok hálfvisinn seinast, ok var hans saknat af alþýdu; ein kona deydi þá, sú er skorti tvo á tírædan, ok átti afkomendr eptir 135.

## XXXVI. Kap. Árferdi, um hreppstjórn ok skipakomu.

Sá vetr var beztr nordast, en þúngr þegar dró í Skagafjörd, ok enn 1810.
meir í Húnavatnsþíngi, ok því verri sem sunnar kom, ok svo þar austr med, gjördi peníngafelli í Árness þíngi ok Rángár þíngi, ok austr svo lángt sem spurdist, einnig í Gullbríngu ok Kjósar sýslum, ok nokkut

svo um Borgarfjörd, en þó voru menn þar allvel staddir af hvalkomunum, ok svo lausir vid flestar skuldir. Annarstadar var þúngt; þrengdi at lángvinnt hallæri undanfarit, fiskleysi ok matvöruleysi nyrdra ok vídar, grasatekja var ok mjök stopul ordin, nema Húnvetníngar höfdu safnat þeim medan Enskir voru sydra, ok selt þeim dýrt, ok ábatazt af mikit; þótti undr, hve menn hèldust vid vídast, ok at heldr fjölgadi fólk en fækkadi; olli því miklu betri hagsýni manna en fyrr hafdi verit, um ásetníngar ok annat, en í hinum gódu sveitunum, um Árness ok Rángár þíng, treystu menn meira útigángi. Fiskafli var gódr fyrir Jökli, ok svo sydra, ok hèldst jafnan þegar róit vard. Skipud var þá vídast um vorit hin nýja hreppstjórnar-reglan, en sumstadar ádr gáfu amtmenn þeim hreppstjórum instrúx prentat, þó þat gengi ei yfir í sudramtinu, því at Magnús Stephensen rèdi mestu í því efni, en greifinn hafdi ei gefit honum umbod sitt; en sýslumenn tóku þá í eid; gjördist þá mikill rekstr af sveit í sveit, þvíat vinnuhreppar voru látnir gilda mest, er ei var ádr, en umferd var mjök af tekin; áttu hreppstjórar at birta þá sem flökkudu, en sýslumenn þó at dæma ádr, ok amtmenn at samþykkja; var þá skipadr sakafalls-fèsjódr, er af mátti taka med amtmanns leyfi til útgipta um sinn, ok jókst sýslumönnum vid þat vandi ok reikníngr. Skip amerískanskt kom í Reykjavík um vorit, ok hafdi hveiti ok hrísgrjón, járn ok romm, ok margt annat, nema timbr, ok var flest fulldýrt, pund hveitis á 12 skildínga, ok svo eptir því um annat; þat fór nordr í Höfda ok á Akreyri. Þareptir kom annat skip enskt, mikit ok útbúit, ok voru á herramenn, ok lètust ætla at fara um land, spurdist þá til greifans, ok at hann átti í málum vid Phelps, var sagt at Phelps hefdi verit dæmdr frá öllu fè sínu, ok parlamentit í Lundúnum tekit þat undir sína umsjá, en Jörgensen væri annathvort í haldi eda fylsnum. Hann var þar eptir med frú einni á Englandi, en kom sèr sídan fram sem hann mátti, medan honum hrökk þat. Sveinn Pètrsson, madr Jörgensens, var þar á skipi, en Dagr var sagt hefdi hálsbrotnat, eda fallit úr skipsreida til bana, fór Sveinn nordr, ok var spakari en ádr, en sídan sudr í Borgarfjörd, ok bjó í Stafholts sókn.

## XXXVII. Kap. Nýtt umbod stiptamtmanns, Commission.

Englands konúngr hafdi gefit út bod, ok at forlagi greifans, at Ísland, Færeyjar ok Grænland skyldu vera áreitíngarlaus, þar sem engar varnir voru fyrir, ok skyldi öllum skipum heimilt þángat at sigla, en haldi þó til Lundúna eda Leith á Skotlandi; kom þá ok út enskr konsúl, er sjá skyldi um kauphöndlun þeirra, ok ætludu menn, at Franskir

mundu ei virda mikils leidibrèfit Enskra, ok álíta þá er höfdu sem fèndr, þó Danir væri. Skip komu þó dönsk, en bædi fá ok seint; kom eitt í Reykjavík, ok á því Koefod sýslumadr, en greifinn var boðadr til Danmarkar á konúngs fund at segja honum tídindi hèdan. Hann sendi út med þessu skipi umbod sitt fyrir stiptinu til Stepháns amtmanns Þórarinssonar, Ísleifs assessors ok Frydensbergs landfógeta, en vildi ei hafa þá brædr í rádum; hèldu sumir hann mundi heldr hafa þúngan hug til Magnúsar etazráds; átti þá at halda commission sydra um Benedikt Gröndal, Gudmund Skevíng, Árna Jónsson ok Jón Gudmundarson, ok prófa hversu verit hefdi varit fylgi þeirra vid Jörgensen, en af engu vard medan hit enska skip var hèr, fór þat nú utan. Gröndal hafdi kvedit eptir frú Sigrídi í Videy med ödrum, honum þótti jafnan skáldlega fara, en nú lá hann jafnan veikr, ok opt med lítilli sinnu, gátu menn til at honum mundi þúngt fallit hafa hversu til tókst allt saman, ok vard hann aldrei sídan heill. Var nú sent nordr eptir Stepháni amtmanni, ok reid hann sudr um lestir, en setti Gunnlaug Briem sekretera fyrir amtid, medan hann væri eigi vid, en alla stund medan hann var á fjöllunum sleit hvergi fiskalestir sunnan at, svo mikit var nordr flutt. Ætludu menn þó, at hafin mundi verda commissionin sú er ætlud var fyrri, en Magnús Stephensen etazrád, er gjörst kunni at upplýsa þau mál, med þeim brèfagjördum er hann hafdi í höndum, hafdi ei verit til kvaddr, ok leiddi þá commissionin hjá sèr öll vandamál, ok gjördist lítid at eda ekki, ok svo lauk þeim málum, ok var miklu hægra.

## XXXVIII. Kap. Frá ýmsu.

Þá var mikil ekla á öllum þarflegum hlutum, svo at pappírs örk, ef fèkkst, kostadi 4 skildínga, ok þurfti þó ærit á at halda; komu litlar vörur til sjáfar úr sveitum, ok lítid fiskadist nyrdra, er grasvöxtr var vída gódr. Þá andadist Ari prestr í Vestmannaeyjum, son Gudlaugs prófasts í Gördum Þorgeirssonar, fèkk Jón sonr hans kallit eptir hann. Árni prestr, son Helga prests Einarssonar, Haflida sonar prests, Bergsveinssonar, var attesteradr, ok lærdr vel, hann kenndi börnum Magnúsar etazráds á Innrahólmi, ok fèkk honum þar jörd til ábýlis, ok galt honum 200 dali til þess hann færi ei frá honum, en hann hafdi kapellán í Vatnsfirdi, ok tók þadan hálfar tekjur. Slíkan frama var Magnús etazrád gjarn at veita þeim, er hneigdust til hans ok njóta máttu. Jón prestr Jónsson frá Audbrekku hafdi fengit Mælifell, en fyrir bón Stepháns Þórarinssonar amtmanns, ok eptirleitni Jóns prests Konrádssonar í Húsey, vard hann kyrr, ok voru peníngar í milli lagdir

af Jóni presti Konrádssyni; tók hann svo Mælifell, en Oddastadr var nú veittr Steingrími lektor Jónssyni; hann var vel um sik fyrir flestra hluta sakir, ok svo fyrirhyggjumadr mikill, ok átti Valgerdi Jóns dóttur sýslumanns frá Móeidarhvoli, er fyrr hafdi átta doktor Hannes Finnsson biskup. Þetta sumar vard sá atburdr í Reykjavík, at Savignak hinum enska ok Gísla faktori Símonarsyni bar til, brá Gísli honum um þernu hans, er ádr hafdi verit med Jörgensen, Gudrúnu, dóttur Dúks-Einars, er kalladr var, en Savignak baud honum til einvígis, ok gekkst hann undir; Savignak var karlmannlegr madr at sjá, en ekki sterkr, ok eitt sinn, er Gísli var inni hjá biskupi, kom hann þángat ok hèlt á tveimr pístólum, ok fèkk honum Gísla adra, reyndist sídar at sú var tóm, en Savignaks pístóla hladin, med svo miklu falsi var þat gjört; sídan spenntu þeir bádir, en biskup þreif til þeirra, ok setti þá nidr hjá sèr báda, ok gat sídan talat nidr med þeim, svo þeim var óhætt hvorjum fyrir ödrum at kalla. Stúlkan, sú er þetta reis af, fór til konsúlsins enska, ok barst mjök á med gulli ok silkiklædum, sem þó gjördu líkt fleiri þernur í Reykjavík. At lidnu sumri reid amtmadr nordr aptr, ok hafdi med sèr tilskipun konúngs, útgefna um vetrinn fyrir, hinn 8da dag Februarii, um hálfs dals afgjald til konúngs af hverju hundradi dala í öllum nýjum eignum; þat sumar andadist Ragnheidr dóttir hans. Í þat mund kom skipit enska á Eyjafjörd, ok annat er Mitchell var fyrir; eitt skip danskt kom ok á Skagafjörd, en höndlun vard at litlum nytjum, ok fátt spurdist. Þá rifu Hólamenn Audunnarstofu, ok skorti hana þá fáa vetr á 500, frá því er hún var sett, ok var enn stædileg vel, voru þat Páll rektor Hjálmarsson ok Gísli Jóns son biskups Teitssonar, er fyrr var í conrektors stad; þeir seldu engan stokk minna en á 3 dali, ok eptir því var önnur vidarsala þeirra, því þeir rúdu mjök Hóla, ok búnadist ei at heldr, var ok lítid samþykki med þeim, nema í því, at vilja eigna sèr afrèttina, en þar hafdi Gísli lagzt á móti medan Stephán amtmadr Þórarinsson átti Hóla ok hafdi hreift því; hvergi fèkkst þá nálega vidarsala betri, ok hvergi vidrinn at kalla, en gángpenínga skorti, ok gjördist nú all-eydilegt á Hólum. Mikill fiskiafli var þá sydra, ok svo nordr í Múla þíngi, svo at eitt skip fèkk þar á 5 eda 6 dögum hálft 10da hundrad fiska. Þar dó Sigfús prestr Gudmundarson undir Ási, bródir Eyríks Hoffs. Þar kom skip Örums kaupmanns, ok var rúgtunna á 11 dali, en annarr matr dýrri, messuvíns pottr hálft fimta mark, bord óflettandi 5 mark, ríkisdals spíta, er þartil hafdi verit, fyrir 6 dali; en frá Kaupmannahöfn var þat sagt, at þar væri vara íslenzk í miklu verdi: ullarfjórdúngr á 5 dali eda meira, lýsistunna á hundrad dala tólfrædt eda því nær, ok var þat tífalt vid þat

er hún gekk hèr, refskinn mórautt at 20 dölum, einbands sokkar ríkisdal, ok höfdu kaupmenn haft hinn mesta ábata, er þángat höfdu komit vörum sínum hèdan. Enskt skip kom enn til Reykjavíkr, ok sókti Savignak, ok allan fjárhlut þeirra er þar var sydra, ok lèt út sídan. Ekki kom póstskip, heldr en hit fyrra sumarit, ok ekkert spurdist med sönnu.

## XXXIX. Mannalát ok annat.

Þá fèkk Þorvaldr prestr Bödvarsson á Reynivöllum Holt í Önundarfirdi, því Jón prófastr Ásgeirsson var andadr; en Arnórr prófastr Jónsson á Hvítárvöllum fèkk Vatnsfjörd; Árni prestr Helgason tók aptr Reynivelli. Seint í September andadist Halldórr Jakobsson, er fyrr var sýslumadr á Ströndum, hafdi hann þá legit í kör um hríd í Vídidalstúngu; þar bjó þá Sigfús Bergmann, en Þorbjörg Bjarnadóttir, mágkona Halldórs, var þar í húsmennsku; var farit allt fè þeirra Halldórs ok Ástrídar, svo at engir þeirra nutu af, nema börn Bjarnar sekretera Kolbeinstada, ok vard þó Björn at leggja mikla penínga til skuldalúkníngar, ádr hann fèkk leyst þá eign. Mjök var þá vætusamt ok hretamikit haustit frá höfuddegi, ok nýttust illa úthey, ok mjök var regnasamt sydra. Þar fóru hinir ensku menn um land, Hooker ok Georg Mackenzie barón, ok tveir lærdir menn, Holland ok Bright, ok lètu setja upp spursmál um allt háttheldi landsins, ok sumt þat, er mönnum þótti ísjárvert at svara; þeir settu ok saman ferdasögur, ok er uggandi at fátt hafi rètt vitad at sjálfs reynd, því at eigi sèst ísland allt á stuttri stundu, ok sízt á Sudrlandi einu. Gísli prestr, son Magnúsar sýslumanns á Geitaskardi, Gísla sonar biskups, hafdi haldit Tjörn á Vatnsnesi, ok dó um haustid, var þat braud óveitt á þeim misserum. Vetr öndverdr var gódr; þá andadist Elín Stephánsdóttir, er átt hafdi Bjarni prófastr Jónsson at Breidabólstad í Vestrhópi, at Ólafs stiptamtmanns í Videy, bródur síns; hann var þá nefndr geheime-etazrád. Þá voru mál mikil í Eyjafirdi, er Hallgrímr prestr Thorlacíus í Miklagardi átti í, og var eitt vid sýslumanninn Gunnlaug Briem sekretera, hafdi fyrst verit sumarit fyrir, útaf selstödu, er Jón bóndi Jónsson í Samkomugerdi hafdi eignat sèr, en óvild forn var med þeim Hallgrími presti ok honum, ok var Jóni dæmt skylt at rífa selit, en presti þó útlát, fullir 30 dalir; en málit vid sýslumanninn reis útaf því, at honum þótti prestr hafa grunat sik um órètta innfærslu í prótókoll; var Hallgrímr prestr jafnan meira í veraldar sid en kennimanna, fègløggr ok kappgjarn, en lítt lærdr. Jafnan fæddust þá enn fleiri menn en dóu, ok er getid eins manns,

er dó, ok hafdi 3 vetr hins 11ta tugar, ok sá 8 barna-barna-börn sín, ok sagt er sá hafa verit sterkr madr ok hóglátr, en ei kunnum vèr at nefna hann.

## XL. Kap. Tilburdir öndvert ár.

1811. Vetr sá var gódr til þorra ok gengu þá sem mest málin í Vadla þíngi, dæmdi þórdr sýslumadr Bjarnarson í Gardi í prótókolls-málinu, ok vard prestr fyrir allmikilli fèsekt fyrir ótilhlýdileg ord, en þó miklu minna en sekreterinn hafdi ætlad; appellerudu þeir þá bádir; var sídan tekit til at prófa undanfarit líferni Hallgríms prests, ok gengit ríkt eptir, því amtmadr var honum allþúngr, ok hit þridja mál var hafit út af gimbr nokkurri, er presti var kennd óheimild á, en selmálit var hit fjórda; fóru fram eidar ærit margir, ok urdu þíngin um vetrinn fleiri en 10, en bætr allar nær 500 dala; var presti borin varmennska um fleiri kindr at undanförnu; — appelleradi þó amtmadr hit sídasta málit rèttarins vegna, en prestr appelleradi öll, ok skyldu gánga fyrir landsyfirrètt; var hann embættislaus medan á því stód. Hann var óvarfærinn, ok spillti stundum fyrir sèr med framgirni, en haldnir voru þeir óhlífnir vid hann: Gunnlaugr Briem sekreteri, er sýsluna hèlt, ok Jón prestr í Mödrufelli, ok jafnvel amtmadr sjálfr, ok var hann einnig nokkur sök í med tilleitni. Á þeim vetri var mjök þraungt sydra, vid sjóinn, svo menn lifdu þar á einum saman fiskinum þurrum, ok vída var þraungt í landi, því mannmargt var ordit, en björg lítil eda engin, nema sú er innlend var, ok fiskilaust nyrdra. — þá andadist Gudrún Jónsdóttir, prests frá Goddölum, Sveinssonar, er átt hafdi Oddr prestr Gíslason á Miklabæ, sem hvarf, vestr á Audkúlu at dóttur sinnar, þeirrar er gipt var Jóni presti þar, Jónssyni. Eptir þat kom íshrodi fyrir nordan land med þorranum, ok gjördi vetr þúngan ok snjóasaman hvar sem til spurdist, linadi nokkut eptir midja góe, svo fært vard bygda á milli, en sídan gjördi miklar hörkur med einmánadi.

## XLI. Kap. Mannalát ok skadar.

Í þat mund vard mannfall í Saudlauksdals sóknum vestr, urdu brádkvaddir til mids einmánadar 21, ok fóru 5 í eina gröf. þá urdu litlir hlutir sydra, ok þúngt um bjargrædi, ok dóu menn í Leiru ok um Álptanes. Hinn 15da Februarii var illt vedr, vard svo mikill bylr á Austrlandi, at fjórir menn urdu úti í Múla sýslu, ok margt fè týndist, ok jafnan var hinn efri hlutr vetrarins hardr; voru skinn etin vída, ok vard

hvervetna fellir á lömbum ok ödrum fènadi. Hvalr tók skip í Gardi sudr, týndust 5 menn en 2 nádust. Enn annat skip týndist úr Hvítársídu, ok á 7 menn, þat var hinn 22ann dag Martii; þá drukknadi ok á Hvalfirdi Jón bóndi Þorsteinsson frá Kalastadakoti. — Þá fór Bjarni prestr frá Útskálum austr, en Eyríkr prestr fór þángat aptr, ok var Hvalsnes lagt til Útskála nokkru sídar; en Gudmundr prestr Magnússon fór frá Kálfatjörn, ok kom þángat Gudmundr prestr Bödvarsson, Högnasonar; var Njardvík lögd til Kálfatjarnar, en Kirkjuvogr til Útskála. Gísli prestr á Breidabólstad á Skógarströnd, Ólafsson biskups, Gíslasonar, andadist þá einnig, en Ólafr prestr, sonr hans ok kapellán, tók fásinnu mikla ok annarlega, lagdi hug á krossa ok önnur páfatrúar merki, ok flakkadi sídan um land. Skip rak fyrir austan, ok illa til reika, fundust í menn daudir, ok einn, er menn ætludu, af sedli þeim er á honum var, at mundi vera riddari enskr, hann var mikill vexti, ok í silkiklædum undir, en áhöfn á skipinu voru eikarplánkar, ok voru seldir á 12 skildínga hver, skipit sjálft var eyrbyrdt, ok fengu menn þar gód kaup. Sveinbjörn bóndi Þórdarson á Hvítárvöllum var mjök svo kararmadr ofanverdan vetr, reid Hallgrímr Bachmann sudr til hans, tók þar sótt ok andadist, en litlu sídar deydi Sveinbjörn; hann var fadir Þórdar sýslumanns, er sídan var í Árness þíngi. Þá dó ok Jón prestr, son Ara prests Gudlaugssonar í Vestmannaeyjum, er kallit hafdi fengit eptir hann, ok Jón prófastr Ásgeirsson í Holti í Önundarfirdi.

## XLII. Kap. Frá baróninum, Ólafi Loptssyni ok fleiru.

Ólafr Loptsson hèt madr, er verit hafdi í læríngu med Thómasi Klog landphysíkusi í Nesi, ok komit þar á lopt at franzós-sýki væri í Reykjavík á stelpum tveimr, var ok ordadr sjálfr af, at hafa spillt nokkrum med þeirri sýki, því at hann fylgdi baróninum enska um land, ok eptir hans umferd bryddi sá kránkleiki á sèr í Rángárvalla sýslu ok vídar. En því hagar svo stundum, er höfdíngjar útlendir ok ókunnir koma út sydra, at þeir troda sèr fram í þeirra þjónustu er ófeilnastir eru, ok mestir ódrengir. Sagdi Ólafr þessi baróninum, at Íslendíngar væri á þann hátt, sem villi-þjódir eru, mest gefnir fyrir glíngri, knífum, skærum ok slíku, ok fyrir því hafdi baróninn þat í fyrstu á bodángi fyrir greida, en þó fann hann skjótt at þat voru ósannindi er Ólafr hafdi sagt honum, um þat ok margt annat, ok sagdi honum fyrir þá sök upp þjónustu sinni ádr hann fór utan; hafdi hann verit hugkvæmr, ok var þat eitt, at hann hafdi gefit skólasveinum sydra, þeim sem honum þóktu af bera í Grísku eda Latínu, Ensku eda ödrum túngum

eda lærdómum, minnispeníng hverjum, sem medalía kallast, ok sinn med hverjum hætti, til at bera á sèr, ok bad þá láta sik jafnan vita hverir þeir yrdi í skólanum, er slíks hins sama væri verdir. Þá tídkadist þar lærdómsbók Niemeyers í gudfrædi, ok var hún mjök lagin eptir aldar sid fyrir ok um aldamót hin næstu, ok gjördi lítid ord á verdskuldan Krists, af því var hún af tekin litlu seinna; ok ritid hafdi Jón prestr Jónsson í Mödrufelli athugasemdir vid hana, er hann lèzt ætla sèr at eins, ok sínu húsi; fyrr hafdi hann skrád atfinnslu sálmabókar, en Sveinn læknir Pálsson adra, þó hardordadri. — Jón prestr reit ok um góda hreppstjórn.

## XLIII. Kap. Veitíngar.

Því nær andadist Einarr prestr Jónsson á Desjarmýri í Borgarfirdi austr, en á páskadaginn andadist Thómas Thómasson at Ásgeirsá, med skyndilegum verkjum, er hann fèkk hinn sama dag, hafdi hann verit skólagenginn madr ok vel at sèr um marga hluti, einnig rekit sýslu í Húnavatns þíngi, en nú hafdi hann hreppstjórn í Vídidal; átti hann sonu eptir, ok einn Jóhann, er prestr vard seinna. En sunnudaginn eptir var vígdr Steingrímr lektor til Odda, ok var þá á ödru ári um fertugt; þá var ok vígdr Bödvarr, son Þorvalds prests Bödvarssonar, er opt er getid, til kapelláns at Holti í Önundarfirdi, med födur sínum. Benedikt Gröndal lá alltjafnt veikr. Miklar voru þá stefnufarir í Eyjafirdi, stefndi Hallgrímr prestr Gunnlaugi Briem sekretera ok Þórdi sýslumanni, ok öllum þeim er hann þóttist eiga mál vid, fyrir landsyfirrèttinn. Vída var mjök þrassamt, ok jardnædisþraung hin mesta fyrir nordan, var þó vorit yfrit hart, ok naud á mönnum hvervetna, nordanlands ok vídar, en sumir menn voru hýddir af hreppstjórum fyrir flakk, ok skyldu þó allir dómar um slíkt koma til amtmanna, ádr fram fylgt væri; var mikill þúngi á sveitunum, því at öreigar leystu ei upp eda máttu flakka til sjóar, sem fyrr hafdi verit; en þrjá hvali rak í Þistilfirdi ok vard mönnum þat at björg. Veitt var þá Tjarnar braud á Vatnsnesi Sæmundi presti í Steinnesi, Oddssyni, Sæmundar sonar prófasts, Magnússonar, en Magnúsi presti á Ríp, Árna syni biskups, Þíngeyra braud aptr, ok fór hann at búa í Steinnesi. Jón prestr Hjaltalín í Saurbæ vid Hvalfjörd sókti um Breidabólstad á Skógarströnd, því at óvild nokkur fèll til vid Magnús Stephensen etazrád, ok fèkk hann kallit.

## XLIV. Kap. Hardindi.

Þá var bædi nordan ok sunnan lands, ok þó enn meira eystra, vor svo kalt ok illt, at aldrei lètti kuldum ok hrídum, til þess er 8 vikur voru af sumri; var þat þá furdulegt, er menn hèldust vid, bjargarlausir ok heylausir vída, fèll sumstadar saudfè, en allstadar eda vídast mikit af únglömbum, ok urdu peníngar gagnslitlir hvervetna; var þá svo mikil þraung, er hvorki var mjólk til nè matr annarr, sem óvída er á vorum þá lengi hefir hart gengit, ok ei at fá hit minnsta í kaupstödum, en skuldir kalladar sem ódast, veidiskapr enginn, því at ís lá fyrir öllu landi, ok ófært at koma hrossum neitt til bjargar, at þat ætludu menn, at aldrei mundi í jafnmiklu hardæri á hinum fyrri tídum mannfall hafa svo lengi undan dregizt.

## XLV. Kap. Frá landshöfdíngjum.

Hans Frísak lieutenant fór um Skagafjörd um vorit ok mældi. Þá kom út konúngs stadfestíng á umbodi greifans fyrir stiptamtmanns forrádum til Stepháns amtmanns Þórarinssonar, Ísleifs assessors ok Frydensbergs, því greifinn var ei enn vidskilinn stiptamtmannsdæmi hèr, hafdi þó fengit þvílíkt embætti í Þrándheimi; fylgdu þar med titlar, er Fridrik konúngr spardi eigi þeim mönnum, er honum þóttu hafa nokkra verdleika til; Ísleifr Einarsson ok Frydensberg urdu jústizrád bádir, en sýslumenn þrír kansellírád: Steindórr Finnsson ok Vigfús Þórarinsson, er elztir voru í embætti, ok Þórdr Bjarnarson í Þíngeyjarþíngi, þótti sumum heldr boda, at þeir brædr Magnús etazrád ok Stephán amtmadr sydra mundi mjök affluttir, en nokkrum þótti kynlegt, er sýslumenn skyldi fá nafnbætr, medan þeim voru ei ætladir meir en 30 dalir í uppheldispenínga, er þeir lètu af embætti; jókst þann tíd daglega vandi þeirra ok umsvif, en tekjur bötnudu ekki; svo var ok um presta ok prófasta, ok voru reglur margar um, hve hvad eina skyldi þrádbeint vera, en jókst jafnan regluleysi í vidskiptum manna, eptir því sem dýrtídin vóx. Castenskjold hèt hinn þridi, er skipadr var í commissionina, úngr ok lítt kunnugr hèr eda reyndr, en edalmadr at ætt, ok skyldi hann vera amtmadr á Sudrlandi, þótti í þann tíma mjök ískyggilegt rád Dana, því Enskir höfdu brotizt inn á Anholt, ok komu Danir þeim ei þadan; fèll þar í einu áhlaupi, er Danir gjördu, hinn ædsti sveitarhöfdíngi þeirra Ketill Melsted, son Jóns í Kidey, Ketilssonar, er bródir var Magnúsar sýslumanns, vid gódan ordstír, ok flest lidit; barst þá ok fyrir at Napoleon, Frankismanna keisari, gjördi

sèr uppslátt vid Dani, fyrir þat þeir sýndi ei svo mikinn fjandskap Enskum sem hann vildi, ok tæki af því Franskir skip Dana í hafinu, er enskt leidibrèf höfdu ok þeir nádu, svo at kaupmenn Dana þóttust sem í milli steins ok sleggju, er ei máttu þeir í milli landa fara nema þeir hefdi vegabrèf ensk; ekki stodudu heldr Frankismenn Dani med varnarskipum eda nokkrum góda, ok sagt at Napoleon hefdi bannat Svíum at taka Fridrek konúng at ríkiserfíngja eptir konúnginn gamla, sem mælt var þeim hefdi til hugar komit, en sett yfir þá Bernadotte, sem kalladr var prinz af Ponte-Corvo (en þat var sannara, at þeir kusu hann sjálfir ok vildu vingast med því vid Napoleon, ok ei mjök at hans rádi), ok var sídan konúngr med Karls-Jóhanns nafni, ok gjördist at lyktum hinn mesti óvin hans. — Á því sumri ól Anna Sigrídr, dóttir Stepháns amtmanns Þórarinssonar, barn, ok kenndi Fridriki, undirmanni á Akreyri, hafdi hún fengit ord gott þartil, ok var amtmadr henni ekki strídr, þat var þá ok úr tídsku, ok flest alvara um sidferdi; vildi hann gipta hana Fridriki, en hann lètst trúlofadr annari, ok fèkk hennar. Þá kom Castenskjold út ok Bjarni, son Vigfúsar Þórarinssonar, hann hafdi verit Cancellie-sekreteri ok undir-Cancellisti, ok var vel at sèr um skarpleik ok lögvísi, ok skáld gott, en raddmadr, sem fadir hans; var hann vice-assessor fyrir Gröndal. Þá rèdu Enskir allri höndlan sydra, ok var hinn mesti dýrleiki á allri vöru, en sumt fèkkst ekki, er ádr hafdi fengizt, ok þótti mörgum Íslendíngum sýnt vera, at svíkja mundi þá ætlan þeirra, þar sem Enskir fóru þannig fram, er svo áttu hæga stödu, ok at miklu mundu þeir verda verri í kaupum en Danir. — Fiskafli var sydra, ok þat eitt dugdi mönnum, var fluttr meiri fiskr af Sudrlandi en hit fyrra sumarit, þvíat nálega fór hestr frá hverjum bæ fyrir vestan Yxnadalsheidi, en frá sumum 6, 8 eda 10, þar sem efni voru til; var ok mælt, at fiskr skyldi eigi gánga af landi út; en konsúlinn enski, er rèdi höndlun Englismanna, bannadi þó kaupmönnum at selja innlendum eda nokkrum ödrum fisk, ok var því hlýdt sídan hann kom til, því menn treystust engu ödru, hvorki yfirmenn nè adrir, en láta svo allt vera sem Enskir vildu; hann hèt Jón Parker, ok baud hann öllum höndlunarmönnum at láta Enska hafa hina beztu vöruna ok láta sik vita hvat skipin tóku, hvort um sik, ok þannig urdu margir at hlýda óvinum Danakonúngs jafnsnemma sem honum.

## XLVI. Kap. Illt ár ok misfarir.

Um sumarit stángadi naut eina konu til bana á Upsaströnd; var þá svo mikil ótíd, at trautt mundi fyrrum trúat hafa verit, at landsmenn

stædist vid slíkan kost mannfallslaust, þar sem vætur gengu allt sumarit, eptir svo illt vor, ok mest fyrir sunnan, ok allt var svo dýrt, sem ei hafdi ádr verit, ok sumt ófáanlegt; mátti járn ei flytja, sem mest naudsyn var á, en fiskleysi ok höndlunarleysi fyrir nordan, ok allt þraungdi at í senn; — þá var ein klædis alin á 21 dal í Reykjavík, en pappír ok vidr, ok peníngar, ok kirkjuvín, ok margar naudsynjar, fengust ei nema med afarkostum, silfrpeníngar engir, en þeir voru dregnir út sem til voru, ok eigi nema bankó-sedlar lítt nýtir til 8 eda 12 skildínga, ok gylti hverr þeirra 3 eda 4 pappírsörk, ok koparpeníngar, hálfgyldir vid þá er fyrri voru. Mál Hallgríms prests kom þá fyrir landsyfirrètt, en eigi sakamála-rèttinn, ok var stadfestr dómr Þórdar sýslumanns í prótókollsmálinu, en hin urdu ei leidd til lykta. — Skip komu fyrir nordan, er á leid, ok var matr sem dýrastr hafdi verit, en klædnadarvara ok kramvara fèkkst engin, var ok eigi kaupandi þó fengizt hefdi. Þá deydi Gudmundr Pètrsson sýslumadr frá Krossavík í Leith á Skotlandi, skyndilega, ok var grafinn, en fè hans, þat er í förum var, fór lítt at skilum, ok eyddist furdu mikill audr, ok gekk þat allt óskapfeldlega, en hinn 18da dag Julii dó Jón Ólafsson í Kaupmannahöfn, bródir þeirra Eggerts ok Magnúsar lögmanna, var hann gamall, ok kalladr af mörgum hinn lærdi Íslendíngr, fèkk hann ok ord mikit fyrir sidprýdi ok trúfesti. Miklir óþerrar voru fyrir sunnan um sumarit, ok illr heyskapr; fengu ei þeir menn, er þar voru í austrsveitunum vanir at hafa 20 nauta, meira en fyrir 5 eda 6, ok lágu tödur á völlum allt sumarit, voru 200 hestar af Innrahólms túni, en 160 færra en vant var af Leirár túni. Stephán amtmadr fèkk 600 hesta alls á Hvítárvöllum, en 1200 voru í medalári, þó band væri þar nokkut smátt optast. Hey voru mjök vída kolbrunnin, eldividr ónýttist þar ok nálega allr, svo at menn voru í hinni mestu naud; var brennt steinkolum í Reykjavík, ok því er eptir var af þófaramylnunni. Á því sumri sídla, hinn 26ta dag Augusti, fór Gudmundr prestr í Adalvík á skipi til Skutulsfjardar kaupstadar, med 8 bændum ok 3 ödrum; var hann vanr ádr at fara á því skipi þángat; þeir týndust allir. Þann dag týndist ok bátr í Eyrarsveit. Nær þeim tíma lagdi einnig út at sunnan Gudmundr Ingimundarson í Breidholti med jagt sína vestr, hún var lek ok reidalítil, ok hefir sídan hvergi fram komit, en þaraf höfdu margir tjón mikit. Sótt gekk í Múla sýslu, ok öndudust þrjár presta-ekkjur; var ein, er átt hafdi fyrrum Grímr prestr Bessason, adra Árni prestr Skaptason at Hofi. Þar kom eitt skip, er seldi matartunnu á 10 dali, fyrir þá sök, at konúngr hafdi selt þeim fyrir þat verd, ok skilit á at hèr skyldi ei dýrra selja. Jens Klog,

bródir landlæknis, stód fyrir enskri höndlun í Reykjavík, ok drakk sèr bana, en Runólfr Klemensson höndlari drukknadi í tjörn einni, er hann var nýstadinn upp úr sótt. Þá var messuvíns skortr hvervetna, ok sendu margir til konsúlsins enska eptir raudavíni, ok keyptu dýrum dómum. — Haust var gott fyrir nordan; sást þá halastjarna, ok svo öndverdan vetrinn; sídan gjördi hinar verstu hrídir ok jardbönn nyrdra ok vestra, en fyrir sunnan Hvítá var þá allgott. Var nú lógat hinum mesta fjölda peníngs, ok þá hrakti 70 fjár í Haga-Vadal, er Þorkell bóndi Gunnlaugsson ok Ragnheidr Davídsdóttir Skevíngs áttu, hinn 30ta dag Novembris, ok fleiri urdu skadar. Þat var eitt, at tveir menn týndust af báti, er fluttu Þorvald prest Bödvarsson í Önundarfirdi, en honum vard borgit á skeri. Þann tíma fór fram dómr yfirrèttar í gimbrarmáli Hallgríms prests Thorlacius, ok var Koefod sýslumadr talsmadr hans ok fylgdi fast hans máli, en var sektadr um 100 dali fyrir þat hann þótti heldr ófyrirsynju hafa sneydt fyrir rèttinum at Stepháni amtmanni Þórarinssyni; lèt hann þat lítt á sèr festa; en Hallgrímr prestr var dæmdr til at svara málskostnadi, ok halda embætti. Þá lagdi út skip Jóns Parker, konsúlsins enska, med fisk sinn, ok hafdi hans fiskataka horft landsmönnum til ærins skada, en skipit brotnadi fyrir Nesjum sudr ok keypti Koefod allan fiskinn vid litlu verdi, ok seldi sídan sveitamönnum fyrir landaura, ok hóflega, svo þat kom at gódu haldi mörgum mönnum, en hann hafdi ábata mikinn.

## XLVII. Kap. Hardæri ok manntjón.

1812. Eptir nýárit batnadi nokkut vedrátt, en þó var vída jardlaust, gekk þá sótt í Reykjavík, ok dóu margir, var einn Philippus Gunnarsson signetasmidr, Philippus sonar prests frá Kálfholti, Gunnarssonar, Einarssonar, Þorsteinssonar í Þykkvabæ; hann var höndlunarmadr. Sú sótt hafdi ok gengit um Mosfellssveit ok Árness sýslu, ok nokkut svo um Leirársveit; urdu hjónaskilnadir nokkrir; sögdu menn hana komit hafa med timbrskipi norsku. Kýrbóla var þá sett mönnum allvída. Á þorra versnadi aptr vedrátt ok kom hafís, var ekkert gagn at honum, nema einn hval rak, mikinn ok gódan, fyrir Byrgisvík á Ströndum; þar var ádr etid upp nálega allt þat er skinnkynjat var; hákallar nádust ok sumstadar í vökum. Þá týndust 8 menn af skipi undir Jökli, ok urdu fleiri misfarir; gjördi hin hördustu jardbönn af blotum hvervetna austan ok nordan lands, ok voru margir menn þrotnir at heyjum á gói; hèldst þessi vedrátt alla stund, ok voru hörkur miklar á páskum, svo hestar frusu til bana vestra; tók þá at falla stórum bædi

saudfè ok hross fyrir nordan land, ok hvervetna annarstadar, ok þótti þessi vetr einna strídastr ordit hafa um 29 ár hin næstu, en bjargir mjök bannadar af sjó ok ödru. Á honum ofanverdum bar þat til at Hrísum í Helgafells sveit, á páskadaginn, at barn brann til bana, fèll úr höndum eldra barni í graut sjódanda, ok skadadist hitt, er þat vildi bjarga. Þá var margt skorit af kúm, ádr bati kom, en þat var seint; skánadi nokkut í midjan einmánud, ok nádust þá marsvín nokkur vestra, ok stórvidir af herskipum. Sydra var gott til góe, en þá fèll mikill lognsnjór ok tók fyrir fiskafla, en allgódr var aflinn vestra ok jardasamt. Skip týndist af Sudrnesjum í Fuglavík, med 8 mönnum, ok annat á Látrum vestra, af ofhledslu, nádust adrir en formadrinn. Tvær konur urdu úti á Hörgárdalsheidi, ok meiddist Jón prestr Jónsson í Audbrekku, hann fèll á skídum. Þá appelleradi Hallgrímr prestr Thorlacius öll mál sín til hæstarèttar, en Stepháni amtmanni Þórarinssyni hafdi verit eptir látid at sækja Koefod framar til sekta, ok vard ei af því. Var þá enn allt vorit kalt ok hart, med köstum stórum, ok tók mjök fyrir afla þar sem hann var, en ís lá fyrir nordan, felldu þá enn margir peníng, ok voru hin mestu hardindi um allt land, nema nokkut skárst í Rángárvalla sýslu; gekk blódsótt, ok dó fólk sumstadar úr vesöld, en þó var hitt med allri furdu, hve lítid vard af því. Þat bar þá til, midvikudaginn fyrir uppstigníngardag, at týndust 7 skip í Önundarfirdi, ok hit 8da litlu eptir eda ádr, auk þess skada er fyrri vard, voru á 4 menn hins 6ta tugar, en ekkjur urdu 16 eptir, hafdi þar ádr varla fengizt kvik kind, en þann dag hlódu flestir menn, ok drukknudu þeir allir er eigi köstudu út, ok sídan fèkkst þar enginn fiskr; voru þá enn svo hjátrúargjarnir menn á Vestrlandi, at sumir eignudu þetta því, at Ebenezer Þorsteinsson, er þar var þá settr fyrir sýsluna, ok fyrri bjó í Lángey, mundi vera þess valdr, þvíat sumir þeir menn, er týndust, höfdu mælt í móti honum á þíngi, en hann haft nokkut svo í heitíngum vid þá; var hann kalladr lítt at sèr í lögum ok ödrum vísindum, en trúmadr lítill, ok brögdóttr, ok rèdi hann miklu vid Ísfirdínga eptir þat. Þá deydi af barnsæng Kristín, kona Runólfs prests, Erlends sonar prests Hannessonar, en af sótt Elizabeth, kona Jóns prests á Rafnseyri. Jens, son Jóns Arnórssonar, er verit hafdi sýslumadr í Snæfellsnes sýslu, gjördist kapellán at Kirkjubóli med Gísla presti Gunnlaugssyni, Snorrasonar. Þá urdu margir menn bráddaudir, bædi á Vestrlandi, Skagaströnd ok vídar, ok var haldit af hákalls áti óhagfelldu; dóu nú fleiri menn en fæddust.

## XLVIII. Kap. Frá Enskum ok ödrum sydra.

Jón Parker, konsúl hinn enski, hafdi vöru, ok vildi enga selja, þó mönnum lægi nálega vid húngrmordi í Reykjavík, hafdi hann sykr mikit hvítt til at bera á stígvèl sín, til at gjöra þau gljá, en seldi engum; sídar var þat, er vara fèkkst hjá honum, ok ei nema fyrir hinn dýrsta mat med afarkostum; komu til hans skip frá Englandi, ok höfdu ei á nema grjót, því hann hafdi heitid þeim nógum fiski, en þar vard lítt af, hafdi hann viljat hafa fisk allan, en Castenskjold amtmadr ok Koefod tóku fyrir þat. All-óvinsæll gjördist hann, ok lèt illa til landsfólksins, ok þótti nokkut óhlutvandr, en þènari hans var þó verri, í því er hann mátti, ok spillti honum jafnan, en sumt bar hann ei rètt á milli manna; sá var Óli Sandholt, Egils son ok Aniku, kerlíngarinnar hinnar grænlenzku. Efna lèt konsúlinn til skips til utanfarar, ok gekk seint smídin, þvíat þeir voru fleiri sem honum voru afhendir, en beran fjandskap þordi enginn at sýna, sakir stjórnarinnar ensku. Dönsk skip komu út, ok var 24 dali matartunna sydra, ok med slíku óhófi var allt, ok þó miklu mest kramvaran, en þat var raunar, at bankósedlar voru í engu verdi ordnir, höfdu þó kaupmenn þá haft ábata stóran á íslenzkri vöru í Kaupmannahöfn, því þær voru þar dýrri en dæmi höfdu til verit, þó þat væri mest í móti bankósedlunum, ok enn meiri dýrleiki var þar á enskum vörum, kaffe, sykri ok indigói, því þat fengu þeir med gódu verdi á Englandi, fluttu þeir þat ekki híngat fyrir þá sök, at hèr vard eigi jafnmikit fyrir gefit, enda voru nú sumir þeirra lausir vid skuldir allar, ok höfdu fleiri en eitt skip í förum ok höfdu þó lítt spart á haldit; einn þeirra var Vesty Petræus, hann var þá skuldlaus, ok hafdi ásamt höndlun í Vestmannaeyjum. Bjarni kaupmadr Sigurdarson kom einn út, hafdi hann borit þat fram á Englandi, at undirlagi greifans, at fjárhirzla sú, er hèdan var rænd, hefdi heyrt til landinu, en ei konúngi, ok nád henni med þeim hætti, var hann ok vel virdr fyrir dugnad sinn, ok hafdi komizt á stuttum tíma med útsjónum sínum á Englandi úr skuldum miklum, ok fengit af þessu mikinn frama, ok Danabrogs riddara nafnbót af Fridriki konúngi. Sögd var þá óöld frá Englandi at sumu leyti; en hinir Ensku, er hèr voru út, ok ætludu at sækja vöru, fengu eigi fiskinn, er amtmadr ok adrir lands formenn sydra lögdust í móti; kom þá í þá gremja ok spilltu ædarvarpi ok drápu fugl; þeir spilltu einum hólma fyrir Magnúsi Stephensen etazrádi, ok svo vídar, ok eitt sinn gengu þeir upp á Engey nokkrir saman, Savignak ok skiparar, ok drápu þar fugl, en tveir menn íslenzkir voru þar at starfa at fiski, ok vildu meina

þeim þat, gripu þá hinir Ensku verjur, ok var Savignak fyrir, en annarr hinn íslenzki hljóp at honum ok hafdi hann undir, þá komu hinir at, ok lagdi einn í höfud hinum íslenzka, ok særdi hann á hnakkanum, en hinn bördu þeir blódugan, ok vard sá þó skjótt heill, en hinn særdi seinna, ok urdu hinir Ensku at bæta þetta nokkru. Svo bar ok vid, at tík konsúlsins hljóp upp í Mosfellssveit, ok drap þar saudfè, ok galt hann fyrir þat fullt verd, en lèt hana sídan í tunnu ok skaut hana, hann lèt ok úti fyrir óspektirnar allar saman þúsund dali edr þvínær í bankó-sedlum; voru þeir þá svo verdlitlir vída í móti gulli ok silfri, at 4 dalir af þeim eda meira fengust fyrir spesíu-dal sunnanlands, ok þó var gull miklu dýrra en silfr eptir tiltölu.

## XLIX. Kap. Brandaveitíngar ok mannalát.

Nú fèkk Hannes prófastr Skevíng Lárusson í Laufási Grenjadarstad, en Gamalíel prestr Þorleifsson frá Hraunum Hvanneyri í Siglufirdi, því hann hafdi þá fengit svo heilsu, at hann var embættisfærr aptr; gjördist Vigfús prestr, er þar hafdi verit, son Eyríks prófasts Vigfússonar í Reykholti, kapellán Eggerts prests hins gamla Eyríkssonar í Glaumbæ. Sæmundr prestr Einarsson at austan fèkk Útskála, ok þóttu þó margir verdugri, því ekki þóttu veitíngar fara mjök at verdleikum, eda tillögum biskups. Sigurdr, son Gísla prófasts frá Odda, Þórarinssonar, vígdist kapelláns-vígslu til Markúsar stiptprófasts. Magnús prestr Sigurdarson frá Miklaholti, er þá bjó í Borgarholti, ok lengi hafdi kránkr verit af líkþrár tegund, deydi á öndverdu sumri, en um midt sumar Erlendr prestr Vigfússon gamli í Nesþíngum, bródir Gudmundar tukthússrádsmanns, fèkk Jón prestr Ásgeirsson í Stapatúni kallit til fulls. Þá dó ok Helga frá Sídumúla, er átt hafdi Jón Ólafsson, var hún at Stafholti med Pètri prófasti Pètrssyni frá Gördum í Stadarsveit, ok dóttir Gudmundar sýslumanns Sigurdarsonar, er fyrr var á Íngjaldshóli, var hún erfíngi Jóns med testamenti, ok átti ei börn, en útarfar urdu þar margir, ok var bodit upp búit, ok vard allmikit, keypti Magnús etazrád Sídumúla, en Þorbjörn gullsmidr á Lundum, bródir Jóns, ok adrir, keyptu adrar jardir. Þá var Julius hardr, med kuldum ok hrídum sem á vetri fyrir nordan, ok hit mesta grasleysi ok bjargleysi hvervetna, batnadi fyrst vedrátt med Augusto, ok kom lítt at haldi, því at peníngr var gagnslaus, en vellir þridjúngi verri en hit fyrra árit, ok engjar þó enn verri. — Castenskjold amtmadr reid nordr um midt sumarit til Mödruvalla, ok vard ei getid eyrindis. Þá fengu sýslumenn

lausn af embætti: Jón Jónsoníus í Ísafirdi, ok Jón Þorleifsson í Vestmannaeyjum.

## L. Kap. Um handbók, hreppstjórn ok óáran.

Þá kom út bók ein, er köllut var „Handbók fyrir hvern mann", hafdi skrád Magnús Stephensen etazrád, til skýríngar yfir instrúx hreppstjóranna, ok til upplýsíngar um allflest landslög er þá voru, ok komu vid fátækum ok framfærinu, var hún at því þörf ok vel samin, en þó þótti nokkut svo undarlega á vikit um náúnga-framfærit, at varla voru börn skyldut til vid foreldra, at því er honum sýndist, ef þau áttu þeim ei annat at þakka en tilveru eina; þurfti minna til at herda suma upp í móti skyldu sinni, en slík óvarkár eda óþörf geta frá vitrum manni ok ríkum; hún mælti ok allmjök í móti húsrannsóknum hjá bændum, er sumum hreppstjórum þóttu þó naudsynlegar, þar sem vid fyrirhyggjulausa ónytjúnga var at eiga; þótti mörgum slíkt koma lítt at haldi, er ómegdin fjölgadi svo mjök, bædi af hardærinu, þar sem engir fengu vistir nema þeir, sem gagnlegastir voru, ok svo af því, at hin nýja regla gaf mörgum efni til at vísa á hreppa, ok náúnga tillögin af tekin; urdu þá þýngslin mikil á bændum ok fóru vaxandi, ok þó var embættismönnum, prestum ok sýslumönnum at því leyti verra, sem þeir fengu heldr mínkun en aukníng á tekjum sínum, en allt þurfti svo dýrt at kaupa. Má þó ætla, at tilskipun um hreppstjórana hafi nokkrum ókostum afstýrt, því at hreppstjórar hefdi vid ekkert rádit, í þeirri tíd sem þá var, heldr en fyrri, ef slíkir hefdi verit sem ádr. En medan bændr ok adrir landbúar voru svo atþrengdir, fóru þjónar höndlunarmanna yfir med varníng sinn, ok okr, helzt fyrir sunnan, ok drengir þeirra í Reykjavík bárust á stórlega, þar sem landstjórnarmenn hinir lægri fengu varla lèrept í skyrtu. Var þá ok prentverk dýrt á bókum, sem von var til, ok fátt vard prentad sakir eklu pappírs ok annarra tilfánga, grunadi af því suma, at prentverkinu mundi halla; — klædi ok lèrept voru allra dýrust, svo at med öllu voru ókaupandi, ok gyldti ein klædis-alin 16 dali ok allt at 30, ok því var líkt um skóföt ok hatta, ok margt annat. Hreppstjórnin var nú meira lögud til politie-stjórnar en fyrr hafdi verit, en sídr mátti beita forskriptarlausu laga valdi, ok var þat vel, ef gód hefdi verit lögin um ómagaframfærit, ok hagleg landinu. En þó at margt væri vel fyrir skilit, ok afstýrt mikit flakki, vard þat þó hvorki at fullu, nè atdugat naudstöddum, því at sumir hreppar voru ofþýngdir, ok varla fèkkst at einum hrepp væri lagt frá ödrum í svo mikilli óáran, var eigi vili

manna gódr til þess, ok eigi studt at því, at sýslumenn mætti slíku ráda sem þurfti, en allt þrengdi at í senn: bjargarskortr af landi ok sjó, höndlunardýrtíd ok matvöru brestr, því at þær fluttust litlar, þó at skip kæmi á hafnir, vedrátt ill ok heyleysi ok undangengin peníngsfækkun, nýtíng allill ok yfrit stutt sumar, ok gekk þetta nálega um allt land, svo at horfdi til hins mesta fellis.

## LI. Kap. Frá ýmsu.

Sótt nokkur fór þá austan eptir landinu, ok dóu nokkrir menn, var einn Þorsteinn prestr á Skinnastödum, er fyrr var á Eyjadalsá, bródir Íngjalds prests í Múla, en fadir Ebenezers í Lángey, er settr hafdi verit fyrir Ísafjardarsýslu, Gudmundar prests, er sídan hèlt Helgastadi, ok þeirra systkina. Á því sumri kom út Sigurdr, er kalladr var Thorgrímsen, sonr Bjarnar prófasts Þorgrímssonar at Setbergi, ok skyldi á ödru ári taka vid landfógetadæmi af Frydensberg jústizrádi, þótti mönnum hann mikinn ok skjótan frama fengit hafa, var hann ok kalladr vel at sèr. Þá kom ok út Gudbrandr, son Jóns sýslumanns á Móeidarhvoli, ok var settr fyrir sýslu á Bardaströnd, þvíat Gudmundr Skevíng í Haga fèkk ei at halda, þótti þó sumum eptirsjá í Gudmundi, því at hann var kalladr röksamlegr ok allrèttdæmr, þó at hann þætti fègjarn; fór Gudbrandr at sunnan vestr; hann var nokkut hár madr, ridvaxinn. Koefod sýslumadr kvæntist, ok fèkk Járngerdar, dóttur Bjarna riddara Sigurdarsonar, hugdu menn hann óslyppan, sídan hann keypti fiskinn enska ok seldi Íslendíngum; hann fór sídan utan, ok Finnr Magnússon, Savignak ok Petræus, Strube ok Gísli Símonarson, ok flestir höndlunarmenn í Reykjavík, ok sumstadar annarstadar, þó ei væri þá fridvænlegt at spyrja, en óár ok dýrtíd sem mest í Danmörku; konsúlinn enski fór ok utan, ok þerna hans. Þeir fóru á ensku skipi, er skonnort kallast, konsúlinn ok Savignak, ok Malmqvist, en Finnr Magnússon ok Jón, son doktors Hannesar biskups, á skipi Bjarna riddara, ok Gunnlaugr Oddsson, skagfirzkr stúdent, hafdi bródir Castenskjolds bedit um stúdent íslenzkan at kenna börnum sínum, ok var hann tekinn til þess, en kaupmenn flestir fóru á skipi Gísla Símonarsonar; en mælt var, at skonnortan enska hafi mætt í hafi höndlunarmanni úr Hafnarfirdi, er Thielsen var kalladr, ok siglt á skip hans flatt af hrekk, en bugspjótit rakst á mastrit ok brotnadi af, ok rifnadi skonnortan til skemmda. Þá var mál í Húnavatns þíngi, hafdi madr getid barn vid stjúpdóttur sinni, ok dæmdust bætr á Sigurd Snorrason sýslumann í sakamálarèttinum, ok voru vefengdir dómar hans. Stuldar-

mál voru ok í Skagafirdi, ok voru tveir bændr á Höfdaströnd dæmdir í þrælkunarhús, ok vídar hófust stórmæli. Thielsen, sá er fyrr var getid, kom út, hann átti hús þau er Flensborg voru köllut, ok þó í sameign vid fleiri, þau brunnu skyndilega, ok komst faktorinn út um glugga med yfirsæng sína, en ekki hafdi Thielsen á skipi sínu annat en hafra eina. Þeir skipverjar sögdu mikil ótídindi; höfdu Frankismenn farit med óteljandi hers á hendr Rússum, en Rússar voru fyrir med ærnum styrk, ok fóru undan þeim, ok brenndu vistabúr sín mikil ok forn, svo at ei mætti þeim at lidi koma, ok ætludu svo at kvía þá; var ok mælt, at Svíar hèti Dönum ófridi, ef þeir vildi eigi verja land sitt Frankismönnum, ok væri þeir svo í klofanum en þyrdi ei at hlýda Svíum; en þetta snerist til mikils ófarnadar. — Þá fèkk Jón prestr Bachmann Miklaholt, son Hallgríms læknis. Var í þann tíma mikill fjöldi manna bjargarlaus á vetrnóttum ok leit all-illa út, ok aldrei hafdi svo lengi mannfall undan dregizt vid jafnmikla þraung; var sá hinn þridi vetr er hardastr var.

## LII. Kap. Ymsir tilburdir ok ástand.

Ýmist spurdist þá út híngat um Jörgensen, ok reyndist ekki satt; ok þá urdu svo miklir marsvína rekar, at fá eru dæmi til: rak á Kolgrafafirdi vestr mikinn fjölda, sögdu menn 16 hundrud hafa verit talin; þar tók Stephán Skevíng sumt gjald fyrir, en sumt Haflidi í Grundarfirdi, hann var Helgason, Steindórssonar sýslumanns í Hnappadal, Helgasonar; var sent í allar nálægar sveitir, ok selt hálft þat er Haflidi átti þeim er til komu, en hálft gefit, en Stephán Skevíng seldi sinn hlut allan, kvadst mundu gjöra reikníng fyrir, þó lagdi Sigurdr Gudlaugsson, prófasts frá Vatnsfirdi, er settr hafdi verit fyrir sýsluna ok hafdi húsmennsku at Gudmundar Sigurdarsonar á Hallbjarnareyri, þat til, at med gódu verdi væri selt. Sudr í Njardvík voru ok rekin upp 100 marsvín, ok var Ari fyrir því ok átti þau öll, þar voru á 600 vættir spiks ok 60, en hver vætt gekk á 2 dali í bankósedlum. Á Ströndum rak 3 hvali, ok reidarkálf fertugan í Hrútafirdi, vard mörgum þetta þá til bjargar. Anna Sigrídr, amtmanns dóttir á Mödruvöllum, gat þá barn vid Páli, þènara födur hennar, syni Þórdar prests á Völlum, Jónssonar prests, Halldórssonar, en dóttursyni Jóns prests Gudmundarsonar á Melstad; hann hafdi verit alinn upp med módurfödur sínum ok kalladist sídan af því Melsted; var barnit sveinn ok hèt Páll, ok tók amtmadr á þeim med gódri stillíngu, var Páll látinn fara til Gunnlaugs Briems sekretera um hríd, ok fèkk amtmadr sèr annan þènara:

Benedikt, son Jónasar prófasts Benediktssonar á Höskuldstödum. Á því hausti voru 6 dalir gefnir fyrir fjórdúng af smjöri sunnanlands, en 5 fyrir á, 10 fyrir saud, ok budu þó sumir kaupmenn meira; keypti ok Stephán amtmadr á Hvítárvöllum 100 lamba fyrir 300 dali, ok 60 voru bodnir fyrir kú; færdist slík ótíd frá Sudrlandi til Húnavatns sýslu, ok þadan austr ok vestr, ok kom at lyktum jafnmikil í hinar fjærstu sveitir Sudrlandi, en sumpart hófst dýrtíd í Eyjafirdi; en þat var mest af falli því, er á bankósedlum var, at allir hlutir voru svo dýrir kalladir, ok meira en þeir voru þá enn í raun ordnir á móti öllu ödru, en peníngar fengust nálega engir adrir, ok má af slíku sjá hve mikit rýrnudu gjöld öll ok landskuldir, þar sem þeir komu því vid sem gjalda skyldu, at svara þeim í bankósedla reikníng, en því komu þó ekki allir vid lengr, ok gátu sumir til, at því lengr sem almenníngr tregdadist at svara því, er nokkut sannlegt væri, því frekara mundu nokkrir at gánga seinna, er þeir mætti koma því vid; voru nú landsdrottnar nokkrir teknir at ná fyllri skilum en verit hafdi, en þó var þat allstadar at gjöldin rýrnudu mikit enn, ok þóttust þó þeir, er svara áttu, fá hardkeyptara en ádr, því at engir gættu þess, at líkja því vid gjöldin, hve miklu dýrra þeir seldu ok keyptu alla hluti sjálfir, en fyr hafdi verit. Þó fylgdi þat mergd þeirri, er koma tók af bankósedlum, at fátæklíngar margir, þeir er konúngi áttu at svara landskuldum eda ödru, áttu hægra med þat, ok at ná hagnadi sínum, en hit fyrra árit, en sumir nýttu sèr þat tækifæri til at kaupa jardir, ok höndlunarmenn, er vissu þat gjörla, at eigi mætti svo lengi fram fara, ok at lagaverd lægra mundi hljóta at setjast á bankósedla um skammt, en þángat til, ýttu þeim nú fram, ok lètust gefa gódan kost ef þeir tæki spesíu fyrir 4 eda 5, ok af því fengu margir menn þeim silfr eigi alllítid.

## LIII. Kap. Höfdíngjaskipti.

Sumar þat, er þá var af lidit, hafdi jafnan Ólafr Stephánsson geheimeetazrád í Videy verit mjök hrumr, svo at eigi komst hann úr stofunni, misti ok nokkut ráddeildar sinnar; en um haustid í October mánudi lagdist hann, ok lá mánud, ok vænti burtfarar sinnar, er mælt hann hafi ok talat til vid sonu sína, ok bedit þá gjöra gott fátækum af fè sínu; hann andadist hinn 11ta dag Novembris, er tvo vetr skorti á 50 sídan hann tók amtmanns nafn, ok var jardadr 15 dögum seinna; voru vid útför hans engir adrir en börn hans ok barnabörn, Brynjólfr prestr Sigurdarson frá Seli, Árni prestr Helgason frá Reynivöllum, ok

líkmenn, enda gjördist þat þá ok tídska, at hafa svo lítid vid útfarir; þá voru 8 ekkjur í Videy, ok lètu þeir brædr þær allar vera þar fyrst, nema ein fór at Lágafelli til Bjarnar sekretera: Kristín, er átt hafdi Jón prestr Grímsson í Gördum, ok voru lagdir fyrir hana 300 dalir. Af hinum voru helztar: Ragnheidr Þórarinsdóttir, ekkja eptir Jón Skúlason landfógeta, ok Gudrún Skúladóttir, er átt hafdi Jón Snorrason, sýslumadr; Ragnheidr fór sídan austr at Hlídarenda, til Vigfúsar sýslumanns frænda síns, er þá var kansellírád ásamt. Skjöldr var látinn á kistulokit, ok voru í 10 spesíur. Þeir brædr skiptu med sèr, ok seldi Björn sekreteri etazrádi Reykhóla fyrir Sídumúla ok 19 hundrud dali, en hann vildi fá þá konúngi fyrir Videy. Gullpeníngi födur síns þeim hinum mikla, er konúngr hafdi gefit honum fyrir velgjördir hans, ok virdr var til 60 dala, er sagt þeir hafi skipt í sundr, ok svo stiptamtmanns-kjólnum; var sídan Magnús etazrád ödru hverju í Videy um vetrinn, ádr hann færi þángat alfarinn, en setti Ólaf son sinn fyrir búit á Innrahólmi; þótti mörgum skipta um leigumála á jördum ok greida, þvíat misfarit var þeim fedgum um þat, ok var þó Magnús Stephensen mörgum greidagjarn sjálfr; ok mörgum landsmönnum þótti söknudr mikill at þeim, er frá var fallinn: hafdi hann verit hèr ædstr allra landsmanna at mannvirdíngum, ok hafit marga sína frændr, ok svo adra nokkra, verit ok ágætr at gódleik vid snauda menn, ok mannkostum fleirum, ok svo hamíngju; en alþýda kalladi Magnús etazrád festast med fènu, sem marga adra, ok vitum vèr eigi hvat sannast er í, þvíat slíkt er opt mjök rángdæmt, en eigi spardi hann þá fè er honum þótti nokkut vid liggja.

## LIV. Kap. Hardæri ok mál.

Þá var fiskafli nokkurr fyrir Jökli, en lítill á Innnesjum sydra, var sagt at vestan, at fyrir sunnan Jökulinn hefdi tekizt nokkurt mannfall; hófst vetrinn strídlega, en á ödru túngli gjördi kyr vedr ok gód, ok hèlt þeim sídan til mids vestrar, en stundum voru þeyjar ok sunnan vedr mikil ok mjök umhleypíngasamt þadan af. Þá var mikil sudrferd af vermönnum, ok kærdu þeir þat, at enginn fengi ferd af Akranesi hjá bændum, ok engum hesti vildi Magnús etazrád láta koma þar fyrir. Svo var þá mikil nægd komin af bankósedlum á einu misseri, sídan þeir fengust nálæga engir, at enginn eins dals sedill var tekinn á Sudrlandi meira en á 5 fiska, ok jókst æ dýrleiki á öllu; gjördust stuldir ok hrifsan vída, en embættamenn áttu þat þá eitt med ödru verra en ádr med málaferli, at hvergi fèkkst pappír, ok þurfti þá þó

sem mest á at halda. Sóttin stakk sèr nidr vída, ok lágu margir hættilega, en sumir lengi, dóu þó fáir, nema adrir sjúkleikar kæmi til. Gjördist hin mesta umferd ok vard ei hamin, þvíat bjargleysi var hvervetna. Miklu fleiri dóu þá en fæddust, ok af þeim drukknudu 30 menn. Þá voru mál mörg; var fyrir austan í Múlaþíngi strákr einn, sekr um stuld, haldinn af hreppstjóra; hann hafdi haldit honum í sjálfheldu nokkurri um sumarit, en sídan lèt hreppstjóri hann í hús, nádi hann þá kjöti nokkru, ok át meira en honum var gott, því hann var dreginn ádr, en sídan dó hann; var Þórdr sýslumadr Thorlacius utan, en hreppstjóri þessi rèdist um vid annan fornan hreppstjóra, um þat, hversu haga skyldi grepti hans, rèdu þeir þat af, at ekki skyldi hann til kirkju flytja, ok fyrir því at jörd fèkkst þá ekki, er þeim leizt at grafa hann í, kom þeim þat saman, at þeir fluttu hann fram á mid ok söktu í sjó, ok drógu á hákall. Jón Vídalín, bródir Geirs biskups, var gildlegr madr, hann hafdi lengi verit stýrimadr á Indíaförum, ok margan straum vadit, ok kvænzt utanlands; hann var sundmadr mikill, ok knálegr at öllu; sídan hafdi hann haldit gestgjafahús í Kaupmannahöfn, en nú lengi verit med bródur sínum; hann var settr þar fyrir sýslu, ok kom þetta mál fyrir hann. Bóndi einn í Árnessþíngi, er Gottsvin hèt ok var Jónsson, Gottsvinssonar, bjó í Háholti ok Steinsholti, virdr af alþýdu ok þótti bjargvættr, því hann var vid efni; hann átti þá konu er Kristín hèt, Magnúsdóttir, ok var hún illviljud; Sigurdr hèt einn son þeirra. Gottsvin komst í stuldarmál um vetrinn; þar var lögsagnari Steindórs Finnssonar Jón Jónsson frá Móeidarhvoli sýslumanns, hann dæmdi í því máli hardara en Steindórr vildi, ok vard fyrir fèsekt nokkurri, en Gottsvins verdr enn getid. Þá var Þórdi kansellírádi, sýslumanni í Þíngeyjarþíngi, falit á hendr dánarbú Gudmundar sýslumanns í Krossavík; var þar allt heldr óreidulegt, ok skuldir stórar á komnar, svo mikit sem þar hafdi verit saman komit, en Hólmfrídr, systir Gudmundar, er Oddr Stephánsson hafdi átta, var flutt sudr at Sídumúla til Pèturs sýslumanns, sonar síns; hann var kalladr Ottesen. Í Borgarfirdi sunnan Hvítá var hormál, ok hafdr fyrir Jóhannes Lynge Rasmusson, bródurson Fridriks kaupmanns á Akreyri, hreppstjóri á Hvalfjardarströnd, en Þórdr bóndi á Medalfelli ok Ólafr á Þyrli, Þorsteinssynir, gengu eptir því. Stúlkan sem dó var bródurdóttir þeirra, dóttir Jóns í Kalastadakoti, en ei má gjörla segja hversu Jónas sýslumadr Skevíng lèt lykta, hann hlífdi sèr vid stórmælum, þeim er hann mátti, sem gjört hafdi fadir hans, ok hafdi byr til þess; annat hormál var sudr á Nesjum. Mikil var þá ótíd í Reykjavík, fèllu þá svo bankósedlar, at 12 gengu í móti spesíu, ok var þat þó samkvæmt því, er

ordit var utanlands, en ekkert fèkkst af höndlunarmönnum nema med hinum mestu afarkostum, ok vard Castenskjold amtmadr at hlutast til at biskup fengi mat fyrir bankósedla sína; hann tók þá vid forrádum tukthúsisns, ok lèt Bjarna Vigfússon assessor, er kalladr var Thorarensen, kaupa sín vegna fyrir tukthússmenn skippund fyrir 100 dali í sedlum, en þó seldu höndlunarmenn landfógetanum tunnu fyrir 2 skippund, en af sumum tóku þeir skippund á 20 dali. Fyrir ofan Hvítá var enn stuldarmál mikit, ok vandrædi mikil med strák einn, son Gísla í Sveinatúngu.

## LV. Kap. Menn nefndir eystra.

Davíd hèt madr, son Jóns á Mýri, Jónssonar, ok Íngibjargar Grímsdóttur frá Giljá, Grímssonar, systur Jóns prests í Gördum, ok Jóns gardyrkjumanns; hann bjó at Hofi í Öræfum ok vídar í Skaptafells sýslu, ok átti Ólufu Þorvardsdóttur, módur Jóns prests Steingrímssonar í Reykjadal; þeirra börn, sem lifdu, voru Halldórr, er átti Þórunni, dóttur Bergs prests á Prestbakka, ok Símon, hann var daufr ok mállaus, en þó atgervimadr um marga hluti; Davíd var kalladr skýrr, ok uppgángsbóndi, ok málagarpr mikill, kölludu sumir hann Mála-Davíd, ok ekki var hann Þórdi sýslumanni Thorlacius all-audveldr. Sverrir hèt madr þar eystra, er búit hafdi á Raudabergi ok Kirkjubæjar klaustri, ok var Eyríksson, Bjarna sonar á Geirlandi, Eyríkssonar í Holti, Jónssonar, Sighvatssonar; hann var tvíkvæntr ok átti börn mörg med hvorritveggja konu, var einn hans sonr med hinni seinni Eyríkr; Sverrir var daudr fyrir nokkrum vetrum er hèr var komit, en Eyríkr lærdi, ok fèkk þeirrar konu er Gudlaug hèt, Eyríksdóttir, ok bjó at Hurdarbaki í Flóa, áttu þau eitt barn; hún andadist í þenna tíma, ok gekk sídan Eyríkr í þjónustu hjá Þórdi Thorlacius sýslumanni, ok enn fleira hafdi hann sèr til undirbúníngs meiri frama, en fór utan laungu seinna, ok verdr enn getid.

## LVI. Kap. Frá ýmsu.

Þá voru bodnar upp konúngsjardir fyrir sunnan, ok voru bodin mjök há, því at meint var til bankó-sedla; goldnar voru ok skuldir biskups af Commission þeirri, er um þat átti at sjá. Þá tóku þeir brædr stiptamtmannssynir at byggja jardir sínar, ok settu á allan leigumála óframfærdan; þeir brigdudu Bæ í Hrútafirdi af Jóni sýslumanni Jónssyni, er fadir þeirra hafdi selt honum fyrir fjórum vetrum, ok budu ei annat

en jafnmarga bankósedla sem hann hafdi fyrir gefit, en hann þóttist engin efni hafa á at mæla á móti því; fluttist nú Magnús etazrád til Videyjar, ok tók þángat med sèr tengdaforeldra sína, en hafdi þó bú á Hólmi, ok addráttu stórmikla, ok ærinn peníng. Þá komu upp vísur í Eyjafirdi, ok var þetta í þeim:

Nú er haldit niflúngs bod,
nú er bænda standi
óbilandi styrktar stod
stofnud hèr í landi.

Bezta veit ek bæi þrjá,
bændum tjóns at varna:
Niflheim fyrsta nefna má,
Nödrufell ok Hjarna.

Var Jón prestr Þorláksson at Bægisá grunadr um þær, ok reid Gunnlaugr Briem sekreteri heim at honum, en hann synjadi þverlega fyrir, ok er sekreterinn var heim farinn, sendi Jón prestr Magnúsi prófasti Erlendssyni at Hrafnagili vísur, ok bad hann segja einu sóknarbarni sínu, en sekreterinn bjó þá at Kjarna; þær voru þrjár, ok „um siktkunstina," ok var sú seinast:

Sá sem gjarnan siktar adra,
síspanadr eins ok nadra,
allt at færa á versta veg:
skal hann þá ei skilit eiga,
skal hann nokkut fordast meiga
at hann siktist eins ok eg.

Vard þá ekki meira af þessu, því at amtmadr mælti med Jóni presti, ok kvad hann ekki hlífa sèr sjálfum í kvedlíngum.

## LVII. Kap. Hardindi, Castenskjold vard stiptamtmadr, lög ok annat.

Hardindi voru þá mikil, nema á sudaustrlandi, lá vid mannfalli hvervetna, ok hófst nokkut vid sjóinn; voru þá ærin vandrædi, ok dýrtídin svo mikil, at aldrei hafdi slík verit, því þá konsúlinn kom út, ok sídan nokkur dönsk skip, voru bankósedlar eigi sparadir, ok tók þá

nálega enginn fyrir meira en 8 fiska, en sumir minna, ok hètu þó enn löggildir fyrir dal, ok vildu Skagfirdíngar ok Húnvetníngar gjalda þá í fullan skatt, allir þeir af bændum er audgastir voru; fyrir því voru sýslumenn mjök illa komnir, ok prestar engu betr, helzt í Skagafirdi, þar sem þeir höfdu haft ádr tillag af stólnum ok mötu, er ei var upp bætt. Óli Sandholt rèdi þá öllu med konsúlnum. Þá spurdist út híngat at Frankismenn ok Napóleon keisari höfdu farit stórum óförum í Rússlandi fyrir húngrs sakir ok frosta, svo at sá mannskadi reid honum sídan um allt, þar sem hver þjód treystist nú at reisast í móti honum af annarri, er ádr hafdi eigi þorat, en Svíar ok Englismenn kölludu þá Noreg af Danakonúngi. Þá var afskipud stiptis-commissionin, ok var amtmadr Jóhann Castenskjold stiptamtmadr gjörr, en Stephán amtmadr Þórarinsson, er hann hafdi látid þat umbod, fèkk nú konferenzráds nafnbót. Castenskjold reid til Heklu ok tveir hinir Ensku med honum. — Nú kom ok út konúngs tilskipun um bankósedla ok ríkisbánka, skyldi ríkisbánki setjast ok silfr gjaldast af jördum til at standa fyrir honum, átti hverr ríkisbánkadalr at gilda í silfrverdi hálfa spesíu, en hverr í nefndarverdi 6 bankósedla, þó skyldi þetta bod hèr eigi til fulls löggilt vera, fyrr en commission væri haldin, sú er semja skyldi um slíkt penínga verd hèr á landi, ok senda sídan utan til konúngs samþykkis; skyldu vera í henni Castenskjold stiptamtmadr, Árni kansellí-sekreteri Sigurdarson, hann var kominn út, Ísleifr Einarsson jústizrád, Bjarni Thorarensen ok Bjarni riddari Sigurdarson, hann var ei út kominn, ok þótti þó rída á honum; tóku þeir hinir um sídir Sigurd son hans med sèr. Mörg skip fengu hömlun, er út voru búin híngat, ok var af því mjök bágt um allar naudsynjar. Sá madr kom einn út í Reykjavík, úngr at aldri, er hèt Rasmus Kristján Rask, stúdent einn danskr, ok hafdi ritad íslenzka Grammaticam, því hann var allra manna skarpastr til túngumála náms, ok svo vel at sèr í íslenzkri túngu ok ödrum fornmælum, at fáir mundu innlendir fremr verit hafa; hafdi hann fengit styrktarpenínga til híngatfarar, at kynnast hèrlenzku, túngu ok fornfrædum, en fyrst hafdi hann numit íslenzku af Árna presti Helgasyni á Reynivöllum, er þeir voru saman í Kaupmannahöfn, ok reid hann því til Reynivalla at finna hann, ok med honum Gísli Gudmundarson tukthússrádsmanns frá Hjardarholti, er þá bjó á Signýjarstödum, hann bjó sik á leidinni sídhempu ok reidsokkum ok hatti allillum, ok villti á sèr heimild, kenndi Árni prestr hann fyrst ekki, en hann lètst vera bóndi einn af Nesjum sunnan, kunni þó engin tídindi þadan at segja, ok þat furdadi prest, ok spurdi Gísla einslega hverr sá væri svo heimskr, en ekki heyrdi hann á máli

hans at hann væri útlendr, því hann taladi mjök rètt, þó hann væri linmæltr nokkut; Gísli brosti nokkut svo at þeim, ok grunadi þá prest fleira; eptir þat kenndust þeir, ok fagnadi hvorr ödrum, ok gjördu af þessu gaman mikit.

## LVIII. Kap. Jardasala ok skipakomur.

Þá voru þvínæst bodnar upp jardir í Þíngeyjar þíngi, ok svo Vadla þíngi: hálft Múnkaþverár klaustr; urdu svo mikil bodin á sumum, at þúsund dalir í bankósedlum voru bodnir fyrir 10 hundrud, einnig jardir nokkrar undir Jökli. Á því vori deydi Jón prestr Jónsson at Holti undir Eyjafjöllum. — Þá hefir Steindórr sýslumadr Finnsson kansellírád látid af Árness sýslu, ok fengit konúngs lausn, en Þórdr Thorlacius fèkk hana utanlands, ok var nefndr kammer-assessor, fór hann á skipi til Múla sýslu, er Kjartan Ísfjord átti, son Þorláks sýslumanns ok Sophíu Erlends dóttur sýslumanns Ólafssonar; þat hafdi sterk leidibrèf ensk, en þó tóku Enskir þat, ok settu upp í Gothenborg; var þat dæmt rángslega tekit, en ránit rèttist ei at heldr, því at vörurnar voru eyddar, ok sátu þeir þar. — Finnr Magnússon kom ekki. Um sumarit var grasvöxtr gódr, helzt á túnum, en nýtíng bág; þá lètu þeir brædr stiptamtmanns synir selja Hof á Höfdaströnd, ok þá torfu keypti Jakob Havstein faktor, hálft fyrir 500 spesíur, en hálft fyrir þrjár þúsundir bankósedla, ok tók at gjörast ósmár at eignum. — Reynistadar jardir voru ok bodnar upp í Augusto, þær sem í Húnavatns sýslu lágu; þar stód Björn Ólsen á Þíngeyrum fyrir sýslu, því Sigurdr sýslumadr Snorrason hafdi andazt mánudaginn fyrir pálmasunnudag, vetri midr en hálffimtugr, ok átti þá þrjú börn eptir med hinni sídari konu sinni, Íngibjörgu, dóttur Bjarnar prests Jónssonar í Bólstadarhlíd; — hann hafdi átt andstædt vid Húnvetnínga, því hann var nokkut framgjarn, en vidkvæmr í skapi ok þreklítill, en þeir ríklundadir, ok hafdi hann verit máttfarinn lengi ádr en hann deydi, ok eigi getad annazt margar sýslanir. Einnig voru bodnar upp Reynistadar jardir í Saudár hrepp ok Skefilstada hrepp, ok heimajördin sjálf, budu ábúendr uppá sumar, en Reynistad hugdu menn ætladan Birni presti Jónssyni fyrir Bólstadarhlíd, er kammerit hafdi falat at honum, en hann hafdi sett uppá Bólstadarhlíd þrjár þúsundir dala, ok var þat jafnt því sem upp á Reynistad var bodit, ok allt þetta reiknat til bankósedla, ok var því jafnan yfirlýst ádr bod fóru fram. — Húsavíkr skip kom fyrir nordan, en á Eyjafjörd kom Lynge hinn úngi, son Fridriks kaupmanns, ok gaf Rasmusi födurbródur sínum 5 þúsund dali í bankósedlum, ok fór utan

sídan; var med honum annarr höndlunarmadr, en hans vöru átti Kjartan Isfjord; timbr var allmikit á skipi því, er Lynge hafdi, en kornvara lítil, ok flest svo dýrt at aldrei hafdi slíkt verit, því þó tunnan væri eigi seld nema á 20 dali, voru eigi peisur teknar nema á hálfan dal, ok hespur at því skapi. Pappír fèkkst nær enginn ok var þat mikit mein, svo margt sem skjótt þurfti til lykta at leida, ef lögum skyldi gegna, þeim er þá voru; — ok svo mikil naud var, þó gódr væri heyfengrinn, at margir voru at þrotum komnir, en engar naudsynjar at fá. Knudsen kom út fyrir sunnan, ok margir er utan höfdu farit; þar var grasvöxtr ákaflega mikill, ok svo austr um landit, en nýtíng hin versta af rigníngum. Kom út þat konúngs bod, at ekki skyldi þurfa at taka bankósedla fyrir skuldabrèf at svo gjörfu hèr í landi, fengu því eigi Hólamenn at lúka amtmanni þat er eptir stód af verdi Hóla, ok margir adrir urdu þeir, sem ei fengu lokit konúnginum þat er var eptir af stólsjarda verdinu; en sumir tóku til at brigda jardir þær, er fyrir mörgum árum voru seldar fyrir jafnmarga bankósedla, er þá höfdu verit fyrir gefnir, ok horfdi þat heldr til óskipunar, ok þótti ránglæti þeim sem fyrir urdu. Annat konúngsbrèf fríadi menn frá at gjalda procentu-penínga af dánarbúum þeim, er eigi nádu 100 dala virdi. Iktsýki gekk þá vída, ok þúngsinni, ok var margt andstædt. Þá lèt Eggert prestr Eyríksson af Glaumbæ, er hann þóttist þrotinn at heilsu, ok var hálfníræðr at aldri, en þó var hann ern ok hress í sinni jafnan.

## LIX. Kap. Frá Castenskjold stiptamtmanni.

Jóhann Karl Castenskjold stiptamtmadr þótti sumum nokkut órádinn; hann var lèttlátr ok gladlátr, ok sá ei í at hlífast vid smábrot; var eittsinn Húnvetníngr einn í vandrædum fyrir stuld, er hann var mjök gjarn á, sá er Jens hèt; hann var skáldmæltr ok fljótgáfadr, ok hèt stiptamtmadr honum hjálp ef hann kastadi þegar fram vísu um sik; hann kvad:

Merkr hradr gefr upp gjöld,
gódsinnadr tídt vid öld,
sterkr gladr stór med völd,
stiptamtmadr Castenskjöld.

Vid þat fríadist hann at því sinni; — Castenskjold hafdi sjálfr höndlan í Reykjavík, ok stód fyrir henni, ok bar því stundum til orda vid faktóra, ok spillti med því embættisveg sínum vid þá. Þat bar til í Ólafsvík vestr, at þar voru rekin á land 500 marsvína, ok var gefin

megran, en spikvætt seld á 3 dali, stód fyrir því Stephán Skevíng; þar rak sídan ei færri en 12 eda 13 hundrut, ok hafdi Stephán af því plóg mikinn, ok þó margir gagn, en eptirköst veitti þat seinna. Þó sá ekki Castenskjold fyrir tukthúsinu, en vel sá hann fyrir síuu húsi ok byrgdi þat, ok þóttist nú neyddr til at reka alla fánga brott af tukthúsi, ok setti þá á sveitirnar, þó þær væri ofþýngdar ádr, var þó lofat at gjalda sveitunum seinna kostnadinn, en þat vard heldr aldrei, ok eyddist þannig sú konúngs skipan, en illvirkjarnir gengu lausir hvert er þeir vildu, ok var Castenskjold eigi sök á gefin, ok eigi kom bót á eptir; hjónum sleppti hann úr Skagafirdi, er þángat voru dæmd nýlega, ok öllum þóttu þar bezt komin, ok hèt þeim fullri lausn af konúngi; hann sendi ok Stepháni amtmanni á Hvítárvöllum þjóf einn at vestan, er fara skyldi á þrælkunarhús þat; annan þvílíkan sendi hann nordr: Ísleif, son Jóhannesar á Breidavadi, ok dugdi ei þó amtmadr þadan sendi hann aptr, vard hann í Húnavatnsþíngi til meiri ótíma. Honum bar ok til vid Gísla Símonarson kaupmann; Gísli átti konu skagfirzka, ok álitlega sýnum, ok þótti hún hafa ordit barnshafandi seinna en hann átti von á, ok medan hann hafdi verit utanlands, ok grunadi Castenskjold fyrir hana; fór Gísli utan med hana ok barnit, ok seldi þat er hann átti, en þó kom hann aptr seinna til höndlunar.

## LX. Kap. Frá ýmsu.

Þá var enginn fiskifengr fyrir nordan land, en lítill sydra, kom þar skip frá Færeyjum ok faladi fisk, því at þar var þraung mikil, ok fèkk eigi; voru þá mikil hardindi allstadar at spyrja, ok dýrtíd úr hverju landi. Eitt konúngsbrèf kom, þat er kvad á at sýslumenn skyldi skipta hverir eptir adra, en eptir amtmann einhverr, sá er bezt þætti til fallinn í hans amti; eitt kom til biskups í gegnum kansellíit, þat tók af allar frillulífis sektir, ok þótti sidlátum mönnum undarlegt, en lausíngjar fögnudu því, ok ætludu einnig ætti at skiljast um hórdóma. Þá vard Hans Vilhjálmr Koefod sýslumadr yfirbergamts-skrifari í Konúngsbergi í Noregi. Óvild nokkur fèll inn á medal þeirra brædra Magnúsar etazráds ok Stepháns amtmanns, ok ætludu menn leida mundi af Jörgensens málum, en lagdist þó nidr. Þá voru svo mikil sveitarþýngsli, at ekki höfdu meiri verit, ok kurrudu bændr mjök, en í Snæfells sýslu ákærdu þeir sýslumann ok hreppstjóra, samdi ákæruna Ásgrímr Hellna-prestr, er laungum hafdi óeirinn verit. Kýr höfdust ok höfnudust illa, ok voru lètt heyin. Hverr höndlunarmadr í Reykjavík hafdi þá tvær eda þrjár nidrsetur at fæda, en þó voru 300 rádstöfun-

arlausir á Nesjunum, ok voru 100 af þeim fæddir í tukthúsinu á konúngs kost, med einni máltíd á dag; en þó at landfógetinn kæmi á vid Reykjavíkr kaupmenn, at þeir fæddi nokkra menn snauda, drógu böndlunarmenn sik undan því annarstadar, nema sem þeir sjálfir vildu. Konsúlinn enski seldi spesíur fyrir ull eina fyrir 5 pund; kirkjuvín fluttist nálega ekkert. Skip hafdi komit í Stykkishólm, ok var þángat sókn mikil, þar var faktor Bogi, son Benedikts at Stadarfelli Bogasonar, ok barst honum fè mikit í peníngum; 100 bankósedlar er þá sagt hafi bodnir verit fyrir einn saud í Reykjavík, en sumir komu þó þeim sedlum af sèr fyrir silfr, ok ginntu á því einfalda menn. — Þá öndudust þrír prestar fyrir vestan: Jens Jónsson, sýslumanns úr Ísafirdi, Árnórssonar, kapellán at Kirkjubóli, ok sídan Gísli prestr Gunnlaugsson prests, Snorrasonar, er stadinn hèlt, ok Erlendr prestr Hannesson, er þar var þá med honum; Benedikt prestr Pálsson at Stad á Reykjanesi var andadr ádr, ok var hann gamall mjök, þvíat hálfr sjöundi tugr vetra var sídan hann vard prestr, ok voru þá allir Pálssynir daudir. Stephán amtmadr Þórarinsson konferenzrád lèt sýslumenn ok hreppstjóra greina sèr orsakir til sífeldrar aukníngar sveitarþýngsla, ok hversu bezt yrdi rádin bót á þeim, höfdu þau þá enn aukizt nyrdra, af því at stiptamtmadr sendi at sunnan hvern sem uppgefinn var nordlenzkr ok þar kominn, þángat sem hann var alinn, ok þó lengi hefdi búit sydra, á móti þeirri reglu er gjör var um vinnuhreppa, ok tilætlun hreppstjóra–instrúxins ok handbókarinnar, ok olli þat at ei voru virdar atgjördir Magnúsar Stephensens fyrir sudramtid, þar sem enginn hafdi veitt honum umbod yfir því. Margir neyttu ríkismenn þá bragda til at nýta sèr tídina, sem ádr er sagt.

## LXI. Kap. Vetrarfar ok misfarir.

1814. Vetr lá harla misjafnt á ok voru blotar, slösudust margir menn af hálkum um hann midjan, en í Jökulsá í Skagafjardardölum drukknadi Árni bóndi Jónsson sáttamadr, dótturson Eggerts prests Sæmundarsonar, hann hafdi gengit á ána nokkru utar en ísbrú, sú er undir var. Vídast vard vetrinn gódr ok vorit, ok vard mönnum þat til mikillar líknar, svo erfidlega sem áhorfdist; var sóttbætt mjök ok kvefsamt allan vetrinn, ok allt þat ár, dóu enn fleiri en fæddust, ok drukknudu af þeim 48, en nokkrir dóu í hardrètti. Þá andadist Pètr, er fyrr bjó í Gördum í Stadarsveit, ok stadit hafdi fyrir sýslum, Pètrsson prests á Raudamel, Einarssonar, at Stafholti, med Pètri prófasti syni sínum, ok Halldórr prófastr í Hítardal, Finns son biskups. — Var þá í þann

tíma á annan hátt ordin skipun á skóla, en fyrr hafdi verit fyrir nokkrum vetrum, leiddr inn þýzkr læríngarháttr í ríkin, til raunar, á þann hátt, at lektor var einn formadr skólans, sá er helzt las fyrir í gudfrædi, en hinir adrir hètu adjuncti, ok lásu þeir allir fyrir öllum piltunum sitt hverr, en enginn var yfir annann bodinn; var þar þá einn í skólanum Snorri, son Bjarnar prests, Snorrasonar prests hins gamla at Húsafelli, hann átti heimili í Reykholti, at Eggerts prófasts Gudmundarsonar, ok var þar módir hans; honum þótti þat, at hann kæmist seint úr skólanum, ok væri þat vafit fyrir sèr, en sumir segja hann hafi kvidit því ásamt, at hann mundi krenkjast sem fadir hans, ok grandadi hann sèr med þeim hætti, at hann festi snæri at hálsi sèr, en hratt undan fótunum því er hann stód á, fannst hann ódaudr at eins ok vard eigi vid hjálpat; hafdi þat heyrzt á honum, at hann hefdi kvidit vid at koma heim í Reykholt. — Þá var harla lítill fiskafli fyrir sunnan, ok dýrtíd mikil ok hardindi, en fyrir vestan hjálpudust innlendir af hvalfeng hinum mikla er þar var, ok svo adrir úr ödrum sveitum vid höndlun í Stykkishólmi; var þar keypt mikil matvara frá Nordrlandi ok vídar at, þó at ærit dýr væri, ok kom þat mörgum manni til lífs, med gódvidrum þeim er gengu.

## LXII. Kap. Mál ok mannskadar.

Þann tíma var mál í Skagafirdi, ok hafdi hafizt sumarit fyrir, var ákærdr Sigurdr hreppstjóri Andrèsson í Ártúnum af presti ok sveitarmönnum á Höfdaströnd, um lausakonu eina, er hafdi ordat hann vid sik, því þeir vildu koma barni hennar af sveitinni á hann, þar sem hann hafdi þolat henni at hafa þar dvöl, ok kölludu þat líkindi sem hún bar fram, en sýslumadr dæmdi honum eid, ok málskostnad af hvorumtveggja; skutu þeir hinir til yfirrèttar, ok var þar ekkert gjört úr ákærunni; þeir kærdu hann ok fyrir amtmanni um sveitarreiknínga, ok þóttu honum þær sakargiptir einkis verdar. Enn í Snæfells sýslu var kæra mikil um reiknínga, á Jón Jónsson, hreppstjóra vid Hellna; þar var ok madr dæmdr til þrælkunar ok kagstrýkíngar fyrir hrossa stuld, strauk hann ok stal aptr, ok vard sá hreppstjóri fyrir útlátum allmiklum, er hans skyldi gætt hafa. Þar var enn mál mikit um Sæmund prest Magnússon Holm at Helgafelli, vildi Björn verda kapellán hans, son Gunnlaugs smids af Vatnsnesi, ok var honum frá rádit, því at hann þótti lítt til færr at komast í sambönd eda vidskipti vid þann mann, med því hann sjálfr var nær annars hugar um allt, nema mælíngarfrædi; var prestr kærdr um marga hluti, ok mest um

nídslu á stadnum; veitti Björn prófastr Þorgrímsson ok Sigurdr Gudlaugsson sýslumadr, ok Jón prestr Ásgeirsson úr Nes hrepp heimsókn at prests, ok þó med biskups rádi, ok skodudu stadinn, ok vardadi prestr þeim þat sem hann mátti; þótti þeim eigi vidsæmandi, hafdi hann stúngit upp völlinn, ok mýrar þær, er um hann voru, ok hladit garda marga ok stóra hvern utan yfir annan, ok suma yfir torfærur upp í fellit, svo at þat var nálega umfram líkindi, at einn madr hefdi mátt slíku orka, sá er eigi var meiri máttar en hverr annarr óvalinn, ok hafdi hann þó einn at verit; vissi enginn til hvers gardar þeir skyldu vera, ok eptir því var fleira rádlag hans, ok kirkjan fallin med öllu. Hann var stórordr ok hardordr laungum vid alla yfirmenn, ok hvern þann er at hans gjördum vildi finna, ok svo vid kapellána sína, en helzt vandadi hann um vid kaupmenn ok adra, þá er honum þóttu skada landit, var þat med litilli greind, ok lítils var vert um embættisverk hans; vildu þeir nú hafa hann frá kallinu, en hann fór sudr, ok þrasadi vid biskupinn, þar til er honum vannst at hann skyldi vid vera til þess er málin kæmi lengra. Var Castenskjold honum sinnr, en fáir adrir, því hann fór lítt at annarra rádum, ok var æskulegr í háttum, ok gaf sik meira vid kaupskap en stjórn, ok vildi lítt blutast til um rèttdæmi, en var ærit örr vid suma menn, ok var því snúit svo fyrir honum, at þeir nyti meira kvenna, þeirra er þeim voru nákomnar, en sín sjálfra. Þá var Páll rektor Hjálmarsson vígdr til Stadar á Reykjanesi, sextugr at aldri, ok gjördi þat Þorkell stiptprófastr Ólafsson gamli, í Hóla kirkju, ok ætludu menn sú vígsla mundi þar seinast fram fara; fór prestr sídan vestr ok fólk hans. Mannskadar urdu þá miklir undir Jökli, týndust 23 menn, ok margir kvæntir, hèt einn Jón Sæmundarson ok annarr Gudmundr Gudmundarson, Adalsteinssonar, gildlegr madr ok gegn; einn var Jón prentari Jónsson, er á Hólum hafdi verit, ok talinn med betri almúgamönnum, ok formadr sá er Ögmundr hèt, frá Stadarstad.

## LXIII. Kap. Braudaveitíngar.

Um vorit andadist Þórarinn prestr at Tjörn í Svarfadardal, Sigfús son prests, Sigurdar sonar prests at Bardi, bródir Sigfúsar Bergmanns í Vídidalstúngu, af iktsýki ok fleirum meinsemdum, fór þá Sigfús prestr fadir hans vestr til Sigfúsar sonar síns; annarr deydi Jón prestr Gudmundarson á Melstad, ok þá gamall mjök, ok voru þau braud fyrst óveitt, en Mýra braud edur Þykkvabæjar klaustr í Álptaveri fèkk Sigurdr prestr, son Gísla prófasts Þórarinssonar, er í Odda hafdi verit.

Sídan var Halldóri presti frá Hjaltabakka, syni Ámunda smids, veittr Melstadr, því hann hafdi vel hýst upp Hjaltabakka á fáum árum, ok var þá ómagamargr; hann var snillimadr at mörgu, sem fadir hans; en Árna presti Snorrasyni at Felli var þá veitt Tjörn. Ádr hafdi Magnús prestr Magnússon frá Hvammi í Laxárdal fengit Glaumbæ, því Eggert prestr fór þá til Hinriks bródur síns á Reykjum, ok lagdist í kör, en Hvamm fèkk Vigfús prestr Eyríksson frá Reykholti, er fyrri hèlt Hvanneyri í Siglufirdi; hafdi nú Hvanneyri Gamalíel prestr Þorleifsson.

## LXIV. Kap. Stórtídindi.

Fyrst komu nú af skipum eitt enskt fyrir sunnan, ok Hofsós-skip, er legit hafdi vid Skotland, en sídan Bjarni riddari ok Gísli Símonarson, ok fylgdi honum ekki kona hans, einnig skip á Skagaströnd, ok svo önnur fleiri þadan af, var vara svo dýr hjá þeim er fyrstir komu, ok svo felld hin íslenzka, at aldrei hafdi svo verit, nema á Eyjafirdi sumarit fyrir, en bankósedlar voru þá engir at fá, kom ok ei út þat er Commissionin, sú er sett hafdi verit, hafdi ákvedit um þá, ei var heldr stadfest kaup á Reynistadar jördum eda konúngs jördum sydra, er upp höfdu verit bodnar hit fyrra sumarit, ok fèll kammerit frá þeim jördum, er nefndar höfdu verit til, ein úr hverjum landsfjórdúngi, ok þat hafdi viljat kaupa konúngi til handa, ok menn hugdu at ætladar hefdi verit fógetum, er skipa skyldi; var kominn í þat aptrkippr mikill, ok vildi nú enga jörd selja, ok idradi þess at margar höfdu seldar verit; þóttust nú margir mjök hremmdir. Med skipunum komu út tídindi mikil, ok hardla stórkostleg; höfdu allar Nordrálfu-þjódir tekit sik saman í móti Napóleon keisara á Frakklandi, sídan er hann fór óförunum á Rússlandi, ok misti þar hinn mesta styrk sinn, en eptir þat ordit sambands-konúngar hans ok at lyktum sjálfs hans menn fráhverfir honum, ok mest fyrir áeggjan Alexanders Rússakeisara, ok prinzins Franska Bernadotte í Svíþjód, er sídan var kalladr Karl Jóhann, ok svo Englismanna, ok fundit þat til, at hann hefdi eydt mjök Frakkland med útbodum ok annat, hafdi svo komit um sídir, at hann vard yfirbugadr med mörgum ok stórum atburdum ok orustum, ok lèt af ríki, ok fèkk ei at halda ödru en eyju þeirri hjá Ítalíu er Elba heitir, en Frankismenn höfdu tekit yfir sik konúng þann er Lodvík hèt, hinn 18da med því nafni, ok var bródir þess konúngs, er líflátinn hafdi verit. Var nú hvervetna kominn á fridr at kalla, en þó med þeim fádæmum fyrir Danmörku, at Dönum hafdi verit þraungvat svo af Rússum ok Svíum, at þeir urdu at sleppa Noregi vid Svía, var þó

Ísland undan skilit ok vestrlöndin, en taka aptr heit fyrir Pommern hinni svensku. Vildu þá Nordmenn med engu móti gánga undir Svía, ok lètust heldr kjósa at deyja, ok tóku konúng yfir sik: Kristján, son Fridriks, Fridrikssonar hins fimta Dana konúngs, en vid þann ófrid, er þá gjördist med Svíum ok Nordmönnum, gekk af Danakonúngi tilkallit til Pommern; ok voru nú Nordmenn mjök atþrengdir, því Danakonúngr var einnig neyddr til at vera þeim úrhendr.

## LXV. Kap. Um Henderson ok Rask.

see also ch. LXXII.

Med Gísla Símonarsyni kom út prestr enskr, sá hèt Ebenezer Henderson, hann var gjördr út af fèlagi því hinu mikla, er hafizt hafdi á Englandi vid aldamót, ok látid prenta ritnínguna á sinn kost á mjök mörgum túngum, til þess at skipta henni út á medal allra þjóda, ok selja med gódu verdi, eptir því sem þá var, fyrir 4 ríkisort heil, en gefa sumar; var annarr slíkr prestr þá á Rússlandi, hann hèt Paterson ok hafdi fengit lidsinni mikit af Alexander keisara; átti þessi at sjá um útskipti ritnínga ok Nýja-testamenta hèr í landi, ok auglýsa sem flestum; hafdi fèlag risit í Danmörku at hans forlagi, er prenta lèt 5 þúsund ritníngar heilar, ok jafnmörg Nýja-testament. Rasmus Rask fór ok um land, ok leitadi fornfræda; hann reid nordr til Mödruvalla ok þadan snöggvast vestr til Vidvíkr, ok lagdi þat til vid Jón Espólín at prenta lèti árbækr, sídan reid hann nordr aptr, ok austr fyrir landit umhverfis, ok safnadi kvædum úr midtímanum ok ödru því er hann fèkk. Henderson fór yfir sydra, ok fann presta, ok þótti mikils vert um Steingrím prófast Jónsson í Odda; hann kom nordr eptir Rask, ok reid Eyfirdíngaveg til Mödruvalla, þadan til Hóla, ok þótti þar ekki vel um gengit, er prentverkit var á brottu, ok stóllinn, ok dómkirkjan af tekin, sídan reid hann nordr aptr, ok fann presta hvervetna, ok kynntist Jóni presti Jónssyni í Mödrufelli; hann reid austr um land ok grensladist eptir háttheldi, helzt um kristnihald, kynnti hann sik allstadar ágætlega, en kristni þótti honum betri nordanlands en sydra, hafdi ok eigi traust verit at Reykjavíkr kaupmenn hefdi eigi í kýmni um hann; prestar sumir sýndu sik honum þó betri en þeir voru, en hann lagdi allt út til hins bezta, gaf ok landsfólkinu öllu saman lof um trúrækni ok annat, ok heldr meira en minna en vert var; hann var mjök fastrádr í háttum, svo hann breytti ekki dagleidum ok náttstödum, sem hann hafdi ætlat sèr, hversu sem vidradi. Bækr hans höfdu komit út í Höfda, til Schrams, ok átti hann at skipta þeim út mörgum gefins, en hann seldi hverja ritníngu fyrir ríkisort heilt, hverjum

er kaupa vildi, ok sumum margar, en þeir okrudu þær sídan út aptr. Jón prestr Jónsson í Mödrufelli hóf þá útgáfu smá kristindóms-bækl-ínga, sem annarstadar í löndum tídkadist af þeim er efla vildu ritníngarfèlög. Þá lögdu margir menn sik eptir kályrkju ok jardeplarækt, meir en fyrr hafdi verit, en sumir sádu byggi, ok spratt þat nokkut; var gott sumarit vída, en þó grasbrestr sumstadar. Lítid var þá ordit um barnaskólahaldit á Hausastödum, ok eyddist þat sem annat.

## LXVI. Kap. Skipakomur ok utanfarir, ok annat.

Skip komu á Akreyri, Lynge hinn úngi ok Gudmann, er út hafdi komit hit fyrra árit; med honum kom út Þórarinn amtmanns son, ok reid hann þegar heim til Mödruvalla er skipit var landfast. Otti Gudmundsson frá Skildínganesi var þá utan farinn, hann hafdi haldit bú Koefods, ok var fyrir sýslu, en sýslumadr kom út, er settr var fyrir sýsluna: Halldórr, son Gudmundar prests at Lambastödum Þorgrímssonar, stjúpsonr biskups, einnig Finnr Magnússon, ok bjóst hann utan aptr. Lynge fór í Siglufjörd, ok hrakti þá í haf er hann fór þadan, ok spurdist ekki til þeirra fyrst. Castenskjold átti þræsur vid Magnús etazrád, hafdi hann viljat ná Videy, ok bygdi Magnúsi Stephensen út þadan, en hann lèzt mundu sitja at svo búnu, kvad Castenskjold þat vanrækt hafa er honum var um bodit, at bjóda Videy upp; þat hafdi stiptamtmadr ei viljat gjöra fyrir þá sök, at hann uggdi etazrád mundi mest bjóda, en hann hafdi kært þat ádr, at stofan í Videy væri mjök hrörnud. Bjuggust þeir nú til at bera hvorr sök á annan, en ádr Castenskjold færi utan setti hann Bjarna Thorarensen assessor fyrir sitt umdæmi, ok þó svo mjök á sjálfs hans ábyrgd, at hann áskildi at til sín eins skyldi leita, ok einkis annars, um allt þat er honum heyrdi um at gjöra; hann samdi þat ok med Geir biskupi Vídalín, ádr hann færi, at prestum ok kirkjum skyldu gjaldast öll fastagjöld í ullu, tólg eda ótilbúnum vörum, eda þess virdi, en þat var þýngra en annat landauragjald, ok voru þat miklar álögur í jafnillri tíd, enda gjördist hvers manns hugr, sem at ödrum átti at kalla, fús at heimta í þvílíkum aurum, ok var fjarstædast afdrætti þeim er verit hafdi, en kaupmenn gjördu annarsvegar helzt til lítid úr allri ullarvinnu, ok spilltu med því handidnum landsmanna, ok var þat verra en allt annat er þá gekk yfir, því at af því jókst verkleysi ok ósidr ok fleira illt. Þá var óhægd á mörgu, fèkkst ei vidr eda adrir þarfir hlutir í höndlun, ok traudlega kirkjuvín, ok torvelt var at fá fisk, því útlendir budu svo mikit fyrir hann, ok þó allt annat fulldýrt, þat er fáanlegt var, átta

eda tífalt vid þat sem verit hafdi. Duggur hollenzkar komu vid austrok nordrland ok seldu fátt eitt, en þó med betra verdi en adrir; kvádu skipamenn þær margar koma mundu at ödru sumri, ok hugdu margir gott til þess, ef þat gagnadist fyrir kaupmönnum hèr. Þat spurdist, at Árni Sigurdarson sekreteri var dáinn utanlands, en þessir menn fóru þá enn utan: Ólafr son Magnúsar etazráds, Ólafr son Stephåns amtmanns á Hvítárvöllum, Sveinbjörn son Egils í Njardvík, fóstrson etazráds, ok tveir synir amtmanns nyrdra. Var þá umtal um ágreiníng útaf arfafè, med Magnúsi etazrádi ok Steingrími prófasti Jónssyni í Odda vegna stjúpbarna sinna, barna doktors Hannesar biskups, ok svo um skuldaskipti etazráds vid Ara í Njardvík ok Knudsen, ok allt af bankósedlunum, er voru fallandi þá hann svaradi þeim af hendi til þeirra, en þeir vildu ei kalla gilda.

## LXVII. Kap. Adrar frásagnir á því ári.

Þórdr prestr á Völlum í Svarfadardal, Jónsson prests hins gamla, Halldórssonar, andadist um haustid. Þá voru laungum vedrsældir. — Þá var Jón Vigfússon úr Skagafirdi dæmdr fyrir stuld til kagstrýkíngar ok þrældóms, en Jón at vestan, er strokit hafdi, nádist vid Arnarvatn. Þann tíma tók at breidast nokkut út saudfè hit enska fyrir sunnan, gaf Magnús etazrád þat sumum mönnum til stofns, en um prentverkit gekk treglega, kostadi sálmabókin 4 dali, en lærdómsbók barna, er mest naudsyn var á, fèkkst ekki prentud; hafdi Magnús etazrád sent þann pappír utan aptr, at mælt var, er hann hafdi fengit undir prent, þótti hann ofdýrr; beiddist þá Geirr biskup Vídalín at lærdómsbókin væri lögd upp utanlands, ok vedsetti fyrir inntektir sínar, at því er hann sagdi sjálfr. Kom nú brèf frá amtmanni nyrdra, Stephåni konferenzrádi á Mödruvöllum, um ómagaþýngslin, ok lagdi hann til at mínkut væri tillög af sveitunum vid alla þá, er nokkut mætti vinna fyrir sèr, en allir 16. vetra væri settir í vistir; þat hit sídasta þótti mönnum ófært, því at margir slíkir voru ónýtir at mestu. Hann knúdi ok fram til gardyrkju, ok voru menn þess nú allfúsir ordnir, þar sem ei voru meinbugir á, þó lètu sumir illa vid því, ef sveitum skyldi leggja af gördunum, sem gjört var Þorláki bónda Hallgrímssyni í Skridu. Páll prestr frá Hafsteinstödum, Árna son biskups, fèkk Fell í Slèttuhlíd um haustid. Á því hausti rak enn 100 smáhvali, samkynja þeim er ádr komu vestra, vid Þíngvelli í Helgafells sveit, en 500 fyrir sunnan Jökul. Þar undir Jöklinum voru mál móti hreppstjórum í Breiduvík um reiknínga ok annat, er Ásgrímr prestr hafdi á lopt komit. Mál var ok í Reykjavík,

ok var lítils vert: hafdi Óli Sandholt skorit á snæri fyrir konu nokkurri, ok þau samit þat med sèr, en Castenskjold hafdi kallat þat svo mikit ofríkisverk, at eigi mætti þola í bænum, ok bodit at taka upp sem sakamál, hafdi landfógeti þat gjört en viljat ei dæma, þar sem sáttanefnd hafdi kljád þat, ok gekk þat svo til yfirrèttar; þar var einnig fellt nidr málit, en Óli Sandholt bannadi Bjarna assessor dómsæti, þarsem hann væri umbodsmadr stiptamtmanns, er þá var utan farinn, ok reist hafdi málit; var Bjarni dæmdr frá setunni, ok skaut þeirri ályktun til hæstarèttar. Merkilegra mál var í Húnavatns þíngi, hafdi sá madr er Benedikt hèt, á Ey á Skagaströnd, ekki bjargat ödru skipi er menn týndust af, ok var þó nærri, ok lèk ord á, at hann hefdi heldr bannat þat hásetum sínum, farit svo í land, ok látid ei upp hvat þat skip mundi dvelja, fyrr en um seinan, er þat var týnt med öllu, en á því týndust þrír menn skagfirzkir, ok þrír voru af Ströndinni, er út hafdi tekit ádr Benedikt fór í land; prófadi Björn Ólsen á Þíngeyrum málit, öndverdan vetr, ok vildi hafa sik undan þeginn at dæma, en amtmadr lèt þat ei eptir, dæmdi hann þá Benedikt at svara manngjöldum, nema hann mætti sanna med eidi, at ófært hefdi verit at bjarga, ok svo at lúka málskostnad allan. Benedikt vann eidinn, ok mæltist misjafnt fyrir. Þá var Jóni sýslumanni Jónssyni í Bæ veitt Húnavatns sýsla, ok andadist Þorsteinn prestr Sveinbjarnarson, er fyrr var at Hesti, at Hlídarfæti í Svínadal; var hann gamall mjök, hálfníræðr.

## LXVIII. Kap. Vetrarfar ok mannalát.

Vedrsældir voru miklar til þess á jólaföstu, þá gjördi snjóþýngsli fyrir nordan ok vída annarstadar; þá andadist Jón prestr Michaelsson í Vestrhópshólum, ok svo Ragnheidr Einarsdóttir á Reynistad, hún dó um jólin, ok hafdi stundum at undanförnu verit ei med fullri skynsemd, var hún ordin fèlítil at kalla, ok enn Oluf Hallgríms dóttir prófasts, Eldjárnssonar, kona Hallgríms prests Thorlacius í Miklagardi; hún hafdi verit vinsæl. Eptir þat med jólum, ok svo allan þorra, gjördi gódvidri 1815.
mikil, en sídan þýngdi aptr vedrátt; var gæftalítid undir Jökli, en aflalítid annarstadar. Á þeim vetri bar þat til í Lundareykjadal, at Engilbert prestr Jónsson at Lundi, er þar hafdi lengi verit, ok átti sonu, er allir voru ólærdir ok höfdu lengi þjónat honum, fyrirmunadi einum þeirra kvonfángs, sá hèt Stephán, ok hafdi getid barn med stúlku, þeirri er hann vildi eiga; þótti flestum, sem kvonfángit væri vansemdarlaust; en prestr kom stúlkunni sudr á Nes; gjördist Stephán af því sturladr ok vard at gæta hans, ok átti þat at gjöra Jón bródir hans,

sváfu þeir saman; en einhverju sinni vaknadi Jón ok var Stephán á burtu, fór hann at leita hans, ok fann hann í húsi nokkru, hafdi hann hengt sik; en Jóni brá svo vid, at hann vard vöktunarmadr sjálfr; en sumir segja dóttir prests fyndi Stephán, ok væri sídan med lítilli sinnu, ok vitum vèr ei víst hvort er sannara. Þá týndist skip á Gufuskálum med 9 mönnum, ok var þúngr vetrinn ofanverdr ok snjóamikill, ok vorit kalt ok gródrlítid sakir þurka; kom svo mikill grasmadkr, at sumstadar var allt krökt, spillti hann bædi túnum manna ok gördum; var þá hardla lítill afli fyrir sunnan, en vestra sæmilegr.

## LXIX. Kap. Veitíngar.

Þann tíma hèlt Jón Gudmundarsøn Skaptafells sýslu alla, ok þótti hann hafa notid brèfs þess, er hann skrifadi Jörgensen; en Vigfús Þórarinsson á Hlídarenda kansellíråd hafdi Vestmannaeyjar med Rángár þíngi, hèlt hann þar lögsagnara, ok drukknadi sá á þessum misserum frá konu ok börnum. Prestaköll voru veitt ymsum: Stephán prestr, Þorsteins son prests, Hallgríms sonar prófasts, Eldjárnssonar, hèlt Skeggjastad á Lánganes-ströndum, hann var kalladr skarpvitr madr, en þá nokkut blendinn af því, sem marga blekkti á öndverdri öld: sjálfvísi í andlegum efnum; hann fèkk Velli í Svarfadardal, en fór ei þángat at sinni; en Sigurdr prestr Sigurdarson, bródir Jóns á Böggvistödum, er lengi hafdi verit mjök iktsjúkr ok vanfærr, þjónadi kallinu; fór Íngjaldr prestr, son Jóns prests í Glæsibæ Þorvardssonar, vestr, því hann fèkk Reynistadar kall, en Páll prestr Árnason flutti til Fells. Halldórr prestr Ámundason var kominn frá Hjaltabakka til Melstadar, ok tók Hjaltabakka aptr Einarr prestr Gudbrandsson, bródir Gunnlaugs Briems sekretera. Gísli prestr Ólafsson, er kapellán hafdi verit at Stad á Reykjanesi, var skipadr kapellán til Helgafells, var hann efnadr vel, ok vard at ráda meiru med Sæmundi presti Holm en adrir, er fyrir hann höfdu verit í þeim sporum, því þar voru gjörfir um samníngar sterkir í milli þeirra af biskupi, ok ödrum er at stódu, ok skyldu vara medan mál prests um stadinn voru ókljád. Aldrei vard bodit samþykkt, er gjört var uppá Reynistad ok adrar jardir, sakir þess, er fyrr er getid, at kammerit hafdi skipt um ætlanir sínar, veitti því amtmadr Jakob Havstein í Hofsós klaustrid á reikníng, hann var ok vel at sèr um vit ok stillíngu, ok í uppgángi. Þat vor árla komu skip út, ok spurdist med þeim andlát Skúla Thorlacius jústizráds, þóttist þá Þórdr son hans, er Árnes sýslu hafdi haldit sídan hann sleppti Múla þíngi, þurfa at vitja arfs, ok bjóst utan alfarinn. Jón sýslumadr Jónsson í

Bæ hafdi því sókt um Húnavatns sýslu, sem fyrr segir, at Magnús etazrád hafdi brigdat af honum Bæ, ok svo hins vegna, at honum þótti sýslan betri ok ekki fjarlæg sèr, ok hafdi fengit hana, en þó stód Björn Ólsen fyrir henni fyrst; — grunadi suma, at Jóni sýslumanni, öldrudum ok heilsulitlum, mundi verda vid of, þó hann væri vel at sèr at viti, at ráda vid Húnvetnínga til hlítar.

## LXX. Kap. Ný tídindi.

Castenskjold hafdi utan farit, ok viljat fá nokkut embætti annat, en stiptamtmannsdæmi hèr út, en því var ekki sinnt, ok er svo sagt, at þókt hefdi at honum mundi hafa verit ærit gott, ok ei hefdi hann unnit til betra, en þó vard hann ei lengi útundan; var hann nú embættislaus, en Ísleifr jústizrád settr fyrir stiptamtid; þótti mörgum hann vel fallinn. Komu út mörg tídindi med skipum, ok sum stór; þat var eitt, at Napóleon Bounaparte var sloppinn úr Elbu, ok hafdi tekit Parísborg, en konúngr Frankismanna var flúinn; voru því ófridar vonir, þar sem konúngar allir bjuggust í móti Napóleoni; var þá sagt, at allar vörur mundu verda dýrari, en ella mundi, ef fridr hefdi haldizt; kom mikil vara med skipunum, ok gekk ódt upp, því verd var nokkut linara at álitum, eda þó heldr dýrri hin innlenda varan en þá hafdi næst verit; en lítid vard af hinni hollenzku siglíngunni, er menn væntu, þvíat brèf kom frá kammerinu, at slík höndlun væri óleyfd at fornum konúnga bodum, ok ætti þau at gilda nú, er fridr væri á kominn, þó eigi hefdi gætt ordit í ófridi. Þá komu þó duggur nokkrar ok skip frá ýmsum þjódum, er þat var leyft; var tveimr Amerikanum lofud höndlun, ok eitt skip kom til Akreyrar frá Gydíngum; hafdi þat eigi fyrri ordit, at þeir leitudu híngat.

## LXXI. Kap. Um peninga breytíng.

Nú kom út Bjarni Þorsteins son Steingrímssonar, bródurson Jóns prófasts í Skaptafells sýslu, en í frændsemi vid Steingrím prófast Jónsson í Odda; hann var vid kammerit, ok var svo sagt, at hann skyldi mæla fyrir hinu nýja brèfpeníngaverdi ok breytíngu þeirri, er á var ordin; var konúngs skipan gefin út í Wien í Austrríki, medan Dana konúngr dvaldi þar um vorit, því þar hafdi verit konúngastefna mikil; sú skipan var um Ísland, ok innleidslu ok gildi ríkisbánkans út hèr: skyldi hverr ríkisbánkadalr hafa tvenn verd, nefndarverd ok silfrverd; þat var nefndarverd, at hann hèt ríkisdalr í hverja óákvedna skuld ok bod, ok áttu þar í móti at koma

6 bankósedlar fornir, ok leysast inn fyrir þat, ok fyrst allir þeir, er danskir voru eda hálfþrykktir, svo at íslenzka var ei á; en þat var ríkisdalr í silfrverdi, er í aukagjöld skyldi taka, ok í sakeyri svara, ok í vidrlífispenínga gánga, ok laun embættamanna; ok heitir þat cours í ödrum löndum, hversu sá gángverds-jöfnudr verdr; var sá hinn fyrsti cours hèr á landi, at í ríkisbánkadal í silfrverdi skyldi gánga einn ríkisbánkadalr ok 84 skildíngar í nefndarverdi, ok var þat nokkut minna en tvígildt; ætladi konúngr til at þetta skyldi vera ríflegt verd fyrir bankósedil fornan, ok fornar skuldir, gjörfar eda á komnar ádr bankósedlar fèllu, skyldu gjaldast med því, ok svo því órífara sem þær voru ýngri; en silfrskildíngar skyldu, vegna eklu er á þeim var, vera tvígildir vid ríkisbánka í nefndarverdi, ok annat silfr at því skapi, en vöruverd þat hit háfa, er þá var, skyldi allt metast sem nefndarverd; þó stód þat eigi í tilskipaninni, en þat leiddi af hinu, ok svo var þat í Danmörku; komu ríkisbánkasedlar, ok nokkut af koparskildíngum, er samsvaradi nefndarverdi þeirra. Þó vard ei at þessu farit af kaupmönnum, því þeir seldu vöru ok tóku eptir silfrskildínga verdi, ok kvádu hana ella mundu tveim hlutum dýrri, dugdi ei þó konferenzrád fyrir nordan áminnti þá um hitt, nema til þess, at þeir settu sumir nefndarverd í bækurnar, ok rýrdust vid þetta stórum laun embættamanna, þeirra er konúngr launadi, svo at þeim þótti hvergi betr; en ríkisbánkapeníngar gengu lítt manna í milli, ok seldu flestir ok keyptu fyrir óframfært eda silfr, eda skildínga forna; báru kaupmenn þat fyrir, er þeir fluttu ei slíka penínga, at Íslendíngar sjálfir vildu þá ekki — en þó var sýslumönnum bodit at þínga fyrst um alla hina dönsku eda einþrykktu bankósedla, ok heimta þá saman, ok sagt, at þeir hefdi aldrei átt at vera gengir hèr út, en direction sú, er fyrir ríkisbánkanum rèdi, vildi unna Íslendíngum nokkurs fyrir þá, en sídan skyldi heimta saman adra forna bankósedla til ríkisbánkans fyrir hina nýju penínga; var þetta gjört, ok urdu þeir mjök misjafnlega margir í sýslum, en bid vard á laununum fyrir þetta, er heitin voru, þó urdu þau nokkur, ok líkara, at þar sem directionin hafdi bodizt til at launa þínga-ómök um þetta, þó þat yrdi eigi, at amtmenn hafi kallat til nokkurs, en ei vitum vèr þat víst.

## LXXII. Kap. Um Rask ok Henderson.

Rasmus Rask hafdi verit í Reykjavík um vetrinn, reid hann sídan vestr ok taldi menn á at gefa nokkut til fornfræda fèlags, er hann vildi hefja, ok prenta láta íslenzk rit ok kvædi, er ella mundu lída

undir lok, ok fyrst kvædi Eggerts Ólafssonar ok Stepháns prests í Vallanesi; urdu nokkrir til, ok helzt fyrir sunnan, at heita því ríflega, en af engum var kallat fyrr en vitad yrdi hvat fengist. Jón prestr í Mödrufelli Jónsson hafdi hafit smábæklíngafèlagit, líkt hinum ensku, ok sem vídar hófst í löndum, þat var svo skipat, at menn skyldu skrá sik fyrir örkum: hálfu, heilu, tveimr eda fleirum, ok þótti þá sumum vandsèd hve mikit mundi verda tillagit, en þó gengu þar margir at, því gott var tilefnit ok vel fyrir mælt; tók Ísleifr júslizrád hlut at sèr. Mest hafdi skipt um kirkjurækni í Reykjavík sídan Henderson hinn enski var þar sjálfr, hafdi biskup sjálfr um hríd gengit sjaldan í kirkju, en nú gjördi hann þat hvern messudag, ok mest hafdi hann haldit þar vernd yfir Henderson. En er sumradi reid Henderson vestr um land, at sjá um útskipti á ritníngar upplagi, ok kristnihald annat, ok var hardla gott at sumir fengu upplagit gefins, en adrir med gódu verdi, at því er þá var, en þat var eitt at lesti, at upplagit, er prentad var í Kaupmannahöfn, var eigi gott, ok illa ok hirdulauslega umgengit. Henderson reid allt í Vatnsfjörd, þar hafdi Rask einnig komit, þadan reid hann nordr um, ok lèt eigi hagga ætlunum sínum þó torveldni væri á, hvorki um dagleidir nè annat, ok svo var hann merkr í öllum ordum, ok gódlátr vid alla menn, ok lèt vel yfir landsfólkinu, en var fáordr jafnan. Hann reid yfir Bardaströnd, ok fór til Flateyjar; þángat var þá kominn Gudmundr Skevíng, hann hafdi farit utan hit fyrra árit, ok komizt yfir höndlun med nokkrum hætti, svo at Kúld, er þar hafdi verit kaupmadr, var nálega húsvilltr. Þadan reid Henderson nordr til Dala, ok yfir Húnavatns þíng til Mælifells, þá til Flugumýrar, þá til Hóla, þadan til Mödruvalla, gjördi þá úrfelli mikil, en hann reid ei at sídr Vatnahjalla, ok sudr; eptir þat fóru þeir Rask bádir utan, ok fèkk Henderson sídan tólf hundrud spesíur af ritníngarfèlaginu á Englandi lagdar til ritníngarfèlags hèr, var þat sent biskupi, en mikit vard undir vördslu Sigurdar Thorgrímsens landfógeta, ok seldist þat illa út sídan. Þó mátti Henderson ei betr fyrir sjá en hann gjördi, at biskup væri forseti ritníngarfèlagsins, Ísleifr júslizrád aukaforseti, landfógetinn fèhirdir, ok Árni prestr Helgason, er dómkirkjuprestr vard, skrifari, því ei var adra líklegri at fá sydra.

## LXXIII. Kap. Misfarir ok mannalát.

Sótt gekk yfir á þeim árum, stakk hún sèr vída nidr hèr ok þar, urdu margir rænulausir, en margir lágu þúngt ok lengi, ok svo var enn á þessu sumri, en fáir dóu at kalla. Þorkell gamli Bergmann í

Reykjavík andadist, födurbródir Bjarnar á Þíngeyrum, ok þeirra brædra, hafdi hann verit gildmannlegr madr, ok annarr Sæmundr prestr í Garpsdal, Þorsteinsson. Páll sýslumadr í Krossavík, Gudmundar son Pètrssonar, fór sudr á lestum, hann fór med klyfjahestum ok annarr madr, ok fèll ofan ein klyfin, en fylgdarmadr var óþróttkr at koma henni upp, því at óhæg var atstada; lèt þá sýslumadr upp ok setti nokkut hart vid sik klyfina nedan brjóstid, svo at hann fèkk blódspýju; komst hann svo heim, ok hnignadi þadan af, til þess hann andadist. Páll hafdi átta Malenu, dóttur Örums assistents, systurdóttur Geirs. biskup Vídalíns, en Þórunn systir Páls var gipt Birni presti, Vigfús syni prests, Bjarnarsonar, bródur Ceciliu á Flugumýri; hann var á Eydum. Sigurdr bródir Páls var stúdent, ok stundadi læknisfrædi um hríd, hann átti Íngunni Vigfúsdóttur, prests frá Valþjófstad; Guttormr var einn, hann fèkk Steinvarar Gunnlaugsdóttur. Fleiri voru börn Gudmundar sýslumanns, ok eigi öll sammædra. Þorsteinn var einn af ýngri börnum, ok þá enn ei frumvaxta, hann bjó sídan med módur sinni ok var ólærdr, medalmadr á vöxt, ekki mikill, vödvaþykkr; hann var haldinn sterkastr sinna jafnaldra á Íslandi. Páll Melsted, son Þórdar prests á Völlum, var settr fyrir sýsluna er hann kom út, sá er barnit gat med dóttur amtmanns ok fèkk hennar seinna; hann var hár madr grannlegr, vel at sèr. Þat sumar var afli nokkurr fyrir nordan; týndist þá kaupamanna fár fyrir Grundarfirdi ok voru á 11 menn, drukknudu 7, en formanninum, er kalladr var Lukku-Jón, ok tveim ödrum, ok enn konu, vard bjargat. Þúngt var þá um fiskifáng ok atdráttu alla; vard at sækja sudr, ok þó heldr vestr at nordan, ok fèkkst ei, fyrir stórum bodum útlendra vid fiskinum, nema lítid eitt ok med afarkostum, en grasár var þá í allgódu lagi, en þótt óþurkasamt, ok ill nýtíng vída.

## LXXIV. Kap. Skipabrot.

Skagastrandar skip ætladi utan snemma sumars, ok er þat var búit, braut þat vid klett, sem þar hefir þó ordit stundum, en einn madr svam í land, ok dró hina á kadli, var skipit sídan selt, ok stód Björn Ólsen á Þíngeyrum fyrir því í umbodi sýslumanns, ok þeir Schram bádir, en þeir voru látnir vita af uppbodinu, ok var haft á actiu-kaup, er þeir kölludu; keyptu 12 menn alltsaman yfrit gódu verdi, en sídan, er þeir ætludu at óvinsælt mundi verda kaupit ödrum Húnvetníngum, þá seldu þeir út af sèr 30 mönnum, þeim er mest voru málsmetandi ok þá enn med gódu verdi, en sídan seldu þeir allir saman fleirum

fulldýrt. En er þeir Jón sýslumadr ok Björn fundust, vard þeim sundrorda um söluna, ok afsagdi þá Björn at vera lengr umbodsmadr hans, ok jafnan vard fátt med þeim, því Björn var snöggr ok fasttækr. Þat sumar braut ok hollenzka duggu fyrir Medallandi, var þar fyrir sölu Jón Gudmundarson sýslumadr ok Sigurdr prestr, Gísla son prófasts Þórarinssonar, mágr Ísleifs jústizráds; var margtalat um, at hinum hollenzku mönnum hefdi hardkeypt gjört verit, ok ofmikit tilhafit, voru þeir fluttir vestr til Reykjavíkr, en þadan fóru þeir á báti, því þeir þóttust ei fá þat skip er leigjanda væri, en greidi var þeim þar gjörr at ödru; ok nádu þeir landsmönnum sínum fyrir Vestrlandi. En Skagastrandarmenn rèdu sik í skip á Hofsós ok Akreyri, ok voru þar ok fángar fluttir af landi.

## LXXV. Kap. Frá fyrirmönnum, helzt nyrdra.

Mál voru þá í Nordrlandi: eitt í Þíngeyjar þíngi, útaf nidrsetu bónda eins; hafdi Þórdr sýslumadr kansellírád fèsektad nokkut Björn prest Halldórsson í Gardi fyrir nokkra tilhlutun hans um þat efni; sá Björn prestr átti Kristínu, ekkju Vigfúsar prests í Gardi Bjarnarsonar, dóttur Þórdar Árnasonar ríka á Arneidarstödum, ok var ordinn af því audmadr; hann ætladi ekki at skjóta sèr undan sýslumanns dómi um litla fèsekt, en amtmadr skaut málinu fyrir yfirrètt, ok var presti vikit á medan frá embætti; en er málit kom sudr, sýndist biskupi ei þess vert at prestr legdi af embættit, ok var hann settr í þat aptr, en málit beid; gjördist Björn prestr þessi vel at sèr, ok var merkilegr madr at mörgu. Annat mál var í Eyjafirdi milli amtmanns Stephâns konferenzráds á Mödruvöllum ok Árna prests í Stærraárskógi Halldórssonar, bródur Bjarnar prests, hann hafdi fyrr verit prestr í Grímsey, ok átt at hafa mötu af Mödruvalla-klaustri, ok þótti amtmadr hafa vangoldit; hafdi hann kært þat utanlands, ok fengit frjálsa saksókn, en svo bar til, at sýslumadrinn Gunnlaugr Briem sekreteri, er þá var fluttr til Grundar, fór utan, því at taka átti til hinna íslenzku málefna í kammerinu, ok skuldsetníngar jardanna, er hann hafdi verit vidridinn, ok fyrir því stód á málinu; hann hafdi haft börn sín utan med sèr. En sakir vidbúníngs vid skuldsetníngunni hafdi ríkt verit á lagt vid sýslumenn at lýsa verdlagi á vörum bædi í kaupstödum ok innanlands, ok at koma þeirri lýsíngu til kammers ok amtmanna, skuldsetníngunni til fyrirgreidslu. Þá hafdi ok utan farit Magnús etazrád, ok haft vöru med hverju skipi sydra, en tekit peníngalán, sumt af Vigfúsi Þórarinssyni á Hlídarenda en sumt af ödrum, gátu menn til at hann mundi vilja vera vid

þær atgjördir, enda fá Videy, ok brjótast þó í enn fleira. Þá í þat mund var fæd med þeim brædrum ok mágum sydra. Í Eyjafirdi var þá út kominn Páll Melsted, er fyrr segir, ok ætladi Stephán Þórarinsson konferenzrád at gipta honum Önnu Sigrídi, dóttur sína, fór hann eigi þá austr, því hann stód fyrir Vadla sýslu í stad sekreterans, ok vildi ei Árni prestr at hann dæmdi mál med þeim; var þá reynd sætt, ok tókst hún med þeim hætti, at konferenzrád lèt nokkut til slaka. Sídan sókti Árni prestr um Mödruvalla þíng ok þótti mörgum undarlegt, svo lítils sem amtmadr virdi hann, ok var lítt um hann gefit; en Jón prestr Jónsson í Audbrekku, er lengi hafdi haldit svari sínu vid konferenzrád, vildi skipta vid Árna prest, ok þótti betra at verda á brottu þadan sem hann var; fèkkst þat þó ekki brátt, því at samþykki konferenzráds þurfti til skiptanna, en í þann tíma kærdi hann á presta: Björn prest Vigfússon á Eydum, ok Björn prest Halldórsson í Gardi, ok svo á Skagfirdínga, Jón Espólín sýslumann ok Pètr prófast á Vídivöllum, ok adra, fyrir þat, at þeir höfdu verit vidstaddir veizlu, er haldin var í kirkju, ok vildu eigi svara svo mikilli fèsekt sem hann lagdi á; kærdi hann fyrst fyrir biskupi ok stiptamtmanni, ok hèt því einnig at kæra utanlands, en biskup tók heldr svari fyrir prestana, ok líkadi illa, vard ok ekki af at neinn sakadi. Eptir þetta gipti konferenzrád Páli Melsted dóttur sína, ok baud einum manni at utan, barnfóstra hennar, en gaf fátækum 100 ríkisbánkasedla; kölludu sumir vel gjört, ok margir þarfara en stórveizlu, en sumum þótti þat eigi meira en árs útsvar efnads bónda í Hörgárdal til hrepps, því þau útsvör voru þar þá hardla þúng, en amtmenn voru lausir vid þau, nema at sjálfvilja. Þá var hreppstjóra-reiknínga-mál í Skagafirdi, en fadernislýsíngarmál í Húnavatns sýslu í vafníngssamara lagi.

## LXXVI. Kap. Mannalát.

Davíd Skevíng sýslumadr, í Haga á Bardaströnd, hafdi andazt fyrri á þeim misserum, ok var hann á níunda tugi, einnig deydi Þórhalli prestr Magnússon á Breidabólstad í Fljótshlíd, Jón prestr Hallgrímsson í Þíngmúla, Arngrímr prestr Jónsson, er fyrr var á Melum, fadir Bjarna prests, ok Ólafr Thorlacius Þórdarson, kaupmadr audugr frá Bíldudal, ok enn fleira heldra fólk; týndust 13 menn á Eyrarbakka í sjó, en 7 í Fljótum, ok enn urdu tvö skiptjón. Gísli, er átti dóttur Vigfúsar Þórarinssonar kansellíráds, fèkk þá Vestrhópshóla, hann var Gíslason, ok lítilla manna, en hún hèt Ragnheidr, ok áttu þau börn mjök mörg; en Jón Gudmundarson, bródurson Benedikts Gröndals, fèkk Skeggjastad. Þá

gjördist Jón, son Jóns Eggertssonar sýslumanns, lektor vid Bessastada skóla, ok annarr Jón Jónsson, ok Hallgrímr Skevíng, son Hannesar prófasts, medlærendr. Sagt er, at á þeim misserum hafi drukknat 56 menn, ok margir urdu brádkvaddir. Þat sumar var ill nýtíng vída, ok verst fyrir austan Axarfjörd; bar þat til um haustid, at Teitr prestr á Kvennabrekku, son Jóns biskups Teitssonar ok af fyrri börnum hans, sá er þá hafdi nýlega fengit ekkju Gudlaugs prófasts í Vatnsfirdi, reid út í Stykkishólm, drakk hann þar mikit brennivín ok sterkt kaffe, ok reid sídan til Helgafells, ok hneig þar af hestinum mállaus ok rænulítill; lá hann þar þrjár nætr, ok komst nokkut til rænu, ok dó sídan.

## LXXVII. Kap. Vetrar ríki ok tídindi.

Nú kom á vetr snemma, med jöfnum snjó, blotum ok jardbönnum; var fiskafli gódr sydra á honum öndverdum, en enginn sídan, en vestra var hann lítill, nema nokkurr í veidistödum út, var laungum ógæftasamt. Þá voru reknir upp hnýdíngar 1500 í Njardvík, en reydarkálf rak í Reykjavík; sjór var gagnlítill fyrir nordan, sem fyrri, ok mjök þúngt árferdi, en áþján svo mikil af sveitarþýngslum, at enginn þóttist mega undir rísa, var þat þó hvergi meira en í Skridu hrepp í Hörgárdal ok Hvamms hrepp, framan ok utan Mödruvelli; þar hafdi verit safnat 8 hundrudum fiska í beztu aurum í sjód hit fyrra árit, ok heitid, at vid þat skyldi batna, en nú voru heimtir 15 hundrud fiskar, ok fèkk enginn hit minnsta lán, þó vid lægi; guldu menn meira út af eignarfè sínu, en af leigupeníngi er goldit. Amtmanni var kapp mikit á at safna sjódum. Fyrir jólin voru vedr mikil; var eitt á Þorláksmessu, þat braut sakristíit, er kallat var, af Hóla kirkju, ok vídar gjördi þat mein. Þessi misseri spurdist þat út híngat, at Napóleon Bounaparte hafdi lagt undir sik Frakkland, er hann kom frá Elbu, en konúngar tóku sik saman í móti honum, ok áttu herstjórar þeirra vid hann orustur miklar, ok fengu at lyktum hærri hlut med miklu ofrefli lids; flýdi hann þá Frakkland, ok leitadi til sjálfra hinna Ensku, en þeir sendu hann til Helenu-eyjar í Sudrhafi, ok lètu gæta hans þar, ok eru um þetta stórar frásagnir á útlöndum.

## LXXVIII. Kap. Landshöfdíngjar utanlands.

Þessi vetr var harla þúngr af snjóum ok jardbönnum um allt land; 1816.
voru blotar, er spilltu. Sjór var gagnlítill fyrir nordan, sem fyrri. Ísleifr Einarsson jústizrád hafdi þá stiptamtmanns umbod, nema í því,

er til landsyfirrèttarins kom, þar var hann ásamt jústitiarius, ok Sigurdr Thorgrímsen landfógeti assessor. Þá var yfirsakamála-rèttr aptr á enda kominn, sídan fridr vard, ok skyldu stórmæli gánga frá landsyfirrètti til hæstarèttar, sem fyrri. Kvefsótt mikil hafdi gengit um land hit fyrra árit, ok svo var á þessu. Landshöfdíngjar voru í Kaupmannahöfn: Castenskjold, er menn vissu ei hvort verda mundi sídan stiptamtmadr, Magnús Stephensen etazrád, Gunnlaugr Briem sekreteri ok adrir, ok var sett Commission um höndlun, þá er hagleg mætti sýnast Íslandi; var í henni Magnús etazrád, Frydensberg, er landfógeti hafdi verit, ok Gunnlaugr Briem; vildi etazrád, at sem flestar þjódir hefdi höndlunina, kvad þat mega verda gagnsamast Íslandi, því þá væri menn frjálsastir, en kaupmenn hefdi lengi sýnt ærna kúgun, ok færdi til dæmi um þá menn, er kagstrýktir höfdu verit hèr at fornu fyrir litla aukahöndlun, ok slíkt annat, er kaupmenn hefdi komit á. En er þvílíkt kom á prent, svaradi því med ödrum Clausen, yfirkaupmadr Ólafsvíkr, ok taldi Íslendíngum mikilla muna vant verda mundu, at geta keypt vid marga, fengi þeir naumlega med vörum sínum fullnægt þeim, er væri fastir kaupmenn, ok mundi slíkt frelsi leida þat af sèr, er ofmargir kæmi til í senn, at þeir mundu frá fælast æfinlega, ok liggja mundi á hinum föstu kaupmönnum eptir sem ádr at sorga fyrir naudsyn landsins, þá er allir hinir útlendu væru á brottu stroknir; en at þeim manni, sem svo mjök ámælti hinum föstu kaupmönnum, lètst hann mundu víkja því, er hann þóttist hafa med sannindum heyrt, um vidskipti ok einkamál hèr í landi vid Jörgensen. Var nú mart ritad um þetta, en einn vitr madr danskr lèt þat út koma, at sannlega væri vert at nokkrar þjódir hinar næstu mætti kaupa vid Íslendínga, ok færa þeim þær þarfir, er Danir höfdu minnst af; ætti ei þá at fyrirmuna Íslendíngum jafnlegs kaupverds af Dönum, sem slíkir bydi, ok væri þá nokkru nær; en landit þyrfti þó hvorki at berast ofrmegni af útlenzkum skipum, nè Dönum at varnast at hafa kaupskapinn þó mestan, því jafnan mundi þó mest af korni ok mat frá þeim at fá, þó Enskir eda Hollenzkir flytti sína vöru. — Kammerit var ok all-mótfallit kaupmönnum, en þó komu þeir svo sínu máli, at lítid vard ágengt at sinni; töldu þeir þat æ jafnan, hversu naudsyn landsins lá jafnt á þeim, ok at þeir einir, sem fastir kaupmenn væri, hlyti jafnan at lána, ok hefdi gefit fè sitt út fyrir þau kaupmanna hús, er á landinu stædi, ok margt þvílíkt. — Í þessari ferd ávann ekki Gunnlaugr Briem þat menn ætludu hann mundi vilja, en kammerráds nafnbót fèkk hann; ok á krýníngardag konúngsins, er þá fór fram, samdi Finnr Magnússon vísur um konúng, ok setti á rúnir, ok vard sídan fornfræda-pró-

fessor. Borit höfdu hinir hollenzku menn fram hrakníngar sínar, er þeir þóttust hafa fengit í Skaptafellsþíngi, ok var þá þeim sýslumönnum Jónasi Skevíng ok Jóni Gudmundarsyni bodit at taka upp málit ok prófa.

## LXXIX. Kap. Frá Magnúsi Stephensen ok fleiru.

Svo er sagt, at Magnús Stephensen kæmi sèr í tal vid konúnginn, ok bæri þat fyrir hann, hversu hann var mjök affluttr med hinum mestu ósannindum, ok borinn í róg um samtök vid Jörgensen, ok vænti hann þess af nád konúngs, at hann veitti sèr velsemdar merki, þat er hann mætti fyrir sik bera; hafi þá konúngr gefit honum konferenzráds nafnbót, ok at bordi hafi hann verit med honum, en þá hafi drottníngin spurt hann margra spursmála af Íslandi í senn, ok hafi hann öllum svarat, þó nokkurr vandi væri á. Þat er enn sagt, at konúngr spurdi hann eitt sinn, hvort hann hefdi þá nokkut ótalat, en hann kvad já vid, „ok er þat: at bera fyrir hátign Ydar Jónas sýslumann, mág minn, er ek veit ei hvers geldr, at ei hefir fengit nafnbætr sem þrír sýslumenn adrir á Íslandi, nema ef þat er at hann er mágr minn, eda fyrir öfundar sakir þeirra, er ei vilja mèr vel". Konúngr spurdi, hvort Jónas Skevíng var nokkut at manni, hann mælti þá med honum sem hann mátti, ok vard Jónas kansellírád; var mælt hann hefdi sókt um nafnbót ádr, ok eigi af sjálfs síns vild, ok verit neitad. Í þessari ferd fèkk Magnús Stephensen Videy keypta, ok vissu menn ei gjörla med hverjum skilmálum, því nú vildu þeir í kammerinu enga konúngsjörd selja lengr, ok einna sízt Videy, lagdist ok Castenskjold þar mest í móti, en hann fór í öllu halloka. Kaupskap hafdi ok Magnús Stephensen allmikinn. Þat var enn, at hann kvad biskup enga þörf haft hafa til at beidast eptir, at barnalærdómsbækr væri prentadar í Kaupmannahöfn, væri þær ærnar til, ok fengist í prentverki Íslands, en biskup gjördi skard í þess prentverks rètt med slíku; er sagt, at hann hafi ætlad at gjöra bækrnar upptækar, en þá fèkk hann mótföll stór, ok þótti ólíklegt at biskup hefdi kært slíkt ófyrirsynju, ok vedsett laun sín, þarmed taldi kansellíit nokkut at því, er hann hefdi umbreytt frædunum, ok er hann sá at ætlan þessi vann ekki, keypti hann lærdómsbækrnar allar, ok fèkk kaupmönnum at selja sín vegna muhverfis land allt. Ekki líkadi biskupi þetta, er hann fèkk at vita, ok þóttist þurfa at rèttlæta sik, ok leitadi sídan hvervetna vitnisburdar af prestum, hvort eigi hefdi verit skortr á bókunum. Ákærur þær, sem amtmadr fyrir nordan hafdi frammi haft, urdu at litlu, um prestana nyrdra ok Skagfirdínga; ok

Wulf kaupmadr, er höndlun átti á Siglufirdi, kalladi hann hafa tálmad höndlun sína, ok baud honum bod, hvort er hann vildi heldr þola lögsókn um þat, eda láta úti vid sik ei all-lítid; var þá ok enn mælt, at Hallgrímr prestr Thorlacius í Miklagardi hefdi unnit mál sín fyrir hæstarètti, en amtmadr verit fèsektadr stórum fyrir áleitni edr tilbekkíngar vid hann óþarflega, ok er oss lítt kunnugt hvat sannast er í því.

## LXXX. Kap. Útkomur manna ok kaupskapr.

Um vorit komu skip út fyrir sunnan ok nordan, kom út sydra Castenskjold ok var stiptamtmadr, ok Magnús Stephensen konferenzrád til Videyjar, þarmed greifi sá er Knuth hèt, hann skyldi vera fyrir Íslands málefnum í rentukammerinu, ok vildi hann kynna sèr landit ádr, einkum fyrir þá sök, at þat fór í hönd at landit yrdi skuldsett eda matrikulerat, at því sem menn hugdu, ok skipast átti kapítuls–taxti; hann var stilltr madr, gódlátr ok sidlátr, ljúfr í tali vid hvern mann. Cours eda verdhæd ríkisbánkasedla skyldi vera sem hit fyrra árit. Fyrir nordan kom út Gunnlaugr Briem kammerrád til sýslu sinnar, ok var miklu ljúflátari en fyrr hafdi þókt. Bændr voru þá ordnir Danabróga-reglumenn fyrir nokkru: Lundar-brædr kalladir, hreppstjórar í Fnjóskadal, Björn ok Kristján Jónssynir, fyrir vefnad sinn ok verkhyggju; Þorlákr bóndi Hallgrímsson í Skridu, bródir Gunnars prests, er þá var í Laufási, fyrir jardyrkju sína ok annan dugnad, ok var hann á efra aldri, ok Einarr bóndi Jónsson, hreppstjóri í Kollafjardarnesi vestr, ok enn Bergr Benediktsson, er verit hafdi í sýslumanns stad í Skaptafells sýslu. Thómas Klog fèkk lausn af landlæknis embætti. Á þessu ári komu brèf frá kammeri til sýslumanna, at gefa skyldu yfrit ítarlegar skýrslur yfir allt verdlag á hverri vöru móti annari, ok jafnframt í móti peníngum, svo at sýnast mátti at nær væri ofætlan, en heitid at klaga fyrir konúngi, ef misbrestr yrdi á. Var nú kaupstefna ok höndlun öll á þessu sumri betri en verit hafdi, því þó kramvara væri dýr mjök, ok öll vara nokkut, þá var þat nálega at nafni kvednu, ok má marka hvert verd var á ríkisbánkasedlum í raun rèttri, er eigi giltu færri en tveir í móti einum dal í vöruverdi, ok þrír ef í móti skildíngum var, en þrír dalir aptr í vöruverdi eda meira í móti spesíu. Í slíku vöruverdi var nú korntunna á 14 dali eda 15, en ullar-pund á 40 skildínga, sokkar á 32 eda nokkut meira, hespupund á 48; kaffe, tóbak ok margt annat var ódýrra en fyrri, en bötnun þessa gjördi helzt fjölgun skipanna. Vid þetta verdlag á peníngum skildist um sídir flestum mönnum, at eigi væri fært at taka eda rètt at gjalda eptir

peninga verdi gjöld sín, einkum þar prestar ok kirknahaldarar heimtu til kirkna, eptir kanselíibrèfi, ok biskupsbrèfi ok stiptamtmanns, í ullar verdi, ok slíkt hit sama fátækir, svo at sokkar urdu ei á fulla tvo fiska; vildu ok margir prestar hafa hit sama fyrir sjálfa sik, ok þóttu þá sýslumenn vel gjöra er sokka tóku á fjóra, ok sumt þó betr í samburdi; var þat meira af undanbrögdum edu illri vörugjörd margra óvandadra manna, er þeim galdst ei þannig, en af því, at menn tæki ei at sjá hit sannasta; þó otudu margir peníngum svo hátt sem þeir máttu, ok guldu Húnvetníngar Jóni sýslumanni ríkisbánkadal á 20 fiska.

## LXXXI. Kap. Mál nokkur.

Eptir andlát Ragnheidar Einarsdóttur á Reynistad hafdi konferenzrád Stephán amtmadr heimt, at Páli syni hennar skiptist arfr, er utanlands hafdi verit ok eigi hafdi til spurzt nær í 20 vetr, en med því at þar var at komit tíma, at arfrinn mundi falla samerfíngjum hans, ok renta af födurarfi hans hafdi verit eptir látin þeim af konúngi, en þeir budu sik til at standa inni fyrir hans hluta, þá skipti Jón Espólín honum engu, þat skipti appelleradi amtmadr, ok fèll svo yfirrèttar dómr, at aptr skyldi skipta, en sektalaust sýslumanni; vildu erfíngjar, at amtmadr nædi ei arfahlutnum til konúngs fèhirzlu at heldr, ok lètust mundu beidast eptirgjafar af konúngi. Sá þjófr var í Skagafirdi dæmdr æfilángt til þrælkunar fyrir hrossatöku, er Gudmundr Ólafsson hèt; en Jón, úr Snæfells þíngi, er fyrr var getid, var látinn fara utan, ok dæmdr til hins sama Bjartmarr, son Hnausa-Bjarna, var þá Bjarni fadir hans laus madr sèr, seldi adra jörd en keypti adra, ok græddi á því fè. Kvörtun var mikil um hald slíkra illvirkja, þóttist almúginn lítid hafa fyrir hjá amtmönnum, en sýslumenn þóttust stríd eitt um eiga á bádar sídur. Bjarni, sá er nefndr var, hafdi getid mörg börn í hórdómum ok mörg í frillulífi ok vard ei af stýrt, enda gjördist í þann tíma torvelt at halda mönnum frá frillum sínum, því at trautt vildu margir gjalda hórdóms sektir sídan afteknar voru legordssakirnar, ok hèldu sumir sydra frillur sínar med leyfi ok vilja kvenna sinna, ok var ei um talat; sögdu nokkrir, at Castenskjold kalladi þat ósaknæmt, ok mjök færdist þat yfir sídan. Mál var í Skagafirdi um brigd, skaut því til yfirrèttar svaramadr þess manns er brigdat var af, Ólafr Bjarnarson hreppstjóri úr Húnavatns þíngi, málafylgismadr mikill, hann hafdi fyrr búit at Reykjum á Reykjabraut, en nú var hann at Beinakeldu, ok sídan at Litlu-Giljá, lèt þá Magnús konferenzrád sem ákæra hans vid

Jón Espólín mundi heimta þat, at adrir allir yrdi fengnir til at sitja yfirrèttinn en vant var, því at Ísleifr jústizrád væri dótturmadr bródur hans, en Bjarni assessor bródursonr, ok lèt Ólafr þat fæla sik. Fenginn var þá Jónas Skevíng kansellírád til at fara austr, til at prófa málefni Sigurdar prests Gíslasonar Thorarensens um duggu-medferdina, sem ádr var getid, ok átti ekki at gjöra annat at, en mælt var at hann hefdi leidast látid af tillögum Ísleifs, er átti Sigrídi, systur Sigurdar prests, ok dæmt málit ok gjört litla fèsekt, ok leit greifinn Knuth þar illa á, en þó er eigi getid at meira yrdi af.

## LXXXII. Kap. Mannalát ok frá Knuth.

Á ofanverdum vetri hafdi ordit úti Skúli Thorlacius vid annann mann, son Bjarnar kaupmanns Thorlacius, Halldórs sonar biskups; hann var kominn vestan frá Höfda, ok villtist af Nordrárdal fram á fjall, en hinn þridi madr tók sik frá þeim, ok kom ofan í Eyjafjardardali. Einnig vard úti Ólafr prestr Gíslason frá Breidabólstad vestra, er hann var at ferdast um land í fásinnu sinni, ok var á vestrför. Um vorit deydi Benedikt prestr Hannesson á Hamraendum, gamall mjök; ok tók at fara kvefsótt um land, öllu þýngri en hit fyrra árit; öndudust margir menn hvervetna: Íngibjörg Ólafsdóttir, kona Bjarnar prests í Bólstadarhlíd, Jónssonar; Þórarinn bóndi í Sjáfarbólum á Kjalarnesi, hreppstjóri; Gudrún í Videy Skúladóttir landfógeta, er átt hafdi Jón sýslumadr Snorrason fyrir lángri æfi; Helgi prestr á Reynivöllum, ok annarr Helgi prestr Einarsson, fadir Árna prests í Reykjavík; kona Jónasar prófasts á Höskuldstödum hin þridja: Gudrún, dóttir Bjarnar prests í Bólstadarhlíd; Þorfinnr, lögrèttumadr forn, á Brenniborg í Skagafirdi, Sigurdarson, rádvendnismadr mikill, hann var á níunda tugi; Ragnheidr kona Einars prests á Hjaltabakka Gudbrandssonar, hún var dóttir Jóns prests í Hvammi, Sigurdar sonar sýslumanns á Hvítárvöllum, Jónssonar, ok hafdi fyrr átt Jón prest Jónsson á Gilsbakka, en alit upp Einar prest, ok var merkiskona mikil; Þórarinn prestr Jónsson í Múla, bródir Benedikts Gröndals, ok Gudrún kona hans, Stephans dóttir prests fra Laufási, voru þau jördut í einni gröf; hafdi Þórarinn prestr verit skáld gott, ok mátti yrkja sæmilega sem madr mælir bratt, hafdi hann kvedit tídavísur allgreinilegar frá aldamótum, ok er þeim tídindum lokit, er af þeim verda dregin; Sigfús prestr Sigurdarson, er fyrr var at Felli, hann var á níunda tugi; Hálfdan Magnússon Þórarinssonar, sidlátt úngmenni, ok mjök margir adrir. Hallgrímr prestr, Þorsteins son prests,

Hallgríms sonar prófasts, Eldjárnssonar, bjó at Hrauni í Yxnadal, ok var kapellán Jóns prests Þorlákssonar at Bægisá, hann fór til veida á sunnudag, vid vatn eitt á fjalli, ok drukknadi. Prestaköll þau er fèllu voru eigi veitt þá þegar. Þá var heyskapr sæmilegr, en hretsamt í Augusto. Knuth greifi reid yfir land, ok lá jafnan í tjaldi sínu, var med honum einn madr, Dúks-Jón, bródir Einars, gamall ok lítt gagnlegr; hann reid fyrst austr, ok sneri aptr vid árnar hinar miklu í Skaptafells sýslu, sídan reid hann vestr um, ok kom til hvers sýslumanns, ok á hvert klaustr, var hann lítt í ordi vinr kaupmanna, ok líkadi illa nidrskipun gjalda í landi hèr, er fátækir skyldu nálega svara sem audugir, ok bjóst enn vid at skuldsett yrdi landit, eptir því sem fyrr var til ætlad; hann hafdi hesta meidda, ok vard bágt um at fá þá sem hann vildi; átti hann tal vid marga menn hvar sem hann kom, en lèt sèr þó ervitt um, er hann skildi ei túnguna til hlítar; ok er hann var kominn vestr, allt at Þíngeyrum, reid hann til Reykjavíkr, ok þadan austr til Skaptafells sýslu, ok þángat at, er hann hafdi fyrr komizt at austan; þar sneri hann aptr ok fór í Reykjavík, ok ætladi sèr Vestfjördu at ödru sumri.

## LXXXIII. Kap. Fèlög.

Um haustid kom póstskip, er ei hafdi lengi ordit, ok á því tilskipun um höndlunar útvídkun, gefin út hinn 11ta dag Septembris; var þarmed leyft útlendra þjóda skipum at sækja híngat, þó eigi fleirum en kammerit lèt þat eptir, ok med svo mörgum varúdarreglum, ok allþúngum kostum, at ætla mátti fáir mundu at gánga; var þat eitt, at 50 dali í silfrpeníngum skyldi gjalda konúngi af hverri lest, nema timbri; þar var ok aukin sýslumönnum umhyggja, ef slíkar skipakomur yrdi tídar. Gjördi vetr þann er þá fór í hönd eigi gódan, en þó mjök mislægan, voru vídast jardir til jóla, þó snjóar yrdi allmiklir, ok snemma legdi at. En med midjum vetri komu hafísar ok þöktu allan sjó; voru aldrei frost mjök ákafleg, en jardbönn hin mestu vída vestr um land, 1817.
ok sumstadar í Húnavatns þíngi, ok til dala. En ádr en meira verdr frá því sagt, hljótum vèr at minnast þess, er fram hafdi farit um fèlögin, þau er upp voru komin, ok afleidínga þar af, er gengu yfir á þessum vetri. Hafdi hit enska fèlag gefit svo mikla silfrpenínga til þess, er sett var fyrir nordan, þar sem átti at skrá sik fyrir arkatali til smáritlínga kristilegra, at þat komst á fót, ok þurftu menn ei annars en kaupa þat er kom út; voru þat all-ágætar hugvekjur, ok teknar út at koma, ok fèllst mörgum vel á, at betr var. Ritníngarfèlag var í

þenna tíma sett í Reykjavík til nýrrar útgáfu hennar, ok gáfu margir til; er getid ádr hverir fyrir þat voru skipadir, ok skyldu ei þurfa at vera lengi hinir sömu, en ill urdu skil á því sem til var lagt seinna. Þat fèlag, er Rasmus Rask hafdi hafit, fèkk lítinn studníng hèdan, ok helzt fyrir þá sök, at menn áttu at leggja því fyrirfram, ok fá ei kaup at betri, en ekki var gjört rád fyrir at sögur yrdi gefnar út; safnadi hann þó til þess í Danmörku, ok fèkk svo mikla eflíngu, at hann lèt leggja upp Sturlúnga sögu; var sagt, hann mundi þá er voradi fara austr á Kaukasus-fjöll, at leita godheims. Sögur fleiri voru þá lagdar upp; greifinn Knuth sat í Reykjavík um vetrinn, ok lagdi ekki til Magnúsar konferenzráds, ok fáir þar sydra, ok lítt voru þángat heimsóknir, nema ef hann baud nokkrum til sín, sem verit hafdi vid útför Gudrúnar Skúladóttur; þótti þá mjök rædt um fjárafla; en þeir áttu brýnt eyrindi er hýstir voru. Þá voru gjörfar at konúngs bodi nýjar kirkjubækr presta, miklu fjölordari en fyrri, ok lagadar at einu formi.

## LXXXIV. Kap. Misfarir ok mannalát.

Bylir voru þann vetr margir ok skyndilegir, ok höfdu menn vída tjón af; hafdi sagt Sæmundr prestr Holm, at sá mundi verda manndrápa-vetr, en hann fór opt nærri um byli. Mánudaginn seinastan í þorra, er var hinn 17di Februarii, gjördi byl, vard þá úti piltr í Skagafirdi, ok saudfè hrakti vída ok misstist; urdu menn úti í ýmsum stödum vestra. Litlu ádr hafdi andazt Helga Brynjólfs dóttir sýslumanns í Hjálmholti, kona Bjarnar prófasts Þorgrímssonar á Setbergi, höfdu verit börn þeirra: Sigurdr landfógeti, hann átti Sigrídi, dóttur Jóns Vídalíns, bródur biskups; Ragnhildr, er átti Jón prestr Bachmann, Hallgrímsson; Þóra, er átti Ólafr chirurgus Brynjólfsson eptir Kristínu Hallgríms dóttur Bachmanns, Þorlákr ok Íngibjörg; hafdi Björn prófastr nú lagt af stad, ok tekit vid Björn prestr Pálsson, prests frá Þíngvöllum, Þorlákssonar, bródurson Jóns prests at Bægisá. Annarr hafdi andazt Sigurdr Magnússon, er fyrr var prestr í Miklaholti, ok kona Jóns Ketilssonar, hann var þá í Gvendareyjum. En fyrri hafdi drukknat bóndinn frá Svidnum, Einarr Sveinsson, vid fjórda mann á kirkjuleid frá Múla á Skálmarnesi, ok 6 menn í fiskiródri í Eyrarsveit, voru tveir frændr Gudmundar á Eyri. Margir menn urdu úti um vetrinn, ok týndist vída fè. Þá bar svo til, at Jón prestr Jónsson at Audkúlu fylgdi vermanni nordlenzkum á leid, Gudbrandi Erlendssyni úr Hjaltadal, því Svínavatn var lagt illa, reid hann örum hesti, en var nokkut kenndr

ordinn, er hann reid heim aptr, fann hann mann á vatninu, er hann þurfti at eiga tal vid, ok fyrir þá sök reid hann af slód, ok ekki á hana aptr; sídan reid hann þvert at landi, ok týndist í blindvök vid vestrlandit, ok fannst ei lík hans fyrr en um vorit. Skiptapi vard enn vestra í Eyrarsveit, ok Hákon prófastr á Eyri vid Skutulsfjörd, son Jóns Þorvaldssonar í Deildartúngu, týndist í snjóflódi. Jón Einarsson læknir var andadr ádr, ok nú andadist Þórhalli prestr Magnússon at Breidabólstad í Fljótshlíd, ok Fridrik prestr Þórarinsson at Breidabólstad í Vestrhópi, bródir amtmanns, hann dó heldr fljótlega einn morgun af strídu taki, er hann hafdi 4 vetr hins 6ta tugar, ok hafdi verit vinsæll madr ok hinn audveldasti vid at skipta. Utanlands dó Balle Sjálands biskup, ágætr madr, ok Heukel kaupmadr, ok Sigurdr stúdent Gunnlaugs son prests frá Hafsteinstödum, bródir Þorkels í Haga, er þá átti Ragnheidi Davídsdóttur Skevíngs; þar urdu mörg ótídindi um stórkaupmenn, þeir gengu margir frá sínu, struku þrír en fjórir drekktu sèr.

## LXXXV. Kap. Frá Jóni lærara ok tjóni.

Þeim hafdi borit til Ísleifi jústizrádi ok Jóni Jónssyni skólalærara, um för yfir tún á Brekku, ok komit til handaskipta; var Jón vid gildlegri kost, en Ísleifr justizrád lítill, þó hann væri allknár, ok af æsku skeidi, ok komst hann vid, lèt þá Jón úti 100 ríkisbánkasedla fyrir ofstopa sinn, en Ísleifr vildi at sök stædi opin ef hann gjördi á hluta sinn optar; eptir þat var brotinn gluggi á Brekku, ok urdu ei adrir hafdir fyrir en Jón lærari, ok keski-ordum hafdi hann kastad til Ísleifs, dró þá til vanda med þeim, ok skyldi hafa mál fram, en sáttum vard komit á med þeim hætti, at Jón skyldi aldrei koma Ísleifi jústizrádi fyrir augu, ok leita sèr brauds annarstadar hit fyrsta hann mætti; var hann nú styggr af þessu, en hugdist þó at binda enda á heitid, gekk á póstskipit, er búit var til farar í öndverdum Martio, ok ætladi at sækja um Breidabólstad í Fljótshlíd, en eptir þat gjördi vedr mikit, ok týndist póstskipit ok allt þat er á var; þar var einn á þjófr, ætladr til utanfarar, Bjartmarr, son Hnausa-Bjarna; rak upp af því vöru ok annat fyrir vestan Jökul, ok fannst þar sumstadar urdat. Sigurdr Gudlaugsson, er þar hafdi lengi verit settr fyrir sýslu, bjó þá at Gröf í Eyrarsveit, ok hafdi fengit Elínu Kristínar, dóttur Erlendar prests Vigfússonar, er fyrr átti Jón prentara, þann er drukknadi; hann hafdi ord allgott af mörgum manni, ok átti at upptaka mál þat til prófs, er fèd fannst urdat, ok þat gjördi hann, en prófit vard nokkut fljótlegt, því

allir voru teknir fyrir ásamt frá Hellnum ok á Öndverdtnes, ok voru þar þó med margir sjómenn, ok var mælt, at Stephán Skevíng hefdi lagt þat til, þókt þat gánga bradast; vildu þá sumir eigi sverja, ok gjördist svo mikil háreysti at Sigurdr rèdi engu vid, ok var því lokit at sinni. Sæmundr prestr Holm hafdi þá verit dæmdr frá prestskap í hèradi, ok skotid málum sínum til ædri rèttar. Þá var gefit eptir afgjald af skipum, er fluttu frá 8 lestum til 16, þeim er Íslands innbyggendr keypti af framandi þjódum, á medan þau væri brúkut þar, ok hafskip, sem hèr væri höfd til fiskiveida, skyldu fá 15 ríkisbánkadali í verdlaun fyrir hverja lest á ári; húkkortu-skip á sama hátt 10 ríkisbánkadali.

## LXXXVI. Kap. Veitíngar, hardæri.

Þá skyldu fjórir úngir menn, þeir er efnilegastir væri einn frá hverjum landsfjórdúngi, fara til Kaupmannahafnar, ok njóta gefins uppheldis, ok undirvísunar í allskonar landbúnadarfrædi, med því skilyrdi, at vitja skyldu heimkynna sinna er útlærdir væri, ok kenna löndum sínum. Med hinu sama skilyrdi skyldi einn stúdent íslenzkr fá hálft þridja hundrad dala, ríkisbánkadali silfrverd, af konúngi, til at nema náttúrufrædi ok þvílíkt. Hvidsteen, stjúpsonr Gríms Thorkelíns etazráds, var settr læknir eptir Jón Einarsson, en í stad Odds Hjaltalíns í Bjarnarhöfn, sonar Jóns prests á Breidabólstad, var settr danskr madr, Clausen, því Oddr var skipadr í landlæknis stad. Lynge hinn úngi hafdi farit illa med sínu rádi, ok var kaupmannssetr hans á Akreyri bodit upp. Þá fèkk Ísleifr Einarsson etazráds nafnbót á burdardag konúngsins; Skúli prestr í Nesi, Thómas son prests Skúlasonar, fèkk Múla nordr, en Jón prestr í Goddölum, Jónsson biskups Teitssonar, Audkúlu; Jón prestr Þorvardsson í Glæsibæ Breidabólstad í Vestrhópi, ok þótti mörgum ólíklegt; Jón prestr Matthíasson í Adalvík Eyri, eptir Hákon prófast. Hinn 13da Maji, ok helzt hinn 16da, gjördi hríd svo mikla nordanlands, at varla vissu menn dæmi til slíks í þann tíma, vard at grafa sik nidr at fjárhúsum á útsveitum, ok svo var þar snjórinn djúpr, at ekkert vard komizt til at leita heybjargar fyrir pening; fèll þá mikill kvikfènadr á Tjörnesi ok í Axarfirdi, í Ólafsfirdi, Fljótum ok Slèttuhlíd ok vídar. Rak þá hval fertugan á Höfdaströnd, annann lítinn á Reykjaströnd; einn á Skagaströnd; hvalr var ok í ísi framundan Höfdahverfi, ok nádist ei fyrr en hann var líttnýtr ordinn, hann var níræðr at álnatali; hrognkelsis veidi hjálpadi mönnum á Tjörnesi mest. Refar höfdu um vetrinn gengit inn í hús, ok drepit saudkindr; en allt var vorit

kalt ok gródrlítid, ok gagnadist illa kálrækt, lá ís fyrir Vestrlandi ok Nordrlandi um allt vor, ok til midsumars.

## LXXXVII. Kap. Frá námsmönnum.

Nú var fast fylgt at kýrbólusetníngu, því eigi mátti confirmera börn, ok eigi gefa hjón saman, nema vissa væri fyrir at slíkum hefdi verit sett bólan, en ekki var amtmadr Nordlendínga audveldr til þess at leggja toll á amtid fyrir Ara lækni, til at launa fyrirhöfn hans vid þat. Nú komu skip út, ok á þeim íslenzkir menn: Ólafr son Magnúsar konferenzráds, ok annarr Ólafr, Stephâns son amtmanns frá Hvítárvöllum, hann hafdi ord á sèr, fóru þeir utan aptr; Vigfús kansellisti, son Stephâns Þórarinssonar konferenzráds, hann fór ok utan. Bækr komu úr fèlagi Jóns prests í Mödrufelli, smárit, en úr bókmenta fèlagi fyrsti hluti Sturlúnga sögu ok Tídindi; stód Bjarni Þorsteinsson fyrir því, sá er fyrr kom út med peníngaskipun, hann var sekreteri, ok gekk fyrir prenti medan Rask var á lángferd sinni, en fèhirdir var Grímr Jónsson, prests í Gördum, Grímssonar á Gilljá, yfir-strídscommissarius, snyrtimadr mikill; Finnr Magnússon professor var skrifari, hann var vel at sèr í lærdómi, ok valinkunnr; Jón Hannesson biskups Finnssonar aukaforseti; Kjartan Ísfjord stórkaupmadr aukafèhirdir, hann var son Þorláks Ísfjords sýslumanns, ok haldinn stóraudugr, en komst þó í vandrædi þat med kaupskap sinn á því sumri, er bánkarot er kallat. Vigfús kansellisti, son Stephâns Þórarinssonar konferenzráds, var aukaskrifari, þeir frændr flestallir kölludu sik Thorarensen. Þessir voru adrir námsmenn íslenzkir í Kaupmannahöfn ok í fèlaginu: Eyjólfr Gudmundarson, tukthússrádsmanns, Vigfússonar; Vigfús Árnason Eyríkssonar, bródurson Jóns konferenzráds ok kalladr Erichsen, hann var svo minnugr, at hann vissi hvern embættismann í Danakonúngs ríki, ok hvers aldr ok læríngarár, ok ætt ok uppruna allan; Ólafr Stephânsson frá Hvítárvöllum; Ólafr Magnússon frá Videy, þeir frændr nefndu sik allir Stephensen; Ólafr Stephânsson konferenzráds Þórarinssonar; Gísli Brynjólfsson prófasts frá Heydölum Gíslasonar; Þórarinn Magnússon Þórarinssonar, hann nefndist Öefjord; Þorleifr Gudmundarson Repp, Gudmundr Bjarnason, Helgi Gudmundarson faktors Þórdarsonar, Þórlákr Bjarnarson prófasts frá Setbergi Þorgrímssonar, Páll Pálsson frá Gufunesi, Otti Gudmundarson Effersöe, son Gudmundar í Skildínganesi, hann fèkk þá Snæfells sýslu ok kom út, ok settist í Grundarfjörd, ok fèkk brátt ord allgott; Torfi Gudmundarson prests Þorgrímssonar, Lauritz Stephânsson konferenzráds Þórarinssonar, Magnús Stephânsson amtmanns frá Hvítárvöllum,

Páll Pètrsson ok enn fleiri íslenzkir menn. Þeir gáfu allir til fèlagsins, ok mikill fjöldi annara manna hèr á landi ok svo erlendis. Margir gáfu til ritníngar-útgáfu fèlagsins á Sudrlandi.

## LXXXVIII Kap. Árferdi, vígslur ok veitíngar.

Þá var mikil ótíd af rigníngum um Austrland allt, ok hit sydra ok nyrdra, skridaföll ok jardarspillíngar, ok hey blaut borin út; bjó þat undir mikil hardindi sídan, ok mest í Múla sýslum ok Skaptafells sýslum, ok um hit eystra Sudrlandit. Audunn prestr til Stóruvalla, Skards ok Klofa, Jóns son prests frá Mosfelli Hannessonar, ok bródir Arnórs prófasts í Vatnsfirdi, drukknadi í Rángá hinni vestri, ok öndudust: Þorlákr prestr Jónsson til Stadar á Snæfjallaströnd, Brynjólfr prestr Ólafsson á Stöd, Jón Brynjólfsson, kapellán at Dvergasteini, Sigurdr Þorleifsson, er fyrr var prestr at Hvammi í Hvammssveit, ok Gudmundr Bergsson at Kálfholti. Benedikt Gröndal fèkk lausn frá assessors embætti, en Ísleifr etazrád var þar fyrstr ok Bjarni Thorarensen annarr. Páll Melsted tók Nordrmúla sýslu, en danskr madr, Marteinn Hansson Tvede, fèkk hina sydri ok var kammer-assessor at nafnbót; annarr danskr madr skyldi hafa Stranda sýslu: Isaak Jakob Bonnesen, þeir komu bádir út, ok tók Schram í Höfdanum Bonnesen á kost, hann fèkk stríds-cancellie-sekretera nafn ok var vel farinn at sjá. Þorvaldr prestr Bödvarsson í Holti gjördist þá prófastr um hálfan Ísafjörd, en Arnórr prestr Jónsson í Vatnsfirdi um hálfan; Guttormr prestr Pálsson á Hólmum, Magnús sonar frá Brennistödum, í Sudrmúla sýslu. Gudni kapellán, Gudmundar son prests Magnússonar, fèkk Middal ok Úthlíd, Jón prestr Austmann Þykkvabæjar klaustrs kall, Sigurdr prestr Gíslason Thorarensen Stórólfshvols kall, Þorkell Árnason Stödvar kall ok var vígdr; Gísli Jónsson proconrektor, á Hólum, fèkk Hóla kall ok var vígdr, ok var nú vid aldr; Vernhardr Þorkelsson prests frá Stad, Gudnasonar, Nes í Adalreykjadal, ok var vígdr; Jón Árnason prófasts Sigurdarsonar Sanda ok Hraun í Dýrafirdi; Jón Pètrsson frá Einarstödum kapellán Höskuldstadi, því Jónas prófastr Benediktsson lèt af; Þorlákr prestr Hallgrímsson á Svalbardi nordr Goddali, þó eigi færi hann þángat; Jón Jónsson prests Þorvardssonar Glæsibæ, er fadir hans var frá farinn; Páll Gudmundarson tukthússrádsmanns Vigfússonar Miklaholt, ok var vígdr; Torfi kapellán Magnússon Stad á Snæfjallaströnd; Gudlaugr kapellán Sveinbjarnarson Stad í Adalvík; Jón Benediktsson, vestfirzkr, Svalbard, ok var hann vígdr; Eggert prestr Bjarnason landlæknis Stóruvalla ok Klofa þíng; Halldórr prestr Jónsson Mos-

fell í *Grímsnesi.* Einarr Pálsson prests á Þíngvöllum Þorlákssonar vígdist enn kapellán til födur síns, Gísli Gudmundarson tukthússráds-manns Vigfússonar prestr til Stadarhrauns, Stephán Stephánsson kapellán til Bjarnhèdins prests Gudmundarsonar í Vestmannaeyjum, Jón Halldórsson kapellán til Sæmundar prests Hálfdanarsonar í Teigi, Bjarni Pálsson prests frá Undirfelli, Bjarnasonar prests frá Melstad, Pètrssonar, kapellán til Jóns prests Þorlákssonar at Bægisá, skáldsins; Gísli Víum Evertsson, Hans sonar Víums sýslumanns, kapellán til Einars prests Hjaltasonar til Þóroddsstadar ok Ljósavatns; Þórdr Gunnlaugsson til Einars prests Bjarnarsonar at Þíngmúla. Geirr biskup Vídalín fèkk þá Danabróga-riddara nafnbót.

## LXXXIX. Kap. Júbilhátíd.

Nú voru lidnir 300 vetr frá því er hófst sidabót Lúthers, í þann tíma er Stephán biskup var í Skálholti, en Gottskálk at Hólum, Nikolásson, en 100 vetr frá því er hèr í landi var júbilhátíd haldin í þá minníngu, á dögum Jóns biskups Vídalíns Þorkelssonar ok Steins biskups Jónssonar; baud nú Fridrekr konúngr hinn sjötti at halda þá hátíd í ríkjum sínum med þakklæti vid gud, ok þarmed útbýta Augsborgar játníngu prentadri; voru skiput helgihöld ok textar; skyldi hátíd vera þrjá daga, en einkum tvo, föstudaginn hinn 31ta Októbris mánadar, ok sunnudaginn annan Nóvembris; hríngja skyldi klukkum kvöldit fyrir föstudaginn, ok mörg vidhöfn var skipud utanlands; skyldi þakka gudi vardveizlu evangelisks lærdóms á föstudaginn, ok prèdika af Jóhannis 8da kap., 12ta v. til hámessu, en yfir Ephes. pistils 2. kap. 8da til 10da vers til kvöldsaungs, prýda kirkjur med ljósum, ok sýngja eptir prèdikun lofsaunginn: „Þèr mikli gud sè mesti prís"; á laugardaginn skyldi latínu-rædu halda vid háskólann, en á sunnudaginn bidja gud um vernd sannra trúarbragda, med hátídarhaldi, sem hinn fyrsta dag, þá skyldi leggja út af til hámessu fyrra pistli til Corinthu-manna, 3ia kap. 11ta versi, en til kvöldsaungs pistli til Hebreskra 12ta kap. 8da versi, organ ok hljódfæri brúka þar til voru, ok skipadar kollektur ok bænir. Þetta fór fram í Danmörku med margri vidhöfn, en hèr eptir faungum med gódri spekt, töldu prestar margir fram sidbóta söguna ok atvik þeirra, ok prèdikadi biskup sjálfr báda dagana í Reykjavík; latínurræda var ok haldin í Bessastada skóla á laugardaginn ok vída fór vel fram, ok kveikt voru ljós í kirkjum sem faung voru á. Biskupar allir í Danmerkr-ríki lètu gánga í þat mund hirdarabrèf í minníngu þess efnis. Þá kom út stöfunarkver Bjarna prests Arngrímssonar

á Melum prentad, ok frá Oddi Hjaltalín, er þá var í landlæknis stad, kýrbólusetníngar reglur, ok hjálparmedöl til lífgunar drukknudum mönnum, einnig lesrím, ok minníng Þurídar Ásmundardóttur, konu Markúsar stiptprófasts í Gördum, því hún var þá öndud.

## XC. Kap. Tilburdir ymsir.

Skip mikit útlenzkt rak um haustid í Öræfasveit í Austr-Skaptafellssýslu á Hnappavalla fjöru, þat var mannalaust, med einu mastri standandi ok ödru brotnu; á því voru patentkúlur af gleri, er enskir menn höfdu fundit til lýsíngar, ok nafn þess enskt; þat var hladit stórvidum amerikanskum, ok mjök brotid, vard farmi lítt bjargat, nema 300 hjálkum, en vída rak vid sydra. Þrímastrada freigátu enska rak einnig á Starmýrarfjöru í Álptafirdi í Sudrmúla-sýslu, ok allt brotid af, var á stórvidr, eik ok fura, 5 menn daudir, ok naktir, nema einn, er menn ætludu skipara, ok fundust á peníngar; hugdu menn, á brèfum er hann hafdi haft á sèr, at farit hefdi frá Skotlandi til Ameriku. Þá andadist fyrir jól í Videy Vigfús Skevíng, er fyrr hafdi sýslu í Skagafirdi, ok verit ágætr madr, ok var þá á hinu 3ja ári hins 9du tugar, var hann jardadr hinn 22an dag Decembris, en kona hans Anna Stephánsdóttir lifdi þá enn blind; setti Magnús Stephensen konferenzrád honum grafarletr. Kona Schrams á Skagastrandar kaupstad hafdi komit út um sumarit med skipara á Akreyri, hafdi hún farit utan ok sóat peníngum bónda síns, ok verit jafnan lausrád. Þar var á skipi lieutenant einn, er verit hafdi vid landmælíngar vestra, ok nefndr er Aschlund, ok haft vid hana glens mikit, var hann haldinn ósidvandr einn, en skiparinn vandadi um, ok kvad Schram hafa trúat sèr fyrir konunni, ok bad hann enga ósæmd veita henni medan hún væri med sèr; gjördi hann gaman af þeim heilrædum; ok nokkru seinna fann skiparinn þau saman í rekkju hennar, tók hann þá í hár lieutenantinum ok dró hann úr rekkjunni, ok bardi á honum, kvadst skyldu halda stjórn á skipi sínu. Aschlund fór til Eyrarbakka, en konan til bónda síns, hún gjördi sik þar harla blída vid sýslumanninn Bonnesen, en lèt illa til manns síns; kom hún svo sínu máli, at sýslumanni rann hugr til hennar, ok fèkk vilja sinn, en hún lèt hann heita sèr því, at verja mál sitt ok losa sik vid Schram; vildi hann sídan ekki brigda þat, ok fèkk af hit mesta ámæli, en hún gjördist þúngud, ok var Aschlund hafdr fyrir faderni; Schram baud henni at gefa upp allir sakir, ok gánga vid barninu, en hún vildi med engu móti, ok ekki annat en skilja vid hann. Bonnesen fór at leita Jóns sýslumanns Jónssonar, er þá bjó í

Vídidalstúngu, til þess máls, ok ekki skipti hann sèr af Stranda sýslu; lèt hann svo í fyrstu, sem hann vildi taka Húnavatns sýslu af Jóni sýslumanni, ok þær bádar, ok gjalda honum þridjúng inntektar, en þat gekk ekki greidt saman, vildi Jón sýslumadr þat ekki. At álidnum 1818.
vetri ól konan barn ok kenndi lieutenantinum, ok vildi ei annat en skilja vid Schram; mæltist hennar mál allilla fyrir ok eigi verr en vert var.

## XCI. Kap. Vetrarfar ok annat.

Þat hafdi ordit fyrir jólin, at 5 menn höfdu drukknat í Hofsós; tveir synir Pètrs Michelssonar beykis á Hofi, ok tveir dætramenn hans: Pètr, son Jóns prests Jónssonar á Bardi, ok Gísli Gudmundarson, er verit hafdi med Jörgensen; höfdu farit at vitja um lagvad ok dimma komit á, ok fundust þeir ei aptr. Var sá vetr hardla þúngr af jardbönnum austr ok sudaustr, ofan á óuýtíngar þær er verit höfdu; einnig sydra ok vída til dala um Eyjafjörd, ok nokkut um Skagafjörd, en gott vestr undan. Fiskafli var mikill vid Ísafjardardjúp, ok ofanverdan vetr undir Jökli. Sydra var afli snemma vetrar, en minna ofanverdan, þó nokkurr; þar rak skötu med fjórum fótum undir bördum, eda þvílíkan fisk, er skötu þótti líkastr. Þat var enn talit med frásögnum, at mann einn á Ströndum, rádvandan ok skröklausan, dreymdi at honum þótti kvedit:

Bezt er at láta brekum af,
ok bera vel raunir hardar;
nú er meir en hálfsókt haf
heim til sælu jardar.

Andadist hann fljótlega daginn eptir. Þann vetr týndust tvö skip vestra, ok eitt flutníngs-skip á Akranesi ok menn af, þeir voru flestir nordlenzkir. Þá lèt amtmadr Nordlendínga gánga ómagareglu Jóns prests í Mödrufelli, ok vildi bjóda öllum at halda í sínu umdæmi, en þar fèllst mörgum lítt á, því ei hagadi eins allstadar. Margt sýsladi hann í brèfum ok eyrindum vid sýslumenn ok adra, sem jafnan, ok þótti þá mörgum enn hardordr nokkut.

## XCII. Kap. Mál Húnvetnínga.

Þorvaldr bjó at Gauksmýri í Húnavatnsþíngi, son Jóns gardyrkjumanns, Grímssonar at Gilјá, Grímssonar, ok Gudrúnar Bjarnardóttur Benedikts-sonar lögmanns; hann var haldinn illmenni, sem fadir hans. Þat hafdi ordit fyrir 17 vetrum, þá hann var med Rafni presti Jónssyni á Hjalta-

bakka, at Höfda-skip týndist þar fyrir framan á sunnudegi í hríd, þá þeir Þorvaldr ok Eggert, sonr prestsins, gengu þar til altaris med ödrum mönnum; ok voru skipverjar þrír staddir í landi á Hjaltabakka ok vid kirkju, ok var skiparinn ok kokkrinn einir frammi, hafdi kokkrinn fallit úr reidanum ok var sjúkr, en frá skiparanum er sagt ádr, hann hèt Knútr Herleifr Pètrsson, ok hugdu menn hann í land syndt hafa, fannst hann hvergi, nè peníngakistill hans, en í landi var hundr hans; hafdi Þorvaldr verit úti frameptir nóttinni, en mönnum bar ei saman um Eggert, ok er skiparans hafdi verit leitad var hundrinn á sandinum, ok lèt illa, ok vildi æ ráda á Þorvald, hvar sem hann sá hann, svo at opt vard at verja hann fyrir honum, þó at margir menn væri saman, en á engan mann rèdst hann annan. Ok nú, er hèr var komit, fann Einarr prestr Gudbrandsson á Hjaltabakka mannsbein grafin í bakka eda þúfu, ok undarlega lögd, ok sundrud, vantadi armana; hafdi Þorvaldr lengi verit grunadr um mord skiparans, þó at eigi hefdi verit fram fylgt, ok er stefnt var, vottadist, at hann hafdi haft undarlega mikla peninga, ok keypt jörd, ok bodit dýrra en hún var föl fyrir; mjök margar líkur voru enn fundnar; en hversu margir sem vitnudu, báru honum allir illt ord, ok voru mörg þíng um vetrinn. Eggert kvadst mundu vinna eid fyrir allan verknad, en ekki var gengit at þeim sjálfum fastara. Sumir þóttust hafa sèd skiparann fylgja Þorvaldi, en þat má ætla virdt hafi verit fyrir ófundarmál seinna; voru skodut beinin, ok brá hann sèr lítt vid, en fór at öllu grunsamlega; var þat eitt, at hann vildi ei snerta þau, er honum var bodit; þat gjördi Björn Ólsen, hann sókti málit; hafdi hann fáryrdi mörg, ok rengdi votta, ok heitadist vid Ólsen ok adra, en var opt ofsa-kátr í látbragdi; borit var honum enn húsbrot eitt, ok at hafa verit líklegr til at hafa valdit dauda módur sinnar í megrd, ok ofþjakat barni sínu, er dó. Bádir urdu þeir Eggert í hluttekníngu um stuld nokkurn lítinn af skipbrotsmönnum, er sannadr vard; var þíngat um þetta lengst vetrarins, ok var mælt, at Bonnesen hefdi bodit Jóni sýslumanni at gánga í málit ok dæma. Margt var þá fleira hredusamt med Húnvetníngum, ok gjördu þeir sýslumann lágan. Ísleifr þjófr, son Jóhannesar á Breidavadi, óráðvands manns, sá er dæmdr hafdi verit til þrælkunar um æfi, en Castenskjold hafdi sleppt, hafdi barnat systur Sigvalda prests í Grímstúngum, Snæbjarnarsonar, en sídan kenndi systir Gísla prests í Vestrhópshólum honum barn, þíngadi sýslumadr um þat, en Ísleifr kvad mál ofgamalt, ok lètst ei mæta mundu fyrir hans dómi; en sídan, er Ísleifr vildi fara sudr passalaus, vard sýslumanni skapbrátt ok kvad hann mega fara til helvítis, ok vitnadi Ísleifr þat, ok lèzt mundu reisa

mál af. Slíkr gjördist þá ofsi illgjördamanna; margar voru þar fleiri dylgjur ok óhlutvendni.

## XCIII. Kap. Frá Akreyríngum.

Lynge hinn úngi hafdi komit út á Akreyri; hann átti konu vel ættada, hafdi henni fallit arfr eda gjöf, en hann vildi eigi þiggja, ok kvadst ei vilja at hún audgadi sik; hafdi hann talit hana á at fara út híngat, lètst eiga hèr svo mikit fè, at ávöxtrinn mætti nægja þeim; hann átti ok skipit, ok hálfan kaupstadinn á Akreyri; fargadi hann skipinu, ok seldi húsin, ok bjó sídan til leigu hjá Thyrrestrup, en keypti ásamt jörd í Siglufirdi, ok lèzt ætla at búa þar, ok sitja þó at á höndlunarstadnum; hann keypti ok jardir at konferenzrádi Stepháni amtmanni Þórarinssyni fyrir allmikit verd, Skjaldarvíkr tvær, allillar. Þá bar svo til á Akreyri, at þar var barn alit, ok ætludu menn at Lewer kaupmadr einn mundi eiga, hann átti norræna konu, ok fór henni vel, ok bad hann gipta stúlkuna þeim manni íslenzkum, er hún nefndi til, ok henni gazt bezt at, ok gefa henni 100 spesíur, ok halda brúdkaupit sjálfan, ok annast þarmed barnit þar til þrèvett væri; þat bod baud hann þeim manni, ok vildi sá ei at gánga; þá baud hann ödrum, er Sigurdr hèt ok var Benediktsson, hann gekk at eiga hana ok var bod inni. Lars Lynge var illa til konu sinnar, ok var sagt hann berdi hana stundum; hún beiddist at fara til bods ok fór hún, en hann var heima ok gekk um gólf, sem hann gjördi jafnan, því hann sókti eigi mannfundi, þóttist nálega ofgódr til hvervetna. Hann mælti þá vid sik einan, svo at menn heyrdu: „nú kemr kona mín, ok fara okkr ord" á þann veg eda hinn, ok taldi ordin, „þá kemr svo," sagdi hann, „at ek ber á henni, en hún ber þá á mèr aptr". Þetta var þat er menn heyrdu; en um aptaninn, er hún kom frá bodinu, gekk þat jafnt sem hann sagdi. Sídan kærdi hann hana fyrir þat hún hefdi barit á sèr, ok sókti samvista-skilnad til amtmanns, ok fèkkst hann um sídir; eptir þat vildi hann sækja hana til sektar ok dóms í spunahúsit, ok var ei gaumr gefinn at því; en mjök tídkadist í þann tíma at hjón skildu, meir en verit hafdi. Þá var med Lewer Þórarinn, son Stepháns konferenzráds, ok var sem kaupmanns-sveinn, ok þótti lítid nema; var þó eigi annat á honum at sjá, en hóglæti ok allgóda greind.

## XCIV. Kap. Frá kapítulstaxta.

Mikit var nú ordit vandhæfi ok önn sýslumanna, því at allt þat sem skipat var þá var med miklum brotum ok umfángi; hafdi nú lengi

verit í hyggju haft at setja kapítulstaxta, eda medal-verdlag landaura, er lúka skyldi gjöld eptir, sem annarstadar í löndum hafdi lengi verit sidr, ok ei má vera ödruvís, þar sem kaupskapr er ekki bundinn vid visst verd; ella verdá gjöld öll harla ógild ok raung, ef peníngar skulu jafnan halda verdhæd sinni í þau, en fást þó ei fyrir þá nema lítid af því er ádr fèkkst; höfdu margir lengi kært um gjöld ill, en alþýda stundum um of frek, helzt presta ok kirkna gjöld, þau er þá voru skiput, var því fyrir laungu bodit af konúngi at setja kapítulstaxta, ok hefdi þurft þó miklu fyrri, ok jafnsnemma sem kauphöndlun vard laus, ok þá jardaskuldsetnínguna ásamt, ok hefdi þá enginn mátt ákæra ójöfnud. En rentukammer hafdi sent brèf med því konúngsbodi, ok látid sem þá mundi hann fyrst til skodunarmáls koma, ok því höfdu amtmenn dregit undan at setja hann. Sídan hafdi á komit ófridrinn, ok gèkk þá fátt fram; en nú baud konúngr at nýju at setja þann taxta, ok urdu sýslumenn at gefa ádr margar skýrslur, ok svo skyldi vera hvert ár, ok var þat med ödru því er þeir þurftu at annast, en ekki kom jardaskuldsetníngin at heldr; þótti þá bændum þúngt at gjalda eptir kapítulstaxta ok helzt jardatíundirnar, er jardir voru flestar ordnar ofdýrar; en þó bændr vildi láta setja þær nidr, gekk þat tregt, því at amtmenn vördudu med öllu at konúngs jardir væri settar nidr, þó þær fengi áföll, medan einhverr fengist til at bjóda þær landskuldir er þeir vildu láta vera, ok seinna vildu þeir enga jörd þola nidrsetta, ok leiddu þángat lög þau, er aldrei áttu hèr heima. Var þat ok þúngt at gjalda fullar landskuldir af sumum spilltum konúngsjördum, er ei mátti nidr setja, eptir kapítulstaxta, ok þá ei örvænt, at bændr mundi setja hinn sama leigumála á sínar jardir; en þó vard þat, medan Stephán Þórarinsson konferenzrád var amtmadr nyrdra, at konúngsjardir leigdust flestar fyrir sokka at forngildu, en bændr tóku at setja landskuldir eptir samníngi. Var eigi þolandi at svara peníngum eptir hinum fyrsta kapítulstaxta, þvíat kaupmenn lètu þá eigi med því verdi í nefndarverd, þó at vöruverd væri kallat, en þat nefndarverd var svo hátt at ordi kvednu: $46\frac{1}{4}$ skildíngs fyrir alin hverja, at bændum ægdi at svara þann veg gjöldum, helzt tíundum af spilltum jördum, er þó voru heimtar í konúngssjód, ok urdu sýslumenn, þeir er svörudu þeim frá sèr eptir reikníngi, helzt í Skagafirdi ok Eyjafirdi, at gefa mikit eptir af sínu enn sem fyrri, ok því þýngra var um afgjöldin fyrir nordan, sem engir fengust peníngar hjá kaupmönnum, kenndu hvorir ödrum, amtmenn þeim, ok þeir amtmönnum, kölludu ærna peninga senda hafa verit til landsins. Verd ríkisbánkapenínga var þá í hækkun, ok voru kaupmenn sumir fastir á at láta

þá, en fúsir at taka vid, ok ætludu sèr þá til ábata. Fyrir sunnan var þó kapítulstaxtinn hærri, 58 skildíngar í nafnverdi fyrir alin. Var þetta, ok margt annat, auglýst í frèttabladi einu, er Magnús Stephensen konferenzrád lèt þá prenta, ok kalladi Klaustrpóstinn; þar höfdu margir menn lagt í, ok var hit fyrsta frèttablad eda mánadarit er Íslendíngar höfdu prentat haft, at ótöldu litlu sýnishorni, er Magnús sýslumadr Ketilsson hafdi fyrrum látid á prent koma í Hrappsey; kostudu 12 arkir, sem mánudir voru, þá hálfan annan ríkisbánkadal í nefndarverdi fyrir þá, sem lètu skrá sik.

## XCV. Kap. Lögmál, jardakaup ok árferdi.

Margar komu nú skipanir, ok höfdu komit, og flestar allar lítt fyrir Ísland. Annexíukirkja hafdi verit tekin af at Búdum, ok lögd til Stadarstadar, önnur at Ási í Kelduhverfi lagdist til Gards. Skiptasýslanir eptir klerka voru teknar frá prófóstum, ok lagdar til sýslumanna. Húsfólk ok vinnuhjú skyldu gjalda hálfan ljóstoll ok dagsverk. Seldar höfdu verit konúngsjardir í Gullbríngu ok Kjósar sýslum vid uppbod, ok ákaflega dýrt, var ein 10 hundrada jörd fyrir 1420 ríkisbánkadali nefndarverds; keypti Hákon Vilhjálmsson í Kirkjuvogi fimm af þeim fyrir meir en átta þúsundir þvílíkra dala, en 14 þúsundir gaf Magnús Stephensen konferenzrád fyrir Videy; voru þar med hús öll ok kirkjan. Nú fèll med skipakomu silfrit, svo at ríkisbánkasedill gilti vid þridjúng spesíu, ok þóttust þá sumir ósvinnir vid ordnir, en höndlun var hin þýngsta er verit hafdi. Vetr hafdi verit þúngr sydra ok eystra, en gódr vestra, einkum í Húnavatns þíngi, ok allt í Skagafjörd; svo var ok sjógæftalítid, þó vard gódr vetraraflí sydra, en spilltist af rigníngum, ok gjördust þær miklar med sumrinu.

## XCVI. Kap. Mannalát.

Arnórr prestr á Bergstödum í Svartárdal, Árna son biskups, kapellán Bjarnar prests í Bólstadarhlíd, hafdi andazt um vetrinn, ok átt eptir sjö börn; var eitt Björn, er prestr vard seinna; annarr hafdi dáit Sigurdr prestr Hallgrímsson á Ólafsvöllum, ok enn Otti Gudmundarson Effersöe, er þá var sýslumadr í Snæfells sýslu umbodslausri, ok Markús prestr Sigurdarson at Mosfelli. Sigurdr, son Stephans Þórarinssonar konferenzráds, andadist utanlands af brjóstveiki, hann var artgódr ok vel sidadr, ok var kvedit eptir hann utanlands ok innan. Kristján Lodvík Holm, er verit hafdi faktor í Olafsvík, en sídan útvegsbóndi, hafdi

fundizt daudr vid skothús undir Enni, byssan vid hlid hans, en refr skotinn vid adra, var hann kalladr stóraudugr, ok var Otti sýslumadr tekinn at skrifa upp bú hans, er hann deydi sjálfr; urdu ok slysfarir ok manntjón, ok eldíng sló nidr badstofu í Krosshjáleigu í Landeyjum; þar dó eitt barn fjögra vetra. Sexæríngr týndist frá Hafnarfirdi, ok á 8 menn.

## XCVII. Kap. Frami nokkurra manna ok Íslands.

Þá fengu fiskiduggur vid Ísland verdlauna fyrirheit: 10 dali silfrverds fyrir lest hverja, ok mátti verda nokkut svo Íslendíngum til örfunar, þeim er vid höndlan voru; tók nú mörgum at þykja mestr frami at gefa sik vid henni, enda hafdi þá Bjarni Sigurdarson riddari fyrir nokkru látid reisa þrjár skútur í Hafnarfirdi, hafdi ein brotnad, en eina átti þá Ari Jónsson í Njardvík; var Bjarni beztr kaupmadr þar sydra, ok þeir Flensborgarinn í Hafnarfirdi, lengi sídan, því Reykjavíkr kaupmenn voru flestir vesælíngar, ok komu med litla vöru, en eyddu skjótt mikilli. Þeir fedgar, Bjarni ok Sigurdr sonr hans, er ok var kalladr Sívertsen, höfdu látid at mestu smída um tvær skútur adrar, ok Jón Sighvatsson í Njardvík, framkvæmdarbóndi mikill, lèt reisa eina, hún hèt Njardvík. Jón Daníelsson hreppstjóri, í Vogum, ok Árni Magnússon í Halakoti, höfdu enn eina í smídum; ok margr frami jókst þá Íslendíngum, þó margt þætti þúngt; studdi þar enn at fèlag þat, er Rask hóf, er bædi var í Kaupmannahöfn ok hèr út; hafdi konúngr ok margir ágætir höfdíngjar styrkt þat; ok nálega um öll Nordrlönd ok Þýzkaland, ok nokkut svo um England, kom íslenzk túnga ok fornfrædi í álit mikit; en auk þess hafdi Henderson hinn enski lagt mikit gott til Íslendíngum, sem fyrr segir. Þá kom út frá bókmentafèlaginu prentad annarr hluti Sturlúnga sögu, ok Sagnablöd, ok hinar helztu sögur Íslendínga voru prentadar utanlands. Þá fèkk Jón prestr Jóns son frá Vogsósum Stóradal, en Illhugi prestr Hannesson frá Villíngaholti Ólafsvelli. Skip flæmskt rak á Skálar fjöru í Medallandi, ok týndist, en menn komust af, ellefu saman. Þat var enn skipat, at handlæknar hèr á landi skyldu hafa 300 dali silfrs í laun, en í ekknafèhirzlu skyldu handlæknar leggja eittsinn 500 dali, ok landlæknir 800. Geirr biskup Vídalín gjördist þá riddari af Danabrógu, en Hallgrímr Skevíng, Hannes son prófasts frá Grenjadarstad, doktor í heimspeki; Torfi prófastr í Hruna, Jóns son prófasts, Finns sonar biskups, fèkk Breidabólstad í Fljótshlíd, en Einar Thorlacius, Hallgríms son prests frá Miklagardi, Skinnastadi; skipti hann aptr vid Þorlák prest Hallgrímsson frá Svalbardi, ok tók

Goddali er honum voru veittir, ok þótti vorla hinum ædri mönnum haldast mega fyrst, en þó vard þat; hann var vel at sèr, ok átti Margrètu, dóttur Jóns prests Jónssonar í Mödrufelli, ok margt barna.

## XCVIII. Kap. Áfelli ok mannalát.

Um vorit í Martio tók snjóskrida Augnavelli í Skutulsfirdi, ok voru níu manneskjur naktar í svefni; hún tók nokkut af badstofunni 150 fadma med sèr, en braut annat ofan á fólkit, lá þat undir vidum, torfi ok klaka í fjögr dægr, en sídan urdu menn af næsta bæ varir vid, heimtu at sèr fleiri, ok fóru til bæjarins í blindbríd med verkfærum, ok rufu til hans; nádust hjónin med lífi, tvö börn ok vinnu-kerlíng, en eitt barn lá dautt á fótum foreldra sinna; fengu menn þá ei lengr verit at á þeim degi, fyrir myrkri ok þreytu, ok var enn leitad annan dag, fannst þá eitt barn dáit ok eitt úngmenni, en gamalmenni var med lífi, ok dó samdægris; lá svo þat, sem lifdi, um bríd vid sár ok örkumsl; fleiri snjóflód gjördu skada, ok drukknudu nokkrir menn. Þá andadist seint í Majo göfug kona ok gódfræg, Sigrídr Stephánsdóttir at Espihóli; er átt höfdu sýslumenn Þórarinn Jónsson ok Jón Jakobsson, ok var þá vetri midr en hálf-níræd, hafdi hún legit þúngt ok lengi um vetrinn af bólgu innvortis, ok borizt vel af, ok átti eptir mikit afkvæmi, ok margt vel mannat, var Stephán Þórarinsson konferenzrád elztr barna hennar, en Jón Espólín ýngstr, þeirra er þá lifdu, en barna börn hennar flest vaxin, ok sum gipt ok áttu börn.

## XCIX. Kap. Fra ýmsu.

Nú var dæmt í Synodo mál Sæmundar prests Holms at Helgafelli, ok fèkk hann at halda kalli ok kjól, þó mörgum þætti all-ólíklegt, en var sektadr um 30 dali ok málskostnad; ætludu sumir í þat mundi hafa sèd verit, ef hann sigldi, at einkis mundi örvænt af honum, ok ei mundi hann beidast vegabrèfs. En sumum þótti prestum vandstadit med barngetnadi, svo lint sem þar var tekit á vid adra, svo at vandrædi þótti auka, ok var helzt til hafit er Gudmundr prestr einn vard at láta embætti fyrir þat hann kom ofsnemma í sæng med konu sinni. Konsúl enskr kom út um sumarit, ok ætladi at fara um land. Þá var veitt Benedikt Magnússyni Mosfell ok Gufunes, ok þeir urdu kapellánar: Þorsteinn, son Þórdar prests Þorsteinssonar, til Ögrs, ok Sigfús Árna son prófasts Þorsteinssonar frá Kirkjubæ ok Bjargar Pètrsdóttur sýslumanns Þorsteinssonar, til Salómons prests Bjarnarsonar at Dvergasteini, fèkk hann eigi at verda kapellán födur

sína, fyrir þá sök, at honum var aflat barn, en þó fèkk hann uppreisn med þessum hætti; hann var skáld, ok líklegr til at verda framarla um þat. Þat vor var mikill fiskafli sydra: sex hundrada hlutr hæstr á Strönd. Þá var prentverkit á Beitistödum, ok komu þadan út Stúrms hugvekjur frá páskum til hvítasunnu, hafdi lagt út Markús stiptprófastr Magnússon, en mælt var, at honum hefdi þótt ærit umsteyptar ádr prentadar voru, ok líkat stórilla. Þá var manntal í landi vel átta þúsundir hins fimta tugar, en mjök tídkadist ill ok laus sambúd hjóna helzt til vída, ok fleira lausrædi. Var þá Schram, kaupmadr í Höfda, skilinn at lögum vid konu sína, ok fór hún med Bonnesen vestr til Stranda sýslu, settust þau at med Hjalta prófasti Jónssyni at Stad í Steingrímsfirdi ok gatst honum lítt at er stund leid, en hann var hinn mesti kennimadr ok merkismadr at mörgu, ok vinsæll; hann átti Sigrídi Gudbrandsdóttur, systur Gunnlaugs Briems, ok börn nokkur, ok voru þá sum nokkut á legg komin.

## C. Kap. Árferdi ok annat.

Í þann tíma var settr þjódarbánkinn í Danmörku, ok skyldi mega hlut eiga í hverr sem vildi, ok legdi til 100 hálf-spesíur, ok þat var actia; kom út um þat sídan konúngsbrèf ok octroyja med mörgum greinum, ok skyldi sá bánki standa um 90 ár. Þá var óblídt sumar eptir eigi gódan vetr, vedr mikil ok rigníngar, frá hvítasunnu at messum fram, ok spillti mjök málnytu sunnanlands ok austan, en vída hleypti fram skridum; tók af mjök mikit af Bleiksmýrardal, ok týndist allmargt saudfè, hugdu menn nær þrem hundrudum hafa rekit dautt upp úr Fnjóská hit efra ok nedra. Aptr spillti med slætti, ok gjördi stórar rigníngar, mest sunnanlands, ok urdu heyskemmdir miklar. Afli var enginn nordanlands, en þó var þá eigi öllu betr ært annarstadar en í Húnavatnsþíngi ok Skagafirdi, kom þó engin siglíng á Skagafjörd, en lítil í Höfdann. Þá dó nyrdra Gísli á Breidumýri Jónsson, Ólafs sonar brita á Hólum, ok kona hans; þau voru foreldrar Kristínar, er Hallgrímr Skevíng átti, ok audug, ok þar í sveit dóu þrír menn á einum bæ hverr eptir annan, brá svo vid sem ólyfjan hefdi komit úr grösum, er þurkut voru vid eld. Slysfarir urdu ok nokkrar: var ein, at týndist í Tindastól med ödrum manni Gísli, son Magnúsar prests Árnasonar á Fagranesi, ok drukknadi í Fnjóská Gudrún, dóttir Einars prests Thómassonar; Jón bródir hennar hafdi fylgt henni, en áin var ófær ok þau lítt kunnug vödum, hafdi hún ridit útí ok fallit af baki, hljóp Jón þá ofan med ánni, er honum vard rádfátt, ok svo heim at Hálsi,

var þar ekki karlmanna fyrir, en Björg Halldórsdóttir Vídalíns, kona Sigurdar prests Árnasonar, spratt upp ok sendi á bæi eptir mannhjálp, ok hljóp sjálf til árinnar, hafdi þá stúlkuna borit upp á eyri, þá ód hún þángat út, ok Jón med henni, ok komu henni at landi, en ekki vard hún lífgud, því höfudit var laskat ok svo brjóstid. Heyskapr vard sæmilegr nordanlands, en vel fyrir austan Mýrdalssand, en sudr ok vestr hröktust tödur, var þá ok lítid fiskifáng fyrir Jökli, ok allill tíd. Kuldi var um engjasláttinn, ok komu hafísar miklir; ok þótti þá óvenjulegt; rak nokkut af þeim inn á Húnaflóa, Skagafjörd ok Eyjafjörd; en eptir hundadaga ok fram til Mikjálsmessu gjördi snjóa, ok mest nóttina milli hins 28da ok 29da Septembris, svo at kaffennti fènad á fjallbæjum vid Skardsheidi í Borgarfirdi, ok 20 saudkindr til dauds vid stödulból at Hlídarfæti í Svínadal. Menn urdu ok úti vid gaungur í Húnavatns þíngi um þann tíma ok dó einn af kulda, er heim var kominn; var þá lítil kályrkja þeirra er á þat stundudu. Litlu sídar var vel 100 marsvína rekit á land vid Reykjavík, á Hlídarhúsa ok Örfærseyjar lód. Þá var veittr Hvammr í Nordrárdal Jóni í Svignaskardi, Magnússyni sýslumanns Ketilssonar, ok var hann vígdr þángat, en Kaldadarnes Gudmundi Lassen kapelláni; Jóni presti Steingrímssyni frá Reykjadal Hruni, en Bonnesen sekretera Snæfells sýsla fyrir bón hans, ok mundi koma honum til lítils tíma, þó at eigi yrdi hann fèþrota, sakir adstodar utanlands frá, ok fór þá kona Schrams vestr med honum. Eptir vetrnætr gjördi væga vedrátt, ok sídan vetr hinn bezta.

## CI. Kap. Frá málum.

Þann tíma var málasamt ok deilusamt nokkut í landi; dæmdi Jón sýslumadr Jónsson í Húnavatns þíngi, er þá bjó at Reykjum í Midfirdi, mál Þorvalds Jónssonar frá Gauksmýri, er menn kölludu af því beinamál, at ekkert vard sannat um mordit á skiparanum; skyldi Þorvaldr hafa litla hirtíngu, sem fyrir smá-hvinnsku, ok Eggert minna; þótti þat mörgum undarlegt, svo illa sem vitni höfdu gengit Þorvaldi, ok þat líkadi sumum lítt, at ei hefdi hann tekinn verit, svo miklar heitíngar ok illar, sem hann hafdi haft, ok ei örvænt at vitni hræddust hann, ok med því at málskostnadr var ærinn, þó sýslumadr vildi gefa sinn eptir, þá appelleradi Björn Olsen á Þíngeyrum málit í þeirri grein til yfirrèttar, en amtmadr máls medferdina sjálfa. Margr var þá annarr agi í Húnavatns þíngi, en vidgaungu veitti Ísleifr Jóhannesson barni, því er honum var eignat. Peninga mál úr Dala sýslu, er falskir þóttu, var dæmt í hèradi, ok bætr allmiklar þeim er fyrir var hafdr,

eda 80 vandarslög; hann skaut til yfirrèttar, ok mælt at sæi þó eptir því sídan. Í Snæfells sýslu voru mál ýmisleg, en sumir fóru sínu fram, þar var þá enn fyrir sýslunni Sigurdr Gudlaugsson, ok bjó í Gröf í Eyrarsveit; þótti honum fara miklu betr en líkindi voru til, þar sem hann var lagalærdómslaus, ok drykkhollr, ok örsnaudr af fè, en hann var gætinn, ok vinsæll mörgum, en amtmadr Stephán Stephensen á Hvítárvöllum óstrángr, ok honum heldr fylgisamr en ekki, ok þat studdi hann, ok sumir þóttu sýslumenn á Vestrlandi midr koma sèr vid en hann í laga-framferdum, voru helzt nefndir til Skúli Magnússon ok Ebenezer Þorsteinsson, er settr var fyrir Ísafjörd, þótti hvorgi þeirra lögvitríngr, en þó skildi þá mikit: var Skúli vinsæll í hèradi ok óslægr, en Ebenezer brögdóttr ok medallagi þokkadr, en fjarlægr mjök yfirmönnum sínum.

## CII. Kap. Kvedlíngar sydra.

Þess er getid, at Sæmundr prestr Holm at Helgafelli, er þá hafdi at kapelláni Gísla prest Ólafsson, hafdi átt í málum, ok hafdi hann verit dæmdr í hèradi frá kjól ok kalli fyrir mörg afglöp, en Geirr biskup Vídalín ok Bjarni assessor Thorarensen, er þá var í stiptamtmanns stad ok bjó at Gufunesi, höfdu heldr mýkt mál hans í Synodo, sem fyrr segir, svo hann hèlt hvorutveggja; þótti þeim þá prestr sleppa audveldlega sem vid hann áttu at skipta. Bjarni hafdi bedit dóttur Stepháns Þórarinssonar konferenzráds á Mödruvöllum, ok vildi hún ei gánga med honum; hann var skarpr madr ok lögvitr, ok mjök vel at sèr í mörgu, ok hèlt sèr fram, skáld gott ok kappsamr, medan hann var úngr; komu þá upp vísur ok fundust í Reykjavík, er viku heldr til hans hnjód, ok var þetta upphaf at:

Gjördu mik, fadir, ek girnist ei meir
af gædunum heimsins þess arna:
svo idinn sem Magnús, ok gódan sem Geir,
ok grobbinn sem assessor Bjarna.

Þar var ok nefndr í Halldórr, sem kalladr var Thorgrimsen, son Gudmundar prests Þorgrímssonar á Lambastödum ok stjúpsonr biskups, ok eigi til ágætis, ok gálúngslegar voru vísurnar. Var Halldóri í þann tíma talat til fyrir stórskuldir ok óhlutvendni, er hann hafdi verit settr fyrir sýsluna, ok veik Bjarni honum frá embætti, en sídan var hann dæmdr af því, ok til at gjalda konúngi í skuldafè tvær þúsundir ok 600 ríkisbánkadala silfrvirdra, ok hverjum sitt, ok treystist hann ei at appellera til yfirrèttar, því at málin þóttu ógód, en madr ekki hard-

gjörr, ok kom ómegd hans upp á biskup, ok vard þeim hjónum af þessu mikil skapraun, ok biskup þarmed laungum sjúkr eptir þat. En Bjarni assessor, er hann spurdi vísurnar, kvad hann þat í móti er menn kölludu Dela-ód, ok var um hund einn, er stolit hefdi í blandkollu Gunnladar; lagdi þar til Oddr Hjaltalín, son Jóns prests, er þá var í landlæknis stad, nokkur erindi, ok grunudu þeir um vísurnar Jóhann Thómasson frá Ásgeirsá, er þá var þènari Stephåns amtmanns Stephensens á Hvítárvöllum. Madr hèt Vigfús trèfótr, er Thómas Klog hafdi fyrrum læknat ófæran, hann var nokkut ósvífinn, því hvar sem hann sá Klog elti hann hann jafnan, ok sýndi honum fótinn vidhafnarlaust, var hann hagordr, ok drógu menn þat til at hann mundi eiga vísurnar, en hann sneid sik nokkut eptir Sigurdi Pètrssyni sýslumanni, því fráteknu, at hann var grófari ok ordhákr vid hvern mann, en undir þær var ritinn „Þórólfr bægifótr". En eptir þat er Bjarni svaradi vard misrædt um, ok þótti sumum ei slíkum manni hæfa svo at yrkja, ok kölludu nokkrir hinir vitrari betra hefdi verit at virda eigi vísurnar svars, eda lögsækja ella; kom þá upp vísa at vestan á þann hátt:

Á ýmsu þykir í veröldu velta,
— var ei sem núna fyrr umsjónin stíf: —
þar blandkollu Gunnladar helztu menn elta
ok hafa á gætni nær þunnt fær hún líf;
hverr mundi trúa at hefdi stad nú
á hæsta lands-kontóri nærfærni sú.

Bar þá svo til, er dæmt var mál Sæmundar prests, at Bjarni kvad:

Sæmundr Magnússonr Hólm
vindanna vængjum á
vatt sèr málunum frá;
forlög þá hann ofsóktu ólm
aurinn hann ód í kvid,
óvinir skelfdust vid.

Var því brátt andæpt, ok kvad einn þat er þetta var upphaf at:

Þórarins nidr þannig kvad,
þegar hann hafdi dæmt
Hólms málit, hardla ræmt;
en hvat er at ösla hunda vad
hafi þat ekki sked
þínglokum þessum med.

Brandrinn ok hann Bángsi reid
brögdóttan laga hnút,

herdtan um Hólma grút;
Themis á vængjum vinda beid,
var þá öslud í kvid
leirveltan lögberg vid.

Þar fylgdu þrjár adrar því líkar, ok gátu sumir til, at fenginn hefdi verit til at kveda þær Jón, er verit hafdi at Fródá, Hákonarson, Gudmundarsonar, Bjarnasonar í Arnarbæli, því hann var hagordr ok vid margt brugdinn; en þessi vísa var med hendi Jóns prests Hjaltalíns:

Ekki er vert at yrkjum vèr
um annara tal nè verk,
þó midr virdist merk:
bernsklega einatt börnum fer,
börn eru allir menn;
svo var ok verdr enn.

Nokkru seinna jókst kvedskaprinn, ok var þá sett upp opit brèf í Reykjavík, undir sama brag ok hinar fyrstu vísurnar, var þar fyrst hád,
1819. sídan lýsti sèr sá er kvad, ok kvadst vera hinn æfdasti kappi til skamma, ok heita Skjöldóttr; voru þar at nedan stökur nokkrar illar ok hrakmannlegar, ok hafdi Bjarni assessor þat af vitrlegum rádum, at hann svaradi því eigi; fèll þat svo nidr. Jafnframt þessu kom upp mál í Dýrafirdi: sagdi bóndi nokkurr presti á jóladaginn, at nábúi sinn, er Skúli nefndist, hefdi fyrir 13 vetrum drepit son sinn sjálfs med barsmíd, 17 ára gamlan, haft sídan túngu hans ok kinnar fyrir fiskbeitu, en vakit hann upp ok látid hann stela frá sèr saudfè en drepa sumt, en seinast hefdi hann sent hann at sèr, hefdi þá annarr madr komit med honum, ljósklæddr, ok styrkt sik til at fella hann þrisvar, en neydt hann til at segja tilburdinn, ok bodit sèr at bera sögu þessa fyrir prest; var fyrst í gátum, hvort þvílíkt mál mundi verda fram haft, er svo þótti fullt heimsku ok hindrvitna; ok vard þá skjótt, at slíkr hègómi fèll nidr.

## CIII. Kap. Mannalát ok annat.

Þat kom þá eitt út, at utanflutníngr sakamanna skyldi jafnast á ömtin, ok svo kansellí-brèf um fornleifar: var bodit at gæta þeirra er til væri, ok bæta at fullu Snorralaug í Reykholti; einnig um varúdarreglur presta vid hjónavígslur, ok enn fleira; eitt um verkfæri yfirsetukvenna; eitt at kapellána ekkjur taki hlut í vidrlífis-peníngum presta. Þessir menn öndudust í þann tíma: Jón Stephánsson, höndlunarfaktor á Djúpavogi, úr gulusótt, hann var valinkunnr madr; Kristín Eyríksdóttir

á Bessastödum, er átt hafdi Jón prestr Grímsson í Görðum, ok módir var Gríms yfirauditeurs; Vilborg Högnadóttir, kona Benedikts prófasts Árnasonar í Hjardarholti; Jón Ketilsson jarda-umbodsmadr, bródir Magnúsar sýslumanns; Þorbjörg í Vídidalstúngu, Bjarnadóttir, Halldórssonar, er átt hafdi Jón viceлögmadr Ólafsson, ok lifat hafdi lengst þeirra systkina, ok Páll Jónsson at Ellidavatni, er fyrr var at Gufunesi, ok hafdi verit settr fyrir Gullbríngu sýslu; setti Páll prestr sonr hans grafarminníngu eptir hann. Nú kom út annarr hluti „gamans ok alvöru," er Magnús Stephensen konferenzrád hafdi skrád sumt, en tekit sumt af ödrum, ok sálmabók var undir pressu. Þá var gódr afli sydra öndverdan vetr, en lítill um vertíd, ok höfdu menn þó sókt lángt at, ok allt nordan af Slèttu; var ofanverdr vetr gódr ok vorit, nema lítid kast um páskatímann, en eigi rættist þó vel úr vorinu. Sæmundr prestr Holm lèt af Helgafells kalli, en þó eigi af málum sínum at heldr. Skadar urdu nokkrir. Heimtar voru enn margar skýrslur ok vandi af embættamönnum, ok komu út mörg brèf, ok fæst Íslandi nytsamleg, ok jókst þat æ jafnan hvorutveggja, jafnt sem annarsvegar barngetnadir í frillulífi ok ill sambúd med hjónum, skorti ok eigi at jykist hlífd vid illgjördamenn, sem dæmi munu til greind, ok meir en þörf þótti. Páll prestr til Stadarhóls ok Hvols, Gunnars son prófasts Pálssonar, deydi þá; ok at Hlídarenda í Rángárvalla sýslu, þar Vigfús Þórarinsson kansellírád ok sýslumadr bjó, er sagt at dóttur hans, er vèr hyggjum Kristínu, hafi dreymt eitt sinn, at hann gengi úr stofu sinni til smidju, sem hann gjördi opt, því hann var hagr madr, ok heyrdist henni hann hefja upp versit: „nú vel í herrans nafni," ok sýngja fagrlegar en at vana, en hann var saungmadr gódr, rètta út sídan höndina, ok sýndist henni lýsa um hèradit; hún sagdi honum drauminn, en hann brosti vid ok mælti: „er þat svo, barn mitt?" — Fám dögum sídar, er var hinn 13di dagr Aprílis, gekk hann til smidju, ok segja þá sumir at hann gengi út um skammt ok mælti vid mann einn, at gott væri þá vedr fyrir Vestmannaeyínga, ok hnigi þá nidr, en adrir: at hann fèlli á stedjann, ok andadist hann, ok hafdi þá þrjá um sextugan; en Magnús Stephensen konferenzrád setti eptir hann grafarletr. Börn þeirra Steinunnar Bjarnadóttur voru þau: Bjarni assessor; Ragnheidr, kona Gísla prests í Vestrhópshólum; Gudrún, er átti Sigurdr prestr Gíslason Thorarensen; Kristín, er sídan giptist Jóni presti Halldórssyni, Magnússonar sýslumanns at Geitaskardi, Gíslasonar biskups, Magnússonar; Rannveig, hennar fèkk Þórarinn Öefjord Magnússon Þórarinssonar; ok Skúli, en nokkur voru dáin.

## CIV. Kap. Veitíngar ok mannalát.

Jakob prestr í Gaulverjabæ, Árnason prófasts Sigurdarsonar ok Kristínar Jakobsdóttur frá Búdum, gjördist þá prófastr í Árness þíngi; hann var audugr at fè; en Jón prestr at Auðkúlu, Jóns son biskups Teitssonar, í Húnavatns þíngi. Þá voru Jóni presti Þorlákssyni at Bægisá gefin 30 pund sterlíng, edr 124 spesíur frá Englandi, ok var at forlagi Hendersons; konúngr veitti honum einnig styrk, ok hafdi Rasmus Rask mælt fram med honum, en slíkum höfdíngjum, er veittu, hafdi þótt ómaklegt, at hann lifdi lengr, svo gamall, vid örfátæki, þar sem hann hafdi snúit á íslenzku Miltons kvædum, ok orkt margt annat vel, ok naut hann fagnadar af slíku ádr hann dæi. Jóni presti Hjaltalín var gefinn kostr á Helgafelli, ok vildi hann eigi at gánga. Eptir þat deydi Helgi Sigurdarson á Móeidarhvoli, er fyrr var conrektor í Skálholti, Magnús prestr vestra Einars son sýslumanns Magnússonar, hann var gamall, ok Benedikt Bogason at Stadarfelli, hafdi hann ádr, at umtölum Gudmundar Skevíngs, mágs síns, gjört Halldóru konu hans, en dóttur sína, jafna til arfs vid Boga í Stykkishólmi, en Bogi vann þat á, at hann fèkk Stadarfell umfram, ok tók þat, ok Hildi módur sína heim til sín. Þau voru börn Halldóru ok Gudmundar Skevíngs: Davíd ok Benedikt, Þóra ok Ólafr, Hildr ok Herdís; en börn þeirra Boga ok Jardþrúdar Jónsdóttur, prests frá Stad í Grunnavík, Sigurdarsonar, voru: Benedikt ok Brynjólfr, Solveig ok Hildr, Jens Jakob ok Ragnheidr, Sigrídr ok Jóhanna Sophía. Sveinbjörn Egilsson frá Njardvík fèkk lærara embætti á Bessastödum, hann var vel at sèr ok skáld, en Þórdi Bjarnarsyni kansellírádi, sýslumanni í Þíngeyjar þíngi, var veitt Árness sýsla, ok vildi hann eigi þiggja; hann bjó í Gardi í Adalreykjadal, ok hafdi gefit sýslunni jörd; hèt kona hans Bóthildr Gudbrandsdóttir, en börn þeirra Hallgrímr, Sigrídr ok Þórdr.

## CV. Kap. Mannalát ok mál.

Sumar þat var votsamt ok eigi gott. Þá var gángverd ríkisbánkasedla fyrir hálfa spesíu, en höndlun þúng sem fyrri, kom þá konúngsgjöfin til Jóns prests Þorlákssonar, ok skyldi vera árleg 40 dalir, tók amtmadr vid öllu til útbýtíngar; voru ok verdlaun veitt Björgu Halldórsdóttur, konu Sigurdar prests at Hálsi, fyrir vaskleik í at vilja bjarga stúlkunni, er drukknadi. Um vorit var drepit á ís mikit af vödusélum í Nordrmúlasýslu. Þá dó Hjálmarr prestr í Tröllatúngu. Landsyfirrèttr vísadi heim í hèrad máli Þorvalds ok Eggerts, er Jón sýslumadr

á Reykjum hafdi dæmda til at lída 10 vandarslög, med ámæli stóru vid dómandann, ok á hans kostnad, en Stephán konferenzrád amtmadr nyrdra skyldi setja annan at dæma málit, ok Björn Ólsen á Þíngeyrum saksóknara sem ádr; hann skipadi Jón Espólín, reid hann vestr í slættinum, ok hèlt sex daga prófþíng; þat fór fram at Torfalæk á Ásum, þar bjó Ólafr stúdent Íngimundarson; var fylgt fast at, ok vard ei meira at gjört um sinn, hvarf hann heim, ok reid aptr vestr eptir vetrnætr, ok þá var dæmt málit; vitnadist, at Þorvaldr hafdi bölvat módur sinni, ok farit illa med hana ok barn sitt, ok hugdu menn þau hefdu fengit bana af, barit húsbónda sinn ok mág fyrrmeir, ok stolit nokkru litlu af skipinu, en verit miklu fèmeiri eptir hvarf skiparans en von var til, ok mörg varmennska; en stuldr nokkurr af skipinu barst á Eggert; þótti öllum, sem Þorvaldr hardnadi vid hvert próf, en einkis vard víst um mordit, fundust bein fleiri vid Blöndu-ós, ok vard þat til meira tvísýnis um þat, en grunadi menn þau hefdi þángat flutt verit seinna en hin fyrstu fundust. Var Þorvaldr dæmdr til þrældómshúss ok at strýkjast, en Eggert til þrælkunar, ok fóru málin sudr. En medan á slíku stód, gekk sótt, ok dóu margir menn: Jón prestr at Myrká, Jóns son prests hins gamla á Völlum, Halldórssonar; Eggert prestr Eyríksson hinn gamli, er fyrr var í Glaumbæ, at Reykjum í Skagafirdi at Henriks bródur síns; Hólmfrídr í Vídidalstúngu Jónsdóttir vicelögmanns Ólafssonar, er átt hafdi Fridrik prestr Þórarinsson; Jónas prófastr Benediktsson, er verit hafdi at Höskuldstödum; Jón prestr Þorláksson skáld at Bægisá; Steindórr Finnsson sýslumadr kansellíráð; Fridrik Kristján Hólm, faktor á Eyrarbakka. Siglufjördr gjördist þá höndlunarstadr ok Raufarhöfn á Slèttu; ok var bodit, med mörgu ödru, at gefa til kynna um dugnad eda merkisverk embættismanna edr annara, ok svo at amtmenn mætti afsetja hreppstjóra án dóms ok laga, fengu þeir þá ok ei lengr at vera frjálsir vid sveitar útsvar; einnig var þá leyft, at Bogi Benediktsson í Stykkishólmi mætti haga bókasafni sínu sem honum sýndist, þó hann ætti erfíngja; var Benedikt son hans þá utan farinn, ok höfdu verit ummæli at hann fengi Ragnheidar, dóttur Stephâns amtmanns Stephensens á Hvítárvöllum, hún hafdi alizt upp í Hrappsey med Birni Gottskálkssyni, en hann brá af því sakir audugs kvonfángs er hann fèkk í Danmörku, ok líkadi amtmanni illa, en hún fór sudr, ok fèkk hennar sídan Helgi prestr Thordersen at Saurbæ, son Gudmundar faktors, en stjúpsonr Brynjólfs prests at Holti undir Eyjafjöllum, Sigurdar sonar landskrifara. Annarar dóttur Stephâns amtmanns, er Elín hèt, hafdi bedit Bjarni assessor, ok vard ei af því, var mælt at fódurbródir hennar hafi spillt, en amtmadr idrazt sídan eptir,

sem fleiru af rádum þadan; Sigrídi átti Ólafr Stephensen á Hólmi, son Magnúsar konferenzráds. Þessi misseri dæmdist í yfirrètti ómerkr dómr Sigurdar Gudlaugssonar, í máli Skúla sýslumanns á Skardi vid Jón, þann er komst í peníngamálit, ok kostnadr á þá Skúla; ok annarr dómr linadist yfir Páli Jónssyni þjófi úr Hnappadals sýslu, ok svo dómr Jóns Espólíns um strýkínguna á Þorvaldi, en rekstr þess máls, ok annat um medferd þess, lofadi yfirrèttrinn. Þá gjördist Jörgen Kjerulf handlæknir í Múla sýslu, med von um frömun seinna utanlands, ok þá komu tídindi hvert ár frá hinu íslenzka bókmentafèlagi. Mál var í Skagafirdi um sveitarframfæri Ragnhildar Bjarnadóttur, þúngadrar, er í vist kom med slíkum dul, ok var vísat þadan samkvæmt handbók Magnúsar Stephensens, en hreppstjórar þeir, er vid henni skyldu taka, heimtu próf um þat, hvort rètt hefdi verit borit undir sýslumann, ok er þat fèkkst, ok reyndist rètt flutt, kölludu þeir þat dóm, ok appellerudu, en amtmadr fylgdi þeim, ok þótti allt fátítt um sveitarsök; sýslumadr bad landsyfirrètt reka málit, því at eigi ætti því til dóms at halda at lögum, en sá rèttr sneri því ödruvís, viku rèttir dómendr úr sæti, en þeir, er teknir voru, vísudu málinu frá, fyrir ómerka stefnu amtmanns Stephâns Þórarinssonar konferenzráds, en felldu hreppstjóra, þann er sókti, í málskostnad; rak þá amtmadr þat til hæstarèttar, en skýrslur voru heimtar frá stiptamtmanni ok Magnúsi Stephensen, ok urdu amtmanni mótfallnar; ei sídr dæmdi sídan hæstirèttr málit sem hann vildi, en ei var afgjört um hvadan kæmi uppeldi barnsins, medan á rekstrinum stód. Annat mál var um leiguhús í Reykjavík, ok gekk á kaupmenn: Knudsen ok Petræus; var ok stadfestr þjófsdómr yfir Bergþóri Jónssyni úr Vestmannaeyjum til æfinlegs þrældóms, en hnekkt dómi Jóns Gudmundarsonar úr Skaptafells sýslu í ítakamáli nokkru.

## CVI. Kap. Fleiri umskipti ok mannalát.

Þá var dæmt í yfirrètti um mædgur tvær, Gudrúnu Ólafsdóttur ok Ingirídi Hrólfsdóttur úr Kjósar sýslu um stuld, ok líkt því sem í hèradi. Lèt þá Castenskjold at öllu af stiptamtmanns embætti, ok kom út í Junii mánudi Moltke stiptamtmadr; kvad þegar Magnús Stephensen konferenzrád til hans. Enn var dæmt í yfirrètti at forlagi amtmanns nyrdra, at Jón Espólín skyldi skipta Pètri nokkrum, er ei hafdi til spurzt meir en um 20 ár, arfahlut eptir Íngu Þorfinnsdóttur á Merkigili, hann var sonr hennar, bródir Jóns prests á Miklabæ í Blönduhlíd, er kapellán var Pètrs prófasts á Vídivöllum. Þá andadist Ragnheidr Eggertsdóttir frá Skardi, kona Jóns prófasts Ormssonar, 73ja vetra, ok

Ragnheidr Þórarinsdóttir, er fyrr var í Videy, ok átt hafdi Jón Skúlason landfógeti, tveimr vetrum betr en áttræd, var hún haldin ein ágætust kona, ok mest verd á Íslandi, at viti ok stillíngu ok ödrum kostum, ok var þat fyrir jólin; hún þjádist mjök fyrir dauda sinn. — Þá var Grími Pálssyni stúdenti veitt Helgafell, hann hafdi verit höndlunarmadr í Vestmannaeyjum, ok þótti betr til þess fallinn, ok var audugr mjök, en litlu sídar Gamalíel presti Þorleifssyni frá Hvanneyri Myrká; þat var í Januario um vetrinn. Þá andadist Engilbert prestr Jónsson í Saurbæ vid Hvalfjörd, er fyrri hèlt Lund, ok Helgi prestr í 1820.
Húsavík Benediktsson, ok enn Þorkell stiptprófastr Ólafsson á Hólum, fèlaus med öllu, ok hafdi lengi verit, hann hefir einna mest ord fengit af jafnlyndi sínu, var hann á ödru ári hins níunda tugar; ok nokkru sídar Jón prestr at Helgastödum í Þíngeyjar þíngi, Stepháns son prests Halldórssonar; ok frú Gudrídr Halldórsdóttir, ekkja Sigurdar biskups Stephánssonar, meir en áttræd, var hún komin til Pètrs prófasts á Vídivöllum, ok var þá örsnaud, ok seinust biskupsfrú á Nordrlandi.

## CVII. Kap. Mál.

Þá vísadi landsyfirrèttr máli úr Húnavatnsþíngi heim í hèrad, þat var milli Erlendar bónda á Holtastödum ok Árna Halldórssonar á Ásum, þótti ólöglegr undirbúníngr, ok var Jón sýslumadr fèsektadr til jústizfèhirzlu; átti hann andstætt í þann tíma, ok var fundit til at gæti komit fáu til lags, en þó var hann allvel at sèr um margt, en hafdi jafnan verit gæflyndr ok seinn til svars, ok óvanr stórum málsrekstrum, þar sem hann var ádr, ok nú gamall ok heilsulítill, en átti vid stórbokka, var ok lítil vinátta med þeim Birni Ólsen á Þíngeyrum, er þar um sveitir rèdi mest öllu einu. Grímr Grímsson úr Múla þíngi var sekr um hórdóm í fjórda sinn, ok um dulsmál, ok dæmdi yfirrèttr hann frá lífi, en Lisebethu barnsmódur hans í betrunarhús, ok var þat nær hèradsdómi. Þar kom ok fyrir mál Jóns Reykjalíns, sonar Jóns prests Þorvardssonar á Breidabólstad í Vestrhópi, hann hafdi verit prestr í Glæsibæ, ok átti Sigrídi Snorradóttur, systur Sigurdar sýslumanns, ok misst embættis fyrir barngetnad, en Gunnlaugr Briem, kammerrád ok sýslumadr í Eyjafirdi, hafdi dæmt honum hirtíngu fyrir medverkun í ósannlegu vistarbrèfi drengs eins; gjördist honum nú at bæta 20 dölum fyrir þat, ok ei annat; fór hann sídan í Skagafjörd ok bjó at Hafsteinstödum med Íngjaldi presti, bródur sínum. Gunnlaugr Briem bjó þá á Grund, ok var athafnamadr mikill, ok vel at sèr um marga hluti ok hýsti jafnan stórlega, hann hafdi þótt ríklundadr, ok stórlátr vid

alþýdu lengi, ok nokkut ásvellr, en vinhollr madr var hann, hugkvæmr ok raungódr, ok at mörgu vel. Þenna tíma lèt Jón prófastr Ormsson af Raudasandsþíngum.

## CVIII. Kap. Ýmislegir tilburdir.

Mörg brèf komu þá út híngat, um peníngaskipti ok annat, ok flest er lítt komu hèr vid; var eitt um þat, at amtmenn skyldu ákveda kostnad sakamanna ok sóknara í sakamálum. Þá dó Jón Gudmundarson sýslumadr í Skaptafells þíngi ok hafdi fengit Rángárvalla sýslu, hún var þá bezt allra, er Vestmannaeyjar fylgdu; en Bjarni assessor Thorarensen hafdi fengit Árness sýslu, ok vildi þá heldr hina, er Jón Gudmundarson var dáinn, ok sókti um hana; hann reid vestr í Stykkishólm ok bad Hildar, dóttur Boga Benediktssonar, ok var þat at rádi gjört, ok fèkk hann hennar, ok fè mikit, er Bogi gaf þeim. Þá andadist Eggert bóndi Ólafsson í Hergilsey, skorti þrjá á nírædan, ok hafdi átt afkomendr einum fátt í tíutíu. Ásmundr prestr, Gunnlaugs son prests, Magnússonar prests á Höskuldstödum, bródir Þorkels í Haga, hafdi verit kapellán vestr í Saurbæ ok þokkadr lítt, ok fèkk hann Hvanneyri í Siglufirdi; ok deydi Snæbjörn prestr í Grímstúngum, Halldórs son biskups, at Sigvalda prests, sonar síns, er þá hèlt stadinn; ok Gudmundr, skólamadr, son Eggerts prófasts í Reykholti, Gudmundarsonar. Jón, son Þorsteins Steindórssonar, bónda eins af Ásum í Húnavatnsþíngi, bródur Bjarna í Þórormstúngu, kom út, ok var landlæknir, en Oddr Hjaltalín vard þá at rýma ok fara vestr, hafdi honum margt tekizt allvel, bædi í ritgjördum ok lækníngum. Þá vígdi Geirr biskup Vídalín Þorlák Loptsson til Kjalarnes þínga, Sigurd Grímsson til Þaunglabakka, Helga Thordersen til Saurbæjar vid Hvalfjörd, ok Grím Pálsson til Helgafells; fór hann vestr ok hafdi flutníng mikinn, en Gísli prestr, sá er verit hafdi kapellán Sæmundar Holms, hafdi byggt at Helgafelli fyrir hann, ok lagfært margt þat er Sæmundr prestr hafdi spillt med óhóflegum gördum í túni ok annari spillíngu, þó hann nyti þess alllítt, annars vegna; tók Sæmundr Holm þegar at ýfast vid Grím prest, ok fèkk uppreist á málum sínum utanlands, ok setti upp opin skjöl um í Stykkishólmí, ok ætladi at hafa þau fram vid hvern mann, er hann hafdi þá nokkut átt í höggi vid ádr.

## CIX. Kap. Ýmislegt.

Vor var þá allkalt, en tilburdir urdu mjök sundrlausir; var veitt Bjarna

kapelláni frá Bægisá, Pálssyni prests frá Undirfelli, Bjarnasonar, Fell, en Páli presti, er þar var ádr, Árna syni biskups, Bard í Fljótum, því at Jón prestr Jónsson lèt af þar; Gísla Audunnarsyni, prests frá Blöndudalshólum, Húsavíkr þíng, hann var bródir Bjarnar Blondals, er þá var umbodsmadr med Moltke stiptamtmanni; var þeim stiptamtmanni nú byggt hús af tukthúsinu at Arnarhóli á konúngs kostnad, ok gjört mjök prýdilegt; hann var kvæntr, ok var frú hans köllud ríkilát, því ei mátti nefna hana ödruvís en „nád" hennar, sjálfr var hann lèttlátr madr ok audveldr vidfángs, hár medalmadr, grannlegr, skarpleitr ok eigi frídr. Þau fengu heimsókn af módur hennar um sumarit. Ymsum mönnum var þá veitt linun um hórdóms sektir ok annat, ok kom eitt konúngsbrèf um breytíngu á rèttarmedferd opinberra mála móti sakamönnum. Þat sumar var grasvöxtr mikill, en nýtíngar vída mjök illar. Þá andadist Jónas Stephensen, úngr sonr amtmanns á Hvítárvöllum, ok Rannveig Grímsdóttir, en átt hafdi Björn prestr Snorrason, ok Einarr prestr í Þíngmúla, Bjarnar son prófasts, er fyrrum var at Grenjadarstad, Magnússonar, hann var gamall, ok ei betr en medallagi vinsæll. Eitt brèf kom þá frá kansellíi um þíngsóknardaga vid yfirrètt. Þann tíma reyndist manntal á Íslandi fjörutíu ok átta þúsundir, ok tveimr fátt í 400 betr, en börn þau, er getin voru fyrir utan hjónaband, töldust fjórda ok fimmta hvert; freistudu ok margir at verda af med konur sínar, ok sumt prestar, ok margt gekk öfugt í þeim efnum. Þá andadist enn Íngibjörg á Múnkaþverá, dóttir meistara Hálfdánar Einarssonar rektors, er átt hafdi Magnús Þórarinsson, var Þórarinn Öefjord, sonr þeirra, fyrir Rángárvalla sýslu þau misseri. Eitt brèf meinadi sýslumönnum at hafa umbodsmenn, nema at fáum einum hinum minnstu verkum med amtmanns leyfi, ok þá í forföllum einum; annat baud prestum at gefa skipta-fyrirrádendum allra manna fráfall til kynna, þat skyldu sýslumenn allt innsenda med grein sinni yfir þat, hví ei var skipt eptir hinn eda þenna, ok þó hreppakerlíngar væri; ok mjök mörg voru þau brèf önnur er sum komu hèr landi vid, ok þó fæst, ok seint er at telja, ok taldi Magnús Stephensen konferenzrád þau öll í mánada-ritlíngi sínum Klaustrpósti; hann gjördist í þat mund duktor í lögvísi.

## CX. Kap. Dómar ok mál.

Þessi misseri var dæmt mál þess manns í Gullbríngu sýslu, er Páll hèt, Sigurdarson, Eyfirdíngr, ok kalladr var timbrmadr; hann hafdi

verit svallsamr frá æsku, ok þremsinnum sekr í hórdómi en einusinni í frillulífi, haldit ok þarmed barnsmódur sína í þráa, ok verit vegabrèfslaus; tvisvar hafdi hann fallit med giptum konum; var honum dæmd í hèradi refsíng, tveimsinnum 27 vandarslög, 18 dala fèsekt ok málskostnadr annarr, ok barnsmódur hans einnig nokkut; því skaut amtmadr sydra til landsyfirrèttar, ok voru honum þar dæmdar á bönd átján dala bætr, ok átta til júsiz-fèhirzlu, en tíu til fátækra fyrir óhlýdni, ok Valgerdi, barnsmódur hans, hirtíng fyrir lausamennsku ok þrá, ok hálfar sektir vel, ok svo málskostnadr nokkurr á Torfa Sveinsson, er nokkut þótti hafa óhlýdnazt í því er hann hýsti Pál; því var enn skotid til hæstarèttar, ok þar stadfestar fèsektir, en ekkert komit vid ólöglega sambúd þeirra Páls ok Valgerdar, eda þverúd þeirra. Þá kom prentad út í Videy bænakver ok sálma, Hallgríms sálmar ok æfi Ólafs stiptamtmanns Stephánssonar, ok smátt fleira; ok var leyft Oddi Thorarensen, syni Stephâns konferenzráds at setja apótek á Akreyri eda læknisbúd, ok átti fadir hans þar mest í; ok leystr var Jón sýslumadr á Reykjum í Midfirdi frá Húnavatns sýslu. Skaptafellssýslur bádar fèkk danskr madr, J. N. Abel. Var enn dæmt í yfirrètti, ok stadfestr dómr Jóns Espólíns um Jón á Grófargili, at fara skyldi í tukthús í Kaupmannahöfn fyrir saudastuldi forna ok nýja, ok annat fleira, ok skaut hann til hæstarèttar. Svo var ok stadfestr dómr Jóns Espólíns um Þorvald Jónsson, med þeirri grein er fyrr segir, linat nokkut á Eggert, en þeim Birni Ólsen hælt bádum; skaut Þorvaldr einnig sínu máli til hæstarèttar, ok kvad Grím Jónsson yfirauditeur, frænda sinn, mundu hjálpa því utanlands; Jóni sýslumanni á Reykjum þótti ok þúngt at svara málskostnadi öllum, ok appelleradi þá grein. Bjarni, son Þorsteins Steingrímssonar, bónda eins af Steingríms ætt í Skagafirdi, ok bródursonr Jóns prófasts Steingrímssonar í Skaptafells sýslu, hafdi lengi verit utan, ok komit inn ríkisbánka-árit, hafdi hann verit vid sýslanir ytra; var hann kalladr lögvitríngr mikill en haldinn trúmadr enginn; honum var veitt assessors embætti vid landsyfirrètt, því at Bjarni Thorarensen var farinn til sýslu sinnar; hann átti Þórunni, dóttur doktors Hannesar biskups ok stjúpdóttur Steingríms prófasts Jónssonar í Odda, frænda síns. Þá kom út „Hjálmar á Bjargi", bæklíngr Magnúsar konferenzráds, ok þótti svo skrádr, at bændum skyldi falla í skap, ok risu af erfidleikar sýslumönnum ok misklídir, ok ískyggilegt þótti þar enn sumt í. Dæmt hafdi Þórarinn Öefjord í máli Erlendar Helgasonar af Rángárvöllum um skógaryrkju, ok hann til kastala-þrældóms um þrjú ár, skaut Erlendr því til landsyfirrèttar, ok þótti þar dómrinn ofhardr, helzt Magnúsi konferenzrádi,

hann vildi væri hirtíng, tuttugu högg, en hinir voru á móti ok var dómrinn þar stadfestr, en hæstirèttr dæmdi honum tuttugu vandarslög, sem konferènzrád hafdi ætlat, ok skadabætr. Ei voru þá sektir felldar á sýslumenn, þó mjök væri breytt dómum þeirra, því óvissa í lögmálinu þótti mörgum ber, ok ei nema illvili sæist, eda hirduleysi, eda raung væri máls medferd. Annarr dómr Þórarins um adtekt á hrossi af hendi kerlíngar nokkurrar, er átti þat, þótti ok strídr, hafdi Sigurdr prestr Gíslason Thorarensen, frændi hans, komit hreppstjóra til at selja sèr vid auction med gódu verdi, þá kerlíngin kom til sveitar, gekk dómrinn aptr, ok urdu þeir lausir vid sem ákærdir voru, en kostnadr fèll á sýslumann. Þjófsmáli var vísat í hèrad úr Árness þíngi. Dæmt var enn hundsmál kallat, Sæmundar prests Holms vid Gísla prest Ólafsson, er verit hafdi kapellán hans, þótti Bonnesen sýslumadr ok kansellísekreteri hafa rángt med farit, ok voru adgjördir hans ónýttar. Hann hafdi einnig dæmt stuldarmál stelpu nokkurrar úr hjöllum, ok sumum læstum, um níu ár, ok henni fimm ára tukthúss-vinnu; þat var linat í yfirrètti til tuttugu vandarslaga, en hann skyldi svara bótum fyrir máls medferd; appelleradi hann þá dóma. Eitt þjófnadar mál var úr Árness þíngi, ok heldr hert en linud hirtíng frá hèradsdómi. Brennuvínssölu mál var enn úr Snæfells sýslu, þar var dómr Bonnesens ómerkr gjörr, ok fèsekt á hönd honum, skaut hann því máli lengra. Barngetnadar mál kom úr Þíngeyjar þíngi. Enn átti Bonnesen mál fleiri; var eitt um kýkir, er Jón prestr Ásgeirsson í Stapatúni hafdi tekit sem skuld úr búi eptir Ólaf smid Bjarnarson á Munadarhóli, ok sýslumadr sókti hann um, ok fèkk dæmdan til útláta stórra, ok hafdi gjört sik at svaramanni ekkjunnar, ok sídan, er honum var stefnt til yfirrèttar, hafdi hann ordit brádr vid stefnuvotta, ok þrifit til þeirra, en opt hafdi verit vandstadit í Snæfells sýslu, ok þá eigi sízt á þeirri öld sem nú var, fyrir útlendan sýslumann brádlátan.

## CXI. Kap. Frá Rasmusi Rask.

Í þann tíma ritadi Rasmus Rask prófessor af ferd sinni úr Ispahan í Persíulandi til Árna prests Helgasonar í Reykjavík, vinar síns, á íslenzku mjúkri, sem honum var hægt ok tamt; hafdi eigi ádr komit brèf, ok þó á íslenzka túngu, frá Persíu út híngat svo at menn viti; þar lýsti hann landi ok lýd mjök áþekku því sem var hèr út, med fleiru merkilegu er þar var í; mælti hann svo um eydimerkr þær hinar miklu, er yfir vard at fara á múlösnum eda gradhestum illum:

hart er at skeida
um haudrit leida
stódum stödum á.

## CXII. Kap. Mannalát.

Hinn fjórda dag Októbris mánadar andadist Anna Stephánsdóttir í Videy, ekkja eptir Vigfús Skevíng sýslumann, módir frúr Gudrúnar ok frúr Ragnheidar á Mödruvöllum, ok þeirra brædra Stepháns ok Jónasar kansellíráds, ok hafdi lifat yfir systkin sín öll; var hún nær nírædu, ok hafdi verít sjónlaus meir en um 12 ár, ok þótt jafnan mikil merkiskona. Stephán amtmadr Stephensen á Hvítárvöllum ætladi þá at flytja sik at vori út at Ytrahólmi á Akranesi, ok lèt hafa þar starfa mikinn fyrir ok hýsíngu; hann var iktsjúkr ok hugsjúkr, hafdi hann jafnan verit vidkvæmr í skapi, en stórlega örr, ok var ordinn mjök skuldugr, med fleiru er á hann tók, hafdi nú verit kránkr mjök um hríd, en rètti vid aptr ok reid út á Nes ok fann menn sína; ok er hann skildi vid þá, er mælt hann hafi sagt: „þit haldit nú fram at byggja, ek fer heim at deyja." Hann var vid Hvanneyrar kirkju ok kvaddi þar fólk, en þat undradist, ok var frètt eptir hvort hann mundi vilja fara af landi, hann játti því ok kvadst ætla í gardinn til Mörthu; þadan fór hann heim ok lagdist; kvadst deyja mundu ok missa rádsins ádr þat yrdi, ok bad frú sína, Gudrúnu Oddsdóttur, halda því fram at fara frá Hvítárvöllum. Hann lá lengi, ok er mælt ei hafi líkat hvers prests hann átti kost; fór sem hann sagdi, ok andadist hann hinn 20ta dag Desembris mánadar; en fám dögum sídar setti Magnús konferenzrád, bródir hans, grafarletr hans, ok var grafit á líkkistu-skjöldinn á silfri, en hann tekinn af kistunni sídan, eptir því sem hann hafdi sjálfr gjört vid jardarfarir náúnga sinna, ok hengdr upp í Hvanneyrar kirkju;
1821. fór jardarförin fram hinn 11ta í jólum at Hvanneyri, í návist flestra sóknarmanna, hafdi Mohr faktor sett saunglag á grafarminníngu hans ok voru súngin af tvö eyrindi, en Torfi stúdent Árnason saung seinast þetta, med þeim er þat gátu:

Þó feli mold vorn födur blída,
ok fljóti tár um legstad hans,
dygd hans í minni lifi lýda
lód medan byggist Ísalands;
hans úngr sakna ok eldri má,
ó, at hans líkann fengjum sjá!

Margir orktu eptir hann: Jón Espólín, Arnórr prófastr Jónsson ok

adrir, hann andadist 53gja ára at aldri, viku fátt í, ok taldi bródir hans mikinn söknudinn, ok margir þóttust mikils missa, því hann var vitr madr ok höfdíngi mikill, ok mjök veitull, en hafdi ekki verit eptirrekstrarsamr í embætti; tók Moltke stiptamtmadr vestramtit, þartil er konúngr skipadi annan amtmann.

## CXIII. Kap. Frá Íslendíngum utanlands.

Nú var fullgjör útgáfa Sturlúnga sögu ok Árna biskups á prenti, frá bókmentafèlagi hinu íslenzka í Kaupmannahöfn, ok fjórar deildir Sagnablada frá Finni Magnússyni prófessóri; skrádi hann ok margt annat á dönsku, sem voru: inngángr til fyrirlestra hans yfir Sæmundar Eddu, er talit er; skálda drykkrinn; fornfræda hugleidíngar um heidinna nordrbúa upplýsíngu ok lunderni; um uppruna ok nafn Pikta-þjódar; um hin fyrstu heimkynni ok útdreifíngu ættstofna þeirra er bygdu Kaukasus-lönd; Sneglu-Halla þáttr á dönsku; skýrsla um ritgjörd, er honum var ei rèttilega eignud; svo var þá ok enn undir pressu útleggíng hans á dönsku yfir Sæmundar Eddu, ok safn til nordrlanda fornfræda sögu; var hann ágætr madr jafnt fyrir gódleiks sakir sem lærdóms. Útkomit var enn í Kaupmannahöfn: Hákonar saga hins gamla; sögubók; tala Müllers, doktors ok prófessors í gudfrædi; gardyrkjunaudsynja kver Bjarna prests Arngrímssonar á Melum, er hann vann laun fyrir; margir smáritlíngar evangeliskir Jóns prests Jónssonar í Mödrufelli, ok æfisaga Pèturs Þorsteinssonar sýslumanns. Verit hafdi þá mjök torveldat um examína flestöll, ok gengu margir náms-menn frá þeim, ok mörg ótíd var þá önnur utanlands, mest af peníngaverds rugli, ok hófleysu á vidhöfn ok sællífi, svo at margir stórhöfdíngjar leiddust til þeirra fjársvika, er þeir misstu fyrir frelsi sitt ok alla velferd.

## CXIV. Kap. Skiprekar.

Þá rak skútu skotlenzka undir Eyjafjöllum á heimleid frá Ameríku, hladna trjávidi gódum, komust menn af sjö ok vistudust, ok fóru utan med póstskipi, en þat er selt var hljóp til þrettán hundrada ok 50 dala; annat skip enskt, mannalaust, rak á Sólheimasandi med trjávidar farmi ok eirbotni, eda vid Mýratánga vid Kúdafljót; þat var útvalinn vidr, en skipit mjök slitid, hljóp þat nær 14 hundrudum dala ok voru þar kaup gód; hafa Skaptfellíngar margan hag haft af rekum, er adrir Íslendíngar vitu ei af. Hvalfángara skip braut í ísi undir Grænlandi, þat var frá Holsetalandi, komust menn 45 í báta, ok var einn piltr

11 vetra, nádu vistum ok brutust á þeim lengra en 50 rastir gegnum ís; ok komust allir upp á Skaga at koti nokkru; urdu votir, er þeir lentu; en karl ok kerlíng, er þar bjuggu fyrir, hræddust, ok lukta at sèr, brutust þeir þá í útiskemmu, ok stódu þar um nótt, ok kól marga, en einn vard ei ferdfærr at sinni; sídan var þeim veittr beini sem vard af Skagamönnum, ok margir urdu til at gefa þeim, helzt í Skagafirdi, prófastr Pètr ok Jón Konrádsson at upphafi, ok sídan margir adrir, svo þat nam stóru; ok Jakob Havstein í Hofsós gaf þeim peninga töluverda; amtmadr sendi þeim einnig at nordan styrk mikinn af konúngsfè. Schram kaupmadr í Höfda tók þá alla í hús, ok fengu þeir sèr flesta sídan ok komust sudr.

## CXV. Kap. Mannalát ok mál.

Þá deydi Jórunn Sigurdardóttir prestsekkja í Arnarbæli, ok Margrèt Pálsdóttir, kona Gudmundar prófasts Jónssonar á Stadarstad af barnsæng at þremr meybörnum, ok andadist eitt; einnig dó þá Sæmundr prestr Holm frá málum sínum, ok var hann gamall; Bjarni prestr Arngrímsson á Melum, 52gja ára, ok Gudrún Sigurdardóttir, kona hans, hún var lángþjád, ok einnig hafdi hann legit alllengi; öndudust þau á einu dægri bædi, ok setti doktor Magnús Stephensen konferenzrád grafarletr eptir þau; þótti Bjarni prestr merkilegr madr verit hafa í mörgu, eru eptir hann bænir ok kályrkju-bæklíngr. Vetrinn hafdi verit gódr, ok fiskafli mikill sydra fyrir nýár ok svo gódr sídan, en óstödugt var ofanverdan vetr, ok kalt vorit, ok rak inn íshroda nyrdra, hann fór med sunnanvedrum þrálátum eptir hvítasunnu ok vard ill tídin, ok óhæg til bjargræda; gekk þá sótt, ok urdu margar slysfarir, ok öndudust enn margir menn. Þá var fyri ári sídan Jón Jónsson frá Melum ordinn sýslumadr í Stranda sýslu, en Björn Audunarson Blondal í Húnavatns þíngi ok skyldi koma þar á lagi; hann sat fyrst á Þíngeyrum med Birni Ólsen, ok var í málsprófum ok þíngaferdum allan vetrinn ok allt vorit; voru þá tekin fyrir barngetnada mál Samsonar Samsonssonar, er verit hafdi med Jörgensen, ok annara, ok stuldarmál Ísleifs Jóhannessonar forn ok ný, var hann blygdunarlaus med öllu, ok neitti hverju sem vitnat var, ok óvirti sýslumann ok hvern annan, voru ýmsir fleiri med honum at stuldum, ok voru allir dæmdir; mörg voru þar önnur mál, um lausamenn ok margt annat. Í Skagafirdi hafdi ok mál verit um flutníng á stúlku eptir barnburd, er hún hafdi legit eptir lengi. Þá fèkk Jón prestr Matthíasson frá Eyri Arnarbæli. Í Majo ok Junio andadist margt fólk í Húnavatns þíngi ok Skagafirdi, ok vídar,

hvar sem til spurdist, ok margt lá, þat er batnadi aptr. Þessir önduðust hinna heldri manna: Páll prestr Þorláksson á Þíngvelli; Halldóra Skúladóttir, er átt hafdi Hallgrímr Bachmann, Vigfús prestr Eyjólfsson á Reynivöllum; Cecilia Stephánsdóttir, kona Jóns prófasts Konrádssonar at Mælifelli; Illhugi prestr Hannesson at Villíngaholti, en seinna Björn prestr Sigurdarson í Hítarnesi. Hákon bóndi Vilhjálmsson í Kirkjuvogi, er verit hafdi lögrèttumadr, ok var vel fjáreigandi ok vel um sik um fleira, dó þá ok, nær sjötugr, ok annarr Benedikt Vídalín Halldórsson á Vídimýri, er átti Katrínu, dóttur Jóns biskups Teitssonar, búmadr mikill, á hinum fimta tugi, ok Kort Þorvardsson í Flekkudal, bródir Odds prests, er verit hafdi á Reynivöllum, hann átti 19 börn. Mál mörg komu til yfirrèttar, ok eigi allfá úr Snæfells sýslu, gengu Bonnesen þau eigi vel, en hann skaut þeim til hæstarèttar sem hann mátti vid komast. Sá madr er Gunnarr hèt, Jónsson, úr Borgarfirdi, var dæmdr til æfi-þrældóms fyrir heststuld, en hæstirèttr gjördi hann sýknan, því hann virdi þat neydarstuld, er eigi mætti sök á gefa. Svo fríkenndi ok hæstirèttr Þorvald frá ödru en málskostnadi, ok hýdíngu undir umsjá hreppstjóra, þar sem hann vard ekki sannprófadr at mordi nè stórum stuldi frá skipbrotsmönnum, ok gekk svo framhjá ödrum illvirkjum hans, ok þótti mörgum mikils um vert, enda var hann svo ræmdr í Húnavatns þíngi, at mikit brá vid þann dóm til þrætnisfrekju illmenna þar, ok linadi hæstirèttr hvert mál, en varmenni jukust mjök í dul, þar sem hvorki mátti dæma þat er ei var full-vitnisfast, nè bjóda nokkrum ótta til medkenníngar, en illgjördamenn fengu at vita þat, ok treystu því margir, at ei mundu berir verda; en eptirrekstr var þá mikill um skýrslur, ok greinir ýmislegar ok nýjar, er sumum þóttu til lítils koma, ok sem flestu var skotid til amtmanna. Þá ritadi Magnús konferenzrád einn bæklíng um gildandi lög í legordsmálum, ok voru þar í mörg rök um linleik stjórnarinnar í öllu slíku, enda jukust nær árlega ósidir í þeirri grein, ok öllu sjálfrædi, meira en fyrr hafdi verit, en þá fóru margir kænlegar med.

## CXVI. Kap. Árferdi ok framkvæmdir.

Vetr sá hafdi verit gódr sunnanlands, svo var ok vestra, en gjördi hroda er á leid; nyrdra var hann einnig gódr til einmánadar, en þá kom ís ok spillti, ok vard aldrei gott um hin næstu misseri. Fiskifengr hafdi verit mikill í Vestmannaeyjum, allt til 8 hundrada hluta, en sæmilegr sydra; selatekja mikil í Adalvík ok Hrútafirdi. Í Eyjafirdi var jardeplayrkja allmikil hjá Lewer kaupmanni, ok Þorláki Hallgríms-

syni danabrógumanni í Skridu; hann setti upp þófaramylnu af sjálfs síns efnum, er amtmadr hafdi eigi komit fram af miklum tillögum, er öll ónýttust; voru þar ok settar upp viadmylnur ýmislegar fyrir sunnan, ok ein med bónda nokkrum í Reykholtsdal, kostnadarlítil, er hann fann sjálfr. Þá var ok settr legsteinn Hallgrími presti Pètrssyni, er fyrr var at Saurbæ, ok mjök at forlagi Stepháns amtmanns Stephensens, ádr hann fèll frá; var þar á merkilegt grafarletr, en steinninn var úr Húsafellsfjalli, ok hjó hann Jakob smidr at Húsafelli, son Snorra prests hins gamla, er þar var ádr. Barnasýki gekk vída, med andþrengslum, ok dó fjöldi barna, ok menn nokkrir danskir á Eyjafirdi brunnu á olíu, læknadi fjóra Jón prestr Jónsson í Stærra-Árskogi, en einn dó, ok þá andadist enn Bjarnhèdinn prestr Gudmundarson í Vestmannaeyjum. Sumar var gott sydra, en kalt vor fyrir nordan, sem fyrr segir, ok allt sumar illt, grasvöxtr lítill ok ill nýtíngin.

## CXVII. Kap. Veitíngar.

Þá gjördist danskr læknir í Nordrlandi Jörgen Wichman Hoffmann, ok sat á Akreyri, hann var vid aldr, þótti mönnum hann kaupdýrr, ok ei alþýdlegr. Bjarni Þorsteinsson assessor fèkk nú amtmannsdæmi í Vestramti, ok settist fyrst at á Stapa. Ólafr Finsen, son doktors Hannesar biskups, fèkk Kjósar sýslu, en J. N. Abel Vestmannaeyjar, R. C. Ulstrup strídsassessor, úngr madr, Skaptafells sýslu. Þeir voru danskir júristar hinir dönsku, ok höfdu þó meiri byr ok adstodir utanlands en hinir íslenzku sýslumenn, var ei at sjá sem kammeri hefdi þótt sýslumenn hinir dönsku, ok ókunnir lenzku hèr, sækja híngat lítinn tímadag til þessa, en þat var raunar, at stjórnin þóttist þurfa at veita þeim eitthvat, svo margir sem hafa urdu vidrlífis-peninga, er verit höfdu embættamenn í Noregi, ok nú braudlausir. Þorvaldr prestr Bödvarsson fèkk þá Mela í Borgarfirdi, ok hafdi skilit mjök lítt vid hús í Holti; en Eyjólfr prestr Kolbeinsson, frá Stad í Grunnavík, fèkk Skutulsfjardareyri. Manntal hèr var þá nokkut meira en hálf níunda þúsund hins fimta tugar. Árni prestr Helgason gjördist þá prófastr í Gullbríngu sýslu, en Markús prófastr Magnússon í Gördum lèt af. Einarr prestr Pálsson frá Þíngvelli fèkk Reynivalla stad, en Benedikt prófastr Árnason lèt af Hjardarholti, ok fèkk þat sídan Stephán, sonr hans. Jón prestr Sigurdarson sleppti einnig Hrafnseyri, hafdi hann verit prestr í 50 vetr ok einn ok var áttrædr, á fyrsta ári hins níunda tugar, lifdi ok skamma stund þadan af. Guttormr prófastr Pálsson fèkk Vallanes, Thómas Gudmundarson Villíngaholt, Halldórr Árnason Stad í Grindavík,

hann var son Árna kaupmanns Jónssonar, er opt er getid, ok Hólmfrídar Halldórsdóttur Vídalíns, ok fèkk Ragnheidar, dóttur Sigurdar prests Árnasonar at Hálsi í Fnjóskadal ok Bjargar; þau björgudust lítt; Einarr Sæmundarson Einersen fèkk Þíngvelli; Sigurdr prestr Jónsson Hrafnseyri. Konúngs bod kom, at hverr prestr skyldi læra kýrbólusetníng, ok stúdentar eigi vígjast ella, ok hit sama skyldu læra bændr nokkrir, ok halda þar um bók, ok gjöra grein fyrir, med prófasts ok sýslumanns gildíngu; þá gjördi ok Moltke stiptamtmadr skipun um þurrabúdamenn.

## CXVIII. Kap. Hardindi.

Þat sumar kom eigi skip á Skagafjörd, nádi eigi fyrir illvidrum, ok lá vid Austrland; jók því þá á grasleysi ok illa nýtíngu fyrir nordan land, at snemma gjördi snjóa, ok vard úti mikit hey vída, ok tók aldrei snjóinn af aptr, lagdi vetr at 5 vikum fyrir rètta vetrarkomu, ok þýngdi æ meir ok meir; voru austan hrídir ok hin mestu snjóföll nordr undan, ok sukku bæir, komust menn trautt yfir at slátra fè sínu; var þá mörgu lógat, en ei sem þurfti; kom aldrei upp jörd fyrir nordan Yxnadalsheidi, en þar vestr undan var nokkur í sumum sveitum, til þess med sólhvörfum; þá gjördi vestan áttir ok hrídar med blotum, ok lagdi allt undir; komust fáir vermenn sudr. Á góe komu hafísar miklir, ok var þá allt samfrosta, þeir ok svo lagnadar-ísar ok landit, ok þóttust fáir muna slíkan vetr; gaus þá ok Eyjafjallajökull, ok fèll sandr mikill í nálægum sveitum, en mest fór þat sudr í sjó; freistadi Magnús, hreppstjóri undir Eyjafjöllum, Sigurdarson, at komast upp af Steinafjalli, til at sjá elds upptök, ok gat eigi; hann var sonarson Bjarna sýslumanns Nikolássonar. Þat hafdi borizt at, hinn 19da dag Decembris, at leiptranir sáust í heidríkju, en daginn eptir á hájöklinum hvítr skýflókamökkr lítill, hann vard skyndilega at reykjarstólpa ok sortnadi; var þar þá heidskírt vedr ok logn um sveitina; hvarf reykrinn um sólarlag, en skjótt kom annarr meiri, ok sáust í honum ofarlega leiptranir um kvöldit; ok eptir sólhvörf gekk reykrinn mjök upp med nordan vedri, ok fram ok vestr um fjallit, sortnadi jökullinn nokkut at sjá af ösku, en mökkrinn dreifdist um sudrloptit; kom mikil aska undir ytri Eyjafjöllum ok um Austr-Landeyjar, en vard vart at eins í Hvolhrepp, ok nedra hlut Odda sóknar. Einstöku sinnum sást til elds í mekkinum, ok vid árslok heyrdust í honum dýnkir miklir, sem hann mundi springa, fèll mest aska framan undir honum ok svo vikr, ok var þá vedr hlýtt. Frá þessu skýrdi Steingrímr prófastr Jónsson í Odda. Brèf höfdu

komit ýmisleg, ok var eitt frá kansellíi, þat er eigi kvad verda mundu fækkat þadan af kirkju-kúgildum at þarflausu, ok annat endrnýjun þess, at eigi skyldi sækja til þíngs ómagamál, en sýslumenn afgjöra, ok amtmenn milli sýslna, kansellíit medal amta.

## CXIX. Kap. Veitt prestaköll ok til bóka.

1822 Næsta dag eptir þrettánda voru Hólmar í Reydarfirdi veittir Gísla Brynjólfssyni í Kaupmannahöfn, hann var candidatus í gudfrædi, vel at sèr ok vinsæll, ok hinn mesti námsmadr; Brynjólfr prófastr fadir hans í Heydölum var Gísla son, prests frá Heydölum, Sigurdarsonar prests Sveinssonar, en Íngibjörg var módir Brynjólfs prófasts, Brynjólfsdóttir frá Sandfelli, Halldórssonar prests, Eyríkssonar prests, Ólafssonar prófasts í Kirkjubæ, Einarssonar. Módir Gísla var Kristín Nikolásdóttir, prests úr Berufirdi, Magnússonar, ok Rósu Snorradóttur prests frá Helgafelli, Jónssonar sýslumanns, Magnússonar, bródur Árna assessors; systkin Gísla voru Snorri prestr, Nikolás, Íngibjörg, er átti Gunnlaugr prestr Þórdarson á Hallormstad, Jón, Sigurdr, Sæmundr, Rósa; þau mönnudust allvel. Gudrún, dóttir Stepháns amtmanns Þórarinssonar konferenzráds, fór utan til Gísla prests, ok ætladi at giptast honum. Hinn sama dag voru Gísla presti at Stadarhrauni, Gudmundarsyni, Vigfússonar, veitt Akra þíng á Íslandi; en Bödvari kapelláni, Þorvalds syni prests, Bödvarssonar, nokkru seinna Gufudalr í Bardastrandar sýslu. Skipun var þá gjör af skóla-yfirstjórninni um Bessastada skóla, ok kansellí-brèf komu ýmisleg, var eitt um konúngs úrskurd, er konúngr veitti fè 800 ok 40 ríkisbánkadali reidusilfurs, eda 420 danskar spesíur, til hyllu biskups skjala ok stiptis bókhlödu á Reykjavíkr dómkirkju lopti. Þau misseri bættist lærari vid skólann í mælíngarfrædi: Björn, son Gunnlaugs smids Vatnsnesíngs, hann var vel um sik í þeim lærdómi, ok stjörnufródr ok skáld.

## CXX. Kap. Lærdómsverk.

Þá kom út prentadr í Kaupmannahöfn fyrsti hluti árbóka vorra til plágunnar miklu, ok hinn fyrsti hluti jardar-frædi ok landa á íslenzka túngu, merkilega skrádr, ok fyrstr á því máli, frátekinni jardarfrædi Schultzens, lítt merkri, er Gunnlaugr prestr Snorrason at Helgafelli hafdi lagt út, var þessi hinn fyrsti hluti at eins náttúrusaga heims, undanfarandi landaskipuninni sjálfri, ok hafdi samit hinn fyrsta þátt Grímr Jónsson yfirauditeur ok hèradsfógeti, hann hafdi lengi mjök framazt í

Danmörku, ok var son Jóns prests, er fyrr var í Gördum, Grímssonar at Giljá, var þat vandat verk, en tvo hina sídari þætti samdi Þórdr Sveinbjarnarson frá Hvítárvöllum, Þórdarsonar, lögvizku námsmadr. Hit þridja var prentud Sagnablöd Íslands at hætti, er skrádi Finnr Magnússon prófessor, ok margt annat í þenna tíma; hann átti þá í strídi vid Þorkel Baden prófessor, um ágæti nordrlenzkrar fornfrædi, ok fèkk medhald mikit, því þat var þá títt at halda henni upp; gjördust ok þýzkir menn til at mæla fram med fornfrædi Íslendínga; en í Videyjar prentverki kom þá út helgidaga postilla Árna prófasts Helgasonar, hinn fyrri hluti, hafdi þat verit fengit af honum at gefa hana út fyrir lestrarbók, en hafdi at eins haft at rædum; þat var lærd bók ok vel stílud, en sumum þótti nokkut smakka af Pelagíana lærdómi, eda mótfalla heldr at tilhnegíngar manna væri spilltar; var hún ok á þann þátt, at kalla mátti heimspekilegan sidalærdóm, med studníngi ritníngar, ok margar voru þar í hugkvæmar athugasemdir, ei sídr en ritníngar andi, en hvergi fylgdi hún Socinianum edr ödrum, er neita guddómi Krists eda endrlausn. Þórdr Sveinbjarnarson, er fyrr getr, fèkk eigi mjök laungu seinna Árness sýslu, ok gekk at eiga Gudrúnu Oddsdóttur, ekkju Stephâns amtmanns Stephensens á Hvítárvöllum. Á þeim vetri ofanverdum fèkk Torfi prestr Magnússon Stad í Grunnavík, en Þorsteinn kapellán Einarsson Stadarhraun. Kansellí-brèf þau, er í þann tíma voru birt, nenni ek ei at telja. Jón prestr at Mödrufelli lagdi jafnan út smárit hin evangelisku, ok lèt prenta í Kaupmannahöfn; en biblíu-fèlag þat hit íslenzka á Sudrlandi, er Englismenn ok Danir, ok svo Íslendíngar sjálfir, höfdu lagt stórmikit fè til, gekk eigi vel fram; kom seint út Nýja-testamentis útleggíng, því hún var mjök lögud á annan hátt, ok eigi jafn einföld ok lík hinum fornu sem sú, er þá var út komin í Danmörku; heptist hún vid þat, at þeim, er hèr skyldu vera forstjórar, var rádit at fara eigi mjök fjarri hinni dönsku. Grunadi þá suma, at eigi mundu reikníngar verda med gódum skilum í því efni.

## CXXI. Kap. Frá ýmsu.

Nú voru enn mýkt hórdómsmál á þann hátt, at falla skyldi sekt nidr med amtmanns leyfi, ef saklaus egtamaki bad fyrir hinn; þat kom út árinu sídar; ok fleira kom út um uppbod, ok klaustrpresta ok annat. Hardindi hèldust þar til er þrjár vikur lifdu vetrar, ok lagdi margar sveitir undir fönn; var þúngt mjök í Nordrlandi ok helzt austarlega, ok gjördi allmikinn fjárfelli; hlutadist þá Stephán amtmadr Þórarinsson til, at menn legdi þángat styrk, ok gjördu þat margir, mest í Húnavatns sýslu,

því þar var mest fjáreign, en ei þótti þat mjök koma at haldi, sakir medferdar á saudfè því, er til var lagt, sögdu þá ok sumir, at Nordr-Múla sýsla mundi eigi verr stödd en Eyjafjördr eda Skagafjördr. Á Sudrlandi var fiskifengr mikill, ok týndist skip í Þorlákshöfn med fjórum mönnum, annat í Njardvíkum med þremr, eitt fyrir vestan Jökul med 7 mönnum. Þá dó Vigfús prestr Benediktsson, er seinast var at Kálfafelli í Hornafirdi, fadir Kristjáns, er lögsagnari hafdi verit fyrrum, í útistödum Jóns Helgasonar sýslumanns, var hann gamall mjök, ok hafdi verit gildr fyrir sèr í æsku; einnig Hans Hjaltalín, kaupmadr á Stapa, á hinum áttunda tugi, hann var vitr madr, fridsamr ok gódgjarn. Jón Finsen, son Hannesar biskups, vard þá kansellí-sekreteri, ok Ólafr Stephensen, son Stepháns amtmanns, gjördist auditeur vid riddaralid húsara. Gunnlaugr Oddsson ok Þorsteinn Erlendsson Hjálmarssonar, námsmenn í Kaupmannahöfn, gáfu út á íslenzka túngu ritgjörd Möllers ágæta um biblíulestr, en önnur smærri kom út í ritgjördum Jóns prests í Mödrufelli.

## CXXII. Kap. Frá Jóni presti.

Jón prestr Jónsson at Mödrufelli hèlt þá nálega einn upp þesshàttar skrásetníngum, er evangeliskar kölludust, ok í smábæklíngum gengu út í ödrum löndum, ok setti á íslenzku, ok urdu margir til at kaupa nordanlands, því verd var lètt á þeim, ok vídar vard þeim allvel tekit; vard sá bóndi á Bardaströnd, er Bjarni hèt, Þórdarson, ok allvel at sèr, til at hrósa því í kvedlíngi; en þeir sumir, er inndrukkit höfdu uppklárunar-lærdóm, er þeir kölludu, fyrir aldamótin eda sídan, lètu sèr lítid um þat finnast, ok kölludu píetista anda. Jón prestr var hinn lærdasti madr, ok merkilegr í mörgum hlutum, hann hafdi brèfagjördir vid lærda menn um andleg efni bædi á Englandi ok Þýzkalandi, ok í Danmörku, fyrirhyggjumadr mikill ok þó gegn, þótti nokkut kappsmikill í skapsmunum en stillti sik vel, ok var fèlagi gódr, rádvandr ok vandvirkr um embætti sitt. Hann átti Helgu Thómasdóttur prests Skúlasonar, er seinast var á Grenjadarstad, ok Álfheidar Einarsdóttur, systur meistara Hálfdáns, þeirra börn voru: Jón, hann var skólahaldari í Kaupmannahöfn, ok kvæntr þar, ok átti börn; Sigrídr, hún var gipt á þessu vori Hákoni, syni Jóns Espólíns sýslumanns; Margrèt, hún átti Einar prest Thorlacius, er þá hèlt Goddali, en sídan tók í skiptum Saurbæ í Eyjafirdi, ok voru mörg börn þeirra, hann var son Hallgríms prests Thorlacius í Miklagardi, ok úngmenna lærari gódr, en módir hans var Óluf, dóttur Hallgríms prófasts Eldjárnssonar, ok líktist hann

í þá ætt um nám; Álfheidr, hún fór utan, ok var ætlud Hálfdáni Einarssyni prests, Thómassonar prests, Skúlasonar, frænda sínum; Gudrún, hún var þá enn heima.

## CXXIII. Kap. Veitíngar ok mannalát.

Þá kom konúngsbrèf um forgaungurètt konúngs-fèsjóda; ok andadist Einarr prestr Árnason, er fyrr var á Saudanesi, ok Torfi Thorgrimsen, stjúpsonr biskups, son Gudmundar prests á Lambastödum. Bjarna Thorarensen, er ádr hafdi fengit Árness sýslu, var nú veitt aptr assessors embætti med betri launum en ádr hafdi verit, en Bonnesen sýslumadr fèkk Rángárvalla sýslu, hafdi hann farit utan. Mörg komu þá kansellíbrèf, ok fá mjök árídandi hèr, ok gengu þjófadómar. Þá rènadi eldr í Eyjafjallajökli ok vard vor gott, en þó urdu kraptlítil hey; greindi Magnús hreppstjóri Sigurdarson á Leirum undir Eyjafjöllum gjörr af eldgosinu, ok þeim skada, er þat gjördi þar; en Páll prestr Ólafsson at Ásum í Skaptártúngum baud þeim mönnum, er skada höfdu lidit, at taka vid kvikfè þeirra í sókn sína, hann var úngr madr, sonarson Páls Jónssonar, er var á Gufunesi ok at Vatni, en módir hans var Helga, dóttir Jóns prófasts Steingrímssonar, átti hann Kristínu, dóttur Þorvalds prests Bödvarssonar, hafdi Páll födurfadir hans stadit fyrir Gullbríngu sýslu. Þá braut skip enskt í ísi fyrir Vopnafirdi, komust skipverjar 16 á land, en adrir 6 í Borgarfirdi í Nordr-Múla sýslu. Páll Melsted, sýslumadr í Nordr-Múla þíngi, son Þórdar prests á Völlum, Jóns sonar prests hins gamla á Völlum, Halldórssonar, bjó á Ketilstödum á Völlum, ok þeir Twede bádir, sýslumadr í Sudr-Múla sýslu; Páll fèkk veg mikinn af vidrgjörníngi vid skipbrotsmenn hina ensku, var hann ok vel at sèr ok vel þokkadr, ok átti Önnu Sigrídi, dóttur konferenzráds Stepháns amtmanns Þórarinssonar; hún var köllud fèglögg, ok lítid var samþykki med þeim konum sýslumanna, var sú sök til, at Anna Sigrídr vildi ei sídr heita frú, fyrir ættar sakir, en sú kona er Twede átti, þó hann hefdi nafnbót. Ekki bar þeim Twede ok Melsted í milli sjálfum, en þó skildu þeir samvistir af þessu, ok rèdu þat vitrlega. Þá baud Moltke stiptamtmadr mönnum til at styrkja Eyjafjallamenn, ok gafst þeim mikit fyrir sunnan. Þá rak 150 smáhvali í Njardvík, ok dó Gestr Þorláksson, er fyrr var prestr á Kjalarnesi, en seinna, hinn 14da dag Septembris, dó Gudbrandr apótekari Vigfússon í Nesi, er hann var fimmtugr at aldri, setti doktor Magnús Stephensen grafarminníngarletr eptir hann, sem marga menn adra.

## CXXIV. Kap. Mál.

Mál voru þá ýmisleg, ok eigi mjök merkileg, nema Björn Blondal sýslumadr Húnvetnínga hafdi jafnan mikit at annast, ok mest at sinni, ádr hann fèkk lokit málum Ísleifs þjófs ok hans fylgismanna, svo óhægt sem ordit var at koma stuldum í ljós, því þjófar voru miklu kænni en ádr, en máttu eigi takast at óprófudu, ok at engu þraungva þeim. Þá var ok barnsmál í Skagafirdi milli hreppa tveggja um framfæri, ok komit á fyrri en endrnýjat var lögmálit um at sýslumenn skyldu slíku einir ráda í sýslum, er fyrri getr, ok má ætla, at sú endrnýjun hafi risit af því; en þat var svo á komit, at amtmadrinn Stephán Þórarinsson konferenzrád fylgdi ödrum hreppnum, í móti ályktun Jóns Espólíns sýslumanns, ok sókti þat fyrir hann, er því frá því sagt, þó þat væri ómerkilegt, at slíkt þótti fátítt; hafdi sýslumadr prófat á þíngi, fyrir bón þess hreppstjóra er undir þóttist verda í ályktuninni, hvort ástædur hennar voru ósannlega bornar fyrir hann edr ei, ok dæmt þær sannar, en þá lèt amtmadr þegar stefna því fyrir yfirrètt. Magnús Stephensen ok assessorar viku sæti, ok dæmdu settir menn, ok vísudu málinu frá, fyrir því ólöglega væri höfdat, ok eptir þat kom út kansellí-brèfit; var þá ok heimt skýrsla af doktor Magnúsi Stephensen ok Moltke stiptamtmanni um málit, ok urdu þeir bádir á einu, ok kölludu amtmann ei rètt hafa gjört, ok vard Magnús Stephensen nokkut hardordr; en ei sídr skaut amtmadr málinu til hæstarèttar med uppreisn, ok var þat þar dæmt, ok hugdu menn væri ádr en mótmælendr komu gögnum fyrir sik: at dómrinn í hèradi væri ógildr; þat eitt ómagamál vita menn dæmt hafa verit í hæstarètti, þótti mönnum þat undarlegt, ok ætludu þó svo eiga at skilja, at ekkert hefdi átt um at dæma í hèradi, en ályktun sýslumanns gilda, ok svo ætladi doktor Magnús Stephensen sjálfr. Vildi þá amtmadr fylgja at því, at ályktunin væri einnig ónýt, ok sá hreppr, er hún kvad frían, skyldi leggja hinum, sem hann kvad á, en sýslumadr ok Jón prófastr Konrádsson at Mælifelli, ok Thómas hreppstjóri Thómasson, vildu eigi at því fara, fyrr en skýrsla kansellíis kæmi um þat; þá ritadi amtmadr kansellíi ástædur sínar, ok svo mótmælendr hans, en þeir menn, sem gjörst vissu, þóttust ei vita til at röksemdir mótmælenda hefdi komit fyrir sjónir, ok ályktadi kansellíit at lokum, at svo skyldi vera sem amtmadr hafdi fyrir mælt; en þau tídindi voru ordin, ádr en sú ályktun kom út, at hún kom honum ei fyrir sjónir, þó eptir henni væri gengit, ok skamma stund lifdi barnit; var þetta kallat Ragnhildar mál, svo hèt módirin.

## CXXV. Kap. Árferdi ok annat.

Nú gjördust prófastar: Grímr prestr Pálsson at Helgafelli, ok Ásgeirr prestr Jónsson í Holti í Önundarfirdi, en Jón Reykjalín, son Jóns prests Þorvardssonar á Breidabólstad í Vestrhópi, er miszt hafdi prestskapar fyrir legord, fèkk uppreisn; dó skyndilega Jón prestr Jónsson á Hnausum í Medallandi. Grasvöxtr var gódr um Sudrland ok Austrland, en verri vestra ok verstr nyrdra, ok þar einnig óþurkr ok ónýtíng mikil, ok urdu hey bædi lítil ok ill. Afli var hinn mesti sudr, austr ok vestr, ok nokkurr fyrir nordan, ok var þat þá nýtt; týndist sexæríngr á Seltjarnarnesi ok 7 menn. Þareptir gjördi vetr hinn bezta, ok stód varla snjór vid á jördu, en þó urdu peníngahöld vída ei öllu betri eptir hann sídan, en hinn fyrra harda vetrinn, enda voru heyin vídast ill, ok verst nordanlands. Dómar voru ýmsir, ok hafdi einn verit dæmdr í Húnavatns sýslu fyrir um haustid, um Ísleif Jóhannesson ok hans kompána, var Ísleifr dæmdr til kagstrýkíngar, brennimarks ok æfiþrælkunar, ok adrir ödruvís, ok hafdi landsyfirrèttr stadfest, en þá var hæstirèttr eptir. Nýlega hafdi þá ok drukknat í Lagarfljóti Sigfús prestr, úngr madr, son Árna prófasts Þorsteinssonar á Kirkjubæ ok Bjargar Pètrsdóttur sýslumanns Þorsteinssonar, hann var gáfumadr mikill ok skáld gott. Björg var systir Gudmundar Pètrssonar, sýslumanns, í Krossavík, ok hafdi hana ádr átta Guttormr Hjörleifsson sýslumadr, ok voru systkin Sigfúsar prests Stephán prestr, er vígdist fyrst at Valþjófstad, Sigurdr ok Sigrídr ok Þórdís; en Gudmundr sýslumadr hafdi átt fyrst Þórunni, dóttur Páls prests Gudmundarsonar, ok voru þeirra börn Páll sýslumadr, sem dó af áreynslu í lestaför; Þórunn, er átti Björn prestr á Eydum Vigfússon prests frá Gardi, Bjarnarsonar prófasts á Grenjadarstad, Magnússonar at Espihóli; Sigurdr, er fèkk Ingunnar Vigfús dóttur prests frá Valþjófstad, ok Málmfrídr. Sídan hafdi Gudmundr sýslumadr átta Þórunni Guttormsdóttur Hjörleifssonar, systurdóttur sína, þeirra börn voru: Pètr, Þórunn, María, Guttormr; hann átti Steinvöru Gunnlaugsdóttur; Sigrídr, hún var gipt Sigfúsi presti Árnasyni, er ádr er getid; Þorsteinn, Elizabeth, Oddr. Þorsteinn bjó ólærdr med módur sinni, ok ókvæntr í þenna tíma, hann var medalmadr vexti, ekki mikill, en vödvaþykkr, ok var sterkastr úngra manna, er menn höfdu þá spurnir af í landi.

## CXXVI. Kap. Frá Þorláki Hallgrímssyni.

Þann tíma var sem mest álit Þorláks Hallgrímssonar danabrógumanns í Skridu í Hörgárdal, ok var hann nú allmjök hniginn á aldr; en

þess er því getid, at vita megi hve bændr komust þá fremst á Íslandi í jardyrkju; hann hafdi kornsád nokkurt, ok svo trjávidarplöntun, en kályrkju ok jardeplarækt hina mestu, ok fèkk á ári 40 tunnur af jardeplum ok rótum, ok mikit kál hafdi hann til nautgjafar ok vard mjólkrsælt. Konúngr hafdi gefit honum med danabrógukrossinum 300 dala verd, til at reisa þófaramylnuna, en hann kostadi 100 til at flytja hana á Eyjafjörd; hann gjördi skurdi ok veitti vatni á hana, ok þæfdi hún af medal-vadmáli eda einskeptu 100 álnir á degi; hèlt hann fram miklum ok mörgum vefnadi ok mörgum smídum, þar í medal ullarkamba gódra, ok tinadra aungla. Landbústjórnar-fèlag baud honum at senda utan einhvern sona sinna, til at nema akryrkju ok landbúnad, ok hafdi hann sent Jón, er kalladr var Kjærnested, sem Fridfinnr födurbródir hans, er lengi var utan; hann nam akryrkju ok dýralækníngar, rennismídi ok hljódpípuleik, ok svo sund; freistadi hann, er hann kom aptr, at planta trè, ok höfdu dáit flest hinn harda vetr, er næst var aflidinn, en þó lifdu nú 12 eptir. Bygg vard fullþroska tvisvar; freistadi ok Jón at kenna akryrkju ok gardrækt nokkut, ok sund, fyrst í Eyjafirdi, sídan í Skagafirdi ok Húnavatns sýslu; námu nokkrir smásveinar, þó fáir yrdi fullnuma, en gardyrkju-læríngin vard vída stopul; hafdi hann sundskóla sína vid tjarnir volgar, ok tók spesíu fyrir hvern sem hann kenndi, en ekki þótti hann frágjörda sundmadr. Smidr var hann, ok þeir brædr fleiri, ok svo var öll ætt þeirra.

## CXXVII. Kap. Fráfall amtmanns nyrdra.

Stephán Þórarinsson amtmadr á Mödruvöllum, konferenzrád, hafdi haft brjóstpennu eda drátt sídan á leid æfi hans, ok fengit stundum óvit af. Ólafr sonr hans, læknir, var í þenna tíma med honum, kominn úr Vestmannaeyjum ok braudlaus, ok hafdi honum lítt audit ordit at lækna þar ginklofa, var ok ei mjök mikit ord gjört á læknis íþrótt hans í þann tíma; þóttu ok þeir brædr flestir ólíkir födur sínum at skarpleik ok framkvæmd, en spaklátir menn voru þeir flestir ok gjördu lítid fyrir sèr. Þórarinn var höndlunarmadr á Akreyri, ok átti Katrínu, dóttur Jakobs Havsteins í Hofsós, hann var haldinn óskarpr, en þó var hann gegn í tali; Oddr hèlt apótek, þat er þar var, at forlagi amtmanns, ok hálft Múnkaþverár klaustr, en hálft hèlt Kristján danabrógumadr á Illhugastödum í Fnjóskadal, bródir Bjarnar at Lundi. Oddr var all-vinsæll madr, hann átti Solveigu, dóttur Boga Benediktssonar í Stykkishólmi, systur Hildar, er Bjarni assessor í Gufunesi átti.

Vigfús kansellisti var heima med födur sínum, hann var ordinn sekreteri ok lifdi sídan á tillagi sínu; hafdi hann þótt efnilegastr at mannviti ok kostum, þeirra er þá voru nokkut reyndir, en verit frá æsku nokkut þúnglyndr ok kaldlyndr, þó hann þætti stilltr vel; var sagt, at hann hefdi eigi fengit af födur sínum·fè, svo mikit sem hann vildi, til utanfarar, en hugat á rádahag stóran, ok fengit nokkra fásinnu medan hann var í Kaupmannahöfn, er sídan hefdi hvarflat at honum med atvörpum þúngum, en þess á milli var hann spakr ok vel stilltr; hann óvingadist mjök vid födur sinn þá hann var med fásinnunni, ok vard at binda hann, ok er sagt honum hafi einna mest brugdit til þess er fadir hans vildi ráda honum far; fèll amtmanni þetta þúngt mjök, at líkindum, þar sem hann hafdi unnt jafnan mjök börnum sínum, ok viljat þeim allt vel, en eigi lattist hann vid sýslanir sínar. Hafdi hann þat nú á sèr heyra látid þenna vetr, at skammt mundi eptir æfi sinnar, ok bedit at jarda eigi skjótt lík sitt, ef hann fengi ásvif, svo hann fèlli í ómegin. En um vetrinn, hinn 12ta dag Martii, var midvikudagr, ok 1823.
flutti Árni prestr Halldórsson embætti, hann var bródir Bjarnar prests í Gardi, merkilegs manns; vard þá Vigfús med fásinnunni, ok var bundinn, ei vitum vèr hvort þat var svo skjótt sem skyldi, en fadir hans sat inni þar sem hann var, ok ritadi nokkut; er þá sagt svo hafi verit komit at honum, at hann lá í aungviti, ok vaknadi hann eigi í þenna heim; hafdi ordit fljótlegt um Þórarinssonu alla, nema Magnús, en amtmadr vard elztr þeirra; sagdi frú Ragnheidr presti hvat títt var, er hann kom inn, ok er hann vildi eyda því, kvad vera mundi ómegin eitt, kvad hún hitt víst, at hann væri látinn. Fáir voru til leiddir, er líkit var búit, en Ólafr sagdi hann víst dáinn; var frúin döpr, en stillti sik vel, sem henni var títt, kvad sèr þýngst falla er Vigfús var med slíku órádi, ok engu vard skipat, skjölum eda ödru; ok er þat spurdist á Akreyri, barst Oddr lítt af. Líkit stód uppi nær hálfum mánudi, ok var sýnt ádr kista var lukt, svo at margir voru vid: Jón prestr Jónsson at Mödrufelli, Gunnlaugr Briem kammerrád ok sýslumadr, Jón prestr Jónsson í Stærra-Árskógi, Árni prestr Halldórsson; þó var þar fámennt; leit líkit vel út, ok var rodi í kinnum; var þat jardat sídan med riddarabandi ok korda hans, ok minníng gjör, sem hans var háttr til, med engu fjölmenni, hèlt sína rædu hvorr presta: Jón prestr í Stærra-Árskogi ok Árni prestr, en Gunnlaugr Briem hina þridju í ödru efni, ok fór honum ordalega; þóttu þetta tídindi mikil, því madrinn var merkilegr at mörgu, ok dugnadarmadr mikill í embætti, rèttlætisgjarn ok vinfastr, lagamadr gódr, ok úrskurdarsamr, þó mörgum þætti hann undarlegr í vidskiptum; hafdi hann ok verit hamíngjumikill í

sýslunum sínum; var hann á 69da aldrs ári, en 40ta í amtmannsdæmi, ok gjördi doktor Magnús Stephensen grafarletr eptir hann á íslenzku, þó fátt hefdi þar milli verit um bríd, en Páll Melsted mágr hans á latínu; Bjarni assessor kvad eptir hann, ok Jón prestr í Mödrufelli; skipadi Moltke stiptamtmadr Þórd Bjarnarson, kansellírád ok sýslumann í Þíngeyjar þíngi, er bjó í Gardi í Adalreykjadal, fyrir amtid, jafnskjótt sem hann fèkk bod um tilburdinn, en frúin fèkk at sitja í óskiptu búi um sinn, at undirlagi manns hennar; fór Þórdr kansellírád til Mödruvalla ok tók vid embætti; þat fór honum lidlega, en þótti frúin reikníngsglögg, ok fèll medallagi á med þeim, vildi hann þá fá at fara nordr heim til sín. Eptir þat reid Moltke stiptamtmadr nordr um sumarit, því hann var búinn til utanfarar, ok fèkk at setja annan í sitt sæti á sína ábyrgd; hann fann hvern sýslumann í Nordrlandi, ok seinast Þórd Bjarnarson kansellírád á Mödruvöllum, ok fèkk hann af honum leyfi at vera nordr í Gardi med skjölin. Vorit var harla illt, ok fèkk stiptamtmadr hin mestu illvidri á leidinni; var med honum Ólafr Finsen sýslumadr, son Hannesar biskups. Stiptamtmadr var lítilátr ok vidrædisgódr vid hvern mann, ok var hann lengst á Akreyri, en er hann kom sudr bjóst hann til utanfarar, ok skipadi Bjarna Þorsteinsson, amtmann at vestan, í sitt sæti. Gísli prestr Brynjúlfsson kom út um sumarit, ok Gudrún, dóttir Stephàns amtmanns, ok er at því leid, at þau skyldu vígjast saman, taldist hún undan at sinni; reid hann þá nordr at Gardi med Þórdi kansellírádi, ok austr þadan. Oddr apótekari þóttist eigi fá selt medöl sín á Akreyri, ok sókti um Nesapótek ok fèkk þat; ok er hann hafdi lokit máli nokkru, er Bogi mágr hans hafdi leidzt í ok falit honum sídan, um Hóla afrètt, fór hann sudr med allan varnad sinn; sátu þá þeir Vigfús ok Ólafr amtmanns synir á Mödruvöllum, en Lauritz var í Kaupmannahöfn, þeirra er þá voru manndir, ok var vel látid af honum.

## CXXVIII. Kap. Hvat út kom.

Þá gjördist Bödvarr prestr, son Þorvalds prests Bödvarssonar, prófastr í Bardastrandar sýslu, hann var í Gufudal. Þá komu út frá Videyjar prentverki smásögur eptir doktor Magnús Stephensen konferenzrád, var hin fyrsta deild þeirra komin ádr. Birt var þá ákvördun ný um testamentisgjördir, ok nokkrar eptirgjafir hórdómsbrota, ok svo hæstarèttar dómr í máli Skúla prests Thómassonar í Múla, um brennisteins tilkall vegna kirkjujardar móti konúngi, hafdi Þórdr kansellírád dæmt þat konúngi, en nú dæmdist þat Skúla presti, ok þótti sýnt med því,

at ógild væri hefdan undan kirkju, ok konúngs brèf forut þarum, ok ei væri heldr brennisteinn konúngs gersemi, ok var þat ólíkt því, er fyrr hafdi verit álitid. Advörun kom um tólgar betrun, höfdu kaupmenn ákært mjök um þat; var þá höndlun öll ill ok þúng, ok eigi undarlegt at hún yrdi þat hèr, svo ill sem hún var í Danmörku, en embættamenn fengu eigi penínga til afgjalda, ok var hvergi verra um þat en í Skagafirdi, ok sumstadar á Sudrlandi; vard þeim, er því þurftu at sæta, ánaud af því mikil. Mörg brèf komu út híngat, þau er hèr nádu alls ekki til lands.

## CXXIX. Kap. Magnús gekk á Jökulinn.

Sumar allt var þá harla illt, nálega sem vetr, med hrídum ok stormum nordanlands, en kuldum ok þurkum miklum sydra, en afli var mjök mikill sudr ok vestr, ok í landsteinum uppi, þó var fiskrinn rýr mjök. Þat sumar á annann dag hvítasunnu fór Magnús hreppstjóri Sigurdarson á Leirum at kanna upptök elds í Eyjafjallajökli, ok tveir menn med honum; þeir komust at Gudnasteini, er efstr er, um dagmál, fundu þar hamar þvergnýptan, nær 20 fadma, at því er þeir ætludu; hafdi hann brunnit at fornu, ok hjuggu þeir úr honum hraunmola; þar hjó Magnús á fángamark konúngs, ok fyrstu stafi í nafni sínu ok fylgdarmanna sinna. Þeir fundu eldgjána í nordvestr frá Gudnasteini, ok var at sjá gljúfr botnlaust, enda var reykr í; þeir ætludu hún mundi vera 30 fadmar þar sem hún var mjóst, en 1000 fadma laung, ok jökull hvervetna fram á barmana, en tveir svartir hnúkar litlir at vestan, ok treystust þeir ei þángat fyrir óvegum: sáu þeir gufu af þremr opum á Jöklinum, sudr ok vestr af adalgjánni, ok lángt á milli hvers þeirra; eigi urdu þeir varir vid vatn, ok eigi vid ösku, sáu ok eigi gjörr fyrir gufunni, hvort rjúka mundi um op austanvert vid gjána; fèkk Magnús hjartslátt ok þreytu í fætr, medan hann var hæst, ok eignadi þat loptinu; bundu þeir sik saman á streng á Jöklinum med þriggja fadma millibili, svo upp mætti draga þann er falla kynni í blindgjár, ok allir höfdu þeir skóbrodda; sneru þeir ofan um hádegi, ok nádu messu at Holti á midmunda; en Magnús baudst sídan til at fylgja á fjallit, þeim er vildu, ok nokkru launudu.

## CXXX. Kap. Veitíngar ok annat.

Vigfúsi Thorarensen hafdi verit veitt lausn af konúngi af kansellísekretera embætti, þá er magnadist veikleiki hans, ok uppheldis-peníngar

at forlagi födur hans; en sídan var veitt hèr í landi Kirkjubæjar klaustrs prestakall Páli kapelláni Pálssyni, ok Borgar þíng í Mýra sýslu Páli presti frá Miklaholti, Gudmundarsyni, Vigfússonar, en Garpsdalr Thómasi presti í Flatey, Sigurdar syni sýslumanns, er seinast var í Borgarfirdi ok dó í Kaupmannahöfn; því næst Holta þíng Páli presti Ólafssyni á Ásum, er fyrr var nefndr, en Brynjúlfr prestr Árnason fór til Medallands, ok var kvedlíngr gjörr um þat. Margt var þá kvedit ok vandat vel, ok sumt í fornmælum, er þá tídkudust mjök, ok tókust þau ei ödrum betr en Sveinbirni Egilssyni lærara. Menn þrír úr Reykjavík grófu í Krumskeldu á Mýrum, ok hugdu at finna fè Skallagríms, grófu þeir meir en 5 álnir ok nær fimmtigi álna vítt, ok fundu hríng vid móbergsklöpp eina, nær tvo þumlúnga í þvermæli, flatan ok þunnan, ok silfrlitr á umhverfis, ok krákustígr mjór á milli randa tveggja, en móberg í milli komit, ok svo annarsvegar á hríngnum; þeir þóttust sjá málmlit vídar á berginu, ok grófu af því annan dag, ok svo vítt út sem sagt er; fundu þeir ei annat en stein einn, mikinn sem klett, ok lausan á berginu, ok gryfju undir hann, er þeim þótti sem fè mundi hafa undir verit, ok líkast at tekit hefdi verit fyrir laungu. Þeir grófu ok í Gullberastada-keldu í Sydra-Reykjadal heilan dag, ok í Gullkistuhól, ok fundu ekki í, en í melrúst, í Vatnshorns landi í Skorradal, fundu þeir nokkut af sverdshjöltum, ok þótti sem væri úr látúns-blendíngi. Þá kom út seinni hluti prèdikana Árna prófasts Helgasonar, ok kvad einn madr lof til hans fyrir, ok nefndi sá sik ekki. Konúngr veitti Eyríki Sverrissyni, er examinatus var í lögfrædi, Snæfells sýslu, hann var at austan, ok kynjadr öndverdlega úr Skaptafells þíngi, ok hafdi verit kvæntr ádr hann fór utan til frama, ok mist konu sinnar, ok er þess fyrri getid; þótti hann vel fallinn til sýslu; en Sveini Benediktssyni var veitt Sandfells prestakall. Biskup var kránkr um sumarit, ok vígdi Árni prófastr Helgason Þorvard, son Jóns prests Þorvardssonar á Breidabólstad, til kapelláns at Fagranesi á Reykjaströnd, til Magnúsar prests Árnasonar. Þá komu brèf nokkur, ok var eitt frá konúngi, er leyfdi landsetum í Stapa-umbodi at gjalda eptir fornri evaluation, er köllud var, einn dal ok 57 skildínga silfrs fyrir vætt hverja, ok annat, er setti í amtmanna vald um hórdóma sektir, á þann hátt er fyrr er getid. Því næst fèkk ok stiptamtmadr leyfi at setja mann fyrir sik, ok setti hann Bjarna Þorsteinsson amtmann, ok birti þat, at Íslendíngar mætti enn leita sín í Kaupmannahöfn, um þat er þeim þætti miklu skipta, ok fór utan sídan. Gísli prestr Brynjólfsson hafdi fengit doktors nafn í heimspeki fyrir ritgjörd sína um rúnir; ok í þenna tíma, eda nokkru ádr, var Þórarinn Öefjord settr af stiptamt-

manni til at standa fyrir bádum Skaptafells sýslum, hafdi Jón Gudmundarson dáit fyrir þremr árum, ok Abel þá verit settr fyrir þær, er nú var í Vestmannaeyjum, en Ulstrup sídan tekit vid, ok var hann nú utan, en fyrr hafdi Þórarinn Öefjord stadit fyrir Rángárvalla sýslu; hann var candidatus í lögvísi, ok var elzti sonr Magnúsar Þórarinssonar at Múnkaþverá ok Ingibjargar Hálfdanar dóttur rektors, Einarssonar; átti hann Rannveigu, dóttur Vigfúsar Þórarinssonar kansellíráds, frændkonu sína, systur Gudrúnar, er Sigurdr prestr Gíslason Thorarensen átti, ok Ragnheidar, er átti Gísli prestr í Vestrhópshólum, ok Bjarna assessors, var hann hvatlegr madr ok líklegr til framkvæmdar ok mikillar menníngar, en fyrir sakir ástands, er þá var, hafdi honum leyft verit at búa um hríd utan sýslu, á Skammbeinstödum. Fridriki Gudmundarsyni var veitt prestakall at Ásum ok Búlandi, syni Gudmundar prests, er fyrr var at Undirfelli nyrdra, ok Brynjúlfi kapelláni Bjarnasyni frá Mælifelli Miklaholt; Ólafi Sigurdarsyni Flatey ok Múli.

## CXXXI. Kap. Katla spjó.

Í öndverdum Julio hafdi þegar vart ordit umbrota í Kötlugjá ödruhverju, med flódum ok vatnahlaupum fram yfir Mýrdalssand, en stundum med smá-landskjálftum ok lítilli sandrigníngu í bygdum; mínkadi þat ok lauk hinn 18da eda 19da þess mánadar; en hinn 25ta ok 26ta var jökulbjart ok heidskýrt eystra, ok sást enginn reykr þadan, ok þótti mönnum hún slokknud vera; en vid hit fyrsta gos eyddust Sólheimar í Mýrdal, á þann hátt, at ei vard þar neitt slægt; þó komu nokkur saudsnöp um mánadamótin eptir. Fell í Mýrdal, er var prestssetr, spilltist svo, at þar vard eigi sláandi, ok svo var í ýmsum stödum; Pètrsey spilltist ok, en lítt adrar jardir; ok á Álptavers jardir hljóp jökulledja, ok tók burt allt meltak, ok fleytti melnum í stórflyksum á sæ út, tók ok út trè stór af Medallandsfjörum, ok rak nokkur upp undir Eyjafjöllum. Fólk fór úr Álptaveri, Skaptártúngum ok Medallandi lestaferdum á fjallabaki yfir Mælifellssand, því Mýrdalssandr var ófær, ok sóktu Sídumenn flestir kaupverzlun á Djúpavog. Þat var mest, er allr falljökullinn hljóp fram í sjó vid fyrsta ok annat gos, en nú sídan lækkadi hann at eins; er mælt, at eldíngar hafi lostid tvo menn til meidsla, ok vid þrumuvedr, er at austan drógst af Sídufjöllum, hafi Katla vaknat, en meira rokit úr Eyjafjallajökli en vant var, medan hún sprakk; hefir þetta greint Sveinn Pálsson læknir, en Jón prestr Austmann ok Þorkell Jónsson hreppstjóri fóru at skoda gjána hinn 12ta dag Augusti, fóru upp ok vestr af Sandfelli á Mýrdals-

sandi, nádu undir jökulinn á midmunda, ok bundu þar hesta sína, sídan gengu þeir eptir laungu gljúfri inn í jökulinn, ok komust sem næst nyrdra gjábarminum um midjan aptan; komust þeir eigi at barminum fyrir jökulsprúngum stórum ok djúpum, ok leitudu því á hinn hæsta fjalltindinn nordantil vid gjána, ok komust þángat um stund lidna. Þar eru tindar fjórir frá austri til vestrs af hellugrjóti blökku, ok fannst í hrafntinna; sá var hæstr, er næstr var hinum vestasta, ok hlódu þeir varda á honum ok ödrum til; var þar vídsýnt, ok sáu þeir upptök Kötlu í slakkanum nordvestr undir hæsta tindi Mýrdalsjökuls, ok nidr med honum, en þadan var hátt ok þvergnýpt ofan í hana sunnanverda; var hin mesta sprúnga úr nordvestri til sudaustrs, ok sídan gljúfrsprúnga frá henni, krókótt, gegnum falljökulinn til Hafrseyjar-fjalls. Jökulgeimr sá hinn mikli, milli hinna hæstu jökulhnúka, hafdi lækkat mjök vid framhlaup vatnsins, sprúngit í sprúngur óteljandi ok losnat vid fjallhnúkana; þeir komust yfir nokkrar, ok hugdu vera 100 fadma djúpar, en sáu þó ei botn, ok at ofan voru þær nær fadms vídar, en bædi tídar ok ófærar yfir at komast nær Kötlu; kvádu þeir þykkt hins sprúngna jökuls myndat hafa gjána; þótti þeim sem hún hefdi kastad vída brennisteins-klessum, er hún spjó, ok komust þeir ei at þeim, ok ætludu at þá mundi von á nýju gosi, er jökullinn hækkar svo, at slètt verdi milli háhnúkanna, ok muni Álptaveri ok Medallandi hætt, ef þat ferr skemsta leid ofan med Sandfelli. Minust var sandr fallinn næst gjánni, en fjórdúng álnar þykkt þegar frá dró. Þeir fóru frá vardahnúknum stundu fyrir náttmál, ok komust ofan af jöklinum stundu eptir þau, ok hresstu sik; baud Jón prestr Austmann fylgd sína, þeim er þángat vildi fara, en alla þá stund sem Katla spjó var nordanvedr mikit fyrir nordan land, ok kom ei eimr af því þángat, en þó sást mistr nokkra daga, en lángt er sagt skotid hafi sandinum sudr í hafit, ok komit á skipaþiljur. Á kom ok úr Kötlu, ok rann yfir Mýrdalssand, hún var stundum lítil, en stundum ófær af jökulhlaupum.

## CXXXII. Kap. Brèf ok annat.

Mörg brèf voru birt í þenna tíma, ok flest líks innihalds, voru kammerbrèf um ríkisskuldabrèf, ok afgjöld, matvörulán, er konúngr leyfdi at útvega þeim er naud lidu, um læknisverkfæri í Nordrlandi, ómyndugra ok stiptana fè, ok þvílíkt; kansellíbrèf um fyrirkall í sakamálum, bókasafn á Íslandi, ok at prestar kasti eigi moldu á dauda menn nema skiptarádanda sè fráfall auglýst ádr; þat þótti mörgum, ef svo ætti at

skilja at auglýsíng kæmi til hans, ærit undarlega koma vid á Íslandi, ok kenna ókunnugleiks, þar sem svo lángt er at fara um eina sýslu, ok mikit torleidi á vetrum, ok stundum ófært mánudum saman, enda eigi gott at bída med gröft í næmum sóttum, medan farit væri lángar leidir, en þá væri sem fæst um ferdamenn eda ferdfæra. Enn var um talsmenn vid pólitímál, prófasta rèttar atferli eptir undirlagi Vestrlands-amtmanns, ok slíkt annat, er oflángt er allt at telja. Út var þá kominn annarr hluti landaskipunar-bókarinnar, um Ísland ok Nordrlönd, ok annarr hluti árbókanna, til enda 15du aldar; kom ok smákver Þorsteins Erlendssonar Hjálmarsens: lítil kristnisaga; en Oddr Hjaltalín læknir hafdi í rádi at gefa út grasalækníngakver, er mönnum var til bodit. Á því sumri andadist Íngimundr prestr Gunnarsson á Ólafsvöllum. Þá var jafnan kalt, med hrídum fyrir nordan, ok ádr sumri lauk gjördi klyfjabrautir af snjóum, urdu hey úti, ok tók fyrir allan heyskap fyrir nordan Yxnadalsheidi, en nádist lítid þadan af; var hvervetna lítid heyjat, ok nýtíngin ill, en vedrátt stilltist aldrei eda mýktist, ok tók þar vid edlilegr vetr sem þraut vetrarvedr sumarsins. Afli var þó þá mikill fyrir nordan land á útkjálkum; vidrekar höfdu einnig allmiklir verit. Þjófamál voru nokkur, ok hormál eitt úr Ísafirdi, var Ebenezer sýslumadr fèsektadr fyrir drátt ærinn á málinu, hafdi hann verit þar fèsamr, en gjördi lítid at med lögum. Jón Jónsson á Melum hafdi þá fengit Stranda sýslu, en var settr fyrir hana ádr. Sæmundr prestr Oddsson, er fyrr var í Steinnesi, en þá at Tjörn á Vatnsnesi, deydi enn á því sumri, tveimr vetrum betr en sjötugr.

## CXXXIII. Kap. Tjón í Kötlukvísl.

Þórarinn Öefjord vildi rída í Skaptafells sýslu, þar hann var settr fyrir; er þat almælt, at hann hafi sagt þat berlega, at eigi mundi hann koma med lífi úr þeirri ferd, ok gjört rád fyrir legstad sínum; hann kom til bæjar vid á þá, er rennr frá Kötlu eptir Mýrdalssandi, er sagt hann hafi bedit bónda fylgdar, en hann hafi verit nokkut tregr, ok bodit honum gistíngu ok fylgdarmönnum hans, þótti áin lítt færileg, ok ætlad betri mundi at morgni; þat var hinn 14da dag Septembris, ok vildi sýslumadr áfram; þeir voru med honum: Páll prestr Ólafsson, Pálssonar, er fyrr hefir nefndr verit, ok sá madr er Benedikt hèt, vel at sèr ok skáld gott, en þá gamall ok ordinn óstyrkr; Páll hèt madr, er fylgdi Öefjord at heiman; ridu þeir allir til árinnar, ok bændr tveir, Árni ok Þorlákr; var áin mikil, en sýndist þó fær; ok er þeir voru lángt komnir í vatnit, kom hlaup mikit á þá úr jöklinum, svo

tók upp yfir hestinn á midjan manninn, ok kollvarpadi hvorutveggja, svo hestarnir byltust; týndist þá Páll prestr, en Þórarinn Öefjord ok Benedikt komust á fætr, ok hrökludust hestarnir frá þeim til sama lands, ok svo bændrnir Árni ok Þorlákr, ok Páll fylgdarmadr; en þeir Öefjord stódu í vatninu á grynníngum í midti, sem í þeirri von at hinir mundu koma til þeirra hestunum; kom þá annat vatnsflód, ok sló þeim útaf, ok sást Benedikt eigi þadan af, en þá er sagt hann hafi kvedit ádr:

Andæptir skáld
uppúr módu:
fram eru feigs götur,
skiljast sköp,
skammt er at landi,
brosir bakki mót.

Þórarinn Öefjord komst enn á fætr, ok ætludu þá Skaptfellíngar þeir tveir, sem stódu æpandi á landi, fyrir sárbeidni sveinsins Páls, at freista at komast til hans; en er hann sá þat, tók hann at vada í móti þeim, ód hann lengi allknálega, svo vatnid straumhart stód á öxlum honum, ok voru þeir komnir skammt eitt frá landi er hann átti skammt til þeirra; í því reid at hit þridja öldufall, ok tók þat upp yfir hann, ok lèzt hann þar; en líkin fundust tveimr dögum seinna; var lík Öefjords flutt út at Stórólfshvoli ok jardat þar. Þeir komust til lands aptr, sem útí höfdu vadit, en at honum þótti söknudr, ok þó þeim mönnum öllum, kvad Bjarni Thorarensen assessor frændi hans eptir þá, ok var þetta nidrlagit:

Fordastu at rída þann feigdar um sand,
í fjallinu er Katla ok bruggar þèr grand;
kaldhlátr dauda þar gellr í gjá,
en grátandi Skaptafells landvættir tjá:
æ! hví dó hann Öefjord svo úngr!

## CXXXIV. Kap. Lát biskups.

Þann tíma var Geirr biskup Vídalín sjúkr, ok komst þó á fót aptr, en litlu sídar sló honum nidr, ok lá tvo daga, ok andadist hinn 20ta dag Septembris; voru þá andadir bádir þeir yfirmenn á einum misserum, er riddara nafnbót höfdu hèr á landi; setti doktor Magnús Stephensen grafarletr eptir hann. Lèt biskup eptir ekkju sína, ok margt lid þat er mjök hafdi vid hann studzt, sem voru stjúpbörn hans ok börn þeirra, Jón Vídalín bródir hans, ok Sigurdr Pètrsson, er fyrr var sýslumadr, en engan aud. Var jardarför hans gjör í Reykjavík hinn 6ta dag

Oktobris, svo at ei hafdi önnur vidhafnarmeiri farit fram hèr á landi, svo at menn viti; var engum til bodit fylgdar, nema þeim, er skyldi fylgja honum til grafar, en allir komu þeir þar sem helztir voru í Gullbríngu sýslu, búnir sem bezt, ok embættamenn í virdíngarklædum sínum; voru vid kaupmenn flestir allir, skólasveinar allir, ok nokkur hundrud búenda. Gudmundr prestr Bjarnason gekk at líkinu, ádr þat var út borit, ok hèlt snjalla rædu ok þó stutta vid kistuna, ok lýsti söknudi hans ok mannkostum; sídan báru líkit austr í dómkirkjuna embættamenn ok stúdentar, 12 saman, fyrst 4 kennendr latínuskólans, 7 prestar ok stúdentar, ok skiptust opt um, því kistan var þúng, af heilum plaunkum, ok med skrúfnöglum, ok stór, svo at lítt mundi skort hafa á fjórar vættir, en líkit var fjórar vættir fullar sjálft, er madrinn hafdi verit þrekvaxinn at öndverdu, ok þarmed feitr mjök, var ok vegrinn lángr, ok budu þá kaupmenn sik til at bera á vígsl vid þá, allir þeir er nálægir voru. Þá hèlt Árni stiptprófastr Helgason tölu í dómkirkjunni vid líkkistuna, var hún bædi snjöll ok laung, ok af þeim ordum Páls postula: at láta sína stillíngu kunna verda öllum mönnum, því at drottinn væri nálægr, ok mundi þá gefa sinn frid hjörtum manna; svo var ordat; veik því dæmi til hins fráfallna; en vid greptrunina súngu tveir saungflokkar, annarr fyrst á latínu: „Jam moesta qviesce qverela," eitt vers í senn, en annarr á íslenzku, eptir útleggíngu doktors Magnúsar Stephensens; var lagdr svartr silkikoddi lítill á líkkistulokit, ok danabrógumerkit, en Bjarni Þorsteinsson amtmadr tók þat af vid gröfina til utansendíngar. Tinskjöldr var látinn fylgja kistunni, med grafarminníngu á latínu, er Árni stiptprófastr Helgason hafdi gjört, ok var hún lögd út; en silfrskjöldr, vel gjörr af Þorgrími Thomsen gullsmid, var festr í dómkirkjunni, ok á grafarletr eptir doktor Magnús Stephensen konferenzrád á latínu, einnig útlagt. Geir biskup skorti rúman mánud á tvö ár hins sjöunda tugar, ok vard hans mjök saknat af klerkunum, hann hafdi ok verit hinn mesti ljúflætismadr, ok kölludu margir Geir góda, spakr ok sèdr í sýslunum sínum, allra manna bezt pennafærr, ok lærdómsmadr hinn mesti, var hann ok vel alvörugefinn þá hann vildi, ok mátti þykja eptirsjá, er svo fátt lá eptir hann, þótti hann ok verit hafa óvandlátr nær vid of. Árni sonr hans hafdi lítt viljat leggja hug sinn eptir lærdómi, enda vandist hann mest sjálfrædi ok leikum; hagadi svo uppfóstrstad, sem sjálfrádum æskumanni var lítt fallit, en gáfur hafdi hann; mistókst honum, þá hann freistadi at taka laga-examen á dönsku, ok var sídan heima, ok þótti því lítt líklegr til mikillar menníngar, því hann skorti fèd einnig, en þó var hann laginn til búsýslu; hann var madr í gildlegra lagi, ok allknár,

sem verit hafdi Jón födurbródir hans, ok syndr svo vel, at hann sókti sel í sjó fram, er skotinn var ok sokkinn, ok dró hann af botni, ok í land med sèr.

## CXXXV. Kap. Frá ýmsu til árs loka.

Árni prestr Helgason var þá stiptprófastr, hann var mjúklyndr madr ok gódlátr, ok allvinsæll, lærdómsmadr mikill, gildlegri en í medallagi; hann átti roskna konu ok eigi börn. Þá var Magnús Stephensen, son Stepháns amtmanns á Hvítárvöllum, settr fyrir Skaptafells sýslu, ok vígdi Árni stiptprófastr Jón Bergsson til kapelláns födur síns, Bergs prófasts Magnússonar at Stafafelli í Lóni. Þá lèt Bogi Benediktsson í Stykkishólmi prenta í Videy æfi lángfedga sinna: Jóns Pètrssonar í Brokey, Benedikts Jónssonar ok Boga Benediktssonar í Hrappsey, ok Benedikts Bogasonar at Stadarfelli. Eitt mál var dæmt í yfirrètti eptir Öefjord, um mann, er barn gat vid hálfsystur konu sinnar, ok var stadfest er þeim var ályktud 9 marka sekt hvorju. Skip braut vid innsiglíngu í Gardinn, er Bjarni Sigurdarson riddari ok Sigurdr son hans áttu, nádist nokkut af fjárhlut. Póstskip kom snemma, ok sagdi alla vöru lága, ok korn einkanlega, sakir árgæzku, er jafnan var þá í Danmörku, en íslenzka vöru nálega alla í lágu verdi, sakir þess at hún lá mjök fyrir. Mörg tídindi ok stór komu af útlöndum, ok mest af hrakförum Tyrkja fyrir Grikkjum, ok ödrum óförum er þeir urdu fyrir. Þat var eitt sem spurdist, at Moltke stiptamtmanni var veitt Presteyjar amtmannsdæmi á Sjálandi, ok at stadfestr var Bjarni Þorsteinsson í stiptamtmanns umbodi; en Finnr Magnússon prófessor skyldi vera adstodarmadr Gríms Thorkelíns í elli hans vid hans sýslu, hann var archivarius konúngs. Þá gjördi þegar óstödugt vetrarfar, ok illt til jarda fyrir nordan land, urdu sumstadar menn úti, ok horfdi mjök þúnglega, þó þat yrdi ei mjök at meini fyrir þá skuld, at gott kom á eptir seinna. Nær jólum, hinn 23ja dag Decembris, andadist Ragnheidr Davídsdóttir Skevíngs, módir Gudmundar, á fjórda ári hins sjöunda tugar. Þá var litlu sídar veitt Ólafsvalla kall Sigurdi presti Ögmundarsyni, Högnasonar, födur Ögmundar skálds; en Efriholta þíng Sigurdi Sigurdarsyni, kapelláni frá Arnarbæli.

## CXXXVI. Kap. Veitíngar ok mál.

Eptir nýjár dó Benedikt prestr Íngimundarson at Stad í Grindavík, sá er fyrst var at Desjarmýri ok hafdi haldit prestskap eitt ár ok

fimmtíu; hann var son Íngimundar prests í Gaulverjabæ, bródir Sigurdar prests í Arnarbæli ok systurson meistara Bjarna. Tjörn á Vatnsnesi var veitt Jóhanni kapelláni Thómassyni frá Ásgeirsá, Thómassonar, eptir Sæmund prest Oddsson, hafdi hann verit kapellán Egils prests at Stadarbakka. Mál voru jafnan nokkur, um þjófa ok adra illvirkja, ok vard lítid úr flestum, ok helzt í hæstarètti; dirfdust margir óaldarmenn, ok mest í Húnavatns sýslu, þar gjördist óöld mikil ok ránskapr, ok voru sumstadar rofin hús ok hirzlur brotnar, ok stolit helzt peníngum ok fèmætu, ok vard ei allt uppvíst; var hafdr fyrir sumu bóndi einn, er þá var á Holtastödum ok vel vid efni, sá hèt Pálmi, mágr Erlendar gamla, ok Jóhann Jónsson, Arngríms sonar lögsagnara, hann hafdi ádr flækzt í mál med Ísleifi, en fyrir sumu sá madr er Nathan hèt, Ketilsson, flysjúngr mikill ok ónytjúngr ok hinn slægasti, en þó heppinn vid lækníngar ok gáfadr at fleiru; þó ætludu menn hann vinna meira med brögdum ok lygum, ok hlutdeild vid adra, þá er hann hefdi til at stela, en at hann stæli sjálfr, því hann var manna huglausastr, en aldrei skorti hann peninga, hverso sem hann eyddi, eda hverju sem hann fór fram, ok margir voru þar fleiri óaldarmenn, er ljósara má frá segja í sveitarsögu en hèr, ok hvergi sem í Lángadal. Stephán Stephánsson, kapellán í Holtum, fèkk þá Reyni ok Höfdabrekku.

## CXXXVII. Kap. Árferdi ok amtmanna koma.

Þá voradi vel ok gjördi gott sumar, grasvöxt allgódan ok nýtíngu; kom út um vorit hæstarèttar dómr yfir Ísleifi Jóhannessyni, hann var þá í haldi med Arnljóti hreppstjóra Árnasyni á Gunnsteinstödum, var Arnljótr alleinardr madr, ok sæmilega látinn, ok fèkk kann haldit Ísleifi med umtölum, en treystist ei til at hafa hann í höptum, fyrir ofstæti hans ok ofstæki, ok eigi hèlt hann honum svo, at hann færi ei ferda sinna, er af hlauzt mikit illt. Þann tíd átti Björn Blondal sýslumadr erfidi mikit, ok var hann þó vel at sèr, gætinn ok einardr, ok allvinsæll; hafdi hann þá fyrir tveim árum sett bú í Hvammi í Vatnsdal ok tók at hýsa þar. Um vorit hafdi konúngr skipat amtmann í Nordramtinu Grím yfirauditeur, Jóns son prests frá Gördum, Grímssonar, en Kristín var módir hans, kttilla manna, er Ólafr Stephánsson stiptamtmadr hafdi alit upp, ok hefir hans getid verit nokkrum sinnum ádr. Stiptamtmadr var ok skipadr, ok enn allúngr madr, sá hèt Pètr Fjeldsted Hoppe, edalmadr danskr í födurkyn, en dóttursonr Þorkels Fjeldsteds, stiptamtmanns í Þrándheimi, Jónssonar prests á Kvíabekk, Sigurdarsonar; hann var mikill vexti, ok hærri en flestir menn; bródur átti

hann ýngri, er Þorkell hèt. Grímr amtmadr kom út med Eyjafjardar skipi, med konu sína ok börn nokkur; hann var nafnkunnr af kænleik vid allar embættis-sýslanir, mjúkr í vidmóti ok álitlegr at sjá, átta þumlúnga hár hins sjöunda tugar, ok at því skapi á annan vöxt, skorti vetr á fertugan. Sèrlegt var augnabragd hans. Þeir komu saman á Akreyri, hann ok Þórdr sýslumadr kansellírád, ok Gunnlaugr Briem, ok Páll Melsted, sýslumadr í Nordr-Múla þíngi; var frú Ragnheidr Vigfúsdóttir frá Mödruvöllum farin til Akreyrar med börn sín, ok var Ólafr þar med henni, ok þau önnur er þá voru í landi hèr, en Þórarinn var þar kaupmadr; Oddr var farinn sudr, sem fyrr segir, ok var apótekari eptir Gudbrand. Þá var ok kominn til Akreyrar Gísli prestr Brynjúlfsson aptr frá Kaupmannahöfn, ok var doktor, ok gekk þá at eiga Gudrúnu, dóttur frúarinnar, sagdi módir hennar, at eigi hefdi hún synjat honum hit fyrra árit, þó at hún mældist undan giptíngu medan sorgarár þeirra var; tók þá Páll Melsted til adstodar med frú Ragnheidi, ok hafdi hún fengit at sitja í búi óskiptu; fór Vigfús kansellísekreteri, mágr hans, þadan austr med honum. Amtmanni þótti vanhirt verit hafa klaustrid á Mödruvöllum ok innstæda þar, ok taldi at því vid Briem; hann mæltist hóglega undan, kvadst þó haft hafa annat at annast; þá sneri amtmadr sèr til Þórdar Bjarnarsonar kansellíráds, hann vard eigi ordlaus fyrir, heldr en hann var vanr ádr eda sídan, lèt Moltke stiptamtmann hafa fengit sèr amtit til umsjár, en ei klaustrit, ok lagdi fram umbodsbrèf sitt; vard nokkurt umtal, en samdist þó at sinni. Sídan lèt amtmadr taka út klaustrjardir, ok kölludu leiglendíngar sèr þúngt gjört, ok mikils krafizt, voru ok sumir örsnaudir ok nýddar jardirnar; gjördist þá grunr um, at frú Ragnheidi mundi þúngt falla ádr lyki at standa fyrir öllu er til hennar kom, en sýslumönnum þótti mikit heimt af sèr, ok aukast jafnan, ok mest um reiknínga ok skýrslur, því at snemma var sýnt at amtmadr var harla gjörhugull um slíkt, meir en menn vissu hèr dæmi. Þá kom enn út Jón, er verit hafdi lærari í Kaupmannahöfn, son Jóns prests í Mödrufelli, med konu sína ok börn, ok var þá vegalaus; honum fylgdi Álfheidr, systir hans, er utan hafdi farit, ok hafdi med sèr prjónasmidju, ok mann danskan, er kenndi henni atferli þar vid, ok þótti þar vinnast upp at sinni kostnadr ok ábati; var ok Hálfdán med Jóni presti, fóstrson hans, Einarsson prests, Thómassonar prests Skúlasonar, ok hafdi Jón prestr af þessu þúnga mikinn. Hoppe stiptamtmadr kom út seinna med sínum varnadi.

## CXXXVIII. Kap. Frá Húnvetníngum.

Björn Blondal sýslumadr sendi Ísleif at vestan at bodi amtmanns til Akreyrar skips, at hann færi med því í þræla-vardhald; fylgdi Arnljótr honum lausum, ok var sem þjón hans, en Ísleifr fór med yfirlæti miklu ok skarti, ok lèt mikit af mannkostum sínum hvar sem hann kom, ok kvadst vandlega saklaus. Björn Blondal bad ok amtmann setja sèr dómara í máli vid Nathan Ketilsson; honum var eignud stuldar-medvitund á peníngum vestr í Múla med Helga Gudmundarsyni, hafdi hann játad þat til hálfs vid sýslumann einan, ok annan stuld eldri med Bjarna Gíslasyni, er þeir höfdu verit hafdir fyrir í Skagafirdi, en gengit í móti er fleiri heyrdu, hann hafdi ok leitad máls vid kunnmenn sína, Jóhann Jónsson ok Pètr Skúlason, at því er eptir þeim barst, at fyrirkoma sýslumanni, ok mælt til hans margt illa. Baud þá amtmadr Jóni Espólín at fara vestr, ok gjöra at Múla-stuldarmáli, hann bjó þá at Frostastödum fyrir ári sídan, hafdi keypt þá jörd ok Yztu-Grund at Arnljóti Árnasyni fyrir jardir í Kolbeinsdal, ok hýsti þar; reid hann vestr, ok var þíngat í málinu, fèkkst ei medkenníng, voru þeir þá dæmdir til málskostnadar-gjalda Nathan ok Helgi, ok Nathani þarmed birtíng nokkur fyrir framferdir sínar; þat þótti honum óvirdíng mikil, þar sem hann lèzt læknir, ok hafdi yfirlæti ok skart mikit, ok nefndi sik Lýngdal, en lèzt ei mælast undan nokkrum fèbótum, ok er þat fèkkst ei, appelleradi hann. Eigi skorti hann penínga þó hann ynni ekki fyrir sèr. Sýslumönnum taladist þat ekki til, at fá jafnskjótt amtsumbod til þess, at Jón Espólín dæmdi milli Blondals ok Nathans sjálfra, ok því vard ei af því, ok heldr eyddi amtmadr því en fýsti sídan, at þat væri fram haft. En um stuldi marga fleiri, er þá urdu í Húnavatns þíngi, vard ei at gjört.

## CXXXIX. Kap. Frá ritníngarfèlagi.

Þá voru níu vetr sídan Ebenezer Henderson hóf hèr ritníngarfèlagit, ok hafdi fengit forsjámenn fyrir, sem fyrr segir, en prófastr hverr skyldi safna fèlagslimum í sýslu sinni; sídan höfdu fèlaginu samin verit lög, ok átti hverr at vera medlimr sem gaf tvo dali, ok hafa atkvædi á samkomum, gáfu mjök margir Íslendíngar til, ok var aldrei gjör skýrsla yfir, en nú fyrir fjórum árum voru komnir inn nær fimtán hundrudum dala í sedlum, rúmir 130 í skildíngum, ok 119 í silfri, eptir því sem skrifari fèlagsins skrádi þá til Kaupmannahafnar; sídan vissu menn ógjörla hvat inn kom. Henderson hafdi látid út flytja frá ritníngar-

fèlagi í Kaupmannahöfn heilar ritníngar, meir en fjórar þúsundir, ok Nýja-testament meir en sex þúsundir ok sex hundrud, þó illa væri af hendi leyst útgáfan, sem fyrr er á vikit, ok var þetta allt í öndverdu at forlagi hins enska fèlags, voru ok komnar sex þúsundir Nýja-testamenta ádr; en þó Henderson útdeildi mjök mörgum, hafdi hann falit mjök mikit á hendr klerkdóminum, kom þó ekkert af því fram vída, en sumstadar lá þat óútskipt ok undir skemmdum, ok var eigi sinnt; ok svo var í þenna tíma. Þann tíma var hèr í landi Þorsteinn, son Erlends Hjálmarssonar, ok kalladr Hjálmarsen, en Erlendr, fadir hans, var þá at Stad á Reykjanesi med Páli presti, bródur sínum; Þorsteinn kenndi börnum kaupmanns eystra, hann hafdi ei haft fèstyrk til at halda sèr uppi í Kaupmannahöfn, var þó námgjarn, ok átti hlut í ritgjördum, helzt til andlegrar frædi; hafdi hann lagt út ritgjördir Möllers um ritníngar lestr ok hafdi kunnleik vid hann; fèkk Möller þá at vita, at ritníngarfèlag þat, er hèr hafdi verit sett, mundi eigi á allgódum fótum standa, svo mikinn styrk sem þat hafdi fengit af hinu enska fèlagi, ok mikinn innlendan, ok at lítid var at gjört sídan. Kansellíit vildi, at Nýja-testamentis útleggíng skyldi lagast eptir hinni dönsku, en menn hugdu at peníngar mundu vera eyddir; hafdi landfógeti skotid til biskups, en kvitteríngar fundust í búi biskups fyrir miklu, er hann hafdi fengit landfógeta; hann aptr kannadist ei vid at hafa í hendi meir en 200 dali; gat Möller þess í brèfi nokkru, er vída kom fyrir, at honum þótti illa til takast, er svo skyldi reida á Íslandi, en ritníngarfèlög hófust þá ok blómgudust á hverju landi. Ok er þetta kom fyrir sydra, var sem sumir vöknudu af draumi, er sagt Ísleifr etazrád á Brekku hafi lagt þat til, at rádast skyldi í at gefa út Nýja-testament, eptir þeim útleggíngum er ymsir höfdu gjört: Geirr biskup Vídalín, Árni stiptprófastr, Steingrímr prófastr Jónsson ok Ísleifr, ok drepa eigi slíku nidr med öllu; var tekid at prenta þat í Videy. En um peníngana ætludu menn, at landfógeti mundi þraungstaddr ok hafa reiknínga marga at annast. Þat kom þá í ord nordanlands, at óska biskups ok prentverks ok skóla, ok einnig kom þat fyrir konúnginn, helzt um prentverkit; skutu því inn útlendir menn, ok var þat tekit til yfirvegunar; var mjök snúinn margra hugr. Collegia idrudust ok þess, er seldar voru stólsjardir ok adrar, ok mörgum þótti eptirsjá í því mörgu, er ádr var. Grímr Jónsson amtmadr lèt ok svo, er hann kom til Hóla um sumarit, sem þar hefdi illa verit med farit. Þá hèlt Jón prestr í Mödrufelli alltjafnt fram smáritum hinum evangelisku, sem þá var á mörgum löndum títt, ok lèt prenta utanlands; tóku nokkrir þeim vel, er gott var verdit, en margir sinntu lítt, sem jafnan er, ok

nokkrir lögdu all-misjafnt til, er þó þóttust vitrir. Hann hafdi brèfagjördir vid Henderson ok marga merkilega menn utanlands, ok nokkut at hans forlagi voru prentadir fædíngar-sálmar Gunnlaugs prests Snorrasonar í Kaupmannahöfn; þat þótti Magnúsi Stephensen konferenzrádi frumhlaup í rètt prentverksins í Videy, ok kærdi hann um þat í kansellíi ok vildi láta sekta, en kansellíit vísadi því til lands laga.

## CXL. Kap. Frá Íslendíngum utanlands.

Margir voru þá Íslendíngar utanlands, þeir er atkvædamenn voru, sumir voru þar innlendir ordnir, eda í Noregi, sem Ólafr lektor Ólafsson, hinn frægasti madr, ok doktor Einar Gudmundarson; Ólafr var gamall, ok þeir bádir. Gísli prestr Jónsson sýslumanns Jakobssonar ok Rósu var á Eystra-Mólandi í Noregi, hann var þá gamall, ok hafdi fengit áfall mikit ok bilazt af, ok svo af iktsýki, er þar lagdist at, svo hann fèkk ei framit embættisverk nema sitjandi, ok hugdi af at láta; hafdi hann verit alvörumadr mikill ok athafnamadr, ok bætt mjök prestakall sitt, voru þar í tvær þúsundir altarisgaungumanna ok níu barnaskólar; bædi var hann vinfastr ok hugkvæmr, ok hinn sköruglegasti at sjá; hann átti börn mörg: Georg Daniel Barth, son hans, var ingenieur-lieutenant í Kristíaníu ok kvæntr, hans synir voru Gísli Kristján ok Jakob Espólín; dætr Gísla prests voru Jóhanna Severina, er átti Elling Hansson skipstjóra ok börn, ok önnur Karen Sibylla. Margir voru íslenzkir menn vel at sèr í Danmörku. Finnr Magnússon, prófessor í Kaupmannahöfn, hinn mesti vísindamadr, hann kom því mjök á, at Íslendíngar ok fornfrædi þeirra vídfrægdust á Þýzkalandi ok annarstadar; Gunnlaugr Oddsson gudfrædismadr skrádi bækr, honum var kostr á at sækja um Odda, ok vildi þat ekki, því hann var af talinn, fèkk hann consistorial-assessors nafnbót; hann átti Þórunni, dóttur Bjarnar prests í Bólstadarhlíd. Úngir menn íslenzkir voru ei allfáir í Danmörku, var einn Ólafr Stephensen auditeur, son Stepháns amtmanns á Hvítárvöllum, vel at sèr ok hafdi sæmilega inntekt, en þó þrádi hann Ísland, en stúdentar margir hafa sumir verit nefndir ok sumir verda enn. Þar var einn madr, er stadfest hafdi rád sitt ok var audugr: Benedikt, son Boga Benediktssonar í Stykkishólmi, en alla þá, er at nokkru voru merkilegir, teljum vèr ei at sinni.

## CXLI. Kap. Annat er vid bar um sumarit.

Þat sumar er frá var sagt lèt Magnús prestr Árnason á Fagranesi af prestskap fyrir elli sakir, þat kall fèkk seinna Jón prestr Reykjalín.

þá komu út stjórnarbréf; var eitt um breytíngu fyrri bréfa um björgunarlaun vid drukknada menn, frá kansellíi; eitt frá kammeri, um sveitatillög höndlunarmanna, en af tókst konúngsgjöf til fátækra í hreppunum, er stadit hafdi sídan konúngshöndlun var; eitt konúngs bréf, er vidkom sáttanefnd; eitt um drátt á skiptum, ok enn annat um hjónabandsefni, lángort; eitt um hospítalshlut af allrahanda afla; mörg voru híngat send, er ei nádu hèr til lands. þá var vígdr Jón Sigurdarson til kapelláns at Otrardal, en Jóhann, son Bjarna Bogasonar, til kapelláns at Helgafelli, því Grímr prestr vildi eigi halda stadinn, ok fór Bjarni fadir hans þángat til hans um sinn. Ulstrup hinn danski sýslumadr fèkk lausn frá Skaptafells sýslu, en Magnús Stephensen, son Stephans amtmanns á Hvítárvöllum, var settr fyrir hann. þá var hèr manntal 50 þúsundir ok nær hundradi betr. Björn prestr Pálsson at Setbergi gjördist prófastr í Snæfells sýslu í stad Gríms prests, er prófastr var ordinn fyrri, en hafdi af látid; lifdu þá þrír, er þar höfdu verit prófastar: Björn prestr þorgrímsson at Setbergi, fadir landfógeta, Gudmundr prestr Jónsson á Stadarstad ok Grímr prestr. Ásgrímr Hellnaprestr Vigfússon hafdi enn verit dæmdr frá prestskap fyrir varmennsku, ok til útláta stórra, eltist eigi deilugirni hans, þó hann tæki at eldast sjálfr, ok fór hann utan at hæstarèttar stefnu ok skipti þá um háttu. Sveinn prestr Pètrsson at Stafafelli í Lóni gjördist prófastr í Austr-Skaptafells sýslu, en Árni prestr Helgason var stiptprófastr ok vígdi presta, var einn þorleifr Jónsson, hann fèkk Árnes, því Gudmundr prestr Bjarnason var dáinn. Steingrímr prófastr Jónsson í Odda var kalladr til biskups, ok fór hann utan, ok med honum þorvardr prestr, son Jóns prests þorvardssonar á Breidabólstad í Vestrhópi, ok ætladi at leita kallsins hvenær sem hans misti vid. Margt kom enn stjórnarbrèfa, ok tók eitt af kauphöndlun á Stapa. Fiskr fásèdr barst at landi vid Kollafjardarnes, þar Einar Jónsson danabrógumadr bjó, hefir hann lýst honum: var um fimm álnir, sívalr ok uppdreginn sem smáhveli, stutt höfud ok lítid ginit, kjálkar ok nedri hluti þess litlir ok nettir; var úr efri trjónunni spíra, þriggja álna laung, greipardigr at ofan en mjókkadi fram, ok var snúin, var hún bleikhvít ok hörd sem tönn. Fiskrinn var hvítr sem porcelín, en skjöldr hrafnsvartr yfir hauskúpunni ok svartir smáblettir aptr eptir, en dropar seinast, bægsli lítid, ok spordr þvertum sem á hvalakyni, eda sem uppmálat hjarta; hann þótti vel ætr. Kona fèll í Hörgá úr södli, en madr barg henni, er syndr var. Skip týndist í Fljótum, ok á nokkrir menn, annat vid Hrísey. Íslenzkir menn dóu þá erlendis: Thómas Klog, er fyrr var hèr landlæknir, Járngerdr Koefod, dóttir Bjarna riddara en kona Koefods, er hèr var sýslu-

madr, ok Jón Brynjúlfsson stúdent, bródir Gísla. Konúngr fór til Jótlands um sumarit, ok fann embættamenn, er fyrir konúngsfè stódu; var þarum illstatt vída í Danmörku, ok setti hann af suma enn áminnti suma. Skip týndist í Kvígindisdal at hákallaveidum, hèt formadr Árni Þóroddsson, en fleirum barst á; ok þá dó Erlendr gamli á Holtastödum, Gudmundarson. Árni stiptprófastr vígdi prest um haustid: Jón Íngjaldsson til Mýraþínga í Dýrafirdi, en Gudmund til Stórólfshvols þínga, Torfa son prófasts í Hruna, Jónssonar prófasts, Finnssonar biskups, ok Hannes til Ögrsþínga vestra, son Arnórs prófasts í Vatnsfirdi, Jónssonar. Pètr prófastr Pètrsson á Vídivöllum gaf upp prestskap á Miklabæ fyrir aldrs sökum, ok sem hann hafdi verit hinn mesti merkismadr, hèlt hann enn höfdíngskap sínum ok gódgjördum.

## CXLII. Kap. Frá málum.

Nú voru mál ýmisleg í hèrudum ok fyrir yfirrètti, en sum komu til hæstarèttar, ok þótti þar stundum lítid gjört úr illverkum, ok þó hann dæmdi at lögum, nádadi laungum konúngr at mörgu, en sumum þótti skarpara gengit at reikníngamálum, ok at sínu leyti helzt þeim, sem minnst voru. Sidir gjördust vída stórillir, helzt med hjónaböund ok ósidu í þeim ok ósamlyndi: gaf þá Grímr amtmadr at konúngs leyfi upp margar hórdómssektir fyrir bæn maka, ok hvergi svo margar sem í Skagafirdi, svo hann undradist hve margir þar voru hórdómsmenn. Eitt stórmæli var dæmt í hæstarètti, um Árna Eyríksson ok Gudnýju systur hans úr Nordr-Múla sýslu, er getid höfdu barn saman, ok Gudný drepit þat; hann var dæmdr í hèradi til at höggvast, en hún til at drekkjast, en í landsyfirrètti var henni einnig dæmt högg, ok setja skyldi höfudit á stjaka fyrir tvöfaldan óverknad, þó stadfesti hæstirèttr hèradsdóminn, ok var getid til at konúngr mundi náda hvorutveggja, ok láta nægja 27 vandarslög þremsinnum. Ásmundr prestr at Hvanneyri í Siglufirdi, Gunnlaugsson, Magnússonar prests, sá er alizt hafdi upp med Páli presti Hjálmarssyni, ok verit sídan kapellán vestra ok hvergi vel þokkadr, átti í málum í sókn sinni, fyrst um fadernis lýsíngu, er á hann var borin, ok hann kannadist ei vid, en vildi þó fá annan mann til at gánga undir, ok var þá sektadr í hèradi ok fyrir yfirrètti, en skaut til hæstarèttar, ok átti þræsur med atferli sínu vid sýslumanninn Gunnlaug Briem kammerrád; sídan um plánkahvarf í Siglufirdi, er hann þótti vidridinn med vinnumanni sínum, þeim er Jón hèt, ok var þeim bádum dæmd hirtíng í hèradi, en illindi fóru þá í milli Níelsar Níelssonar, böndlara á Siglufirdi, ok Ásmundar, sem þó

var títt. Stadfestr var i yfirrètti dómr Jóns Espólíns yfir Nathani ok Helga at mestu, ok Nathan strýktr. En þá gjördi annat mál í Skagafirdi: hèt madr Ívar, húskarl þess bónda í Vallholti, er Pálmi Magnússon hèt; módir þess Pálma var Íngunn Ólafsdóttir frá Frostastödum, systir Ólafs lektors ok þeirra systkina. Íngibjörg hèt kona Pálma, kölllud Bjarnadóttir, en haldin dóttir Sigurdar í Krossanesi; þau Íngibjörg ok Ívar lögdust mjök á hugi, ok var grafin gröf í fjárhúsi, er allir menn eignudu Ívari, því hann gekk þar um, ok ætludu gjörfa til at drepa Pálma í, en er Ívar freistadi at hrinda honum í hana, orkadi hann því ei, því hann var vesalmenni, voru þar engir vid nema þeir tveir, ok medgekk Ívar hvorki at hafa gjört gröfina nè reynt at hrinda honum í; þó var Pálmi votr, er hann kom þadan, ok vatn fannst borit í hana. Amtmadr leysti hald á Ívari, ok var honum því dæmt at eins málskostnadr ok hirtíng nokkur, ok ei hafdir meddómsmenn. er mál var tekit svo lint af honum, en þá skaut amtmadr dóminum til yfirrèttar fyrir þat, ok þótti mörgum hann ærit smásmugull í eptirgángsmunum, svo mjúkr sem hann var í umgengni ok gjörhugull. Hann sætti sjálfr ein hjón fyrir nordan, ok stód þat eigi lengi, at þau væri sátt. Þau misseri fengu menn fyrir vestan ok sunnan verdlaun mikil fyrir kályrkju ok annan dugnad; Klemens Sæmundarson í Innri-Njardvík fyrir mannbjörg; Björn Gottskálksson í Hrappsey fyrir ýmsan dugnad, Jón prófastr Gíslason í Hvammi í Dölum, ok Gudmundr hreppstjóri Jónsson á Þorbergsstödum. Miklabæjar kall í Skagafirdi fèkk Jón prestr Jónsson, kapellán Pètrs prófasts, hann var fóstrson Jónasar Skevíngs kansellíráds, ok þág margt af honum, en Otrardals kall Jón Sigurdarson kapellán. Fransóssýki efldist eptir Ísleif Jóhannesson á ofanverdu ári í Húnavatns þíngi, ok var Ari Arason á Flugumýri, er fyrr var læknir, sendr þángat af amtmanni, ok falit á hönd at lækna hana; hreifdi hún sèr einnig nálægt Akreyri, ok var Hoffmann at fást vid at græda hana þar, var þar lítid bragd at, ok gekk honum seint, en Ara gekk vel med marga.

## CXLIII. Kap. Árferdi.

Þá rak fjölda marsvína vid Hardakamb á Snæfellsnesi, en eptir þat fèkk Bjarni amtmadr Thorsteinsson sèr tilefni vid Stephán Skevíng um hvalreka, þá er þar höfdu ordit vestra, hafdi sá reki ordit þá fyrir 8 árum, er eigi þótti hafa gjör verit grein á. Hvalkálf rak á Stadar reknm, en annan stærri í Bjarneyjum. Var kuldasamt ok snjóamikit
1825. ok jardbönn öndverdan vetr, ok gjördi áhlaupabyli mikla eptir þrettánda, en jörd kom upp, ok urdu skriduföll ok flód mikil. Giktlofa sýki

komst á land úr Vestmannaeyjum. Voru umhleypíngar miklir á þorra ok bylir, ok var þúngr allr vetr öndverdr austnordr um, urdu menn nokkrir úti í þíngeyjar þíngi, en 8 í Húnavatns þíngi ok fjárskadar miklir. Fiskr var mikill fyrir sydra ok eystra, en litlar gæftir, var ok mikill fiskr fyrir Jökli; á góe voru hlákur ok vedr hörd, ok gjördu skada sumstadar, svo var ok öndverdan einmánud; spurdist ok seinna, at þenna vetr öndverdan, ok svo sídan, höfdu verit svo mikil vedr ok flód í útlöndum, ok gjört svo mikit tjón, sem enginn vissi dæmi; braut þá af rifit milli Limafjardar ok Vestrhafs, ok gjördi ey úr Vendilsýslu. Kályrkja hafdi verit allmikil í Dala sýslu sumarit fyrir. Fátt eitt verdr sagt af löggjöfum ok málum, þó ærit margt væri til af slíku; var margt atgjördalítid, en aukast þótti embættamönnum enn dagvöxtum vandi ok smámunasemi, ok allt verda ófært med afgjöld, er peníngar voru ríkt heimtir, en engir fengust í landit, nema litlir, med framfærslu fyrir beztu vöru, enda hvert vidvik svo margbrotid, at varla mátti kljúfa, ok bar mest á því fyrir nordan land.

## CXLIV. Kap. Frá ritníngarfèlagi.

Þá baud ritníngarfèlagit til samkomu í Reykjavík, er halda skyldi til at verdleggja fyrra hlut Nýja-testamentis, er út var kominn. Þá vígdi Árni Helgason stiptprófastr Þorstein Jónsson til kapelláns at Klifstad nordr. Jafnframt þessu hafdi Jón prestr Jónsson at Mödrufelli sent brèf Jóhanni Hammerich, stórkaupmanni í Kaupmannahöfn, sem hann vissi at var medstjóri ok fèhirdir ritníngarfèlags þar, at hann fengi honum leyfi til at skipta út þeim ritníngum ok Nýja-testamentum, er lágu fyrir ónotud ok undir skemmdum, hafdi hann fengit þat svar, er honum þótti ei skýlaust umbod, ok leitad annars hjá Holsetalands fèlagi, þat sendi honum Steingrímr biskupsefni frá Kaupmannahöfn, ok var þat einnig haglegt fyrir smárita-fèlagit; ritadi hann þá biskupi brèf, ok bad hann lidsinnis í fyrirætlan sinni, ok sídan spurdist hann fyrir hjá honum, hversu mikit til væri af ritníngum á íslenzka túngu, ok hvar mestr var skortr, ok bad hann senda töflur þar um prófföstum, svo þeir mætti láta presta vita, ok þeir aptr telja ritníngar í sóknum sínum, ok skýra biskupi. Biskup svaradi því aptr, at svo mundi hann gjöra sem til var mælt, en þeim ritníngum, sem þar voru sydra ok prestr vildi útdeildar hafa eptir umbodi sínu, væri Árni stiptprófastr Helgason bezt fallinn at deila, fyrir kunnleiks sakir á mönnum, ok ridi þó ei á at skipt væri fyr, en brèf sín væri gengin ok hefdi sýnt verkun sína; ok beid prestr þá at sýsla meira um þat fyrst.

## CXLV. Kap. Vígdr Steingrímr biskup, ok frá ödru.

Ein löggjöf kom þá út, er af tók búslódar tjón ok þvílíkt, ok enn, at eigi skyldi lesa sídan veraldlegar tilskipanir af prèdikunarstólum. Dulsmál hafdi verit í hèradi í Bardastrandar sýslu, ok barnsmord, hètu þau Ragnheidr Pálsdóttir ok Árni Jónsson, er fyrir voru höfd, ok þau dæmd frá lífi, en landsyfirrèttr hafdi gjört ómerkan dóminn fyrir rannsóknarskort er honum þótti, vísat máli heim, ok sektad Gudbrand sýslumann um drátt, var þat svo enn prófat ok dæmt, ok hafdi samþykkt verit af yfirrètti er hèr var komit, en hæstirèttr dæmt at eins Árna kastalaþrælkun um 5 ár, ok Ragnheidi tukthús æfilángt. Ívars máli úr Skagafirdi var ok vísat heim, er meddómsmenn þótti skorta, hafdi sýslumadr ei viljat hafa þá, er amtmadr hafdi tekit af heptíngu Ívars í hèradi, því hún var þá ærit lögleg, er um frelsi eda líf var at gjöra; hafdi Ívar stolit fè sínu úr geymslu medan á appelli stód, ok ordit berr at barngetnadi med Íngibjörgu, ok var nú hertr hèradsdómr, en hann skaut til yfirrèttar. — Steingrímr prófastr Jónsson hafdi verit vígdr til biskups á annan dag jóla, ok fèkk hann veg mikinn af Kristjáni konúngsfrænda, er næstr stód ríki, ok mörgum ödrum, þótti hann ok mörgum bezt fallinn til biskups út hèr; hann kom út í Hafnarfirdi hinn 20ta dag Maji, en á fyrsta dag hvítasunnu átti at vera embættisgjörd hátídleg í Reykjavíkr dómkirkju, er Árni stiptprófastr Helgason framdi, þar var biskup vid, ok flykktist þángat margt fólk, ok tradst mjök á framlopt kirkjunnar; en um midja prèdikun tók at braka mjök í bita undir loptinu, ok brast nokkut, var landfógetinn uppi, ok bad menn lètta á, ok hlupu margir ofan ok fylltu dyrnar; en þeir sem nidri voru bidu þá eigi, ok ætludu bitinn mundi brotna, ok loptin hrapa á sik, ok ruddust um fast med hljódum miklum, ok trad hverr annan undir, fleygdu drengjum ok lèttíngum á gluggana ok brutu þá, ok trádu sèr út um þá hverr sem mátti; rifnudu þá silkikjólar kaupmannafrúa ok annara, ok skárust sumir til blóds á glerbrotum á höndum ok andliti, þar til er allt var út komit, ok nálega enginn gluggi heill á allri kirkjunni, en ekki vard limatjón. Stiptprófastr hætti þá at kenna med öllu ok fór á brott, en þareptir biskup. Magnús Bergmann tók dreng sinn úr glugga ok setti hjá sèr, ok sat einn eptir seinast, en ei vard meira af embættisgjörd. Konúngr hafdi keypt af Steingrími biskupi Laugarnes, ok gaf honum þó ásamt tólf þúsundir dala til stofugjördar hans, er þar skyldi setja, ok komu út smidir, skyldi þar jafnan vera biskups sæti. Þá kom út frá fornfrædafèlags nefnd í Kaupmanna-

höfn fyrri hluti sögu Ólafs konúngs Tryggvasonar; þat fèlag gaf sídan út sögur margar, ok fleiri en Íslendíngar flestir hirdu at kaupa.

## CXLVI. Kap. Árferdi.

Þann tíma var þraung mikil af öreigum ok ödru giptu fólki ok barnakomu, ok einna mest eptir tiltölu í hórdómum; tóku margir upp ný býli, sumir lögbýli forn, en sumir í holtum ok annarra landi, þar nálega aldrei hafdi byggt verit. Hafísar voru fyrir nordan, ok vorit afar kalt ok þurt eptir hvítasunnu, en aflaleysi fyrir sunnan sakir ógæfta. Umhverfis Jökul var fiskr mikill, ok var þadan sóktr úr öllum áttum, ok jafnvel sunnan af Akranesi, er ei hafdi heyrzt ádr, ok fèkkst fyrir hvat eina fyrst, ok neyttu þess margir ok höfdu mikit lid af, þeir er nærri voru; en svo var mikil atsóknin, at mjök var uppgengit er menn komu þángat úr Skagafirdi ok Eyjafirdi, ok var þá fulldýrt ordit. Þat vor flutti Bjarni Þorsteinsson amtmadr sik at sunnan, þar hann hafdi verit sídan hann var settr fyrir stiptamtmannsdæmi, ok vestr á Stapa. Steingrímr biskup vígdi fyrst Hannes Stephensen, son Stepháns amtmanns á Hvítárvöllum, til Saurbæjar á Hvalfjardarströnd; hann fèkk þá Þórunnar, dóttur Magnúsar Stephensens konferenzráds, var bod inni í Videy ok bodit til öllum yfirmönnum sydra, nema Bjarna assessor, því þar var þá fátt í milli; biskup var ei þar, hann var farinn austr í Odda; var þar settr inní prestskap Helgi Thordersen, er fyrr var í Saurbæ. Veizlan var hin ágætasta, ok bædi leikit, dansat ok súngit, ok allskonar voru þar dýrir drykkir, þeir er fást á Nordrlöndum. Biskup var at láta byggja stofu sína, ok gekk lítt, var optar en um sinn grafit fyrir grundvelli ok kom upp vatn, ok vard at skipta um, ok at því loknu voru eigi vidir rètt mátadir; komst hún med fylgi á hálfa leid um sumarit, ok var þá lokit öllum peníngunum, en biskupi vard ángr af; ætludu menn hann mundi verda at leita at nýjum styrk af konúngi, en þat var honum óskapfelt, þótti ei örvænt at midr kynni virt verda. Grasvöxtr vard í medallagi, en eptir kuldana gjördi um vorit hita mikinn nær hálfum mánadi, svo 22 tröppur voru í skugga (Réaumur), ok þó þar sem nordan svali nádi til, en meir en þridjúngi heitara í sólu vid logn, kólnadi þó brátt aptr, en jafnan voru hitar ödruhverju allt sumarit. En af þeim hita ok snöggum umskiptum gjördi kvefsótt mikla í midjum heyönnum, ok gekk hún yfir hvervetna, sýktist allr fjöldi manna en margir lágu, dó ok ei allfátt, 50 eda 60 í sýslu á þridjúngi árs, ok var þó flest gamalmenni, sumt börn, fátt midaldra. Árlángt dóu þá í Skagafirdi alls meir en 140. Þessir dóu nafnkenndir:

Benedikt Gröndal assessor eptir lánga kröm, Benedikt prestr Árnason at Hjardarholti í Dölum, er prófastr hafdi verit ok opt getr, Björn prestr Jónsson í Bólstadarhlíd, Árni prestr at Hofi á Skagaströnd, Illhuga son prests, Halldórssonar, Hallgrímr prestr Jónsson í Gördum á Akranesi, Markús stiptprófastr Magnússon í Gördum á Álptanesi. Leit þúnglega út, er menn voru flestir sjúkir medan heyskaprinn var mestr, en þó vard hann sæmilegr, því at nýtíngin var hin bezta, ok gódvidrasamt lengi um haustid.

## CXLVII. Kap. Frá Vigfúsi kansellí-sekretera.

Þat er sumra manna sögn ok eigi ómerkra, at Vigfús Thorarensen kansellisti, er þá var sekreteri, ok lifdi á tillagi sínu er hèr var komit, væri jafnan frá æsku þúnglyndr ok kaldlyndr þó hann væri vel stilltr, ok hefdi viljat fara utan aptr, er hann hafdi heimsókt födur sinn, en fengit ei af honum svo mikit fè sem hann vildi, hafi hann hugat á rádahag stóran; hafi honum mest brugdit til fásinnu er fadir hans vildi ráda honum far, ok mest viljat sídan gjöra honum mein. Þorvaldr hèt madr, kalladr Skógalín, er verit hafdi á Mödruvöllum samtídis honum, ok þá af æskuskeidi, hafdi hann ófyrirsynju gjört bankósedil, er hann var úngr, ok farit utan til þrælkunar, þó hann fengi líf, en þat var á dögum Jóns Jakobssonar sýslumanns, fengit sídan frelsi aptr ok búit lengi í Kaupmannahöfn, en farit seinast út híngat; hann var stygglyndr nokkut ok hardordr, vid þá er honum líkadi eigi vid, ok svo til Vigfúsar sekretera þá hann var med fásinnunni, ok lagdist ómjúkt á med þeim. En eptir þat er frú Ragnheidr Vigfúsdóttir settist á Akreyri, var Vigfús þar med henni. Þorvaldr hafdi þá heimili á Naustum med systursyni sínum, er ok hèt Þorvaldr. Vigfús sekreteri var í engri gæzlu, því hann sýndi þá engan voda af sèr, en einn dag gekk hann heiman, ok vard mönnum fyrir at ugga um hann, ok veita honum eptirför, hafdi hann gengit sudr á brekkur; hann lèt eigi þurfa at sjá um slíkt med sèr, ok hvarf þó aptr med þeim mönnum; en litlu sídar hljóp hann frá þeim, ok fylgdi honum annattveggja einn eda kom til hans, ok gengu þeir bádir saman nokkut; Vigfús bad hann gánga med sèr lengra, ok vard þeim þá gengit heim at Naustum; bóndi kom út ok baud honum til stofu, ok þat þág hann ok gekk inn. Vigfús var heldr lítill vexti, sem brædr hans, ok þó í hvatlegra lagi. Þá gekk bóndi nokkut frá, ok vildi sækja eitthvat til at bera honum, en ádr hann gengi á brott ok Vigfús væri kominn í stofuna leit hann í gaungin, ok spurdi hvat þat mundi er hann þóttist sjá í þeim; bóndi

kvad þat verit mundi hafa módurbródur sinn. En sem Vigfús sekreteri var kominn inn á stofugólfit einn saman, gekk Þorvaldr Skógalín í stofuna; Vigfús lagdi til hans med knífi laungum í brjóstid, ok svo óleitulega at bladit fól, en stíngrinn gekk í gegnum hjartad, fèll Þorvaldr daudr; stód hann þar yfir honum med knífinn, er bóndi kom at, en ei blæddi, ok vard ei vart hvat olli at hann var dáinn, fyr en hann var afklæddr; Vigfús gekk út á medan, ok hljóp ofan til Vadla, ok tók at afklædast ok ætladi at vada, var þá komit at honum, ok brauzt hann um fast ádr hann vard bundinn, var hann fluttr í kaupstadinn ok bundinn á bedda; var þíng sett til prófs, ok sagdi hann um þat, at sik gilti at einu hvat dæmt yrdi; hvorki gjördi hann at játa nè neita víginu, en jafnan, er sýslumadrinn Gunnlaugr Briem kammerrád gekk um, laut hann honum á bednum; rèdu menn fátt af ordum hans, nema hann mælti þat sumt vid kunnuga menn, er til örvæntíngar horfdi, ok heyra lèt hann af sèr at nokkut ætti hann ógjört eptir, vid einn mann eda tvo þar í kaupstadnum; var dæmt at eigi hefdi madrinn verit í viti, ok urdu manngjöld; var hann fluttr utan á vanvitrínga hús, ok settr þar í gæzlu sídan; en frú Ragnheidr, módir hans, sýndi enn á sèr stadfestu sína, ok barst betr af enn líkindi þóttu, en átti þó fleira andstætt í þann tíma.

## CXLVIII. Kap. Annat er vid bar.

Þat sumar drukknadi í Hèradsvötnum, er köllud eru, í Skagafirdi, Gottskálk Blander, er þar hafdi verit hreppstjóri gjörr, bródir at faderni Þorvalds prests Gottskálkssonar, er fyrrum var at Miklabæ; hann reid drukkinn úr veizlu. Kom þá dómr Ívars úr landsyfirrètti um þrenn 27 vandarslög, ok var hann hýddr. Ari á Flugumýri hafdi þá læknat fransós-sýkina í Húnavatns þíngi, ok var honum launat vel. Vard sá tilburdr á Höfdaströnd um haustid, at hjón í Svínavallakoti ok dreugr dóu öll á einum dægrum, en hjú þeirra tvö sýktust mjök, þau höfdu etid slátr nýlega ok reidt þat til í Hofsós; var þetta tilkynnt amtmanni, en hann sendi Hoffmann lækni vestr at skoda líkin, er þau væri grafin upp, skyldi Ari ok Jón Espólín fara med honum; voru líkin blá ok gulflekkótt, sem af eitri, ok eitt krufit, ok tekit úr idrum þess ok látid í brúsa ok sent sudr, var þat eigi þar skodat, ok fèll svo nidr, en enginn þóttist vita hverr valda mætti, ef af mannavöldum væri. Jón Espólín fèkk lausn frá sýslu í Skagafirdi, hafdi mjök lengi verit iktsjúkr ok svo kona hans, enda var þat títt; hann vard þó vid til þess er annarr kæmi, er veitíngu hefdi. Þá dóu enn, auk þeirra er ádr eru

taldir, Jón prestr Högnason í Vestmannaeyjum, Stephán prestr Lárusson Skevíng í Presthólum, bródir Hannesar prófasts á Grenjadarstad, ok Brynjólfr prófastr Gíslason í Heydölum, fadír doktors Gísla ok þeirra brædra, ok er mjök margir menn voru dánir hvervetna, lètti sóttinni af.

## CXLIX. Kap. Brenna á Mödruvöllum ok fleira.

1826. Þat bar til um nóttina milli hins 6ta ok 7da dags Februarii vetrinn eptir, at brann amtshúsit allt á Mödruvöllum, ok vissi enginn víst hvat olli, en amtmadr, frú hans ok börn komust út fáklædd, sakadi ok mann engan, en fáu vard bjargat, ok brann mikit af amtsskjölum, er amtmadr heimti sídan af sýslumönnum, ok miklu meira af hans fjárblut; gengu þá bodsbrèf vída um at bæta honum skadann, en hvergi mæltist hann til sjálfr, ok gafst honum ærit í peníngum um allar sýslur nordr ok austr, nær tveim hundrudum dala úr Skagafirdi, en miklu meira úr Húnavatns þíngi og Vadla þíngi ok sumstadar annarstadar. Frú Ragnheidr gaf nokkut, ok ætludu menn þó hún mundi hafa þókzt kenna nokkra þraung af komu hans, ok meir urdu en 1000 dalir þar í hèradi; var þó eigi vandhæfislaust med öllu, því engar gjafir þág hann af einstökum mönnum berlega, svo at sumum þótti illa virt fyrir sèr, — ok má vera slíkir hafi gjört sik of bera, — ok ei nema af heilum sveitum, sýslum eda hèrudum; skaut Baldvin, handritari hans, son Einars Gudmundarsonar á Hraunum, helzt at sýslumönnum at senda bodsbrèfin, en sjálfr lèzt amtmadr einkis beidast, þótti sumum sídan hann lèti þat lítt ásannast, en lof gott lagdi hann á gódvilja manna vid sik í prentudum tídindum, þó var enginn nefndr til. Þúngr þótti Gunnlaugi Briem hann vera sèr, ok fèll lítt á med þeim, ok fast þótti flestum lènamönnum gengit eptir reikníngum ok afgjöldum, fengust þó ei peníngar af kaupmönnum, nema fáir ok med upphækkun, ok mörgum fannst sèr vant gjört um hvat eina; lèt Jakob Havstein, kaupmadr í Hofsós, af umsjá Reynistadar-klaustrs, er hann hafdi haldit um hríd, en Jón Kjernested, son Þorláks danabrógumanns í Skridu, hafdi tekit Mödruvallaklaustr á þann hátt sem þau fengust þá, eda á reikníng, hit fyrra árit, ok hafdi nú ei þá varúd sem þurfti. Múnkaþverár klaustr hèldu þeir Fnjóskadals-brædr, er kalladir voru, Björn í Lundi ok Kristján á Illhugastödum, danabrógumenn, Jónssynir. Mál voru í ýmsum stödum, stuldir í Skagafirdi, Bjarna Jónssonar, er fyrr var tvídæmdr, ok Gudmundar Dagssonar, Hákonarsonar þjófs gamla, vildi Bjarni ei medgánga, ok vídar voru slík, ok mest í Húnavatns sýslu;

þar voru ok mörg mál önnur, ok verdr nokkut af at segja sumum, en eigi verdr hèr talin öll sú lævísi ok flokkadráttr illra manna, er þar fór fram. — Pètr Skúlason, skagfirzkr madr at uppruna, hafdi farit vestr, ok þótti Skagfirdíngum vel er hann fór frá þeim, var hann kvennamadr mikill, ok synjadi þó laungum fyrir fadernislýsíngar, ok lítt sidvandr, hann nádi Gili í Svartárdal af Eyjólfi, syni Jónasar Jónssonar, er þar var ádr, ok fór Eyjólfr at Fjósum; Eyjólfr var hardlyndr madr, ok kalladr nokkut vidsjáll, sem hann átti kyn til, ok var mælt hann ok fylgismenn hans freistudu stundum at leika á Pètr; þat var eitt sinn, at kú Pètrs vard meint, svo at menn ætludu drepast mundi, en bónda einn bar at ok bad sá freista at fara ofan í háls henni, ok þat gjördi hann ok sókti þángat spítu, er stód þversum í kok henni; þat bar ok til þenna vetr, at fè margt fannst drepit, er Pètr átti, stúngit sumt, en hálsbrotid sumt, ok vard ei þá uppvíst at sinni hverir gjört hefdi. Þenna vetr ofanverdan, ok um vorit ok sumarit, urdu mannalát, gekk sótt mikil ok magahósti, ok dóu mjök margir menn í hverju hèradi, en nálega var enginn ósjúkr. Þessir öndudust af hinum nafnkenndari mönnum: Hannes prófastr Skevíng á Grenjadarstad, fadir doktors Hallgríms Skevíngs, Katrín á Vídimýri, Jónsdóttir biskups, Teitssonar, er átt hafdi Benedikt Halldórsson Vídalín, ok Stephán son hennar, frú Ragnheidr Ólafsdóttir stiptamtmanns, er átti Jónas Skevíng, hún var vel þokkud; Björg Halldórsdóttir Vídalíns, kona Sigurdar prests á Hálsi nordr, Árnasonar; Gísli prestr Víum á Stad í Kinn; Sigurdr bóndi Sigurdarson á Fjardarhorni. Sex menn týndust af skipi á Eyjafirdi, ok 8 í Fljótum, drukknadi ok Sæmundr prestr at Útskálum sudr, med fimm mönnum. Þann tíma hófst ok barnadaudinn mikli; var kalt vorit, ok eigi gott sumarit.

## CL. Kap. Biskup ok amtmadr fara um Skagafjörd.

Lauritz Thorarensen, son Stepháns amtmanns Þórarinsssonar, konferenzráds, hafdi komit út á Akreyri um sumarit, ok fengit Skagafjardar sýslu, er Jón Espólín var leystr frá, dvaldist hann med módur sinni þar til er amtmadr færi vestr, því at hann ætladi at taka út sýsluna ok visitera þar ásamt; þat hafdi hvorugt gjört verit fyrri í Nordrlandi; reid hann med sýslumanni til Frostastada, en skodadi ádr hreppabækr ok annat í Akra hrepp, þá hèlt hann fund í Brimnesi ok skodadi hreppabækr, þadan fór hann til Hofsóss, ok kom þar Jón Espólín ok afhendi sýsluna, en amtmadr hafdi samkomu á Hofi, sídan í Fljótum, þadan fór hann yfir Vötn, ok út til Skídastada, ok skodadi Reynistad

í þeirri för, hann var mjök ljúflátr í öllu viðmóti, ok gekk hóflega eptir medan hann átti vid menn; en bótum, er Jón Espólín hafdi dæmt tveimr mönnum, er börn gátu vid systrum kvenna sinna, vildi hann ei láta fylgja fram at sinni, ok kvadst bera mundi þau mál fyrir kansellíit. Steingrímr biskup Jónsson bjóst at visitera, ok hvergi þá nema í Skagafirdi; ætladi hann at hitta þar amtmann, ok hafdi ei biskupsvisitazía verit þar medan Geirr Vídalín var biskup; þeir voru á för seint í Julio, ok Augusto öndverdum, voru þá vedr ill ok regnasöm um sumarit. Þeir hittust á Hólum, ok mæltust vid, ok urdu ei ásáttir um allt. Biskup spurdi úngmenni vandlega ok hógværlega, ok fór at öllu skipulega hans yfirreid, en kostnadr var goldinn af almenníngi sídan; hann var ern, á svo rosknum aldri, reidmadr gódr ok vanr ferdum, ok hófsmadr mikill. Eptir þat reid hann sudr, en amtmadr nordr til Akreyrar, því hann hèlt sik þar þá, ok fór utan um sumarit, ok bar þar fram mál sitt um amtsstofu nýja ok margt annat, ok fèkk lítt áheyrslu um sumt—kenndi hann þat hirduleysi Möstíngs, er ædstr var í kammeri ok fèhirdir—nema vid konúng um stofuna; hann vildi fá embætti þar ytra, en konúngr þóttist ei vidlátinn um þat. Barngetnadarmálin úr Skagafirdi vildi hann at kansellíit ónýtti, ok þó sektalaust vid alla, en þat bad hann skjóta þeim til yfirrèttar.

## CLI. Kap. Frá málum.

Þá kom út greinileg tafla yfir ritníngar ok Nýja-testament á Íslandi, eptir skýrslum prófasta ok presta, er biskup hafdi heimtar. Þá urdu mál í Árness þíngi; fór Sigurdr, son Gottsvins bónda Jónssonar, er í málin komst þá fyrir 13 árum, ok nokkrir menn adrir med honum, til eins bónda, er haldinn var audugr af silfrpeníngum, en sjálfs-vesælíngr mikill, ok bundu þar heimafólk, ok ræntu, en er þeir voru á brottu losnadi einhverr af heimafólki ok komst þat svo fyrir, medkenndi þá einn, er í för var, en Sigurdr þrætti mjök lengi fyrir ok vard seint veiddr, þó urdu þeir allir berir um sídir, ok kom þá upp, at einn af þeim eda fleiri höfdu gengit margt ár í kaupstadarhús á Eyrarbakka ok stolit þar; fleiri illvirki sönnudust á þá, ok helzt Sigurd, ok svo á Gottsvin, födur hans. Kristín, módir Sigurdar, hafdi mjök verit eggjandi til hins verra, ok var lengi ádr Sigurdr þættist uppnæmr; var þat í almennilegri sögn, at hann hefdi sagt módur sína hafa gefit sik satan til sigrs í málum, ok því mundi sèr óhætt, en hvort þat er satt eda ei þá sýnir þat ætlan manna um hardýdgi hans; voru þeir fyrst dæmdir í hèradi: Sigurdr í þrælkun æfilánga, en fèlagar hans um nokkur ár,

en sumir til refsíngar; dæmd var ok Gottsvin refsíng, en sídan gekk málit í yfirrètt. Þá kom ok upp fjárdrápsmálit í Húnavatns þíngi, höfdu strákar frá Botnastödum, Jón, sonr Helgu er þar bjó, ok Pètr, farit at fè Pèturs Skúlasonar ok ætlad at drepa í Blöndu, en fengu ei rekit þat í ána, stúngu þeir þat þá, ok hálsbrutu, þar til er Pètr kvadst ei meira mundi at gjöra; stelpa ein hafdi leitazt vid at fara til fjárdrápsins med þeim, ok komst ekki fyrst, er þeir freistudu. Pètr lèt þat uppi, svo at augljóst vard, ok medkenndi sídan allt, kvad Eyjólf Jónasson á Fjósum hafa feugit þá til þess, en Jón þrætti lengi, þó sannadist á hann at lyktum; Eyjólfr vildi aldrei vid gánga, at hann hefdi verit í rádi, ok var honum þó þraungt med vökum; þeir Jón voru sídan dæmdir í hèradi til þrælkunar æfilángt, ok þadan gekk málit í yfirrètt. Þann tíd hófst ok ákæra vid Magnús Stephensen konferenzrád af prentverki því, er hann hafdi undir höndum, ok medferd á því allri, ritadi Vigfús Erichsen stúdent, bródurson Jóns konferenzráds einn, bækling nokkurn ok lèt prenta, um þat efni, ok sendi sídan á hverja höfn til sölu, urdu þaraf kærur milli þeirra Magnúsar konferenzráds; vid hann deildi ok sá madr danskr, er Hald hèt. Þá gjördi vetr þúngan, er á leid, ok þó vorit verra, ok allt sumarit eptir 1827.
voru laungum stormar, fjúk eda kuldar, ok fall allmikit á kvikfè, nema lítinn kafla gjördi gódan í Julio; sídan urdu miklir kuldar ok rigníngar en stundum vedr eda frost ok snjóar, ok mundu menn varla verra sumar, þar til haustadi. Þau misseri öll gekk barnaveiki mikil, med bólgu í hálsi ok brjósti, ok dóu svo mörg um allt land, at menn vissu varla dæmi. Þá gekk ok drepsótt á hundum, ok vard svo mikil ekla á þeim, at sumir keyptu þá dýrum dómum, voru þrjár ær mest gefnar fyrir, ok sýndist í því mikil eigingirni margra.

## CLII. Kap. Mannalát ok annat.

Þetta sumar visiteradi Steingrímr biskup Borgarfjörd ok Dali. Þá hafdi andazt um vetrinn Þorsteinn bóndi í Húsey, son Jóns prests í Goddölum Sveinssonar; hans dóttur, Halldóru, átti Jón prestr Jónsson á Miklabæ, en Steinunnar hafdi fengit Jón prófastr Konrádsson at Mælifelli; Margrèt hèt hin þridja, hana átti Björn, son Þorláks í Skridu danabrógumanns, ok dó hún; margt fólk andadist annat: Hjalti prófastr Jónsson prófasts Sveinssonar á Stad í Steingrímsfirdi, merkilegr madr, hafdi dáit á gói; Þorbjörn gullsmidr Ólafsson á Lundum; Sigurdr Pètrsson sýslumadr, er fyrrum var, dó í Reykjavík, ok fljótara en menn vardi, ok átti þá gamantal vid Jón Vídalín stýrimann, hinn gamla, fornkunníngja sinn, bródur

Geirs biskups. Árni Jónsson Reynistadarmágr, er fyrr var landfógeti fyrir Jörgensen, dó einnig, ok Snæbjörn prestr í Vestmannaeyjum, úngr madr, son Bjarnar prests Benediktssonar í Hitardal. Gísli prestr Brynjúlfsson doktor, er hèlt Hólma í Reydarfirdi, ok átti Gudrúnu, dóttur konferenzráds Stepháns amtmanns Þórarinssonar; hann var vinsæll madr ok efni í hinn lærdasta mann; hann lèt reisa timbrhús mikit á Hólmum; þá bar svo vid eitt sinn, at hann fór at vitja báts, er út hafdi tekit, ok lagdi til sunds, en kuldi var mikill, sem laungum þat sumar, ok dapradist honum sundit ok drukknadi. Hann hafdi ritad um uppruna rúna. Gudrún ekkja hans fór til Melsteds sýslumanns ok systur sinnar, ok var hún þar litla hríd. Um haustid deydi Hjörleifr prestr á Hjaltastad, ok Gudmundr prestr Þorsteinsson á Helgastödum, bródir Ebenezers sýslumanns. Þá vígdust sumir til presta, er lítt þóttu til færir. Í þann tíma var safnat fè til uppgefinna sjómanna, ok gáfu margir til á Sudrlandi, gekk fyrir því út hèr Jón Vídalín, stýrimadr. Í December mánudi andadist Sigrídr Stephánsdóttir amtmanns Stephensens, ok hafdi haft ord gott, hafdi hún verit gipt Ólafi Stephensen, syni Magnúsar konferenzráds, hann bjó þá í Videy, en fadir hans hafdi mínkat um sik, lèt hann nú aptr af þeim búskap, en konferenzrád tók vid.

## CLIII. Kap. Um hit sama.

Þat haust var gott, ok sídan allr vetrinn, ok hèlzt barnadaudi hinn
1828. mikli; þá vard landskjálfti mikill í Fljótshlíd á Þorraþrælinn, fèllu þar flestir bæir, ok 8 í Landeyjum, týndist þó enginn nema eitt barn; ól kona þat á bæjarhladi í háskanum, var ei madrinn vid, en vinnukona var hjá henni, hún lèt þat undir húsvegg; þar dó þat af bjargleysi. Í þat mund dóu prófastar, er fyrr voru vestra: Ólafr Einarsson á Ballará, ok Jón Ormsson í Saudlauksdal, ok svó Hildr, módir Boga. Þá fèllu dómar í yfirrètti í ræníngjamálinu úr Árness þíngi, líkt því sem í hèradi, ok gekk til hæstarèttar; svo vard ok um fjárdrápsmálit í Húnavatns þíngi, ok var enn ei kominn hæstarèttardómr í því. Snjóflód tók um vetrinn Hryggi á Skördum í Skagafirdi, ok eitt barn ok vinnukonu; ok þá andadist Gunnar prestr Hallgrímsson at Laufási, bródir Þorláks í Skridu; var hann gamall; þann stad fèkk sídan Gunnar, sonr hans, kalladr Gunnarsen, er lengi hafdi verit med Geir biskupi Vídalín, ok sídan vid ýmislegt í Reykjavík. Þá gengu í yfirrètti dómar í meinamálum þeim úr Skagafirdi, er köllut voru, ok Jón Espólín hafdi dæmt, ok Lauritz sýslumadr tekit upp at amtmanns bodi ok gjört honum málskostnad, vard sú álvktan yfirrèttar, at Jón Espólín hefdi gjört um

þat allt rètt, en þó var þeim mönnum sleppt frá sektum sem amtmadr hafdi viljat, ok kostnadr málsins lagdr á almenníng; höfdu þó fyrri fèsektir verit stadfestar í slíku máli, er Þórarinn Öefjord hafdi dæmt, ok bádir voru assessorar á því, at slíkr barngetnadr, er um var talat, væri saknæmr.

## CLIV. Kap. Mord í Húnavatnsþíngi.

Þat bar til í Húnavatnsþíngi, at madr var sendr frá Geitaskardi, frá Vorm bónda Bech Símonarsyni, er hreppstjóri hafdi verit í Lángadal: Pètr, er stód at fjárdrápinu, var hann þar í nokkurskonar haldi ok beid hæstarèttar dóms, en gekk laus, sem þá gjördist títt um illvirkja; hann skyldi fara vestr á Vatnsnes, var Vorm bóndi mjök kránkr af iktsýki, ok bætti sik ekki med drykk; skyldi leita honum lækníuga til Nathans Ketilssonar, hann var þá tekinn til at búa á Illugastödum, eptir lángt flángr, ok þó hann væri ærit órádvandr þóttu honum heppnast furdulega lækníngar; en er hann var þar kominn, var þar staddr úngr madr innan tvítugt, Fridrik, son Sigurdar Ólafssonar í Kattardal; allt voru illmenni er at honum stódu. Agnes hèt vinnukona Nathans ok fylgikona, en önnur Sigrídr; þeim Fridrik ok Nathan hafdi borit nokkut í milli ádr um kvennamál, ok rèdu þær þat med Fridrik, at drepa Nathan, en hann hugdi til fjár ásamt, sem mörgum var þá títt þar í sýslu; þær eggjudu Fridrik fast, því hann var nokkut deigr fyrst; þeir Nathan ok Pètr sváfu sinn í hvorri rekkju um nóttina, tók Fridrik sleggju ok rotadi Pètr ok sömuleidis Nathan, röknudu þeir vid aptr ok veltust þá úr rúmunum, ok ætladi Nathan illan anda, ok bad hlífdar; þá sókti önnur ljós, ok voru þeir ódaudir, en Fridrik veitti þeim áverka marga, fèkk Nathan sjö stíngi; ok er þeir voru daudir, báru þau öll feiti á líkin, ok brendu, ok er þau komu til bæja, kvádu þau þá hafa inni brunnit, hefdi kviknat í medölum, ok lètust hafa flúit eldinn. Báda hafdi þá Pètr ok Nathan dreymt ferlega um sik ádr; en er til var komit, var brunnin badstofan er þeir voru í, en líkin voru hvergi nærri fullbrunnin, en þó lík Nathans meira, ok af því komst mordit upp, er stíngirnir sáust. Voru þau þá tekin ok prófud; þær Agnes neittu, ok svo gjördi Fridrik fyrst, en sídan medgekk hann ok sagdi þá allt óspurt, laust ok upp óknyttum ýmsum um foreldri sín, ok adra, er nokkut voru vid ridnir; hann var skarpr ok árædinn, en vaninn mjök illa, ok þá 17 vetra; stód hann vid þat er hann hafdi þá bert gjört, ok hèlt lengi á því, at hann hefdi gott verk unnit, drepit tvo hina verstu menn, ok þarmed gefit sik sjálfan í

dauda, er enn væri hit þridja verst mannsefni, ok margt þvílíkt lèt hann heyra á sèr, ok þó hann væri úngr ok lítill vexti, þóttust menn varla vita dæmi slíkrar dirfdar; þó var þat þá títt ordit, at enginn illvirki fyrirvard sik. Hann var geymdr med Birni Ólsen á Þíngeyrum, en stúlkurnar annarstadar, ok vaknadi Agnes er stund leid, ok lèzt vilja lída fyrir brot sitt sem fyrst. Var Fridriki dæmt líflát ok þeim öllum, ok skyldu höfud þeirra setjast á stjaka, refsíng var ok dæmd födur Fridriks ok fleirum, er hann hafdi ljóstad upp um annathvort tilvitund eda hlutdeild í því er afladist med stuldum, en módur hans 5 ára betrunarhúss-erfidi, ok gengu sídan málin til yfirrèttar; eptir þat kom út hæstarèttar dómr um fjárdráps-Jón, ok skyldi hann fara utan í þrælkun um 4 ár. Mörg önnur illvirki í stuldum ok ödru gjördu þá sumir lausíngjar í Húnavatnsþíngi, ok svo sídan, þó ei yrdi heyrinkunnugt eda vottfast, því sumir höfdu gjört lykla at hirzlum, ok lokkudu út at sagt væri til penínga, en sumir sviku penínga af ödrum.

## CLV. Kap. Frá ritníngarfèlagi.

Þetta sumar fullnægdi biskup Jóni presti í Mödrufelli um þat er á brast upplýsíngar um ritníngar ok Nýja-testament, en mátti þó ei ljóslega greina hverjum í hönd verd hafdi gengit þeirra bóka er seldar voru, hafdi þat gengit mjök ýmislega. Því svaradi Jón prestr aptr, ok þakkadi atgjördir hans, ok harmadi, at eydt var fè ritníngarfèlags, af þeim er þat höfdu undir höndum, bækr óbreiddar út, ok verd þeirra er seldar voru komit í ýmsa stadi, svo verr væri hèr med þat fèlag farit, en hvar annarstadar sem menn vissu dæmi, en fagnadi þó þeirri von, er þá sýndist, til nokkurs ávaxtar; gat ok síns tilgángs, ok lagdi þat til, at ef ritníngarfèlag skyldi standast í landi hèr, yrdi at skýra forlög þess híngat til, ok nærverandi ástand, ok svo halda því fram, ok örfa menn til at taka hlut í, sem gjört væri í öllum löndum ödrum, því medan menn skyldu gánga blint at öllu, ok vita ei til hvers kæmi, mundi lítid á orkast. Sídan gjördi hann margar athugasemdir um útdeilíngarnar, ok sendi biskupi. Var þá gefit til kynna ritníngarfèlaginu enska, hversu hèr stódst af, ok hve lítid var í fèhirzlunni, ok kom svar á þann hátt, at ritníngarfèlagit íslenzka var bedit at halda fram útdeilíngu þeirra bóka, er til voru. Þá gaf biskup Jóni presti nýtt umbod at útskipta nokkrum ritníngum, er til voru, ok var tekit at hugsa meira fyrir þessu en gjört hafdi verit um hríd, en fèsjódir fèlagsins voru allir sóadir hjá landfógetanum, nema 200 dalir.

## CLVI. Kap. Embættamanna skipti.

Barnadaudi var jafnan á þessum misserum, en vedr voru gód; andadist ofanverdan vetr frú Steinunn at Hlídarenda, Bjarna dóttir landlæknis, Pálssonar, sú er átt hafdi Vigfús sýslumadr Þórarinsson kansellírád, ok módir Bjarna assessors, merkileg kona; en sídan Helgi gullsmidr Þórdarson á Brandstödum, þvínæst Jón prófastr á Audkúlu, Jónsson biskups Teitssonar, ok margir adrir. Var þá harla vorgott, ok betra ok betra, ok fiskafli gódr sydra, sídan gjördi mikinn afla allstadar vid land. Benedikt, son Vigfúsar prests í Gardi, Bjarnarsonar prófasts á Grenjadarstad, Magnússonar, ok Kristínar Þórdardóttur Árnasonar hins ríka frá Arneidarstödum, hálfbródir Ceciliu á Flugumýri, átti Þorbjörgu, dóttur Jóns prófasts Konrádssonar at Mælifelli, hann var skólagenginn ok audugr, ok keypti Hóla í Hjaltadal af Boga Benediktssyni ok fór þángat, en ádr seldi Bogi ýmsum mönnum stofuna, er Árni biskup Þórarinsson hafdi reista; ok nú, er Jón prestr Jónsson í Stærra-Árskógi, sá er fyrr var í Audbrekku, hafdi fengit Grenjadarstad eptir Hannes prófast Skevíng, en Gísli prestr á Hólum Jónsson biskups Stærra-Árskóg aptr, fèkk Benedikt Hóla kall, reid sudr ok vígdist, voru þá enn vígdir fleiri prestar ok kapellánar. Eyríkr prestr Bjarnason, er lengi hafdi búit embættislaus í Djúpadal, sá er Jörgensen hafdi heitid Mælifelli, fèkk Stadarbakka, en Jón sonr hans vard kapellán til Glaumbæjar. Páll, son Magnúsar Þórarinssonar á Múnkaþverá ok Íngibjargar Hálfdanardóttur, vígdist til Sandfells í Öræfum; fleiri voru prestar vígdir, ok er oss nokkut ókunnugt. Magnús, son Sigurdar prests Jónssonar í Goddölum, þess er fyrr var í Saurbæ í Eyjafirdi, ok Elínar Magnúsdóttur prests í Saurbæ, Jónssonar, var stundum lítt med rádi, þó vígdist hann til Ness nordr, en skipti vid Íngjald prest Jónsson á Hafsteinstödum. Þeir fengu ok prestskap: Bjarni son Eggerts prests á Snæfokstödum, Bjarna sonar landlæknis, ok Jón, son Bergs danabrógumanns úr Skaptafellsþíngi. Eyríkr Sverrisson, sýslumadr í Snæfellsþíngi, fèkk þá Mýra sýslu, því Pètr Ottesen var uppgefinn af meinsemd, er hann fèkk vid fall, þá hann reid frá skiptum eptir Þorbjörn gullsmid, var hann mjök skuldugr, ok gaf Jónas Skevíng at Leirá honum stórmikit til lúkníngar. Stephán Gunnlaugsson, prests at austan frá Hallormstad, Þórdar sonar prests, Högnasonar prófasts, Sigurdarsonar, fèkk Borgarfjardarsýslu, er Jónas Skevíng hafdi af látid, ok kom út. Bjarni oeconomus í Svidholti andadist í Junio, hann var fadir Gudmundar prests ok Þórdar; en seinna um sumarit andadist Magnús prestr Árnason, er baldit hafdi Fagranes, ok var hann gamall. Þann tíma visiteradi

amtmadr Húnavatnsþíng, en biskup reid nordr ok visiteradi Þíngeyjarþíng. Þá var harla gott sumar, ok grasvöxtr sem mestr ok nýtíng, en þó urdu hey lètt; fiskigángr var þá ok mikill ok allskonar fengr, ok höndlun vid líkara lag. Magnús Stephensen konferenzrád vann mál sitt vid Hald, en umbodit var stiptamtmanni ok biskupi at krefja hann skýrslu ok rèttra reikninga um prentverkit, ok fengu þeir ei af honum annat en vafnínga. Prentverkit sagdi hann frá sèr, en kalladi þó flesta ófæra til at hafa forsjá þess sídan, ok var talat um at setja þat nidr vid Raudará, ok átti nú í þófi um hríd. Sigurdr Thorgrímsen landfógeti var þá kominn í skuldir miklar, voru þar í meðalllir ritníngarfèlags peníngar, ríkisbánkapeníngar miklir, ok þrjár þúsundir dala til konúngs fèhirzlu, hann hafdi þó verit skýrr ok glöggr í embætti, hóglátr í kröfum ok vel at fleiru, en sá var skaplöstr hans, at hann mælti jafnan fram vid stiptamtmenn med þurrabúda ok lausíngja lífi; var honum háski búinn fyrir þat, er skorti á konúngsfèhirzluna, en amtmenn, helzt Grímr amtmadr Jónsson, höfdu uppi fjárbón til handa honum, vikust þar margir vel undir, en sumum þótti þat ómaklegt, sumum sýndist ok ósæmilegt fyrir Grím amtmann at beidast þess af amtsbúum sínum, svo stuttu eptir þat þeir gáfu svo mikit sjálfum honum; kom svo, at Sigurdr slapp frá konúngsfèhirzlunni. Hann var svo feitr, at traudt mátti gánga lítid eitt millum húsa í Reykjavík; þá gjördist Ulstrup landfógeti, er verit hafdi vid sýslu í Skaptafellsþíngi, ok sögdu menn at Mösting, er fremstr var í rentukammeri, hefdi dregit hann fram. Margt var þat annat gjört med rádstöfun kammers, er menn skildu eigi: fèkk Abel sýslumadr í Vestmannaeyjum 200 dali í þóknun fyrir verdleika, er fáir vissu hverir vóru, ok 240 dali í launa vidbót, en Ólafr Finsen, er utan hafdi farit, fèkk 100 dala þóknun eina ok enga vidbót launa. Magnús prestr Sigurdarson á Hafsteinstödum ætladi þá at undirbúa mál til hæstarèttar af hendi Magnúsar prests Magnússonar í Glaumbæ, ok Sigurdar prests födur síns, en ádr hann færi sudr reid hann til Goddala; hann reid Svartá nær Sölvanesi um nótt, ok í hyl, er einn var til í ánni, ok týndist þar, ok svo hestrinn.

## CLVII. Kap. Annat er vid bar.

Kvefsótt gekk mikil um sumarit, ok voru fæstir menn ósjúkir, en margir dóu. Týndust skip útlend vid land, enskt skip í Grænlandsísi, ok komust sjö menn í bátinn, ok med naudum í land á 49 dögum, höfdu lifat á litlu, ok var þat allt þrotid; þeir komust upp í Grinda-

vík; en hollenzkt skip annát braut fyrri vid Strandir, ok lèt Thorlacius, er átti Stykkishólms höndlun, flytja skipverja til Englands fyrir 400 spesíur. Enn braut hollenzkt skip vid Djúpalóns-sand, ok var selt. Þá hafdi Bogi Benediktsson látid af höndlun í Stykkishólmi, ok galt út 24 þúsundir dala, en 12 þúsundir voru heimtar enn af honum, er mál vard af; hann fór at búa á Stadarfelli, ok hafdi aud mikinn, ok drakk heldr; vel var hann um sik í margrahanda frædi, ok hafdi bókasafn gott. Þá hafdi Björn prófastr Pálsson prests frá Þíngvöllum, Þorlákssonar, skipti á Setbergi vid Einar prest á Þíngvöllum Sæmundarson, Einarssonar, var fallinn stadrinn ok hann fèlaus, en Björn prófastr Þorgrímsson gamli, fadir landfógeta, lifdi þar þá enn. Kom út sýslumadr til Snæfells sýslu Kristján, son Skúla sýslumanns Magnússonar á Skardi; en Stephán Gunnlaugsson, sýslumadr í Borgarfirdi, hafdi umsjá Kjósar sýslu fyrir Ólaf Finsen, er hann fór utan. Þá var dæmt í yfirrètti mordsmálit úr Húnavatnsþíngi: Fridrik til aftöku, ok höfud hans at setjast á stjaka, en stelpurnar eins, Sigurdr fadir Fridriks til þrennra 27 vandarhagga, en módir hans í betrunarhús um 5 ár, gekk þat svo til hæstarèttar. Ólafr Stephensen, son Stepháns amtmanns, gjördist þá yfirauditeur. Nú var komin upp biskupsstofan í Laugarnesi ok hafdi konúngr kostad hana nær 30 þúsundum dala, en amtmannsstofa, múrhús einnig, var í smídum á Mödruvöllum, ok voru til lagdar 14 þúsundir dala, ok þótti á skorta, en Bjarni amtmadr Þorsteinsson fèkk ei stofu, því at engin var ádr vestra, ok voru honum lánadir at eins þúsund dalir.

## CLVIII. Kap. Mannalát, skadar ok árferdi.

Um haustid andadist Björn prestr Benediktsson í Hítardal ok Solveig Ásgeirsdóttir kona hans, systir Jóns prests í Stapatúni, einnig Sveinn bóndi Hannesson í Snóksdal, födurbródir hans. Týndust 5 menn á sjó í Flatey, en sá er vesælastr var nádist eptir tvo daga á kili; ok seinna týndust 6 menn á Rifsleidum, er farit höfdu úr Stykkishólmi, var þar med Sighvatr, dótturmadr Jóns prests Hjaltalíns, ok Sölvi, sendimadr einn nordlenzkr. Þá brann bær á Höskuldsstödum í Laxárdal, ok vard fáu bjargat, en menn voru á engjum, þótti undarlega at bera. Hinn 1ta Novembris gipti Pètr prófastr Pètrsson á Vídivöllum Elinborgu dóttur sína Sigurdi stúdent Arnórssyni; hann hafdi þar upp alizt. Þá dó Margrèt Árnadóttir, systir Magnúsar prests á Fagranési, er átt hafdi Jón Pètrsson læknir; var þá einkar gott haustid; en á jóladaginn, sumir segja aptaninn fyrir nýjár, vard mord í Vestmannaeyjum af út-

ródrarmönnum tveimr úr Landeyjum, þeir kjálkabrutu einn mann, ok stíngr fannst á honum, vard þat uppvíst. Madr í Rángár þíngi skar ok konu í reidi med knífi, nær höndina af. Bonnesen, er þar var þá sýslumadr, var í þann tíma giptr konu Schrams, er honum hafdi fylgt lengi, hann hafdi ord fyrir framgirni ok at honum væri laus höndin vid menn, en ekki hafdi hann þá mál fyrir at jafnadi. Vetrinn var
1829. svo gódr, at aldrei kom eitt ödru hærra til góu loka, ok varla dóu gröss, var hákalls afli hinn mesti á útsveitum nyrdra, ok róit var þá frá Reynistad, ok allstadar var hit mesta bjargrædi af sjó, hvar sem til spurdist; var enginn svo gamall at myndi svo góda tíd jafnlánga; sumir höfdu fengit á 17da hundrad fiska sydra fyrir vertíd, ok bladafli var vestra, en gedveiki gekk vída yfir, helzt á konum. Grímr Jónsson amtmadr lèt stefna til deydíngar utanlands skuldabrèfum nokkrum Mödrufells hospítals, sakir þess at brunnit höfdu skjöl fyrir þeim skuldum þá amtshúsit brann. Jakob Havstein kaupmadr í Hofsós tók húdvatnssýki mikla, kom til hans læknir Páll Þorbergsson at nordan, er út hafdi komit, ok fengit dóttur Jóns prests Jónssonar á Grenjadarstad, hann var ok systurson hans, gat hann ei at gjört þat er dygdi, ok andadist Havstein í Martio; hann hafdi þótt kaupmadr þúngr, en vel var hann viti borinn ok at sèr um margt annat, hafdi ok kosti. Med imbruviku skipti um, ok var hrídasamt til páska, var þá ís kominn, en páskadagr var þá seinasti sunnudagr í vetri. Sídan fyllti allt med ísi, ok gjördi hríd svo mikla hinn seinasta dag Aprilis ok 1ta Maji, at menn mundu ei slíka á þeim tíma, urdu stórfannir ok hinir mestu fjárskadar vída, týndist 70 fjár í Valdarási í Húnavatns þíngi, ok 100 samtalit frá fleirum bæjum í Vídidalstúngu, svo at dó, eda var daudvona; spilltust þá öll andvirki, ok vard óhagnadr mikill af bleytum, ok fannaleysíngum, en kalt sydra. Margir urdu þá heylausir, þó ólíklegt þætti, því jörd ok hey höfdu verit harla lètt, en hvalkoma var nokkur sumstadar, ok nádust marsvín í ísinum; þó vard enn árgott, nema helzt fyrir nordan, þar batnadi ok med midju sumri, ok urdu nýtíngar gódar.

## CLIX. Kap. Tilburdir um sumarit ok stiptamtmanna skipti.

Grímr Thorkelín var ordinn konferenzrád, ok hafdi andazt um vetrinn; hann hafdi verit geheime-archivarius edr skjalavördr konúngs, fèkk Finnr Magnússon þá sýslu eptir hann ok gjördist danabroguriddari; þeir urdu ok danabroguriddarar Hoppe stiptamtmadr, Steingrímr biskup,

ok Árni Helgason stiptprófastr. Lítt fèll á med þeim Hoppe ok Magnúsi konferenzrádi; fór stiptamtmadr alfarinn utan, ok hafdi fengit amt í Danmörku, en biskup visiteradi Árness sýslu. — Haldit var fram fèlögum utanlands ok söguverkum, ok var fornfrædafèlagit ordit konúnglegt. Þá var algjör amtsstofan at Mödruvöllum, ok hafdi kostad ærit, skyldi heita Fridriksgáfa med stadnum, ok hafdi amtmadr fengit leyfi af konúngi til þess, en sumum skildist ei at svo hèti nema stofan sjálf. Stiptamtmadr sá er verit hafdi fèkk allgódan ordstír, en sá hèt Krieger er út kom med því embætti aptr, ok hugdu menn gott til hans, af afspurn; hafdi hann lagt sik ádr fast nidr vid at nema íslenzka túngu, ok var svo virt, sem gjört væri til þess, at hann fengi því heldr atdugat þörfum landsins, ok svo er ætlanda, en hún var þá í áliti allmiklu; hann var ok haldinn, sídan hann kom út, lagamadr gódr, en mjök tekinn af vorkun þeirri hinni miklu ok hlífni, er þá var tíd vid allar afgjördir. En ádr Hoppe var farinn kom út herskip fyrir sunnan, danskt, ok á mjök margir menn úngir, er farit höfdu til at æfa sik; er sagt at hann hafi viljat banna því fyrst inn, er þat sást álengdar, ok fyrirbodit því lótsmann, ætlad vera óvina skip; hafdi þat fengit lótsmann sjálft, ok tók hann því vel er þat var inn komit, ok margir adrir; þar voru á margir menn er Gunnlaugr Oddsson dómkirkjuprestr kenndi, því hann hafdi mentad þá, ok sögdu sumir þar hefdi verit tveir mjök mikilsháttar menn. Þeir skipverjar beiddust at mega skjóta öllum fallbyssum senn fyrir Reykjavík, ok líkadi þat öllum vel, en vard þó eigi af því, hefir sagt verit at þat olli, at Magnús Stephensen konferenzrád í Videy hafi grunat ædarfuglinn mundi fælast. Enskr barónett kom ok út, stóraudugr mjök, en þóttist þó eigi mega fyrir fèskorti halda sèr uppi í Lundúnum sem honum sómdi þar, ok gaf sik þá í ferdir med styrk fèlags eins, hann reid til Heklu ok Geysis, ok er sagt hann hafi látid velta steinum ofan í hverinn Strokk, ok stífla hann, fór hann ok sjóleid til Jökuls vestr, ok þat ætludu margir, at hann mundi rída nordr til Hóla, en lítt vard meira af ferdum hans, fór hann utan ok gaf gott lof landsfólkinu. Hannes Bjarnason, bródir Eyríks prests á Stadarbakka, var þá vígdr til Rípr, ok hugdu menn Vidvíkr sókn mundi frátekin braudinu ok lögd til Hóla, ok svo vard seinna, ok þótti óvidkvæmt er Rípr prestr var fátækr en Hóla prestr audugr. Þá átti Bogi Benediktsson at Stadarfelli mál vid börn Thorlacius kaupmanns, þótti þeim hann draga frá sèr þær 12 þúsundir dala af höndlunarfè í Stykkishólmi er fyrr getr, var reynd sættaleitun ok vard ei af at sinni. Batnadi þá fyrst undir mitt sumar, ok vard kálvöxtr nær enginn, en grasvöxtr lítill á túnum, sæmilegr á engjum, ok nýtíngar

gódar. Mjök var fátítt þat sumar í landi, en um haustit andadist Þorkell prestr Gudnason á Stad í Hrútafirdi, ok Árni prófastr Þorsteinsson á Kirkjubæ, vel hálf-áttrædr. Haustit var hit bezta, ok fiskafli hvervetna, ok inni í sundum sydra. Þá voru gefnar nafnbætr, er konúngr hafdi gipt adra dóttur sína Ferdínand frænda sínum, ok vard Bjarni amtmadr Þorsteinsson riddari, en Bjarni assessor jústizrád, en bændr margir danabrogumenn; var einn Þórdr í Skildínganesi. Hval rak í Þorlákshöfn, sá er sagt at væri 90 álnir milli spords ok höfuds. Þann tíma vann Stephán Skevíng hvalmál sín í hæstarètti, vid Bjarna amtmann.

## CLX. Kap. Frá Gudmundi Skevíng.

Gudmundr Skevíng átti Halldóru Benediktsdóttur frá Stadarfelli, ok börn mörg; Davíd hèt einn son hans, hafdi fyrst gengit í skóla, en fadir hans tekit hann frá því, fór hann þá utan ok eyddi fè sínu, ok er hann kom aptr, hafdi Gudmundr verit honum hardr; giptist hann dóttur bónda eins í Tálknafirdi, ok skildu þau skjótt, ok fór hann aptr utan ok gekk sem fyrri; sídan hafdi hann enn heim komit, ok sat vid lítinn veg. Gudmundr hafdi sókt um metnadarnafn, er menn kalla „rang," þótti þat ófallit, ok var ei gjört at álitum í þat sinn; en er arfr var sagt mikill hefdi fallit utanlands systkinum nokkrum í Dölum eptir bródur þeirra, er var Indíafari, höfdu kaupmenn í Stykkishólmi bodizt til at hafa umsjá arfsins, en gjalda þeim af í rentu svo mikit vidrværi sem þau þurftu, þá urdu þær lyktir á gjörfar. Þau systkin voru atgjörfislaus at öllu, en Gudmundr vildi mægjast vid þau, sakir arfsins, gipta börn sín í ætt þeirra; hann kunni því illa, at Boga hafdi verit gefit Stadarfell af födur sínum umfram Halldóru, ok átti vid hann þræsur um þat í þenna tíma; mörg átti hann mál önnur um þat, er hann þótti veita ágáng, ok lèt úti allmikit í peníngum fyrir flest í samníngi. Þorkell Gunnlaugsson í Haga, stjúpfadir hans, var móti honum jafnan, en þó Gudmundr væri lítt vinsæll sumum, þótti þat illa gjört, því hann hafdi mannat Þorkel, ok farit vel vid hann. Gudmundr var ríkr ok audugr.

## CLXI. Kap. Vetrarfar, ok tilburdir med Lángdælum.

1830. Vetr þessi hinn næsti var afargódr til mids, svo at enginn mundi slíkan, frusu varla mýrar, ok lagdi lítt ár, voru ýmist stadvidri frostlaus, eda med litlum stirdnanda, eda blákur hægar. Þá var kominn

hæstaréttar dómr yfir þeim er myrdu Nathan Ketilsson, ok stadfest líflát Fridriks ok Agnesar ok Sigrídar; en Sigrídr var þó nádud af kóngi med æfilaungum tukthúss-þrældómi undir stráugri vöktun. Björn Blöndal sýslumadr lèt færa þau Fridrik ok Agnesi í Vatnsdalshóla, ok stefna til fjölmenni, ok átti Gudmundr, bródir Nathans, at höggva þau, því at þess hafdi verit bedit at þau væri tekin hèr af, til at spara landinu kostnad med útsiglíngu þeirra, hann hafdi ok gefit sik til þess, fèkk hann 30 spesíur ok gaf þær fátækum. Agnes hafdi verit líkleg til umvendunar lengi, ok orkt idrunarsálm, en bágt veitti vid Fridrik; hann var at Þíngeyrum med Birni Ólsen, ok hafdi fengit lykla at járnum, en þat kom fyrir, ok var hans gætt, sagdi hann þá at Pètr Skúlason á Gili hefdi sent sèr ledrskædi, er hjá honum fundust, ok heitid sèr at koma sèr undan ef hann færi til Eyjólfs, skiptafèlaga hans, ok dræpi hann. Ymsir töldu um fyrir honum, ok var kallat at hann hefdi snúizt hina seinustu daga, ok kannazt vid sök sína, ok mælt fagrlega á aftökustad, var ritud upp eptir honum tala, ok gjör sálmr af, ok var hann gudrækilegr ok skynsamlegr; var þat hinn 12ta dag Januarii er Gudmundr hjó þau Agnesi, ok tókst vel, en höfud voru sett á stengr; þau hurfu skömmu sídar af staungunum. Þat kvöld hit sama var stúngit hross, er Holtastada-Jóhann átti, Jónsson, hann var ódrengr mikill, ok ryktadr vid marga stuldi ok adra varmennsku, en sá madr er Bjarni hèt, — mágr Strjúgs-Jóns, er kalladr var, fèníđings mikils, ok hafdi fyrir at hafa stolit opt úr skemmu Jóns ok gjört honum marga tilbekkni, ok fyrir mörgu illu var Bjarni sá hafdr, — hann var óvinr mikill Jóhanns, ok eittsinn er stolit var frá Strjúgs-Jóni, leitadi Bjarni hjá Jóhanni med ödrum mönnum, því rykti lá á Jóhanni um stuldi forna frá Jóni, þá var þat eittsinn, at Bjarni greip fóla nokkurn úr tadhlada, ok synjadi Jóhann þverlega fyrir; sýndist ok líklegt at Bjarni hefdi þá komit því þángat; ok litlu sídar var hrossit stúngit, ok eignat rádum Bjarna. Var þá tekit til at prófa málin, ok stefnt fjölmenni. Bjarni hafdi leidt at ok stefnt mörgum vitnum, er bera skyldu föll á Jóhann, ok jafnframt sent stúlku til fundar vid Eyjólf Jónasson, med brèf ok spesíu, ok bedit hann ei bera sèr mótvitni, en hún fór ódult med, ok treystist Eyjólfr ei at leyna eda vildi ei, ok fór á fund Arnljóts hreppstjora á Gunnsteinstödum, ok sýndi honum brèfit ok spesíuna; hann spurdi hvort hann mátti nokkut vitna móti Bjarna um stuld, Eyjólfr kvad þat ei vera, en sagdi hann hafa bedit sik at drepa Arnljót ok Strjúgs-Jón, kvadst aptr skyldu drepa Pètr Skúlason, ok gefa 10 spesíur milli morda. Fleiri menn báru á hann fyrirætlan um mord vid adra menn, en engir nema einir

sèr, sannadist ok á hann saudastuldr; en tvö vitni, er hann hafdi stefnt, kvádu hann hafa fengit sik til ljúgvitnis. Allt kalladi hann ósannindi er vitnin báru, þó 3 eda 4 væri samsaga, ok vard vafi á öllu, þó var hann dæmdr til hirtíngar í landsyfirrètti, ok þrír adrir nokkut, fyrir ráugan vættisburd; slíkir menn voru þá í Lángadal.

## CLXII. Kap. Tilburdir ok mál um vetrinn.

Hinn 10da dag Februarii mánadar fèll aurskrida á Ráeyri í Siglufirdi, mikil ok breid, tók hún bæinn allan ok eina konu gamla inni, ok kvikfènad allan nema 6 ær, ok túnit allt, en menn adrir gátu borgit sèr sem naudnglegast, ok hey nádist sídan ótekit. Prestalát urdu þá nokkur; andadist Einarr prestr á Reynivöllum Pálsson, prests á Þíngvelli, Þorlákssonar. Ásgrímr Hellnaprestr hafdi verit utan í málum sínum, ok sýnt sik þar hinn sidlátasta mann, ok mjök hóflega mælt um þat er hann þóttist aflaga borinn, ok svo var hann grandvarr vid drykk, at ei þóttist smakka mega vín nema blandat; er mælt, at lítt hafi verit minnzt framferda hans fornra í því máli, er hann var þá dæmdr frá prestskap í, ok kæmi því lítt fyrir framferdir hans utanlands, en Guldberg hinn úngi var talsmadr hans í hæstarètti, ok var þá svo allt virt, sem hann hefdi lidit ójöfnud, var hann fríkenndr ok hèlt prestskap, ok margir urdu til at gefa honum, vid þat kom hann út, ok var enn spakr í hafinu, þar til er hann sá Ísland, þá umsnerist hann, tók at drekka ok lèt mjök illa; sídan hafdi hann setzt í prestskap, ok braut þá Bjarni amtmadr af vid hann; sat hann þá ok um hríd nokkut á sèr, ok var nú gamall, en í þenna tíma, er nú er frá sagt, tók hann aptr at hefja fornar framferdir vid menn. Svo sögdu sumir, en sumir þóttust ei til vita, at hann hefdi dreymt eina nótt mann koma at sèr med spjóti, ok mæla: „Nú fæ ek at drepa þik, en þó ei at þessu sinni, medan þú sefr; verdr þegar þú sofnar ödru sinni;" en þat bar mönnum saman um, at dag þann, er sagt var væri eptir þá nótt, rádstafadi hann húsi sínu, hafdi þá verit kránkr nokkut stundum ádr, ok kvadst ei mundi vakna af svefni hina næstu nótt, skyldi þá leggja sik í prestshempu í tvær líkkistur, ok grafa 4 álnir í jörd; þat kvöld háttadi hann, ok er menn vöknudu eptir um morguninn var hann daudr; urdu sóknarmenn hans fegnir. Selafli var þá fyrna mikill á Siglunesi ok vídar í útfjördum. Bjarni assessor Thorarensen hafdi gjört útkast til bótar ok skerpíngar á refsilögum, ok Grímr Jónsson amtmadr lagt þartil, en lítt gekk þat enn fram í kansellíi; lagdist Bjarni Þorsteinsson amtmadr heldr í móti. Bjarni amtmadr hafdi þá undir höndum Jónsbók, er

Magnús konferenzrád hafdi farit utan med ok hafit vid skýríngar sínar ok ætladi at fá af mikinn frama, ok fá lögtekna at nokkru, hafdi þeim litt skilizt hún í Danmörku, ok falit Bjarna amtmanni at taka úr henni ok hafa fyrir lögmál þat er Íslandi þætti nytsamlegt, en var í rádi stjórnarinnar at aftaka hana at ödru, ok leida inn dönsk lög, ok vísa til þeirra tilskipana annara er fylgja skyldi; hann sýsladi lítt í því, vildi helzt lögtaka hana at meiri hluta. Þá höfdu ræníngjarnir í Árness þíngi, Sigurdr Gottsvinsson ok þrír adrir, verit dæmdir í hæstarètti til þrælkunar æfilángt ok hýdíngar, ok einn til rasphúss, en ödrum dæmdust hýdíngar smærri, en er Gottsvin skyldi hýdast, mælti hann: „tvisvar verdr gamall madr barn." Sigurdr var kagstrýktr utanlands, ok gjördi sèr af gaman; er þá sagt at bætt hafi verit á hann, svo hann frýdi ei. Magnús Stephensen konferenzrád átti í málum vid Erichsen, sídan fyrir jól ok til hins 10da dags Februarii, ok gengu vitnaleidslur margar, var Stephán Gunnlaugsson, sýslumadr í Borgarfirdi, af hendi Vigfúsar Erichsens, ok eyddi mjök málum fyrir konferenzrádi; horfdi honum fleira óvænlega, ok fór málit utan med póstskipi, ok fylgdu þrjú rèttarskjöl frá konferenzrádi, sterkord, til landsyfirrèttar í Kaupmannahöfn, ok lèt hann enn vel yfir sèr, en þó var honum þá andstætt fleira; hafdi hann eigi lengi tíundat báta sína ok skip á Akranesi, ok kallat þau kúgildi sem föst, ok reyndist eigi svo, ok var þat ákært, en þó kom Krieger stiptamtmadr þar á sáttum. Þá andadist kona Ulstrups landfógeta, vel látin, höfdu þau verit trúlofud 12 ár, en 2 saman; ok voru veittir Reynivellir Jóhanni, er þènt hafdi stiptamtmanni ok fleirum höfdíngjum, syni Páls prests at Undirfelli Bjarnasonar, en Stadr í Hrútafirdi Gunnlaugi presti Gunnlaugssyni at Kvennabrekku; Helgastadir nordr Sigurdi presti í Fjördum, ok Þaunglabakki aptr Birni, syni Þorvalds prests Bödvarssonar; Kvennabrekka Hálfdani Einarssyni prests, Thómassonar prests á Grenjadarstad, Skúlasonar, mági Jóns prests í Mödrufelli ok fóstrsyni. Þá gjördi vetr rysjóttan frá ymbruviku, med snjóum ok umhleypíngum; drukknudu 22 menn sydra, var þar med Grímr bóndi Árnason í Þíngholti ok Hannes Gizurarson snikkari, er nefndist Ólsen; kom íshrodi nyrdra, ok batnadi þó vedr seint í Aprili, ok voru kópar mjök margir drepnir á jökum hvervetna um Skagafjörd ok vídar. Voru þá í Eyjafirdi málaþræsur nokkrar, en sumstadar spurdist þat, at hestar voru stúngnir eda skornir af illgjörnum mönnum.

## CLXIII. Kap. Frá ýmsu.

Vid lok Martii mánadar týndist merkilegr sjófaramadr vestra, ok vel at sèr um fleira, Ólafr Matthíasson, Þórdarsonar í Vigri, Ólafssonar á Eyri, frá 6 börnum eda 7, hann var bródir Jóns prests Matthíassonar, drukknudu med honum 8 menn, allir sjólidar gódir; en fátítt var var þá um mannalát ok ósótthætt. Jóhann Pálsson gaf sik aptr frá Reynivöllum, er svo sagt, at hann hafi sókt helzt í þeirri von, at fá ekkjunnar Ragnhildar Magnúsdóttur lögmanns, var hún gód kona, en þá hann sá hana þótti honum ófríd, ok hugdi bædi af henni ok kallinu; en hvat fleira dró til vitum vèr ei. Kirkjubær var veittr Birni presti á Eydum Vigfússyni, Bjarnarsonar, ok Laugarbrekku þíng Hannesi Jónssyni, Jónssonar prófasts á Stad í Steingrímsfirdi, Sveinssonar, bródursyni Hjalta prófasts í Steingrímsfirdi. Mál voru vestra: Bogi Benediktsson á Stadarfelli átti vid erfingja Thorlacius um fè þat, er hann skyldi svara þeim, en Gudmundr Skevíng vid hann um Stadarfell, er hann hafdi hlotid umfram jafnadararf vid Halldóru systur sína, konu Gudmundar; bar hann fram brèf, ok þótti hvergi vafalaust, þó samdist med þeim. Vor var einkar gott á sjó ok landi, ok höfdu allir menn nægtir, en kólnadi þegar fram kom á sumarit; komu skip at vanda, ok sögdu þá frid, ok var kauphöndlun engu lakari en hit fyrra árit. Á Siglufjörd kom skip mikit, nálega nýtt, vandat ok eyrslegit, ok fagrt álitum ok hafdi vöru mikla, en Þorleifr Þorleifsson á Siglunesi, er lótsmadr var, ok þó ei svarinn, hafdi svo mikla vangá vid., ok skiparinn sjálfr hyggjuleysi, at þá skip þetta hafdi steytt á hellunni fyrir Siglunesi, ok því vard snúit af henni, var því hleypt á hana aptr, ok er þat kenndi grunns ödrusinni, vildi Þorleifr láta halda fram, ok bída fléds ef þat festi, braut þá gat á botninn, ok stódu menn í sæ undir hendr, björgudust þó menn allir, en skipit festi ok snerist á snaga, ok fór varan um allan sjó, ok spilltist, var lengi ádr nokkru yrdi bjargat. Sídan var bodit upp þat er vard, ok fengust engin gód kaup, því at höndlunarmenn komu úr öllum áttum, ok hleyptu upp hverjum smámun, vard Gunnlaugr Briem kammerrád ok sýslumadr, er upp baud, fyrir ámæli af sumum, fyrir þá óskipun er á var, ok hafdi þó eigi sök í; hann átti mjök vandstadit vid amtmann þann tíma. Mikit rak upp, þat er ei vard hirt, ok nádu því margir ok leyndu ok urdu vel staddir eptir, en vid mikinn fengu fjardarmenn úr flakinu, ok annat. Sumarit var gott sydra, kalt nyrdra, en þó nýtíngagott, grasvöxtr minni á engjum en túnum, spratt lítt í Þíngeyjar þíngi. Ár var enn gott til sjáfar, ok haustid gott. Á því sumri spurdust stórtídindi frá útlöndum: unnu

Frankismenn Algier, en litlu sídar var þar í landi gjör uppreist, ok konúngr neyddr til at láta af ríki. Skiptjón vard í Fljótum med 5 mönnum, en fáir dóu nafnkenndir, má þó telja Jón bónda Þorvaldsson hinn gamla í Deildartúngu danabrógumann, ok Íngibjörgu at Svínavatni. Reynivellir voru veittir Sigurdi presti Sigurdarsyni at Bægisá, bródur Jóns á Böggvistödum, hafdi hann leitad þess, þó hann væri vid aldr, ok fór sudr. Þá dó Páll prestr Hjálmarsson at Stad á Reykjanesi.

## CLXIV. Kap. Fra Frú Ragnheidi.

Frú Ragnheidr konferenzráds-ekkja hafdi nú verit á Akreyri um hríd, ok reynt margt þúngt, þar hafdi komit út til hennar fyrir ári sídan Jóhann, son hennar, ok kalladr gott mannsefni, ok andazt er hann var á land kominn; þat eitt skipti þóttust menn sjá at henni brygdi nokkut vid til sorgar um augabragd; en í þenna tíma bjuggu synir hennar í Eyjafirdi: Ólafr, er læknisnám hafdi stundat, Magnús ok Stephán, en Margrèt dóttir hennar var med henni ógefin. Frú Ragnheidr átti eignir allmiklar, ok hafdi þó vidrlífispenínga ríflega, en var bædi rádsvinn ok stadlynd ok eigi ör, ok þóttist nú eigi þurfa at hafa sèr allt í hendi lengr, ok vill midla börnum sínum jördum ok ödru, er hún hafdi ein setid at eptir testamenti; baud hún þeim þá til skipta, komu þau er vid voru, en Páll Melsted sýslumadr, er þá var ordinn audugr mjök, kom úr Múla þíngi, vegna konu sinnar, hafdi hann ok umbod Gudrúnar, ekkju Gísla prests; Lauritz sýslumadr Thorarensen kom at vestan, hann hafdi ok umbod Odds apótekara, bródur síns; fengu þau nú öll nokkut, helzt jardir, en þó all-lítid þau sem mest höfdu uppborit ádr, lá vid þeim semdi ekki, ok at skotid væri til sýslumanns, en þó vard ei af því. Frú Ragnheidr hafdi bodit Margrètu, dóttur sinni, marga samastadi, ok vildi hún enga þiggja, en med því hugdi hún helzt at geta komit henni frá Akreyri ef hún færi þadan sjálf, ok vissi þó enginn hvort hún hafdi í rádi at fara; eigi vildi Margrèt fara med módur sinni, ok vard hún at skilja hana þar eptir; en hún bjóst sjálf þegar er Lauritz sýslumadr var vestr farinn, ok vissi enn eigi um fyrirætlan hennar, ok fór austr med Páli Melsted til Ketilstada, ok bar ei á mörgum hestum, sem til brádabyrgdar edr reynslu.

## CLXV. Kap. Tídindi.

Í þann tíma, er skip voru á för hèr til lands um sumarit, er þat alsagt,

at Bjarni Sigurdarson riddari hafi hitt norrænt skip í hafi, hladit vidi, er híngat ætladi, ok rádit því frá þeirri ætlun, sagt at timbr lægi hèr ærit fyrir, en landsmenn mundu ei kaupa meira en þriggja eda fjögra dala verd í vidi hverr, þó at ekkert lægi fyrir ádr; ok snúit því svo aptr. Þat sumar urdu mörg tídindi í útlöndum, þau er híngat spurdust um haustid. Frankismenn skipudu stjórn sinni, ok settu annan konúng, er fylgisamari var vid þjódarríkit, ok urdu adrar stjórnir því samþykkar, en óeyrdir ok uppreistir hófust vída, ok er hèr skammt sagt af því öllu. Þá vard þat ok, at kapteinn sá danskr, er Graah hèt, ok verit hafdi hèr í landi, fann, at sögn manna, Austrbygd eina á Grænlandi, er menn ætludu vera mundi Íslendínga bygd hin forna, því fólk var þar meira vexti ok ljósara en Eskimóa kyn, ok líkt Nordrálfubúum, en ekki kannadi hann til hlítar at því sinni, svo at ei spurdist hver sidr þar var. Um vorit hafdi Stephán Skevíng á Íngjaldshóli látid af Stapa umbods sýslu, en tekit vid Árni, er sik nefndi Thorstensen, hann var son Þorsteins, bónda eins, Runólfssonar frá Vadstakksheidi, en födurmódir þess Runólfs var dóttir Jóns Magnússonar gamla, sýslumanns. Páll prestr á Bardi, Árnason biskups Þórarinssonar, fèkk þá Bægisá. Þá gjördi kast ok snjókomu mikla á allraheilagra messu, ok jardbönn mikil nordr undan ok á útkjálkum, ok var lengi at leysa upp; var
1831. lógat allmiklum peníngi nyrdra, en vetrinn vard þó einkar gódr, ok nálega því betri sem á leid meira, ok engir mundu slíkan einmánud, kom þó ís, ok var sem at engu bagadi; dó þá fátt nafnkenndra manna, ok var fátítt lengi allstadar at spyrja.

## CLXVI. Kap. Mannalát.

Á þorra týndust skip á Sudrnesjum ok á ellefu menn; var vestan átt, ok þá hart vestra. Sigurdr Thorgrímsen landfógeti var þá lagztr, lá hann í 18 vikur, mjök þúnga legu, ok andadist hinn 21ta dag Februarii; hann fèkk þat álit af merkum manni ok vitrum, at hann hefdi verit lagamadr gódr ok gáfumadr, en þó skadlegr í embætti, þar sem hann hefdi haldit fram lausamönnum ok þurrabúdamönnum, ok spillt hinum dönsku amtmönnum í því efni, þarmed sóat bædi konúngs peníngum ok bánka ok ritníngarfèlags, svo at trautt mundi sídan íslenzkum manni trúat fyrir landfógeta sýslu. Vart vard þá vid ginklofa sydra, ok dó eitt barn í Reykjavík, ok mjök veik var frú Gudrún í Videy af brjóstþýngslum, ok frú Sigrídr, kona Ísleifs etazráds á Brekku. Eggert prófastr Gudmundarson í Reykjaholti var ok at bana kominn af kvidarstíflu, þó gat landlæknir hjálpat honum nokkut um sinn.

Bjarni Thorarensen jústizráđ á Gufunesi fèkk þá ei enn fram þat er hann vildi til umbótar sakalögum, lagđist Krieger stiptamtmadr þegar á móti því ósèđu, svo fast fylgdi hann alvöruleysi vid brotamenn, en Bjarni lèt ei svar sitt fyrir honum, var hann vitr madr ok einardr, ok lagamaðr mikill, ok var laungum hvorr þeirra stiptamtmanns í móti ödrum. Tók Bjarni jústizráđ þat þá upp, ok fèkk med sèr Þorgrím gullsmid Thómasson, at hefja fèlag til vegabóta á fjöllum, fèkk hann í þat marga sydra, stiptamtmann ok svo konferenzráđ í Videy, þó þeim væri þat ei all-ljúft í fyrstu, ok mjök marga adra, ok sendi sídan bodsbrèf í sýslur. Þá var kominn á fót aptr barnaskólinn, ok sagt at forlagi Gunnlaugs prests Oddssonar í Reykjavík. Jóhann Thómasson, er prestr var ordinn at Tjörn á Vatnsnesi, lèt af því kalli, þó fèkk hann þá þegar eptir Hest-þíng, er Jón prestr Bachmann hafdi miszt, en Björn, son Jóns prests á Höskuldstödum, dóttурson Bjarnar prests í Bólstadarhlíđ, fèkk Tjörn, ok Stephán prestr Þórarinsson frá Eyjadalsá á Bard í Fljótum. Í midjum Martio andadist Jón Jónsson sýslumadr gamli, er fyrr var á Ströndum, ok bjó þá í Bæ, þar hann hafdi lengst verit, med Bjarna Fridrikssyni Þórarinssonar, dóttursmanni sínum; hann hafdi jafnan verit spakr ok atkvædahægr, en vel viti borinn. En um sömu mundir, eda nokkru fyrr, andadist frú Ragnheidr Finnsdóttir, er átt hafdi Magnús lögmadr Ólafsson at Medalfelli, var hún á 81ta ári. Þorsteinn, son Helga Sigurdarsonar konrektors, er fyrr var á Móeidarhvoli, hafdi komit út frá háskóla um haustid fyrir, var hann frá barnæsku trúlofadr dóttur frúar Steingríms biskups, en þá sagdi hann upp einkamálunum, ok fleiri voru atkvædamenn, er þá rufu trú med þeim hætti.

## CLXVII. Kap. Fra Grími amtmanni.

Grímr amtmadr Jónsson á Mödruvöllum, er þar kalladi Fridriksgáfu, ok hafdi fengit konúngs leyfi at svo mætti heita sídan stofan var sett, hafdi ákært jarda-nidrsetníngar, er Jón Espólín hafdi gjört at fornum sid, sem fyrr segir, en nú setti hann upp margar jardir eptir jardabók Skúla landfógeta, ok þó stólsjardir einar fornar, því hann hafdi hana ei at sinni yfir adrar, ok leitadi útskriptar í kammeri, svo hann mætti setja allar eptir henni, en bændajardir hafdi þó Skúli sjálfr sett nidr, sem adrir sýslumenn, ef honum þótti þess þörf, þá hann var í Skagafirdi, en tekit saman jardabókina sudr í Videy af all-litlum rökum, ok var hún aldrei lögtekin, heldr en adrar jardabækr; en amtmadr hafdi fylgt því, at kammerit kalladi hana rètta jardabók, en hvorki bók Árna

Magnússonar, nè þá er commissarii sömdu seinast í byrjun 19du aldar, var því kennt um, at tilsagnir hefdi verit svo rángar vid þá commission, at ei væri eptir farandi; en eptir jardabók Skúla skipadi amtmadr sumar í 60, eda 80, eda 90 hundrud, er ei voru ádr meir en hálfgildar, ok ei betri en 20 hundrada jardir í nágrenni, eda 5 eda 8 hundrada kot sum á Austrlandi, ok baud at heimta ok taka út konúngstíundir eptir því. Þótti mörgum þat órètt ok ritudu honum um, var einn Björn Blöndal sýslumadr, hann kvadst ei mega taka út af þeim tíundir eptir slíku, nema betri rök væri til færd at svo ætti at vera; væri jardabók Skúla ei gilt af kóngi, ok sumar jardir hafi verit í samri tíund sem enn meir en um ellifu tugi ára, ok ei hafi þær breytzt sídan jardabók Skúla kom út, enda kammeri fyrir laungu kunnugt, at svo var. Þó ætludu margir þat til lítils koma mundu, sakir þverlyndis amtmanns, en sumir gátu til, àt hann vildi gefa mönnum tilefni til at leita nýrrar jardavirdíngar, ok vissu menn at hverju slíkt hafdi komit, en ei fóru ord hans fjærri þeirri gátu, hvort sem var framvarp eitt eda meira. Þat þótti öllum undr, hve miklu hann gat afkastad í brèfagjördum ok sumu ödru, svo smámunasamr sem hann var um alla hluti, ok torveldadi allt fyrir þeim er hann átti vid at skipta, meir en hèr þótti haglegt, enda skar lítt úr mörgu, ok engir urdu handritarar lengi med honum; — lèt hann allt vera í því fólgit, at hefla form á öllu, þó dugdi lítt at leita ráda hans brèflega, var hann þá opt vandfýsnastr á eptir, ok stundum framar en þörf þótti; en í munnlegum rádum ok tali var hann harla mjúkr vid þá menn er hann virdi nokkurs, ok þóttu þau rád þó ei allskostar traust. Klaustraforstödumenn ok landsetar kveinudu þúnglega um nýjar álögur ok vandrædi, en sýslumenn þóttust nálega verst farnir, er þeir máttu hvergi undan leita, þóttust allir þreyttir, ok bundnar hendr sínar í öllu því er mest reid á, svo þeir yrdi at gjöra margt í hèradsstjórn á móti sannfæríngu ok samvizku sinni; ok svo mjök vildi hann eyda öllu hèradsvaldi þeirra, at hann sló því fram fyrir adra landstjóra, at bezt færi at amtmenn gjördi ályktanir í öllum smá-reglumálum í hèradsstjórn, þar tók helzt Bjarni Thorarensen jústizrád sízt undir; heimti hann nú nýtt form á manntalsbókum, sem flóknast mátti verda, ok þótti þó til einkis koma, ok svo grein yfir allar aukatekjur. Tóku nú klaustra-umbodsmenn at segja af sèr sumir, fyrst Björn í Lundi danabrógumadr, ok sídan hreppstjórar flestir í Þíngeyjar þíngi ok Vadla þíngi, þó þeim gengi þat ei öllum. Björn var grófyrdr ok áleitinn er hann var ölhreifr, ok gætti þó þess at saknæmt yrdi ei vottfast, valdi hann amtmanni mörg ill ord á Akreyri ok fleygdi á hann skarni, er þeim bar í milli, en þó

höndlunarmenn yrdi þess vísir, lètu þeir sèr lítt at þykja, ok er þeir höfdu mælzt vid á Fridriksgáfu, ok Biörn var ridinn þadan, sneri hann aptr til þess at strída amtmanni, lèzt hafa nokkut ómælt; amtmadr spurdi hvat þat var; hann mælti: „ætlar þú nú, Grímr, at vera lengi hèr í Steinkuntu?" — svo kalladi hann stofuna, — ok reid sídan. Eptir þat kom upp nídkvedlíngr nyrdra, ok gekk medal þeirra sem hagordir þóttu, svo at hverr skyldi auka eyrindi í, ok er ei æfandi þat er fyrir hefir flogit af. Björn lèt sídan sem hann vildi fara utan, en amtmadr slètti þá allt vid hann, sem hann hafdi átalit, sem framast mátti verda. Ok fannst vitrum mönnum vidbjódr á slíkum dæmum, ok heldr margt stefndi til ósida ok dælsku, ok batnadi þat lítt vid alvöruleysi þat, er var títt ordit í því er á reid, en vandhæfi í því er minna var vert.

## CLXVIII. Kap. Ár ok mannalát.

Vorit var gott ok svo sumarit, nema rigníngasamt nokkut á hundadögum, ok vard mikit af því sydra, svo stórum skemmdi hey, voru æ jafnan sunnanáttir, svo at nær þótti undarlegt. Reyk vard ok vart vid mikinn á öndverdu sumri, ok vissi enginn víst hvadan kom, þó hugdu flestir vera mundi fyrir Reykjanesi, því þar hafdi ordit vart elds um vetrinn, ok sögdu menn at fallit mundi hafa á jörd. Þá urdu manna-drukknanir: rèri Steinbach kaupmadr í Stykkishólmi í hákallalegu vid 11ta mann, þar var med hreppstjóri einn, en sumt voru bændr, ok flestir rosknir hásetar, hèt einn Gunnar, bródurson Einars í Raudseyjum, ok kalladr tveggja maki þar vestra; vard ei vart vid þá sídan, ok ætludu menn hvalr hefdi grandat þeim. Sídar um vorit fór Páll Þorbergsson læknir at nordan, er átti dóttur Jóns prests á Grenjadarstad, hafdi hann fengit læknis-embætti á Vestfjördum eptir hinn danska lækni Hvidsteen, er þar var dáinn, var kona hans eptir; fór hann allt í Stykkishólm, en ætladi skipaleid til Skardsstrandar, ok týndist í straumi vid Hrappsey vid níunda mann. Fimm menn drukknudu adrir á Breidafirdi, ok einn á Laungufjörum. Þá gjördist Skúli sýslumadr Magnússon á Skardi kammerrád. Þat var nokkru eptir andlát Sigurdar Thorgrímsens landfógeta, ok öndvert sumar, at Jónas Skevíng kansellírád, á Leirá, var einn dag med ödrum mönnum at fást vid hesta sína, mjök marga, ok gátu sumir til at hann hefdi komizt nokkut vid, en þat vissu menn, at honum gjördist brjóst-þraungt, andadist hann nokkut fljótlega um kvöldit eda snemma nætr, ok var þá sextugr at aldri; hann hafdi setid at sameiginlegu fè konu sinnar eptir testamenti, sídan hún dó, ok gefit mörgum mjök stórum: Pètri Ottesen sýslumanni, til

at leysa skuldir hans, mjök mikit, Jónasi syni Jóns prests á Miklabæ í Skagafirdi, er bar nafn hans, 300 spesíur, ok Ragnheidi, dóttur Jóns Þorsteinssonar landlæknis ok Elínar Stephánsdóttur amtmanns Stephensens, þúsund dali, ok sett þá peninga á rentur, en eigi grynnti honum fjármagn; er svo sagt, at Magnúsi konferenzrádi væri ei um, at Stephán Gunnlaugsson, sýslumadr í Borgarfirdi, skipti sèr af búinu, var þar lítt vingat sídan Stephán var í móti honum af hendi Erichsens, ok var kallat at Sigurdr Thorgrímsen hefdi þá studt hann, en nú var þess eigi kostr, en þó dæmdi Stephán Gunnlaugsson erfingjum frúr Ragnheidar arf, er konferenzrád var einn af, ok geymdu þeir sèr appellsrètt Stephán Skevíng ok Oddr Thorarensen apótekari, vegna frúr Ragnheidar, módur sinnar. Jónas hafdi átt í landaþrætu-máli nokkru, af hendi Bjarnar sekretera, vid Pál, prest til Borgar, Gudmundarson, Vigfússonar, en hann var jafnan óeyrinn til málasókna ok lítt vinsæll, gaf Stephán Gunnlaugsson sik í mál fyrir hann. Stephán Skevíng var tekinn til at flytja inn í Eyrarsveit, at Bár, er hann spurdi lát bródur síns, brá hann þá þeirri ætlan, ok fór sjóleid sudr ok fluttist at Leirá.

## CLXIX. Kap. Frá málum ok ödru.

Magnús Stephensen konferenzrád hefir nú átt um bríd mál vid Vigfús Erichsen utanlands, ok var Guldberg af hans hendi, en vid hann var ei audvelt at fást; segja menn hann hafi umbætt ok lagat mörg skjöl ok ástædur konferenzráds, þar honum þótti helzt til frekt ok framgjarnt, ok þegit af honum ósmá laun, enda þótti þat med ólíkindum í Kaupmannahöfn, hvat honum vannst, en þat var þó ei á annan hátt, en at drepin voru í hofs- ok stadar-rètti ord hvors til annars, konferenzráds ok Vigfúsar, en Erichsen sektadr um íllyrdi til konferenzráds á prenti um hundrad dali; þó taldi Magnús Stephensen sèr þat allmikinn sigr, en Erichsen skaut máli til hæstarèttar ok þó deiglega fyrst, til þess er hann var eggjadr fram, fèkk hann ei at halda því fram kostnadarlaust, en þó at vera laus vid aukagjöld rèttarins. Annat mál var dæmt í hæstarètti um atgjördir Bjarnar Blöndals sýslumanns vid Bólstadarhlídar-arf eptir Björn prest Jónsson, hafdi þat verit dæmt í landsyfirrètti ádr, ok rèttlættar framferdir sýslumanns; hafdi sá madr fengit ekkju Bjarnar prests, er Björn hèt, Árnason, ok hafdi haldit málinu fram at rádum Gríms amtmanns, en nú stadfesti hæstirèttr yfirrèttardóminn, ok felldi þarmed á Björn málskostnad, 100 dali. Spekúlant einn skaut sik þá viljandi sydra, ok vissi enginn tilefni, rèdi Krieger stiptamtmadr því, hvat sem adrir lögdu til, at hann var jardadr í kirkjugardi, ok gjör sæmileg útför hans. Þá drukknudu sex menn í Siglufirdi, hèt sá Jón

Þorsteinsson er fyrir var, en hinir voru lidlèttir ok höfdu sókt helzt til lángt. Þat sumar kom frú Ragnheidr, konferenzrádsekkja, at austan aptr til Akreyrar frá Ketilstödum, ok var med henni Gudrún dóttir hennar, er átt hafdi doktor Gísli Brynjúlfsson prestr at Hólmum, fór hún at Enni til Lárusar sýslumanns bródur síns. Þá gengu fram vegabætr þær, er Bjarni Thorarensen jústizrád hafdi upphafit á fjöllum, ok höfdu margir lagt rýrt til, mundu menn tillög sín til ritníngarfèlagsins, komust 110 vördur á Holtavörduheidi, ok sæluhús upphvelft af grjóti ok strengjum í Fornahvammi, án annars vidar en í hurdina fór; var ok rudt vel á Sandi ok Þorvaldshálsi, ok gjört rád fyrir at taka fyrir á ödru sumri Húnvetníngavegi ok Eyfirdíngaveg; ok margt var þá Bjarni Thorarensen vidridinn, ok þótti mikils vert um hans tillögur, því hann var hinn skarpvitrasti. Þeir áttu þann tíma í málum Gudmundr Skevíng ok Eggert prestr Jónsson, ok hafdi hvorgi þeirra vel, ok Gudmundr sídr, sem fyrr segir, en Eggert prestr kumst í mál af því, at Sigurdr Breidfjörd skáld seldi honum óheimilar jardir í makaskiptum, ok vid Eyjólf prest Gíslason, Ólafs sonar biskups, um tilkall hans til leigna af Stadarhóli, er Eggert prestr átti hlut í, en hafdi umbod yfir sumum.

## CLXX. Kap. Framferdir í landi ok aldar sidr.

Margt þótti þá öfuglega fram fara í landi á ýmsum stödum, þó meiri væri þekkíngin en fyrri; olli þat mjök, at lítt var skipt sèr vída af sidferdinu, ok þótti yfirmönnum flestum, þeim er ædstir skyldu, sèr þat lítt skylt, ok heldr at gánga eptir smámunum, en kirkjuaga engan tjádi at nefna; höfdu þá nokkrir prestar fallit í hórdóma: Jón prestr Hallgrímsson Bachmann, fyrri at Hesti, ok misst prestskapar, en Íngjaldr, son Jóns prests Þorvardssonar á Breidabólstad í Vestrhópi, er þá var at Nesi í Adal-Reykjadal, var borinn vid slíkt, ok margt annat, ok flæktist hann frá sjálfr, ok lètst vilja fá annat kall, en fór sídan vestr at Stad á Reykjanesi til Fridriks prests, bródur síns, er þat kall hafdi fengit, ok var prófastr ordinn, ok þó ei meir en medallagi ágætr. Hinn þridi var Þorlákr at Presthólum, Hallgrímsson ok Sigrídar Þorlákadóttur prófasts Þórarinssonar. Mjök var mikit af slíku vída, ok mannspilltust margir af lausúngum ok sjálfrædisgirni, ok allskonar eigingirnd ok stadfestisleysi, þó þat yfirbragd væri á, at sidir væri fegri en fyrir mannsaldri hafdi verit, ok svo þótti, sem umskipt hefdi þá mikit um hin næstu 10 ár, um munadargirni, ok svo sjálfbyrgíngskap, er aldrei hafdi jafnmikill ádr verit med alþýdunni, helzt þeim, sem minnst háttar voru, ok svo med illgjördamönnum, því at enginn

þeirra feiladi sèr. Gjördist flestra manna hugr at halda sèr til med yfirlæti í klædum ok látbragdi, ok at því einu virdu flestir hvern mann, ok at kænsku í kaupum ok sölum, en fáir at kostum, ok fæstir at neinum gódum rádum, ok hugdu ei á annat en eigingirni ok sjálfbyrgíngskap blygdunarlausan ok undirgefnislausan, ok tók slíkt hverr eptir ödrum, en virdu at engu sannyrdi; var eigi undarlegt þó at ótíd gjördist undirgefni, því at henni var heldr fyrirmunat en fram haldit af þeim, er stjórna áttu, ok þó stundum væri áskilit, at hlýda skyldi yfirbodum, kom þat helzt fram vid þá, er ödrum skyldu stýra, ok í því sem lítils var vert, ok skorti eigi vandhæfni vid sýslumenn ok adra umsjármenn í Nordrlandi í slíkum hlutum, en þar var þó margt undirfólk baldnara ok sèrvitrara en vída annarstadar, lauslæti ok sèrplægni ok brall, helzt fyrir vestan Yxnadalsheidi; óskipan var á mörgu, þvíat árin voru gód, en umvöndun lítil; urdu þá sumir veraldlegir yfirmenn, er þó unntu eigi straumnum, leidir á at halda mönnum til sida, er þeir fengu engu vid komit nema med torveldum málarekstrum ok amtmanna samþykki þar á ofan, hversu lítid sem var, en þeir voru þar fyrir utan allmargir, er unntu aldarhætti sjálfir. Mannfólk var í flesta lagi, en þó fèkkst hvergi hjú nema med hinum mestu afarkostum; urdu þeir at fala þau ári fyrri, sem þau vildu hafa, ok sviku þau þó sum á hverri stundu allt til skildaga fram, ok svo á midjum vistartímum, ok vard ei at gjört; olli þat, at bændr hylmudu sjálfir lausamennsku, ok tóku húsmenn hvar sem stód, ok mislíkadi þat fæstum hinum hærri yfirmönnum, en allt giptist sem því kom vid, ok tók nýbýli eda jardarpart; voru ok margir eigi haldandi, höfdu börn eitt eda tvö eda fleiri í eptirdragi, en vildu enga starfsvinnu leggja á sik fyrir adra, sízt fjárgeymslu, þoldi ok ekkert hjú hálfkvedit ord húsbændum, ok þau sem fengust vildu hafa kvikfènad, eda sjálfsmennsku at nokkru; var þá fjarstædast því sem verit hafdi fyrir 20 árum: þá fèkk eigi nema hit gagnlegasta fólkit vistir, en nú fèkkst varla kerlíng eda ómagi, því at allt fèkk sjálfsmennsku er eigi giptist; allra sízt vildi nokkurr vistast med stórmenni, ok enn sízt ef nokkurr sidr var heimtr, því at hjá kotúngum var sjálfrædi mest, ok hægast at beita afarkostum ok ráda sèr, en þat eitt var stundat. Allar sveitir voru sudr ok nordr fylltar med hross, ok hvergi meira en í Borgarfirdi ok Skagafirdi, ok vard til hinnar mestu ánaudar ok beitarspillis ardpeníngi; vildi hvert hjú eiga hross: eitt, tvö, þrjú eda fjögr, ok hverr kotbóndi lagdi hug á hrossafjölda, en engan mátti rádum bera, hvort bagadi fè sínu ödrum til gagns eda ógagns. Gjördist á því torveldni mikil, er kvikfènadr jókst í landinu, en hross báru þó annan peníng ofrmagni, ok afrèttir

fengust ei nema med afarkostum ok uppurdar. En um þetta ok annan búnadarhag mátti enga reglu skipa, ok ei mundi hún dugat hafa, þó sett hefdi verit, med því fylgi er þá var á nytsamlegu lögmáli, eda þó amtmenn hefdi fram fylgt med eindæmi sínu, ok unnt engum ödrum valds med sèr, til adstodar sèr, ok haft sèr svo samhenda; enda var þann veg, at þó fleiri af þeim eda allir hèldi á einu í regluleysi um þessa hluti, þá var þat afkárt, at sitt stjórnaratferli hafdi nálega hverr amtmadr, ok reid þó helzt at um alla stjórn því er þeir vildu; lèt annarr þat ósæmanda, er ödrum þótti allvel fara, ok því var eigi kyn þó at þess midr gengi jöfnudrinn; var þeim, er nokkra sýslu höfdu á hendi, illa stætt fyrir nordan, en fyrir vestan var flest þolat þeim, ok sydra var umburdarlyndi mikit vid ósidamenn, en hvergi skar mikit úr, því þat var kallat móti löggjöfinni. Voru vída vestanlands einbrotnir sidir, ok fór þar sumstadar allvel fram, er svo var, þó urdu þar einstöku hlutir undarlega óskipulega, sem þat, er madr einn í Dölum hafdi skilit vid konu sína, fyrst med ósamlyndi, en sídan med hórdómi, svo þau voru dæmd skilin, ok voru nú gefin saman aptr af presti eptir mörg ár. Grímr amtmadr nyrdra vildi skilja hverjar sem einar persónur, er barn höfdu getid saman, ok var þat í móti kansellíbrèfi, er komit var, en sydra, næst stiptamtmanni Krieger, var því svo lítid sinnt þó menn hèldi frillur sínar, at einn hafdi haldit vid eina at konunni lifandi í margt ár, ok getid vid 4 eda 5 börn, ok var ekki at gjört. Margar konur vildu þá eigi missa eljur sínar af heimili, ok mörg var þá ill sambúd ok óhreinleg.

## CLXXI. Kap. Frá nokkrum yfirmönnum.

Eigi var þat um Grím Jónsson amtmann, at hann hèldi med glæpum eda mælti fram med illgjördamönnum, þó at svo fèlli fyrir honum sem ödrum, sakir ofstækis aldarinnar, ok óhaglegs atferlis, er títt var ok á komit; hann lagdi þat ok til, at þeir, er honum þóttu at nokkru merkilegir, nyti af því. Á þann hátt studdi hann at því, ok svo vard, ásamt med tillögum Finns Magnússonar prófessors, at Jón Espólín fèkk í vidbótar-peninga 100 dali um ár, sakir árbóka hans ok annara ritlínga, ok hafdi hann nú notid þess á þridja ár, er hèr var komit. Þat gjördi hann enn, er merkilegt mátti verda ef vel rèdist, at hann lagdi til vid Jón bónda Sigurdarson á Böggvistödum, er þá var gamall ok ekkjumadr, sat at eignum konu sinnar ok var audugr mjök, at hann gæfi hluta fjár síns amtinu, ok skyldi þat koma til gagns mönnum í hardindum sídan. En ei má telja af hinum ædri mönnum þá, er sèrlega tók til at fylgjandi væri sidvendni, ok margri framkvæmd, veraldlegum,

adra en Bjarna Thorarensen júslizrád, voru ok sýslumenn nokkrir, er gjördu þat at er þeir máttu, at hepta stór-ósidu: Þórdr Bjarnarson kansellíráð ok Björn Blöndal, Eyríkr Sverrisson í Mýra sýslu, ok Gunnlaugr Briem sæmilega, ok enn fleiri nokkrir. Bjarni ok Gunnlaugr prestr Oddsson konsistorial-assessor er sagt hafi beidzt í þann tíma at taka vid stjórn prentverksins, ok var enn ei komit svar, en ádr hafdi bókmentafèlags deildin í Reykjavík gefit kost á at taka þat at sèr, ok láta prenta allt yfirsýnarlaust.

## CLXXII. Kap. Tídindi úr útlöndum, ok annat.

Þá var haldit fram fèlögum, ok komu sögur út í fornfrædafèlaginu, var eitt Haralds saga Sigurdarsonar ok sona hans, en hinar eldri konúngasögur voru komnar ádr; ámæltu þá nokkrir námsmenn, ok helzt Baldvin Einarsson frá Hraunum, yfirsetníngu Rafns, er þat fèlag hóf, á Knytlíngasögu, ok tók Rasmus Rask prófessor upp fyrir hann, en Finnr Magnússon, er þá var geheime-archivarius ok riddari, fylgdi þeim nokkut, ok vard af þessu hin mesta misklíd. — Embættismadr einn í ríki Danakonúngs ritadi hart á móti einvaldsstjórn, en þó honum væri gefnar sakir á því, ok þó miklu minni en fyrr hafdi verit venja, þá vildi þó konúngr gjarnan gjöra þegnum sínum ánægju, sem tídkadist í ödrum löndum, ok veita atgaungu umbodsmönnum hverrar þjódar úr ríki sínu, til at bera sik fram vid stjórnina, ok ei skyldu vandaefni lögtekin, fyr en slík atkvædi voru skodut; var þar Íslendíngum veitt hit sama vilyrdi sem ödrum, ok skyldu sízt kjósast til slíkra umbodsmanna eda fulltrúa konúngs embættamenn; en þó at þetta væri nú fyrst frumvarp eitt, ok eigi enn skipan algjör, ok þó at hinir vitrari menn þættist sjá, at ei mætti ödruvísi verda, edr traudlega, en at slík skipan gengi einhverju sinni fram, þá var mælt, at sumum embættamönnum fyndist lítt til þeirrar nýjúngar. Bjarni júslizrád var mjök á því, en margir gátu til at Íslendíngar mundu ekki verda vel sammála, ok trautt mundi þat til líkinda snúast, nema allsherjar samkomu yrdi á komit hèr á landi, sem alþíng hafdi verit. Þá var í þann tíma ófridr af uppreist Pólína móti Rússum, en svo mikil drepsótt gekk yfir Rússland, ok allan Austrveginn, ok vída um heim, at varla vard varit nema lítid eitt, med mörgum ok stórum vidburdum, ok svo brád, at margir dóu eptir fjórdu stund er hún tók þá, en sumir eptir fáa daga; svo var hún næm, at hún festist vid alla hárkynjada hluti eda línkynjada, ok jafnvel penínga, ok gekk hún þá mest yfir med Austrsænum, ok dó ærinn mannfjöldi, ok í hvern heimshluta var hún komin á þeim misserum, var því ætlat at enga þjód mundi undan bera; var herskipa-

vöru höfd fyrir Danmörku, sem vid vard komit, ok hvervetna skipadar hardar varúdarreglur, er qvarantaine-reglur eru kalladar; lèt ei Grímr amtmadr í Nordrlandi sitt eptir liggja um þat, ok voru tveir menn í Siglufirdi sóktir til saka, er fóru fram á hollenzka duggu, ok vídar urdu slík tilfelli í landi; voru kaupmenn mjök margir uggandi um sinn hag, er þeir fóru frá landi, ok vissu ei hvat reka mundi fyrir sèr er heim kæmi, eda kaupförum sínum, en þó dodnadi sú ábyggja brátt um sinn, fyrir þeim sem á Íslandi voru, ok ekki sá hennar mikil merki í framferdum manna. Þá var enn sem fyrri gott ár, ok heyskapr mikill ok gódr, helzt fyrir nordan Yxnadalsheidi, því sunnanáttir voru jafnan, var mjök vott sydra ok spilltust hey. Þat haust fèkk Þórdr í Svidholti Bjarnason, stúdent ok administrator Þykkvabæjar klaustrs, Gudlaugar, dóttur Ara læknis á Flugumýri ok Cecilíu Vigfúsdóttur, var hún gódlát mey ok gjörfuglig, ok var bod inni á Flugumýri, fámennt ok gódmennt, ok mjök margar urdu þá hjónavígslur ok bod, sem mest hafdi verit.

## CLXXIII. Kap. Hvat at utan kom, ok frá Magnúsi Stephensen.

Bod kom nú frá kansellíi til stiptamtmanns ok biskups, at taka skyldu prentverkit af Magnúsi Stephensen konferenzrádi, ok bodit var honum at gjöra skil á allri rádsmennsku sinni; var sýnt af því, at ei var med öllu lokit ákærum til hans, þó hann hefdi unnit þat á at Erichsen vard fyrir fèsekt í hofs ok stadarrètti; hafdi Erichsen ok verit hvattr til framhalds fyrir hæstarètt, ok svo kom, at Sporon vard talsmadr hans, málafylgismadr mikill. En Magnús Stephensen ritadi þat til Nordrlands, at hann hefdi nú fengit þat hann hafdi lengi beidzt eptir, at láta frá sèr prentverkit, en þó hefdi stipamtmadr og biskup bedit sik at halda vid þat til vors. Á þessu lèk ord, ok töludu merkir menn, en ei vitum vèr þat víst, því at ei sáum vèr þat brèf; hitt er ljóst, at hann vann sídan sjálfr á vid stiptamtmann, at hann eptirlèt honum at halda því fyrir þridjúngi minna afgjald en adrir budu, ok leitadi því stadfestíngar, ok grunadi suma at þat mundi eptir látid, þar sem konúngur hafdi ödruvís bodit. Hann var ern madr, ok sá einn um allt í Videy, því frú Gudrún var mjök vanfær, en Ólafr vice-sekreteri, son þeirra, var búlaus; hann átti þá Mörtu, dóttur Stepháns amtmanns Stephensens, systur þeirrar er hann átti fyrri. Konferenzrád var mjök fyrir vid skipti á Leirá um haustid, eptir Jónas kansellírád, mág sinn, var þar ærit fè saman komit, þó Jónas hefdi gefit mörgum mikit, sumum þúsund, summum nokkur hundrud dali, þeim er hann rækti mest, en þat var virt, er eptir var, til þrjátíu ok þriggja þúsunda dala; voru kýr sem á

tveimr búum stórum, hross 200, ok höfdu þau vída gengit, ok saudfè þúsund; komu fyrir skuldabrèf konferenzráds til Jónasar uppá fimm þúsundir dala, ok er sagt því hafi nokkut verid midlat vid skiptin, ok fengi Stephán Skevíng nokkut umfram hlut í Leirá, ok bætt hafi verit vid frú Ragnheidi, systur hans; hafi konferenzrád látid vinnuhjú heimta kaup ríflega, ok hafdi rádsmadr med Jónasi, er þar hafdi verit nokkur ár, grædt svo mikit, at hann var vel búfær at kvikfè ok ödru, en þó bydi konferenzrád honum at heimta kaup fyrir hvert ár, tæki hann til tólf spesíur, en þá hafi honum bodnar verit sextán, ok færi þat fram; ok var þat óhaglegt dæmi, ef sönn er sú sögn, ok lagit til þess at kenna at setja afarkosti, er þá þurfti þó eigi. Svo hefir ok sagt verit, at ei væri skipt börnum Stepháns amtmanns, er bródir var frúr Ragnheidar, ok ákærdi þau sídan, ok væri óklјád; en vèr erum ennþá ófródir um þenna hlut. Þessi misseri ofanverd andadist Kristín Þórdardóttir, Árna sonar hins ríka á Arneidarstödum, kona Bjarnar prófasts Halldórssonar í Gardi, en hafdi fyrr átt Vigfús prest Bjarnarson; var hún módir Benedikts prests á Hólum, ok þótti verit hafa mikilsháttar kona.

## CLXXIV. Kap. Torfalækjarmál.

Ólafr Íngimundarson bjó at Torfalæk í Húnavatnsþíngi, hann var skólagenginn, en hafdi aldrei vígzt, var ok lítill lærdómsmadr; hann hafdi átt ekkju Erlendar, er fyrrum hvarf frá Torfalæk, en var nú konulaus, ok heldr vid aldr; allra manna hafdi hann verit mjúkastr í lidum ok glímnastr, en orkulítill; nokkut var hann framgjarn ok óvæginn í ordum, ef honum líkadi ekki. Ástrídr hèt rádakona hans, er þá var, dóttir Halldórs prófasts Ámundasonar á Melstad; en svo vída var títt skeytíngarleysi ok frekja, ok eigi sízt í Húnavatnsþíngi, at med því marki var þessi kona ein fyrir sik. Þar bjó á sumu landinu sá madr er Ögmundr hèt, rádsvinnr madr kalladr, Ástrídr hèt ok kona hans, Ólafsdóttir frá Valadal; Björn hèt bródir hennar, Ólafsson, hórgetinn, en adrir brædr hennar voru í Skagafirdi. Björn var einn af Lángdælum, ok mannúdlegr í bragdi, sem þeir fleiri, en lítill vitmadr, ok heldr ósidvandr sem lagsmenn hans, var hann í styrkara lagi, hann hafdi látid konu sína eina, ok haldit vid fridlur, hèt ein Medonia, ok var þá í vændum at giptast Holtastada-Jóhanni, ok óskipulegt væri þar nokkut vid, en Björn hafdi nú athvarf at Torfalæk med systur sinni. Þat var mælt hann legdist á hugi vid Ástrídi Halldórsdóttur, ok vard hún þúngud, hugdu margir hann valda því, en Ólafr húsbóndi hennar kunni því illa, ok hafdi látid þat á sèr heyra, at hún hefdi stundum samrekkt sèr. Nú leggst hún á gólf at barnburdi, ok sat þá

Björn eittsinn hjá henni ok kvad henni til skemtunar, þat var í húsi Ólafs, kom Ólafr inn, ok lèt honum allt illa fara, settist nidr ok ámælti Birni mjök, segir hann forhert hafa Ástrídi á móti sèr, ok var þrámæltr á því. Þá kom Ástrídr kona Ögmundar inn, ok sá at Ólafr þreif til Bjarnar ok í hár honum, ok voru þá illordir bádir; Björn stjakadi honum af sèr. Var þá Ögmundr sóktr at skilja þá, hann var at slátri, sá hann at Ólafr fór þá halloka, ok skildi þá ok sefadi, ok settist sinn nidr í hvorjum stad, ok var þá gengit frá þeim. Sveinn einn 14 vetra, ok þó sagt væri greindr, var þar hinsvegar í badstofunni, hann heyrdi dýnk mikinn, ok litlu sídar kalladi Björn, ok kvad Ólafi meint ordit, komu menn þá inn, ok sáu at Ólafr var daudr, en Björn hlaupinn út; var Ólafr skodadr, ok var marit höfud hans á hnakkanum, ok meidsli á kinn, ok á honum sem kirkíngartak. Vildi Ástrídr Halldórsdóttir ekkert bera, kvadst ekkert sèd hafa þó hún væri þar í húsinu í rökkri, en hafa breidt upp yfir höfud sèr, ok hugsat um þjáníngu sína; kenndi hún barnit Ólafi, er hann var dáinn, en þat var af tekit at ljósmædr mættu spyrja at faderni; sókti fadir hennar hana, ok fór hún heim med hinni mestu þverúd, en Björn vildi ekkert medkenna þá prófat var, ok hafdist vid í ýmsum stödum, til þess er hann var settr til Einars prests á Hjaltabakka, Gudbrandssonar. Ari læknir var sóktr at skoda líkit ok gaf skýrslu, hún var send sudr til Jóns Þorsteinssonar landlæknis, en hann kvad hana svo óskýra at hann mætti ekkert af henni dæma. Átti Björn Blöndal sýslumadr vanda mikinn vid málit, er hvorki fengust skýr rök nè vitni, ok þótti þó líkara at ei hefdi verit rádit manndráp, en þó af völdum Bjarnar væri, ok ordit heldr í áflogum þeirra Ólafs. Þíngadi sýslumadr nokkur þíng um þat, ok dæmdi at lyktum fyrir þorrakomu, ok Birni stórhýdínguna auk málskostnadar. 1832.
Landsyfirrèttrinn vísadi þó málinu heim sídan, er amtmadr hafdi appellerat, ok þótti skorta eidsafleggíngu Ástrídar.

## CLXXV. Kap. Um vetrinn ok annat.

Sumarit fyrir höfdu komit svo miklir silfrpeníngar í höndlun med kaupmönnum, at ei höfdu ádr flutzt jafnmiklir, ok var, er hèr var komit, allr kaupskapr betri en at undanförnu, en látin var spesía ok tekin sumstadar fyrir 3 dali vöruverds, sumstadar fyrir tvo dali og fjögur mörk, þó var hún eptir kúrsi litid meira en tveir dalir í nefndarverdi. Þá var vetr einkar gódr til mids, ok öll tíd var hagfelld á sjó ok landi. Spurdist lát Kjerulfs læknis hins danska af Austrlandi, ok hafdi þó sked á hinu fyrra ári, var ok talit fráfall Hjörleifs Árnasonar, Hafnar-bródrs, sakir frábrigdis þeirra brædra; hann var þá

gamall; er þat merki um afl hans med sönnu, at hann bar á baki á túni 100 fadma þann stein, er vóg nær 9 vættum, ok hóf um seilíngu stafn á skipi, en annar madr óvalinn, ok þó afstyrmislaus, mátti ekki láta vatna; ok eptir því var annat; ei var hann sídr frækinn til glímu ok fimleiks, en afls, ok hafdi hlaupit hæd sína í lopt upp. Jón lifdi þá enn, ok var þeirra brædra mun sterkari. Eptir midjan vetr gjördi áköst, ok þadan af, en þó mátti hann aldrei hardan kalla.

## CLXXVI. Kap. Frá námsmönnum.

Þann tíma komu bækr út úr bókmentafèlagi Íslendínga, ok frá sögufèlagi, Færeyínga saga ok enn fleiri, málsháttabók Gudmundar prófasts Jónssonar á Stadarstad, kvædabók Eggert Ólafssonar, ok bók sú er Þorgeir Gudmundarson ok Baldvin Einarsson skrádu, ok köllud var Ármann á alþíngi. Eitthvat var ok prentat sydra. Skírnir, eda tídindi, komu hvert ár; voru þá margir námsmenn Íslendínga í bókmentafèlaginu, med mörgum höfdíngjum íslenzkum ok útlenzkum, ok innlendum í Danmörku. Árni stiptprófastr Helgason var forseti deildarinnar fyrir sunnan, en Þorgeir Gudmundarson í Kaupmannahöfn. Þeir voru af námsmönnum í fèlaginu Íslendíngar í Danmörku: Þorgeir ok Eggert Jónsson, bródir Jóns sýslumanns á Melum, ok miklu ýngri, en þó roskinn madr, hann skyldi vera læknir ok fèkk brátt læknis-embætti í Nordrlandi, því Hoffmann var frá, ok kom hann seinna út á Hofsós. Baldvin Einarsson, candidatus í lögum, ok Þórdr Jónasson frá Höfda hit sama. Baldvin hafdi fengit ávinníng ok álit í þrætu sinni vid Rask, ok tekit examen jafnframt, ok fengit bezta vitni í lögvísi, ok þótti þat mikit, hann hafdi ok skrád bæklíng um stètta eda standa samkomu þá, er í þann tíma var verit at rádast um, ok helzt fyrir Ísland, ok þótti vel ritinn; lagdi hann þat til, at engir fulltrúar yrdi í sambandi vid hina dönsku, ok alþíng tækist upp út hèr, ok því fylgdi Bjarni júslizrád ok fleiri sydra, ok margir fèllust á þat, ok sumir í Kaupmannahöfn, ok jafnvel allt kansellíit, nema í efa var um Stemann sjálfan, formanninn. Greifinn Holstein ok Jens Möller prófessor urdu því fylgjandi, ok marskálk Moltke, sá er fyrr var stiptamtmadr hèr, ok Finnr Magnússon, voru teknir til hlutdeildar í fulltrúa samkvæmi. Þessir voru enn adrir námsmenn í fèlaginu: Skúli Thorarensen, bródir Bjarna jústizráds, hann nam lækníngar ok vildi Sveinn Pálsson at hann fengi sína sýslu eptir sik, því hann sagdi af sèr; Brynjólfr Pètrsson prófasts frá Vídivöllum, hann stundadi lögvísi; Hallgrímr Bachmann, Jónsson prests Hallgrímssonar; Þorsteinn Helgason, er nefndr hefir verit; Jón Jónsson; Thómas Sæmundsson undan Eyjafjöllum; Hallgrímr, son Þórdar

kansellíráds; Hannes Árnason; Geir Bachmann, Jónsson prests Hallgrímssonar; Hannes, son Steingríms biskups; Gísli, son Ísleifs etazráds; Torfi Eggertsson; Oddgeir Stephensen, son Bjarnar sekretera; Brynjúlfr, son Boga Benediktssonar á Stadarfelli, ok enn fleiri, ok þótti sem námsmenn Íslendínga hefdi fengit þá frama mikinn ok álit. Lauritz hèt einn námsmadr, son Sigurdar í Geitareyjum, hann hafdi framazt vel, en hann andadist á þessum misserum. Þá komu margir af þeim út um vorit, ok var einn Ögmundr, son Sigurdar prests Ögmundarsonar, fylgdist med honum danskr madr, candidatus einn, er hafdi nokkurn styrk af konúngi til at fara híngat, ok var fáum líkr, hann hèt L. Kristján Müller, ok var ágætr at sidprýdi ok gudrækni, þótti honum undarlegr kristinndóms-lærdómr sydra, ok eigi gódr gudfrædis-andi koma út frá Bessastödum, enda kom þeim þar lítt hans álit, en vel líkadi honum til Bjarna jústizráds, ok þeim hvorjum til annars, um lærdóm, þó at nokkrum sunnan-lærendum væri lítt um álit Bjarna í kristinndómi. Illir þóttu Müller prestar þeir er drukku mikit, en Ögmundr fèkk hann í lagsmennsku til at heimsækja födur sinn, ok vard hann þar at kynni tvær nætr eda þrjár, ok var Sigurdr prestr drukkinn jafnan, en lèt þá allra manna verst; var ok Ögmundr óskapvarr í fleiru, ok lítt átti hann aptrkvæmt til Hafnar. Svo sagdi Müller í brèfi til eins manns hèr, at flesta vissi hann stúdenta hina íslenzku ókunnuga kristinndómi, en lèt þó á sèr heyra, at von mundi betri tídar, ok fór hann utan aptr um sumarit.

## CLXXVII. Kap. Frá Vestanmönnum.

Þá kom út vestra Benedikt, son Boga á Stadarfelli, sá er kvæntr var í Kaupmannahöfn ok audugr, og Brynjólfr bródir hans; taldi hann Brynjólf á at láta af bóknámi, ok gánga í kauphöndlun, ok bundu þeir fèlag vid Pètr, son Jóns Kolbeinssonar í Stykkishólmi; sagdi Bogi svo, at hann hefdi fengit hverjum sona sinna þúsund spesíur, en hverri dóttur fimm hundrud; hann var þá at semja sýslumanna-sögur, ok sáttr var hann ordinn vid Thorlacius erfíngja, hafdi ordit midlunar mál; látinn var ok Gudmundr Skevíng af tilkalli vid hann um Stadarfell, ok sat hvorr þeirra at sínu; hafdi Gudmundr kaupfarir miklar, ok þrjár skútur í veidum, ok afladist svo mikit vestra um sumarit, at af þeim öllum fèkk hann 322 tunnur hákallalifrar. Hann hafdi gipt Þóru dóttur sína Magnúsi, bródur Þorkels í Haga ok Ásmundar, en Davíd sonr hans kvæntist þá aptr, ok fèkk dóttur Sigurdar í Geitareyjum, Katrínar. Ádr hafdi Fridrik prófastr Jónsson á Stad á Reykjanesi bedit Þóru til handa hreppstjóra einum, ok fengit heitord, ok er þat brást,

lèt Gudmundr úti vid hann, þó þykkti Fridrik prófastr þat jafnan; var í þenna tíma med prófasti Íngjaldr bródir hans, er prestr hafdi verit nordr í Nesi. Fridrik prófastr átti Valgerdi, dóttur Páls prests Hjálmarssonar ok Íngibjargar Bjarnadóttur prests Pètrssonar, bjó Íngibjörg þar nálægt, ok var þá kominn til hennar Árni Vídalín, Geirsson biskups, er átti Steinunni, adra dóttur hennar. Ólafr Pálsson Hjálmarssonar bjó í Midhúsum vid Reykhóla.

## CLXXVIII. Kap. Frá höfdíngjum.

Mjök vel fèll á med stiptamtmanni Krieger ok Magnúsi konferenzrádi, ok sást med ödru á því, er hann lènti honum prentverkit med hinum beztu kostum, ok vænti konferenzrád at fá samþykki um þat; en midr var med stiptamtmanni ok Bjarna jústizrádi, þótti Bjarna hann heldr lèttlátur vid óverknadi, ok var þat satt, því at helgidagsbrotum eyddi hann med öllu, ok svo var enn fleira; en þat var ein höfud-undirstada til ósida ok þverúdar, at flestir voru ordnir trúræknislitlir. Bjarni Thorarensen lèt þat sumar rydja Vatnahjalla ok Eyfirdínga veg. — þeir ætludu bádir at rída nordr, stiptamtmadr ok hann, ok settist stiptamtmadr aptr, því hestar fáir fengust færir um vorit, en Bjarni reid allt í Eyjafjörd. Þá kom út um sumarit kammerjúnkæri Þorkell Hoppe, bródir stiptamtmanns er fyrri var; hann var hár madr, grannlegr, álitlegr at sjá ok gódlátlegr, átti hann at búa sik undir at standa fyrir íslenzkum málum í kammeri, í stad Knuths greifa, er fengit hafdi embætti annarstadar; fór hann um land at kynna sèr lenzku, fyrst vestr, ok sídan nordr, ok hafdi ærit tillag úr jardabókarsjódi; var þat ætlad til 3000 dala; hann var mjök lèttlátr, mjúkr ok gjörhugull um hvat eina er fyrir hann bar, ætladi hann at vera sydra um vetrinn eptir, ok fara annat sumar um land at vestan, ok seinast um Austfirdi, ádr hann færi utan. Grímr amtmadr fór fram tilkalli at upphækkadri jardatíund eptir bók Skúla, ok var því andæpt af sumum mönnum, svo at fyrir kom í Danmörku; þótti mönnum þá sumt þat merkjast, er vísadi til, at eigi mundi hans ætlan fram gánga. Sókti hann nú hvat eptir annat um lausn hèdan, ok embætti í Danmörku, ok bar mjök fyrir at eigi mætti manna hèr börn sín, med ödru. Þá kom út læknir til Vestrlands, Jón Sigurdr Ögmundsen, son Sigurdar Ögmundarsonar faktors á Eskifirdi ok Málmfrídar Jónsdóttur sýslumanns, Sveinssonar lögmanns, Sölvasonar.

## CLXXIX. Kap. Annat er vid bar um sumarit.

Á þessu vori brugdu nokkrir menn búi, en mörgum lá nærri, fyrir

því at hvergi fengust hjú, þó gáfu þeir ei betri kosti en adrir, er brugdu, því at halda vildu þeir peníngi sínum; var vor kalt ok sídgróit, ok ei mikill grasvöxtr á túnum eda þurengi, ok á voteugi gódr, ok vard hin bezta nýting, ok ár gott var at spyrja um allt land med þurvidrum, en allstadar voru hin sömu vandrædi med hjúaleysi ok lausíngjafjölda, ok hrossamergd. Þá dó í Apríli Benjamín prestr á Höfdaströnd Jónsson, í húsvitjan, hann var hátt á hinum áttunda tugi, ok hafdi eigi þótt klerkr sèrlegr, en verit gæfr ok gódlátr, ok hinn gildlegasti af sèr; átti hann þat eitt barna, er lítt er at telja; fèkk Páll prestr Erlendsson, Hjálmarssonar, kapellán hans, kallit. Íngjaldr prestr hinn gamli í Múla nordr dó einnig, á tíunda tugi, ok hafdi lengi verit embættislaus, hann var födurbródir Ebenezers sýslumanns ok systkina hans. Þat spurdist þá, at 14 menn týndust á Sólheimasandi, en 4 bátar á Sudrnesjum. Dó ok Sesselja, er átt hafdi Teitr prestr Jónsson, ok kona Odds Hjaltalíns læknis, hún var dönsk. Þat spurdist med skipum út híngat, at andadr var Ólafr Ólafsson Íslendíngr hinn gamli, prófessor ok Vasareglu riddari, ok kona Frydensbergs, er fyrr var landfógeti, hún var tengdamódir Finns Magnússonar. Eggert prófastr Gudmundarson í Reykholti andadist þá einnig, af steinsótt, ok mannskadar urdu á sjó á Ísafirdi ok Ströndum. Þat spurdist til sóttarinnar, at hún var komin í Holsetuland, ok þó vægri en fyrri, ok gekk um England, Skotland, Írland ok Frakkland allákaflega. Vestra dó Ragnheidr Bogadóttir hins gamla úr Hrappsey, kona Bjarnar Gottskálkssonar, ok týndist hákallaskip med 8 mönnum, er átti Jens Jakob kaupmadr, son Boga Benediktssonar á Stadarfelli, þar var einn á Hilarius, son Eyjólfs prests Kolbeinssonar, bródur Jóns í Stykkishólmi, hafdi prestr sá ord gott, ok var þó mótlætismadr. Ari prestr Skordal í Adalvík dó einnig. Í Julio andadist frú Gudrún Vigfúsdóttir, kona Magnúsar konferenzráds í Videy, ok fengust margir til at yrkja henni eptirmæli. Þat sumar var höndlun allgód, ok fluttust peníngar miklir — en í þurkum þeim er voru urdu bæjabrennur af vangá fyrir nordan ok austan, brann á þremr bæjum í Eyjafjardar sýslu til skada ok fèmissu, en á Þíngmúla í Skriddal badstofa ok gaung, ok fengu tveir menn bana; brann ok Hafrafell, er fólk var eigi vid, ok mikit af túni. Sá madr bjó í Stokkhólma í Skagafirdi er Árni hèt, Sigurdarson, hagr madr ok ötull, hann hóf fèlag til þess at leita steinkola í Jökulsárgili, ok Nýjabæjarfjalli, ok fèkk marga til, en þó þeir þættist finna vitneskju, skorti verkfæri, vildi hann þó fram halda ok leitadi adstodar amtmanns til at fá styrk af konúngi. Þá voru veitt prestaköll, fèkk Jón Þórarinsson prests Jónssonar, bródurson Benedikts Gröndals ok vel framadr í Kaupmanna-

höfu, Audkúlu, ok efldu Svíndælir hann til sudrfarar ok vígslu, en er hann kom þar hafnadi hann því, ok fór austr; en Stepháni presti Þorsteinssyni á Völlum var veitt Reykholt. Þá voru auglýstar tilskipanir um þat af hinum fyrri, er gildti á Íslandi, ok enn fleira. Mjök sókti í þann tíma Grímr amtmadr um embætti í Danmörku. Thómas Sæmundsson candidatus undan Eyjafjöllum hafdi gefit út skrá um skólabót, ok þótti allmjök úr skera. Þat sumar urdu sýslumenn kammerrád, Páll Melsted ok Tvede, hann var kammer-assessor ádr, sýslumenn í Múla sýslu, ok Ólafr Finsen son Hannesar biskups í Gullbríngu sýslu. Thómas Sæmundsson candidatus hóf þá ferd sína út í lönd, en andadist annarr íslenzkr, ok kom inn hèr til lands: Lauritz, son Sigurdar í Geitareyjum, hinn mesti námsmadr, sem ádr var getid. Þann vetr öndverdan tók Þórdr Bjarnason í Svidholti hálfvisnan ok málleysi, en eigi spurdist med póstskipi hvat vard um mál Magnúsar Stephensens konferenzráds, því þat var ei tekit fyrir í hæstarètti fyrr en þat var lagt út heiman.

## CLXXX. Kap. Lyktir.

Nú vildi sá, er flest hefir tínt saman af þessu til undirlags árbóka, gjöra lyktir á sínu máli, ok er því eigi þessu haldit fram lengr; taldi hann til þess þrjár röksemdir helztar: sú er hin fyrsta, at öllum frásögnum verdr at ljúka í einhverjum stad, ok er þá líkast at ljúka þeim þegar sá er skrásetr er svo frá sýslunum kominn ok vidskiptum vid menn, at fátt getr med rökum upp spurt, eda nidrskipat tilburdum. Sú er önnur, at þar er líkast at ljúka máli sínu, er madr er svo aldri farinn ok heilsu, at aldrei er örvænt nær daudi eda sjúkleikr eda sjónarbrestr yfirstígr hann. En sú er hin þridja, at fyrir utan þat, er frásagnir verdr því vandara at semja hverjum fyrir sik, sem nær er því er yfir stendr, ok færra gjörkunnugt, þá verdr þat allra vandast þegar fjölbreytni eykst jafnan á öllum hlutum, ok von er stórra tídinda ok tilburda, meir en fyrri, ok er þá eigi hægt at byrja á miklu efni ok margbrotnu fyrir þann, sem aldrei verdr audit at sjá þar lyktir á. En þó at enginn fái lengr frá tídindum sagt, en honum endist til sjálfum æfi eda orka, þá má þó geta þess til, at sá aldr, er hefst eptir þat er hèr er talit, muni engu frásagnaminni verda en sá, er lidinn er, heldr miklu tídindaríkari, ok miklu fleiri þeir er þau munu á band festa en hèrtil hefir verit; ok lyktum vèr mál þetta fyrir þær sakir allar, er hèr eru taldar.

---

# REGISTR.

## A.

## C.



## D.



## E.

## F.

## H.

# I.



# J.

## K.



## L.



## M.

## N.



## O.

## P.

## R.

## Ö.

# Registr tilburða ok hluta.

## J.



## K.



## L.



## M.



## N.



## O.



## P.



## R.



## S.

U.



V.



Y.

# Auglýsing.

Lengi hefir ég fósturjarðar vegna skorizt í hjarta, þá ég hefi hugleiðt Konferenzráðs *Magnúsar Stephensens* viðvarandi ráðríki og skillausu háttsemi, er hann sérilagi hefir sýnt sem *sjálfvalinn Forseti* ens konúngliga islenzka Landsuppfræðingarfélags, og jafnlengi hefi ég ásett mér að ráða bót á þessu óhæli. Návist hans hér í höfuðborginni, í hvörri ég um hríð hefi dvalið, var til þess öldúngis ómissandi, nema ég hefði í eigin persónu gjört ferð til Íslands. En allheppiliga bar svo við, að hann um haustið 1825 kom híngað, og hefði ekki þúngur tregi um þær mundir beygt huga minn, skyldi hann sannarliga ei hafa fengið tilefni til að kvarta um: „*að hann, fyrir sakir ferðabúnings, ei hefði haft tómstundir til að veita andsvör.*" Þá ég á ný hafði fengið lyst til sýslanna, reit ég nokkur spursmál og lét þau prenta í fréttablaði því, er *Dagen* kallazt, og leizt mér svo, að þau væru framsett med miklu meiru hóglyndi, enn háttsemi hans í tédu efni sýndist verðskulda; þó þótti honum ei svo vera, og hann svaraði á þá lund, er lesa má í litlum bæklíngi, er ég hefi látið á prent útgánga, og kallað: *Ísland og þess Justitiarius Magnús Stephensen.* Lítinn kalla ég bæklíng þenna, og að vísu er hann oflítill fyrir efnið, ef það skyldi útlistazt sem vera bæri, og alt þarað lútandi verða skiljanligt og greiniliga leiðt fyrir sjónir, en ég